ÞESSI ÚTGÁFA ER HELGUÐ
HUNDRAÐ OG FIMMTÍU ÁRA
MINNINGU KARLS MARX

FRIEDRICH ENGELS

# Karl Marx

Sá maður, sem fyrstur varð til að skapa sósíalismanum og verkalýðshreyfingu vorra tíma vísindalega undirstöðu, var Karl Marx. Hann fæddist í Trier í Rínarlöndum árið 1818. Upphaflega lagði hann stund á lögfræði í Bonn og Berlín, en sneri sér brátt eingöngu að sögu og heimspeki. Árið 1842 var hann að því kominn að hefja störf sem dósent í heimspeki, er hin nýja stjórnmálahreyfing, sem skapaðist við fráfall Friðriks Vilhjálms, beindi honum inn á aðrar brautir. Hann hafði átt þátt í að stofna blaðið „Rheinische Zeitung" í Köln ásamt forvígismönnum frjálslyndra borgara í Rínarlöndum, Camphausen, Hausemann o. fl. Marx var kvaddur til ritstjórnar við blaðið haustið 1842, en gagnrýni hans á störfum Rínarlandsþingsins hafði vakið mikla athygli. Útkoma blaðsins var að sjálfsögðu háð ritskoðun, en það skaut ritskoðendum jafnan ref fyrir rass[1]. „Rheinische Zeitung" tókst nær alltaf að birta þær greinar, sem máli skiptu. Lagt var fyrst fyrir ritskoðandann lítilfjörlegt efni til útstrikana, þar til hann ýmist lét undan sjálfviljugur eða fyrir hótun um, að þá komi blaðið ekki út daginn eftir. Ef fundizt hefðu 10 dagblöð, sem hefðu haft sömu dirfsku til að bera og „Rheinische Zeitung" og ef útgefendur þeirra hefðu verið fúsir til að greiða nokkur hundruð dala til viðbótar í setningarkostnað, hefði ritskoðuninni þýzku verið gert ókleift að gegna hlutverki sínu þegar árið 1843. En þýzkir blaðaeigendur voru rislágir og hræddir broddborgarar og „Rheinische Zeitung" stóð eitt í baráttunni. Það drap af sér hvern ritskoðandann á fætur öðrum. Að endingu þurfti blaðið að

[1] Fyrsti ritskoðari „Rheinische Zeitung" var Dolleschall lögreglufulltrúi. Hann strikaði eitt sinn út í „Kölnische Zeitung" auglýsingu um þýðingu á Hinni guðdómlegu kómedíu með þessari athugasemd: Það á ekki að fjalla um guðdómlega hluti í kómedíu. Þýðingin var eftir Philalethes, er síðar varð Jóhann konungur af Sachsen. (Engels).

fara tvívegis gegnum nálarauga ritskoðunarinnar með þeim hætti, að eftir að fyrri ritskoðun var lokið, tók stjórnarforsetinn blaðið enn til yfirskoðunar og var þar um fullnaðarafgreiðslu að ræða. En það dugði ekki að heldur. Í ársbyrjun 1843 lýsti stjórnin yfir því, að við þetta blað yrði engu tauti komið og bannaði frekari útgáfu þess.

En einmitt um þessar mundir hafði Marx gengið að eiga systur þess manns, sem síðar varð afturhaldsforsætisráðherra í Westfalen. Hann fluttist nú búferlum til Parísar, þar sem hann gaf út „Hinar þýzk-frönsku árbækur" í félagi við A. Ruge. Þar birtust sósíalísk rit hans hvert af öðru og var „Gagnrýni réttarheimspekinnar hjá Hegel" fyrst í röðinni. Ennfremur ritaði hann í félagi við Fr. Engels „Hin heilaga fjölskylda. – Svar til Bruno Bauers og kumpána", sem var meinfyndin gagnrýni á þýzka hugsæisstefnu í heimspeki, í þeirri mynd, sem hún þá hafði tekið á sig.

Marx sökkti sér niður í þjóðhagfræði og sögu stjórnarbyltingarinnar miklu í Frakklandi, en gaf sér þó þegar svo bar undir tóm til hvassrar gagnrýni á prússnesku stjórnina. Hún náði sér þó niðri á honum, er hún kom því til leiðar fyrir milligöngu Alexanders von Humboldts, að því er talið er, að franska stjórnin undir forsæti Guizots vísaði honum úr landi. Marx fluttist nú búferlum til Brüssel og þar birti hann á frönsku „Misère de la philosophie" (Eymd heimspekinnar) 1847, en það var gagnrýni á riti Proudhons „Philosophie de la misère" (Heimspeki eymdarinnar), og „Discours sur le libre échange" (Um frjálsa verzlun), sem kom út 1848. Samtímis kastaði hann sér út í hina daglegu baráttu, er hann beitti sér fyrir stofnun þýzks verkalýðsfélags í Brüssel. Þessi barátta varð honum æ mikilvægari eftir að hann hafði, ásamt nánustu skoðanabræðrum sínum, gerzt félagi í hinu leynilega Kommúnistasambandi (Bund der Kommunisten), sem þá hafði starfað í mörg ár. Gjörbreyting varð nú á starfsháttum félagsins. Það sem fram til þessa hafði átt meira eða minna skylt við hóp samsærismanna tók nú algerum stakkaskiptum, upp reis sterkur félagsskapur, sem rak kommúnískan áróður, en neyddist að vísu til að starfa leynilega. Þetta voru fyrstu félagssamtök þýzka sósíaldemókrataflokksins. Kommúnistasambandið fyrirfannst hvarvetna, þar sem þýzk verkalýðsfélög störfuðu. Í nær öllum slíkum félögum í Englandi, Belgíu, Frakklandi og Sviss og í fjölmörgum félögum í Þýzkalandi sjálfu voru forustumennirnir úr hópi félaga Kommúnistasambandsins, og sambandið átti mikinn þátt í vexti þýzkrar verkalýðshreyfingar á þeim árum. Jafnframt voru samtök okkar fyrst til að leggja áherzlu á alþjóðlegt eðli verkalýðshreyfingarinnar og sýndu það einnig í

stafi, því að meðal félaga voru Englendingar, Belgar, Ungverjar, Pólverjar o. fl. og haldin voru alþjóðamót verkamanna aðallega í London.

Endurskipulagning samtakanna var framkvæmd á tveimur þingum, sem haldin voru árið 1847. Á síðara þinginu var ákveðið að taka saman og gefa út stefnuskrá flokksins, og var Marx og Engels falin samning hennar. Þannig varð „Kommúnistaávarpið“ til, en fyrsta útgáfa þess kom út árið 1848, skömmu fyrir febrúarbyltinguna. Það hefur síðar verið þýtt á nær allar þjóðtungur Evrópu.

Marx starfaði við blaðið „Deutsche Brüsseler Zeitung“,[1] en það hafði flett vægðarlaust ofan af framferði lögreglunnar í heimalandi hans. Þetta var ástæðan til þess að prússneska stjórnin reyndi að nýju að fá Marx vísað úr landi, en án árangurs. En þegar febrúarbyltingin kom einnig róti á hugi manna í Brüssel og róttæk umskipti virtust í aðsigi í Belgíu, brá belgíska stjórnin skjótt við, lét taka Marx höndum og gerði hann landrækan. En Flocon hafði fengið því framgengt á meðan, að bráðabirgðastjórnin í Frakklandi bauð honum að koma til Parísar á nýjan leik og þekktist hann þetta boð.

Í París beitti hann sér af alefli gegn fáránlegum hugmyndum, sem komizt höfðu á kreik meðal Þjóðverja þar í borg um að koma upp vopnuðum sveitum þýzkra verkamanna í Frakklandi, sem skyldu gera byltingu og stofna lýðveldi í Þýzkalandi. Í fyrsta lagi hlaut þýzka þjóðin að gera sína byltingu sjálf og í öðru lagi myndi bráðabirgðastjórn Lamartines þegar í stað skýra stjórninni, sem steypa ætti, frá því, ef myndaðar yrðu erlendar byltingarsveitir á franskri grund. Þetta hefði einmitt gerzt í Belgíu og Baden.

Eftir marzbyltinguna fór Marx til Kölnar og stofnaði þar blaðið „Neue Rheinische Zeitung“, sem kom út frá 1. júní 1848 til 19. maí 1849. Það var eina málgagn þáverandi lýðræðisafla, sem túlkaði málstað alþýðunnar, en nær allir hluthafarnir höfðu orðið blaðinu fráhverfir þegar það tók afdráttarlausa afstöðu með uppreisninni í París í júní 1848. Allt kom fyrir ekki, þótt blaðið „Kreuzzeitung“[2] benti á þá fáheyrðu ósvífni, sem hvarvetna kæmi fram í skrifum „Neue Rheinische Zeitung“ um það, sem væri konunginum, ríkisstjóranum og meira að segja lögreglunni heilagt og hjartfólgið; og þetta héldist þeim jafnvel uppi í

[1] Blaðið „Deutsche Brüsseler Zeitung“ var málgagn landflótta Þjóðverja í Brüssel og kom út frá 1847 þar til í febrúarmánuði 1848. Frá því í september 1847 ritstýrðu þeir Marx og Engels blaðinu. – *Útg.*

[2] „Kreuzzeitung“: undir þessu nafni gekk hið afturhaldssama einveldissinnaða dagblað „Neue Preussische Zeitung“, sem kom út í Berlín frá árinu 1848. Það hafði kross í blaðhausnum. – *Útg.*

prússneskri virkisborg með 8000 manna setuliði! Hinir frjálslyndu oddborgarar Rínarlanda, sem allt í einu höfðu orðið afturhaldssinnar, hömuðust gegn blaðinu, umsátursástand í Köln haustið 1848 hamlaði útkomu þess um hríð, dómsmálaráðuneytið í Frankfurt lagði fram kærur við ríkissaksóknarann í Köln vegna hverrar greinarinnar á fætur annarri og krafðist þess, að réttvísin tæki í taumana. En þessir aðilar höfðu ekki erindi sem erfiði, því að blaðið hélt áfram að koma út í bækistöðvum sínum gegnt aðallögreglustöðinni, eins og ekkert hefði í skorizt, og útbreiðsla og hróður þess fór sívaxandi samtímis því að árásir þess á stjórnarvöld og borgarastétt urðu harðari. Þegar stjórnlagarof var framið í Prússlandi í nóvember 1848, hvatti blaðið á forsíðu hvers tölublaðs fólk til að neita að greiða skatta og svara ofbeldi með ofbeldi. Vorið 1849 var blaðið sýknað fyrir þessi skrif sín og sama máli gegndi um aðra grein, sem kviðdómi var einnig falið til úrskurðar. Það var fyrst eftir að uppreisnartilraunirnar í maí 1849 í Dresden og Rínarlöndum höfðu verið bældar niður og mikill prússneskur her, sem dreginn hafði verið saman, hafði verið sendur til að ráða niðurlögum uppreisnarmanna í héruðunum Baden og Pfalz, að stjórnarvöldin töldu sér fært að banna „Neue Rheinische Zeitung" með valdboði. Síðasta tölublaðið kom út 19. maí og var það prentað með rauðu letri.

Marx fór á ný til Parísar, en strax nokkrum vikum eftir kröfugönguna þann 13. júní 1849 gerði franska stjórnin honum tvo kosti: Annaðhvort yrði hann að flytjast búferlum til Bretagne eða hverfa úr landi. Hann kaus síðari kostinn, fluttist til London og átti þar heima æ síðan.

Tilraun, sem gerð var til að endurreisa „Neue Rheinische Zeitung" sem tímarit í Hamborg árið 1850, fór út um þúfur eftir skamma hríð vegna sívaxandi ofsókna afturhaldsaflanna. Rétt eftir stjórnlagarofið í Frakklandi í desember 1851 ritaði Marx „Átjándi brumaire Louis Bonaparte" (Gefið út í Boston 1852; önnur útgáfa í Hamborg 1869, skömmu fyrir þýzk-franska stríðið) 1853 skrifaði hann ritgerðina „Réttarhöldin yfir kommúnistum í Köln í réttu ljósi" (fyrst prentuð í Basel, síðari útgáfur í Boston og Leipzig).

Eftir að dómur var genginn í máli félaganna úr Kommúnistabandalaginu í Köln dró Marx sig í hlé sem áróðursmaður á stjórnmálasviðinu. Næsta áratug helgaði hann sig annars vegar rannsóknum á þeim miklu fjársjóðum, sem bókasafn British Museum hafði að geyma um þjóðhagfræði, en á hinn bóginn var hann einnig meðstarfsmaður við „New York Tribune".[1] Allt

[1] „New York Daily Tribune": Blað Demókrata í New York, sem út kom frá árinu 1841 til 1924. Marx starfaði við blaðið árin 1851–1862.

þar til borgarastyrjöldin varð í Bandaríkjunum birtust í blaðinu auk fréttapistla undir hans nafni, fjölmargar meiriháttar greinar um málefni Evrópu og Asíu, sem hann hafði samið. Hin harða gagnrýni hans um Palmerston lávarð, þar sem hann studdist við ítarlegar rannsóknir sínar á opinberum enskum heimildum, var endurprentuð sem flugrit í London.

Margra ára rannsóknir hans á sviði hagfræðinnar báru nú sinn fyrsta ávöxt, er rit hans „Drög að gagnrýni á þjóðhagfræðina“, fyrsta hefti, kom út í Berlín 1859. Í þessu riti setur Marx í fyrsta sinn fram í samfelldu máli gildiskenningu sína ásamt kennisetningunni um peninga og gildi þeirra. Meðan styrjöldin á Ítalíu stóð yfir skrifaði Marx í blaðið „Das Volk“, sem út kom á þýzku í London[1]. Þar beitti hann penna sínum gegn bonapartismanum, sem þá sigldi undir merkjum frjálslyndis og þóttist vera frelsisgjafi kúgaðra þjóða. Söm var afstaða Marx til stefnu prússnesku stjórnarinnar, en hún leitaðist við að veiða í gruggugu vatni undir yfirskini hlutleysis. Þetta hafði í för með sér, að Karl nokkur Vogt fékk harða ádrepu, en hann hafði einmitt fyrir tilstuðlan Napóleons prins tekizt á hendur að beita sér fyrir hlutleysi, jafnvel stuðningi Þýzkalands við Frakka. Louis Napóleon borgaði brúsann. Eftir að Vogt hafði ráðizt á hann á svívirðilegan hátt með upplognum rógi og níði, svaraði Marx með ritlingnum „Herra Vogt“, sem út kom í London 1860. Þar gerði hann rækilega skil Vogt og hans nótum, málaliðum keisarans, sem stöðugt játuðu með vörunum lýðræðisást sína. Einnig færði hann rök að því, að Vogt væri af persónulegum og ytri ástæðum mútuþegi og erindreki keisarastjórnarinnar. Nákvæmlega tíu árum síðar fékkst þetta staðfest. Árið 1870 fannst í Tuileriehöllinni skrá yfir launaða erindreka keisarastjórnarinnar. Skrá þessi var birt af septemberstjórninni og þar gat að líta við bókstafinn V: Vogt – í ágúst 1859 voru honum sendir 40 þús. frankar.

Það var ekki fyrr en 1867 að aðalverk Marx kom út í Hamborg. Þetta var „Das Kapital (Auðmagnið) – Gagnrýni á þjóðhagfræðina.“ Í fyrsta bindinu setur hann fram grundvallaratriði hagfræðikenningar sósíalismans og megindrættina í gagnrýni sinni á ríkjandi þjóðfélagsskipan, framleiðsluháttum auðvaldsþjóðfélagsins og afleiðingum þeirra. Útgáfa þessa verks markaði þáttaskil, en það kom út í nýrri útgáfu 1872. Höfundurinn vinnur nú að útgáfu annars bindis verksins.

En nú hafði verkalýðshreyfingunni á nýjan leik vaxið svo fiskur um hrygg í ýmsum Evrópulöndum, að Marx gat gert sér

[1] Hið þýzka blað „Das Volk“, sem Marx skrifaði mikið í, kom út í London mánuðina maí–ágúst 1859.

vonir um að láta rætast eina ósk, sem hann hafði lengi alið með sér: stofnun verkalýðssambands. Sambandið skyldi ná yfir þau lönd Evrópu og Ameríku, sem lengst voru á veg komin, og hlutverk þess skyldi vera að sýna verkalýðnum sjálfum, stórborgarastéttinni og ríkisstjórnum hennar alþjóðlegt eðli verkalýðshreyfingarinnar á áþreifanlegan hátt, og svo að ekki yrði um villzt. Þetta myndi efla og styrkja mátt alþýðunnar, en valda andstæðingum hennar ótta. Tilefni til að hreyfa málinu gafst á fjöldafundi, sem haldinn var í Saint Martins Hall í London 28. september 1864. Fundurinn var haldinn til stuðnings pólsku þjóðinni, sem nýbúið var að kúga til hlýðni við rússneska keisarann. Hugmyndinni var tekið með miklum fögnuði og *Alþjóðasamband verkalýðsins* var stofnað. Kosin var til bráðabirgða aðalstjórn með aðsetri í London. Marx var lífið og sálin í starfi stjórnarinnar og sú var einnig raunin í síðari stjórnum allt þar til á þinginu í Haag. Hann annaðist útgáfu nær alls prentaðs máls, sem aðalstjórn Alþjóðasambandsins lét frá sér fara. Þetta á jafnt við um *stofnávarpið* frá árinu 1864 (inauguraladdress) sem ávarpið í tilefni *borgarastyrjaldarinnar í Frakklandi 1871*. Ef skýra ætti frá starfi Marx í þágu Alþjóðasambandsins, yrði að segja sögu sjálfra samtakanna, en hana geymir raunar evrópskur verkalýður ennþá í minni sér.

Hrun Parísarkommúnunnar gerði Alþjóðasambandinu afar erfitt um vik. Það lenti nú í brennipunkti viðburðanna í evrópskri sögu. Þetta gerðist í þann tíma, er sambandinu var alveg ókleift að gera neinar þær ráðstafanir sem að gagni mættu koma. Einmitt þeir atburðir, sem gerðu sambandið að sjöunda stórveldinu, gerðu það að verkum, að það gat ekki búizt til átaka né heldur beitt afli sínu nema standa augliti til auglitis við óhjákvæmilegan ósigur, sem myndi lama það í áratugi. Þar við bættist að nú otuðu sér fram úr ýmsum áttum öfl, sem af fullkomnu tillitsleysi reyndu að notfæra sér skjótan og vaxandi hróður samtakanna til framdráttar sjálfum sér og til að fullnægja metorðagirnd sinni, án þess að gera sér nokkra grein fyrir því, hvernig aðstaða sambandsins var í raun og veru. Þetta hafði í för með sér að taka þurfti örlagaþrungna ákvörðun, og enn féll það í hlut Marx, sem fékk ákvörðun sína samþykkta á þinginu í Haag. Alþjóðasambandið lýsti hátíðlega yfir því, að það bæri alls enga ábyrgð á starfsemi Bakunins og fylgjenda hans, en þeir voru kjarni þessa óskynsama og miður þokkalega hóps. Auk þess var ógerlegt að verða við þeim kröfum, sem almennt vaxandi afturhald lagði því á herðar, nema með svo miklum fórnum að riðið hefði verkalýðsstéttinni að fullu. Þegar málum var svo komið dró Alþjóðasambandið sig um tíma í hlé, en aðalstöðvar samtakanna voru

fluttar til Bandaríkjanna. Reynslan hefur sannað réttmæti þessarar ákvörðunar, enda þótt þeim sem að henni stóðu hafi verið legið á hálsi fyrir hana bæði fyrr og síðar. Í fyrsta lagi hefur verið komið í veg fyrir allar tilraunir til að gera tilgangslaus *uppþot* í nafni Alþjóðasambandsins og í öðu lagi hefur haldizt náið og varanlegt samband milli sósíalískra verkalýðsflokka í fjölmörgum löndum. Þetta sýnir og sannar að barátta Alþjóðasambandsins fyrir að vekja alþýðu manna um allan heim til meðvitundar um sameiginlega hagsmuni og nauðsyn samheldni, hefur borið ríkulegan ávöxt, jafnvel án þeirra tengsla, sem formleg alþjóðasamtök veita, en þau hefðu í bili orðið starfinu fjötur um fót.

Að afloknu þinginu í Haag gafst Marx loks tóm og næði til að sinna fræðilegum rannsóknum á nýjan leik, og vonir standa til að hann muni innan skamms geta búið annað bindi *„Auðmagnsins“* til prentunar.

Hér er aðeins unnt að draga fram tvær þeirra mörgu merku uppgötvana, sem hafa tryggt Marx heiðurssess í sögu vísindanna.

Hin fyrri er sú gjörbreyting, sem hann hefur valdið á öllum skilningi á sögu mannlegs samfélags. Öll söguskoðun fyrri tíma byggðist á þeirri hugmynd, að dýpstu raka allra sögulegra umskipta sé að leita í hugmyndabreytingum mannsins, að breytingar á stjórnmálasviðinu væru mikilvægastar og mótuðu alla söguna. Hins vegar hafði þeirri spurningu ekki verið svarað, hvaðan mönnum kæmu þessar hugmyndir, né heldur hverjar væru frumorsakir breytinga á stjórnmálasviðinu. Það var einungis meðal hinna yngri sagnaritara franskra og að nokkru leyti í Englandi, að sú skoðun hafði rutt sér til rúms, að frá miðöldum að minnsta kosti hafi hreyfiaflið í sögu Evrópu verið harðnandi barátta borgarastéttarinnar við lénsaðalinn um völdin í þjóðfélaginu og um pólitíska valdið. Marx sýndi nú fram á, að öll fyrri saga mannkynsins er saga stéttabaráttu, að öll hin margbreytilega og flókna stjórnmálabarátta er einungis barátta einstakra stétta þjóðfélagsins um hið pólitíska forræði, hvernig hin gamla valdastétt reynir að halda í horfinu og nýjar stéttir rísa upp og hrifsa til sín völdin. En hvernig myndast þessar stéttir og hvað tryggir viðgang þeirra? Hér ráða úrslitum hinar áþreifanlegu, efnalegu aðstæður, sem ríkja í þjóðfélaginu hverju sinni og ákvarða, hvernig háttað er framleiðslu og skiptum með lífsnauðsynjar á hverjum tíma. Bændasamfélög, smá í sniðum, voru einkenni lénsveldis miðalda, bændurnir voru nægjusamir, sjálfum sér nógir í flestum efnum og vöruskipti nær engin. Hinn vígfúsi aðall veitti bændasamfélaginu vörn gegn utanaðkomandi óvinum og tryggði þeim þjóðlega, e.a.m.k. pólitíska sambúð. Borgarastéttinni óx fiskur um hrygg með tilkomu borga, þar sem

upp spratt sérstakur handiðnaður og sem urðu miðstöðvar verzlunarviðskipta, fyrst innanlands, en síðar við önnur. lönd. Þegar á miðöldum ávann hún sér í baráttu við aðalinn þegnrétt í hinu lénzka þjóðfélagi, sem ein sérréttindastéttanna. En með landafundum og landkönnun utan Evrópu, sem hófst um miðja 15. öld, hlaut borgarastéttin mun víðtækara svigrúm til verzlunarviðskipta, studdlaði sú þróun að nýjum viðgangi iðnaðarins. Mikilvægar handverksgreinar voru hart leiknar af handiðju þeirri, sem þá tók að ryðja sér til rúms, en sú skipan handiðju[1] hefur nú hlotið þungar búsifjar af völdum stóriðju þeirrar, sem á tilveru sína að þakka uppgötvunum aldarinnar sem leið. Þar ræður gufuvélin mestum sköpum. Áhrif stóriðjunnar á verzlunina eru auðsæ, því að hún þröngvaði kosti handiðju í vanþróuðum löndum, en skóp meðal þeirra þjóða, sem lengst voru á veg komnar, hin nýju samgöngutæki nútímans, gufuvélar, járnbrautir og ritsíma. Þannig færðist fjármagn og völd í þjóðfélaginu í æ ríkara mæli í hendur borgarastéttinni, enda þótt henni væri enn um langa hríð bægt frá pólitísku forræði, sem var í höndum aðalsins og þess konungsvalds, sem hann bar uppi. En við ákveðið þróunarstig tryggði borgarastéttin sér einnig þetta forræði og varð þá að sínu leyti valdastétt þjóðfélagsins gagnvart verkalýð og smábændum. Í Frakklandi gerðist þetta í stjórnarbyltingunni miklu. Sé þetta sjónarmið haft í huga, er næsta auðvelt að skýra viðburðarás sögunnar, hafi maður nægjanlega þekkingu á efnahagsaðstæðum í þjóðfélaginu hverju sinni, en þá þekkingu skortir söguprófessora okkar algerlega. Hugmyndir og hugsjónir hvers tímabils sögunnar eru einnig skilgreindar á grundvelli efnalegra lífsskilyrða, en þau ákvarðast á hinn bóginn af þjóðfélagslegum og pólitískum aðstæðum tímabilsins. Sú áþreifanlega staðreynd – sniðgengin hingað til – að maðurinn verður umfram allt að borða, drekka, eiga þak yfir höfuðið og föt að klæðast í – þ.e.a.s. *vinna,* áður en hann deilir um völd, fæst við stjórnmál, trúarbrögð, heimspeki o.s.frv. – þessi áþreifanlega staðreynd fékk nú loksins sögulega viðurkenningu.

Þessi nýja söguskoðun var sósíalismanum afar mikilvæg. Með henni var sýnt fram á, að framvinduöfl sögunnar allt frá upphafi hafa verið stéttaandstæður og stéttabarátta, að ætíð hafa verið til valdastéttir og undirokaðar stéttir, arðræningjar og arðrændar stéttir, að mikill meirihluti mannkyns hefur jafnan orðið að vinna

---

[1] *Manufaktur,* hér þýtt handiðja, er raunverulega þrep í þróuninni frá handverki til verksmiðjuframleiðslu. Margir handiðnaðarmenn vinna á einum vinnustað í þjónustu eins atvinnurekanda, tekin er upp verkaskipting og vinnuhagræðing, en vélanotkun lítil eða engin. Sú verksmiðjuframleiðsla, sem við tók, er ekki stóriðja í nútímamerkingu. – *Útg.*

hörðum höndum, en hlotið litla umbun fyrir. Hví þá það? Því er auðsvarað. Vegna þess að á öllum fyrri þróunarstigum mannkynssögunnar var framleiðslan svo skammt á veg komin, að hin sögulega þróun hlaut að mótast af þessum andstæðum. Framvinda sögunnar byggðist í meginatriðum á tilverknaði fámennra forréttindahópa, en allur almenningur var dæmdur til að afla sér brýnustu lífsnauðsynja og skapa þar að auki auðæfi forréttindahópanna. En þessar sögurannsóknir, sem hafa gefið okkur eðlilega og skynsamlega skýringu á því stéttaforræði, er ríkt hefur hingað til og menn að öðru jöfnu hafa talið ávöxt hins illa í mannlegu eðli, hafa enn meira gildi. Þær sýna svo ekki verður um villzt, að hinn stórkostlegi vöxtur framleiðsluaflanna á vorum dögum hefur gert að engu hinar síðustu hæpnu forsendur skiptingar alls mannkyns í drottnara og undirokaða, arðræningja og arðrænda. Þetta á alla vega við um þau lönd, sem lengst eru á veg komin. Ríkjandi stórborgarastétt hefur lokið sögulegu hlutverki sínu. Hún er ekki lengur fær um að hafa á hendi forustuhlutverk í þjóðfélaginu og stendur jafnvel þróun framleiðslunnar fyrir þrifum. Verzlunarkreppurnar, og þá einkum og sér í lagi hið síðasta meiriháttar verðhrun ásamt erfiðleikum iðnaðarins um heim allan, eru til sannindamerkis um það. Hið sögulega forustuhlutverk er nú verkalýðsins, þeirrar stéttar, sem vegna þjóðfélagslegrar stöðu sinnar á aðeins eina leið til frelsisins: afnám alls stéttavalds, þrældóms og arðráns í hvaða mynd sem er. Samfélagsleg framleiðsluöfl hafa vaxið borgarastéttinni yfir höfuð og bíða þess eins, að félagslega skipulagður verkalýður taki þau í sínar hendur með það fyrir augum að koma á því skipulagi, að sérhver þjóðfélagsþegn vinni ekki aðeins að framleiðslunni en taki og þátt í skiptingu og stjórn auðæfa samfélagsins; að framleiðniöfl samfélagsins auki svo afurðir þess með áætlunarbúskap, að sérhver fái fullnægt öllum skynsamlegum þörfum og í sívaxandi mæli.

Önnur hinna mikilvægu uppgötvana frá hendi Marx er fullnaðarskýring hans á sambandinu milli auðmagns og vinnu, með öðrum orðum, hvernig háttað er arðráni kapítalista á verkalýðnum í nútímaþjóðfélagi við nútíma kapítalíska framleiðsluhætti. Allt frá því þjóðhagfræðin hafði sett fram þá kenningu, að vinnan væri uppspretta allra auðæfa og verðmæta varð sú spurning óumflýjanleg: Hvernig getur þetta samrýmzt því að launafólk fær ekki í sinn hlut jafnvirði þeirra verðmæta, sem það skapar, en verður að láta hluta þeirra af hendi við kapítalista? Borgaralegir hagfræðingar jafnt sem sósíalistar gerðu mikið til þess að finna óhrekjanlegt svar við þessari spurningu. Sú viðleitni bar þó engan árangur, fyrr en Marx kom með ráðninguna. Skýring hans var

sem hér segir: Framleiðsluháttur nútímakapítalisma byggist á forsendu tveggja þjóðfélagsstétta. Annars vegar eru það kapítalistarnir, sem ráða yfir framleiðslutækjum og lífsnauðsynjum, hins vegar verkalýðsstéttin, sem ekki nýtur slíkrar aðstöðu og aðeins hefur eina vöru fala: vinnuafl sitt, og verður að selja vinnuafl sitt til þess að geta aflað sér lífsgagna. Gildi vinnunnar ákvarðast af þeirri þjóðfélagslega nauðsynlegu vinnu, sem þarf til framleiðslu hennar, svo og endurtekinnar framleiðslu, þ.e.a.s. gildi vinnuafls meðalmanns í einn dag, mánuð, eitt ár – sem sé magni þeirrar vinnu, er svarar til magns þeirra lífsgagna, sem þarf til að viðhalda þessu vinnuafli í einn dag, mánuð, eitt ár. Við skulum gera ráð fyrir, að sex vinnustundir þurfi til framleiðslu lífsnauðsynja verkamanns í einn dag, eða sagt á annan hátt, að sú vinna, sem í framleiðslu þessara lífsnauðsynja felst, jafngildi sex stunda vinnu, þá mun verðmæti vinnunnar í einn dag nema fjárupphæð, sem einnig jafngildir sex vinnustundum. Við skulum ennfremur gera ráð fyrir, að kapítalistinn, sem verkamaðurinn í dæmi okkar starfar fyrir, borgi honum þessa upphæð fyrir starfið, þ.e. fullt verð fyrir vinnuaflið. Ef verkamaðurinn vinnur nú sex tíma á dag í þágu kapítalistans, hefur hann endurgoldið honum að fullu það, sem hann hefur látið af hendi rakna – sex tíma vinnu fyrir sex tíma vinnu. En með þessu móti bæri kapítalistinn ekkert úr býtum og því bregzt hann allt öðruvísi við. Hann segir sem svo: Ég hef ekki keypt vinnuafl þessa verkamanns í sex tíma, heldur heilan dag. Í samræmi við það lætur hann verkamanninn vinna 8, 10, 12, 14 tíma eða jafnvel lengur, allt eftir hentugleikum, og framleiðsla sjöundu og áttundu vinnustundarinnar og allra hinna er framleiðsla, sem engin greiðsla kemur fyrir, en andvirði þessarar framleiðslu rennur beint í vasa kapítalistans. Þannig skilar verkamaður í þjónustu kapítalista aftur ekki aðeins verðmæti þeirrar vinnu, sem hann fær greitt fyrir, heldur skapar hann að auki gildisauka, sem kapítalistinn hrifsar fyrst til sín, en dreifist síðan eftir ákveðnum efnahagslögmálum í kapítalistastéttinni og myndar höfuðstól, sem er uppspretta jarðrentu, ágóða og upphleðslu auðmagns, í stuttu máli þess auðs, sem arðránsstéttirnar safna eða eyða. En þetta sannaði, að auðsöfnun kapítalista nútímans byggist á því, að þeir slá eign sinni á vinnu, sem engin greiðsla kemur fyrir, engu síður en þrælaeigendur eða lénsherrar, sem arðrændu ánauðuga bændur. Hið eina, sem skilur á milli allra þeirra mynda, sem arðránið tekur á sig, er sú aðferð, sem hverju sinni er beitt til að komast yfir ógreidda vinnu. Með þessu var algerlega kippt stoðunum undan hræsnishjali valdastéttanna um að núverandi þjóðskipulag tryggði öllum réttlæti, jafnræði um réttindi og skyld-

ur, og að allir ættu sameiginlegra hagsmuna að gæta. Hið borgaralega þjóðfélag okkar var afhjúpað, engu síður en forverar þess, sem stórkostlegt arðránskerfi, þar sem yfirgnæfandi meirihluti þjóðarinnar býr við arðrán lítils og minnkandi hóps.

Þessar mikilvægu staðreyndir báðar eru undirstaða hins vísindalega sósíalisma nútímans. Í öðru bindi „Auðmagnsins" munu þessar og aðrar viðlíka mikilvægar vísindalegar uppgötvanir um eðli auðvaldsþjóðfélagsins verða útfærðar nánar og mun það einnig valda gjörbyltingu á þeim sviðum þjóðhagfræðinnar, sem ekki var drepið á í fyrsta bindi ritsins. Vonandi auðnast Marx brátt að skila bókinni til prentunar.

Samið af Friedrich Engels í
júnímánuði 1877.
Birtist í Der Volkskalender
í Braunschweig 1878.

FRIEDRICH ENGELS

# Ræða haldin við gröf Karls Marx

*í Highgate 17. marz 1883.*

Fjórtánda marz síðdegis, fjórðungi stundar fyrir kl. 3, lézt mesti hugsuður vorra tíma. Hann hafði hallað sér rólega í hægindastólinn sinn, en þegar að var komið, tæpum tveim mínútum síðar, var hann sofnaður svefninum langa.

Það verður eigi metið eða tölum talið, hvað vígreifur verkalýður Evrópu og Ameríku svo og söguvísindin hafa misst við dauða hans. Og mikils til of snemma munum vér fá að þreifa á, hvílíkt skarð er orðið fyrir skildi, er þetta ofurmenni er fallið frá.

Svo sem Darwin uppgötvaði þróunarlögmál lífrænnar náttúru, þannig fann og Marx framvindulögmál mannlegrar sögu. Hann uppgötvaði þessa einföldu staðreynd, sem fram til þessa hafði verið byrgð og falin undir villigróðri hugsmíðanna, sem sé að menn verða umfram allt að afla sér fæðu og drykkjar, fata og húsaskjóls, áður en þeir geta farið að fást við stjórnmál og vísindi, trú og listir; að framleiðsla brýnustu efnalegra nauðþurfta, og þá jafnframt hagrænt þróunarstig ákveðinnar þjóðar eða tímabils, er sá grunnur, sem ríkisstofnanir og réttarhugmyndir, lista- og trúarskoðanir viðkomandi manna hafa vaxið upp úr – og því verður að skýra þær samkvæmt því, en ekki öfugt, svo sem hingað til hefur verið gert.

En þar með er ekki öll sagan sögð. Marx uppgötvaði líka hin sérstöku hreyfilögmál framleiðsluhátta auðvaldsins – og hins borgaralega þjóðfélags, sem upp af þeim er runnið. Borgaralegir hagfræðingar sem og sósíalískir gagnrýnendur höfðu vaðið hér í villu í öllum rannsóknum sínum til þessa, en með uppgötvun gildisaukans varð þetta allt augljóst og skýrt í einni svipan.

Tvær slíkar uppgötvanir ættu að endast einum manni til frægðar. Og reyndar mætti hver sá, sem auðnazt hefði að gera eina

slíka uppgötvun lofa sig sælan. En rannsóknir Marx tóku til margra greina, mjög margra – hann lét sér aldrei nægja lauslega athugun, og á öllum þessum sviðum, jafnvel í stærðfræðinni, hefur hann gert sjálfstæðar uppgötvanir.

Þannig var vísindamaðurinn Marx, og þó er fjarri því, að þar sé maðurinn hálfur kominn, hvað þá allur. Vísindinn voru í augum Marx byltingarafl háð sögulegri þróun og framvindu. Hann gat fyllzt tærum fögnuði yfir nýrri uppgötvun einhverrar vísindalegrar fræðigreinar, sem ekki varð þó séð, að hverju gagni mætti koma. En þó var gleði hans önnur og meiri, er um var að ræða uppgötvun, sem hafði byltingarkennd áhrif á iðnað og framleiðslu – og sögulega þróun yfirleitt. Þannig fylgdist hann nákvæmlega með öllum uppgötvunum á sviði rafmagnsins og nú síðast með rannsóknum Marcel Deprez.

Marx var umfram allt byltingarmaður. Það var raunveruleg köllun hans að vinna að því á allan hátt að kollvarpa þjóðfélagi auðvaldsins og ríkisstofnunum þess. Það var lífsstarf hans að vinna að frelsun verkalýðs nútímans, alþýðunnar, sem hann hafði vakið til skilnings á kjörum sínum og þörfum – og gert vitandi vits um skilyrðin fyrir eigin frelsun.

Baráttan var eðli hans og eftirlæti. Hann barðist af ástríðuhita og seiglu – og með meiri árangri en flestir aðrir. Fyrst starfaði hann við „Rheinische Zeitung" (1842), þá Parísar Vorwärts (1844), „Deutsche Zeitung" í Brüssel (1847), „Neue Rheinische Zeitung" (1848–1849), „New York Tribune" (1852–61). Auk þess samdi hann fjöldann allan af áróðursritum og leysti af höndum margskonar störf í París, Brüssel og London. Og svo kom Fyrsta Alþjóðasamband verkamanna sem kórónan á allt hitt. Og það var sannarlega árangur, sem hver og einn mátti vera stoltur af, enda þótt hann hefði ekkert afrekað annað.

Það var af þessum sökum, að Marx var hataður og ofsóttur manna mest á sinni tíð. Jafnt einveldis- sem lýðveldisstjórnir vísuðu honum úr landi. Borgararnir, jafnt íhaldsmenn sem æstir lýðræðissinnar, kepptust við að bera hann óhróðri. Hann veik því öllu frá sér sem öðrum hégóma – virti það að vettugi, og svaraði því aðeins, að hann væri til þess neyddur. – Og nú er hann dáinn, heiðraður, elskaður og syrgður af milljónum byltingarsinnaðra samstarfsmanna. Allt austan frá námusvæðum Síberíu um endilanga Evrópu og vestur til Kaliforníustrandar. Og ég get sagt af fullri hreinskilni: Hann kann að hafa átt marga andstæðinga, en naumast nokkurn persónulegan óvin.

Nafn hans mun lifa um aldir og verk hans slíkt hið sama.

Birtist fyrst á þýzku í *Sozialdemokrat* 22. marz 1883.

KARL MARX og FRIEDRICH ENGELS

# Kommúnistaávarpið

## Formálar eftir Karl Marx og Friedrich Engels

### I.

„Kommúnistabandalagið", alþjóðleg samtök verkamanna, sem auðvitað gátu aðeins verið leynileg, eins og þá var högum háttað, fól undirrituðum á þingi því, er haldið var í nóvember 1847 í Lundúnum, að semja ítarlega flokksstefnuskrá, fræðilega og raunhæfa í senn, almenningi til birtingar. Á þann hátt varð til eftirfarandi ávarp, en handrit þess var sent til prentunar í Lundúnum, örfáum vikum fyrir febrúarbyltinguna. Það var fyrst birt á þýzkri tungu og endurprentað á því máli í Þýzkalandi, Englandi og Ameríku, að minnsta kosti í tólf útgáfum. Það birtist í fyrsta skipti á enskri tungu í „Red Republican" í Lundúnum, en ungfrú Helen Macfarlane hafði séð um þýðinguna, og árið 1871 kom það út að minnsta kosti í þremur mismunandi þýðingum í Ameríku. Á frönsku kom það fyrst út í París stuttu fyrir Júníuppreisnina 1848, og nýlega í „Le Socialiste" í New York. Verið er að vinna að nýrri þýðingu. Stuttu eftir frumútgáfu þess á þýzku birtist það á pólsku í Lundúnum. Á rússnesku kom það út í Genf á 7. áratug. Einnig var það þýtt á dönsku, skömmu eftir að það var fyrst út gefið.

Svo mjög sem aðstæður allar hafa breytzt á síðasta aldarfjórðungi, þá hafa hin almennu meginatriði, sem túlkuð eru í ávarpi þessu, reynzt rétt í aðalatriðum. Sums staðar mætti lagfæra einstök atriði. Hagnýting þessara kenninga í framkvæmd er jafnan og alls staðar háð sögulegum aðstæðum, svo sem fram er tekið í ávarpinu, og því er ekki lögð nein sérstök áherzla á þær byltingaraðgerðir, sem stungið er upp á í lok 2. kafla. Þessi hluti mundi nú vera orðaður öðru vísi á margan hátt. Í dag er þessi stefnuskrá orðin úrelt í sumum efnum, þegar tekið er tillit til

hinnar risavöxnu þróunar stóriðjunnar og flokkasamtaka verkalýðsins, er vaxið hafa að sama skapi. Þessa gætir einnig í sambandi við hina raunhæfu reynslu febrúarbyltingarinnar og þá ekki síður Parísarkommúnunnar, er öreigalýðurinn sat að völdum í tvo mánuði fulla. Kommúnan hefur fyrst og fremst fært sönnur á það, að „verkalýðurinn getur ekki einfaldlega tekið ríkisbáknið óbreytt í sínar hendur og beitt því í sínar þarfir." (Sjá: *Borgarastyrjöldin í Frakklandi, Ávarp allsherjarráðs Alþjóðasambands verkamanna"*, þar sem þetta er nánar rakið.) Auk þess er einsætt, að gagnrýnin á sósíalískum bókmenntum er nú orðin gloppótt, vegna þess að hún nær ekki lengra en til ársins 1847. Sama máli gegnir um það, sem sagt er um afstöðu kommúnista til hinna ýmsu stjórnarandstöðuflokka. Þótt þær athugasemdir séu réttar í aðalgreinum, þá eru þær nú orðnar úreltar, þótt ekki sé vegna annars en þess, að stjórnmálahorfurnar hafa breytzt gersamlega og söguþróunin hefur feykt burtu flestum þeirra flokka, sem þar eru taldir.

En ávarpið er sögulegt skjal, er vér teljum oss ekki hafa rétt til að breyta. Síðari útgáfu mun ef til vill verða fylgt úr hlaði með inngangi, er mundi rekja sögu þeirra tíma, sem liðnir eru frá 1847. Útgáfu þessa bar svo brátt að höndum, að vér fengum ekki tóm til þess.

Lundúnum, 24. júní 1872.
Karl Marx og Friedrich Engels.

## II.

Síðan þessi orð voru rituð hefur orðið nauðsynlegt að prenta nýja útgáfu af ávarpinu, en svo margt hefur á daga ávarpsins drifið, sem þörf er á að nefna.

Árið 1882 kom ávarpið út í rússneskri þýðingu í Genf í annað sinn – eftir Veru Sassúlits. Marx og ég skrifuðum formála að þýðingunni. Því miður hef ég misst af þýzka frumhandritinu, og verð ég því að þýða formálann aftur úr rússnesku, og er að því að vísu lítil bragarbót. Formálinn er á þessa leið:

„Ávarp Kommúnistaflokksins kom út í rússneskri útgáfu í þýðingu Bakúnins, prentað í „Kolkol"-prentverki skömmu eftir 1860. Rússnesk útgáfa þessa rits á þeim tíma var Vesturlöndum ekki annað en bókmenntalegt fágæti. Nú fær slíkt ekki lengur staðizt. Ekkert sýnir betur, hve öreigalýðshreyfingunni var haslaður þröngur völlur um það leyti, er Kommúnistaávarpið birtist fyrst (í febrúar 1848), en síðasti kafli þess: „Afstaða kommúnista til hinna ýmsu stjórnarandstöðuflokka". Hér vantar fyrst og fremst Rússland og Bandaríkin. Þá voru þeir tímar, er Rússland var síð-

asti bakhjall afturhaldsins í Evrópu og Bandaríkin tóku við þeim verkamönnum, sem ofaukið var í Evrópu. Bæði þessi lönd voru hráefnalindir Evrópu og um leið markaðir fyrir iðnaðarafurðir hennar. Bæði virtust lönd þessi því vera, hvort á sinn hátt, máttarstoðir þjóðskipulagsins.

En hér hafa mikil umskipti á orðið. Útflytjendastraumurinn frá Evrópu hefur einmitt hrundið af stokkunum hinni risavöxnu þróun landbúnaðarins í Norður-Ameríku, er með samkeppni sinni teflir tilveru stórjarðeigenda og smábænda Evrópu í vísan voða. Jafnframt hefur þessi þróun veitt Bandaríkjunum kost á því að nýta hinar miklu iðnaðarauðlindir sínar, og það með svo mikilli orku og í svo ríkum mæli, að innan stundar verður bundinn endi á iðnaðareinokun Vestur-Evrópu. Og þessar aðstæður báðar orka einnig á Ameríku í byltingarstefnu. Smájarðir og miðlungsjarðir vinnandi sjálfseignarbænda, grundvöllur allrar stjórnarfarsskipanar Ameríku, fara æ meir halloka í samkeppninni við hinar tröllauknu bújarðir, en á sama tíma kemur fram á sjónarsviðið í fyrsta skipti fjölmenn öreigastétt samhliða ævintýralegri auðsöfnun.

Vér skulum snúa oss að Rússlandi. Á dögum byltinganna 1848 og 1849 litu ekki aðeins einvaldskonungar Evrópu, heldur einnig borgarar Evrópu vonaraugum til rússneskrar íhlutunar, þar sem hún ein gat bjargað þeim úr þeim háska, er þeim var búinn af öreigalýðnum, sem var að verða sér afls síns vís. Þeir kjöru Rússakeisara höfuðleiðtoga afturhaldsins. Í dag situr hann í Gatsjína, fangi byltingarinnar, og Rússland er í fylkingarbrjósti hinnar byltingarsinnuðu hreyfingar Evrópu.

Það var hlutverk Kommúnistaávarpsins að boða óhjákvæmilegt hrun hins borgaralega eignarréttar nútímans. En í Rússlandi sjáum vér, að meiri hluti jarðarinnar er í sameign bænda, þótt auðvaldsskipulagið sé þar í hinum örasta vexti og borgaralegur eignarréttur á jörðum á byrjunarstigi.

Þá hlýtur sú spurning að vakna: getur jarðasameign rússneskra bænda, sem raunar er mjög slitið og úr sér gengið form hins frumræna sameignarréttar á jörðum, breytzt formálalaust í æðri jarðasameign kommúnismans, eða verður hún áður að fara þá braut sundrunar og upplausnar, svo sem orðið hefur þróun vestrænna þjóða?

Eins og nú er málum háttað verður þessari spurningu ekki svarað nema á einn veg. Ef rússneska byltingin verður forleikur verkamannabyltingar á Vesturlöndum, svo að hvor um sig verði hinni uppbót, þá getur hin rússneska sameign vorra tíma orðið undanfari kommúnískrar þróunar.

Lundúnum, 21. janúar 1882."
*Karl Marx* og *Friedrich Engels.*

## III.

Því miður verð ég að skrifa einn undir formálsorð að þessari útgáfu. Marx, maðurinn, sem öll verkalýðsstétt Evrópu og Ameríku á meira að þakka en nokkrum öðrum, – hann hvílir nú í Highgatekirkjugarði, og grasið er farið að gróa á leiði hans. Að honum látnum verður alls ekki í það ráðizt að breyta ávarpinu eða skeyta við það. Því meiri nauðsyn tel ég vera að taka þetta skýrt fram: Marx á einn og eingöngu þá meginhugsun, sem rakin er í Kommúnistaávarpinu: að hin efnalega framleiðsla og félagslega stéttaskipting, sem af henni hlýtur að spretta á sérhverju þróunarskeiði sögunnar, er grundvöllur pólitískrar og andlegrar sögu þess. Síðan hina fornu jarðasameign leið, hefur því öll saga verið sagan um stéttabaráttu, baráttu arðræningja og arðrændra, drottnandi og ánauðugra stétta á hinum ýmsu skeiðum félagslegrar þróunar. En þessi barátta er nú komin á það stig, að hin arðrænda og kúgaða stétt (öreigalýðurinn) getur ekki leyst sig úr ánauð þeirrar stéttar, er arðrænir hana og undirokar (borgarastéttarinnar), án þess að bjarga öllu þjóðfélaginu að fullu úr ánauð arðráns, undirokunar og stéttabaráttu.*

Ég hef oftsinnis sagt þetta áður, en það er skylt, að orð þessi standi fyrir framan sjálft Kommúnistaávarpið.

Lundúnum, 28. júní 1883,
*F. Engels.*

## IV.

Um sama leyti kom út ný pólsk þýðing í Genf: Manifest komunistyczny.

Ennfremur hefur ný þýðing á dönsku birzt í „Socialdemokratisk Bibliothek, Kjøbenhavn 1885“. Hún er því miður ekki fullkomin. Nokkur mikilvæg atriði, sem virðast hafa orðið þýðandanum ofviða, hafa verið felld niður, og á einstaka stað ber þýðingin vott um hroðvirkni, sem er því hvimleiðari sem sjá má á

* Ég segi í formála fyrir ensku þýðingunni: „Í nokkur ár fyrir 1845 höfðum við báðir nálgazt þessa niðurstöðu smám saman, en að minni hyggju grundvallar hún jafnmikla framför í söguvísindum og kenning Darwins í náttúruvísindum. Rit mitt *Kjör hinnar vinnandi stéttar á Englandi* sýnir, að hve miklu leyti ég hef komizt af eigin rammleik að þessari niðurstöðu. Þegar ég hitti Marx aftur vorið 1845 hafði hann unnið að fullu úr þessum niðurstöðum og túlkaði þær fyrir mér með nærri jafn glöggum orðum og hér er gert.“ (F. E.)

henni, að þýðandinn hefði getað unnið ágætt verk með meiri vandvirkni.

Árið 1886 kom út ný þýðing á frönsku í „Le Socialiste", París. Þetta er bezta þýðingin, sem til þessa hefur út komið.

Sama ár var spænsk þýðing gerð eftir henni og birtist fyrst í blaðinu „El Socialista" í Madrid, síðar í bókarformi: Manifest del Partido Communista por Carlos Marx y F. Engels, Madrid. Administracion de El Socialista, Hernan Cortés 8.

Til gamans skal ég enn geta þess, að árið 1887 var útgefanda einum í Konstantínópel boðin armensk þýðing á ávarpinu. En aumingja maðurinn þorði ekki að prenta neitt, sem bar nafn Karls Marx og stakk upp á, að þýðandinn skyldi sjálfur kalla sig höfund að því, en það fékkst ekki.

Eftir að ýmsar amerískar þýðingar, að meira eða minna leyti rangar, höfðu verið prentaðar á Englandi, birtist loksins 1888 áreiðanleg þýðing á Kommúnistaávarpinu. Samuel Moore vinur minn hafði gert þá þýðingu, og lásum við hana báðir saman, áður en hún var prentuð. Hún heitir á ensku: Manifest of the Communist Party, by Karl Marx and Frederick Engels. Authorized English Translation, edited and annotated by Frederick Engels. 1888. London. William Reeves, 185 Fleet st. E. C. Ég hef tekið nokkrar athugasemdir þeirrar útgáfu í þá, sem hér birtist.

Kommúnistaávarpið á sér sína sögu. Á þeirri stundu, er það birtist, var því fagnað ákaflega af hinu fámenna forustuliði hins vísindalega sósíalisma (svo sem sjá má af þýðingum þeim, sem getið er um í fyrsta formála þess). En brátt bar skugga á það, er afturhaldstímabilið hófst eftir ósigur verkalýðsins í París í júní 1848, og loks var það bannsungið „lögum samkvæmt", er kommúnistarnir í Köln voru dæmdir í nóvember 1852. Þegar verkalýðshreyfingin, sem risið hafði upp í febrúarbyltingunni, hvarf af sjónarsviðinu, fór Kommúnistaávarpið einnig sömu leið.

Þegar verkalýðsstétt Evrópu hafði á nýjan leik vaxið svo að afli, að hún gat hafið nýja sókn gegn veldi drottnandi stéttar, hóf Alþjóðasamband verkamanna göngu sína. Það var markmið þess að sameina allan hinn stríðandi verkalýð Evrópu og Ameríku í eina allsherjar fylkingu. Alþjóðasambandið gat því ekki gert grundvallaratriði Kommúnistaávarpsins að *stofnskrá* sinni. Stefnuskrá alþjóðasambandsins varð að vera svo rúm, að hún útilokaði ekki enska verkalýðsleiðtoga, franska, belgíska, ítalska og spænska Proudhonista og þýzka Lassallesinna.* Þessa stefnuskrá – greinar-

* Lassalle játaði það jafnan við okkur persónulega, að hann væri „lærisveinn" Marx og stóð því auðvitað á grundvelli Kommúnistaávarpsins Öðru máli gegnir um þá fylgismenn hans, er fóru aldrei fram á meira en samvinnufélög með ríkisstyrk og skiptu allri verkalýðsstéttinni í ríkisstyrkþega og sjálfsbjargarmenn. (F. E.)

gerðina fyrir lögum Alþjóðasambandsins – samdi Marx af slíkri snilld, að jafnvel Bakúnin og anarkistar urðu að viðurkenna hana. Marx var sannfærður um, að grundvallaratriði Kommúnistaávarpsins mundu að lokum ganga með sigur af hólmi. Í þeim efnum treysti hann eingöngu á þann andlega þroska verkalýðsins, er spretta hlyti af samstilltri baráttu og málefnaumræðum. Það hlaut svo að fara, að rás viðburðanna og veðrabrigðin í baráttunni við auðvaldið, að jafnaði ósigrarnir frekar en ávinningarnir, gætu ekki annað en sannfært verkamennina um fánýti þeirra undralyfja, er þeir höfðu til þessa trúað á, og gert þeim auðveldara að skilja ofan í kjölinn hin sönnu skilyrði fyrir frelsi verkalýðsins. Og Marx hafði á réttu að standa. Verkalýðsstéttin var öll önnur árið 1874, er Alþjóðasambandið var lagt niður, en árið 1864, er það var stofnað. Stefna Proudhons í hinum rómönsku löndum, og sérstefna Lassalles í Þýzkalandi, voru að dauða komnar, og jafnvel hin rammíhaldssömu ensku verkalýðsfélög nálguðust smám saman það sjónarmið, er forseti þings þeirra túlkaði árið 1887 fyrir þeirra hönd í Swansea: „Sósíalismi meginlandsins skýtur okkur ekki lengur skelk í bringu.“ En sósíalismi meginlandsins var þegar árið 1887 nálega eingöngu sú fræðikenning, er boðuð er í Kommúnistaávarpinu. Og þannig endurspeglar saga Kommúnistaávarpsins að nokkru leyti sögu verkalýðshreyfingar nútímans frá 1848 fram til þessa dags. Nú er það án efa útbreiddasta og alþjóðlegasta rit í öllum bókmenntum sósíalismans, sameiginleg stefnuskrá margra milljóna verkamanna allra landa, frá Síberíu til Kaliforníu.

Og þó hefðum við ekki mátt kalla það *Sósíalistaávarpið*, er við birtum það. Árið 1847 voru tvær tegundir manna kallaðir sósíalistar. Annars vegar voru það sundurleitir fylgismenn hins útópíska sósíalisma, einkum Owenistar á Englandi og Fourieristar á Frakklandi, sem hvorir tveggja voru orðnir að fámennum, hálfdauðum trúmálasöfnuðum. Hins vegar voru óteljandi skottulæknar í félagsmálum, er vildu ráða bót á þjóðfélagsmeinunum með alls konar undralyfjum og smáskammtalækningum, án þess að skerða að nokkru auðmagnið og gróðann. Hvorir tveggja voru þetta menn, er stóðu utan við verkalýðshreyfinguna og leituðu miklu fremur ásjár hjá hinum „menntuðu“ stéttum. En þeir verkamenn, er voru orðnir sannfærðir um, að pólitísk bylting út af fyrir sig yrði ekki að gagni og kröfðust gerbreytinga á þjóðfélaginu, kölluðu sig á þeim tíma *kommúnista.* Þessi kommúnismi var að vísu enn aðeins eðlisvís og frumstæður, oft nokkuð grófur í sniðum. En þó hafði hann afl til að skapa tvö kerfi hins útópíska kommúnisma, „íkaríska“ kommúnisma Cabets á Frakklandi, og kommúnisma Weitlings á Þýzkalandi. Árið 1847 var sósíalisminn borg-

araleg hreyfing, en kommúnisminn verkalýðshreyfing. Sósíalisminn var að minnsta kosti á meginlandinu samkvæmishæfur, kommúnisminn þótti ekki í húsum hæfur né kirkjugræfur. Og þar sem við vorum þá þegar sannfærðir um, að „frelsun verkalýðsins yrði að vera verk hans sjálfs", þá gátum við ekki verið í neinum vafa um, hvort nafnið við áttum að velja. Síðar hefur okkur aldrei dottið í hug að láta þetta nafn niður falla.

„Öreigar allra landa, sameinizt!" Fáir tóku undir þetta heróp okkar, er við létum það gjalla fyrir 42 árum, rétt áður en febrúarbyltingin brast á í París, er öreigalýðurinn gekk fram á sviðið og bar fram sínar eigin kröfur. En hinn 28. september 1864 bundust öreigar flestra vestrænna landa samtökum í Alþjóðasambandi verkamanna, er lengi mun minnzt verða. Alþjóðasambandið lifði að vísu aðeins níu ár. En hið eilífa bandalag öreiga allra landa, er sambandið skapaði, lifir enn og er lífvænlegra en nokkru sinni fyrr. Um það er dagurinn í dag ólygnasti votturinn. Því að í dag, er ég skrifa þessar línur, kannar öreigalýður Evrópu og Ameríku lið sitt í fyrsta skipti, kvatt saman í Einn her, undir Einn fána og fyrir Eitt, sameiginlegt markmið: lögfestingu átta stunda vinnudags, er boðaður var á þingi Alþjóðasambandsins í Genf 1866 og aftur á þingi verkamanna í París 1889. Og þeir viðburðir, sem gerast í dag munu færa auðmönnum og stórjarðeigendum allra landa heims sanninn um það, að nú hafa öreigar allra landa sameinazt í reynd.

Mætti Marx aðeins standa hér við hlið mér, svo að hann gæti litið það eigin augum!

Lundúnum, 1. maí 1890.
*F. Engels.*

# Ávarp Kommúnistaflokksins

Vofa gengur nú ljósum logum um Evrópu – vofa kommúnismans. Öll máttarvöld gömlu Evrópu hafa tekið höndum saman um heilaga ofsókn gegn vofu þessari. Páfann[1] og Rússakeisara[2] er þar að finna í sama flokki, Metternich[3] og Guizot,[4] franska vinstri menn og þýzka lögreglunjósnara.

Hvar er sá stjórnarandstöðuflokkur, að fjandmenn hans í ríkisstjórn hafi ekki æpt kommúnistaheitið að honum? Hvar er sá stjórnarandstöðuflokkur, að hann hafi ekki varpað aftur skeytinu og brugðið fjandmönnum sínum, róttækum sem afturhaldssömum, um þrælsmark kommúnismans?

Tvennt verður af þessu ráðið:

Fyrst er það, að máttarvöld Evrópu játa þegar vald kommúnismans. Hitt er það, að ekki má seinna vera, að kommúnistar birti öllum heimi skoðanir sínar, markmið sín og alla ætlan, og tefli fram ávarpi flokksins gegn grýlusögunni um vofu kommúnismans.

Fyrir þessar sakir hafa kommúnistar frá ýmsum þjóðum háð með sér þing í Lundúnum og gert drög að ávarpi því, sem hér fer á eftir. Ávarp þetta verður birt á enskri, frakkneskri, þýzkri, ítalskri, flæmskri og danskri tungu.

# I

## Borgarar og öreigar

Saga mannfélagsins hefur fram að þessu verið saga um stéttabaráttu.*

Frjálsir menn og þrælar, patrísíar og plebejar,[5] aðall og ánauðugir bændur, meistarar og sveinar, í stuttu máli: kúgarar og kúgaðir, hafa jafnan staðið á öndverðum meiði og háð látlausa baráttu, ýmist leynt eða ljóst. Þessari baráttu hefur jafnan lokið á þá lund, að þjóðfélagið hefur tekið hamskiptum í byltingu eða báðar stéttir liðið undir lok.

Fyrr á öldum skiptist allt þjóðfélagið í sundurleitar lögstéttir,[6] mennirnir greindust í margvíslega hópa eftir félagslegri stétt og stöðu. Í Rómaveldi hinu forna voru patrísíar, riddarar, plebejar og þrælar. Á miðöldum voru lénshöfðingjar, lénsmenn, gildisborgarar, iðnsveinar, ánauðugir bændur, en nálega allar þessar stéttir kvísluðust innbyrðis í smærri flokka.

Hið borgaralega þjóðfélag vorra tíma, sem hefur risið upp úr rústum lénsskipulagsins,[7] hefur ekki afnumið stéttaandstæðurnar. Það hefur aðeins skapað nýjar stéttir, nýja hætti ánauðar og haslað stéttabaráttunni annan völl.

En öldin, sem vér lifum á, öld borgarastéttarinnar, er að því leyti frábrugðin fyrri tímabilum, að hún hefur gert stéttaandstæðurnar óbrotnari. Gervallt þjóðfélagið skiptist æ meir í tvo

* Ritaða sagan, nánara sagt. 1847 var forsaga mannfélagsins að mestu óþekkt svo og þekking á félagsháttum áður en söguritun hófst. Síðan hefur Haxthausen uppgötvað sameign á landi í Rússlandi, Maurer sýnt fram á að allir þýzkir ættbálkar hafi a. m. k. upprunalega lifað við samskonar sameignarrétt á jörðinni; og smámsaman hefur sannazt, að sameign á landi í þorpsfélögunum hefur verið upprunaleg frá Indlandi til Írlands. Yfir samneyti og afstöðu manna í þessu skipulagi hefur Morgan brugðið skæru ljósi með rannsóknum sínum á ættsveitunum og stöðu þeirra innan ættbálksins. Skipting þjóðfélagsins í sérstakar stéttir og andstæðar kemur fyrst upp, er þetta gamla sameignarskipulag líður undir lok. (F. E.)

mikla fjandmannaflokka, í tvær meginstéttir, er standa andspænis hvor annarri, augliti til auglitis: borgarastétt og öreigalýð.

Smáborgarar hinna fyrstu bæja miðaldanna áttu til ánauðugra bænda að telja. Úr þessari smáborgarastétt þróaðist síðan fyrsti vísir stórborgarastéttar nútímans.

Þegar Ameríka fannst og siglingar hófust suður um Afríku, opnaðist hinni ungu borgarastétt nýtt athafnasvið. Markaður Indíalands og Kínaveldis, landnám Ameríku, nýlenduviðskiptin, vaxandi kaupeyrir og vöruvelta gáfu verzlun, siglingum og iðnaði svo sterkan byr í vængi, að slíks voru engin dæmi.[8] Við það óx byltingaröflunum ásmegin í lénsveldinu, er komið var á fallanda fót.

Vinnubrögð þau, er voru ríkjandi í handverki lénsveldis og iðngilda, fengu ekki lengur fullnægt sívaxandi þörfum nýrra markaða. Þá tók handiðjan við.[9] Gildismeistararnir urðu að þoka fyrir handiðjustéttinni. Verkaskiptingin milli iðngildanna varð að víkja úr sessi fyrir verkaskiptingu á hverri vinnustöð.

En markaðirnir stækkuðu og þarfirnar uxu án afláts. Handiðjan fékk ekki heldur annað því, sem af henni var krafizt. Þá gerbyltu gufuafl og vélar iðnaðarframleiðslunni.[10] Stóriðja nútímans byggði út handiðjunni. Iðjuhöldar, sem drottna yfir herskörum verkamanna, stórborgarastétt nútímans, settist í bú handiðjunnar.

Stóriðjan hefur skapað heimsmarkaðinn, sem fundur Ameríku bjó í haginn fyrir. Heimsmarkaðurinn hleypti feikna vexti í verzlun, siglingar og samgöngur á landi. Þessi vöxtur orkaði aftur á þróun iðnaðarins. Að sama skapi og iðnaður, verzlun, siglingar og járnbrautir færðust í aukana, efldist borgarastéttin, margfaldaði auðmagn sitt og bægði burt öllum stéttum, er miðaldirnar höfðu látið eftir sig.

Af þessu er ljóst, að borgarastétt nútímans er sjálf afsprengi langrar þróunar og margvíslegra umbyltinga í háttum framleiðslu og samgangna. Sérhvert þroskaskeið borgarastéttarinnar er markað samsvarandi pólitískri framför. Hún er ánauðug lögstétt á dögum lénshöfðingjanna. Í griðaborgum[11] miðaldanna er hún vígbúin og sjálfri sér ráðandi. Stundum býr hún í óháðu borgarlýðveldi, stundum er hún skattskyld þriðja lögstétt konungs. Á öld handiðjunnar er hún mótvægi aðalsins í stéttbundnu eða einráðu konungsveldi,[12] og í rauninni meginstoð einvaldrar konungsstjórnar. En þegar stóriðjan og heimsmarkaður uxu úr grasi, hrifsaði hún loks í sínar hendur öll pólitísk völd í þingfulltrúaríki nútímans. Ríkisvald vorra tíma er ekkert annað en framkvæmdarráð, er annast sameiginleg stjórnarmálefni allrar borgarastéttarinnar.

Borgarastéttin hefur valdið stórkostlegum byltingum í sögunni.

Þar sem borgarastéttin hefur völd, hefur hún lagt í auðn alla lífshætti aðaldóms og húsbóndaveldis, og hinna sælu sveita. Hún hefur án allrar miskunnar slitið hin listofnu lénsbönd, er tengdu saman yfirmenn og undirgefna og enga aðra taug eftir skilið manna á milli en bláber hagsmunasambönd, sálarlaust silfrið og goldinn verð. Hinum hrollhelgu sýnum guðhrædds sveimhuga, riddaralegs eldmóðs og smáborgaralegrar angurværðar hefur hún komið fyrir í drekkingarhyl bragðvísrar sérgæzku. Hún hefur breytt manngildinu í markaðsgildi og búið samvizkulausu verzlunarfrelsinu einu öndvegi, þar sem óteljandi frelsisskrár og réttarbætur, skjalfestar og vel fengnar, höfðu áður skipað rúm. Í stuttu máli sagt: Í stað þess arðráns, sem hjúpað var trúarlegu og pólitísku táli, hefur hún sett sitt arðrán, nakið, blygðunarlaust, krókalaust og kalt.

Borgarastéttin hefur saurgað sérhverja íþrótt, er menn hafa til þessa litið guðhræddri lotningu. Hún hefur gert lækninn og lögfræðinginn, klerkinn, skáldið og vísindamanninn að launuðum verkamönnum sínum.

Borgarastéttin hefur rænt fjölskyldulífið sínum blíða ástúðarblæ og gert það að einskæru fjármálasambandi.

Borgarastéttin hefur sýnt, hvernig hin ruddalega orka, sem afturhaldið rómar mest í fari miðaldanna, hlaut mátulega uppjöfnun í linjulegasta letilífi. Borgarastéttin varð fyrst til þess að sýna, hverju atorka mannanna fær afrekað. Hún hefur gert allt önnur og meiri furðuverk en egypzka píramída, rómverskar vatnsleiðslur og gotneskar dómkirkjur. Hún hefur lagt upp í ólíkt lengri ferðir en þjóðflutninga og krossfarir.

Borgarastéttin getur ekki lifað nema hún gerbreyti framleiðslutækjunum án afláts, þess vegna breytir hún jafnframt framleiðsluháttunum, og um leið breytir hún öllum högum og háttum mannfélagsins. Það var lífsskilyrði allra iðjustétta fyrri alda, að framleiðsluskipulagið héldist óhaggað. En öld borgarastéttarinnar er mörkuð þrotlausum gerbreytingum á framleiðslu, látlausu róti á öllum þjóðfélagsháttum, eilífu öryggisleysi og umskiptum. Allir gamlir og grónir lífshættir líða undir lok ásamt fornhelgum hugmyndum og lífsskoðunum, sem eru þeirra fylgifé. Allir nýskapaðir lífshættir ganga úr sér áður en þeir verða fullharðnaðir, allar lögstéttir hverfa, öll verandi gengur fyrir ætternisstapa, öllum helgum dómum er spilt, og loks eiga mennirnir sér ekki annars úrkosti en að hvessa algáð augu á lífsstöðu sína alla og samskipti.

Sívaxandi markaðsþarfir reka borgarastéttina um alla jarð-

arkringluna. Alls staðar verður hún að hreiðra um sig, alls staðar verður hún að búast um, alls staðar að treysta sambönd sín.

Borgarastéttin hefur með nytjun heimsmarkaðarins fært framleiðslu og neyzlu allra þjóða í alþjóðlegt horf. Afturhaldinu til ama og óþurftar hefur hún kippt þjóðlegum grundvelli undan fótum iðnaðarins. Fornum þjóðiðjum hefur verið eytt, og daglega eru þær enn lagðar í auðn. Nýjar iðjur, sem orðnar eru öllum menningarþjóðum lífsnauðsyn, bola á burt hinum ævafornu iðjum. Þær vinna ekki úr innlendum hráefnum, heldur eru þau sótt til fjarlægustu landa heims. Afurðir þeirra eru ekki aðeins notaðar í framleiðslulandinu sjálfu, heldur í öllum heimsálfum. Nýjar þarfir, sem verður ekki fullnægt nema með afurðum fjarlægustu landa og jarðbelta, koma í stað fornra þarfa, er framleiðsla hvers lands fékk áður fullnægt. Gagnkvæm samskipti taka þar við, er áður ríkti sjálfsnægja og einangrun þjóða og sveita. Allar þjóðir verða hver annarri háðar. Og svo sem háttar um framleiðslu efnalegra verðmæta, svo fer einnig um hin andlegu. Andleg verðmæti einstakra þjóða verða allra eign. Þjóðlegur útúrboruháttur og þjóðleg starblinda fá ekki lengur þrifizt. Upp úr sundurleitum þjóðbókmenntum og staðbundnum bókmenntum spretta heimsbókmenntir.

Með stórstígum endurbótum á framleiðslutækjum og ævintýralegum framförum neyðir borgarastéttin allar þjóðir, einnig hinar frumstæðustu, til að ganga siðmenningunni á hönd. Hinar ódýru vörur hennar eru tundurskeytin, sem jafna við jörðu alla kínverska múra og neyða frumstæðar þjóðir til að gefa sig henni á vald, þrátt fyrir trylltasta útlendingahatur. Borgarastéttin þröngvar öllum þjóðum til að taka upp framleiðslulag sitt, svo fremi þær vilji lífinu halda. Hún kúgar þær til að hleypa inn hjá sér siðmenningunni svonefndu, þ. e. taka upp borgaralega háttu. Hún skapar sér heim í sinni eigin mynd.

Borgarastéttin hefur lagt sveitirnar undir borgirnar. Hún hefur skapað tröllauknar borgir, aukið stórum íbúatölu borganna á kostnað sveitanna og bjargað þannig miklum fjölda manna úr fásinnu sveitalífsins. Og í sama mæli og borgarastéttin hefur gert sveitirnar borgunum háðar hefur hún sveigt frumstæðar og hálfsiðaðar þjóðir undir menningarþjóðir, bændaþjóðir undir borgaraþjóðir, Austurlönd undir Vesturlönd.

Borgarastéttin bindur sem óðast endi á tvístrun framleiðslutækja og jarðeigna og afnemur strjálbýli manna. Hún hefur flutt fólkið saman, sameinað framleiðslutækin og hlaðið eignum á fárra manna hendur. Af þessu hlaut að leiða sameiningu hins pólitíska valds. Áður voru héruð hvert öðru óháð eða aðeins lauslega tengd og bjuggu við sundurleita hagsmuni, lög, stjórn-

völd og tolla. Nú var þeim steypt saman í *eina* þjóð, sett undir eina stjórn og *ein* lög. Þau urðu að lúta *einum* alþjóðar stéttarhagsmunum og fengu *ein* tollamörk.

Í tæpa öld hefur borgarastéttin drottnað, en á þessum tíma hefur hún leyst úr læðingi stórkostlegri og tröllauknari framleiðsluöfl en allar liðnar kynslóðir saman lagðar. Hún beizlaði náttúruöflin, jók véltæknina, hagnýtti efnavísindin í þjónustu iðnaðar og landbúnaðar, ræktaði heilar heimsálfur, gerði fljótin skipgeng og margfaldaði íbúatöluna – hvaða öld hefði fyrr mátt gruna, að slíkur framleiðslumáttur blundaði í skauti félagslegrar vinnu?

Af því, sem nú var sagt, er ljóst: Borgarastéttin komst til þroska á grundvelli framleiðslu- og samgöngutækja, er urðu til í þjóðfélagi lénsveldisins. Þegar þróun þessara framleiðslu- og samgöngutækja var komin á nokkurn rekspöl, urðu framleiðslu- og viðskiptahættir lénsveldisins þessari þróun öndverðir. Eignahagsskipan lénsveldisins, þeir hættir, er ríktu í akuryrkju þess og iðnaði, voru orðnir ósamrýmanlegir vexti framleiðslutækjanna. Þeir drápu vaxtarbrodd framleiðslunnar í stað þess að örva vöxt hennar. Þeir urðu að herfjötrum á framleiðsluþróuninni. Þessa herfjötra varð að höggva, og svo var gert.

Þá rann upp öld frjálsrar samkeppni og þeirrar þjóðfélagslegu og pólitísku skipanar, er henni hæfði, öld efnahagslegrar og pólitískrar drottnunar borgarastéttarinnar.

Fyrir augum vorum fer nú líku fram. Framleiðslu- og viðskiptahættir borgarastéttarinnar, eignahagsskipan hennar, hið borgaralega þjóðfélag, sem hefur töfrað fram svo risavaxin framleiðslu- og samgöngutæki, líkist nú þeim galdrameistara, er fær ekki lengur ráðið við anda undirdjúpanna, er hann hefur vakið upp. Um áratugi hefur saga iðnaðar og verzlunar ekki verið neitt annað en sagan um uppreisn framleiðsluafla nútímans gegn framleiðsluháttum nútímans, gegn þeirri eignahagsskipan, sem er lífsstofn borgarastéttarinnar og drottnunar hennar. Það nægir að minna á verzlunarkreppurnar, sem steðja að, með jöfnu millibili, æ voveiflegri, og tefla allri tilveru hins borgaralega þjóðfélags í tvísýnu.[13] Í verzlunarkreppunum eru ekki aðeins miklar afurðir eyðilagðar, heldur eru framleiðsluöfl, sem fyrir eru, að engu ger. Í kreppunum gýs upp þjóðfélagsleg farsótt, er öllum fyrri öldum hefði virzt ganga brjálæði næst – farsótt offramleiðslunnar. Þjóðfélagið er snögglega hrapað aftur niður á villimennskustig um stundarsakir. Hungursneyð, allsherjar eyðingarstríð, virðist banna mönnunum alla björg. Svo lítur út, sem iðnaður og verzlun séu í rústum, – og vegna hvers? Vegna þess, að þjóðfélagið er búið of mikilli siðmenningu, of miklum vistum, of

miklum iðnaði, of mikilli verzlun. Framleiðsluöflin, sem borgarastéttin ræður yfir, fá ekki lengur unnið eignahagskipan hennar til gagns eða þrifa. Þau eru öllu heldur orðin hagskipaninni ofviða. Hún er orðin framleiðsluöflunum til trafala. Og á þeirri stundu, er þau komast yfir þennan trafala, valda þau truflun í öllu þjóðfélagi borgarastéttarinnar og stofna eignahagsskipan hennar í bráðan háska. Þjóðfélagshættir borgarastéttarinnar eru orðnir svo þröngir, að þeir fá ekki hamið þann auð, er þeir hafa skapað. – Hvernig vinnur borgarastéttin bug á kreppunum? Annars vegar með því að ónýta framleiðsluöfl í stórum stíl. Hins vegar með því að afla sér nýrra markaða og nýta gerr hina gömlu. En hvað leiðir af þessum aðgerðum? Hún undirbýr margþættari og háskalegri kreppur í framtíðinni, en úrræði hennar til að afstýra þeim verða að sama skapi æ færri.

Vopnin, sem borgarastéttin bar til vígs, er hún lagði lénsveldið að velli, eru nú munduð að henni sjálfri.

En borgarastéttin hefur ekki aðeins smíðað vopnin, er hún verður vegin með. Hún hefur einnig skapað þá menn, er munu bera þessi vopn – verkamenn nútímans, *öreigalýðinn*.

Í sama mæli og borgarastéttin, þ. e. auðmagnið, þróast, í sama mæli vex öreigalýðurinn, verkalýðsstétt nútímans, sem fær því aðeins lifað, að hún fái vinnu, og fær því aðeins vinnu, að hún ávaxti auðmagnið. Þessir verkamenn verða að selja sig hver í sínu lagi. Þeir eru vörur á sama hátt og allar aðrar verzlunarvörur. Þeir eru því háðir öllum svipvindum samkeppninnar, öllum sveiflum markaðarins.

Fyrir þróun véltækni og verkaskiptingar hefur vinna öreiganna týnt öllu séreðli og einstaklingsbrag og er því sneydd öllu yndi. Verkamaðurinn er ekkert annað en viðbót vélarinnar. Það er ekki krafizt annars af honum en einföldustu, tilbreytingarlausustu og fljótlærðustu handtaka. Kostnaður sá, er verkamaðurinn veldur, nemur nær eingöngu kostnaði þeirra lífsnauðsynja, er hann þarf sér til framfæris og æxlunar. En verð vörunnar, og því einnig verð þeirrar vöru, er vinnuafl nefnist, er jafnt framleiðslukostnaði hennar. Í sama mæli og viðbjóður vinnunnar eykst, í sama mæli lækka launin. Og því meir sem véltækni og verkaskipting færast í aukana, því hraðar eykst vinnumagnið, hvort sem það verður vegna fleiri vinnustunda, eða meiri vinnuafkasta sé krafizt á ákveðnum verkdegi eða hraði vélanna sé aukinn, o. s. frv.

Iðja vorra tíma hefur breytt litlu verkstæði gildismeistarans í risaverksmiðju iðjuhöldanna. Í verksmiðjunum er verkamönnum troðið saman, og þar eru þeir skipulagðir á hermannavísu. Þeir eru óbreyttir iðnaðarhermenn undir umsjón kerfisbundinna

liðsforingja og undirliðsforingja. Þeir eru ekki aðeins mansmenn borgarastéttarinnar, hins borgaralega ríkis, heldur eru þeir dag hvern og hverja stund ofurseldir ánauð vélanna, verkstjóranna og síðast en ekki sízt hins einstaka verksmiðjueiganda. Þessi ánauð er því lítilmannlegri, illyrmislegri og svívirðilegri, því blygðunarlausari sem gróðinn er yfirlýstur tilgangur hennar.

Að sama skapi og minni er þörf afls og handlagni við líkamlega vinnu, þ. e. að sama skapi og iðja nútímans færist í aukana, að sama skapi er konum og börnum beitt við vinnu í stað karlmanna. Mismunur aldurs og kyns missir allt þjóðfélagslegt gildi, að því er verkamenn varðar. Þar er aðeins um að ræða mismunandi kostnaðarsöm vinnutæki eftir aldri og kyni.

Þegar arðráni verksmiðjueigandans er svo langt komið, að hann hefur goldið verkamanninum laun hans, ráðast hinir hlutar borgarastéttarinnar á hann: húseigandinn, mangarinn, okrarinn o. s. frv.

Hinar fornu miðstéttir, smáiðnrekendur, smákaupmenn, vaxtaeigendur, handverksmenn og bændur, allar þessar stéttir hrapa niður í öreigalýðsstéttina, ýmist fyrir þá sök, að hið litla fjármagn þeirra hrekkur ekki til í stóriðju og bíður lægra hlut í samkeppninni við stórauðmagnið, eða vegna hins, að verklag þeirra úreltist fyrir uppkomu nýrra framleiðsluaðferða. Á þá lund safnast öreigalýðnum lið úr öllum stéttum þjóðfélagsins.

Öreigalýðurinn lifir margvísleg þroskaskeið. Barátta hans við borgarastéttina hefst á þeirri stundu, er hann verður til.

Í fyrstu berjast einstakir verkamenn, þá verkamenn einnar verksmiðju, því næst verkamenn í einni atvinnugrein á einum og sama stað, gegn hinum einstaka borgara, sem arðrænir þá. Þeir beina ekki aðeins skeytum sínum að sjálfum framleiðsluháttum borgarastéttarinnar. Þeir ráðast á sjálf framleiðslutækin. Þeir eyðileggja erlendar samkeppnisvörur, brjóta vélarnar, bera eld að verksmiðjum. Þeir freista þess að komast aftur í þann sess, er verkamaður miðaldanna hafði skipað.[14]

Á þessu skeiði eru verkamenn tvístraðir um land allt, múgur, sem samkeppnin hefur sundrað. Enn sem komið er hafa þeir ekki bundizt samtökum fyrir eiginn tilverknað, heldur fyrir sameiningu borgarastéttarinnar. Borgarastéttinni er nauðugur einn kostur að skera upp herör meðal alls öreigalýðsins enn um stund. Á þessu skeiði berjast öreigarnir ekki gegn fjandmönnum sínum, heldur gegn óvinum fjandmanna sinna, gegn leifum einveldisins, gegn stórjarðeigendum og þeim hlutum borgarastéttarinnar, er standa utan við iðnaðinn, gegn smáborgurunum. Borgarastéttin hefur því enn taumhald á allri þróun sögunnar, sérhver sigur, sem unninn er, fellur henni í skaut.

Öreigalýðurinn vex ekki aðeins að höfðatölu samfara iðjuþróuninni. Hann flyzt saman í þéttbýlið, máttur hans eykst, og hann verður sér afls síns vís. Hagsmunir og lífskjör öreigalýðsins samlíkjast því meir, sem véltæknin afmáir mismun í vinnubrögðum og þrýstir laununum niður á sömu, lágu jafnhæð. Vaxandi samkeppni borgaranna og viðskiptakreppur þær, sem af henni leiðir, valda æ meiri sveiflum í vinnulaunum. Látlausar og æ stórstígari umbætur véltækninnar gera öll lífskjör verkalýðsins stopulli. Árekstrarnir milli einstakra verkamanna og einstakra borgara verða sem óðast að árekstrum milli tveggja stétta. Verkamenn taka að mynda samtök með sér gegn borgarastéttinni. Þeir stofna félagsskap til að verja vinnulaun sín. Þeir gera jafnvel með sér varanleg félagssamtök til að afla sér vista, ef í hart fer. Sums staðar verða upphlaup.

Öðru hvoru sigra verkamenn, en það eru skammvinnir sigrar. Mikilvægasti árangurinn í skærum þessum er ekki fólginn í sigrum líðandi stundar, heldur í útbreiðslu verkalýðssamtakanna. Vöxtur samgöngutækjanna, er stóriðjan hefur skapað, ýtir undir þróun verkalýðssamtakanna og hnýtir bönd milli verkamanna í ýmsum landshlutum. En það þarf ekki annað en að tengja þessi bönd til þess að hinar mörgu launadeilur, sem alls staðar eru sama eðlis, verði að alþjóðarbaráttu, stéttabaráttu. En öll stéttabarátta er pólitísk barátta. Borgarar miðaldanna, er áttu ekki annað en þjóðbrautir sínar, þurftu aldir til að koma á stéttarsameiningu sinni. Öreigar nútímans, er hafa járnbrautir til afnota, fá lokið þessu verki á nokkrum árum.

Samkeppnin, er ríkir meðal verkamanna, sundrar hvað eftir annað viðleitni þeirra að skipuleggja sig á stéttarvísu og í pólitískan flokk. En samtök þeirra rísa jafnan upp aftur, öflugri, traustari og máttugri. Þau nota sér innbyrðis klofning borgarastéttarinnar til þess að fá lagalega viðurkenningu á einstökum hagsmunamálum verkamanna. Þannig eru lögin um tíu stunda vinnudag á Englandi til komin.[15]

Stéttaárekstrarnir í hinu gamla þjóðfélagi greiða yfirleitt á margan hátt fyrir þróun öreigalýðsins. Borgarastéttin á í látlausri baráttu. Í fyrstu glímir hún við aðalinn, síðar við nokkra hluta borgarastéttarinnar, er bíða hnekki af þróun iðnaðarins. Og jafnan á hún í stríði við borgarastéttir annarra landa. Í allri þessari baráttu er hún neydd til að kveðja öreigalýðinn sér til vígsgengis og tefla honum fram í pólitískri baráttu. Hún gefur því sjálf öreigalýðnum mola af þekkingu sinni, þ. e. vopn gegn sjálfri sér.

Enn er það, svo sem fyrr var getið, að framþróun iðnaðarins varpar fjölda manna úr hinni drottnandi stétt niður í öreigalýðs-

stéttina eða teflir tilveru þeirra í tvísýnu. Þeir miðla einnig öreigalýðnum mikilli þekkingu.

Loks þegar úrslitahríð stéttabaráttunnar nálgast, verður upplausnin innan drottnandi stéttar og hins gamla þjóðfélags svo æðisgengin og ferleg, að lítill hluti yfirstéttarinnar segir sig úr lögum við hana og gengur á hönd byltingarstéttinni, sem ber framtíðina í skauti sér. Svo sem nokkur hluti aðalsins hafði fyrrum gengið í lið með borgarastéttinni, svo fyllir nú einnig nokkur hluti borgarastéttarinnar flokk öreigalýðsins. Eru það einkum borgaralegir menntamenn, sem hafa áunnið sér skilning á söguþróuninni í heild.

Af öllum þeim stéttum, sem standa andspænis borgarastéttinni, er öreigalýðurinn einn byltingarsinnuð stétt í raun og sannleika. Aðrar stéttir hrörna og líða undir lok í rás iðjuþróunarinnar, en öreigalýðurinn er holdgetið afkvæmi hennar.

Miðstéttirnar, smáiðjuhöldar, smákaupmenn, handverksmenn og bændur berjast allir gegn borgarastéttinni til þess að forða miðstéttartilveru sinni frá tortímingu. Þessar stéttir eru því ekki byltingarsinnaðar, heldur íhaldssamar. Þær eru meira að segja afturhaldssamar, þær vilja beina rás söguþróunarinnar aftur á bak. Þegar svo ber undir, að þær eru byltingarsinnaðar, þá eru þær það vegna þess, að þær sjá það fyrir, að þær muni hrapa niður í öreigalýðsstéttina. Þær snúast því ekki til varnar nútíðarhagsmunum sínum, heldur framtíðar hagsmunum sínum. Þær hverfa því frá sínu eigin stéttarmiði til þess að skipa sér á stéttarvettvang öreigalýðsins.

Tötraskríllinn, þessi rotgryfja lægstu stétta þjóðfélagsins, sópast stundum inn í hreyfinguna, þegar öreigalýðsbylting brestur á, en lífskjörum sínum samkvæmt mun hann jafnan verða fúsari til að selja sig afturhaldinu til léttaverka.

Lífsskilyrði hins gamla þjóðfélags eiga sér þegar enga stoð í lífskjörum öreigalýðsins. Öreiginn er eignalaus. Afstaða hans til eiginkonu og barna á ekkert skylt við borgaralegt fjölskyldulíf. Vinnan í iðju vorra tíma, ánauð auðvaldsins, sem er eins á Englandi og á Frakklandi, í Ameríku og á Þýzkalandi, hefur svipt verkamanninn öllu þjóðlegu séreðli. Lögin, siðfræðin, trúarbrögðin eru í hans augum aðeins borgaralegir hleypidómar, er borgarastéttin notar hagsmunum sínum að skálkaskjóli.

Allar fyrri stéttir, er fengu náð völdum í þjóðfélaginu, freistuðu að tryggja sér þá lífsstöðu, er þær höfðu þegar aflað sér, með því að sveigja allt þjóðfélagið undir sína eigin atvinnuhætti. Öreigarnir geta því aðeins náð framleiðsluöflunum á vald sitt, að þeir afnemi þá aflaháttu atvinnu sinnar, er þeir hafa búið við til þessa, en um leið afnema þeir alla atvinnu-

lega aflaháttu, sem áður hafa tíðkazt. Öreigarnir hafa ekkert að tryggja af því, sem þeirra er, en þeir verða að rífa niður öll einkaréttindi og einkatryggingar, sem til þessa hafa uppi verið.

Allar þjóðfélagshreyfingar hafa til þessa verið minnihlutahreyfingar eða í þágu minnihlutans. Öreigalýðshreyfingin er sjálfstæð hreyfing meirihluta mannanna í þágu meirihlutans. Öreigalýðurinn, lágstétt núverandi þjóðfélags, getur ekki risið upp, getur ekki hrist af sér klafann nema að sprengja í loft upp allar þær hástéttir, sem eru fulltrúar hins opinbera þjóðfélags.

Þótt barátta öreigalýðsins gegn borgarastéttinni sé ekki þjóðlegs eðlis að inntaki, er hún það að formi fyrst í stað. Öreigalýður hvers lands verður auðvitað fyrst að gera sinni eigin borgarastétt skil.

Er vér rissuðum upp hina almennu meginþætti í þróun öreigalýðsins, röktum vér feril þeirrar borgarastyrjaldar, sem háð hefur verið leynt eða ljóst í ríkjandi þjóðfélagi, allt til þeirrar stundar, er bylting brestur á og öreigalýðurinn steypir borgarastéttinni með valdi og grundvallar veldi sitt.

Svo sem fyrr var sýnt, hefur mannfélagið hvílt til þessa á andstæðum kúgaðra og drottnandi stétta. En til þess að stétt verði kúguð, verður að tryggja henni slík kjör, að hún geti dregið fram lífið í ánauð sinni. Hinn ófrjálsi bóndi miðaldanna vann sér þegnrétt í griðaborgunum á dögum bændaánauðarinnar, smáborgarinn gat orðið stórborgari undir oki hins lénsbundna einveldis. En verkamaður nútímans hrapar dýpra og dýpra niður fyrir lífskjör sinnar eigin stéttar í stað þess að hefjast hærra með framförum iðnaðarins. Verkamaðurinn verður sveitarlimur, og sveitarþyngslin vaxa örar en íbúafjöldi og auðæfi.[16] Það verður þannig bert, að borgarastéttin er ekki lengur fær um að skipa sess drottnandi stéttar. Henni er orðið um megn að kúga þjóðfélagið til að lúta lífsskilyrðum hennar sem lögbundnu valdboði. Hún er ófær til að drottna vegna þess, að hún fær ekki einu sinni tryggt þrælum sínum líf í ánauðinni. Hún neyðist til að búa þeim slík kjör, að hún verður sjálf að ala önn fyrir þeim í stað þess, að þeir ali önn fyrir henni. Þjóðfélagið getur ekki lengur lifað við drottnun hennar, þ. e. líf hennar fær ekki lengur samrýmzt þjóðfélaginu.

Eitt helzta skilyrði fyrir tilveru og drottnun borgarastéttarinnar er auðsöfnun á hendur einstaklingum, sköpun auðmagnsins og ávöxtun, en lífsskilyrði auðmagnsins er launavinna. Launavinnan hvílir eingöngu á samkeppni verkamanna innbyrðis. Borgarastéttin ber iðnaðarþróunina uppi, án þess að henni sé það sjálfrátt og án þess hún fái rönd við reist. En iðnaðarþróunin bindur endi á einangrun þá, er samkeppnin skapar meðal

verkamanna, og sameinar þá í byltingarsamtökum. Fyrir þróun stóriðjunnar er sjálfum grundvellinum kippt undan fótum borgarastéttarinnar, en á grundvelli þeim hvílir öll framleiðsla hennar og eignahagsskipan. Borgarastéttin skapar fyrst og fremst sinn eigin höfuðbana. Fall hennar er jafn óhjákvæmilegt og sigur öreigalýðsins.

II

## Öreigar og kommúnistar

Hver er afstaða kommúnista til öreiganna?

Kommúnistar eru ekki sérstakur flokkur gagnvart öðrum verkamannaflokkum.

Þeir eiga engra hagsmuna að gæta, sem ekki eru hagsmunir alls öreigalýðsins.

Þeir boða ekki neinar sérstakar frumreglur, er öreigalýðshreyfingin skuli hneppt í.

Það eitt skilur kommúnista og aðra öreigalýðsflokka, að í verkalýðsbaráttu hverrar þjóðar leggja þeir áherzlu á hina almennu hagsmuni öreigalýðsins, sem óháðir eru öllu þjóðerni. Á hinum mismunandi þróunarskeiðum í stéttarbaráttu öreigalýðs og borgara túlka þeir jafnan hagsmuni hreyfingarinnar í heild.

Kommúnistar eru því í reyndinni einbeittasti og sókndjarfasti hluti verkamannaflokkanna í öllum löndum. Í fræðilegum efnum standa þeir framar öllum fjölda öreiganna að því leyti, að þeir skilja skilyrði, þróunarferil og hinn almenna árangur öreigalýðshreyfingarinnar.

Næsta markmið kommúnista er hið sama og allra annarra öreigalýðsflokka: að skipuleggja öreigalýðinn á stéttargrundvelli, steypa valdi borgarastéttarinnar og framkvæma pólitíska valdatöku öreigalýðsins.

Hinar fræðilegu kenningar kommúnista eiga ekki rætur að rekja til hugsýna eða lögmála, sem einhver heimsbjargvætturinn hefur búið til eða uppgötvað.

Þær eru aðeins almenn tjáning á raunhæfum staðreyndum stéttarbaráttu, sem nú er háð, sögulegri hreyfingu, sem fram fer fyrir augum vorum. Afnám þeirrar eignahagsskipunar, sem ríkt hefur til þessa, er ekkert einstakt einkenni kommúnismans.

Eignarrétturinn hefur verið undirorpinn sífelldum breytingum og umskiptum.

Franska byltingin hratt til dæmis eignarrétti lénsveldisins úr sessi og setti í hans stað eignarrétt borgarastéttarinnar.[17]

Það er ekki einkenni kommúnismans, að hann afnemi eign-

arréttinn yfirleitt, heldur hitt, að hann afnemur hinn borgaralega eignarrétt.

En hinn borgaralegi séreignarréttur nútímans er síðasta og fullkomnasta tilveruform framleiðslu og eignahagsskipunar, er hvílir á stéttaandstæðum, á stéttaarðráni.

Í þessum skilningi geta kommúnistar orðað kenningu sína með tveimur orðum: *afnám séreignarréttarins.*

Oss kommúnistum hefur verið brugðið um það, að vér vildum afnema einstaklingseign, er menn hafi sjálfir aflað sér og unnið fyrir, þá eign, er sé grundvöllur alls einstaklingsfrelsis, persónulegra athafna og persónulegs sjálfstæðis.

Eign, er menn hafa aflað sér og erjað fyrir sjálfir! Eruð þér að tala um eign smáborgara og smábænda, sem var undanfari hins borgaralega eignarréttar. Vér þurfum ekki að afnema þá eign, iðnaðarþróunin hefur afnumið hana og gerir það enn dag hvern.

Eða eruð þér að tala um einkaeign borgarastéttar nútímans? Skapar launavinnan, vinna öreigans, eign handa öreiganum? Alls ekki. Hún skapar auðmagn, þ. e. eign, sem arðrænir launavinnuna og fær því aðeins aukizt, að af henni spretti ný launavinna, sem hægt sé að arðræna á nýjan leik. Eignahagsskipan nútímans þróast í andstæðum auðmagns og launavinnu. Vér skulum athuga báðar þessar andstæður.

Auðmaðurinn skipar ekki eingöngu persónulega stöðu í framleiðslunni. Hann skipar einnig þjóðfélagslega stöðu. Auðmagnið er til orðið í samfélagi og fær ekki þróast nema fyrir samvirkar athafnir margra manna og í rauninni ekki nema fyrir samvirkar athafnir alls þjóðfélagsins.

Auðmagn er ekki einstaklingsvald, heldur þjóðfélagsvald.

Þegar því auðmagninu er breytt í sameign alls þjóðfélagsins, þá breytist ekki einstaklingseign í þjóðfélagseign. Það er aðeins þjóðfélagslegt eðli eignarinnar, sem breytist. Það er aðeins stéttareðli hennar, er hverfur.

Lítum á launavinnuna:

Meðalverð launavinnunnar er lágmark vinnulauna, þ. e. magn þeirra lífsnauðsynja, er verkamaðurinn verður að fá sér til lífsuppeldis sem verkamaður. Það, sem verklaunamaðurinn því aflar með vinnu sinni, nægir eingöngu til að draga fram lífið. Vér viljum alls ekki afnema þessa persónulegu öflun vinnuafurða, er skapar ekki afrakstur, sem gæti veitt vald yfir vinnu annarra. Vér viljum aðeins afnema eymdareðli þessarar afurðaöflunar, er verkamaðurinn lifir aðeins til þess að ávaxta auðmagnið, fær aðeins lifað að svo miklu leyti sem hagsmunir drottnandi stéttar þurfa á að halda.

Í borgaralegu þjóðfélagi er hin lifandi vinna tæki til þess að auka fyrnda vinnu. Í þjóðfélagi kommúnismans er hin fyrnda vinna tæki til þess að víkka, auðga og efla lífsferil verkamannsins.

Í hinu borgaralega þjóðfélagi drottnar því fortíð yfir nútíð, í þjóðfélagi kommúnismans drottnar nútíðin yfir fortíðinni. Í hinu borgaralega þjóðfélagi er auðmagnið sjálfstætt og persónulegt, en hinn starfandi einstaklingur ósjálfstæður og ópersónulegur.

Og afnám þessara þjóðfélagshátta kallar borgarastéttin afnám persónuleika og frelsis. Og það með nokkrum rétti. En það er raunar um að ræða afnám borgaralegs persónuleika, borgaralegs frelsis og sjálfstæðis.

Frelsið er svo skilið í borgaralegu þjóðfélagi, að það sé frjáls verzlun, frjáls kaup og sala.

En verði gróðabrallið afnumið fellur einnig hið frjálsa gróðabrall brott. Orðagjálfrið um frjálst gróðabrall sem og allt annað frelsishjal borgara vorra hefur aðeins nokkurt gildi gagnvart höftum á gróðabralli, gagnvart hinum ófrjálsa borgara miðaldanna, en missir gersamlega marks gagnvart afnámi kommúnista á borgaralegu gróðabralli, borgaralegum framleiðsluháttum og borgarastéttinni sjálfri.

Þér hneykslizt mjög á því, að vér ætlum að afnema séreignarréttinn. En í þjóðfélagi yðar hafa níu tíundu hlutar allrar þjóðarinnar verið sviptir einkaeign sinni. Einkaeignin er eingöngu til vegna þess, að níu tíundu allra manna eiga ekki neitt. Þér bregðið oss því um að vilja afnema eign, sem ekki getur þrifizt, nema að meginþorri þjóðfélagsins sé eignalaus. Þér bregðið oss í stuttu máli um það, að vér viljum afnema eignir yðar. Og það ætlum vér raunar að gera.

Á þeirri stundu, er vinnu verður ekki lengur breytt í auðmagn, fé eða jarðrentu, þ. e. á þeirri stundu, er einstaklingseign yðar getur ekki breytzt í borgaralega eign, á þeirri stundu lýsið þér yfir því, að persóna yðar sé afnumin.

Þér játið þess vegna, að þér teljið engan persónu nema borgarann, hinn borgaralega eignamann. Og þessi persóna mun vissulega verða afnumin.

Kommúnisminn bannar engum að afla sér þjóðfélagslegra afurða. Hann bannar þeim aðeins að afla sér þeirra með því að undiroka vinnu annarra.

Menn hafa komið með þá viðbáru, að öll athafnasemi mundi leggjast niður og allir leggjast í leti, er einkaeignarrétturinn yrði afnuminn.

Ef svo væri, mundi hið borgaralega þjóðfélag vera fyrir löngu liðið undir lok fyrir iðjuleysis sakir. Því að þeir, sem vinna í

borgaralegu þjóðfélagi, eignast ekki neitt, en þeir sem eignum safna, vinna ekki neitt. Viðbáran er ekkert annað en sú upptugga, að verklaunamenn muni ekki vera til, þegar auðmagnið er ekki lengur til.

Allar mótbárur, sem tíndar eru til gegn framleiðslu og skiptingu efnalegra afurða í þjóðfélagi kommúnismans, eru einnig hafðar á takteinum, þegar um er að ræða framleiðslu og skiptingu andlegra verðmæta. Á sama hátt og borgarastéttin leggur að jöfnu afnám stéttbundins eignarréttar og afnám framleiðslu, svo telur hún og, að afnám stéttbundinnar menntunar muni nema á brott alla menntun yfirleitt.

Sú menntun, sem borgarastéttin harmar svo mjög, að hverfa muni, er fyrir megin þorra manna í því fólgin að kenna þeim meðferð véla.

En það er gagnslaust fyrir yður að deila við oss, er þér mælið afnám hins borgaralega eignarréttar með alin þeirra hugmynda, er þér gerið yður um frelsi, menntun, rétt o. s. frv. Hugmyndir yðar eru sprottnar upp úr jarðvegi borgaralegra framleiðsluhátta og borgaralegrar eignahagsskipunar, réttur yðar er ekkert annað en stéttarvilji yðar, er þér hafið tekið í lög, og inntak þessa vilja er mótað af efnalegum lífsskilyrðum stéttar yðar.

Þér eigið það sammerkt við allar drottnandi stéttir, sem liðnar eru undir lok, að þér teljið framleiðsluhætti yðar og eignahagsskipan lúta eilífum náttúru- og skynsemilögmálum. En eignahagsskipan yðar er sögulegt og hverfult fyrirbrigði á þróunarferli framleiðslunnar. Þér getið skilið eignarrétt fornaldarinnar, þér getið skilið eignahagsskipan lénsveldisins, en yður er algerlega varnað skilnings á borgaralegum eignarrétti. –

Afnám fjölskyldunnar! Jafnvel róttækustu menn fá ekki nógsamlega hneykslazt á þessari hraklegu ætlun kommúnista.

Hver er grundvöllur borgaralegrar fjölskyldu nútímans? Auðmagnið, einkareksturinn. Fullum þroska hefur hún aðeins náð með borgarastéttinni, en fjölskylduleysi öreiganna, sem á þá er lagt, og opinber skækjulifnaður eru fylginautar hennar.

Hin borgaralega fjölskylda hverfur auðvitað um leið og fylginautar hennar, og hvort tveggja hverfur með afnámi auðmagnsins.

Eruð þér að bregða oss um það, að vér viljum afnema arðrán foreldra á börnum? Vér játum á oss þann glæp.

En vér slítum öll helgustu bönd mannlegs samlífs með því að koma á þjóðfélagslegu uppeldi í stað uppeldis heimilanna, segið þér.

Og er ekki uppeldi yðar mótað af þjóðfélaginu? Er það ekki mótað af þjóðfélagsháttum, sem þér búið við í uppeldisstarfi

yðar, er það ekki mótað af afskiptum þjóðfélagsins, beinum eða óbeinum, skólum, o. s. frv? Kommúnistar hafa ekki fundið upp áhrif þjóðfélagsins á uppeldið. Þeir breyta aðeins eðli þeirra og svipta hina drottnandi stétt áhrifum á uppeldið.

Hið borgaralega orðagjálfur um fjölskyldulíf og uppeldi, um hin helgu bönd foreldra og barna, er því andstyggilegra því meir sem stóriðjan slítur sundur öll sifjabönd öreiganna og börnin eru gerð að óbreyttri verzlunarvöru og vinnutækjum.

En þér kommúnistar viljið koma á sameign á kvenfólki, öskrar öll borgarastéttin einum rómi!

Borgarinn lítur eingöngu á konu sína sem framleiðslutæki. Honum berst það til eyrna, að framleiðslutækin skuli nýtt sameiginlega, og honum fær því ekki annað í hug komið en að slíkt verði einnig hlutskipti konunnar.

Hann grunar ekki, að hér er einmitt um það að ræða að binda endi á þá stöðu kvenna, að þær séu eingöngu framleiðslutæki.

Annars er ekkert hlálegra en hin hásiðferðilega hneykslun borgara vorra á sameign kvenna, er kommúnistar kváðu ætla að koma á. Kommúnistar þurfa ekki að koma á sameign á konum, því að hún hefur nær alltaf verið til.

Borgarar vorir láta sér ekki nægja að hafa öll gögn og gæði af konum og dætrum öreiganna – að ógleymdum opinberum skækjulifnaði – heldur er það þeirra mesta skemmtun að kokkála hver annan.

Hið borgaralega hjónaband er í rauninni sameign á konum. Það er í hæsta lagi hægt að bregða kommúnistum um það, að þeir vildu koma á opinberri og opinskárri sameign á konum í stað þeirrar sameignar, sem nú er hulin hræsni og leynd. Þegar framleiðsluhættir nútímans verða afnumdir, þá er auðsætt, að leggjast mun niður sameign sú á konum, þ. e. opinber og leynilegur skækjulifnaður, er sprottið hefur af þessum framleiðsluháttum.

Kommúnistum er enn brugðið um það, að þeir vilji afnema föðurlandið, þjóðernið.

Verkamenn eiga ekkert föðurland. Það, sem þeir ekki eiga, verður ekki af þeim tekið. Þegar öreigalýðurinn tekur pólitísk völd í sínar hendur verður hann að gerast þjóðleg stétt og skipuleggja sig sem þjóð, og er því enn þjóðlegur, þótt ekki sé það í borgaralegri merkingu.

Þjóðernisleg einangrun og andstæður þjóða á milli munu hverfa smám saman fyrir þróun borgarastéttarinnar, verzlunarfrelsisins, heimsmarkaðarins og fyrir þróun iðnaðarframleiðslu og lífskjara, er samlíkjast því meir sem lengra líður.

Þegar öreigalýðurinn er orðinn drottnandi stétt, munu þessar andstæður hverfa í enn ríkara mæli. Eitt fyrsta skilyrði fyrir frelsun öreigalýðsins er sameiginlegt átak hans, að minnsta kosti í þeim löndum, sem lengst eru komin í menningu.

Þegar stéttaandstæðurnar eru horfnar hjá hverri þjóð, mun og einnig hverfa fjandskapur þjóða á milli.

Þess gerist ekki þörf að ræða ítarlega þær sakir, sem bornar eru á kommúnismann frá trúarlegu, heimspekilegu og andlegu sjónarmiði.

Þarf svo mikla skarpskyggni til að skilja það, að hugmyndir manna og skoðanir, í stuttu máli, vitund þeirra, breytist um leið og lífskjör mannanna breytast, félagsleg samskipti þeirra, félagsleg tilvera?

Hvað sannar saga hugmyndanna annað en það, að andleg framleiðsla breytist samfara efnalegri framleiðslu? Ríkjandi hugmyndir allra alda voru hugmyndir ríkjandi stéttar.

Menn tala um hugmyndir, er valdið hafi byltingu í heilu þjóðfélagi. Þegar svo er að orði komizt herma menn aðeins frá þeirri staðreynd, að í skauti hins gamla þjóðfélags hafi myndazt frumdrög að nýju þjóðfélagi, að upplausn gamalla hugmynda verði samfara upplausn gamalla lífshátta.

Þegar hinn forni heimur var að hruni kominn, bar kristin trú banaorð af hinum fornu trúarbrögðum. Þegar kristnar hugmyndir á 18. öld biðu lægra hlut fyrir hugmyndum upplýsingarinnar, háði lénsvaldið sitt dauðastríð við borgarastéttina, sem þá var byltingarsinnuð stétt. Hugmyndirnar um samvizkufrelsi og trúfrelsi túlkuðu aðeins á sviði þekkingarinnar drottnun frjálsrar samkeppni.

En nú munu menn segja sem svo: Hugmyndir trúar og siðfræði, heimspeki, stjórnmála og réttar, o. s. frv. hafa að vísu breytzt og mótazt á þróunarferli sögunnar. En trúin sjálf, siðgæðið, heimspekin, stjórnfræðin og rétturinn lifðu þó af öll umskipti.

Auk þess eru til eilíf sannindi, svo sem frelsi, réttlæti, o. s. frv., sem eru sameiginleg öllum þjóðfélagslegum högum. En kommúnisminn afnemur hin eilífu sannindi, hann afnemur trú og siðgæði í stað þess að steypa þær í nýtt mót, hann er því á öndverðum meið við alla sögulega þróun fortíðarinnar.

Hvað verður úr þessari ásökun? Saga mannfélagsins hefur jafnan til þessa runnið fram í sundurleitum stéttaandstæðum á ýmsum öldum.

Hversu svo sem stéttaandstæðum þessum var háttað, þá var það öllum öldum jafnan sameiginlegt, að nokkur hluti þjóðfélagsins arðrændi hinn. Því er það engin furða, að þjóð-

félagsleg vitund hafi á öllum öldum, þrátt fyrir margbreytni og sundurleitni, þróazt í vissum sameiginlegum mótum, sameiginlegu sniði vitundarinnar, er ekki mun hverfa, fyrr en stéttaandstæðurnar eru að fullu og öllu hjaðnaðar.

Hin kommúníska bylting er róttækasta rifting sögunnar á hinni fornu eignahagsskipan. Því er engin furða, þótt skilin við hinn forna hugmyndaheim verði skörp á þróunarferli þessarar byltingar.

En vér skulum ekki eyða fleiri orðum að mótbárum borgarastéttarinnar.

Þess var fyrr getið, að það yrði fyrsta verk byltingarinnar að gera öreigalýðinn að drottnandi stétt og heimta svo lýðræði sér til handa.

Öreigalýðurinn mun beita pólitísku valdi sínu til þess að svipta borgarastéttina smám saman öllu auðmagni, sameina öll framleiðslutæki í höndum ríkisins, þ. e. öreigalýðsins, er hefur skipulagt stéttarveldi sitt, og efla og margfalda framleiðslutækin svo fljótt sem unnt er.

Þetta getur fyrst í stað því aðeins orðið, að ofbeldi sé beitt við borgarastéttina, að því er varðar eignarrétt hennar og framleiðsuhætti. Það verður því beitt ráðstöfunum, sem virðast vera ónógar og ófærar frá hagfræðilegu sjónarmiði, en verða í þróun byltingarinnar aflvaki annars meira og eru óhjákvæmilegar til þess að velta um öllu framleiðsluskipulaginu.

Þessar ráðstafanir munu auðvitað verða með ólíkum hætti í hinum ýmsu löndum.

Í þeim löndum, sem lengst eru komin í þróuninni, mun yfirleitt vera hægt að beita þeim ráðstöfunum, sem nú skulu taldar:

1. Eignanám á lóðum og lendum, en jarðrentan falli til þarfa ríkisins.
2. Háir og stighækkandi skattar.
3. Afnám erfðaréttarins.
4. Eignir allra flóttamanna og uppreisnarmanna verði gerðar upptækar.
5. Stofna skal þjóðbanka með ríkisfjármagni og algeru einkaleyfi til seðlaútgáfu og sameina þannig fjármálastarfsemina í höndum ríkisins.
6. Flutningakerfið skal sameinað í höndum ríkisins.
7. Fjölga skal þjóðarverksmiðjum og framleiðslutækjum, rækta lönd og græða eftir sameiginlegri áætlun.
8. Jöfn vinnuskylda allra þegna. Mynda skal vinnusveitir iðnlærðra manna, einkum handa landbúnaði.
9. Sameina rekstur akuryrkju og iðnaðar og vinna að því,

að mismunur á borgum og sveitum hverfi smám saman.

10. Opinbert og ókeypis uppeldi allra barna. Afnám barnavinnu í verksmiðjum í þeirri mynd, sem hún nú tíðkast.

Samræma skal uppeldið framleiðslustörfunum o. s. frv.

Þegar þróunin er komin svo langt á veg, að stéttamismunurinn er horfinn og öll framleiðsla er í höndum samvirkra einstaklinga, tekur ríkisvaldið að týna pólitísku eðli sínu. Pólitískt vald er í raun réttri skipulagt vald einnar stéttar til að sitja yfir hlut annarrar. Þegar öreigalýðurinn verður í baráttu sinni við borgarastéttina að sameinast á stéttarvísu, gerist drottnandi stétt í byltingu og afnemur með stéttarvaldi sínu hina gömlu framleiðsluhætti, þá afnemur öreigalýðurinn í sama mund tilveruskilyrði stéttaandstæðnanna. Hann afnemur stéttirnar yfirleitt og afnemur því einnig sína eigin stéttardrottnun.

Í stað hins gamla borgaralega þjóðfélags með stéttum sínum og stéttaandstæðum rís þá upp samfélag manna, þar sem frjáls þróun hvers einstaklings er skilyrði fyrir frjálsri þróun heildarinnar.

## III

## Bókmenntir sósíalista og kommúnista

### 1. Sósíalismi afturhaldsins

#### *a) Hinn aðalborni sósíalismi*

Það varð sögulegt hlutskipti hins franska og brezka aðals að skrifa flugrit gegn borgaralegu þjóðfélagi nútímans. Í júlíbyltingunni 1830[18] í Frakklandi og í stjórnarbótarhreyfingunni[19] á Englandi hafði aðallinn einu sinni enn lotið í lægra haldi fyrir hinu nýríka, hvimleiða aðskotadýri. Um alvarlega pólitíska baráttu var ekki lengur að ræða. Aðallinn fékk ekki haslað sér annan vígvöll en ritvöllinn. En jafnvel á sviði bókmenntanna voru hin gauðslitnu vígorð afturhaldstímabilsins[20] orðin til einskis nýt. Til þess að afla sér lýðhylli varð aðallinn að láta líta svo út sem hann léti sig engu skipta eigin hag, en bæri eingöngu hag hinnar arðrændu verkamannastéttar fyrir brjósti, er hann lýsti sökum á hendur borgarastéttinni. Og því varð það aðlinum afþreying að mega rista hinum nýja húsbónda sínum níð og gala honum óheillaspár í eyra.

Á þessa lund varð hinn aðalborni sósíalismi til. Hann var að hálfu leyti raunaljóð, að hálfu leyti níð, að hálfu leyti afturhvarf til fortíðarinnar, að hálfu leyti heitingar um framtíðina. Ósjaldan hæfði hann borgarastéttina í hjartað, bitur, andríkur og dómskyggn, en jafnan grátbroslegur fyrir þá sök, að hann botnaði hvorki upp né niður í sögulegri þróun nútímans.

Þessir aðalbornu sósíalistar veifuðu betlipoka örbirgðarinnar sem gunnfána til að fylkja alþýðunni að baki sér. En í hvert skipti, er alþýðan fylgdi þeim að málum, mátti hún greina hin gömlu herkuml aðalsmanna á þjóhnöppum þeirra og hljóp á brott með miklum hlátrum og lítilli lotningu.

Franskir konungssinnar og England hið unga skemmtu mönnum með þessu sjónarspili.[21]

Þegar aðalsmenn sýna fram á, að arðrán þeirra hafi verið með öðrum hætti en arðrán borgarastéttarinnar, þá gleyma þeir aðeins því, að þeir arðrændu við gersamlega frábrugðin lífskjör og aðstæður, er nú hafa lifað sitt fegursta. Þegar þeir sýna fram á, að öreigalýður nútímans hafi ekki verið til, þegar þeir voru við völd, þá gleyma þeir aðeins því, að borgarastétt nútímans var ósvikið afkvæmi þeirra eigin þjóðfélagsskipunar.

Annars fer því svo fjarri, að þeir leyni afturhaldseðli gagnrýni sinnar, að þeir bera borgarastéttina þeirri höfuðsök að hafa á valdatímabili sínu skapað stétt, er muni sprengja í loft upp alla hina gömlu þjóðfélagsskipan.

Þeir bregða borgarastéttinni miklu fremur um það, að hún hafi skapað byltingarsinnaðan öreigalýð, en að hún hafi yfirleitt skapað öreigalýð.

Í stjórnmálabaráttunni taka þeir því þátt í öllum ofbeldisverkum, er framin eru á verkalýðnum. Og þrátt fyrir allan sinn vandlætingarvaðal láta þeir í einkalífi sínu sér það vel líka að lesa hin gullnu aldin og höndla með ull, rófur og brennivín, með tryggð sína, ást og aðalsæru að kaupeyri.

Klerkastéttin hefur jafnan samrekkt aðlinum, og slík er einnig sambúð hins klerklega og hins aðalborna sósíalisma.

Ekkert er auðveldara en að smyrja sósíalískum farða á kristilegan meinlætalifnað. Hefur ekki kristindómurinn einnig bannsungið einkaeignarréttinn, hjónabandið og ríkisvaldið? Hefur hann ekki boðað í þess stað líknarverk og betl, einlífi og krossfestingu holdsins, munklífi og kirkjustarf? Hinn kristilegi sósíalismi er ekkert annað en hið vígða vatn, er klerkar stökkva á gremju aðalsins.

### *b) Sósíalismi smáborgaranna*

Lénsaðallinn er ekki eina stéttin, sem borgarastéttin steypti af stóli. Hann er ekki eina stéttin, sem hefur orðið að sjá á bak lífsskilyrðum, er rýrnuðu og liðu undir lok í borgaralegu þjóðfélagi nútímans. Smáborgarar miðaldanna og smábændur voru undanfarar borgarastéttar nútímans. Í þeim löndum, sem komin eru lítt til þroska í iðnaði og verzlun, hjarir þessi stétt enn við hlið hraðvaxandi borgarastéttar.

Í löndum þeim, sem þroskað hafa siðmenningu nútímans, hefur myndazt ný tegund smáborgarastéttar, er hvarflar milli öreigalýðs og borgarastéttar. Þessi stétt er fylginautur hins borgaralega þjóðfélags og endurnýjast án afláts. En samkeppnin hrindir sí og æ einstaklingum þessarar stéttar niður í djúp öreigalýðsins, og þeir sjá jafnvel þá stund nálgast í þróun stóriðjunnar, er þeir hverfi með öllu sem sjálfstæður aðili í þjóðfélagi nútímans, en verkstjórar og vinnuhjú taki við störfum þeirra í verzlun, handiðnaði og landbúnaði.

Það var eðlilegt, að í landi sem Frakklandi, þar sem bændur eru langsamlega meiri hluti þjóðarinnar, myndu rithöfundar, er túlkuðu málstað öreigalýðsins gegn borgarastéttinni, gagnrýna drottnun borgarastéttarinnar frá sjónarmiði smábænda og smáborgara og fylla flokk verkalýðsins á forsendum smáborgarastéttarinnar. Þannig hófst sósíalismi smáborgaranna. *Sismondi*[22] er helzti kennimaður þessarar stefnu, ekki aðeins á Frakklandi, heldur einnig á Englandi.

Sósíalismi smáborgaranna greindi með mikilli skarpskyggni andstæðurnar í framleiðsluháttum nútímans og fletti ofan af hræsnisfullum fegrunartilburðum hagfræðinganna. Óhrekjandi voru staðreyndir þær, er hann lagði fram um hervirki véltækni og verkaskiptingar, um samsöfnun auðmagns og jarðeigna, um offramleiðslu og kreppur, um óhjákvæmilega tortímingu smábænda og smáborgara, um eymd öreigalýðsins, um stjórnleysið í framleiðslu, um gífurlega misskiptingu auðsins, um gjöreyðingarstríð iðnaðarþjóðanna, um upplausn fornra siða, fornra fjölskylduhátta, fornra þjóðerna.

En hin jákvæða stefna þessa sósíalisma er ýmist sú, að reisa við aftur hin fornu framleiðslu- og samgöngutæki ásamt hinni fornu eignahagsskipan og forna þjóðfélagi, eða sú, að hneppa framleiðslu og samgöngutæki nútímans í viðjar hinnar gömlu eignahagsskipunar, er þau höfðu varpað af sér og urðu að varpa af sér. Sósíalismi smáborgaranna er afturhaldsstefna og útópía í senn.

Bjargráð hins smáborgaralega sósíalisma eru gildaskipan í handiðnaði og húsbændaveldi í sveitum.

Þegar fram liðu stundir, vesladist þessi stefna upp í eymd og uppdráttarsýki.

### *c) Þýzki sósíalisminn, eða sósíalisminn „sanni"*[23]

Bókmenntir sósíalista og kommúnista á Frakklandi urðu til undir fargi drottnandi borgarastéttar og voru bókvís tjáning þeirrar baráttu, er háð var gegn þessari drottnun. Þær voru fluttar út til Þýzkalands um það leyti, er þarlend borgarastétt var um það bil að hefja baráttu gegn hinu lénsbundna einveldi.

Þýzkir heimspekingar, gerviheimspekingar og fagurkerar gleyptu fegnir við þessum bókmenntum. Þeim gleymdist aðeins það, að þjóðfélagsskilyrði Frakklands höfðu ekki flutzt til Þýzkalands, þótt franskar bókmenntir bærust þangað. Við þjóðfélagsskilyrði Þýzkalands misstu hinar frönsku bókmenntir sósíalista allt raunhæft gildi og tóku á sig einskært bóklegt gervi. Á Þýzkalandi hlutu þær að birtast sem fánýt heilabrot um holdtekju mannlegs eðlis. Á sömu lund höfðu þýzkir heimspekingar 18. aldar túlkað kröfur hinnar fyrstu frönsku byltingar eingöngu á þann veg, að þær væru kröfur „raunvísrar skynsemi" yfirleitt. Viljatjáning hinnar byltingasinnuðu frönsku borgarastéttar var að þeirra viti lögmál hins skilyrðislausa vilja, viljans svo sem hann vera skal, hins sannmennska vilja.[24]

Starfsemi þýzkra rithöfunda var eingöngu í því fólgin að koma hinum frönsku hugmyndum heim við háspekilega samvizku sína, eða öllu heldur að tileinka sér franskar hugmyndir frá heimspekilegu sjónarmiði sínu.

Þeir námu þessar hugmyndir á sama hátt og menn yfirleitt nema erlend mál – með því að þýða þær.

Það er kunnugt, hvernig munkarnir skrifuðu smekklausar dýrlingasögur ofan í handrit, sem geymdu klassískar bókmenntir hinnar fornu heiðni. Þýzkir rithöfundar fóru öfugt að við hinar óguðlegu frönsku bókmenntir. Þeir skrifuðu heimspekiþrugl sitt aftan við franska frumtextann. Aftan við gagnrýni franskra sósíalista á fjárhagskerfinu skrifuðu þeir til dæmis „afsal hins mennska eðlis", aftan við gagnrýni Frakka á ríkisvaldi borgarastéttarinnar skrifuðu þeir „afnám á drottnun hins sértekna og almenna" og þar fram eftir götunum.

Þeir laumuðu heimspekilegu orðagjálfri sínu á bak við sögulega þróun franskra þjóðfélagshátta og kölluðu þetta „heimspeki athafnanna", „sannan sósíalisma", „þýzk vísindi sósíalismans", „heimspekilega grundvöllun sósíalismans", o. s. frv.

Bókmenntir franskra sósíalista og kommúnista voru því blátt áfram sviptar manndómi sínum. Og þegar þær í höndum Þjóðverja túlkuðu ekki lengur baráttu einnar stéttar gegn annarri,

þá þóttust þeir þess vísir að hafa unnið bug á „frönskum einstrengingshætti". Í stað raunverulegra þarfa þóttust þeir túlka þarfir sannleikans, í stað þarfa öreigalýðsins túlkuðu þeir þarfir mannlegs eðlis, mannsins yfirleitt, mannsins, sem á ekki heima í neinni stétt, á yfirleitt ekki sveitfesti í veruleikanum, heldur ríkir aðeins í þokuheimum heimspekilegra hugaróra.

Þessi þýzki sósíalismi, er tók hinar klaufalegu stílaæfingar sínar svo alvarlega og hátíðlega, og bauð þær falar með slíku skrumi, týndi þó, er fram liðu stundir, vandlæti sínu og sakleysi.

Frjálslynda hreyfingin, barátta hinnar þýzku, ekki sízt hinnar prússnesku borgarastéttar gegn aðlinum og einveldi konungs, varð nú æ rismeiri.

Hinum „sanna" sósíalisma gafst nú kærkomið tækifæri til að tefla fram sósíalískum kröfum gegn hinni pólitísku hreyfingu. Hann átti nú kost á að bannsyngja svo sem venja var frjálslyndu stefnuna, þingfulltrúaríkið, borgaralega samkeppni, borgaralegt prentfrelsi, borgaralegan rétt, borgaralegt frelsi og jafnrétti, og telja lýðnum trú um, að hann hefði ekkert að vinna í þessari borgaralegu hreyfingu, en öllu heldur allt að missa. Þýzki sósíalisminn var andlaust bergmál franskrar gagnrýni. En hann gleymdi því í tæka tíð, að hin franska gagnrýni var sprottin upp úr jarðvegi hins borgaralega þjóðfélags nútímans og efnalegum lífsskilyrðum og stjórnmálaskipan, er því hentaði. Allt voru þetta forsendur, sem eftir var að berjast fyrir á Þýzkalandi.

Þýzki sósíalisminn varð kærkomin barnagrýla einvaldsstjórnum Þýzkalands og hyski þeirra, prestum þeirra og skólameisturum, kartöflujunkurum og skriffinnum, í baráttunni gegn háskalegum uppgangi borgarastéttarinnar.

Þýzki sósíalisminn var sykraður ábætir eftir beiskan forrétt, hann dró úr sársaukanum, eftir að hinar sömu stjórnir bældu niður uppreisnir þýzkra verkamanna með svipum og byssukúlum.

Sósíalisminn „sanni" varð því á þessa lund vopn í hendi þýzkra ríkisstjórna gegn þýzku borgarastéttinni. En hann þjónaði einnig beinlínis hagsmunum afturhaldsins, hagsmunum hinna þýzku broddborgara. Á Þýzkalandi var broddborgarastéttin þjóðfélagslegur grundvöllur ríkjandi lifnaðarhátta frá því á 16. öld og hafði jafnan síðan endurnýjazt í ýmsum myndum.

Tilvera þessarar stéttar er lífsskilyrði ríkjandi þjóðfélagshátta í Þýzkalandi. Broddborgarastéttin óttast að efnahagsleg og pólitísk drottnun stórborgarastéttarinnar muni stefna sér í vísan voða, annars vegar fyrir sammögnun auðsins, hins vegar fyrir

uppkomu byltingasinnaðs öreigalýðs. Þessari stétt virtist sósíalisminn „sanni" slá tvær flugur í einu höggi. Hann breiddist út eins og landfarssótt.

Þýzku sósíalistarnir sveipuðu þessi beinaberu „eilífu sannindi" sín í hátíðavoðir, bleyttar í mollulegri munarmærð, þar sem uppistaðan var tunglspeki og ívafið skáldlegt málskrúð, en því útgengilegri urðu þau hjá þessu fólki.

Hins vegar skildi þýzki sósíalisminn æ betur, að honum hafði fallið í skaut að verða hinn gambursmikli fulltrúi þessara smáborgara.

Þýzki sósíalisminn flutti þann boðskap, að þýzka þjóðin væri hin heilbrigða þjóð og þýzki broddborgarinn hinn heilbrigði maður. Þýzki broddborgarinn framdi ekki þá fúlmennsku, að þýzki sósíalisminn fyndi þar ekki hulinn og háleitan sósíalískan anda honum til afsökunar. Loks beit hann höfuðið af skömminni og veittist að hinni „ruddalegu niðurrifsstefnu" kommúnismans og boðaði hlutlausa hátign sjálfs sín ofar allri stéttabaráttu. Með örfáum undantekningum eru öll rit, sem á boðstólum eru í Þýzkalandi og kenna sig við sósíalisma og kommúnisma, af sama toga spunnin og þessar auðvirðilegu og dáðlausu bókmenntir.

2. Íhaldssósíalisminn, eða sósíalismi borgaranna

Nokkur hluti borgarastéttarinnar vill ráða bót á þjóðfélagsmeinunum til þess að tryggja tilveru hins borgaralega þjóðfélags.

Í þessum flokki er að finna sparnaðarforkólfa, líknarengla og „mannvini", félagsbræður til hjálpar vinnustéttunum, dýraverndarmenn, frömuði góðgerðarfélaga, bindindispostula og útkjálkaumbætara sundurleitustu tegunda. Og þessi sósíalismi borgaranna hefur verið settur í heil kerfi.

Nefna má sem dæmi um þetta *Heimspeki eymdarinnar* eftir Proudhon.[25]

Hinir sósíalísku borgarar vilja halda við lífsskilyrðum ríkjandi þjóðfélags án baráttunnar og háskans, sem af þeim hljóta að spretta. Þeir vilja hafa þjóðfélag nútímans að frádregnum þeim öflum, er valda þar byltingu og upplausn. Þeir vilja borgarastéttina án öreigalýðsins. Borgarastéttin ímyndar sér auðvitað, að heimur sá, er hún drottnar í, sé hinn bezti heimur. Sósíalismi borgaranna setur þessa huggunarríku ímyndun í hálft eða heilt kerfi. Þegar hann biður öreigalýðinn um að framkvæma kerfi sín og gera svo vel að ganga inn í hina nýju Jerúsalem, þá krefst hann í rauninni aðeins þess, að öreigalýðurinn verði kyrr í þjóðfélagi nútímans, en losi sig við hinar bitru hugmyndir, er hann hefur gert sér um það.

Önnur tegund þessa sósíalisma var ekki eins kerfisbundin, en allmiklu rauntækari. Reynt var að venja verkalýðinn af byltingarsinnaðri starfsemi með því að sýna honum fram á, að honum kæmi ekki að neinu gagni hin eða þessi breyting í stjórnmálum, heldur skipti miklu meira máli breytingar á efnahagslegum og fjárhagslegum lífsskilyrðum hans. En sósíalismi þessi átti alls ekki við afnám borgaralegra framleiðsluhátta, sem aðeins getur náð fram að ganga í byltingarformi, heldur átti hann við endurbætur á stjórngæzlu, sem framkvæmdar verða á grundvelli þessara framleiðsluhátta og breyta því engu um samskipti auðmagns og launavinnu, en draga þegar bezt lætur úr þeim kostnaði, er borgarastéttin hefur af drottnun sinni, og auðveldar henni rekstur ríkisbúsins.

Borgarasósíalisminn verður þá fyrst sjálfum sér líkur, þegar hann er orðinn einskært ræðumannsblaður.

Frjáls verzlun í þágu verkalýðsins! Verndartollar í þágu verkalýðsins! Einmenningsklefar í tugthúsum í þágu verkalýðsins! Þetta er seinasta og einasta orðið, sem borgarasósíalisminn meinar í fullri alvöru.

Sósíalismi borgarastéttarinnar er einmitt fólginn í þeirri staðhæfingu, að borgararnir séu borgarar í þágu verkalýðsins.

### 3. Útópískur sósíalismi og kommúnismi

Hér er ekki átt við þær bókmenntir, sem túlkuðu kröfur öreigalýðsins í öllum stórbyltingum nútímans (rit Babeufs o. s. frv.)[26] Á þeim tíma, er lénsþjóðfélaginu var steypt af stóli og allt var í uppnámi, reyndi öreigalýðurinn að knýja fram stéttarkröfur sínar af eigin rammleik. Þessi viðleitni hlaut að mistakast fyrir þá sök, að öreigalýðurinn var enn þroskalítill, og einnig vegna hins, að enn skorti mjög á efnaleg skilyrði fyrir lausn hans, en þau komast fyrst til þroska á öld hins borgaralega þjóðfélags. Byltingabókmenntir þær, er fylgdu þessum fyrstu hreyfingum öreigalýðsins, eru að inntaki öllu afturhverfar. Þær boða almennan meinlætalifnað og grófgerða jafnaðarstefnu.

Hin sósíalísku og kommúnísku þjóðfélagskerfi Saint-Simons,[27] Fouriers[28] og Owens[29] o. fl. verða til á þeim tíma, er baráttan milli öreigalýðs og borgarastéttar er enn á byrjunarskeiði, svo sem áður var frá sagt. (Sjá kaflann: *Borgarar og öreigar.)*

Höfundar þessara kerfa sjá að vísu andstæður stéttanna og upplausnaröflin í ríkjandi þjóðfélagi. En þeir fá ekki séð, að öreigalýðurinn hafi sjálfstætt, sögulegt hlutverk að vinna, að hann eigi sér sérstæða pólitíska hreyfingu.

Þar sem þróun stéttaandstæðnanna siglir í kjölfar iðnaðarþróunarinnar, fá þeir ekki heldur komið auga á hin efnalegu

skilyrði fyrir lausn öreigalýðsins og leita að félagslegum vísindum, félagslegum lögmálum, til að skapa þessi skilyrði.

Þeir verða að beita persónulegri hugkvæmni í stað þjóðfélagslegra athafna. Í stað þess að leita skilyrðanna að lausn öreigalýðsins í söguþróuninni, leita þeir þeirra í fjarstæðukenndum draumórum. Í stað þess að festa hendur á þeirri skipulagsþróun, er breytir öreigalýðnum smám saman í þjóðfélagsstétt, smíða þeir utan um þjóðfélagið sitt eigið skipulag. Hin óorðna veraldarsaga er í þeirra augum fólgin í áróðri fyrir þjóðfélagsáformum þeirra og raunhæfri framkvæmd þeirra.

Þeir eru sér þess raunar vísir, að áform þeirra túlka fyrst og fremst hagsmuni hinnar vinnandi stéttar, vegna þess að hún er sú stéttin, sem þjáðust er. Í vitund þeirra er öreigalýðurinn eingöngu stétt hinna þjáðustu.

Vegna þess hve stéttabaráttan er skammt á veg komin, og vegna lífsstöðu sinnar í þjóðfélaginu, telja þeir sig hafna yfir allar stéttaandstæður. Þeir vilja bæta lífskjör allra manna, einnig þeirra, sem bezt eru stæðir. Þeir snúa því jafnan máli sínu til alls þjóðfélagsins án undantekningar, jafnvel fyrst og fremst til drottnandi stéttar. Því að menn þurfa ekki annað en að skilja kerfi þeirra, til þess að allir megi viðurkenna fullkomnasta skipulag hins fullkomnasta þjóðfélags.

Fyrir þá sök hafna þeir allri pólitískri starfsemi, sérstaklega allri byltingarstarfsemi. Þeir vilja ná marki með friðsamlegum hætti og leitast við að boða fagnaðarerindi hins nýja þjóðfélags með því að stofna til smátilrauna, er auðvitað hljóta að misheppnast.

Hin draumórakennda túlkun á þjóðfélagi framtíðarinnar verður til á þeim tíma, er öreigalýðurinn er enn mjög vanþroska og fær því ekki gert sér sjálfur grein fyrir tilveru sinni nema í draumsýnum. Þetta er hin fyrsta óljósa þrá eftir almennri gerbreytingu á þjóðfélaginu.

En þessi sósíalísku og kommúnísku rit eru að hinu leytinu mjög gagnrýnin. Þau ráðast á allar undirstöður ríkjandi þjóðfélags. Fyrir þá sök hafa þau orðið verkalýðnum mikill þekkingarauki. Hinar jákvæðu kenningar þeirra um þjóðfélagstilhögun framtíðarinnar, um afnám andstæðnanna milli borga og sveita, um afnám fjölskyldunnar, einkarekstursins, launavinnunnar, boðskapur þeirra um samstillt þjóðfélag, um gerbreytingu ríkisvaldsins í einskæra framleiðslustjórn – allar túlka kenningar þessar aðeins brottnám stéttaandstæðnanna. En þessar stéttaandstæður eru enn á frumstigi þróunar sinnar, og hinir útópísku sósíalistar þekkja þær ekki nema í losaralegustu mynd. Kenningar þessar eru því enn sem komið er útópíur einar.

Mikilvægi útópíska sósíalismans og kommúnismans er í öfugu hlutfalli við þroskastig söguþróunarinnar. Að sama skapi og stéttabaráttan þróast og verður fastari í sniðum, að sama skapi missir hann hagnýtt gildi og allan fræðilegan tilverurétt. Hann fær ekki lengur svifið yfir stéttabaráttunni né unnið gegn henni. Þótt höfundar útópíska sósíalismans væru byltingamenn í ýmsum efnum, þá hafa lærisveinar þeirra jafnan myndað afturhverfa trúarsöfnuði. Þeir halda fast við skoðanir lærifeðranna þvert ofan í sögulega þróun öreigalýðsins. Þeir reyna fyrir hvern mun að draga úr stéttaandstæðunum og berja í brestina. Þá dreymir enn um að framkvæma þjóðfélagslegar útópíur sínar á tilraunastöðvum, að stofna Falangstra,[30] Heimanýlendur,[31] litlar Íkaríur[32] – vasaútgáfur hinnar nýju Zíonsborgar. – Og til þess að byggja þessa loftkastala verða þeir að skjóta máli sínu til borgaralegrar hjartagæzku og peningapyngju. Smám saman blanda þeir blóði við hina afturhverfu og íhaldssömu sósíalista, sem að framan var lýst, og greinast frá þeim að því einu leyti, að þeir eru samkvæmari sjálfum sér í smásmyglinni og tröllriðnari af hleypidómum og ofsatrú á undralyf þjóðfélagsvísinda sinna.

Þess vegna snúast þeir öndverðir gegn öllum pólitískum hreyfingum verkamanna, sem gátu eingöngu vaxið upp úr megnustu vantrú á hið nýja fagnaðarerindi.

Á Englandi eru Owenistar[33] mótsnúnir chartistum,[34] og á Frakklandi eru Fourieristar[35] á öndverðum meiði við Endurbótasinna.[36]

## IV

## Afstaða kommúnista til hinna ýmsu stjórnarandstöðuflokka

Eftir það, sem sagt var í II. kafla, mun verða ljóst, hver er afstaða kommúnista til þeirra verkamannaflokka, sem þegar hafa verið stofnaðir, þ. e. afstaða þeirra til chartista á Englandi og Endurbótamanna landbúnaðarins í Norður-Ameríku.[37]

Kommúnistar berjast fyrir markmiðum og hagsmunum verkalýðsstéttarinnar á líðandi stund, en í hreyfingu nútímans eru þeir um leið fulltrúar hreyfingarinnar í framtíðinni. Á Frakklandi fylkja kommúnistar liði með hinum sósíalíska lýðræðisflokki[38] gegn hinni íhaldssömu og róttæku borgarastétt, án þess þó að afsala sér rétti til að gagnrýna vígorð og tálsýnir, sem byltingarhreyfingin hefur fengið að erfðafé.

Í Sviss styðja þeir róttæka flokkinn,[39] án þess að ganga þess duldir, að flokkur þessi er mjög sundurleitur að allri gerð, að

nokkru leyti skipaður lýðræðissinnuðum sósíalistum á franska vísu, að hinu leytinu róttækum borgurum.

Meðal Pólverja styðja kommúnistar þann flokk, er telur bændabyltingu vera skilyrði þjóðlegrar fjörlausnar, þann flokk, er stofnaði til uppreisnarinnar í Kraká árið 1846.[40]

Á Þýzkalandi berjast kommúnistar með borgarastéttinni, jafnskjótt og hún rís byltingarsinnuð gegn einveldinu, jarðeignavaldi aðalsins og smáborgaraskapnum.

En kommúnistaflokkurinn mun láta einskis ófreistað til að gera verkamönnum eins ljóst og unnt er, hve samskipti borgarastéttar og öreigalýðs eru fjandsamleg, svo að verkamenn Þýzkalands hagnýti sér þegar í stað hin félagslegu og pólitísku skilyrði, er borgarastéttin hlýtur að skapa með drottnun sinni, og smíði sér vopn úr þeim gegn borgarastéttinni sjálfri. Þegar stéttum afturhaldsins hefur verið steypt af stóli í Þýzkalandi, verður baráttan þegar hafin gegn borgarastéttinni sjálfri.

Meginathygli kommúnista beinist að Þýzkalandi, vegna þess að í Þýzkalandi stendur borgaraleg bylting fyrir dyrum. Þessi umbylting fer fram við miklu þroskaðri skilyrði evrópskrar siðmenningar yfirleitt og með virkjameiri öreigalýð, en á Englandi á 17. öld og á Frakklandi á 18. öld. Hin borgaralega bylting Þýzkalands getur því ekki orðið annað en beinn undanfari öreigalýðsbyltingar.

Kommúnistar styðja því alls staðar hverja þá byltingahreyfingu, sem snýst gegn ríkjandi þjóðfélags- og stjórnmálaháttum.

Í öllum þessum hreyfingum er eignarrétturinn það málefni, er skipa verður öndvegissess í hreyfingunni, á hvaða þróunarstigi sem þessi eignarréttur birtist.

Loks vinna kommúnistar að sambandi og samvinnu lýðræðisflokka í öllum löndum.

Kommúnistar hirða ekki um að leyna skoðunum sínum og ætlunum. Þeir lýsa því yfir afdráttarlaust, að takmarki þeirra verði því aðeins náð, að allri þjóðfélagsskipan verði steypt af stóli með valdi. Lofum hinum drottnandi stéttum að skjálfa fyrir kommúnistabyltingu. Þar hafa öreigarnir engu að týna nema hlekkjunum. Þeir eiga heilan heim að vinna.

*Öreigar allra landa, sameinizt!*

# Skýringar og athugasemdir

1) *Páfinn:* Páfi sá, sem hér um ræðir, var *Pius IX. (1846–1878).* Menn gerðu sér í fyrstu nokkrar vonir um, að hann mundi styðja frelsis- og þjóðernishreyfingu Ítala, en þær vonir brugðust með öllu, og páfinn snerist á sveif með hinu pólitíska afturhaldi, er ríkti um allt meginland Evrópu eftir

ósigur byltinganna 1848. Á hans dögum missti páfastóll öll veraldleg völd á Ítalíu, og páfinn var kallaður „fanginn í Vatíkaninu". Hann lét gera meyfæðingu Maríu guðsmóður að trúaratriði, og á kirkjuþingi 1870 var hin forna krafa um óskeikulleika páfans samþykkt.

2) *Rússakeisari:* Um þetta leyti ríkti *Nikulás I. keisari á Rússlandi (1825–1855).* Hann var mikill fjandmaður allra frjálslyndra stjórnmálahreyfinga í Evrópu á 19. öld. Hann kæfði allar hræringar í ríki sínu er til frelsis horfðu, en var auk þess jafnan boðinn og búinn til að hjálpa aðþrengdum stéttarbræðrum sínum í Vestur-Evrópu. Þegar júlíbyltingin á Frakklandi skall á, vildi Nikulás I. skakka leikinn, en fékk því ekki við komið. Hins vegar tók Austurríki boði hans með þakklæti 1849, er hann sendi Kósakkasveitir sínar til Ungverjalands að bæla niður uppreisn Ungverja. Fyrir þessar sakir var Rússland mjög illa þokkað meðal frjálslyndra og róttækra flokka í Evrópu á 19. öld.

3) *Metternich: Clemens Wenzel Lothar Metternich (1773–1859)* var utanríkisráðherra Austurríkis 1809–1848. Mestur var vegur hans á árunum 1815–1830, er áhrifa hans gætti mjög í þremur löndum, Austurríki, Þýzkalandi og Ítalíu. Hann vildi halda Evrópu í þeim skorðum, er Vínarþingið 1814–1815 hafði sett, og bæla niður allar pólitískar hreyfingar, er stefndu að stjórnarfarslegu frelsi og þjóðlegu sjálfstæði tvístraðra og undirokaðra þjóða. Júlíbyltingin veikti vald hans í Evrópu, en febrúarbyltingin 1848 steypti honum af stóli. Varð hann að flýja land um stund, en sneri aftur heim, er kyrrt var orðið. Ekki komst hann til embætta eftir þetta, en var samt allháhrifadrjúgur á bak við tjöldin.

4) *Guizot: François Pierre Guillaume Guizot (1787–1874)* var franskur stjórnmálamaður og nafntogaður sagnfræðingur. Hann var forsætisráðherra Loðvíks Filippusar Frakkakonungs á árunum 1840–1848 og harðvítugasti fulltrúi franskrar stórborgarastéttar á fyrri hluta 19. aldar. Febrúarbyltingin 1848 skolaði honum og ráðuneyti hans af stjórnpallinum. Eftir það fékkst hann eingöngu við ritstörf og er í fremstu röð sagnfræðinga á 19. öld.

5) *Patrísíar og plebejar:* Svo nefndust báðar höfuðstéttir frjálsra manna í Rómaríki hinu forna á fyrstu öldum lýðveldisins. Patrísíar voru erfðaaðall og sennilega niðjar fyrstu íbúanna í ríkinu. Þeir sátu einir að öllum pólitískum réttindum og öllum embættum ríkisins og áttu miklar jarðeignir. Plebejar hafa sennilega verið síðari innflytjendur. Þeir voru að mestu réttlausir í pólitískum efnum og fengu ekki þjónað neinu embætti. Barátta þessara stétta geisaði á árunum 500–300 f. Kr. og lauk svo, að fullt jafnrétti komst á með patrísíum og plebejum. Eftir það skipti auður, en ekki ættgöfgi, stéttum með Rómverjum.

6) *Lögstéttir:* Í fornöld og á miðöldum voru réttindi og skyldur stétta ákveðnar með lögum, réttarákvæðum eða venjum, sem höfðu laga ígildi. Sjálf stéttaskiptingin gat hins vegar verið af ýmislegum toga: ættgöfgi, auði eða atvinnu. Á miðöldum skipti atvinnan venjulega mönnum í stéttir: bændastétt, aðalsstétt, klerkastétt og borgarastétt. Réttur þessara stétta var mjög ójafn, t. d. voru aðalsmenn og klerkar oft og tíðum skattfrjálsir, og fór þá jafnan svo, að þær stéttir, sem minnst höfðu réttindin, höfðu mestar skyldur. Stéttir þessar voru oft kvaddar á þing, en venjulega áttu bændur þar enga fulltrúa. Þessi stéttaskipting og misrétti stéttanna voru afnumin af byltingum borgarastéttarinnar víðast hvar. Í fullþroskuðu borgaralegu þjóðfélagi er hver þegn öðrum jafn að lögum og réttindum.

7) *Lénsskipulag:* Þjóðfélagsskipulag þetta ruddi sér til rúms á síðustu öldum Rómarríkis og var ríkjandi um nálega alla Evrópu á miðöldum. *Efnahagsskipan* lénsveldisins var með þeim hætti, að vinnandi bændastétt, ófrjáls og ánauðug með ýmsum hætti, varð að ala önn fyrir yfirstétt aðals og klerka. Arðrán lénsveldisins var mjög einfalt og óbrotið: Bændur urðu að

gjalda yfirstéttinni hluta af afurðum jarða sinna, landskuld og tíund, auk óteljandi annarra gjalda, er spruttu af jarðarafnotum bænda eða persónulegu ófrelsi þeirra. Við þetta bættust svokallaðar *afvinnur*, eða skylduvinna bændanna á höfuðbólum yfirstéttarinnar.

*Stjórnarfarsleg skipan* lénsveldisins var á þá lund, að lénshöfðingjar, misvoldugir, höfðu dómsvald og framkvæmdavald á hendi, og stundum löggjafarvaldið líka. Ríkisvaldið var því tvístrað og skiptist á margar hendur.

8) *Fundur Ameríku, o. s. frv.:* Kristófer Kolumbus finnur Ameríku árið 1492. Árið 1498 fara Portúgalsmenn sjóleiðina til Indlands.

9) *Handiðja:* Á erlendum málum kallast handiðja *manufaktur*, og er eins konar millibilsskeið milli handverks miðaldanna og stóriðju nútímans. Tæknilega hvílir handiðjan að miklu leyti á sama grundvelli og hið forna handverk, en vinnuaflið er skipulagt með öðrum hætti. Ýmist er verkamönnum fjölgað að mun á sama vinnustað og framleiðslumagnið því aukið að sama skapi, eða margþættari verkaskiptingu er komið á í framleiðslu einnar og sömu vöru. Í félagslegum efnum veldur handiðjan þeim breytingum, að framleiðslutækin eru rekin af fésterkum auðmönnum, en handiðnaðarmaðurinn hefur ekki annað að selja en vinnuafl sitt. Frumdrög auðvaldsskipulagsins eru því fólgin í vinnubrögðum handiðjunnar. Blómaöld handiðjunnar eða handiðnaðarins er 17. öld og fyrri hluta hinnar 18.

10. *Gufuafl og vélar:* James Watt finnur upp gufuvélina 1764, og árið 1785 er hún notuð í fyrsta skipti í baðmullarverksmiðju í Nottingham á Englandi. Árið 1767 býr enskur vefari, James Hargreaves, til spunavélina „Jenny", en Arkwright endurbætti hana mjög síðar. Enskur prestur, Cartwright að nafni, finnur upp vélknúinn vefstól árið 1784.

11) *Griðaborgir:* Svo kallast miðaldaborgir þær, er nutu sjálfstjórnar og sjálfsforræðis. Ánauðugir bændur flýðu oft til þessara borga, því að „borgarloftið gerði menn frjálsa", eins og komizt var að orði á miðöldum. Víða voru það lög, að bóndi, sem flúið hafði úr ánauð og setzt að í borg, var frjáls maður, er hann hafði dvalið þar í eitt ár og einn dag, án þess að fyrri húsbóndi hans krefði hann framseldan. Borgargriðin áttu því mikinn þátt í að sundra þjóðfélagsháttum lénsveldisins.

12) *Stéttbundið konungsveldi:* Stéttir miðaldanna og málgögn þeirra, *stéttaþingin*, bundu í flestum löndum hendur konungsvaldsins, einkum að því er varðaði fjárveitingar, skattaálögur o. s. frv. Á 17. öld lögðust stéttaþingin víðast niður eða voru ekki kvödd til ráðstefnu. Verður konungsvaldið þá einrátt og með öllu óháð vilja stéttanna og þinga þeirra. Borgarastéttin virðist víðast hvar hafa sætt sig vel við einveldi konungs, enda naut atvinnurekstur hennar verndar þess. En í lok 18. aldar og á 19. öld varpar borgarastéttin af sér föðurlegum viðjum einveldisins og tekur sjálf við stjórnartaumunum.

13) *Kreppur:* Fyrsta almenna atvinnukreppan í Evrópu brast á árið 1825. Síðan urðu þær algengt fyrirbæri á 19. öld, t. d. á árunum 1836–1839 og 1847. Á síðara helmingi 19. aldar geisuðu kreppur á árunum 1857, 1873, 1891–1893 og loks á síðasta ári aldarinnar.

14) *Vélabrjótar:* Um miðja 18. öld urðu þegar brögð að því, að verkamenn réðust á vélar og brutu þær til þess að verja handiðnað sinn og heimilisiðju gegn samkeppni hinnar nýju tækni. Árið 1769 samþykkti enska þingið fyrstu lögin um refsingar gegn vélabrjótum. Var dauðarefsing lögð við slíkum skemmdarverkum. En þetta stoðaði lítt. Í Mið- og Norður-Englandi færðust skemmdarverkin í vöxt, en á þeim slóðum voru hin miklu iðjuver að rísa upp. Maður einn að nafni *Ned Ludd* í Nottingham á að hafa verið forsprakki að vélaskemmdum, og hefur hreyfing þessi dregið nafn af honum og er venjulega kölluð Luddítahreyfing. Raunar vita menn ekki, hvort Ludd þessi hefur nokkurn tíma verið til. Á árunum 1811–1812

færðist hreyfing skemmdarverkamanna mjög í aukana og samþykkti enska þingið þá í annað sinn dauðarefsingu við vélaskemmdum. Byron lávarður hélt einn uppi vörnum fyrir vélabrjótana í lávarðadeild enska þingsins. Árið 1813 voru 18 verkamenn teknir af lífi fyrir vélabrot. Eftir 1820 dó þessi hreyfing út, er verkamenn tóku að stofna með sér verkalýðssamtök.

15) *Tíu stunda vinnudagur:* Frá byrjun 19. aldar hafði verið reynt að takmarka vinnutíma barna og unglinga á Englandi, en með litlum árangri. Árið 1831 bar einn af þingmönnum brezka íhaldsflokksins fram frv. um að stytta vinnutíma unglinga undir 18 ára aldri niður í tíu stundir. Þótt takmörkun vinnutímans væri miðuð við 18 ára aldursmark hlaut hún að ná til allra verkamanna í reynd vegna vinnuskipulags í verksmiðjunum. Brezkur verkalýður skildi því vel, að hér var um að ræða kjarabót, er varðaði alla verkalýðsstéttina. Eftir harðvítuga baráttu tókst að fá þingið til að samþykkja styttingu vinnutímans árið 1847. Brezku verkalýðsfélögin höfðu skipað nefnd manna til að berjast fyrir vinnustyttingunni og nutu þar aðstoðar nokkurra áhrifamanna úr öðrum stéttum. Á sama tíma og baráttan var háð fyrir styttingu vinnutímans, áttu brezkir jarðeigendur og brezk borgarastétt með sér mikla glímu um afnám korntollsins. Reyndu aðall og borgarastétt að vinna fylgi alþýðunnar við málstað sinn í þessu máli, og því brá svo undarlega við, að blöð íhaldsflokksins, er vildu halda í korntollinn, börðust fyrir styttingu vinnutímans, en blöð frjálslyndra, er hömuðust gegn korntollinum, snerust nálega öll gegn lögum um vinnutímann. Á þinginu skiptust flokkarnir hins vegar svo í málinu, að leiðtogar íhaldsflokksins voru andvígir styttingu vinnutímans, en sumir helztu foringjar frjálslynda flokksins, flokks borgarastéttarinnar, voru henni meðmæltir. Lögin um styttingu vinnutímans, einn mesti sigur verkalýðsins á fyrri hluta 19. aldar, fengust því loks samþykkt fyrir hin miklu átök, er voru með tveimur helztu flokkum hinnar brezku yfirstéttar.

16) *Sveitaþyngslin:* Um miðja 18. öld námu útgjöld Englands til fátækraframfæris tæpum 700,000 £, en árið 1832 7 millj. £. Árið 1839 voru skráðir fátækrastyrkþegar á Englandi og í Wales einu saman 1,137,000 að tölu. Árið 1840 voru þeir 1,199,000, árið 1841 1,299,000 og árið 1842: 1,429,000. Þá var svo komið, að 11. hver maður á Englandi þáði sveitarstyrk.

17) *Franska byltingin:* Hér er átt við stjórnarbyltinguna miklu á Frakklandi 1789, er afnumin voru hin fornu lénsréttindi aðalsins á jörðum. Aðallinn var auk þess sviptur mestum hluta jarðeigna sinna, og kirkjujarðirnar voru gerðar að ríkiseign. Jarðeignir þær, er teknar voru af hinum gömlu yfirstéttum, voru flestar seldar bændum og borgurum.

18) *Júlíbyltingin:* Þegar Napóleon I. var steypt af stóli 1815, tók hin gamla franska konungsætt, Bourbonaættin aftur völd á Frakklandi. Hinn gamli aðall er hafði orðið landflótta í frönsku byltingunni 1789, hélt þá aftur heim og hugði á hefndir fyrir eignamissi sinn og glötuð völd. Hinar gömlu yfirstéttir, aðalsmenn og klerkar, hefðu helzt viljað snúa Frakklandi í hið sama far og verið hafði fyrir byltinguna, en það var á einskis manns færi. Konungur varð að gefa landinu stjórnarskrá, er tryggði mönnum nokkur pólitísk mannréttindi. Þing var í tveimur deildum, efri deild, skipuð af konungi, og gekk þingseta þar að erfðum, og fulltrúadeild, er var kosin af þjóðinni. Raunar voru kjósendur ekki nema 100,000 talsins, eða um $^1/_2$% af þjóðinni! Stórborgarastéttin og háaðallinn skiptu þannig með sér pólitískum völdum. En óánægjan með þjóðinni magnaðist æ meir, einkum eftir að Karl X. hafði tekið völd árið 1824. Ætlun hans var að koma á óbundnu konungseinveldi, og er stjórnarandstæðingar höfðu náð meiri hluta í fulltrúadeildinni, misnotaði konungur tilskipunarrétt sinn og rauf þingið, áður en það fékk komið saman til fundar. Franska borgarastéttin sá nú, að pólitískum völdum hennar var teflt í tvísýnu, og gerði því bandalag við verka-

lýðinn gegn konungi og afturhaldi hirðar hans. Hún lokaði verksmiðjum sínum og knúði verkalýðinn út á götuvígin. Verkamenn og stúdentar hröktu stjórnarherinn út úr borginni, en hinir frjálslyndu leiðtogar borgarastéttarinnar björguðu konungsdæminu með því að kveðja Loðvík Filippus af Orleans, yngri grein Bourbonaættarinnar, til konungs. Alþýðan hafði krafizt almenns kosningarréttar, en borgaraflokkunum tókst að halda þessum kröfum í skefjum og sníða hina nýju stjórnarskrá eftir þrengstu stéttarhagsmunum borgaranna. Efri deild þingsins var nú skipuð konungkjörnum þingmönnum, er sátu á þingi ævilangt og skyldu valdir, samkvæmt stjórnarskrárlögunum, úr hópi æðstu embættismanna og hæstu skattgreiðenda, verksmiðjueigenda, verzlunarstjóra og bankastjóra. Kosningaréttur til neðri deildar var bundinn við svo háar tekjur, að kjósendum fjölgaði upp í rúm 200,000 eða 1% af allri þjóðinni! Slíkur var sigur hinnar frönsku borgarastéttar.

19) *Stjórnarbótarhreyfingin:* Svo nefndist hin mikla pólitíska hreyfing á Englandi, er hófst um 1830 og barðist fyrir breyttri kjördæmaskipan og auknum kosningarrétti. Kjördæmaskipun Englands hafði lítið eða ekki breytzt síðan á miðöldum og var nær eingöngu sniðin við hagsmuni aðals og stórjarðeigenda. Hin nýju iðnaðarhéruð á Norður- og Mið-Englandi höfðu fáa eða enga fulltrúa á þingi, en fámenn sveitahéruð, er voru á valdi stórjarðeigenda, höfðu langflesta þingfulltrúa. Illræmdust þessara kjördæma voru hin svokölluðu „fúagreni" (rotten boroughs), þar sem aðallinn réð kosningu og kosningarétturinn var lífvænleg atvinnugrein íbúanna. Leiðtogar stjórnarbótarhreyfingarinnar voru úr hópi lávarða Frjálslynda flokksins og ullar- og baðmullariðjuhölda í Leeds og Manchester. Árið 1831 bar foringi Frjálslynda flokksins, John Russel lávarður, fram frv. um breytingu á kosningalögunum, þar sem farið var fram á, að fúagrenin yrðu mörg svipt rétti til þingfulltrúa, en kosningarrétt fengi allir, er greiddu 10 £ í húsaleigu á ári eða hefðu lífstíðarábúð á jörð. Þingið var nú rofið, og fylgismenn frumvarpsins fengu mikinn meirihluta í neðri málstofunni, en lávarðadeildin felldi það. Varð þá svo mikill hiti með þjóðinni, að litlu munaði að bylting mundi bresta á, en þá lét lávarðadeildin undan, og frumvarpið var samþykkt nokkuð breytt árið 1832. Hin nýja kosningaskipan veitti þó verkalýðnum engin stjórnmálaréttindi. Kjósendum fjölgaði aðeins úr 1/2 milljón í 700,000, eða frá 3% í 4%. Þessi kjósendafjölgun kom eingöngu miðstéttunum að gagni.

20) *Afturhaldstímabilið:* Tímabil þetta nær yfir árin 1815–1830, frá Vínarþinginu til júlíbyltingarinnar. Þá var reynt að endurreisa konungseinveldið og hin fornu völd aðals og klerka, svo sem verið hafði fyrir byltinguna 1789. Einnig var reynt að halda allri ríkjaskipan Evrópu í þeim skorðum, sem Vínarþingið hafði ákveðið. Júlíbyltingin á Frakklandi, frelsisbarátta Grikkja og sjálfstæðisbarátta Belgíu bundu endi á þetta afturhaldstímabil.

21) *England hið unga:* Svo nefndist hópur ungra íhaldsmanna og þingmanna, er voru andvígir foringja Íhaldsflokksins, Robert Peel. Leiðtogi hins unga Englands var Gyðingurinn *Benjamin Disraeli* (1804–1881), fluggáfaður rithöfundur og spjátrungur, síðar formaður Íhaldsflokksins og einn merkasti forsætisráðherra Englands. Þessir ungu íhaldsmenn voru mjög mótsnúnir hinni borgaralegu stefnu Peels og vildu grundvalla stefnu flokksins á auknu valdi krúnunnar og stuðningi hins réttlausa verkalýðs. Disraeli skrifaði nokkrar skáldsögur, meðal annars *Sybil, eða þjóðirnar tvær.* Ræddi hann þar hin miklu félagslegu vandamál samtíðar sinnar og lýsti stéttum Englands á þeim árum m. a. með þessum orðum: „Tvær þjóðir, er eiga engin samskipti með sér og enga gagnkvæma samúð, svo sem þær ættu heima í tveimur ólíkum löndum eða byggðu tvo himinhnetti." Disraeli hafði jafnan mikinn áhuga á kjörum alþýðunnar, og kom það fram í mörgu.

22) *Sismondi: Jean Charles Leonard de Sismondi* (1773–1842) var svissneskur að ætt, hagfræðingur og sagnfræðingur að menntun og gagnrýndi harðlega kenningar hinna ensku borgaralegu hagfræðinga, Ricardos og Adams Smith. Árið 1820 gaf hann út helzta hagfræðirit sitt: *Nýjar meginreglur hagfræðinnar – Nouveaux principes de l'économie politique.* Rannsakaði hann þar atvinnukreppu handiðnaðarins, er iðnbyltingin hafði valdið. Hann sá greinilega andstæðurnar með framleiðsluöflunum og neyzlu almennings og vildi stöðva þróun tækninnar.

23) *Hinn „sanni" sósíalismi:* Helzti fulltrúi hins „sanna" sósíalisma var rithöfundurinn *Karl Grün* (1817–1887). Hann hélt því m. a. fram, að sósíalisminn gæti komizt á í Þýzkalandi án þess að þjóðin gengi þróunarskeið auðvaldsins. Hreyfing þessi, sem Marx og Engels eyða svo þungum skeytum á, var í rauninni svo nauða ómerkileg, að hún var orðin sjálfdauða, þegar þeir sendu henni síðustu kveðjuna.

24) *Hinn sannmennski vilji:* Þessi útlistun Kommúnistaávarpsins á því, hvernig franska byltingin orkaði á þýzka heimspeki 18. aldar, er ekki runnin frá höfundum ávarpsins, heldur frá þýzka skáldinu *Hinrik Heine.* Heine hefur á mjög andríkan og snjallan hátt rakið skyldleika frönsku byltingarinnar og rita hinna þýzku heimspekinga, einkum Immanúels Kants. Má lesa um þetta í riti Heines, er kom út 1834: *Zur Geschichte der Religion und Philosophie in Deutschland,* bls. 234, 239, Werke IX. En Marx og Engels fengu einir útskýrt, hvernig stóð á þessum tengslum franskrar byltingar og þýzkrar heimspeki: hið þroskamikla franska þjóðfélag framkvæmdi byltinguna í reynd, en í hinu lágkúrulega og óharðnaða borgaralega þjóðfélagi Þýzkalands fór byltingin fram á sviði andans.

25) *Proudhon: Pierre Joseph Proudhon* (1809–1865) var franskur rithöfundur, en verður ef til vill fremur talinn til fræðimanna anarkismans (stjórnleysisstefnunnar), en sósíalismans. Árið 1840 birti hann merkasta rit sitt: *Hvað er eign?* og svaraði spurningunni með hinum frægu orðum: *Eign er þjófnaður!* Sex árum síðar gaf hann út ritið: *Philosophie de la Misère – Heimspeki eymdarinnar.* Karl Marx gagnrýndi Proudhon harðlega í riti, sem hann skrifaði til andmæla: *La Misère de la Philosophie – Eymd heimspekinnar* og út kom árið 1847.

Proudhon túlkaði kröfuna um „réttinn til vinnu", er var ein vinsælasta krafa verkamanna um þær mundir, og vildi hann koma á fót sérstökum seðlabanka til að framkvæma þetta. Áhrifa hans gætti lengi í franskri verkalýðshreyfingu.

26) *Babeuf: François Noel Babeuf* (1764–1797) var franskur byltingamaður og jafnan í róttækasta armi hinnar frönsku byltingar 1789. Eftir dauða Robespierres 28. júlí 1794 tók Babeuf að boða sósíalískar kenningar og réðst heiftarlega á séreignarréttinn og misskiptingu auðæfanna. Hann stofnaði leynilegan félagsskap til að steypa af stóli þáverandi ríkisstjórn Frakklands, hinum fimm þjóðstjórum, en samsærið komst upp, og Babeuf var hálshöggvinn, en félagar hans gerðir útlægir.

27) *Saint-Simon: Claude de Rauvroy Comte de Saint-Simon* (1760–1820). Hann var af frönskum aðli, en barðist í frelsisstríði Bandaríkjanna 1776–1783. Venjulega er hann talinn forkólfur hinna frönsku útópista, en um framkvæmd sósíalismans þótti honum vænlegast að leita á náðir Loðvíks konungs XVIII. á Frakklandi. Fyrir honum vakti að koma á reglubundnu þjóðfélagi, er stjórnað væri af vísindamönnum og iðjuhöldum. Síðar fékk kenning hans kristilegan blæ, svo sem sést á riti hans *Le Nouveau Christianisme – Hinn nýi kristindómur.* Þar orðar hann stefnuskrá sína svo: „Allt þjóðfélagið ætti að keppa að því að bæta kjör fátækustu stéttanna og það ætti að skipuleggja þjóðfélagið með þeim hætti, að þessu takmarki verði náð."

28) *Fourier: François Charles Marie Fourier* (1772–1837). Hann var franskur rithöfundur og sósíalisti. Fyrsta rit hans kom út 1808 og hét *Théorie des quatre mouvements – Þróunarskeiðin fjögur.* Heldur hann því fram, að samræmið sé grundvallarlögmál allrar tilveru – í þjóðfélagi, dýralífi, lífrænni og dauðri náttúru. Til þess að þetta samræmi komist á í þjóðfélaginu verði að skipuleggja það að nýjum hætti. Tillögur hans í þessu efni eru á þá lund, að þjóðfélaginu verði skipt í deildir eða umdæmi, *phalange,* er telji um 1600 manns og búi í sambyggingum – phalanstére –sem hafi jarðnæði til umráða. Eru nákvæmar reglur um skiptingu afrakstursins, um einkalíf manna og vinnubrögð.

Árið 1832 fór Fourier til Parísar og vænti þess, að einhver auðmaður yrði til þess að leggja fram fé til að framkvæma áform hans. Þrátt fyrir mikil vonbrigði týndi Fourier aldrei trúnni á kerfi sitt og félagsáætlanir.

29) *Owen: Robert Owen (1771–1858).* Hann var fæddur í Newtown á Englandi og var sonur smáframleiðanda. Ungur settist hann að í Manchester, miðstöð hins brezka baðmullariðnaðar, og gerðist forstjóri í verksmiðju þar. Síðar varð hann meðeigandi hinna miklu verksmiðja í New Lanark, þar sem unnu 2000 verkamenn, þar á meðal 500 börn á aldrinum 5–6 ára. Höfðu verksmiðjurnar fengið börn þessi í fátækrastofnunum Edinborgar og Glasgowborgar. Hann bætti mjög kjör þessa fólks og seldi því neyzluvörur þess með kostnaðarverði. Hann stofnaði skóla handa börnum og ól verkamenn sína, unga sem gamla, svo upp, að til fyrirmyndar var og vakti athygli um alla Evrópu. Árið 1813 birti hann fyrsta rit sitt: *A new View of Society – Ný þjóðfélagsbyggja,* þar sem hann heldur því fram, að umhverfið eitt móti manneðlið og túlkar skoðanir sínar á uppeldinu.

Eftir að Napóleonsstyrjöldunum lauk 1815, tók Owen að íhuga atvinnumálin frá almennara sjónarmiði og komst að þeirri niðurstöðu, að samkeppni vinnuafls og véla væri undirrót eymdarinnar og að mennirnir yrðu að gera vélarnar að þjónum sínum í samvirku þjóðfélagi. Lagði hann til að allri þjóðinni yrði skipt í umdæmi, er teldi um 500–3000 manns. Skyldi megináherzla lögð á akuryrkju, þar sem vélaaflið yrði hagnýtt sem frekast væri kostur. Umdæmi þessi skyldu vera sjálfum sér næg, eftir því sem unnt væri, en sameinast síðar í stærri heildir, unz allur heimurinn væri skipulagður með þessum hætti.

Owen hafði ímugust á pólitískum endurbótum, en taldi það affarasælast verkalýðnum að framkvæma í reynd tillögur hans um endursköpun þjóðfélagsins Árið 1825 keypti hann 30.000 ekrur lands í Indiana í Bandaríkjunum og kallaði landið *New Harmony.* Stofnaði hann þar sósíalistanýlendu, sem virtist all-lífvænleg í fyrstu, en leystist upp eftir skamma stund. Missti Owen mestan hluta eigna sinna í þessu fyrirtæki. Nokkrar fleiri tilraunir, er hnigu í sömu átt, voru gerðar á Englandi, en þær fóru allar á sömu lund. Á árunum 1820–30 vann Owen mikið meðal verkamanna til að fá þá til fylgis við hugmyndir sínar og stofnaði þá fyrsta landssamband verkalýðsfélaga á Englandi. En fjandskapur ríkisstjórnar Bretlands og atvinnurekenda sundraði þessum samtökum. Eftir 1834 hverfur Robert Owen úr verkalýðshreyfingunni, en hélt þó áfram ýmsum heimsumbótum allt til dauðadags.

30) *Falangstra:* Svo nefndust hinar sambyggðu hallir í framtíðarskipulagi Fouriers. (Sjá 28. skýringargrein.)

31) *Heimanýlendur:* Svo voru kallaðar hinar sósíalísku stofnanir Owens.

32) *Íkaríur:* Árið 1840 kom út bók á Frakklandi, er hét: *Ferðin til Íkaríu.* Höfundur hennar var *Étienne Cabet* (1778–1856), franskur maður, útópisti. Lýsti hann þar sameignarskipulagi í ókunnu landi, er hann kallaði *Íkaríu.* Sjálfur reyndi hann að stofna slíkt þjóðfélag í Texas árið 1848, en fyrirtækið fór út um þúfur.

33) *Owenistar:* Fylgismenn Roberts Owens höfnuðu pólitískri baráttu verkalýðsins, að hætti meistarans, en stofnuðu ýmis samvinnufélög, er sönnuðu tilverurétt samvirkrar verzlunar og framleiðslu.

34) *Chartistar:* Verkalýður Englands hafði orðið mjög vonsvikinn, er honum féllu engin pólitísk réttindi í skaut með stjórnarbótinni 1832. (Sjá skýringargrein 19.) Næst á eftir einbeittu verkamenn sér því á verkalýðsmálefni í þrengri merkingu, stofnun verkamannasamtaka, samvinnufélaga, o. s. frv. En ekki tókst verkamönnum þó að mynda landssamband verkalýðsfélaga, er stæði til langframa. (Sjá 29. skýringargrein.)

En á árunum 1837–1838 tók félag verkamanna í Lundúnum, *The London Working Men's Association,* sér fyrir hendur að semja lagafrumvarp um helztu kröfur verkalýðsins, *The People's Charter,* eða *frelsisskrá alþýðunnar,* Hreyfing þessi er því kölluð chartisminn, og þeir chartistar, sem að henni stóðu. Kröfur frelsisskrárinnar voru í 6 greinum: 1) Almennur kosningaréttur; 2) jöfn kjördæmaskipting; 3) afnám fjáreignar sem skilyrði fyrir þingframboði. 4) þingkosningar á ári hverju; 5) leynileg atkvæðagreiðsla; 6) þingfararkaup.

Chartisminn óx eins og fljót í vorleysingum, þótt margt yrði til að draga úr afli hans, einkum það, að gildandi lög Englands hindruðu myndun landssambands chartista. Þó héldu fulltrúar frá félögum chartista með sér þing í ársbyrjun 1839, en þá kom í ljós allmikill ágreiningur um bardagaaðferðir. Vildu sumir stofna leynisamtök og búast til vopnaðrar uppreisnar, en aðrir kusu hægfara og friðsamlega þróun í pólitískum og félagslegum efnum.

Kröfur chartista voru bornar upp á brezka þinginu, en voru kolfelldar. Ríkisstjórnin beitti hreyfinguna mikilli harðneskju, árið 1839 voru 380 chartistar dæmdir til fangelsisvistar. Árið 1842 hófu þeir allsherjarverkfall, og átti það mikinn þátt í, að lög voru samþykkt í enska þinginu um bann við vinnu kvenna og barna í námum. Hæst reis hreyfing chartista á krepputárunum 1842 og 1848. Í apríl 1848 ætluðu chartistar að fylkja lýðnum til mikillar kröfugöngu á fund þingsins, en kröfuganga þessi varð að engu. Eftir það dró mjög úr hreyfingu chartista. Hún hjaraði að nafninu til fram á miðjan fimmta tug aldarinnar, en eftir það gætir hennar ekki í sögu Englands.

35) *Fourieristar:* Svo nefndust fylgismenn og lærisveinar Fouriers. Gáfu þeir út blöð og tímarit til að útbreiða kenningar meistarans. Einnig reyndu þeir að framkvæma kenningar hans. Árið 1832 keypti einn af lærisveinum Fouriers góss nokkurt á Frakklandi og stofnaði þar samfélag sósíalista, en það flosnaði brátt upp. Í Ameríku voru um 40 falöngstrur stofnaðar á árunum 1840–1850, en flestar lifðu aðeins stutta stund.

36) *Endurbótasinnar:* Svo voru nefndir á Frakklandi róttækir lýðveldissinnar, er kröfðust aukins kosningarréttar. Blaðið *Reforme* var málgagn þeirra, en helztu foringjar *Louis Blanc* (1811–1882), og *Ledru-Rollin* (1808–1874). Þetta er sami flokkurinn og einnig kallast sósíalíski lýðræðisflokkurinn í Kommúnistaávarpinu.

37) *Endurbótamenn landbúnaðarins:* Í Ameríku kölluðust þeir *National Reformer's Association – Samtök þjóðlegra endurbótamanna,* og var flokkur þessi stofnaður árið 1844. Hann krafðist þess, að hverjum manni, er það vildi, skyldi fá jörð til ábúðar í hinum ónumdu vesturhéruðum Ameríku. Taldi flokkurinn það vera náttúrlegan rétt sérhvers Bandaríkjaþegns að fá slíka bólfestu, og krafðist þess af hverjum frambjóðanda til Bandaríkjaþings, að hann lofaði að greiða þessu atkvæði. Kröfur þessar voru framkvæmdar að nokkru með hinum svonefndu *bólfestulögum 1862 (Homestead Act).* Samkvæmt þeim hafði sérhver amerískur borgari rétt til að fá 160 ekrur lands af ríkisjörðum, ef hann hafði búið þar í 5 ár samfleytt og ræktað landið. Var bólfestan tryggð gegn skuldakröfum einstaklinga.

38) *Sósíalistíski lýðræðisflokkurinn:* Sjá 36. skýringargrein.

39) *Róttæki flokkurinn:* Flokkur þessi barðist gegn aðals- og klerkavaldi hinna svissnesku fylkja og bar sigur af hólmi, er hin afturhaldssömu fylki stofnuðu til borgarastyrjaldar í Sviss 1847.

40) *Pólski flokkurinn:* Flokkur þessi hét *Pólska lýðræðissambandið* og var stofnaður 1832. Í ársbyrun 1846 gerði þessi flokkur uppreisn í Kraká og myndaði þjóðlega stjórn undir forustu Mieroslavskís hershöfðingja. Stjórnin lofaði bændum jörðum og frelsi undan ánauð aðalsins. Uppreisnin var bæld niður og Kraká innlimuð í Austurríki.

FRIEDRICH ENGELS

# Þróun sósíalismans. - Hugsýn verður að vísindum

## Inngangur að ensku útgáfunni

Þetta stutta kver var upprunalega hluti af stærra verki. Árið 1875 lýsti aukakennari einn við Berlínarháskóla, dr. E. Dühring, yfir því óforvarandis og með talsverðum bægslagangi, að hann hefði snúizt til fylgis við sósíalismann, og það var engin óvera sem hann gaf þýzku þjóðinni: yfirgripsmikið sósíalískt fræðikerfi og í ofanálag handhæg áætlun um algera endurskipulagningu þjóðfélagsins. Það liggur í hlutarins eðli, að hann veittist að fyrirrennurum sínum og hellti yfir þá úr skálum reiði sinnar. Marx varð meir en nokkur annar þeirrar æru aðnjótandi.

Þetta gerðist um það leyti sem leidd hafði verið til lykta sameining beggja arma þýzka sósíalistaflokksins – fylgjenda Eisenach-stefnuskrárinnar og áhangenda Lassalles. Höfðu þeir ekki aðeins eflzt gífurlega við þetta heldur orðið færir um að beita þessu afli gegn sameiginlegum óvini, og var ekki minna um það vert. Sósíalistaflokkur Þýzkalands var óðfluga að verða að valdi í þjóðfélaginu. En frumskilyrði þess, að flokkurinn yrði slíkt vald, var, að hinni nýunnu einingu yrði ekki stefnt í voða. Dr. Dühring bjóst nú til að koma á fót klíku, þar sem hann væri höfuðpaurinn; skyldi hún mynda kjarna sérstaks nýs flokks. Fór hann ekki dult með þetta. Því varð okkur nauðugur einn kostur, að taka þeirri hólmgönguáskorun, sem okkur hefur verið gerð, og berjast til þrautar, hvort sem okkur er ljúft eða leitt.

Ljóst var, að þessu máli yrði engan veginn hespað af, enda þótt það yrði engum sérstökum vandkvæðum bundið heldur. Eins og alkunna er, er sá eiginleiki, sem nákvæmni nefnist, svo ríkur í fari okkar Þjóðverja, að stappar nærri ólíkindum. Við erum gæddir vandvirkri djúphygli eða öllu heldur djúpsærri vandvirkni, hvort heldur menn kjósa að kalla það. Í hvert skipti sem einhver okkar greinir frá einhverju, sem hann álítur vera nýja

kennisetningu, linnir hann ekki látum, fyrr en hann hefur gert hana að uppistöðu altæks kenningakerfis. Hann verður að færa sönnur á, að bæði frumreglur rökfræðinnar og grundvallarlögmál alheimsins hafi allt frá upphafi vega verið til, til þess eins, að unnt væri að lokum að fá fram þessa kenningu, sem ræki endahnútinn á allt. Og hvað þetta snerti var dr. Dühring engra eftirbátur. Hér var ekkert minna á ferðinni en „Allsherjarheimspekikerfi", heimspeki andans, náttúruheimspeki, siðfræði- og söguheimspeki, fullkomið „Yfirlit um þjóðhagfræði og sósíalisma", en lestina rak „Söguleg gagnrýni á þjóðhagfræði". Það voru þrjár þykkar bækur í áttablaðabroti, þunglamalegar jafnt að ytri sem innri gerð og höfðu að geyma hafsjó röksemda sem beitt var gegn öllum heimspekingum og hagfræðingum fyrri tíma, en sérstaklega þó gegn Marx. Í raun réttri var um að ræða tilraun til algerrar „umbyltingar á vísindasviðinu" – það var einmitt það, sem ég skyldi sagt hafa. Mér bar að fjalla um allt, sem nöfnum tjáir að nefna, um hugtök tíma og rúms, tvöfaldan myntfót, um ævarandi tilvist efnis og hreyfingar og fallvaltleik siðrænna hugmynda, kenningu Darwins um úrval náttúrunnar og barnauppeldi í framtíðarþjóðfélagi. Vegna kerfisbundinna málalenginga andstæðings míns gafst mér æ ofan í æ tækifæri til andsvara og færi á, að útlista í samfelldara máli en áður hefur reynzt unnt, skoðanir okkar Marx á þessum fjölbreytilegu fyrirbærum. Það var meginástæðan til að ég tók til við þetta miður þakkláta verkefni.

Svör mín birtust fyrst í greinaflokki í blaðinu „Vorwärts" í Leipzig[1] aðalmálgagni þýzka sósíalistaflokksins. Síðar birtust þau í bókarformi með titlinum: „Umbylting hr. Eugen Dührings á vísindunum", en önnur útgáfa bókarinnar kom út í Zürich árið 1886.

Fyrir bón vinar míns Pauls Lafargues, sem nú situr í fulltrúadeild franska þingsins fyrir Lille, útbjó ég þrjá kapítula þessa rits sem flugrit. Það þýddi hann og gaf út með titlinum „Socialisme utopique et socialisme scientifique" (Hugsýnissósíalismi – vísindalegur sósíalismi). Hinn franski texti var lagður til grundvallar við pólska og spænska útgáfu. Árið 1883 gáfu þýzkir vinir okkar deiluritið út á frummálinu. Síðan hefur verið höfð hliðsjón af þýzku útgáfunni við útgáfu þýðinga á ítölsku, rússnesku, dönsku, hollenzku og rúmensku. Þetta litla kver hefur því komið á tíu málum sé þessi enska útgáfa talin með. Ég veit ekki til, að neitt rit um sósíalisma hafi verið þýtt eins oft, og eru þá hvorki „Kommúnistaávarp" okkar frá 1848 né „Das Kapital"

[1] „Vorwärts" (Áfram): aðalmálgagn þýzkra sósíaldemókrata eftir sameiningarþingið í Gotha. Það kom út í Leipzig árin 1876–1878. – *Útg.*

eftir Marx undanskilin. Í Þýzkalandi hafa komið út fjórar útgáfur í samtals 20 þús. eintökum.

Viðbætirinn „Die Mark"[1] (Landamærahéraðið Brandenburg) var skrifaður í því skyni að koma á framfæri við félaga í þýzka sósíalíska flokknum fræðslu um nokkur undirstöðuatriði varðandi sögu og þróun eignarhalds á jörðum í Þýzkalandi. Sérstaka nauðsyn virtist bera til þessa um þær mundir, því að allvel hafði miðað við að vinna verkalýð borganna til fylgis við Sósíalistaflokkinn og nú reið á, að flokkurinn sneri sér að landbúnaðarverkamönnum og bændum. Þessi viðauki var tekinn með í þýðingunni, þar eð menn í Englandi kunna miklu minni skil en Þjóðverjar á þeirri skipan eignarréttar á landi, sem í árdaga var sameiginleg öllum ættflokkum Germana, og hrörnunarsögu hennar. Ég hef engar breytingar gert á frumtextanum, og því ekkert tillit tekið til þeirrar tilgátu, sem Maxim Kovalevski hefur nýlega komið með, um að í landamærahéruðunum í austri hafi verið til fjölskyldusamfélag, sem laut ættarhöfðingjum og arði landið í sameiningu, en síðan hafi akurlendi og bithögum verið skipt milli íbúa svæðisins. Þetta skipulag á að hafa staðið marga mannsaldra (hin júgóslavíska Zádruga, sem enn er við lýði, er dæmi um það). Skiptingin kom til síðar, þegar samfélagið var orðið svo fjölmennt, að erfitt var um vik við að starfa sameiginlega að búskapnum. Kovalevski hefur trúlega lög að mæla, en málið er enn óútkljáð.

Þau hagfræðilegu fræðiheiti, sem notuð eru í þessari bók, eru, að svo miklu leyti sem þau eru ný af nálinni, í samræmi við það, sem tíðkast í ensku útgáfunni á „Das Kapital" eftir Marx. „Vöruframleiðslu" nefnum við þann þátt efnahagsstarfseminnar, sem lýtur að framleiðslu hluta ekki aðeins til eigin nota, heldur einnig til skipta, þ. e. sem *vörur,* en ekki sem notagildi. Þessi framleiðsluþáttur spannar skeiðið frá upphafi skiptaverzlunar og allt til vorra daga. Fullum þroska nær vöruframleiðslan fyrst með tilkomu kapítalískra framleiðsluhátta, þ. e. við þau skilyrði, að verkamenn vinna fyrir kaupi hjá kapítalistanum, sem á framleiðslutækin. Verkamennirnir ráða engum framleiðslutækjum, nema þá vinnuafli sínu, og ágóðinn af söluverði framleiðslunnar umfram tilkostnað rennur í vasa kapítalistans. Við skiptum sögu iðnframleiðslunnar frá því á miðöldum í þrjú skeið: 1. Handverk, handverksmeistarar með lítil verkstæði, fáa sveina og nema, þar sem verkamennirnir smíða einstaka hluti að fullu. 2. Skipulögð handiðja, þar sem allmargir verkamenn starfa á stóru verkstæði og fullgera vöruna með því að viðhafa verkaskiptingu,

[1] Svo nefndi Engels viðbæti þann sem fylgdi fyrstu útgáfu ritsins í Þýzkalandi. Það var stutt ágrip af sögu þýzku bændastéttarinnar frá fyrstu tíð.

þannig að hver verkamaður leysir aðeins af höndum ákveðinn hluta verksins. Varan er því ekki fullunnin, fyrr en allir hafa lagt sitt af mörkum hver af öðrum. 3. Nútímastóriðja, þar sem vélar knúðar eldsneyti eru notaðar við framleiðsluna og starf verkamannsins er bundið við það eitt að fylgjast með gangi tækjanna og stjórna þeim.

Ég geng þess ekki dulinn, að margir brezkir lesendur munu fyrtast vegna efnis þessa kvers. En hefðum við meginlandsbúar tekið hið minnsta tillit til hleypidóma „sómakærra" Breta, þ. e. til brezks oddborgarahroka, væri áreiðanlega verr komið fyrir okkur en raun ber vitni. Við boðum í þessu riti það sem við köllum „sögulega efnishyggju", en orðið efnishyggja lætur skelfing illa í eyrum yfirgnæfandi meirihluta brezkra lesenda. Óvissukenning[1] kæmi e. t. v. til mála, en efnishyggja – um hana þarf ekki að ræða.

Samt sem áður á öll efnishyggja nútímans allt frá 17. öld rætur sínar að rekja til Englands, og einskis annars lands.

„Efnishyggjan er skilgetið afkvæmi brezku þjóðarinnar. Meira að segja skólaspekingurinn Duns Scotus lagði þá spurningu fyrir sjálfan sig „hvort efnið gæti ekki hugsað".

Til þess að framkvæma þetta kraftaverk leitaði hann halds og trausts hjá guði almáttugum, þ. e. a. s. hann þröngvaði guðfræðinni til að prédika efnishyggju. Þar að auki var hann nominalisti.[2] Nominalisminn er snar þáttur í skoðunum enskra efnishyggjumanna og í raun réttri efnishyggja í sinni elztu mynd.

Bacon er hinn raunverulegi frumkvöðull enskrar efnishyggju. Að hans dómi voru náttúruvísindin hin einu sönnu vísindi og hin skynræna eðlisfræði merkust allra greina náttúruvísinda. Hann höfðar mjög til Anaxagorasar með homoiomeríur sínar og Demokrits með atóm. Kenning hans var sú, að skilningarvitin væru óbrigðul og uppspretta allrar þekkingar. Vísindi eru reynsluvísindi, kenndi hann, og í því fólgin að leggja vitrænt mat á skynjanir skilningarvitanna. Meginforsendur vitrænnar rannsóknaraðferðar eru aðleiðsla, sundurliðun og samanburður, athugun og tilraunir. Hreyfingin er fremstur og mest um verður þeirra eiginleika sem efnið er gætt. Hér er ekki bara átt við hina aflfræðilegu og stærðfræðilegu hreyfingu, heldur öllu fremur að hreyfingin sé aflvaki, lífsandi og spenna, „kvöl"[3] efnisins svo að

[1] *Agnosticismus* af a á grísku: ekki og gnosis: vitneskja, þekking. Óvissuheimspekingurinn viðurkennir tilvist hins efnislega en álítur ókleift að öðlast vitneskju um það. – *Útg.*

[2] *Nominalismi:* af latneska orðinu nomen, nominis: nafn. Heimspekistefna á miðöldum, sem áleit hin almennu tegundarhugtök einungis vera nöfn á táknum áþekkra hluta. – *Útg.*

[3] Þetta er heimspekilegur orðaleikur. Þýzka orðið er „Qual", sem þýðir orð-

notuð séu orð Jakobs Böhme. Hinar frumstæðu myndir efnisins eru hin lifandi séreiginlegu eðlisöfl, sem það býr yfir og ráða um mismun og séreðli.

Hjá fyrsta frumkvöðli efnishyggjunnar, Bacon, sjást þegar þeir frjóangar sem dafnað hafa og þróazt með margvíslegu móti. Efnið hlær við manni, þar sem það birtist í skáldlegum og munúðlegum ljóma. Hin samhengislausa kenning er enn morandi af guðfræðilegri ósamkvæmni.

Þegar fram líða stundir verður þróun efnishyggjunnar einhliða. Hobbes ljær efnishyggju Bacons kerfisbundinn búning. Munúðleikinn missir blóma sinn og breytist í óhlutkenndan skynveruleik hjá rúmmálsfræðingnum. Hin eðliskennda hreyfing verður að þoka fyrir hinni aflfræðilegu og stærðfræðilegu. Boðskapurinn hljóðar á þá leið, að rúmmálsfræðin sé aðalgrein vísindanna. Efnishyggjan verður andmannleg. Til þess að geta sigrazt á hinum andmannlega og lífvana anda á sínu sviði, verður efnishyggjan sjálf að deyða holdið og taka upp meinlæti. Hún verður vettvangur vitsmunanna, en þroskar um leið með sér þá rökfestu vitsmunanna, sem er sjálfri sér samkvæm, án alls tillits til afleiðinga.

Ef maðurinn, útskýrir Hobbes, öðlast alla þekkingu fyrir skynhrif, og byggir þar á Bacon, eru skoðanir, hugsun, hugmyndir o. s. frv. ekkert annað en skuggar hlutheimsins, sem afklæðzt hefur skynrænum búnaði sínum að meira eða minna leyti. Vísindin megna einungis að gefa þessum skuggum nöfn. Eitt nafn getur átt við mörg skuggafyrirbæri. Meira að segja geta nöfnin átt sér nöfn. Það væri hins vegar um mótsögn að ræða, ef allar hugmyndir væru taldar eiga upptök sín í skynheimi, en því í annan stað haldið fram að orð væri eitthvað meira en orð, að til væru almennar verur auk þeirra, sem maður gerir sér hugmynd um og ávallt eru einstakar. Engu minni mótsögn felst í því að tala um óhlutkennda frumverund en óhlutkenndan hlut. Hlutur, tilvera og frumverund er ein og sama raunverulega hugmyndin. Það er ekki unnt að greina á milli hugsunarinnar og efnisins sem hugsar. Öll breyting verður í efninu sjálfu. Orðið óendanlegt er markleysa, ef það táknar ekki getu andans til að spanna víðar án takmarka. Ekkert er vitað um tilveru guðs, af því að einungis er hægt að fá vitneskju um hið efnislega og það

---

rétt kvöl eða þjáning. En dulfræðingurinn Böhme leggur að öðrum þræði í það merkingu latneska orðsins „qualitas", sem þýðir eigind. Það sem hann kallar „Qual" (kvöl) er sá eðlisþáttur, sem verkar sem hvati sjálfvirkrar þróunar í einhverjum hlut, persónu eða afstæðum og á þar upptök sín, andstætt þeirri kvöl eða þjáningu, sem kemur utan að. – *Útg.*

eitt verður skynjað. Það eitt, að ég er til, er öruggt. Allar mannlegar ástríður eru aflfræðilegar hreyfingar, sem eiga sér upphaf og endi. Hið góða er það sem sótzt er eftir. Sömu lögmálin gilda fyrir manninn og þau sem í gildi eru í náttúrunni. Vald og frelsi eru eitt og hið sama. Hobbes hafði sett skoðanir Bacons í kerfi, en ekki rökstutt nánar grundvallarreglur hans um að þekking og hugmyndir væru sprottin af ytri skynhrifum. Locke færði rök að reglu þeirra Bacons og Hobbes í riti sínu, „Tilraun til skýringar á uppruna mannlegs skilnings".

Hobbes kvað niður hleypidóma guðhyggjunnar[1] í efnishyggju Bacons. Sömu skil gerðu Collins, Dodwell, Coward, Hartley, Priestley og aðrir síðustu guðfræðitakmörkunum í skynhyggju Lockes, „deismus".[2] Fyrir efnishyggjumenn er hún að minnsta kosti ekki annað en leið til að losna við trúarbrögðin á handhægan hátt án þess að gera sér mikla rellu út af því."[3]

Þannig fórust Karli Marx orð um uppruna nútíma efnishyggju í brezkum jarðvegi. Og þegar Englendingar nú á dögum láta sér fátt um finnast þá viðurkenningu, sem forfeðrum þeirra fellur þannig í skaut, getum við ekki annað en harmað að svo er. Því verður samt sem áður ekki á móti mælt, að Bacon, Hobbes og Locke voru lærifeður hinna glæstu fulltrúa franskrar efnishyggju, sem gerðu að verkum að öldin átjánda varð í svo ríkum mæli öld Frakklands, þrátt fyrir alla þá sigra sem gengu Frökkum úr greipum í baráttu við Þjóðverja og Englendinga jafnt á sjó sem landi. Þannig var það löngu fyrir stjórnarbyltinguna frönsku í lok aldarinnar, en við hin, Englendingar og Þjóðverjar, erum enn af fremsta megni að leitast við að gera okkur mat úr því sem þar ávannst.

En um eitt verður þó ekki deilt. Ef erlendur menntamaður settist að í Englandi um miðja þessa öld, varð honum einkum starsýnt á einn hlut. Það var – eins og honum hlaut að koma það fyrir sjónir – trúarhræsni og heimskupör enskra „oddborgara" úr hópi millistéttafólks. Þá vorum við allir efnishyggjumenn eða mjög róttækir fríhyggjumenn. Það var skilningi okkar ofvaxið, að nær allt enskt menntafólk skyldi trúa á hverskyns fáránleg kraftaverk, og að jafnvel jarðfræðingar á borð við Buckland og Mantell skyldu hagræða staðreyndum í sinni vísindagrein, svo að þær færu ekki allt of hlálega í bága við goðsögnina um

[1] Theismus (guðhyggja): heimspeki- og guðfræðikenning, sem viðurkenndi tilvist persónugerðs guðs, sem skapað hefði alheiminn. – *Útg.*

[2] Deismus: heimspeki- og guðfæðistefna, sem hafnaði tilvist persónugerðs guðdóms, en aðhylltist trú á ópersónugervan guðdóm, sem væri frumorsök allra hluta. – *Útg.*

[3] Marx und Engels: Die heilige Familie. Frankf.a.M. 1845, 201–202 bls. (Aths. Engels).

sköpun heimsins í Mósebókunum. Okkur fannst næsta óskiljanlegt að verða að leita á náðir ómenntaðra manna til að hitta fyrir fólk, sem áræddi að beita skynseminni, þegar trúmál voru annars vegar. Maður varð að leita til hins „óbreytta lýðs“, eins og sagt var, til verkamanna, einkum úr hópi þeirra sem aðhylltust sósíalisma Owens.

En á þeim tíma, sem liðinn er, hafa Englendingar hrist af sér heimóttarskapinn. Með heimssýningunni árið 1851 var endir bundinn á hina eybundnu ensku einangrunarhneigð. Englendingar samlöguðu sig smátt og smátt samfélagi þjóðanna hvað snerti mat og drykk, siðvenjur og skoðanir. Þetta hefur gerzt í svo ríkum mæli, að sú ósk verður æ ríkari í huga mér, að ýmsar enskar siðvenjur mættu ryðja sér jafn almennt til rúms á meginlandi Evrópu og siðir meginlandsþjóðanna hafa gert í Englandi. En svo mikið er víst, að samfara útbreiðslu salatsolíunnar (sem aðallinn einn þekkti til 1851) hefur rutt sér til rúms með ísjárverðum hætti sú trúarlega efahyggja, sem landlæg er á meginlandinu. Ástandið er nú slíkt, að óvissuheimspekin hefur áunnið sér þegnrétt og virðingu. Hún jafnast að vísu enn ekki á við það að vera í þjóðkirkjunni, en skipar áþekkan sess og trúfélög baptista og er að minnsta kosti sett skör hærra en hjálpræðisherinn. Og ég get því ekki varizt þeirri hugsun, að mörgum þeirra, sem af heilum hug harma og fordæma þennan viðgang vantrúarinnar, sé nokkur huggun í að fá vitneskju um, að þessar nýstárlegu hugmyndir eru ekki af erlendum toga. Þær eru ekki prýddar merkinu: Búið til í Þýzkalandi, þýzk framleiðsla, eins og svo margir hlutir, sem notaðir eru í dagsins önn, heldur eru þær frá enskum komnar, og það fyrir löngu, og hinir ensku upphafsmenn þeirra fyrir tvö hundruð árum gengu sýnu lengra í þessa átt en eftirkomendurnir gera nú.

Hvað er í rauninni óvissuheimspeki annað en efnishyggja haldin blygðunarkennd? Skoðanir óvissuheimspekingsins á umheiminum eru hreinræktuð efnishyggja. Ríki náttúrunnar lýtur allt eigin lögmálum og algerlega er loku fyrir það skotið, að um neinskonar íhlutun utanaðkomandi afla sé að ræða. En – heldur óvissuheimspekingurinn varfærnislega áfram – við höfum engin tök á að sanna eða afsanna, hvort til sé einhver æðsta vera „hinum megin við heiminn, er vér þekkjum“. Þessi fyrirvari kann að hafa verið einhvers virði í þann tíð, er Napóleon spurði Laplace, hinn mikla stjörnufræðing, hvers vegna ekki væri svo mikið sem minnst á skaparann í riti hans „Mécanique céleste“[1], en hinn síðarnefndi svaraði með stolti: „Je n'avais

[1] P. S. Laplace: „Traité de mécanique céleste“: Ritgerð um aflfræði himingeimsins I–V bindi, kom út í París á árunum 1799–1825. – *Útg.*

pas besoin de cette hypothèse“ (: ég þurfti ekki þeirrar tilgátu við). En í dag eru hugmyndir okkar um þróun alheimsins orðnar á þann veg, að þær ljá alls ekki máls á tilvist skapara né stjórnanda. En vilji maður aðhyllast trú á æðri veru, sem til sé utan við alheiminn sjálfan, er það mótsögn í sjálfu sér og mér virðist það í ofanálag mundi særa tilfinningar trúaðra manna ómaklega.

Óvissuheimspekingur játar einnig, að allt sem við vitum eigi rót sína að rekja til boða sem við fáum gegnum skilningarvitin. En bætir hann við, hvernig vitum við, hvort skilningarvitin sjá okkur fyrir réttri eftirmynd af því, sem við höfum skynjað með þeim? Og enn heldur hann áfram: Þegar hann talar um hluti og eiginleika þeirra, á hann í raun og veru ekki við sjálfa hlutina og eiginleikana sjálfa, sem hann getur ekki haft neina örugga vitneskju um, heldur einungis þau áhrif, sem skilningarvit hans hafa orðið fyrir. Þetta er raunar skoðun sem örðugt er að kljást við með röksemdafærslu einni saman. En fólk framkvæmdi áður en það leitaði raka. „Í upphafi var athöfnin“ (Faust I). Og þetta vandamál var þegar löngu leyst með mannlegum athöfnum, er maðurinn uppgötvaði það með heilabrotahyggjuviti sínu. „The proof of the pudding is in the eating“ (Maður sannreynir grautinn með því að éta hann) (: Reynslan er ólygnust, sjón er sögu ríkari). Á sömu stundu, sem við tökum sjálf að notfæra okkur þessa hluti, hvern eftir þeim eiginleikum, sem við skynjum í honum, ganga skynjanir okkar undir próf, sem sker úr því með óyggjandi hætti, hvort þær eru réttar eða rangar. Ef skynjanirnar væru rangar hlyti einnig dómur okkar um nothæfi slíkra hluta að vera rangur, og viðleitni okkar til að nota þá hlyti að mistakast. En ef við náum markmiði okkar og komumst að raun um, að hluturinn samsvarar þeim hugmyndum, sem við höfum gert okkur um hann, að hann dugar til þeirrar notkunar, sem við ætluðum honum, sannar þetta svo að ekki verður um villzt, að skynjun okkar á hlutnum og eiginleikum hans er í samræmi við raunveruleikann kringum okkur innan þessara takmarka. Ef okkur hins vegar verður ljóst, að við höfum farið vill vegar, líður yfirleitt ekki á löngu, unz við komumst fyrir orsakir þess. Við komumst annaðhvort að raun um, að þær skynjanir, sem liggja til grundvallar viðleitni okkar, eru ófullnægjandi og yfirborðskenndar eða að við höfum ekki tengt þær við niðurstöður annarra skynjana í réttu samræmi við málavexti. Á meðan við notum skilningarvit okkar og notum þau á réttan hátt og miðum gerðir okkar eingöngu við réttar skynjanir og rétt metnar, munum við komast að raun um, að árangur gerða okkar verður til sann-

indamerkis um, að samræmi sé milli skynjunar okkar á hlutnum og hlutarins eins og hann er í raun og veru. Allt til þessa eru ekki kunn nein dæmi þess, að við höfum verið knúnir til þeirrar niðurstöðu, að vísindalega gaumgæfðar skynjanir hafi kveikt í heila okkar hugmyndir um umheiminn, sem í eðli sínu eru frábrugðnar því sem er í raun og veru, eða að meðfæddur ósamrýmanleiki ríki milli umheims og skynjana.

En þá kemur til sögunnar óvissuheimspekingurinn í anda Kants og segir: Já, það er hugsanlegt, að við getum skynjað eiginleika einhvers hlutar rétt, en við getum ekki skilið hlutinn sjálfan með neinum skilvitum okkar eða hugsunarferlum. Hluturinn í sjálfum sér er utan seilingar fyrir þekkinguna. Það er nú þegar langt um liðið síðan Hegel svaraði þessu: Þegar maður þekkir alla eiginleika hlutar, þekkir maður líka hlutinn sjálfan. Þá er ekkert eftir utan sú staðreynd að téður hlutur er til óháður okkur, og jafnskjótt og skilningarvitin hafa gert okkur þá staðreynd ljósa, hefur maður skilið þennan hlut til fulls og höndlað hinn nafntogaða óþekkjanlega hlut í sjálfum sér, sem Kant talar um. Í dag er einungis því við að bæta, að á dögum Kants var öll þekking manna á náttúrulegum hlutum svo mjög í molum, að maður gat rennt grun í sérstakan leyndardómsfullan hlut í sjálfum sér, er stæði að baki hverjum þeirra. En síðan hefur hin tröllaukna framþróun vísindanna orðið til þess að skýra þessa óþekkjanlegu hluti einn af öðrum. Þeir hafa verið brotnir til mergjar, og það sem meir er um vert, framleiddir að nýju. Og það sem við getum *búið til*, er örugglega ekki hægt að kalla óþekkjanlegt. Hin lífrænu efni voru þvílíkt land leyndardómanna fyrir efnafræðinga á fyrri helmingi aldarinnar. Nú lærist okkur að gera þau eitt af öðru úr hinum efnislegu frumþáttum án lífrænna efnagerla. Efnafræðingar nútímans segja: Jafnskjótt og efnafræðileg gerð hvaða efnis sem er, er kunn, er unnt að búa þetta efni til úr frumþáttum sínum. Við eigum að vísu enn langt í land að þekkja til hlítar gerð hinna flóknustu lífrænu efna, eggjahvítuefnanna svonefndu. En alls ekkert er því til fyrirstöðu, að við getum öðlazt þekkingu á þeim, jafnvel þótt það taki aldir, og framleitt tilbúna eggjahvítu í krafti þeirrar þekkingar. En náum við svo langt, höfum við líka framleitt líf úr lífefnum, því að lífið í öllum sínum myndum frá lægsta þrepi til hins efsta er ekki annað en eðlilegur tilveruháttur eggjahvítuefna.

En hafi áðurnefndur óvissuheimspekingur gert þessa formlegu fyrirvara í eitt skipti fyrir öll, talar hann og breytir algerlega að hætti harðvítugra efnishyggjumanna, en það er hann líka, þegar öllu er á botninn hvolft. Hann kann að taka til

orða eitthvað á þessa leið: Að því er *við* bezt vitum, er hvorki hægt að skapa né ónýta efni og hreyfingu eða orku eins og nú er sagt, en við höfum engin tök á að afsanna, að hvort tveggja hafi ekki verið skapað einhvern tímann í fyrndinni. En reyni maður einhverju sinni, þegar svo ber undir að notfæra sér þessa játningu gegn honum, er hann ekki seinn á sér að vísa manni á bug og segja manni að hafa sig hægan. Ef hann viðurkennir andahyggjuna almennt hafnar hann henni í hverju tilviki. Hann mun segja manni sem svo: Að því er við bezt vitum og höfum tök á að vita fyrirfinnst enginn skapari eða stjórnandi alheimsins. Að því er við bezt fáum séð er hvort tveggja jafnómögulegt, að skapa og að ónýta efni og orku. Við álítum hugsunina eina mynd orkunnar, einskonar starfsemi heilans. Allt, sem *við* vitum, hnígur í þá átt, að efnisheimurinn lúti óumbreytanlegum lögmálum o. s. frv. Að svo miklu leyti, sem hann er vísindamaður, að svo miklu leyti, sem hann veit eitthvað, er hann efnishyggjumaður. Þegar vísindunum sleppir og við taka þekkingarsvið, sem hann er ekki heima á, finnur hann sér grískt orð yfir fáfræði sína og kallar hana agnostisisma (óvissukenningu).

Eitt virðist þó öruggt mál. Jafnvel þótt ég væri óvissuheimspekingur gæti ég ekki kallað drög þau að söguskoðun, sem þetta kver hefur að geyma „sögulega óvissukenningu“. Trúað fólk myndi draga dár að mér, en efahyggjumenn myndu sárir í bragði spyrja hvort ég væri að gera gys að þeim. Ég vona þess vegna að brezkur virðuleiki, sem við köllum broddborgarahátt á þýzku, hneykslist ekki um of, þótt ég noti á ensku orðin „söguleg efnishyggja“, en þau eru á mörgum öðrum málum höfð um þá skoðun á söguþróuninni, sem álítur efnahagsframvindu þjóðfélagsins ráða mestu um alla mikilvægustu viðburði sögunnar þegar öll kurl koma til grafar og vera hreyfiafl hennar, að frumorsökin sé breytingar á framleiðslu- og viðskiptaháttum og sú stéttaskipting þjóðfélagsins og stéttabarátta, sem af þeim leiðir.

Ef til vill verður mér sýnt enn meira umburðarlyndi, ef ég leiði að því rök, að hin sögulega efnishyggja getur meira að segja komið brezkum oddborgurum að gagni til þess að halda virðuleik sínum. Ég hef drepið á þá staðreynd að fyrir 40–50 árum hafi tiltekið fyrirbæri komið mjög illa við alla erlenda menntamenn, sem settust að í Englandi, það er sú trúarhræsni og trúarofsi, sem hin virðulega enska millistétt var haldin af. Ég ætla nú að sýna fram á, að hin sómakæra enska millistétt var á þeim árunum ekki öll þar sem hún var séð og ekki eins fávís og skynsamir útlendingar töldu. Trúhneigðin á sér skýringu.

Í þeirri Evrópu, sem saga miðaldanna hafði skapað, var hin

vaxandi borgarastétt bæjanna byltingarsinnað afl. Sá viðurkenndi sess, sem hún hafði áunnið sér innan ramma hinnar lénsku stjórnskipunar, var þegar orðinn vaxtarmegni hennar fjötur um fót. Óhindruð þróun borgarastéttarinnar gat ekki lengur samrýmzt lénsskipulaginu. Það varð að þoka um set. En rómverskkaþólska kirkjan var hin mikla miðstöð lénsskipulagsins. Hún batt alla hina lénsku Vesturevrópu saman í eina stóra stjórnmálaheild, þrátt fyrir styrjaldir ríkja í milli. Hún var andstæða bæði hins gríska rétttrúnaðar og heims múhameðstrúarmanna. Hún sveipaði hið lénska stjórnkerfi dýrðarljóma guðlegrar helgi. Tignarröð starfsmanna hennar var sniðin eftir lénsskipuninni og að endingu var hún stærst allra lénsherra, því að hún átti a. m. k. þriðjung allra jarðeigna í kaþólska heiminum. Það varð að koma þessari helgu miðstöð lénsskipulagsins fyrir kattarnef, áður en unnt væri að ráðast gegn hinu veraldlega lénsskipulagi í hverju landi fyrir sig. En samfara viðgangi borgarastéttarinnar áttu sér stað geysilegar framfarir á vísindasviðinu. Tekið var að fást við stjörnufræði og lífeðlisfræði á nýjan leik. Til að örva iðnaðarframleiðsluna færði borgarastéttin sér í nyt vísindi, sem rannsökuðu fyrirbæri náttúrunnar og starf náttúruaflanna. Fram til þessa höfðu vísindin einungis verið auðmjúk ambátt kirkjunnar, sem ekki mátti rjúfa þær skorður sem trúarbrögðin reistu. Þau höfðu í stuttu máli sagt verið allt annað en vísindi. Nú gerðu vísindin uppreisn gegn kirkjuvaldinu. Borgarastéttin þurfti vísindanna með og tók þátt í uppreisninni.

Ég hef hér að framan einungis drepið á tvö atriði, sem hlutu að valda árekstrum milli hinnar framsæknu borgarastéttar og ríkjandi kirkjuvalds. Það mun þó nægja til að sanna eftirfarandi: Í fyrsta lagi að einmitt þessi borgarastétt tók virkastan þátt í baráttunni gegn valdaaðstöðu kaþólsku kirkjunnar, og í öðru lagi, að þá varð öll barátta gegn lénsskipulaginu að íklæðast trúarlegum búningi og fyrst og fremst að beinast gegn kirkjunni. Enda þótt herópið kvæði við í háskólunum og meðal kaupmanna í bæjunum, hlaut það að fá og fékk öflugan hljómgrunn hjá alþýðu í sveitum og hjá bændum, sem hvarvetna háðu harðvítuga baráttu fyrir eigin tilveru við herra sína, geistlega jafnt sem veraldlega.

Þrjár miklar úrslitarimmur eru hámark þessarar baráttu borgarastéttar Evrópu við lénsskipulagið.

Það, sem við köllum siðbótina í Þýzkalandi, var hin fyrsta þeirra. Tvær pólitískar uppreisnir urðu, sem afleiðing af ákalli Lúthers um uppreisn gegn kirkjunni. Fyrst gerði lágaðallinn uppreisn undir forustu Franz von Sickingen árið 1523, síðan varð bændauppreisnin mikla árið 1525. Báðar voru bældar niður

aðallega vegna tvíráðrar afstöðu borgaranna, þess hóps sem málið var skyldast. Við getum þó ekki tekið til athugunar hér, hverjar orsakir lágu til þessarar tvíráðu afstöðu. Uppfrá þessu koðnaði baráttan niður í að verða deila milli einstakra fursta og keisaralegs miðstjórnarvalds. Afleiðing þessa varð sú, að þýzka þjóðin hvarf úr sögunni sem pólitískt áhrifaafl í Evrópu og stóð svo um tvær aldir. Reyndar komust með siðaskiptunum og lútherskunni á ný trúarbrögð, og voru þau trúarbrögð svo sannarlega mjög við hæfi hins algera einveldisstjórnarfars. Bændurnir í norður- og austurhéruðunum höfðu vart fyrr snúizt til lútherstrúar en þeir voru sviptir frelsi og gerðir ánauðugir.

En þar sem Lúther brást bogalistin hrósaði Kalvin sigri. Kenning hans var sniðin við hæfi hinna framgjörnustu úr borgarastétt þeirra tíma. Náðarvalskenning hans var trúarleg tjáning þeirrar staðreyndar, að það er ekki undir starfi hvers einstaklings komið eða hæfni, hvort hann ber hærri hlut í verzlunarheimi samkeppninnar, eða verður að lúta í lægra haldi. Því ráða aðstæður, sem hann er ekki herra yfir. Það er ekki undir vilja og amstri hvers og eins komið, heldur verður það fyrir „náð" æðri óþekktra máttarvalda efnahagslífsins. Og í þessu var óneitanlega nokkur sannleikur fólginn, nú þegar miklar breytingar áttu sér stað á efnahagssviðinu. Gamlar verzlunarleiðir og verzlunarmiðstöðvar þokuðu fyrir nýjum, svo að Ameríka og Indland komust í samband við umheiminn og menn tóku jafnvel að linast og veiklast í trúnni á þau efnahagslögmál sem elzt voru og æruverðust – trúnni á verðmæti gulls og silfurs. Þar við bættist, að kirkjuskipan Kalvins var lýðræðisleg í einu og öllu og í anda lýðveldismanna. En þegar guðsríki varð lýðveldi, gátu þá ríki þessa heims verið konungum, biskupum og lénsherrum undirgefin? Lútherstrúin í Þýzkalandi hafði orðið handhægt tæki í höndum þýzkra smáfursta, en kalvinstrúin leiddi til lýðveldisstofnunar í Hollandi og fyrir hennar tilverknað spruttu upp öflugir flokkar lýðveldissinna í Englandi og einkum þó í Skotlandi.

Í kalvinstrúnni fann borgarastéttin fullmótaðar þær hugmyndir sem hún barðist fyrir í þeirri uppreisn sinni, sem önnur er í röðinni. Þessi uppreisn átti sér stað í Englandi. Borgarastétt bæjanna hratt henni af stað, en sjálfseignarbændur af miðlungsstærð úr sveitahéruðunum gerðu hana sigurstranglega með baráttu sinni. Það er næsta eftirtektarvert, að í öllum hinum miklu borgaralegu byltingum, þrem að tölu, eru þeir herskarar, sem eigast við skipaðir bændum. En það brást ekki, að einmitt bændastéttin varð að unnum sigri að þola ærnar búsifjar vegna efnahagslegra afleiðinga sigursins. Hundrað árum eftir daga

Cromwells höfðu sjálfseignabændur að mestu horfið í Englandi. Engu að síður, ef ekki hefðu verið þessir sjálfseignabændur og almúgi í bæjum, hefði borgarastéttin aldrei látið sverfa til stáls í deilunni og leitt Karl I á höggstokkinn. Nauðsynlegt reyndist að færa byltinguna talsvert út fyrir það svið, sem henni hafði verið markað, svo að borgarastéttin gæti að minnsta kosti hlotið þann ávinning af sigrinum, sem forsendur voru fyrir. Sama varð uppi á teningnum í Frakklandi árið 1793 og í Þýzkalandi 1848. Það virðist svo sannarlega vera eitt af þróunarlögmálum borgaralegs þjóðfélags.

Þegar byltingin hafði gengið út í öfgar á þennan hátt, hlaut afturkippurinn óhjákvæmilega að fylgja í kjölfarið. Var þá reitt hátt til höggs, en höggið geigaði hrapallega. Eftir japl og jaml og fuður fór svo um síðir að hin nýja valdaskipan var látin haldast og markaði hún þannig þróuninni braut. Hinu stórfenglega tímabili í enskri sögu, sem oddborgararnir nefna „uppreisnina miklu" og bardögunum sem á eftir komu lauk með tiltölulega lítilvægum atburði árið 1689. Það kalla frjálslyndir sagnritarar „byltinguna frækilegu".

Lögð var til grundvallar málamiðlun milli hinnar vaxandi stórborgarastéttar og stórjarðeigenda, sem áður höfðu verið lénsherrar. Enda þótt hinir síðarnefndu væru þá sem nú kallaðir aðalsmenn, voru þeir fyrir löngu teknir að breytast í það, sem Loðvík Filippus varð löngu síðar í Frakklandi: fremstu menn þjóðarinnar úr borgarastétt. Englendingar höfðu átt því láni að fagna að gömlu lénsherrarnir höfðu drepið hver annan í Rósastríðunum. Þótt eftirmenn þeirra væru mestmegnis afsprengi sömu gömlu ættanna, voru þeir af svo fjarskyldum hliðargreinum þeirra, að þeir mynduðu alveg „nýja stétt". Þeir voru miklu fremur borgaralegir en lénskir í háttum og sama gilti um áhugamál þeirra. Þeir kunnu fyllilega skil á gildi peninga, og voru því ekki seinir á sér að hækka jarðarafgjöld, jafnframt því sem hundruð leiguliða urðu að þoka úr sæti fyrir sauðfjárrækt. Hinrik 8. skóp fjölmenna nýja stétt borgaralegra landeigenda með því að gefa eða selja jarðagóss kirkjunnar við gjafverði. Upptaka stórjarðeigna, sem hélt áfram án afláts allt til loka 17. aldar, hafði sömu afleiðingar, en þær voru veittar mönnum ótignum, í aðra eða báðar ættir, sem nú höfðu upphafizt. Því var það, að frá því á dögum Hinriks 7. hafði enski „aðallinn" ekki bara látið hjá líða að beita sér gegn viðgangi iðnaðarins heldur beinlínis leitast við að færa sér hann í nyt. Og hluti stórjarðeigenda hafði líka ævinlega verið fús til samvinnu við forvígismenn borgarastéttarinnar, fjármálamenn og iðnrekendur. Lágu til þess ýmist pólitískar eða efnahagslegar hvatir. Auðvelt hafði

því veitzt að koma á málamiðlun 1689. Á stjórnmálasviðinu féllu beztu bitlingarnir – hálaunaembætti og hóglífisstöður – áfram í skaut aðalsfjölskyldna úr stórjarðeigendastétt, gegn því skilyrði að nægilega vel væri séð fyrir efnahagslegum hagsmunum fjármálamanna, verksmiðjueigenda og kaupmanna úr borgarastétt. Og þá þegar var áhrifavald þessara efnahagshagsmuna ólítið. Svo fór, að þeir réðu hinni almennu stefnu þjóðarinnar. Deilur gátu vaknað um einstök atriði, en fámennisstjórn aðalsins var fullkunnugt um, hve efnahagsleg velgengni hennar sjálfrar var nátengd og samtvinnuð viðgangi stórborgarastéttarinnar, iðnrekenda og kaupsýslumanna.

Uppfrá þessu var borgarastéttin lítilþægur, en viðurkenndur hluti ríkjandi stétta í Englandi. Þær áttu allar sameiginlegra hagsmuna að gæta við að halda niðri hinum mikla fjölda vinnandi fólks. Kaupmaðurinn eða verksmiðjueigandinn hafði húsbóndastöðu gagnvart verzlunarþjóni sínum, verkamanni og vinnuhjúi, eða hann var „réttur forráðamaður" eins og sagt var til skamms tíma í Englandi. Þau urðu að skila eins mikilli og góðri vinnu og frekast var unnt. Til þess að svo mætti verða varð uppeldið að miða að þeirri undirgefni sem það útheimti. Sjálfur var hann trúaður. Trúarbrögðin voru honum sá gunnfáni, sem hann hafði barizt undir gegn krúnu og háaðli. Það leið ekki á löngu, unz hann hafði líka uppgötvað, að þessi trúarbrögð kunnu ráð til þess að temja lund þeirra, sem undir hann voru gefnir, og beygja þá til hlýðni við húsbóndann, sem þeir höfðu fengið til forsjár samkvæmt órannsakanlegri ráðstöfun guðs. Í stuttu máli sagt tók enska borgarastéttin nú þátt í því að halda niðri „lágstéttunum", hinum fjölmennu framleiðslustéttum, og ein aðferðin, sem beitt var, voru trúaráhrif.

Eitt atriði í viðbót lagðist á sömu sveifina og ýtti undir trúhneigð borgaranna; efnishyggjan kom fram á sjónarsviðið í Englandi. Það var ekki nóg með, að hin nýja óguðlega kenning fyllti guðhrætt miðstéttarfólk skelfingu. Hún flutti í ofanálag þann boðskap, að hér væri á ferðinni heimspekikenning, sem einungis væri við hæfi lærðra og menntaðra heimsborgara. Þveröfugt væri því farið með trúarbrögðin, sem voru fullgóð handa ómenntuðum fjöldanum. Var borgarastéttin þar meðtalin. Í ritum Hobbes kom hin nýja kenning fram á sjónarsviðið sem málsvari konunglegs almættis og ákallaði hið algera einveldisstjórnarfar til að halda í skefjum fólkinu, þessum puer robustus sed malitiosus (kröftuga en illskeytta pilti). Hjá sporgöngumönnum Hobbes, þeim Bolingbroke, Shaftesbury o. fl. hélt hin nýja guðræna efnishyggja áfram að vera kenning hinna útvöldu, háaðalsins. Hún var því mjög illa þokkuð af borgurum, og það ekki

einungis vegna trúvillu þeirrar, sem í henni fólst, heldur og sakir pólitískra tengsla hennar er voru borgarastéttinni andsnúin. Í samræmi við það átti hin framsækna millistétt einmitt meginstyrk sinn í sértrúarflokkum mótmælenda, andstætt því sem var um aðalinn, sem hallaðist að efnishyggju og deisma. Það voru þessir sértrúarflokkar, sem gáfu baráttunni gegn Stúörtunum stefnu og styrk og enn í dag eru þeir kjarni „hins mikla frjálslynda flokks".

En á meðan hafði efnishyggjan borizt til Frakklands, en þar hitti hún fyrir annan heimspekiskóla efnishyggjumanna. Átti hann rætur að rekja til kenninga Decartes og rann síðan saman við þær. Í fyrstu var efnishyggjan í Frakklandi líka einungis kenningakerfi háaðalsins. En brátt komu hinar byltingarsinnuðu eigindir hennar fram í dagsljósið. Gagnrýni franskra efnishyggjumanna takmarkaðist ekki einungis við trúarleg efni. Þeir gagnrýndu allan þekkingararf vísindanna og allar stjórnmálastofnanir aldarinnar. Þeir voru ekkert að tvínóna við að sýna og sanna notagildi kenningar sinnar. Þeir beittu henni djarflega sem mælikvarða á öll þekkingaratriði í „Orðabókinni frönsku", hinu viðamikla riti, sem þeir eru kenndir við. Því fór það svo, að efnishyggjan í einhverri mynd, ýmist ómenguð efnishyggja eða deismi, varð lífsskoðun allra menntaðra æskumanna í Frakklandi. Áhrifin höfðu orðið svo djúptæk, að í stjórnarbyltingunni miklu sóttu franskir lýðveldissinnar og ógnarstjórnarmenn fræðileg stefnumið sín og efni mannréttindayfirlýsingarinnar í þessa kenningu, sem enskir konungssinnar höfðu komið fram með.

Byltingin mikla á Frakklandi var þriðja uppreisn borgarastéttarinnar, en hin fyrsta sem algerlega var laus úr viðjum trúarbragðanna. Engin dul var dregin á, að baráttan var stjórnmálalegs eðlis. Þetta var líka fyrsta byltingin, þar sem raunverulega var barizt til þrautar, unz öðrum stríðsaðilanum, aðlinum, hafði verið komið fyrir kattarnef, en hinn aðilinn, borgarastéttin, hafði töglin og hagldirnar. Samhengi í réttarfarslegri hefð og lotningarfull varðveizla lénskra lagaboða var til marks um hið órofna samhengi milli stjórnarstofnananna frá því fyrir og eftir „byltinguna" og gáfu til kynna málamiðlunina milli stórjarðeigenda og kapítalista í Englandi. Byltingin í Frakklandi rauf algerlega tengslin við fornar hefðir, máði brott síðustu merki lénsskipulagsins og skóp „Code civil" (hina almennu lögbók), snilldarlega útfærslu á Rómarrétti miðaða við þarfir auðvaldsþjóðfélagsins. Hún gerði fullkomin skil þeim lagalegu atriðum sem máli skiptu á því efnahagslega þróunarstigi, sem Marx kennir við „vöruframleiðslu". Svo vel var að þessu unnið, að þessi franska byltingarlögbók er enn í dag tekin til fyrirmyndar

í öllum öðrum löndum, líka Englandi, við endurbætur á eignaréttinum. En einu atriði skulum við ekki gleyma í því sambandi. Ákvæði enskra laga um efnahagsleg atriði í auðvaldsþjóðfélagi eru stöðugt samin með fornfálegu orðafari lénskra laga og eru í álíka miklu samræmi við efnið og ensk réttritun er samræmd enskum framburði. Um þetta hafa Frakkar sagt: „Vous écrivez Londres et vous prononcez Constantinople" (: þið skrifið London en berið fram Konstantinopel). En þessi ensku lög eru einu lögin, sem svikalaust eru í heiðri höfð og með þeim hafa borizt til Ameríku og nýlendnanna brezku ákvæðin um persónufrelsi, sjálfstjórn sveitarfélaga og öryggi gagnvart utanaðkomandi íhlutun nema af hálfu dómstólanna. Þetta eru hin fornu germönsku frelsisákvæði. Þeim var kastað í glatkistuna á meginlandinu í tíð hins ótakmarkaða einveldis og fram til þessa hefur hvergi tekizt að tryggja þau að fullu aftur.

En víkjum máli okkar að nýju að borgarastéttinni brezku. Franska byltingin veitti henni gullið tækifæri til að leggja sjóverzlun Frakka í rústir með aðstoð einvaldsríkja meginlandsins, innlima franskar nýlendur og kveða niður síðustu tilraunir Frakka til að keppa við hana á höfunum. Þetta var önnur ástæðan fyrir því, að hún barðist gegn byltingunni. Hin var sú, að starfsaðferðir byltingarmanna voru henni einkar ógeðfelldar. Það var ekki aðeins ógnarstjórnin, sem var „fordæmanleg", heldur átti það líka við um tilraunina til að tryggja borgarastéttinni einni öll yfirráð. Hvað í ósköpunum átti brezka borgarastéttin að taka til bragðs, ef aðalsins nyti ekki við? Af honum lærði hún umgengnisvenjur (það fór svo sem ekki milli mála!) og tileinkaði sér tízku hans, úr röðum aðalsmanna komu foringjar hersins, sem hélt uppi lögum og reglu heimafyrir og yfirmenn flotans, sem vann víðar lendur og nýja markaði. – Reyndar var til framsækinn minnihluti innan borgarastéttarinnar. Það voru menn, sem ekki sáu hag sínum nægilega borgið með málamiðluninni. Þessi minnihluti var skipaður mönnum úr efnaminni hluta millistéttanna. Hann var á bandi byltingarmanna, en mátti sín einskis í enska þinginu (parlamentinu).

Eftir því sem átrúnaður franskra byltingarmanna á efnishyggjuna varð eindregnari, þeim mun fastheldnari varð hinn guðhræddi enski borgari á trú sína. Voru ekki skelfingartímarnir í París til sönnunar um, hverjar afleiðingarnar urðu, ef fólk glataði trú sinni? Útbreiðsla efnishyggjunnar varð æ meiri frá Frakklandi til nágrannalandanna og því meir sem hún efldist fyrir tilstyrk skyldra fræðistefna, einkum þýzkrar heimspeki, þeim mun meiri nauðsyn varð það hverjum manni á meginlandinu að tileinka sér efnishyggju og fríhyggju, ef hann vildi teljast

menntaður maður. En að sama skapi bundu miðstéttirnar í Englandi æ fastari trúnað við hinar margbreytilegu trúarjátningar sínar. Þær voru reyndar hver annarri allmjög frábrugðnar, það var nú svo, en allt voru þetta ótvíræðar kristilegar trúarjátningar.

Í Frakklandi tryggði byltingin sigur borgarastéttarinnar á stjórnmálasviðinu, en Watt Arkwright, Cartwright, og aðrir hrundu samtímis af stað iðnbyltingunni í Englandi og þar með var þungamiðja hins efnahagslega valds orðin öll önnur. Því varð ekki saman jafnað, hve auðæfi borgarastéttarinnar uxu miklu hraðar en auður jarðeigenda úr aðalsstétt. Innan borgarastéttarinnar urðu fjármálajöfrar, bankamenn og aðrir að þoka æ meir um set fyrir verksmiðjueigendum. Málamiðlunin frá árinu 1689 var ekki lengur í samræmi við gagnkvæma aðstöðu þeirra, sem hlut áttu að máli, jafnvel þótt gerðar hefðu verið breytingar smátt og smátt borgarastéttinni í vil. Hlutaðeigendur voru ekki heldur samir og áður. Borgarastéttin var árið 1830 mjög frábrugðin borgarastétt liðinnar aldar. Þau stjórnmálavöld, sem aðallinn hafði haldið til þessa og nú var beitt gegn kröfum iðnrekenda í borgarastétt, gátu ekki samrýmzt hinum nýju efnahagshagsmunum. Óhjákvæmilegt varð að hefja baráttu gegn aðlinum á nýjan leik. Henni gat aðeins lokið á einn veg; hið nýja efnahagslega vald gekk með sigur af hólmi. Vegna áhrifa frá frönsku byltingunni 1830 voru umbótalögin fyrst samþykkt þrátt fyrir alla andspyrnu. Þau veittu borgarastéttinni viðurkennda valdastöðu á þingi. Síðan kom afnám korntollsins,[1] sem lagði í eitt skipti fyrir öll grundvöllinn að forræði borgarastéttarinnar, einkum hins atorkusamasta hluta hennar, verksmiðjueigendanna, fyrir jarðeignaaðlinum. Þetta var mesti sigur borgarastéttarinnar, en jafnframt sá síðasti, sem hún vann einvörðungu í eiginhagsmunaskyni. Öllum síðari sigurvinningum hefur hún orðið að deila með nýju þjóðfélagsafli, stétt sem hún fyrrum var í bandalagi við, en sem nú var keppinautur.

Iðnbyltingin hafði skapað stétt stórra verksmiðjueigenda, en samtímis stétt verksmiðjuverkamanna, sem var miklu fjölmennari. Þessari stétt fjölgaði stöðugt, eftir því sem iðnbyltingin náði til hverrar framleiðslugreinarinnar á fætur annarri. En jafnframt því sem þeim fjölgaði óx áhrifavald þeirra, og þetta vald þeirra kom í ljós þegar árið 1824, er þeir þröngvuðu þinginu til að afnema lögin gegn félagafrelsi, enda þótt þingið streittist á móti. Í tíð áróðursins fyrir umbótum mynduðu verkamenn rót-

[1] Baráttunni gegn takmörkun korninnflutnings til Englands lauk árið 1846 með samþykkt laga þess efnis, að korntollurinn skyldi afnuminn innan þriggja ára. Tollinum var síðar aflétt 1849.

tækari arm umbótaflokksins. Er þeim var meinaður atkvæðisréttur með lögunum frá 1832, settu þeir upp kröfur sínar í „réttindaskrá alþýðunnar" og stofnuðu óháðan flokk, Chartistaflokkinn, í andstöðu við hinn stóra borgaraflokk, sem var lögunum um korntollinn mótfallinn. Þetta var fyrsti verkalýðsflokkur vorra tíma.

Síðan gengu febrúar- og marzbyltingarnar yfir á meginlandi Evrópu, en verkamenn áttu veigamikinn þátt í þeim og settu a. m. k. í París fram kröfur, sem með engu móti varð fallizt á í auðvaldsþjóðfélagi. Þá kom hin almenna gagnsókn afturhaldsins. Fyrst ósigur Chartista 10. apríl 1848, síðan var uppreisn verkamanna í París möluð mélinu smærra í júní sama ár, þá óhappaatburðirnir á Ítalíu, í Ungverjalandi og Suður-Þýzkalandi 1849 og loks sigur Loðvíks Napóleons á Parísarbúum 2. desember 1851. Þannig hafði verið bægt á brott þeim vágesti sem kröfur verkalýðsins voru, a. m. k. um stundarsakir, en herkostnaðurinn var heldur ekkert smáræði. Brezkir borgarar voru þá þegar sannfærðir um nauðsyn þess að viðhalda trúhneigð almennings, og var ekki svo, að þeim hlyti að virðast þessi nauðsyn miklu meir knýjandi eftir allt, sem á undan var gengið? Og á hverju ári var án afláts haldið áfram að nota þúsundir og tugþúsundir til að fá lágstéttirnar til að veita fagnaðarerindinu viðtöku og ekkert skeytt um háðbros stéttarbræðra á meginlandinu. Þar eð þeir voru ekki alls kostar ánægðir með það, sem þeir höfðu upp á að bjóða í trúarlegum efnum, leituðu þeir til Jónatans bróður[1] sem þá var hvað umsvifamestur á trúmálasviðinu, og fluttu vakningahreyfinguna inn frá Ameríku ásamt þeim Moody og Sankey.[2] Að lokum þágu þeir einnig hinn hættulega stuðning hjálpræðishersins, en hann hefur endurvakið áróðursaðferðir frumkristninnar. Hann snýr sér til fátæklinganna sem guðs útvalinna, berst gegn kapítalismanum á sinn trúræna hátt og elur á frumkristinni stéttabaráttu, sem einn góðan veðurdag getur orðið örlagarík því efnafólki sem nú borgar brúsann.

Það virðist eitt af lögmálum söguþróunarinnar, að borgarastéttin geti ekki unnið pólitísk völd í neinu landi Evrópu á sama ótvíræða hátt og lénsaðallinn á miðöldum, og haldið þeim, nema þá mjög skamma hríð. Jafnvel í Frakklandi, þar sem lénsveldinu hefur verið algerlega útrýmt hefur borgarastéttin í heild

[1] Jónatan bróðir: uppnefni á Bandaríkjum Norður-Ameríku (líkt og „Jón boli" er haft um England.) Þetta uppnefni varð síðar að víkja fyrir „Sámi frænda". – *Útg.*

[2] *Vakningarhreyfingin:* trúmálastefna á öldinni sem leið. Hún leitaðist við að stemma stigu fyrir dvínandi áhrifum trúarbragðanna. – Moody og Sankey: amerískir trúboðar, sem voru meðal stofnenda hreyfingarinnar.

aðeins farið með völd skamma hríð í senn. Á dögum Loðvíks Filippusar 1830–1848 ríkti aðeins lítill hluti borgarastéttarinnar. Langstærsti hluti hennar var sviptur kosningarétti vegna víðtækrar takmörkunar á honum. Í tíð annars lýðveldisins ríkti öll borgarastéttin, en aðeins um þriggja ára bil. Getuleysi hennar ruddi keisaradæminu síðara braut. Það er fyrst nú í þriðja lýðveldinu, að borgarastéttin í heild hefur setið við stjórnvölinn í 20 ár samfleytt og má nú þegar sjá ánægjuleg merki þess að hún er tekin að gangast fyrir. Langvarandi yfirráð borgarastéttarinnar hafa til þessa einungis verið möguleg í löndum á borð við Bandaríki N-Ameríku, þar sem ekkert lénsskipulag var til og þjóðfélagið þróaðist frá upphafi á borgaralegum grundvelli. Og jafnvel í Frakklandi og Bandaríkjunum knýja eftirmenn borgarastéttarinnar, verkamenn, fast á um rétt sinn.

Í Englandi hefur borgarastéttin aldrei setið að völdunum óskiptum. Jafnvel eftir sigurinn 1832 sat aðallinn áfram að nær öllum æðri stjórnarembættum. Hin auðuga millistétt sætti sig við þetta og var mér auðmýktarafstaða hennar óskiljanleg, allt þar til ég einn góðan veðurdag heyrði hinn mikla frjálslynda verksmiðjueiganda W. A. Forster biðja æskumenn í Bradford þess lengstra orða að læra nú frönsku vegna eigin framavona, og sagði í framhaldi af því frá, hve kindarlegur hann hafi orðið, er hann sem forsætisráðherra hafi einu sinni lent í samkvæmi, þar sem frönskukunnátta var engu minni nauðsyn en kunnátta í ensku! En þannig var mál með vexti, að í þann tíð var ensk borgarastétt yfirleitt skipuð algerlega ómenntuðum nýríkismönnum, sem urðu hvort sem þeim líkaði betur eða verr að láta aðlinum eftir öll þau æðri stjórnarembætti, þar sem einhvers meira þurfti við en eybundinnar þröngsýni og hrokagikksháttar samfara kænsku í viðskiptum.[1] Enn í dag sýna langloku-

[1] Jafnvel í viðskiptum er hrokagikksháttur þjóðrembingsmanna heldur bágur ráðgjafi. Það er ekki langt umliðið síðan venjulegur enskur verksmiðjueigandi taldi sér sem Englendingi minnkun að því að tala aðra tungu en móðurmál sitt. Hann var að vissu leyti hreykinn af því að „útlendingagreyin" skyldu setjast að í Englandi og spara honum ómakið við að selja framleiðsluna erlendis. Hann veitti því ekki einu sinni athygli, að útlendingar þessir, mest Þjóðverjar, náðu þannig yfirráðum yfir miklum hluta utanríkisviðskipta Englendinga. Átti það ekki síður við um innen útflutning. Bein utanríkisverzlun Englendinga takmarkaðist smám saman við nýlendurnar, Kína, Bandaríkin og Suður-Ameríku. Enn síður gaf hann því gaum, að þessir Þjóðverjar skiptu við aðra Þjóðverja erlendis, sem, er fram liðu stundir, höfðu skipulagt fullkomið kerfi verzlunarstöðva um heim allan. En þegar Þjóðverjar tóku í fullri alvöru að framleiða vörur til útflutnings fyrir u. þ. b. 40 árum, áttu þeir, þar sem þessar þýzku verzlunarstöðvar voru, tæki, sem kom þeim að ómetanlegum notum við að breyta landi sínu á svo skömmum tíma frá því að vera kornútflytjandi í iðnaðarland í fremstu röð. Þá loksins, fyrir u. þ. b. 10

skrif blaðanna um „borgaralega menntun" (middle-class education) að enska millistéttin telur sig enn of góða til að leita eftir beztu menntun, en er á höttunum eftir einhverju af lakara tagi. Eftir afnám laganna um korntollinn virtist það líka sjálfgert, að þeim sem borið höfðu málið fram til sigurs, mönnum á borð við Cobden, Bright og Forster, skyldi meinuð hlutdeild í allri opinberri stjórnsýslu, og við það sat, unz ný umbótalög veittu þeim um síðir aðgang að ríkisstjórninni 20 árum síðar. Borgarastéttin enska hefur meira að segja allt til þessa verið haldin svo magnaðri þjóðfélagslegri minnimáttarkennd, að hún hefur alið önn fyrir stétt puntudrengja, en borgararnir sjálfir mátt borga brúsann ásamt alþýðu manna. Puntudrengirnir skyldu vera verðugir fulltrúar þjóðarinnar við öll hátíðleg tækifæri. Sjálfir töldu borgararnir sér það hinn mesta sæmdarauka, ef einhver ótiltekinn maður af borgaralegum ættum var talinn verður þess að hljóta sæti í þessum sérlífa hópi, sem á einmitt borgarastéttinni áframhaldandi tilveru sína að þakka.

Því var það, að stétt iðjuhölda og kaupsýslumanna hafði enn ekki tekizt að bægja jarðeignaaðlinum frá stjórnmálavöldum, er nýr keppinautur kom til sögunnar, þar sem verkalýðsstéttin var. Afturkippurinn, sem kom í kjölfar ósigurs Chartistahreyfingarinnar og byltinganna á meginlandinu, hafði leitt til þess, að verkamenn urðu á nýjan leik háðir frjálslynda flokknum, en þeir mynduðu nú hinn róttæka arm hans líkt og fyrir tíð Chartistahreyfingarinnar. Hin gífurlega þensla, sem varð í enskum iðnaði á árunum 1848–1866 studdaði að þessari þróun (þessi þensla er venjulega talin frjálsri verzlun einni saman til tekna, en er miklu fremur að þakka stórlega auknu járnbrautarkerfi, gufuskipunum og bættum samgöngum yfirleitt). Þar kom um síðir, að ekki var lengur stætt á að hafna kröfum verkamanna um kosningarrétt. En leiðtogar frjálslyndra Wiggarnir, þorðu í hvoruga löppina að stíga og Disraeli gafst færi á að sýna yfirburði sína. Undir forustu hans tókst íhaldsmönnum, Toríunum, að færa sér hinar hagkvæmu aðstæður í nyt. Þeir lögleiddu, að húsráðendur í borgarkjördæmum skyldu fá kosningarrétt (það tók til allra, sem bjuggu í húsi sér). Jafnframt var gerð breyting á kjördæmaskipuninni. Þá var kosning skömmu síðar gerð leynileg. Þá var með rýmkun laganna um kosningarrétt húsráðenda

árum, fór uggur að setjast að enskum framleiðendum, og þeir tóku að senda fyrirspurnir um það til sendiráða og ræðismanna, hvernig á því stæði, að viðskiptavinir þeirra væru farnir að týna tölunni. Svörin voru samhljóða: 1. Þið lærið ekki mál viðskiptavinar ykkar, heldur heimtið þið, að hann tali mál ykkar. 2. Þið gerið ekki minnstu tilraunir til að fullnægja þörfum, venjum og kröfum viðskiptavinanna, en heimtið að þeir taki eftir okkur Englendingum. – Aths. Engels.

komið á almennum kosningarrétti 1884, greifadæmunum var skipt í kjördæmi og komið var á nýrri kjördæmaskipun, sem leiddi til jöfnunar a. m. k. að vissu marki. Af öllu þessu leiddi að áhrifavald verkalýðsstéttarinnar við kosningar jókst svo mjög, að hún lagði til meirihluta kjósenda í 150–200 kjördæmum. En tekur nokkuð þingræðisskipulaginu fram, þegar innræta á mönnum virðingu fyrir arfleifð aldanna? Þorri verkamanna leit með lotningarblandinni virðingu upp til þeirra sem þá voru kallaðir „stétt betri borgara“, á sama hátt og millistéttin mændi í fjálgri lotningu upp til þess hóps manna sem John Manners lávarður kallar í gamni „gamla aðalinn okkar“. Brezkir verkamenn voru í raun og veru fyrirmyndarverkamenn fyrir fimmtán árum. Þeir sýndu vinnuveitendum sínum tillitssemi blandna virðingu og sjálfsagi sá og auðmýkt, sem þeir sýndu við kröfugerð sér til handa, voru græðismyrsl í þau sár sem kennaraborðssósíalistarnir þýzku höfðu hlotið vegna kommúnískra og byltingarsinnaðra skoðana þýzkra verkamanna í heimalandinu en þeir virtust óbetranlegir.

En borgarar Englands voru betri kaupsýslumenn og langsýnni en prófessorarnir þýzku. Þeir höfðu gefið verkalýðnum hlutdeild í völdunum, þótt það væri þeim þvert um geð. Á dögum Chartistahreyfingarinnar hafði þeim lærzt, hvers fólkið, þessi „puer robustus sed malitiosus“ er megnugt. Síðan hafði þeim verið þröngvað til að fallast á meginhluta bænarskránna sem nú voru landslög. Meiri nauðsyn bar til þess nú en endranær að hafa tök á fólki með siðferðilegum aðferðum. En fremst og mikilvægast þeirra siðrænu tækja, sem beitt er gagnvart fjöldanum, voru trúarbrögðin. Það er ástæðan fyrir prestaveldinu í skólanefndunum og aukinni skattlagningu borgaranna á sjálfum sér í þágu guðrækilegs lýðskrums af ýmsu tagi, allt frá helgisiðasinnum til hjálpræðishersins.

Nú hrósuðu hinir ærukæru brezku oddborgarar sigri yfir fríhyggju borgarastéttarinnar á meginlandinu og tómlæti hennar í trúarefnum. Verkalýður Frakklands og Þýzkalands var í uppreisnarhug. Kenningar sósíalismans áttu hug þeirra allan og þeir létu sér því í léttu rúmi liggja lögmæti þeirra aðferða sem beitt skyldi við valdatöku. Þarf raunar engan að undra það. Hinn tápmikli snáði (puer robustus) hafði reyndar í þessu tilviki orðið illskeyttari (malitiosus) með hverjum degi. Hver gat önnur orðið þrautalending frönsku og þýzku borgarastéttarinnar en að gefa fríhyggjuna upp á bátinn þegjandi og hljóðalaust alveg á sama hátt og óskammfeilinn strákslání fleygir logandi vindli, sem hann hefur komið rigsandi með á skipsfjöl til að sýnast meiri maður, er sjóveikin tekur að sækja fastar á hann?

Hver háðfuglinn á fætur öðrum tók á sig guðrækilegt yfirbragð. Þeir töluðu virðulega um kirkjuna, kenningar hennar og siðvenjur, og hlíttu þessum venjum sjálfir að svo miklu leyti sem ekki varð hjá því komizt. Franskir borgarar neyttu ekki kjöts á föstudögum og þýzkir stéttarbræður þeirra sátu kófsveittir á kirkjubekkjunum meðan hin firnalanga lútherska stólræða stóð yfir. Efnishyggjan hafði komið þeim í bobba. „Viðhalda verður hlýðni fólks við trúarbrögðin". Þetta var síðasta hjálpræði þjóðfélagsins, hið eina sem gat bjargað því frá algerri glötun. Því var nú verr fyrir þá sjálfa, að þeim varð þetta þá fyrst ljóst, er þeir höfðu gert allt sem í mannlegum mætti stendur til að eyðileggja trúarbrögðin fyrir fullt og allt. Og þar með var upprunnin sú stund, að brezkir borgarar áttu leikinn, höfðu þá að háði og spotti og hrópuðu: Erkikjánarnir ykkar, þetta hefði ég getað sagt ykkur fyrir meira en tveimur öldum!

Ég er samt sem áður anzi hræddur um, að hvorki hin rígskorðaða trúrækni borgaranna brezku né heldur hið síðbúna trúarlega afturhvarf borgarastéttar meginlandsins, er harðna tók á dalnum, muni stemma stigu við sívaxandi sóknarþunga öreiganna. Hefðirnar eru mikill dragbítur, þær eru tregðulögmál sögunnar. En þær halda bara í horfinu og hljóta því að lúta í lægra haldi. Trúarbrögðin munu ekki heldur stoða auðvaldsþjóðfélaginu til langframa. Ef hugmyndir okkar um lagaleg efni, heimspeki og trúmál leiða beint eða óbeint af ríkjandi efnahagsafstæðum þess þjóðfélags, sem um er að ræða, geta þessar hugmyndir ekki átt langt líf fyrir höndum eftir að efnahagsafstæðunum hefur verið gjörbreytt. Við hljótum annaðhvort að trúa á yfirnáttúrlega opinberun eða kannast við, að engar prédikanir trúarlegs eðlis eru þess megnugar að halda uppi þjóðfélagi, sem riðar til falls.

Reyndar er verkalýðurinn aftur tekinn að bæra á sér líka í Englandi. Á því leikur enginn vafi, að honum eru hvers konar hefðir fjötur um fót. Hér er um að ræða hefðbundnar borgaralegar skoðanir, eins og það hindurvitni, sem mikilli útbreiðslu hefur náð, að einungis kerfi tveggja flokka Frjálslyndra og Íhaldsmanna sé mögulegt og verkalýðsstéttin eigi að ávinna sér frelsi með tilstyrk hins stóra frjálslynda flokks. Sömuleiðis hefðir, sem haldizt hafa meðal verkamanna sjálfra og eru arfleifð frá þeim tímum, er gerðar voru fyrstu fálmkenndu tilraunirnar til sjálfstæðrar stefnumörkunar. Meðal þeirra er sú venja fjölmargra gamalla verkalýðsfélaga að meina aðild öllum þeim verkamönnum, sem ekki eiga að baki neinn ákveðinn námstíma. Þetta hefur það eitt í för með sér, að öll félög sem þetta gera, ala upp verkfallsbrjóta, sem hrís á bak sér. En þrátt fyrir allt og

alla er verkalýðsstétt Englands á framfaraleið, eins og jafnvel prófessor Brentano varð að skýra kennaraborðssósíalistunum skoðanabræðrum sínum frá, þótt óljúft væri. Hún er í hreyfingu eins og allt í Englandi. Hún fer hægt yfir, athugar sinn gang við hvert fótmál, hikar á einum stað, en þreifar fyrir sér í tilraunaskyni á öðrum og hefur ekki alltaf erindi sem erfiði. Hún færist stig af stigi, en er helzti tortryggin gagnvart heitinu *sósíalismi*, þótt hún hafi smátt og smátt tekið sjálft *málefnið* upp á sína arma. Hún er á hreyfingu og hreyfingin tekur til verkamanna í einni grein af annarri. Nú hefur hún hrist hina ófaglærðu verkamenn úr austurhverfum Lundúnaborgar upp af dásvefninum, og við höfum öll séð, hve stórkostlegur aflvaki þessir nýju liðsmenn hafa að sínu leyti orðið henni. Og þyki einhverjum óþolinmóðum aðilum hreyfingin láta sinn hlut eftir liggja, mega þeir hinir sömu minnast þess, að það er einmitt verkalýðurinn, sem geymir og varðveitir beztu þætti enskrar skapgerðar, og hver áfangi fram á við, sem næst í Englandi, verður aldrei nokkru sinni aftur tekinn. Þótt synir Chartistanna gömlu hafi vegna orsaka, sem getið er hér að framan, ekki látið eins mikið til sín taka og vænta mátti, er allt útlit fyrir að sonarsynirnir ætli ekki að verða neinir ættlerar.

Sigur verkalýðsstéttarinnar í Evrópu er þó ekki einvörðungu undir Englendingum kominn. Hann verður einungis tryggður með samvinnu a. m. k. Englendinga, Frakka og Þjóðverja. Verkalýðshreyfing tveggja síðasttöldu landanna er talsvert lengra á veg komin en sú enska. Í Þýzkalandi hillir meira að segja undir sigur. Framfarir þær, sem orðið hafa síðastliðinn aldarfjórðung, eru óviðjafnanlegar. Þar er framfaraþróunin lengst komin og hún verður æ hraðfleygari. Hafi borgarastéttin þýzka sýnt og sannað, hve aumkunarlega hana skortir stjórnmálahæfni, aga, áræði og atorku, hefur verkalýður Þýzkalands gert lýðum ljóst, að hann er í ríkum mæli gæddur öllum þessum eiginleikum. Fyrir nær fjórum öldum átti fyrsta uppreisn miðstéttanna evrópsku upptök sín í Þýzkalandi. Væri það nokkur goðgá, eins og málum er nú háttað, að gera ráð fyrir, að Þýzkaland verði „vettvangur fyrstu stórsigra öreigastéttarinnar“ í Evrópu?

20. apríl 1892, F. Engels.

Birtist fyrst í „Socialism: Utopian and Scientific“, sem út kom í London 1892, en það var enska þýðingin á riti Engels „Þróun sósíalismans. Hugsýn verður að vísindum“.

Samtímis birtist inngangurinn á þýzku í ritinu „Nýi tíminn“ árið 1892–93 með titlinum „Um sögulega efnishyggju“, en þar voru upphafsgreinarnar sjö felldar niður.

Tekið úr „Nýja tímanum“. Upphafsgreinarnar sjö voru teknar úr ensku útgáfunni frá 1892

# Þróun sósíalismans. - Hugsýn verður að vísindum

## I. Útópískur sósíalismi

Nútíma sósíalismi er í eðli sínu fyrst og fremst afsprengi þeirrar skoðunar að í þjóðfélagi okkar tíma ríki stéttaandstæður milli eignamanna og öreiga, kapítalista og launamanna, annars vegar, en á hinn bóginn ríki skipulagsleysi á framleiðslusviðinu. En hin fræðilega mynd hans virðist í fyrstu vera víðtækari og að sögn rökrétt framhald þeirra grundvallarsjónarmiða, sem hinir miklu frönsku fræðslustefnuhöfundar 18. aldar komu fram með. Það var með sósíalismann eins og allar nýjar fræðikenningar, að hann varð í upphafi að styðjast við þann hugmyndaauð, sem fyrir var, enda þótt hann ætti vissulega rót sína að rekja til staðreynda efnahagslífsins.

Mikilmenni þau, sem bjuggu í haginn fyrir væntanlega byltingu í Frakklandi, voru sjálf róttækir byltingarsinnar. Þeir viðurkenndu engin utanaðkomandi máttarvöld, hverju nafni sem þau kunnu að nefnast. Trúarbrögð, náttúruskoðun, þjóðfélagshættir og stjórnskipun voru gagnrýnd vægðarlaust. Tilverurétt allra hluta varð að réttlæta fyrir dómstóli skynseminnar, ellegar höfðu þeir fyrirgert honum. Skynsamleg íhugun ein saman ákvarðaði gildi allra hluta. Þetta voru þeir tímar, sem Hegel hefur lýst svo, að endaskipti hafi verið höfð á öllum hlutum[1]. Í fyrsta lagi í þeim skilningi, að þess var krafizt, að mannshugurinn og þær kenningar sem voru ávöxtur íhugunar hans,

[1] Hér fara á eftir ummæli hans um frönsku byltinguna: „Hugmyndin réttarhugtakið komst allt í einu til vegs og gegn því mátti hin aldna spilaborg óréttlætisins sín einskis. Í anda réttarhugsunarinnar varð nú til stjórnarskrá, sem nú skyldi verða undirstaða alls annars. Allt frá upphafi, meðan sól var á himni og reikistjörnurnar snerust um hana, hafði það enn ekki gerzt, að maðurinn treysti á höfuð sitt, þ. e. hugsunina og mótaði veruleikann að hennar forsögn. Anaxagoras hafði orðið fyrstur til að segja að skynsemin (gr. nús) stjórnaði heiminum. En það er fyrst núna, sem mönnum hefur orðið ljóst og þeir gert sér grein fyrir því, að hinn

skyldu teknar til viðmiðunar við allar mannlegar gerðir og samtök manna á meðal. Merking þessara orða varð síðar víðtækari: að í raun réttri hafi verið höfð endaskipti á þeim þáttum veruleikans, sem stríddu gegn kenningunum.

Þjóðskipulagi og stjórnarfari fyrri tíma var afneitað og allar gamlar arfteknar hugmyndir taldar brjóta í bága við skynsemina, og þeim varpað fyrir róða. Hingað til hafði veröldin eingöngu látið stjórnast af hleypidómum. Allt hið umliðna væri einungis aumkunarvert eða ætti fyrirlitningu skilið. Nú fyrst birti af degi og ríki skynseminnar var í nánd. Uppfrá þessu skyldi ríkja hinn eilífi sannleikur og réttlæti, jafnrétti grundvallað á lögmálum náttúrunnar og menn skyldu njóta réttinda, sem eigi yrðu af þeim tekin, en hjátrú, óréttlæti, forréttindi og kúgun skyldu útlæg ger.

Nú vitum við fullvel, að þetta ríki skynseminnar var ekkert annað en draumsýn borgarastéttarinnar um ríki sitt. Við vitum, að hið eilífa réttlæti opinberaðist í reynd sem réttvísi stórborgaranna og jafnréttið var fólgið í jafnrétti borgarans fyrir lögunum. Okkur er ekki ókunnugt um, að því var hátíðlega lýst yfir, að ein hin veigamestu mannréttindi væru – borgaralegur eignarréttur. Ríki skynseminnar varð til í samræmi við þjóðfélagssamning Rousseaus og það gat ekkert orðið annað en borgaralegt lýðveldi með lýðræðissniði. Hinir miklu hugsuðir 18. aldarinnar gátu engu fremur en fyrirrennarar þeirra drepið sig úr þeim dróma, sem þeirra eigin tímaskeið hafði lagt á þá.

En jafnhliða andstæðunum milli lénsaðalsins og borgarastéttar þeirrar, sem talaði máli allra annarra þjóðfélagsþegna, voru til staðar almennar andstæður milli arðræningja og arðrændra, auðugra iðjuleysingja og snauðs vinnulýðs. En það var einmitt þetta atriði, sem gerði málsvörum borgarastéttarinnar kleift að koma fram fyrir hönd alls hins hrjáða mannkyns, en ekki einungis fyrir hönd einnar tiltekinnar stéttar. En með þessu er ekki öll sagan sögð. Að uppruna til varð borgarastéttin ekki greind frá andstæðu sinni: Tilvera kapítalistans byggist á því, að til séu launamenn. Það voru sömu ástæður, sem lágu til þess, að gildisbræður miðalda urðu að borgarastétt vorra daga, sem urðu þess valdandi að verkalýðsstétt myndaðist

---

andlegi veruleiki eigi að láta stjórnast af hugsuninni. Þetta var dýrðleg sólarupprás. Allir hugsandi menn hafa vegsamað þetta tímaskeið. Þetta voru tímar upphafinnar hrifningar, veröldin var gagntekin af guðmóði andans, líkt og guðdómurinn hefði nú fyrst sætzt við heiminn". (Hegel í „Philosophie der Geschichte" (Söguheimspeki) 1840, bls. 535). – Skyldi ekki vera orðið tímabært að beita sósíalistalöggjöfinni gegn þessum þjóðhættulegu byltingarkennningum fyrrverandi prófessors Hegels? – Aths. Engels.

af iðnsveinum og daglaunamönnum utan iðnfélaganna. Og enda þótt borgarastéttin gæti, þegar á allt var litið, gert kröfu til þess að vera jafnframt málsvari hinna ýmsu vinnustétta þeirra tíma í baráttunni gegn aðlinum leysti öll meiri háttar ólga meðal borgaranna úr læðingi sjálfræðisviðleitni meðal þeirra stétta, sem telja má forvera verkalýðsstéttarinnar, þótt þær væru henni frábrugðnar um sumt. Siðskiptin og bændauppreisnirnar í Þýzkalandi ólu þannig af sér Thomas Münzer og endurskírendaflokk hans, byltingin mikla í Englandi flokk jafnræðissinna (Levellers).[1] Síðan kom Babeuf fram í stjórnarbyltingunni frönsku. Samtímis þessum byltingarsinnuðu uppreisnum stéttar, sem enn var í sköpun, kom fram ýmislegt áþekkt í fræðilegum efnum. 16. og 17. öldin bar í skauti sér draumsæjar lýsingar á fyrirmyndarþjóðfélaginu[2] og á öldinni átjándu komu fram hugmyndir, sem voru beinlínis kommúnískar (hjá Morelly og Mably). Krafan um jafnrétti takmarkaðist ekki lengur við stjórnmálaréttindi ein saman. Hún var orðin víðfeðmari og tók nú til félagslegrar aðstöðu hvers og eins. Það átti ekki að einskorða sig við að afnema sérréttindi stétta, heldur vildu menn binda endi á allan stéttamismun. Hin nýja kenning, kommúnisminn, kom fyrst fram í gervi strangleikans, veittist harkalega að hvers konar lífsnautnastefnu og tók mjög mið af Spartverjum hinum fornu. Á eftir komu hugsæissósíalistarnir, þrír að tölu. Þeir voru: Saint-Simon, en í kenningum hans gætti enn allmjög borgaralegra áhrifa, þótt væri hann verkalýðssinni, Fourier og Owen. Hinn síðastnefndi bjó í því landi, þar sem þróun kapítalískra framleiðsluhátta var lengst á veg komin og þær andstæður, sem hún skapaði höfðu þau áhrif á hann, að hann lagði fram tillögur um, hvernig afmá mætti stéttamismuninn. Voru þær vendilega undirbúnar og í beinu samhengi við efnishyggjuna frönsku.

Allir þessir þrír menn eiga það sameiginlegt, að þeir eru ekki málsvarar fyrir hagsmuni þeirrar verkalýðsstéttar, sem nú hafði skapazt vegna sögulegrar þróunar. Þeir vilja að hætti fræðslustefnuhöfunda ekki fyrst og fremst frelsa eina tiltekna stétt. Þeir vilja frelsa gervallt mannkynið. Að dæmi hinna fyrrnefndu vilja þeir koma á fót ríki skynsemi og ævarandi réttlætis. En það er óendanlegt djúp staðfest milli ríkis þeirra og ríkis fræðslustefnumanna. Það borgaralega samfélag, sem snið-

---

[1] *Levellers:* þýðir bókstaflega jafnaðarmenn. Svo voru nefndir fylgismenn hreyfingarinnar meðal lágstéttanna í bæjum og á byltingartímunum í Englandi. Róttækustu lýðræðiskröfurnar eftir 1648 komu frá þeim. – *Útg.*

[2] Engels vitnar hér til rita hugsæissósíalistanna Thomas More (á 16. öld) og Campanella (á 17. öld). – *Útg.*

ið er eftir grundvallarreglum upplýsingarhöfunda þessara, er einnig óskynsamlegt og óréttlátt og ber því að hafna eins og lénsskipulaginu og öllum fyrri þjóðfélagsaðstæðum. Ástæðan til þess, að raunveruleg skynsemi og réttlæti hefur ekki verið ríkjandi í heimi hér, er sú ein, að menn hafa ekki gert sér fulla grein fyrir þeim. Heiminum hefði einmitt verið vant eins manns með snilligáfu, en nú hefði hann komið fram og höndlað sannleikann. Það væri um hreina heppni að ræða, að hann hefði komið fram á sjónarsviðið nú. Það væri ekki fyrir óafstýranlega rás viðburðanna né heldur leiddi það óhjákvæmilega af samhengi söguþróunarinnar, að sannleikurinn hefði runnið upp fyrir mönnum einmitt nú. Hann hefði allteins vel getað verið í heiminn borinn fimm hundruð árum fyrr, en þá hefði hann hlíft mannkyninu við fimm alda mistökum, baráttu og þjáningum.

Við höfum séð, hvernig hugsuðir Frakka á 18. öld, boðberar byltingarinnar, höfðuðu til skynseminnar sem leiðarstjörnu um hvað sem var. Það átti að skapa ríki byggt á skynsemi, þjóðfélag skynseminnar og allt það, sem stríddi gegn hinum ævarandi sannleika skyldi vægðarlaust afmáð. Við höfum einnig tekið eftir, að hin ævarandi skynsemi var í raun réttri ekkert annað en draumsæ skynsemi millistéttar, sem þá var einmitt sem óðast að verða að stórborgarastétt. Þegar draumurinn um þjóðfélag og ríki skynseminnar hafði rætzt í frönsku byltingunni, kom því í ljós að hið nýja skipulag var alls ekki skynsemin holdi klædd, enda þótt það væri hagfellt í samanburði við það sem áður hafði tíðkazt. Ríki skynseminnar hafði hrunið til grunna. Þjóðfélagssamningur Rousseaus hafði orðið að veruleika á tímum ógnarstjórnarinnar, en borgarastéttin, sem veiklazt hafði í trúnni á stjórnmálahæfni sína, sneri baki við stjórnarvöldunum og hafnaði fyrst í spilltu þjóðstjóraveldinu, en komst síðar undir verndarvæng einvaldsstjórnar Napóleons. Sífelldar árásarstyrjaldir gerðu að engu öll loforð um ævarandi frið. Þjóðfélag skynseminnar var engu betur leikið. Það djúp, sem var staðfest milli ríkra og snauðra hafði breikkað, en ekki horfið með almennri velgengni. Þessu olli afnám gildisréttinda og annarra sérréttinda, sem brúað höfðu bilið að nokkru og eins tók nú fyrir ölmusugjafir kirkjunnar, sem gegnt höfðu svipuðu hlutverki. Það „eignafrelsi“, sem nú ríkti í stað viðja lénsveldisins, lýsti sér með þeim hætti gagnvart smáborgurum og smábændum, að þeir voru frjálsir að því að selja stórkapítalistum og stórjarðeigendum hinar litlu eignir sínar, en hinir síðarnefndu voru ofjarlar þeirra í samkeppninni. Það frelsi, sem að smáborgurum og smábændum sneri var því frelsi til að afsala sér

eignum sínum. Vöxtur iðnaðar með kapítalísku sniði olli því, að tilvera þjóðfélagsins tók að byggjast á því, að verkalýðurinn ætti við eymd og örbirgð að búa. Greiðsla í reiðu fé varð í æ ríkara mæli eini tengiliður þjóðfélagsins, eins og Carlyle orðaði það. Afbrotum fjölgaði með ári hverju. Þótt ekki hefði tekizt að útrýma löstum lénsaðalsins, sem áður voru iðkaðir feimulaust fyrir allra augum, voru þeir þessa stundina lítt áberandi. En þeim mun skýrar komu í ljós lestir borgaranna, sem til þessa höfðu ekki verið í hámælum hafðir. Viðskipti einkenndust í æ ríkari mæli af svikum og prettum. „Bræðralagshugsjónin“ úr kjörorði byltingarmanna birtist þegar á reyndi í óhróðri og öfund samkeppninnar. Spilling kom í stað ofbeldis og kúgunar, og peningar tóku sess korðans sem æðsta merkis um völd í þjóðfélaginu. Rétturinn til brúðkaupsnæturinnar[1] fluttist frá lénsherranum til verksmiðjueigandans. Vændi náði meiri útbreiðslu en nokkur dæmi voru til um áður. Hjónabandið naut eftir sem áður lögformlegrar viðurkenningar, var opinbert skálkaskjól saurlifnaðarins og menn bættu sér það upp með hjúskaparbrotum í stórum stíl. Í fáum orðum sagt reyndist þjóðfélag það og stjórnskipulag, sem „sigur skynseminnar“ skapaði, hreinasta afskræmi, og olli sárum vonbrigðum væri það borið saman við glæsimyndir þær sem upplýsingarhöfundarnir höfðu dregið upp. Það eina, sem á skorti, var, að fram kæmu menn, sem gerðu grein fyrir vonbrigðum þessum, og þeir komu með nýrri öld. Árið 1802 kom rit Saint-Simons, „Bréf frá Genf“, 1808 kom fyrsta verk Fouriers út, enda þótt frumdrög kenninga hans hafi orðið til þegar árið 1799. Hinn 1. janúar árið 1800 tók Robert Owen við stjórn verksmiðjunnar í New Lanark.

Framleiðsluhættir auðvaldsins, andstæður þær, sem það skapar milli borgarastéttar og verkalýðs voru enn mjög á frumstigi er hér var komið sögu. Stóriðja sú, sem nú var einmitt að rísa á legg í Englandi, var enn óþekkt fyrirbæri í Frakklandi. En það er fyrst með stóriðjunni, að þær andstæður skapast, sem gera það að óhjákvæmilegri nauðsyn, að bylt sé við framleiðsluskipaninni og hin kapítalísku einkenni hennar afmáð. Hér er ekki einungis um að ræða andstæður milli þeirra stétta, sem framleiðsluhættirnir skapa, heldur einnig milli sjálfra framleiðsluaflanna og viðskiptaháttanna. En í annan stað þróast einmitt með stóriðjunni þau tröllauknu framleiðsluöfl og tækni, sem við þarf til að sigrast á þessum andstæðum. Um 1800 voru þær andstæður, sem hin nýja þjóðfélagsskipan leysti úr læðingi, rétt á frumstigi og ekki á það síður við um ráðin til úrbóta. Enda

[1] *jus primae noctis:* lénshöfðinginn hafði á miðöldum lagalegan rétt til að eyða brúðkaupsnóttinni með hverri brúði úr léni sínu.

þótt snauður lýðurinn í París hefði náð völdunum skamma hríð í tíð ógnarstjórnarinnar og leitt hina borgaralegu byltingu þar með fram til sigurs, jafnvel gegn borgarastéttinni, höfðu þeir atburðir sannað það eitt, að um varanleg yfirráð lýðsins gat ekki orðið að ræða við þær aðstæður, sem þá ríktu. Úr röðum hins snauða lýðs spratt nú einmitt fram kjarni nýrrar stéttar, verkalýðsstéttarinnar. Hún var enn sem komið var ófær um að berjast pólitískri baráttu ein og óstudd. Þetta var stétt sem bjó við kúgun og áþján og þar sem hún megnaði ekki að hjálpa sér sjálf, varð hjálpin að koma frá utanaðkomandi öflum, að ofan.

Þessar sögulegu aðstæður voru frumherjum sósíalismans ríkt í huga. Hin kapítalíska framleiðsla og stéttaskipting var óþroskuð og því gátu kenningar þeirra einungis orðið af sama toga. Það átti að finna upp af eigin hyggjuviti þá lausn hinna þjóðfélagslegu verkefna, sem óþroskaðar efnahagsaðstæður báru enn í skauti sér. Hugsæissósíalistarnir sáu ekki annað en vankanta á þjóðfélaginu, en það var hlutverk skynsamlegrar hugsunar að ráða bót á þeim.Það, sem um var að ræða, var að finna upp nýtt og fullkomnara þjóðskipulag, en því skyldi síðan komið á með valdboði að ofan, áróðri eða þar sem kostur var með tilraunum, er áttu að vera til merkis um gildi þess. Þessi nýju þjóðfélagskerfi gátu aldrei orðið neitt annað en draumórar. Því ítarlegri og nákvæmari sem þau urðu, þeim mun meir hlutu þau að fjarlægjast allan veruleika.

Þegar þetta nú liggur ljóst fyrir, dveljum við ekki stundinni lengur við þessa hlið málsins, sem nú heyrir gersamlega til horfinni tíð. Við getum eftirlátið smásmyglislegum orðhenglum, að útmála þessar skýjaborgir sem nú geta aðeins vakið kátínu fólks, og við látum þá hina sömu um að miklast af yfirburðum þeirrar skynsemi sinnar yfir slíka „vitleysu". Við fögnum frekar hinu snjalla hugarleiftri og snilldarlegu hugsun, sem hvarvetna bryddir á innan um skýjaborgirnar. En það sjá þessar smásálir ekki.

Saint-Simon var afsprengi hinnar miklu frönsku byltingar, en hann hafði ekki enn náð þrítugsaldri, þegar hún gerðist. Með byltingunni sigraðist þriðja stéttin, þ. e. sá fjölmenni meirihluti þjóðarinnar, sem tók virkan þátt í framleiðslu og viðskiptum, á *iðjuleysisstéttunum,* aðli og klerkum, sem notið höfðu sérréttinda allt til þessa. En brátt kom á daginn, að ekki hafði verið um sigur þriðju stéttar að ræða, heldur einungis lítils brots hennar. Það voru auðborgararnir, sá hluti hennar, sem naut mestra þjóðfélagslegra forréttinda, sem höfðu tryggt sér hið pólitíska forræði. Borgarar þessir höfðu reyndar auðgazt skjótlega þegar á byltingarárunum á braski með og sölu á jarðeignum

aðals og kirkju, en þær höfðu verið gerðar upptækar. Einnig hafði þeim safnazt auður á birgðasölu til hersins, en þar voru hagsmunir þjóðarinnar bornir fyrir borð. Það voru einmitt yfirráð þessara svikahrappa, sem leiddu Frakkland og byltinguna fram á barm glötunar á þjóðstjóratímabilinu og gáfu Napóleone þannig átyllu til valdaráns síns. Því var það, að í huga Saint-Simons mótaðist hugmyndin um andstæður milli „verkalýðs" og „iðjuleysingja" í stað andstæðna milli þriðju stéttar og sérréttindastéttanna. Til iðjuleysingjanna töldust ekki aðeins sérréttindastéttirnar gömlu heldur og allir þeir sem lifðu á vaxtatekjum og ekki tóku þátt í verzlun og framleiðslustörfum. „Verkalýðsstéttina" skipuðu ekki bara daglaunamenn. Til hennar töldust einnig verksmiðjueigendur, kaupmenn og fjármálamenn. Hinir iðjulausu höfðu misst hæfileikann til forustu í menningarlegum efnum og til pólitísks forræðis. Því varð ekki haggað og byltingin staðfesti það endanlega. Saint-Simon áleit reynsluna af ógnarstjórninni sönnun fyrir því að hina eignalausu skorti einnig hæfni til slíkrar forustu. En hverjir áttu þá að stjórna og ráða? Það áttu vísindin og iðnaðurinn að gera, að dómi Saint-Simons, en ný trúartengsl skyldu tengja þau tryggilega saman. Úr þessu skyldi myndast „nýr kristinn siður", sem óhjákvæmilega yrði með dulrænum blæ og rígskorðaður. Markmiðið átti að vera að koma á að nýju þeirri trúarlegu einingu sem rofnað hafði á siðskiptatímanum. En vísindin, það voru menntamennirnir, og iðnaðurinn, það voru fyrst og fremst starfandi borgarar, kaupmenn og fjármálamenn. Borgarar þessir áttu raunar að verða eins konar opinberir embættismenn, trúnaðarmenn þjóðfélagsins, en samt skyldu þeir vera forsjármenn verkalýðsins og njóta fjárhagslegra fríðinda umfram hann. Það féll einkum fjármálamönnunum í skaut að hafa umsjón með heildarframleiðslu þjóðfélagsins með lánveitingum sínum. – Þessar skoðanir voru í fullu samræmi við aðstæður í Frakklandi á þessu tímaskeiði. Stóriðjan var að stíga sín fyrstu spor og í kjölfar hennar komu andstæðurnar milli borgarastéttar og verkalýðs. En meginálierzluna leggur Saint-Simon á eftirfarandi: Hann segir, að sér séu ávallt og alls staðar ríkust í huga „örlög þeirrar stéttar sem er fjölmennust og á við mesta fátækt að búa" (la classe la plus nombreuse et la plus pauvre).

Saint-Simon kemur þegar í „Bréfi frá Genf" fram með þá kennisetningu, að „allir menn eigi að vinna". Hann gerir sér þegar í þessu riti grein fyrir, að ógnarstjórnin var stjórn hins snauða fjölda, og hann segir við alþýðu manna: Lítið á það, sem gerðist í Frakklandi, þegar félagar ykkar fóru þar með völd: Þeir leiddu yfir ykkur hungursneyð. Það var snilldarlegt

að gera þá uppgötvun þegar árið 1802, að franska byltingin væri stéttabarátta, ekki bara milli aðals og borgara, heldur milli aðals, borgarastéttar og öreiga. Árið 1816 kveður hann upp úr með að stjórnmál séu vísindin um framleiðslustarfsemina, og hann segir fyrir um, hvernig stjórnmál og hagfræði áttu eftir að renna saman í eitt. Hér örlar þó bara rétt aðeins á skilningi á því, að efnahagslegar aðstæður ákvarða hið stjórnskipulega form, en hins vegar er skýrt tekið fram að í stað pólitískra yfirráða yfir mönnum eigi að koma umsjón með alþjóðareignum og stjórn á framleiðslustarfseminni. Hann boðar semsé þá þegar það „afnám ríkisins", sem krafizt hefur verið með hvað mestum fyrirgangi upp á síðkastið. Sömu yfirburði yfir samtíðarmenn sína sýndi Saint-Simon árið 1814, rétt eftir innreið bandamanna inn í París og aftur 1815, meðan hundrað daga styrjöldin stóð yfir, en þá lýsti hann yfir því, að einasta tryggingin fyrir friði og framförum í Evrópu væri bandalag milli Englands og Frakklands og tengsl beggja þessara landa við Þýzkaland. Það þurfti sannarlega áræði og sögulega langsýni til að boða bandalag milli Frakka og sigurvegaranna frá Waterloo 1815. Saint-Simon var gæddur snilldarlegri skarpskyggni, sem gerir það að verkum, að í ritum hans er imprað á nær öllum kenningum sósíalista síðari tíma, ef undan eru skildar hreinar hagfræðikenningar. Fourier hafði hins vegar til að bera ósvikið franskt andríki, en það varð engan veginn til að draga broddinn úr hárbeittri gagnrýni hans á ríkjandi þjóðfélagsháttum. Fourier veitti borgarastéttinni ósvikna ádrepu. Átti það jafnt við um guðmóði fyllta spámenn hennar frá því fyrir byltinguna og vikaliprar loftungur áranna eftir byltinguna. Hann flettir vægðarlaust ofan af vesaldómi borgaranna, jafnt í efnalegu sem siðferðilegu tilliti og hann gerir samanburð á veruleikanum og glæsilegum fyrirheitum upplýsingarhöfunda eldri tíma. Þeir boðuðu þjóðfélag skynseminnar, menningarþjóðfélag, sem gerði alla hamingjusama, og þeir höfðu haldið fram, að mannkynið gæti sótt fram til æ meiri fullkomnunar. Sömu skil gerði hann fagurgala hugmyndafræðilegra málsvara borgarastéttarinnar um þessar mundir. Hann sýnir fram á, hvernig fegurstu gyllingarnar hylja hvarvetna aumasta veruleikann og hann ræðst með nístandi háði á örþrot svikagyllinganna. Fourier er ekki aðeins gagnrýnir. Síkvikur hugur hans gerir hann að ádeiluhöfundi og á því sviði á hann fáa sína líka. Hann lýsir á snilldarlegan og einkar kátlegan hátt svindlinu, spákaupmennskunni og mangarabragnum sem spratt upp í viðskiptalífi Frakka einmitt þegar flóðbylgja byltingarinnar tók að fjara út. Þó er gagnrýni hans á sambúð karls og konu og réttarstöðu konunnar í borgaralegu þjóðfélagi enn

snilldarlegri. Hann kvað fyrstur manna upp úr með, að kvenfrelsi í hverju þjóðfélagi væri mælikvarði á frelsi þess almennt. En mest þykir þó koma til skoðana Fouriers um þróunarsögu þjóðfélagsins. Hann greinir á milli fjögurra þróunarstiga sögunnar: villimennsku, hálfsiðmenningar, ættarsamfélags og siðmenningar, en hið síðastnefnda svarar til hins svonefnda borgaralega þjóðfélags, þ. e. þeirra þjóðfélagshátta, sem verið hafa í mótun frá því á 16. öld. Hann leiðir rök að því „að skipulag siðmenningarinnar hefji hvern þann löst, sem hálfsiðað fólk iðkar í sinni einföldustu mynd, upp í æðra veldi með flóknum, tvíræðum og tvíbentum lífsháttum sínum, sem einnig eru blandnir hræsni". Hann heldur þvi einnig fram, að siðmenningin sé „ófullkomin hringrás", hún ali stöðugt af sér nýjar andstæður, sem hún geti ekki sigrazt á og niðurstaðan af allri viðleitni hennar sé þveröfug við það, sem að er stefnt, og þau markmið, sem sett eru. Þannig er því t. d. farið „að siðmenning skapar fátækt mitt í allsnægtunum". Ljóst er af þessu, að Fourier beitir díalektíkinni af sömu snilld og samtímamaður hans Hegel. Hann snýst gegn öllu talinu um möguleika mannkynsins til óendanlegrar fullkomnunar og leiðir í ljós með sömu díalektísku rökfestunni, að sérhvert söguskeið á sér framfaraskeið, en verður einnig hrörnuninni að bráð. Þessa skoðun lagði Fourier til grundvallar skrifum sínum um framtíð alls mannkyns. Fourier boðaði endalok mannkynsins í bollaleggingum sínum um söguþróunina á sama hátt og Kant hélt því fram í skrifum sínum um náttúrufræðileg efni, að jörðin myndi farast.

Meðan stormbyljir byltingarinnar gengu yfir Frakkland, gerðist hóglátari þróun í Englandi. En afleiðingar hennar voru jafnbyltingarkenndar, þótt svo væri. Gufuaflið og hinar nýju verksmiðjuvélar breyttu skipulögðu handiðjunni í stóriðju nútímans og ollu straumhvörfum á öllum sviðum í hinu borgaralega þjóðfélagi. Hægfara þróun handiðjunnar varð að víkja og við tók sannkallað storma- og leysingaskeið nýrra og stórstígra framleiðsluhátta. Uppskipting þjóðarinnar í stórkapítalista og snauða öreiga gerðist nú með sívaxandi hraða, en milli þessara hópa stóð fjöldi handverksmanna og smákaupmanna, sem mjög áttu erfitt uppdráttar. Þetta var sá hluti þjóðarinnar, sem lifði hvað ótryggustu lífi, en stöðugleiki hafði einmitt einkennt millistétt fyrri tíma. Uppgangstímabil hinna nýju framleiðsluhátta var að hefjast einmitt nú. Þeir voru ennþá hin eina eðlilega og rétta framleiðsluskipan. Forsendur annarrar skipunar voru ekki til eins og á stóð. En hún hafði þá þegar í för með sér hróplegt félagslegt hörmungarástand. Athvarfslausu fólki var hrúgað saman í lélegustu húskumböldum stórborganna og öll fyrri ættarbönd

brustu. Átti það bæði við um vald ættföðurins og fjölskylduböndin. Óskapleg yfirvinna var látin viðgangast, og bitnaði það einkum á konum og börnum. Verkalýðsstéttin varð afsiðunaröflunum að bráð í alveg nýju umhverfi. Þetta stafaði af skyndilegum flutningi úr sveitum til borga, frá landbúnaðarstörfum til starfa við stóriðju. Síbreytileg og ótrygg lífskjör komu nú í stað stöðugleika og festu. Þá kom umbótamaður fram á sjónarsviðið. Það var 29 ára gamall iðjuhöldur, göfugmenni að eðlisfari og barnslegur í lund, en jafnframt flestum betur til forustu fallinn. Robert Owen hafði tileinkað sér kenningar efnishyggjumanna úr hópi fræðslustefnuhöfunda. Þeir höfðu haldið því fram, að skapgerð manna væri ofin tveim meginþáttum, annars vegar meðfæddum eiginleikum, en hinsvegar mótaðist hún af aðstæðum þeim, sem menn byggju við um ævina, einkum á bernskuskeiði. Iðnbyltingin táknaði í augum flestra stéttarbræðra hans ekki annað en ringulreið og öngþveiti, þar sem hægt væri að mata krókinn og safna skjótfengnum auði. Owen leit á iðnbyltinguna sem tækifæri til að hrinda í framkvæmd þeim hugsjónum, sem honum voru hjartfólgnastar og koma þannig skipulagi á óskapnaðinn. Hann hafði reynt þetta með góðum árangri í verksmiðju einni í Manchester, þar sem hann hafði 500 verkamenn í þjónustu sinni. Frá árinu 1800 til ársins 1829 veitti hann forstöðu stórri baðmullarverksmiðju í New Lanark í Skotlandi, sem framkvæmdastjóri og meðeigandi og fylgdi þá sömu meginreglum. Eini munurinn var sá, að nú hafði hann frjálsari hendur, enda tókst svo vel til, að hróður hans barst um gervalla álfuna. Hann byggði smám saman upp 2500 manna samfélag, en aðilar þess voru upphaflega af ýmsu tagi, mestmegnis menn úr öllum áttum, er lent höfðu í siðferðilegri niðurlægingu og hann veitti þegnrétt í sannkölluðu fyrirmyndarsamfélagi þar sem drykkjuskapur, lögregla, refsidómar, málaferli, fátækraframfærsla og líknarstarfsemi voru óþekkt fyrirbæri. Og þessum árangri náði hann með því að búa á mannsæmandi hátt að fólki og einkum þó með vönduðu uppeldi ungu kynslóðarinnar. Hann átti hugmyndina að smábarnaskólunum og varð fyrstur til að hrinda henni í framkvæmd. Þegar börnin voru á öðru ári var þeim komið í leikskóla, en þar undu þau svo vel hag sínum, að varla var unnt að tosa þeim heim til sín. Meðan keppinautar hans létu starfsfólkið þræla 13–14 tíma á dag, var vinnutíminn í New Lanark aðeins $10^1/_2$ tími. Þegar fjögurra mánaða hlé varð á framleiðslunni vegna baðmullarkreppu, héldu verkamennirnir launum sínum óskertum. En samtímis þessu tvöfaldaðist verðmæti fyrirtækisins og það skilaði jafnan eigendum sínum ríflegum ágóða. En Owen var samt ekki ánægður. Að hans hyggju skorti

enn mikið á, að þau lífskjör, sem hann veitti starfsmönnum sínum, gætu talizt mannsæmandi. „Fólkið var þrælar mínir". Því fór mjög fjarri að þau bærilegu lífskjör, sem hann bjó fólki sínu, tryggðu alhliða og þroskavænleg uppeldis- og menntunarskilyrði, hvað þá að lífið gæfi því færi á að nýta þá hæfileika, sem það var gætt. „Samt framleiddu þeir sem verkfærir voru þessara 2500 manna jafnmikil raunveruleg verðmæti handa þjóðarheildinni og 600.000 manns gátu framleitt tæpri hálfri öld fyrr. „Ég spurði sjálfan mig: Hvað verður um mismuninn milli þeirra verðmæta, sem 2500 manns nota og þess sem 600.000 manns hefðu orðið að nota?" Svarið lá í augum uppi. Mismunurinn hafði verið notaður til að greiða eigendum fyrirtækisins 5% vexti af stofnfé sínu og meira en 300 þús. sterlingspund að auki í ágóða. Þannig var málum háttað í New Lanark og ekki átti þetta síður við um allar aðrar verksmiðjur í Englandi. „Án þessara nýju auðæfa, sem vélarnar höfðu skapað hefði ekki verið hægt að heyja styrjöldina, sem leiddi til falls Napóleons og hélt uppi þjóðfélagskerfi yfirstéttanna. Samt voru þessi auðæfi sköpunarverk verkalýðsins."[1] Þess vegna átti hann að njóta ávaxtanna af erfiði sínu. Hin voldugu, nýju framleiðsluöfl, sem allt til þessa höfðu einungis malað fáum einstaklingum gull, en undirokað allan fjöldann, sköpuðu að áliti Owens möguleika á nýrri þjóðfélagsskipan. Þau skyldu vera í alþjóðareign og rekin með hagsmuni allra fyrir augum.

Þannig varð kommúnismi Owens til. Hann spratt upp af viðskiptum og segja má, að hann sé ávöxtur hreinna kaupmennskusjónarmiða. Hið hagnýta gildi einkenndi æ síðan kenningar Owens að öllu leyti. Þannig lagði Owen árið 1823 til, að bundinn yrði endi á volæðið í Írlandi með því að stofnsetja kommúnískar nýbyggðir þar. Hann lagði fram útreikninga á heildarstofnkostnaði, árlegum útgjöldum og væntanlegum afrakstri. Endanlegar framtíðaráætlanir hans voru líka samdar af mikilli málefnalegri þekkingu. Þetta átti við um tækniileg smáatriði hvernig að þeim var unnið og sama var uppi á teningnum um frumdrætti, áætlunargerð og athuganir, byggðar á heildaryfirliti. Jafnvel sérfræðingar gátu lítið sem ekkert fundið að smæstu atriðum, ef þeir á annað borð aðhylltust leið Owens til þjóðfélagsumbóta.

Þegar Owen snerist til fylgis við kommúnisma urðu straumhvörf í lífi hans. Meðan hann kom eingöngu fram sem mann-

---

[1] Úr ritinu „The Revolution in Mind and Practice" (hugarfarsbylting og bylting í framkvæmd), álitsgerð, sem beint var til allra „róttækra lýðveldissinna, kommúnista og sósíalista í Evrópu" og sent var bráðabirgðastjórninni frönsku árið 1848, en einnig „til Viktoríu drottningar og hinna ábyrgu ráðgjafa hennar". (Aths. Engels).

vinur, uppskar hann auðæfi, lof, heiður og frægð. Hann naut meiri vinsælda en nokkur annar maður í Evrópu. Það voru ekki bara stéttarbræður hans sem hlýddu á hann með aðdáun, sama gerðu þjóðhöfðingjar og stjórnmálamenn. En þeir sneru við blaðinu, þegar hann gerði kommúnískar hugmyndir sínar heyrum kunnar. Það voru þrjú atriði, sem honum virtust öðrum fremur girða fyrir þjóðfélagslegar endurbætur. Þetta voru einkaeignarrétturinn, trúarbrögðin og hjónabandið, eins og því var þá fyrir komið. Honum var fullkunnugt um, hvað hann átti í vændum, ef hann réðist gegn þessu þrennu. Hann yrði útlægur ger úr opinberu lífi og hann myndi missa stöðu sína í þjóðfélaginu. En hann lét ekkert aftra sér frá að ráðast hlífðarlaust gegn þeim, og afleiðingarnar urðu þær, sem hann hafði séð fyrir. Hann var bannfærður í opinberu lífi, blöðin þögðu hann í hel, misheppnaðar tilraunir hans til að framkvæma kommúnisma í Bandaríkjunum gerðu hann öreiga, því að hann hætti öllum auðæfum sínum í þessu skyni. Þá leitaði hann á vit verkalýðsins og meðal hans starfaði hann 30 ár til viðbótar. Allar þjóðfélagsbreytingar og raunverulegar framfarir, sem orðið hafa verkalýðnum til hagsbóta í Englandi eru tengdar nafni Owens. Eftir fimm ára þrotlausa baráttu fékk hann árið 1819 samþykkt fyrstu lögin, sem takmörkuðu vinnu kvenna og barna í verksmiðjum. Þannig var hann í forsæti á fyrsta þinginu, þegar verkalýðsfélög hvaðanæva úr Englandi sameinuðust í einu stóru verkalýðssambandi. Hann kom líka á samvinnufélögum, sem skyldu vera áfangi á leiðinni til fullkomins kommúnísks skipulags (samvinnufélög framleiðenda og neytenda), en þau hafa upp frá því að minnsta kosti sannað í verki, að bæði kaupmaðurinn og iðjuhöldurinn mega missa sig. Í annan stað kom hann á fót útsölum fyrir verkafólk. Þar var skipzt á afurðum, en gjaldmiðillinn var pappírsseðlar. Verðgildi þeirra miðaðist við vinnustundir. Rekstur þessara stofnana hlaut að mistakast, en þær voru nákvæmlega af sama tagi og skiptabankar Proudhons, sem urðu til miklu síðar. Þó var einmitt sá munur á þessu tvennu, að stofnunum Owens var ekki ætlað að lækna öll þjóðfélagsmein að fullu. Þær áttu aðeins að vera fyrsta skrefið af mörgum í þá átt að gera róttækar breytingar á þjóðfélaginu.

Skoðanir hugsæissósíalistanna mótuðu um langa hríð sósíalískar hugmyndir á 19. öldinni og gera það að nokkru leyti enn. Til mjög skamms tíma aðhylltust allir enskir og franskir sósíalistar þessar skoðanir og sama máli gegndi um kommúnismann í Þýzkalandi á fyrri árum, og er þá Weitling ekki undanskilinn. Þeir álíta allir, að sósíalisminn sé opinberun sjálfs *Sannleikans*, Skynseminnar og Réttlætisins; það þurfi aðeins að uppgötva hann

og þá muni hann sigra heiminn af sjálfsdáðum. Þar eð sannleikurinn er óháður bæði tíma og rúmi, og þá einnig sögulegri þróun mannkynsins, er algerlega undir hælinn lagt, hvar og hvenær hann verður uppgötvaður. Því fer það svo, að hinum ýmsu kenningasmiðum ber ekki saman um hvað sé sannleikur, skynsemi og réttlæti. En sá sannleikur, skynsemi og réttlæti, sem hver og einn þeirra hefur fundið, ákvarðast aftur af persónulegum skilningi þeirra, lífskjörum, þekkingu þeirri og rökþjálfun, sem þeir búa yfir. Því er það svo, að engin lausn er hugsanleg á árekstrum hinna algildu sanninda önnur en sú, að þau samlagist. Niðurstaða slíkrar samlögunar gæti einungis orðið ósamstæður hrærigrautur sósíalískra kenninga, líkt og flestir sósíalískir verkamenn í Englandi og Frakklandi hafa aðhyllzt fram að þessu. Það yrði um að ræða blending, sem myndi skapa ótrúlega margbreytileg blæbrigði í skoðunum. Blendingurinn myndi verða til úr þeim gagnrýnisskrifum, hagfræðikenningum og þjóðfélagslegum framtíðarsýnum, frá hendi hinna ýmsu kenningasmiða, sem minnstum ásteytingi hefðu valdið. Blending þennan yrði svo því auðveldara að framkvæma, þeim mun óákveðnari og óljósari sem hann yrði eftir að öll fastmótuð sjónarmið hefðu slípast af í umræðunum, rétt eins og straumur lækjarins skilur eftir sig sléttfágaðar steinvölur í farvegi sínum. Það varð að byggja sósíalismann á bjargi raunveruleikans, ef takast átti að gera hann að vísindum.

## II. Díalektísk efnishyggja

En meðan þessu fór fram hafði hin nýja þýzka heimspeki risið á legg við hlið 18. aldar heimspekinnar frönsku og í framhaldi hennar. Með Hegel rann hún sitt skeið á enda. Verðleikar hennar eru einkum fólgnir í því, að hún skipaði díalektíkinni á nýjan leik í hásæti mannlegrar hugsunar. Gömlu grísku heimspekingarnir voru þeim eiginleikum gæddir, að þeim var eðlilegt að beita díalektíkinni og Aristoteles, sá sem spannaði stærst svið þeirra allra, rannsakaði líka á sínum tíma helztu myndir díalektískrar hugsunar. Heimspeki síðari tíma mótaðist aftur á móti í æ ríkari mæli af svokölluðum frumspekilegum hugsunarhætti og gerðist þetta einkum fyrir ensk áhrif. Þó hefur díalektíkin átt glæsilega fulltrúa meðal heimspekinga síðari tíma svo sem Descartes og Spinoza. Franskir 18. aldar höfundar voru einnig nær undantekningarlaust undir áhrifum frumspekinnar, a. m.k. í þeim verkum sínum, sem fjölluðu sérstaklega um heimspeki. Auk skrifa um eiginlega heimspeki, létu þeir einnig frá

sér fara díalektísk meistaraverk. Nægir þar að minna á „Frænda Rameaus“ eftir Diderot og ritgerð Rousseaus „Hvernig hefur misrétti mannanna orðið til“. Við skulum hér rekja stuttlega megininntak beggja hugsunaraðferðanna.

Þegar við tökum til íhugunar náttúruna, mannkynssöguna eða andlega viðleitni okkar, verður fyrst fyrir okkur óumræðilega flókin mynd. Þar gefur að líta samhengi og víxláhrif, þar sem ekkert virðist standa óhaggað, en allt er á hreyfingu, tekur stakkaskiptum, verður til og líður undir lok. Við sjáum semsé fyrst heildarmynd, þar sem einstök atriði hverfa enn að meira eða minna leyti í skuggann. Við veitum fremur athygli hreyfingu, umskiptum, samhengi, en því, sem hreyfist, breytist og myndar samhengi. Þessa upprunalegu, einföldu heimsskoðun, sem þó sér málavextina í réttu ljósi, finnum við í hinni gömlu grísku heimspeki. Heraklitos varð fyrstur til að móta hana skýrum orðum. Allt er til, og er það þó ekki, því að allt streymir og er stöðugum breytingum háð, fæðist og deyr í sífellu. En þessi skoðunarháttur hrekkur þó ekki til að skýra einstaka drætti þeirrar heildarmyndar, sem við sjáum, enda þótt hann veiti rétta hugmynd um útlínur í heildarmynd fyrirbæranna. Og á meðan við þekkjum ekki einstök atriði myndarinnar, höfum við ekki heldur gert okkur fulla grein fyrir heildarmyndinni. Til þess að skilja einstök atriði, verðum við að taka þau úr náttúrlegu eða sögulegu samhengi og rannsaka þau hvert í sínu lagi. Rannsóknaraðferðin fer eftir því, hvers eðlis þessi atriði eru, hverjar orsakir og afleiðingar þau hafa í hverju tilviki fyrir sig. Þetta er fyrst og fremst verkefni náttúruvísinda og sagnfræðinnar. En þessar vísindagreinar skipuðu ekki háan sess meðal Forngrikkja, sem vonlegt var, því að þeir urðu fyrst að viða saman heimildum um þessi efni. Það var ekki fyrr en nokkurt magn heimilda og athugana um náttúrufræði og sagnfræði hafði safnazt, að hægt var að hefjast handa um vísindalegar athuganir, samanburð eða skiptingu í flokka, skipanir og tegundir. Nákvæmar rannsóknir í raunvísindum hófust því fyrst með Grikkjum í tíð hellenismans (á Alexandríutímabilinu),[1] og komust síðar lengra á veg meðal Araba á miðöldum. Raunvísindi í þess orðs fyllstu merkingu eiga upptök sín fyrst á ofanverðri 15. öld, en uppfrá þeim tíma hafa orðið æ örari framfarir á því sviði. Nátt-

[1] *Alexandríutímabil:* Það er talið spanna yfir þróun vísinda allt frá 3. öld f. Kr. fram á 7. öld e. Kr. burð. Egypzka hafnarborgin Alexandría hefur gefið tímabilinu nafn, en þar var miðstöð alþjóðlegra viðskipta á þeim tímum. Þetta var tímabil mikillar grósku í t. d. stærðfræði (Euklides og Archimedes), landafræði, stjörnufræði, líffærafræði, lífeðlisfræði og öðrum greinum. – *Útg.*

úran hefur verið greind sundur í frumþætti sína, gerður er skilsmunur á ýmsum náttúrufyrirbærum og hlutum í náttúrunnar ríki og þeim skipt í ákveðna flokka og menn fást við rannsóknir á innri starfsemi lífveranna og hinum margvíslegu líffærum. Allt þetta er grunnforsenda þeirra stórstígu framfara, sem orðið hafa næstliðnar fjórar aldir í þekkingu okkar á náttúrunni. En þessi aðferð hefur einnig vanið okkur við að taka náttúruna og fyrirbæri í náttúrunni til athugunar í einstökum atriðum aðgreind frá heildinni. Þess vegna höfum við athugað þau sem kyrrstæð en ekki á hreyfingu og litið á þau sem fastar stærðir, en ekki á breytileik þeirra, sem mestu máli skiptir. Við sjáum ekki hið síkvika líf heldur dauðann í fyrirbærum náttúrunnar, er við rannsökum þau. Um leið og þessi skoðunaraðferð náttúruvísindanna var tekin upp á sviði heimspekinnar, en það gerðu þeir Bacon og Locke, varð frumspekilegur hugsunarháttur til, þessi sérstaka tegund þröngsýni, sem einkennt hefur síðustu aldirnar.

Frumspekingurinn álítur, að hlutir og hugmyndir manna um þá, hugtökin, séu einangruð rannsóknarefni. Þau koma hvert á eftir öðru, eru hvert öðru óháð, stirðnuð, fastmótuð og taka engum breytingum. Öll hugsun hans er í andstæðum án allra tengsla sín á milli. Það, sem hann segir, er já, já og nei, nei. Allt umfram það er frá hinu illa. Að hans dómi er hlutur annaðhvort til, eða hann er það ekki, því að ekki getur hluturinn samtímis verið hann sjálfur og eitthvað annað. Hið jákvæða og neikvæða girða algerlega hvort fyrir annað. Einnig orsök og afleiðing eru algerlega steinrunnar andstæður. Þessi hugsunarháttur virðist við fyrstu sýn afar ljós og skýr sakir þess að hann er í samræmi við það sem nefnt er heilbrigð skynsemi, en heilbrigð skynsemi hlýtur að rata í næsta furðuleg ævintýri, ef hún hættir sér út á víðerni vísindalegra rannsókna, enda þótt hún standi fyrir sínu og sé allrar virðingar verð, þegar glímt er við hversdagsleg viðfangsefni innan fjögurra veggja heimilisins. Og því er þannig farið með skoðunaraðferð frumspekinnar, að takmarkanir hennar koma jafnan í ljós fyrr eða síðar, enda þótt réttmætt sé og raunar óhjákvæmilegt að beita henni við yfirgripsmikil verkefni. En utan þessara marka leiðir frumspekileg rannsóknaraðferð til einsýni, þröngsýni og hlutfirringar, hún hafnar í óleysanlegum andstæðum, af því að hún gleymir samhenginu vegna einstakra hluta þess, henni sést yfir tilurð og eyðingu hlutanna vegna tilveru þeirra og hreyfingin gleymist vegna kyrðarinnar. Hún sér nefnilega ekki skóginn fyrir trjám. Við vitum af hversdagslegri reynslu og getum með fullri vissu kveðið upp úr með það, hvort tiltekið dýr er til eða ekki, en þegar betur er að gáð, komumst við að raun um að þetta er mál, sem oft er ærið

örðugt úrlausnar. Þetta vita lögfræðingarnir fullvel, en þeir hafa árangurslaust lagt sig í líma um að finna skynsamleg tímatakmörk, sem skeri úr um það, hvenær fóstureyðing skuli teljast morð. Jafnókleift hefur reynzt að ákvarða dauðastundina, þar eð lífeðlisfræðin hefur sýnt fram á, að dauðinn kemur ekki allt í einu með snöggum hætti, heldur er um að ræða breytingu sem tekur þó nokkurn tíma. Einnig má segja um allar lífverur, að þær séu alltaf samar og jafnar og þó ekki. Þær brjóta niður þau næringarefni, sem þær hafa tekið til sín, losa sig við úrgangsefni, alltaf eru líkamsfrumur að deyja og aðrar að verða til. Eftir lengri eða skemmri tíma hefur farið fram alger endurnýjun á efnunum í líkamanum. Nýjar efnafrumeindir hafa komið í stað hinna eldri, svo að allar lífverur eru jafnan hinar sömu, en þó aðrar. Við nánari athugun komumst við einnig að raun um, að tvö andstæð skaut, t. d. jákvætt og neikvætt, eru jafnóaðskiljanleg og þau eru andstæð, því að þau gegnsýra hvert annað þrátt fyrir andstæðurnar á milli þeirra. Orsök og afleiðing eru fyrirbæri, sem hafa einungis slíkt gildi í ákveðnum tilvikum. Ef við skoðum atvikið í almennu samhengi við heiminn í heild, renna þær saman í eitt, leysast upp í almennar víxlverkanir, þar sem orsök og afleiðing skipta stöðugt um sess. Það, sem nú og hér er afleiðing, verður orsök þar og þá eða öfugt.

Hvorki þau ferli sem nefnd eru hér að ofan né heldur hugsanaaðferðirnar eru við hæfi þeirra takmarka, sem frumspekilegri hugsun eru sett. En þróunarfræðin, sem skoðar aðallega samhengi hluta og hugtaka er endurspegla þá, samband þeirra og hreyfingu, tilurð og eyðingu, getur hins vegar talið fyrirbæri á borð við þau, sem áður er getið, til sannindamerkis um ágæti rannsóknaraðferðarinnar. Díalektíkin verður að standast próf náttúrunnar, og um nútíma náttúruvísindi verður að segja eins og satt er, að þau hafa látið okkur í té gnótt gagna um þessa prófraun og bætist daglega við þann sjóð. Þannig hefur tekizt að færa sönnur á, að náttúrufyrirbærin eru, þegar öll kurl koma til grafar, díalektísks en ekki frumspekilegs eðlis, náttúran er ekki eilíf og óumbreytanleg hringrás, heldur á hún í reynd sína þróunarsögu. Í þessu sambandi ber að nefna nafn Darwins öðrum fremur, en rök hans fyrir því, að öll hin lífræna náttúra kringum okkur, jurtir, dýr og maðurinn sjálfur, séu ávöxtur þróunarbreytinga, sem staðið hafa milljónir ára, hafa orðið náttúruskoðun frumspekinnar afar þungt áfall. En þar sem tiltölulega fáir náttúrufræðingar hafa til þessa náð valdi á díalektískri hugsun er auðvelt að skilja þá takmarkalausu ringulreið, sem skapazt hefur, vegna þess að þær niðurstöður, sem fengizt hafa, fara í bága við eldri hugsunarhátt. Þessi ringulreið tröllríður nú

náttúrufræðilegum vísindagreinum og veldur örvilnun jafnt hjá kennurum og nemendum sem hjá rithöfundum og lesendum.

Nákvæma skýringu á alheiminum, þróun hans og þróun mannkynsins, er aðeins unnt að gefa, ef beitt er díalektískri aðferð. Sama máli gegnir um þá mynd þessarar þróunar, sem endurspeglast í höfði manna. Maður verður stöðugt að gefa gaum hinum almennu víxláhrifum, sem verða við tilurð og eyðingu, og sama er að segja um breytingar, sem horfa til framfara, og eins þær, sem miða afturábak. Þarna haslaði hin nýja þýzka heimspeki sér þegar völl. Kant lét það verða sitt fyrsta verk á vísindasviðinu að sundra hinu trausta sólkerfi Newtons og hinum eilífa varanleik þess frá þeirri frægu stundu, að því var fyrst hrundið af stað. Hann breytti því í sögulega framvindu. Sólin og reikistjörnurnar hefðu orðið til úr þokuhvirfli, er snerist um möndul sinn. Þessi skoðun leiddi þegar til þeirrar ályktunar, að úr því að sólkerfið hefði myndazt hlyti það einhvern tíma í framtíðinni að líða undir lok. Hálfri öld síðar rökstuddi Laplace skoðun Kants á stærðfræðilegan hátt og að liðinni hálfri öld til viðbótar sást í stjörnukíki að til eru glóandi gashvirflar í himingeimnum á ýmsum þéttleikastigum.

Hin nýja þýzka heimspeki náði fullnaðarþroska í heimspekikerfi Hegels og lauk með því. Þar var skilningur framvindunnar í fyrsta sinn lagður í náttúruna, söguna og heim andans, og það er þetta sem gefur kerfi Hegels gildi. Skoðun hans er sú, að veröldin sé á stöðugri hreyfingu, hún taki breytingum, þróist og taki á sig nýjar myndir. Hann leitaðist við að sýna fram á innra samhengi breytinganna og þróunarinnar. Er þetta sjónarmið var lagt til grundvallar, litu menn ekki lengur á sögu mannkynsins sem öngþveiti eða röð fáránlegra ofbeldisverka, sem öll væru jafnfordæmanleg fyrir dómstóli hinnar heimspekilegu skynsemi, er nú væri komin til fulls þroska og því bezt að gleyma þeim eins fljótt og unnt væri. Nú sýndi sagan sjálfan þróunarferil mannkynsins, og hugsuninni bæri að einbeita sér að því að fylgjast með hægfara stígandi þróunarinnar á leið hennar um margar villigötur. Hún átti einnig að leiða rök að því, að þróunin lyti ákveðnum lögmálum, þrátt fyrir allar sýndartilviljanir.

Það skiptir ekki máli í þessu sambandi, að kerfi Hegels réð ekki fram úr því verkefni, sem það hafði tekizt á hendur. Ákvörðun hans um að færast þetta í fang olli aldahvörfum, og það er hið mikla framlag hans. En þetta er einmitt verkefni af því tagi, sem enginn einn maður mun nokkru sinni geta leyst. Enda þótt Hegel væri – ásamt Saint-Simon – víðfeðmasti hugsuður sinnar samtíðar var hann takmörkunum háður. Í fyrsta lagi voru þekkingu hans sjálfs óhjákvæmilega takmörk sett og í

öðru lagi reistu þekking og skoðanir samtíðarinnar honum vissar skorður, en þær voru líka takmarkaðar og ristu ekki mjög djúpt. Þar við bættist svo þriðja atriðið. Hegel var hughyggjumaður, en það þýðir, að þær hugsanir, sem kviknuðu í huga hans, voru að hans hyggju ekki meira eða minna óhlutstæðar eftirmyndir hluta og ferla úr heimi raunveruleikans, heldur var því þveröfugt farið. Hann áleit hlutina og breytiþróun þeirra ekki annað en raungerðar eftirmyndir hugveru sem til hefði verið á undan heiminum. Með þessu voru höfð endaskipti á hlutunum, og öllu raunverulegu samhengi í heimi hér algerlega snúið við. Hversu réttur og snjall sem skilningur Hegels var á samhengi einstakra atriða, hlaut þó svo að fara af nefndum ástæðum, að niðurstaðan yrði einnig í ýmsum einstökum atriðum hálfgert hnoð, tilbúningur og hrófatildur, í stuttu máli sagt öfugur árangur. Kerfi Hegels var í sjálfu sér feiknalegur vanskapnaður, en það var hið síðasta af því tagi. Það hafði nefnilega að geyma aðra innri mótsögn, sem ekki varð ráðin bót á. Önnur meginforsenda þess var söguskoðun sú, sem lítur á sögu mannkynsins sem þróunarferli, sem eðli sínu samkvæmt er ekki hægt að leiða til lykta með vitsmunalegri niðurstöðu, með því að uppgötva hin svonefndu algeru sannindi. Í annan stað er því haldið fram, að það sé sjálft í rauninni ekkert annað en þessi algeru sannindi. Kerfi, sem er alltumlykjandi og brýtur leyndardóma náttúrunnar og söguþróunarinnar til mergjar í eitt skipti fyrir öll, er andstætt grundvallaratriðum díalektískrar hugsunar. En þetta girðir engan veginn fyrir það, að kerfisbundin þekking á öllum umheiminum taki tröllauknum framförum frá kynslóð til kynslóðar. Það er þvert á móti gert ráð fyrir slíku.

Þegar mönnum skildust þær algeru ógöngur, sem hughyggjan þýzka nú hafði ratað í, hlaut það að beina mönnum að efnishyggjunni, en hér var raunar ekki um hina frumspekilegu og eingöngu vélrænu efnishyggju 18. aldar að ræða. Efnishyggja nútímans varpar ekki fyrir borð allri sögunni á undan, að hætti óraunsærra byltingarmanna. Hún lítur á söguna sem þróunarferli mannkynsins, og hún skoðar það sem verkefni sitt að uppgötva hreyfilögmál hennar. Hún byggir á kjarna vísindanna, veitist gegn þeirri skoðun 18. aldar heimspekinganna frönsku, sem enn var ríkjandi hjá Hegel, að náttúran sé óumbreytanleg heild með þröngri hringrás og himintunglum, sem verða muni til um alla framtíð, eins og Newton hélt fram. Kenningum Linnés um óumbreytanleik lífverutegundanna hafnaði efnishyggjan sömuleiðis. En hin nýju vísindi boða einmitt, að náttúran eigi sér sína þróunarsögu og gildir það jafnt um himintunglin sem

öll lifandi dýr og jurtir, sem þar búa, ef skilyrðin eru hagstæð. Þau verða til og eyðast og hringrásin verður óendanlega stór í sniðum að svo miklu leyti, sem hún yfirleitt á sér stað. Í báðum tilvikum er efnishyggjan díalektísk að megininntaki og þarf ekki framar á neinni heimspeki að halda, sem er öðrum vísindum æðri. Jafnskjótt og sú krafa er gerð til hverrar einstakrar vísindagreinar, að gera sér þess ljósa grein, hver staða hennar sé innan heildarinnar og í þekkingu manna á umheiminum, er ekki lengur þörf fyrir nein sérvísindi, sem fjalli um þetta allsherjarsamhengi. Það, sem eftir stendur óhaggað af sjálfstæðri heimspeki fyrri tíma, eru kenningarnar um hugsun mannsins og lögmál hennar, þ. e. formlega rökfræðin og díalektíkin. Allt annað verður hluti raunvísindanna um náttúruna og söguna.

Náttúruskoðunin gat einungis tekið stakkaskiptum í samræmi við skýlausa þekkingu, sem áunnizt hafði við rannsóknarstarfsemi og að sama skapi, sem hún fékk gögn í hendur frá þeirri rannsókn. En löngu áður höfðu komið fram sögulegar staðreyndir, sem leiddu til gagngerðs endurmats á söguskoðuninni. Fyrsta verkamannauppreisnin hafði orðið í Lyon árið 1831. Á árunum 1838–42 náði Chartistahreyfingin enska hvað mestum viðgangi, en hún var fyrsta hreyfing verkalýðsins, sem náði til heillar þjóðar. Stéttabaráttan milli verkalýðs og borgarastéttar varð nú megineinkennið á sögu þeirra Evrópuþjóða, sem lengst voru á veg komnar. Þessi þróun var fylgja stóriðjunnar og gerðist í annan stað jafnhliða því sem hið nýfengna pólitíska forræði borgarastéttarinnar efldist. Staðreyndir efnahagslífsins afsönnuðu stöðugt rækilegar kenningar borgaralegra hagfræðinga um sameiginlega hagsmuni auðmagns og verkalýðs og um almenna eindrægni og velmegun þjóðarinnar, sem leiða myndi af hinni frjálsu samkeppni. Þessum atriðum varð ekki lengur vísað á bug, ekki fremur en sósíalismanum enska og franska, sem var fræðileg tjáning þessara atriða, óburðug að vísu. En hin gamla söguskoðun hughyggjunnar, sem enn átti nokkur ítök, viðurkenndi enga stéttabaráttu, sem ætti rót sína að rekja til efnalegra hagsmuna. Hún viðurkenndi alls ekki tilvist efnalegra hagsmuna. Framleiðsla og raunar allir efnahagslegir þættir voru aðeins eins konar aukageta að dómi hughyggjumanna og þeirra aðeins lítillega getið í sambandi við „menningarsöguna".

Hinar nýju staðreyndir gerðu að verkum, að óhjákvæmilegt varð að taka alla sögu fyrri tíma til nýrrar athugunar. Við þessa athugun kom á daginn, að öll saga fyrri tíma, að undanskilinni frumsögunni, er saga stéttabaráttu, og þjóðfélagsstéttir þær, sem takast á, hafa risið á legg á grundvelli

þeirra framleiðslu- og viðskiptahátta sem ríkjandi eru á hverjum tíma. Þetta þýðir í stuttu máli sagt, að atvinnuskipan hvers þjóðfélags er sú undirstaða, sem miða verður við, þegar leitað er skýringa á réttarfari því og stjórnskipun, sem þar er ríkjandi. Sama máli gegnir um trúarbrögð, heimspekiskoðanir og aðrar hugmyndir manna á hverjum tíma. Þær eru, þegar öllu er á botninn hvolft, runnar af sömu rót. Hegel leysti söguskoðunina úr viðjum frumspekinnar, og hann gerði hana díalektíska, en söguskoðun hans sjálfs var mestmegnis byggð á hughyggjugrundvelli. Nú hafði hughyggjan verið hrakin á brott úr síðasta vígi sínu. Hún var ekki ein um að móta söguskoðunina, því að hin sögulega efnishyggja var nú komin á legg, og menn áttu þess kost að skýra vitund mannsins út frá verund hans, en ekki þveröfugt eins og fyrr hafði tíðkazt.

Nú mátti öllum ljóst vera, að sósíalisminn var ekki nein tilviljunarkennd uppgötvun einhvers snilldarhugsuðar, heldur óhjákvæmileg afleiðing af baráttu tveggja stétta, sem söguþróunin hafði skapað, verkalýðs og borgarastéttar. Hlutverk hans var ekki framar að finna upp eins fullkomið þjóðfélagskerfi og unnt væri, heldur að rannsaka þá sögulegu og efnahagslegu þróun, sem óhjákvæmilega hafði leitt til myndunar þessara stétta og hagsmunabaráttu þeirra. Það var einnig verkefni hans að finna ráð til lausnar árekstri andstæðnanna í því efnahagsástandi sem hún hafði skapað. En þessi efnishyggja var jafn ósamrýmanleg sósíalisma fyrri tíma sem náttúruskoðun efnishyggjunnar frönsku var díalektíkinni og náttúruvísindum nútímans. Sósíalismi fyrri tíma hafði að vísu gagnrýnt ríkjandi framleiðsluhætti kapítalismans og afleiðingar þeirra, en hann kunni enga skýringu á þeim og gat því ekki unnið bug á þeim. Það eina sem hann gat gert var að hafna þeim, af því að þeir væru slæmir. Því ákafar sem hann réðst á það arðrán á verkalýðnum, sem óhjákvæmilega er þeim samfara, þeim mun minni tök hafði hann á að benda skýrt og greinilega á í hverju þetta arðrán væri fólgið og hvernig það væri til orðið. En það verk, sem nú var fyrir höndum, var að skipa framleiðsluháttum kapítalismans sess í sögulegu samhengi og sýna fram á óhjákvæmileik þeirra á vissu skeiði sögunnar. Í annan stað var verkefnið, að afhjúpa eðli þessara framleiðsluhátta, sem enn var hulið. Þetta var gert með uppgötvun gildisaukans. Sönnur voru færðar á, að megininntak kapítalískra framleiðsluhátta fólst í því að kapítalistarnir slógu eign sinni á vinnu, sem engin greiðsla kom fyrir. Í þessu fólst arðrán verkamannsins. Það var og sannað að kapítalistinn ber meiri verðmæti úr býtum en hann lætur af hendi rakna, jafnvel þegar hann kaupir vinnuafl verkamannsins fullu verði

og greiðir venjulegt markaðsverð fyrir þessa vöru. Það er þessi gildisauki, sem í rauninni er uppspretta allra þeirra verðmæta, sem sívaxandi auðmagnseign eignastéttanna á rót sína að rekja til. Hvorttveggja hafði verið skýrt, hvernig auðvaldsframleiðsla og framleiðsla auðmagns fer fram.

Báðar þessar miklu uppgötvanir eigum við Marx að þakka. Hann er höfundur hinnar sögulegu efnishyggju og hann afhjúpaði leyndardóma kapítalískrar framleiðslu með uppgötvun gildisaukans. Hann gerði sósíalismann að vísindum, og það, sem nú er næsta verkefnið, er að koma þessum vísindum lengra á veg í öllum einstökum atriðum og tengslum þeirra sín á milli.

## III. Þróun kapítalismans

Söguleg efnishyggja byggir á þeirri staðreynd, að framleiðsla, og næst henni viðskiptin, séu undirstaða allra þjóðfélagskerfa. Hún álítur, að í hverju því þjóðfélagi, sem upp rís í rás sögunnar sé skipting framleiðsluafurðanna og sú félagslega stéttaskipting, sem af henni leiðir, undir því komin, hvað sé framleitt og með hverjum hætti framleiðslunni og viðskiptum með framleiðsluvöruna sé fyrir komið. Samkvæmt þessari skoðun er frumorsaka allra þjóðfélagslegra breytinga og byltinga á stjórnmálasviðinu að leita í breytingum á framleiðslu- og viðskiptaháttum, en ekki í huga mannsins né í auknum skilningi hans á ævarandi sannindum og réttlæti. Orsakanna er ekki að leita innan heimspekinnar, heldur í efnahagsaðstæðum hvers tímabils. Skilningur sá, sem vaknað hefur á því, að ríkjandi þjóðskipulag sé óréttlátt og óskynsamlegt, að þar hafi skynsemin breytzt í vitleysu og velgerðir í plágu, er einungis eitt merki þess, að í kyrrþey hafi átt sér stað breytingar á viðskipta- og framleiðsluháttum, og þessar breytingar séu þess eðlis, að þjóðskipulagið, sem miðað var við efnahagslegar aðstæður fyrri tíma, sé ekki lengur við hæfi. En í þessu felst jafnframt, að möguleikar til að binda endi á það ófremdarástand, sem lýðum er ljóst, eru einnig tengdir þeim breytingum, sem orðið hafa á framleiðsluafstæðunum, og þeir möguleikar hljóta að vera til staðar að meira eða minna leyti. Þetta eru ekki möguleikar, sem maður finnur upp af eigin hyggjuviti, heldur uppgötvar maður þá við að íhuga þær efnislegu staðreyndir, sem tiltækar eru um framleiðsluna.

Hvað er þá um nútíma sósíalisma að segja í framhaldi af þessu?

Nær því allir viðurkenna nú, að ríkjandi þjóðskipulag er

sköpunarverk núverandi valdastéttar í þjóðfélaginu, borgarastéttarinnar. Framleiðsluskipan borgarastéttarinnar, sem Marx nefndi kapítalíska framleiðsluhætti, gat ekki samrýmzt staðbundnum sérréttindum metorðahópa og iðnfélaga lénsskipulagsins né arfgengum persónulegum tengslum sem því fylgja. Borgarastéttin braut lénsveldið því á bak aftur og reisti borgaralegt skipulag á rústum þess. Þar voru allar dásemdir borgaralegs skipulags í hávegum hafðar. Þar ríkti frjáls samkeppni, átthagafjötrum var aflétt og jafnrétti ríkti milli vörueigenda. Framleiðsluhættir kapítalismans gátu nú þróazt tálmunarlaust. Þau framleiðsluöfl, sem borgarastéttin hafði haft forgöngu um að skapa, tóku örari breytingum og náðu meiri viðgangi en dæmi voru um áður, eftir að gufuvélin og hinn nýi vélakostur breytti handiðjunni gömlu í nútíma stóriðju. En á sama hátt og handiðjan og það handverk, sem hélt áfram að þróast fyrir áhrif hennar, varð að búa við fjötra gildaskipulagsins, hlutu þau takmörk, sem kapítalískir framleiðsluhættir settu háþróaðri stóriðju, að vera henni fjötur um fót. Hin nýju framleiðsluöfl nýtast ekki í borgaralegu skipulagi. Þau hafa þegar vaxið því yfir höfuð. Þessi árekstur milli framleiðsluafla og framleiðsluhátta er ekki neinn heilaspuni, sem menn ganga með í kollinum, eins og segja má um áreksturinn milli erfðasyndarinnar og hins guðdómlega réttlætis, heldur eru hlutlægar staðreyndir um hann fullljósar. Þessi árekstur er í umhverfi okkar og óháður vilja og gerðum jafnvel þeirra, sem honum valda. Nútíma sósíalismi er ekkert annað en hugmyndaleg endurspeglun og endurskin þessa áreksturs sem á sér stað, og honum lýstur fyrst og fremst niður í huga þeirrar stéttar, sem um sárast á að binda vegna árekstranna, en það er verkalýðurinn.

Í hverju er þá áreksturinn fólginn?

Fyrir daga kapítalískrar framleiðslu, á miðöldum, var almennt til smárekstur, sem byggðist á því, að verkamennirnir ættu sjálfir framleiðslutæki sín. Frjálsir eða ánauðugir smábændur stunduðu akuryrkju og handiðnaðarmenn störfuðu í bæjunum. Það sem til starfans þurfti, land, jarðvinnslutæki, verkstæði og verkfæri, voru eign einstaklinganna og notuð af þeim einum. Af því leiddi óhjákvæmilega, að þau voru lítilfjörleg, smá í sniðum og ófullkomin. En einmitt þess vegna voru þau að jafnaði eign framleiðandans sjálfs. Það varð hið sögulega hlutverk framleiðsluhátta kapítalismans, og borgarastéttarinnar, þeirrar stéttar, sem bar þá uppi, að safna saman þessum dreifðu og lítilvægu framleiðslutækjum, efla þau og breyta þeim í hin afkastamiklu framleiðslubákn nútímans. Marx hefur í 4. hluta „Auðmagnsins“ (Das Kapital) gert ítarlega grein fyrir því

hvernig borgarastéttin leysir þetta sögulega verkefni sitt í þrennu lagi stig af stigi. Fyrst með einfaldri samvinnu, síðar skipulagðri handiðju og stóriðju. En borgarastéttin hafði engin tök á að skapa hin voldugu framleiðsluöfl úr þeim takmörkuðu framleiðslugögnum, sem til voru, nema því aðeins að framleiðslutæki einstaklingsins yrðu félagsleg og breyttust í framleiðslutæki, sem ekki var unnt að nýta, nema af hópi manna í sameiningu. Rokkur, handknúnir vefstólar og sleggjan urðu að þoka fyrir spunavélum, vélknúnum vefstólum og gufuhamrinum. Einstaklingsverkstæði hurfu, en í þeirra stað komu upp verksmiðjur, þar sem þörf var samstarfs hundraða og þúsunda starfsmanna. Og það voru ekki bara framleiðslutækin, sem breyttust, heldur breyttist líka sjálf framleiðslan. Hún varð *félagsleg* í eðli sínu, en áður hafði verið um framleiðslu margra einstaklinga að ræða og vörurnar voru ekki lengur einstaklingsframleiðsla, heldur framleiðsla félagslegrar heildar. Spunagarnið, vefnaðarvaran og málmvörurnar, sem nú komu frá verksmiðjunum, voru sameiginleg framleiðsla margra verkamanna, þar sem þeir höfðu lagt hönd á plóginn hver af öðrum, unz varan var fullunnin. Enginn einstakur verkamaður gat sagt sem svo: Þetta hef ég búið til, þetta er vara, sem *ég hef framleitt.*

En í þjóðfélagi, þar sem framleiðslan byggist á verkaskiptingu, sem sprottið hefur upp smám saman af sjálfu sér og skipulagslaust, þar taka afurðirnar á sig mynd vöru. Gagnkvæm vöruskipti, kaup og sala gera hverjum einstökum framleiðanda kleift að fullnægja þörfum sínum. Þannig var það og á miðöldum. Bændur seldu t. d. handverksmönnum landbúnaðarafurðir og keyptu í staðinn framleiðsluvörur hinna síðarnefndu. Hinir nýju framleiðsluhættir ruddu sér nú til rúms í þessu þjóðfélagi einstakra vöruframleiðenda. Jafnhliða hinni sjálfráðu *skipulagslausu* verkaskiptingu, sem ríkti í öllu þjóðfélaginu, kom nú til sögunnar *skipuleg* verkaskipting af því tagi, sem tíðkast í einstökum verksmiðjum. *Félagsleg* framleiðsla reis á legg jafnhliða *einstaklings*framleiðslunni. Báðir aðilar seldu framleiðsluvörur sínar á sömu mörkuðum, og því a. m. k. við svipuðu verði. En skipuleg framleiðsla var öflugri en sú framleiðsluskipting, sem til var orðin fyrir tilviljanakennda þróun. Verksmiðjur, sem störfuðu á félagslegum grundvelli, framleiddu ódýrari vöru en einstakir smáframleiðendur. Hin einstaklingsbundna framleiðsla varð að lúta í lægra haldi í hverri greininni á fætur annarri, og byltingarkenndar breytingar urðu á gömlum framleiðsluháttum á öllum sviðum fyrir tilverknað hinnar félagslegu framleiðslu. Menn gerðu sér þá svo litla grein fyrir byltingarkenndu eðli hennar, að hún var þvert á móti tekin upp í því skyni að efla og

auka vöruframleiðsluna. Tilkoma hennar var bein afleiðing þeirra hagstæðu aðstæðna til vöruframleiðslu og vöruskipta, sem þegar voru fyrir hendi vegna fjármagnssöfnunar kaupmanna, tilvistar handiðju og launavinnu. Þar eð hin félagslega framleiðsla varð sjálf í reynd vöruframleiðsla með nýju sniði, varð heldur engin breyting á eignarréttinum í vöruframleiðslunni.

Við vöruframleiðsluna eins og henni hafði verið fyrir komið á miðöldum, hafði aldrei getað leikið neinn vafi á því, hverjum afrakstur vinnunnar tilheyrði. Einn framleiðandi hafði búið til vöruna, og hann notaði jafnaðarlega í hana hráefni, sem hann átti sjálfur og hafði oft framleitt sjálfur. Hann notaði eigin verkfæri, beitti eigin handafli eða naut aðstoðar fjölskyldu sinnar. Hann þurfti alls ekki að byrja á því að slá eign sinni á vöruna, hún var alveg sjálfkrafa eign hans. Það var *eigin vinna,* sem réð eignarrétti á framleiðslu-vörunum. Jafnvel í þeim tilvikum, þar sem þörf var utanaðkomandi aðstoðar, var hún venjulega aukaatriði og oftlega kom fyrir þessa aðstoð önnur greiðsla auk launa. Nemar og sveinar, sem unnu í þjónustu meistara úr iðnmeistarafélagi, gerðu það ekki fyrst og fremst til að hljóta laun og uppihald, heldur til að búa sjálfa sig undir að hljóta meistararéttindi. En þar kom að tekið var að safna framleiðslutækjunum saman á stór verkstæði eða í skipulögð handiðjufyrirtæki, en við það urðu framleiðslutækin raunar félagsleg í eðli sínu. Þessi félagslegu framleiðslutæki og framleiðsluvöruna sjálfa var þó farið með eins og um væri að ræða framleiðslutæki og framleiðsluvöru einstakra manna. Eigandi tækja þeirra og hráefnis, sem þurfti til vinnunnar, hafði áður slegið eign sinni á vöruna, af því að hann hafði framleitt hana sjálfur og utanaðkomandi aðstoð heyrði til undantekninga. Hann hélt nú uppteknum hætti um að eigna sér vöruna, enda þótt hún væri ekki lengur framleidd af honum, heldur eingöngu með *utanaðkomandi vinnuafli.* Nú var því svo komið, að afurðir hinnar félagslegu framleiðslu voru ekki eign þeirra, sem unnu við framleiðslutækin og raunverulega höfðu framleitt vöruna, heldur voru afurðirnar eign *kapítalistans.* Framleiðslutæki og framleiðsla eru í rauninni orðin félagsleg í eðli sínu. En þau verða að lúta þeim eignarrétti, sem reiknar með framleiðslu einstakra manna, en þá á hver einstakur sína framleiðslu og kemur henni á markað. Framleiðsluhættirnir verða að lúta eignarrétti af þessu tagi, enda þótt forsendur hans séu brostnar.[1] Þessi mótsögn, sem einkennir hina nýju framleiðsluhætti kapítalismans, *felur í sér sjálf-*

[1] Það þarf ekki að eyða orðum að því hér, að sjálft *eðli* þess, hvernig þeir slá eign sinni á afurðirnar, eins og því er lýst hér að ofan, tekur ekki minni stakkaskiptum en framleiðslan, enda þótt engin *formleg* breyt-

*an vísinn að öllum þjóðfélagsátökum nútímans.* Viðgangur hinna nýju framleiðsluhátta varð æ meiri í öllum mikilvægustu greinum framleiðslunnar og í þeim löndum, sem öflugust voru efnahagslega, og einstaklingsframleiðsla lagðist að mestu leyti niður. Þessi þróun *sýndi æ skýrar, að félagsleg framleiðsla og kapítalískt eignarhald voru ósamrýmanleg.*

Eins og áður var getið, þekktist launavinna, þegar fyrstu kapítalistarnir komu til sögunnar. En launavinna heyrði til undantekninga. Hún tíðkaðist sem aukageta, bráðabirgðaúrræði eða sem millibilsástand. Landbúnaðarverkamaðurinn, sem öðru hverju réð sig til daglaunavinnu, hafði dálitlum landskika yfir að ráða, og hann gat dregið fram lífið af afrakstri hans í neyð. Reglur iðnfélaganna voru því til tryggingar, að sá sem nú var sveinn gæti síðar orðið meistari. En þetta breyttist jafnskjótt og framleiðslutækin urðu félagsleg og söfnuðust á hendur kapítalista. Framleiðslutæki og framleiðsla sjálfstæðra smáframleiðenda urðu stöðugt minna virði. Þeir áttu engra annarra kosta völ en að gerast daglaunamenn í þjónustu kapítalista. Launavinnan, sem fyrrum hafði heyrt til undantekninga og verið þrautalending, varð nú meginregla og undirstaða allrar framleiðslu. Hún breyttist úr því að vera aukavinna verkamannsins í að verða eini starfi hans. Í stað þess að vera daglaunamaður öðru hverju, varð hann daglaunamaður ævilangt. Auk þess jókst tala daglaunamanna gífurlega við það, að samtímis hrundi lénsskipulagið í rústir. Fylgdarlið lénsherranna dreifðist út um allt og bændur voru flæmdir brott frá býlum sínum. Full aðgreining skapaðist milli kapítalista, sem réðu yfir framleiðslutækjum annars vegar, og á hinn bóginn nýrra framleiðenda, verkamanna, sem ekkert áttu nema vinnuafl sitt. *Andstæðan milli félagslegrar framleiðslu og kapítalísks eignarhalds birtist sem andstæða milli verkalýðs og borgarastéttar.*

Við höfum séð, að framleiðsluhættir kapítalismans ruddu sér til rúms í þjóðfélagi þar sem fyrir voru einstakir sjálfstæðir vöruframleiðendur, en vöruskipti tengdu þá saman í félagslega heild. En sérhvert þjóðfélag, sem byggir tilveru sína á vöruframleiðslu, er því markinu brennt, að framleiðendurnir missa vald á félagslegum tengslum sínum innbyrðis. Hver og einn framleiðir til sinna þarfa með þeim tækjum, sem hann ræður

ing verði þar á. Það er að sjálfsögðu um tvennt gjörólíkt að ræða, hvort ég slæ eign minni á eigin framleiðslu eða á framleiðslu annarra. Og í framhaldi af því má benda á, að launavinnan, sem felur í sér vísinn að kapítalískri framleiðslu, er mjög forn. Hún tíðkaðist öldum saman á víð og dreif og í einstökum tilvikum jafnhliða þrælahaldi. En þessi vísir að kapítalískum framleiðsluháttum gat ekki náð fullum þroska, fyrr en söguleg skilyrði höfðu myndazt fyrir slíkri framleiðsluskipan.

yfir, og eins það, sem hann þarf til vöruskipta. Enginn hefur hugmynd um, hve mikið kemur á markaðinn af því, sem hann framleiðir, né heldur hve mikil þörf verður fyrir það. Enginn veit um það, hvort hans eigin framleiðsla muni fullnægja raunverulegum þörfum eða hvort hann hefur fyrir kostnaði. Kannski getur hann ekki einu sinni selt framleiðslu sína. Það ríkir algert stjórnleysi á framleiðslusviðinu í þjóðfélaginu. En vöruframleiðslan lýtur sérstökum, eðlislægum lögmálum, sem hún getur ekki vikizt undan, en þetta á við um alla aðra framleiðslu. Og þessi lögmál láta til sín taka í framleiðslunni og fyrir hennar tilverknað, þrátt fyrir stjórnleysið. Þau koma í ljós við vöruskiptin, sem ein félagslegra tengsla eru alltaf við lýði og gagnvart einstökum framleiðendum koma þau fram sem þvingunarlögmál samkeppninnar. Þessir framleiðendur kunna upphaflega engin skil á þeim. Þeir verða að uppgötva þau smám saman af langri reynslu. Þau koma fram sem blind náttúrulögmál þessarar framleiðsluskipanar án tilverknaðar og gegn vilja framleiðendanna. Framleiðendurnir eru leiksoppar framleiðslunnar.

Í þjóðfélagi miðalda beindist framleiðslan fyrst og fremst að því að framleiða til eigin þarfa, og á þetta einkanlega við um fyrri hluta miðaldanna. Algengast var, að framleiðslan fullnægði einungis þörfum framleiðandans og fjölskyldu hans. Upp til sveita, þar sem bændur voru háðir lénsherrunum, gegndi hún einnig því hlutverki að sjá fyrir þörfum lénsherrans. Hér var því ekki um nein verzlunarviðskipti að ræða og framleiðslan varð því ekki að vöru. Bændafjölskyldur framleiddu nær allt til eigin þarfa, húsgögn og fatnað engu síður en fæðu. Maður gat þá fyrst talað um vöruframleiðslu, þegar framleitt var umfram eigin þarfir og til viðbótar þeim gjöldum í fríðu, sem lénsherrann átti heimtingu á. Þessi umframframleiðsla, sem sett var á almennan markað og boðin til sölu, varð að vöru. Handverksmenn í bæjunum urðu raunar að framleiða til sölu og skipta allt frá upphafi. En það gegndi sama máli um þá. Þeir sáu líka fyrir flestum þörfum sínum sjálfir. Þeir höfðu garðholur og áttu skika af akurlendi. Kvikfénaður þeirra gekk á beit í almenningnum og þaðan fengu þeir einnig við til smíða svo og eldivið. Konurnar spunnu lín og ull, og svo mætti lengi telja. Framleiðsla með sölu að markmiði, þ. e. vöruframleiðsla, var rétt að stíga sín fyrstu spor. Því voru verzlunarviðskipti takmörkuð, markaðurinn þröngur og kyrrstaða í framleiðsluháttum.[1] Menn voru einangraðir frá umheiminum og höfðu með sér staðbundna sam-

[1] Sjá viðbæti, seinast í þessu riti (Aths. Engels). Ritgerðin, sem Engels vísar til („die Mark") er ekki í þessari útg. – *Útg.*

vinnu. Sameign var á almenningnum til sveita, í bæjum ríktu gildin.

En með aukinni vöruframleiðslu og einkum þó með tilkomu kapítalískra framleiðsluhátta, komu æ skýrar og greinilegar í ljós þau lögmál vöruframleiðslunnar, sem áður höfðu látið lítt á sér kræla. Gömul samtök tóku að rakna og einangrun eldri tíma var rofin, en framleiðendurnir urðu í æ ríkari mæli að *sjálfstæðum einkaframleiðendum* á vörum. Stjórnleysið í framleiðslu þjóðfélagsins tók að segja til sín og það varð æ víðtækara og tilfinnanlegra. En aðalviðbrögð kapítalistanna voru einmitt andstæða stjórnleysisins. Þeir skipulögðu framleiðsluna í hverju fyrirtæki fyrir sig stöðugt betur á félagslegum grundvelli, en afleiðingar þess voru sívaxandi stjórnleysi í framleiðslu þjóðfélagsins. Þessar ráðstafanir bundu enda á hið gamla og friðsæla jafnvægi í framleiðslunni. Þar sem hinu nýja skipulagi var komið á í einhverri iðngrein, leiddi það til þess að eldri rekstrarform liðu undir lok. Væri það tekið upp við handiðju, gekk það af hinu gamla handverki dauðu. Atvinnulífið varð orustuvöllur. Landafundirnir miklu og landnám það, sem af þeim leiddi, margfaldaði markaðina og stuðlaði að örri þróun handverks til skipulagðrar handiðju. Það var ekki einungis staðbundin barátta milli einstakra framleiðenda, sem átti sér stað. Hin staðbundna barátta varð að baráttu milli þjóða, sem lýsti sér í verzlunarstyrjöldunum á 17. og 18. öld.

Loks hefur stóriðjan og myndun heimsmarkaðsins gert baráttuna alþjóðlega og jafnframt magnað hana feikilega. Þeir einstakir framleiðendur, iðngreinar eða þjóðir, sem búa við bezt framleiðsluskilyrði, annaðhvort frá náttúrunnar hendi eða fyrir sjálfs sín tilverknað, standa yfir höfuðsvörðum hinna, sem verr eru settir. Þeim, sem minna mega sín, er vægðarlaust rutt úr vegi. Þetta er baráttan fyrir tilverunni, eins og Darwin lýsir henni, en hún hefur nú færzt frá ríki náttúrunnar yfir á þjóðfélagið og geisar þar með enn harðvítugri hætti. Hið náttúrulega viðhorf dýrsins birtist sem hástig mannlegrar þróunar. Andstæður félagslegrar framleiðslu og kapítalísks eignarréttar taka nú á sig mynd *andstæðna milli skipulagðrar framleiðslu í einstökum verksmiðjum og stjórnleysis í framleiðslu þjóðfélagsins í heild.*

Kapítaliskir framleiðsluhættir lifa og hrærast í báðum þessum tegundum andstæðna, sem eru ekki annað en tvær greinar þeirrar innri móthverfu, sem þeim eru áskapaðar með uppruna sínum. Þeir eru komnir í þann „vítahring“ sem Fourier hafði þegar uppgötvað, og kunna við honum engin ráð. En Fourier gat raunar á sínum tíma ekki séð, að þessi hringrás þrengdist smám saman, að hún er öllu fremur skrúflína, sem hlýtur að taka enda,

líkt og þegar hringrás reikistjarnanna lýkur er þeim lýstur saman við þungamiðjuna. Það er hið félagslega stjórnleysi á framleiðslusviðinu, sem á mestan þátt í því, að yfirgnæfandi meirihluti mannkyns hefur orðið að öreigum. Og það er hin fjölmenna öreigastétt, sem að lokum mun binda endi á stjórnleysið á framleiðslusviðinu. Það er hið félagslega skipulagsleysi framleiðslunnar, sem er undirrót þeirrar viðleitni að gera stóriðjuvélarnar æ fullkomnari, og hverjum einstökum kapítalískum iðjuhöldi er það nauðugur einn kostur að bæta vélakost sinn stöðugt meir. Ef hann lætur undir höfuð leggjast að gera það, mun hann sjá sæng sína uppreidda. En fullkomnari véltækni hefur í för með sér, að vinnu manna verður ofaukið. Ef tilkoma véla og aukning vélakosts hefur í för með sér, að milljónir handverksmanna verða að víkja fyrir fáeinum verkamönnum, sem starfa við vélarnar, þýðir það, að endurbætur á vélunum munu svipta fleiri og fleiri af verkamönnunum við þær atvinnunni. Að síðustu mun rísa upp stærri hópur vinnufúsra daglaunamanna en auðvaldsþjóðfélagið þarf á að halda jafnaðarlega. Þar með skapast varalið iðnaðarins, eins og ég kallaði það þegar árið 1845.[1] Til þessara manna væri hægt að grípa, þegar iðnaðurinn ynni með hámarksafköstum, en þeim yrði síðan kastað út á guð og gaddinn, þegar hrunið kæmi, sem óhjákvæmilega hlýtur að sigla í kjölfarið. Þessi hópur er verkalýðnum ætíð fjötur um fót í hagsmunabaráttu hans við kapítalistana og tilvera hans stuðlar að því, að launin haldist eins lág og kapítalistum þykir henta vegna hagsmuna sinna. Með þessum hætti verða vélarnar, svo að ég taki mér í munn orð Karls Marx, öflugasta vopn kapítalistanna í baráttu þeirra gegn verkalýðnum. Vinnutækin svipta verkamanninn sífellt lífsframfæri hans og það, sem verkamaðurinn framleiðir, breytist í kúgunartæki, sem beitt er gegn honum. Því fer það svo, að hagkvæmari vélakostur verður jafnframt frá upphafi til þess, að vinnuafli er sóað á hinn herfilegasta hátt og leiðir til rányrkju á eðlilegum forsendum vinnunnar. Vélvæðingin, áhrifaríkasta tækið til styttingar vinnutímans, hefur þveröfug áhrif og á hvað mestan þátt í því að breyta allri ævi verkamannsins og fjölskyldu hans í vinnu í þágu kapítalistans til arðnýtingar auðmagnsins. Því mun svo fara að ofþrælkun eins hefur í för með sér atvinnuleysi fyrir aðra og stóriðjuhöldarnir, sem leita í ofboði markaða um allan heim, takmarka neyzlu fjöldans í heimalöndum sínum við allra brýnustu lífsnauðsynjar og grafa þannig undan innanlandsmarkaði sjálfra sín. „Lögmál það, sem viðheldur jafnvæginu milli hlutfallslegrar offjölgunar íbúanna eða varaliðs iðnaðarins annars vegar og magns og hraða auðsöfn-

[1] Á síðu 109 í bókinni „Kjör verkalýðs í Englandi". (Aths. Engels).

unarinnar hins vegar, hneppir verkalýðinn fastar í fjötra auðmagnsins en Hefaistos fjötraði Promeþeus við bjargið, þess vegna leiðir vaxandi auðmagnssöfnun að sama skapi til aukinnar eymdar. Auðsöfnun eins aðila við annað skautið, verður jafnframt til þess að magna eymd, strit, þrældóm, fáfræði, ómennsku og sálfræðilega hnignun við hitt skautið. Þetta verður hlutskipti þeirrar stéttar sem hlýtur að sæta því, að *framleiðsla hennar sjálfrar verður að auðmagni.*" (Marx: „Das Kapital" s. 671). Það er ekki að búast við annarri skiptingu á framleiðsluafurðunum við kapítalíska framleiðsluhætti. Það væri sama og að heimta, að skaut á rafhlöðu klyfu ekki vatn niður í frumefni sín, meðan skautin væru tengd rafhlöðunni, og mynduðu súrefni við jákvæða skautið en vetni við það neikvæða.

Við sjáum, að nýr vélakostur, endurbættur til hins ítrasta, verður þess valdandi, vegna stjórnleysis framleiðslunnar í þjóðfélaginu, að hver einstakur kapítalískur iðjuhöldur neyðist til þess að endurbæta vélakost sinn stöðugt og auka framleiðslumátt hans. Allir möguleikar hans á að stækka framleiðslusvið sitt verða að ámóta mikilli nauðsyn. Hinn gífurlegi útþenslumáttur stóriðjunnar, sem gerir útþenslumætti lofttegunda skömm til, birtist okkur sem hrein útþensluþörf, sem lætur enga mótspyrnu á sig fá. Það, sem vinnur gegn þenslunni, eru neyzlan, salan og markaðsmöguleikar stóriðjunnar. En öflun markaða til víðtækari og meiri sölu er í fyrsta lagi háð allt öðrum og miklu hægvirkari lögmálum. Öflun nýrra markaða getur ekki haldizt í hendur við þensluna í framleiðslunni. Því verða árekstrar óhjákvæmilegir, og þar eð engin lausn vandans er hugsanleg nema framleiðsluháttum kapítalismans sé bylt við, verða árekstrar æ ofan í æ. Hin kapítalíska framleiðsla hefur lent út í nýjan „vítahring".

(Raunar hefur allur iðnaður og verzlunarviðskipti, framleiðsla og verzlun allra menningarþjóða og hálf- eða líttsiðaðra svæða þeim áhangandi, farið alveg úr skorðum, u. þ. b. einu sinni á hverjum áratug allt frá árinu 1825, en þá skall fyrsta almenna kreppan á. Viðskiptalíf stöðvast, markaðir offyllast, gífurlegt vörumagn liggur óseljanlegt, hörgull verður á reiðufé og lánstraust þverr. Verksmiðjur hætta starfsemi, verkafólk skortir brýnustu lífsnauðsynjar af því það hefur framleitt of mikið af þeim, gjaldþrotin skella yfir hvert af öðru og hvert nauðungaruppboðið rekur annað. Stöðvunin stendur yfir svo árum skiptir og framleiðslutækjum og vörum er sóað og þau ónýtt í stórum stíl unz vörur þær, sem hlaðizt hafa upp, ganga að lokum út eftir að meira eða minna verðfall hefur orðið á þeim. Þá fyrst kemst smám saman skriður á framleiðslu og viðskipti á nýjan leik.

Smátt og smátt verður skriðurinn meiri og líkist einna mest brokki, en það verður síðan að stökki. Þetta stökk breytist loks í taumlaust og æðisgengið kapphlaup iðnaðar, verzlunar, lánastarfsemi og brasks, sem bjóða öllum torfærum byrginn, en hafna að lokum eftir háskalega ferð að nýju í hrunadansi kreppunnar. Þetta endurtekur sig í sífellu. Frá því 1825 höfum við reynt þetta a. m. k. fimm sinnum og um þessar mundir (1877) endurtekur sagan sig í sjötta skiptið. Kreppur þessar hafa svo skýr eðliseinkenni, að orð Fouriers um hina fyrstu þeirra eiga við um þær allar. Hann nefndi hana kreppu allsnægtanna (crise pléthorique).

Í kreppunum brýzt andstæðan milli félagslegrar framleiðslu og kapítalísks eignarhalds fram með hamförum. Vöruskipti stöðvast af bragði, peningarnir, sem eru hvati viðskipta, leggja nú hömlur á þau. Endaskipti eru höfð á öllum lögmálum vöruframleiðslu og vörudreifingar. Árekstrarnir í efnahagslífinu ná hámarki, þegar *framleiðsluhættirnir gera uppreisn gegn viðskiptaháttunum.*

Sú staðreynd, að félagsleg skipulagning framleiðslunnar í verksmiðjunni er komin á það stig, að hún getur ekki lengur samrýmzt stjórnleysi framleiðslunnar í þjóðfélaginu, verður kapítalistunum sjálfum fullljós, þegar litið er á hina gífurlegu samþjöppun fjármagnsins. Hún á sér einkum stað á krepputímum við gjaldþrot ýmissa stórkapítalista og enn fleiri þeirra, sem minna eiga undir sér. Sjálfir framleiðsluhættir kapítalismans bregðast gersamlega, þegar þau framleiðsluöfl, sem hann hefur skapað fara úr böndunum. Kapítalisminn getur ekki lengur látið öll hin fjölmörgu framleiðslutæki vinna að auðmagnsmyndun. Þau eru ekki nýtt og einmitt þess vegna nýtist ekki heldur varalið iðnaðarins. Gnótt er til af öllu, sem þarf til framleiðslunnar og sem almenn hagsæld byggist á, svo sem framleiðslutækjum, lífsnauðsynjum og vinnuafli. En „neyð og skortur á rót sína að rekja til allsnægtanna“ (Fourier), því að einmitt allsnægtirnar eru þess valdandi að framleiðslutækin og lífsnauðsynjarnar geta ekki breytzt í auðmagn. Því í þjóðfélagi kapítalismans geta framleiðslutækin ekki tekið til starfa, nema því aðeins að þau hafi áður umbreytzt í auðmagn, orðið tæki til arðráns á vinnandi verkalýð. Þörfin á því, að framleiðslutæki og lífsnauðsynjar séu fyrir hendi sem auðmagn stendur eins og afturganga milli verkamannsins og framleiðslutækjanna. Það er hún ein, sem kemur í veg fyrir samruna hins efnalega og mannlega þáttar framleiðslunnar, og enginn annar en hún meinar framleiðslutækjunum að gegna hlutverki sínu og verkamönnum að lifa og starfa. Í fyrsta lagi eru færðar á það sönnur að hinir kapítalísku framleiðsluhættir eru

ófærir til að hafa stjórn á þessum framleiðsluöflum lengur. Í annan stað knýja framleiðsluöflin sjálf æ fastar á um það, að bundinn verði endi á þessar andstæður og þau leyst úr auðmagnsviðjunum, en *í þess stað viðurkennd í verki sem félagsleg framleiðsluöfl.* Það er þessi andstæða hinna sívaxandi og öflugu framleiðsluafla gegn því, að vera skoðuð sem auðmagn, sem kapítalistarnir verða að beygja sig fyrir, þótt þeim sé það nauðugt. Framleiðsluöflin krefjast þess að félagslegt eðli þeirra sé viðurkennt og kapítalistarnir verða að ganga æ lengra í þá átt að koma fram gagnvart þeim sem félagslegum framleiðsluöflum, að svo miklu leyti sem það er unnt innan vébanda kapítalísks þjóðfélags. Vaxtarskeiðin í iðnaðinum með takmarkalausri lánsfjárþenslu og kreppurnar sjálfar, þegar stór kapítalísk fyrirtæki hrynja í rústir, leiða hvortveggja til ákveðinnar félagslegrar sameiningar á fjölmörgum framleiðslutækjum. Þetta sjáum við, ef við gefum gaum þeim margvíslegu hlutafélögum, sem upp hafa risið. Mörg þessara framleiðslu- og samgöngutækja hafa allt frá upphafi verið svo tröllaukin í sniðum, t. d. járnbrautirnar, að ekki varð við komið kapítalískri arðnýtingu í neinni annarri mynd. En þegar þróunin er komin á ákveðið stig setur hlutafélagsformið einnig of þröngar skorður. Innlendir stórframleiðendur í tiltekinni iðngrein sameinast í einokunarhring, en það eru samtök, sem eiga að hafa yfirumsjón með framleiðslunni. Þau ákveða, hve mikil heildarframleiðslan má vera, skipta henni á milli aðila samtakanna og knýja síðan fram það verð fyrir vöruna, sem þau hafa ákveðið fyrirfram. Þar eð slíkir hringar gliðna jafnaðarlega í sundur jafnskjótt og kreppueinkenni segja til sín, stuðla þeir um leið að myndun enn víðtækari félagatengsla: Öll fyrirtæki í einni iðngrein sameinast í eitt stórt hlutafélag og í stað samkeppni á innanlandsmarkaðnum kemur nú einokunaraðstaða þessa eina félags. Þetta gerðist í enska efnaiðnaðinum árið 1890, en þá sameinuðust allar verksmiðjurnar, 48 að tölu. Þær eru nú reknar af einu félagi undir sameiginlegri stjórn og er fjármagn þeirra 120 milljónir marka.

Þegar hringarnir komu til sögunnar, tók einokun við af frjálsri samkeppni. Hin skipulagslausa framleiðsla í þjóðfélagi kapítalismans lýtur í lægra haldi fyrir skipulagðri framleiðslu sósíalisks þjóðfélags, sem tekur að ryðja sér braut. Raunar eru það kapítalistarnir, sem hagnast og hafa nytjar af því fyrst um sinn. En nú verður arðránið svo augljóst, að það hlýtur að falla um sjálft sig. Engin þjóð mundi láta sér lynda að lítilli klíku, sem ekki fæst við annað en klippa arðmiða, haldist uppi að arðræna allan fjöldann á svo opinskáan hátt með tilstyrk einokunarhringa í framleiðslunni.

Á einn eða annan hátt með tilstyrk einokunarhringa eða ekki, verður ríkið, hinn opinberi málsvari auðvaldsþjóðfélagsins, að taka að sér forustu á framleiðslusviðinu.[1] Nauðsyn þessarar breytingar, í ríkiseign, kemur fyrst fram að því er varðar hin mikilvirku samgöngutæki, járnbrautir, póst og síma.

Kreppurnar gerðu lýðum ljóst, að borgarastéttin megnaði ekki að hafa lengur stjórn á framleiðsluöflum nútímans og breyting sú, sem orðið hefur á skipan framleiðslu og samgangna með tilkomu hlutafélaga, hringa og ríkiseignar, sýnir, að ekki þarf á borgarastéttinni að halda í þessu skyni. Launaðir starfsmenn gegna nú hinu þjóðfélagslega hlutverki kapítalistans. Kapítalistinn hefur engin félagsleg verkefni lengur, nema þá auðsöfnun, arðmiðaklippingu og kauphallarbrask, en á kauphöllinni féfletta kapítalistarnir hverjir aðra. Framleiðsluhættir kapítalismans útrýmdu fyrst verkamönnum, en nú verða kapítalistarnir að sæta sömu meðferð. Þeir munu lenda í þeim hópi þjóðarinnar, sem er ofaukið, alveg eins og verkamennirnir, þótt þeir geti í fyrstu ekki talizt til varaliðs iðnaðarins.

En hvorki myndun hlutafélaga né einokunarhringa né heldur ríkiseign, losar framleiðsluöflin úr viðjum auðmagnsins, þau eru eftir sem áður kapítalísk framleiðsluöfl. Þetta liggur í augum uppi, hvað hlutafélög og hringa áhrærir. Ríki nútímans er að sínu

---

[1] Verður, segi ég. Viðtaka ríkisins í framleiðslutækjum og samgöngutækjum horfir því aðeins til framfara frá efnahagslegu sjónarmiði, að hlutafélögunum sé *í raun og veru* ofvaxið að fara með stjórn þeirra. Þá verður ríkisrekstri ekki vísað á bug með efnahagslegum rökum. Einungis við slíkar aðstæður er ríkisrekstur framför, enda þótt ríkisvald nútímans eigi í hlut; og táknar þá nýjan áfanga á leiðinni að því marki að þjóðfélagið sjálft nái eignarhaldi á öllum framleiðsluöflum. En upp á síðkastið, eftir að Bismarck tók að beita þjóðnýtingu, hefur komizt á kreik falsútgáfa af sósíalismanum, sem í vissum tilvikum hefur orðið helzti vikalipur, en hún lýsir allan ríkisrekstur umsvifalaust sósíalisma, jafnvel þann, sem Bismarck framkvæmir. Raunar yrði að telja Metternich og Napóleon til frumherja sósíalismans, ef stofnun tóbakseinkasölu ríkisins væri sósíalismi. Það var hvorki beint né óbeint, meðvitað né ómeðvitað um sósíalískar ráðstafanir að ræða, þegar belgíska stjórnin af ofur venjulegum, pólitískum og efnahagslegum ástæðum, lagði sjálf aðaljárnbrautarlínurnar í landinu. Sama máli gegnir um þjóðnýtingu Bismarcks á aðaljárnbrautum Prússlands, án þess að nokkur efnahagsleg rök lægju til slíks. Markmið hans var einfaldlega að endurbæta þær, svo að þær kæmu að meiri notum á styrjaldartímum. Honum gekk einnig til að að gera starfsmenn járnbrautanna að sauðtryggum fylgismönnum stjórnarinnar og með þessari ákvörðun aflaði hann sér sérstakrar tekjulindar, sem óháð var þingræðislegu eftirliti. Annars hlyti konungleg sjóverzlun og konungleg postulínsframleiðsla og jafnvel herdeildarklæðskerar líka að teljast sósíalismi. Sama mætti þá segja um tillögu eins slungins náunga um ríkisrekstur hóruhúsa, sem borin var fram í fullri alvöru árið 1830, í stjórnartíð Friðriks Vilhjálms III. (Aths. Engels).

leyti ekkert annað en skipulag sem þjóðfélag borgaranna hefur komið á, til þess að tryggja kapítalískum framleiðsluháttum almenn ytri skilyrði og til að varðveita þá fyrir ágangi verkamanna jafnt sem einstaklinga úr röðum kapítalista. Hvernig svo sem ríkisvaldi nútímans er háttað, er það fyrst og fremst kapítalískt valdatæki, ríki kapítalista, allsherjarkapítalistinn sem fyrirmynd. Því öflugri sem þau framleiðsluöfl verða, sem það slær eign sinni á, þeim mun nær því kemst það að gera heildarhugsjón þessa að veruleika og þeim mun fleiri þjóðfélagsþegna arðrænir það. Verkamenn halda áfram að vera launamenn, öreigar. Kúgunaraðstaða auðmagnsins hverfur ekki; tök þess verða þvert á móti öllu fastari. En þegar svo er komið verður breyting á. Það leysir ekki vandann, að framleiðsluöflin komist í ríkiseign, en að forminu til felur það þó í sér ráðin og tökin til að leysa hann.

Lausnin getur aðeins verið fólgin í því, að félagslegt eðli framleiðsluafla nútímans verði viðurkennt í raun og veru, en það þýðir að samræmi verður að skapast milli félagslegrar framleiðslu og framleiðsluhátta, eignarréttar og viðskiptahátta. Þetta getur einungis gerzt með þeim hætti að þjóðfélagið slái eign sinni opinskátt og umsvifalaust á framleiðsluöfl þau, sem enginn nema það eitt er fært um að hafa stjórn á. Þá munu framleiðendurnir geta notfært sér hið félaglega eðli framleiðslutækjanna og framleiðslunnar, sér til hagsbóta, vitandi vits, í stað þess að það veitir framleiðendum nú þungar búsifjar, stöðvar framleiðslu og viðskipti tímum saman og nær fram að ganga sem blint, ofsafengið náttúrulögmál, sem hefur eyðileggingu í för með sér. Hið félagslega eðli framleiðslunnar mun við þær aðstæður verða framleiðslunni til geysimikils framdráttar, en ekki hafa truflanir og ítrekaðar kreppur í för með sér.

Þjóðfélagsöflin verka alveg eins og náttúruöflin. Þau eru blind, ógurleg og eyðandi, meðan við skiljum þau ekki og tökum ekkert tillit til þeirra. En er við höfum gert okkur grein fyrir þeim og skiljum, hvernig þau verka, hvert þau stefna og hverjar afleiðingar starf þeirra hefur í för með sér, er það einungis undir okkur komið, hvort við getum beygt þau undir vilja okkar og náð markmiðum okkar fyrir þeirra tilstilli. Þetta á einkum við um hin geysiöflugu framleiðsluöfl nútímans. Meðan við þverskölIumst við að skilja eðli þeirra og einkenni, munu þessi öfl fara sínu fram, vera okkur andstæð og hafa okkur á valdi sínu eins og rækilega hefur verið sýnt fram á. En málsvarar framleiðsluhátta kapítalismans þybbast við og vilja ekki skilja þetta. Hafi maður gert sér grein fyrir eðli framleiðsluaflanna í eitt skipti fyrir öll, er unnt að breyta þeim úr dulmögnuðum drottn-

urum í auðsveipa þjóna, sem framleiðendur, tengdir félagslegum böndum, geta fært sér í nyt. Hér er um að ræða hliðstæðan mun og er á eyðandi afli rafmagnsins eins og það hagar sér í eldingunni í þrumuveðri, og á beizluðu rafmagni í ritsíma eða glóðarþræði. Samskonar munur er á hinum eyðandi eldi og þeim eldi, sem maðurinn hefur nytjar af. Þegar eðli framleiðsluaflanna, sem loks hefur tekizt að skilja, hefur verið viðurkennt og fjallað um framleiðsluöfl nútímans í samræmi við það, mun skipuleg, félagsleg heildarstjórn framleiðslunnar eftir þörfum heildarinnar og einstaklinganna koma í stað stjórnleysis á framleiðslusviðinu. Þá mun hið kapítalíska eignarhald sem fyrst gerir framleiðandann og síðan eigandann að þræli framleiðslunnar, verða að víkja fyrir því eignarhaldi á framleiðslunni, sem sjálft eðli framleiðslutækja nútímans krefst. Annars vegar verður um að ræða beinan eignarrétt þjóðfélagsheildarinnar í því skyni að viðhalda og auka framleiðsluna, hins vegar beinn einkaeignarréttur á neyzluvarningi og öðru, sem þarf til daglegs lífs.

Samtímis því, að framleiðsluhættir kapítalismans þróast æ meir í þá átt að breyta yfirgnæfandi meirihluta þjóðarinnar í öreiga verkalýð, skapa þeir það afl, sem hlýtur að framkvæma þessa gjörbyltingu, eða tortímast ella. Kapítalisminn knýr æ fastar á um, að hin stóru fyrirtæki, sem rekin eru með félagssniði, verði ríkiseign, og þannig bendir hann sjálfur á leið til að koma gjörbyltingunni í kring. *Verkalýðsstéttin tekur síðan ríkisvaldið í sínar hendur og breytir framleiðslutækjunum eftir það í ríkiseign.* En um leið hættir verkalýðurinn að vera til sem öreigastétt. Hann afnemur allan stéttamismun og stéttaandstæður og ríkisvaldið mun hverfa sem slíkt. Þjóðfélag fyrri tíma, þar sem stéttaandstæður höfðu ríkt, þurfti á ríkisvaldinu að halda, en ríkið var þá skipulag þáverandi arðránsyfirstéttar, sem hafði að markmiði að viðhalda hinum ytri framleiðsluskilyrðum. Í þessu fólst einkum, að hinni arðrændu stétt var haldið í skefjum með ofbeldi. Framleiðsluhættirnir hverju sinni réðu því, hvernig kúgunin lýsti sér (þrælahald, bændaánauð eða lénsundirgefni, launavinna). Ríkið var hinn opinberi fulltrúi þjóðfélagsheildarinnar, kom fram sem samfélag allra aðila þjóðfélagsins, en þetta átti aðeins við að svo miklu leyti sem ríkið var valdatæki þeirrar stéttar, sem á hverjum tíma var sjálf fulltrúi alls þjóðfélagsins. Í fornöld var ríkisvaldið í höndum þrælaeigenda, á miðöldum í höndum lénsaðalsins, en á vorum dögum er það ríkisvald borgarastéttarinnar. Um leið og ríkið að lokum verður raunverulegur fulltrúi allrar þjóðarinnar, verður ríkisvaldinu sjálfu ofaukið. Jafnskjótt og því lýkur, að nokkur þjóðfélagsstétt eigi að vera kúguð og bundinn hefur verið endi á stéttaveldið og það

stjórnleysi, sem hingað til hefur ríkt á framleiðslusviðinu, munu aðstæður breytast. Þá mun ljúka árekstrum þeim og uppivöðsluofbeldi, sem leiðir af baráttu einstaklinganna fyrir tilverunni, er fylgir stjórnleysinu eins og skugginn, og engin þörf verður þá fyrir sérstakt kúgunartæki, ríkisvaldið, af því að ekkert þarf að undiroka framar. Í fyrsta sinn, sem ríkið gerir eitthvað á vegum þjóðfélagsheildarinnar, þ. e. slær eign sinni á framleiðslutækin í nafni hennar, innir það jafnframt af hendi síðasta hlutverk sitt sem slíkt. Afskiptum ríkisvaldsins af málefnum þjóðfélagsins verður ofaukið á hverju sviðinu á fætur öðru og það lognast út af sjálfkrafa. Stjórnun málefna og stjórn á framleiðslunni kemur í stað yfirráða yfir mönnum. Ríkisvaldið verður ekki „afnumið", heldur deyr það út. Þennan mælikvarða verður að leggja á vígorðið „frjálst alþýðuríki", og samkvæmt honum verður að dæma hvorttveggja, réttmæti þess í áróðrinum og vísindalegt haldleysi þess fyrr og síðar. Sama máli gegnir um kröfu svonefndra stjórnleysingja um tafarlaust afnám ríkisvaldsins.

Sú framtíðarhugsjón, að þjóðfélagið ætti að slá eign sinni á öll framleiðslutæki, hefur allt frá þeim tíma, er kapítalískir framleiðsluhættir komu til sögunnar, vakað bæði fyrir einstökum mönnum og heilum flokksbrotum, oftast meira eða minna óljóst. En hún varð þá fyrst framkvæmanleg og að sögulegri nauðsyn, þegar skilyrðin fyrir framkvæmdinni voru raunverulega til staðar. Hún er ekki framkvæmanleg, fremur en aðrar hugsjónir, sem til framfara horfa, eingöngu vegna þess að menn gera sér grein fyrir því að tilvera stétta fari í bága við réttlæti og jafnrétti. Það nægir ekki, að maður vilji afnema þessa stéttaskiptingu, vissum efnahagslegum skilyrðum verður að vera fullnægt. Vanþróuð framleiðsla fyrri tíma olli því, að þjóðfélagið hlaut óhjákvæmilega að greinast í arðræningja og arðrænda, í stétt kúgaðra og stétt, sem varð að þola kúgun. Eins lengi og heildarafköst þjóðfélagsins voru ekki meiri en svo, að sáralítið var eftir af afrakstrinum, er brýnustu þörfum allra hafði verið fullnægt, hlaut þjóðfélagið að vera stéttskipt. Meðan svo er háttað, fer allur eða nær allur tími mikils meirihluta þjóðfélagsþegnanna til vinnu. Við hlið hins mikla meirihluta, sem einvörðungu stritar, myndast stétt, sem ekki þarf að vinna að beinum framleiðslustörfum, en sinnir ýmsum sameiginlegum málefnum þjóðfélagsins. Hún fæst við verkstjórn, opinbera stjórnsýslu, dómstörf og leggur stund á vísindi og listir o. s. frv. Það er semsé lögmál verkaskiptingarinnar, sem býr að baki stéttaskiptingunni. En þar með er ekki sagt, að þessari stéttaskiptingu hafi ekki verið komið á með ofbeldi og ránum, sviksemi og brögðum. Og aldrei hefur nein stétt, sem festst hefur í valdasessi, látið undir höfuð leggjast

að styrkja völd sín á kostnað verkalýðsins, og ævinlega hefur stjórn hennar á þjóðfélaginu snúizt upp í aukið arðrán fjöldans.

Enda þótt stéttaskiptingin hafi í samræmi við það, sem að framan er sagt, einhverju sögulegu hlutverki að gegna, á það þó aðeins við um tiltekin tímabil og við ákveðnar þjóðfélagslegar aðstæður. Hún byggðist á því, að framleiðslan hrökk svo skammt. Þegar framleiðsluöfl nútímans fá að njóta sín til fulls munu þau ryðja stéttaskiptingunni úr vegi. Í raun og veru er forsendan fyrir afnámi stéttanna sú, að þjóðfélagið hafi náð því sögulega þróunarstigi að tilvist ekki aðeins ákveðinnar valdastéttar, heldur valdastéttar yfirleitt sé orðin tímaskekkja, úrelt fyrirbæri. Forsenda afnáms stéttanna er háþróuð framleiðsla. Á þessu þróunarstigi er algjör óþarfi, að ein sérstök þjóðfélagsstétt hafi eignarhald á framleiðslutækjum og framleiðslu og fari um leið með pólitískt forræði í þjóðfélaginu, hafi einokun á menntun og forustu í andlegum málefnum. Þetta er ekki bara óþarft, það leggur bönd á þróun stjórnmála, efnahagsmála og andlegs lífs. Þessu þróunarstigi hefur nú verið náð. Það fer varla hjá því, að borgarastéttinni sé ljóst pólitískt og andlegt skipbrot sitt, en maður sér reglulega á 10 ára fresti, hvernig hún er komin í þrot á sviði efnahagsmála. Þjóðfélagið ætlar í hverri kreppu að kafna undan fargi sinna eigin framleiðsluafla og framleiðslu, sem það getur ekki notfært sér, og það stendur hjálparvana gagnvart þeirri fáránlegu mótsögn, að framleiðendurnir hafi ekkert til neyzlu, af því að skortur er á neytendum. Þenslumegin framleiðslutækjanna brýtur þær skorður, sem framleiðsluhættir kapítalismans hafa sett því. Eina skilyrðið fyrir samfelldri og stöðugt örari þróun framleiðsluaflanna er að þau séu leyst úr þessum viðjum, en það mun hafa í för með sér nær ótakmarkaða aukningu framleiðslunnar sjálfrar. En með því er ekki öll sagan sögð. Félagslegur eignaréttur á framleiðslutækjunum fjarlægir ekki einungis þær tilbúnu hömlur, sem framleiðslunni eru nú til trafala, heldur mun hann einnig binda endi á sóun og eyðileggingu framleiðsluafla og framleiðsluafurða. Slík sóun og eyðilegging er nú óhjákvæmileg fylgja framleiðslustarfseminnar og hún nær hámarki á krepputímum. Ennfremur yrðu fjölmörg framleiðslutæki og framleiðsluafurðir til umráða fyrir þjóðarheildina, þegar bundinn hefur verið endir á vitleysislega óhófseyðslu núverandi valdastétta og pólitískra fulltrúa þeirra. Nú eigum við vegna tilkomu þjóðfélagslegrar framleiðslu í fyrsta sinni völ á að tryggja öllum þjóðfélagsþegnum góða afkomu. Í því felst ekki bara, að þeir geti haft nóg af efnalegum gæðum og betur verði að þeim búið að því leyti með degi hverjum, heldur sé þeim einnig tryggt að þeir geti þroskað og

beitt líkamlegum og andlegum hæfileikum sínum. Þessi kostur er nú í fyrsta sinn fyrir hendi, *en hann er það*.[1]

Þegar þjóðfélagið hefur slegið eign sinni á framleiðslutækin, rennur vöruframleiðslan sitt skeið á enda og vald framleiðslunnar yfir framleiðendunum hverfur. Stjórnleysið í hinni félagslegu framleiðslu tekur enda, en við tekur markviss og skipuleg framleiðslustarfsemi. Baráttu einstaklinganna fyrir tilverunni lýkur. Þá fyrst segir maðurinn með nokkrum hætti endanlega skilið við dýraríkið; hann tekur að lifa við mannleg lífsskilyrði í stað hinna dýrslegu. Það umhverfi og þau lífsskilyrði, sem maðurinn býr við, og hann hefur verið háður allt til þessa, eru nú á hans valdi og honum undirgefin. Maðurinn verður nú í fyrsta sinni raunverulegur drottnari náttúrunnar, um leið og hann hefur náð fullkomnu valdi yfir þjóðskipulagi sínu. Þau lögmál, sem stjórna félagslegum gerðum manna, komu þeim áður fyrir sjónir sem framandi náttúrulögmál, sem höfðu þá á valdi sínu. En nú munu menn beita þeim af fullri þekkingu og þá um leið ná valdi á þeim. Þjóðskipulag mannanna sjálfra, sem til þessa hefur komið þeim fyrir sjónir sem framandleg nauðung náttúrunnar og sögunnar, mun nú verða sköpunarverk frjálsra athafna þeirra. Mennirnir munu sjálfir ná valdi á hinum hlutlægu, ókunnu öflum, sem ráðið hafa söguþróuninni til þessa. Það verður þá fyrst, sem maðurinn mun skapa sér sína eigin sögu með fullri vitund, og upp frá þeirri stundu munu þær þjóðfélagsbreytingar, sem hann hrindir af stað, í æ ríkari mæli leiða einmitt til þess árangurs, sem hann óskar. Það er stökk mannkynsins úr ríki nauðsynjarinnar inn í ríki frelsisins.



Við skulum að lokum draga saman meginatriði þróunarinnar í stuttu máli.

I. *Miðaldaþjóðfélagið:* Sjálfstæðir smáframleiðendur. Framleiðslutækin voru ætluð einum manni og voru því frumstæð, klunnaleg og lítilvæg og afkastageta þeirra örlítil. Framleitt var

[1] Fáeinar tölur geta gefið nokkra hugmynd um, hve gífurlegt útþensluafl framleiðslutækja nútímans er, jafnvel þótt kapítalisminn reisi sínar skorður. Samskvæmt útreikningunm von Giffens nam þjóðarauður Englendinga og Íra eftirfarandi upphæðum

1814–2200 millj. £
1865–6100 – –
1875–8500 – –

Að því er varðar eyðileggingu framleiðslutækja og framleiðslu á krepputímum, var reiknað út á 2. þingi þýzkra iðnrekenda, sem haldið var í Berlín 21. febr. 1878, að heildartjón þýzka járniðnaðarins eins hafi í síðustu kreppu 1873–78 numið 455 millj. marka. (Aths. Engels).

til beinna nota annaðhvort fyrir framleiðandann sjálfan eða lénsherra hans. Aðeins í þeim tilvikum, þegar framleiðslan er meiri en sem nemur þessari neyzlu, er umframframleiðslan boðin til sölu og verzlað með hana. Það er fyrsti vísirinn að vöruframleiðslu. En hún ber nú þegar í skauti sér vísinn að *stjórnleysi í hinni félagslegu framleiðslu.*

II. *Bylting kapítalismans:* Einföld samvinna og skipulögð handiðja í verksmiðjum umskapar iðnaðinn í fyrstu lotu. Hinum dreifðu framleiðslutækjum fyrri tíma er nú safnað saman á stór verkstæði, en við það breytast þau úr framleiðslutækjum einstaklinga í félagsleg framleiðslutæki. Þessi umbreyting hefur þó ekki áhrif á viðskiptahættina sem neinu nemur. Gömlu eignarhaldsformin haldast áfram. *Kapítalistinn* kemur til sögunnar. Hann er eigandi framleiðslutækjanna og sem slíkur slær hann einnig eign sinni á framleiðsluna og gerir hana að vörum. Framleiðslan er orðin félagsleg starfsemi en viðskiptin og eignarhaldið er enn sem fyrr í höndum einstaklinga. *Einstakir kapítalistar slá eign sinni á hina félagslegu framleiðslu.* Þetta er sú grundvallarmótsögn, sem allar aðrar andstæður í þjóðfélagi nútímans eiga upptök sín í. Þetta hefur stóriðjan leitt glöggt í ljós.

A. Framleiðandinn er aðskilinn frá framleiðslutækjunum. Verkamaðurinn er dæmdur til daglaunavinnu ævilangt. *Andstæður verkalýðs og borgarastéttar.*

B. Lögmál vöruframleiðslunnar verða meir áberandi og láta meira til sín taka. Miskunnarlaus samkeppni. *Andstæður félagslegrar skipulagningar í einstökum verksmiðjum og félagslegs stjórnleysis í heildarframleiðslu.*

C. Annars vegar verða vélarnar fullkomnari, vegna þess að samkeppnin neyðir hvern einstakan iðjuhöld til að verða sér úti um betri vélakost. En þetta hefur í för með sér að stöðugt fleiri verkamenn missa atvinnuna. *Varalið iðnaðarins* skapast.

Hinsvegar eykst framleiðslan gífurlega, en samkeppnin knýr líka hvern einstakan iðjuhöld til að auka hana.

Feikileg þróun framleiðsluaflanna á báða bóga, framleiðslan meiri en sem svarar eftirspurninni, offramleiðsla, markaðir offyllast og kreppur skella yfir einu sinni á áratug. Vítahringur. *Ofgnótt framleiðslutækja og varnings annars vegar, á hinn bóginn herskarar atvinnulausra verkamanna,* sem ekkert hafa að bíta og brenna. En báðar þessar lyftistengur framleiðslu og þjóðfélagslegrar velmegunar geta ekki sameinazt, því að framleiðsluskipan kapítalismans meinar framleiðsluöflunum að starfa og afurðunum að dreifast, nema því aðeins að þeim hafi áður verið breytt í auðmagn. En ofgnótt þeirra kemur einmitt í veg fyrir það. Mótsögnin hefur breytzt í fjarstæðu. – *Framleiðslu-*

*hættirnir gera uppreisn gegn viðskiptaháttunum.* Ljóst er, að borgarastéttin er ófær um að hafa lengur stjórn á hinum félagslegu framleiðsluöflum.

D. Kapítalistarnir sjálfir viðurkenna að nokkru leyti félagslegt eðli framleiðsluaflanna tilneyddir. Hin mikilvirku framleiðslu- og samgöngutæki komast fyrst í eigu *hlutafélaga,* síðar einokunarhringa og loks í *ríkiseign.* Það kemur í ljós, að borgarastéttinni er ofaukið sem stétt, því að launaðir starfsmenn leysa nú af hendi félagsleg verkefni hennar.

III. *Verkalýðsbyltingin:* Andstæðurnar hverfa: Verkalýðsstéttin tekur völdin í sínar hendur og notar þessi völd sín til að koma í opinbera eigu þeim félagslegu framleiðslutækjum, sem borgarastéttin missir nú tangarhald á. Með því að gera þetta leysir verkalýðurinn framleiðslutækin úr auðmagnsviðjum fyrri tíma og veitir þeim svigrúm til að láta félagslegt eðli sitt njóta sín. Nú er kleift að stunda félagslega framleiðslu samkvæmt fyrirframgerðri áætlun. Þróun framleiðslunnar gerir að verkum, að frekari tilvist mismunandi þjóðfélagsstétta er úrelt fyrirbæri. Eftir því sem stjórnleysið á framleiðslusviðinu hverfur, veikist og hið pólitíska áhrifavald ríkisins. Mannkynið, sem loks hefur náð valdi á þjóðfélagsskipan sinni, mun þá einnig drottna yfir náttúrunni og verða sjálfs sín herrar um leið – frjálsir.

Það er sögulegt hlutverk verkalýðsstéttar nútímans að vinna þetta frelsi mannkyninu til handa. Verkefni hins vísindalega sósíalisma, sem er fræðikenning verkalýðshreyfingarinnar, er í því fólgið að rannsaka söguleg skilyrði þessarar valdatöku verkalýðsins og einnig eðli hennar. Það er hlutverk hans, að koma hinni undirokuðu stétt okkar tíma til skilnings á skilyrðum og eðli þeirrar baráttu, sem hún heyr.

Tekið eftir þýzku útgáfunni frá 1891.

Samið af Friedrich Engels árið 1877.
Gefið út sem flugrit á frönsku í París árið 1880, á þýzku í Zürich 1882 og í Berlín 1891. Kom út á ensku í London 1892.

KARL MARX

# Launavinna og auðmagn

## Formáli Friedrichs Engels að þýzku útgáfunni 1891

Rit þetta birtist fyrst sem nokkrar forustugreinar í „Neue Rheinische Zeitung“, frá 5. apríl 1849[1] og frameftir. Þær voru byggðar á fyrirlestrum, sem Marx hélt fyrir þýzka verkamannafélagið í Brüssel 1847. Þeim varð aldrei lokið. Undir greininni, sem birtist í 269. tbl., stóð „framhald“. Framhaldið kom aldrei og ollu því viðburðir, er þá ráku hver annan, innrás Rússa í Ungverjaland, óeirðir í Dresden, Iserlohn, Elberfeld, Pfalz og Baden, og urðu þess valdandi, að útgáfa blaðsins var bönnuð (19. maí 1849). Handritið að framhaldinu hefur ekki fundizt í þeim ritum, sem Marx lét eftir sig.

„Launavinna og auðmagn“ hefur oft komið út í bókarformi, síðast 1884 í Zürich. Hafa útgáfur þessar verið orðréttar eftirprentanir frumtextans. Nú kemur ritið út í 10 þúsund eintökum og er ætlað sem fræðslurit. Þess vegna vöknuðu hjá mér efasemdir um, hvort Marx hefði samþykkt óbreytta endurprentun.

Á fimmta áratug aldarinnar hafði Marx enn ekki lokið við gagnrýni sína á þjóðhagfræðina og lauk henni ekki fyrr en seint á sjötta tug aldarinnar. Rit hans, frá því áður en bók hans „Zur Kritik der politischen Oekonomie“ kom út (1859), eru því í vissum atriðum frábrugðin síðari ritum hans um orðafar og jafnvel setningar, sem skjóta skökku við og virðast jafnvel rangar miðað við þau. Þessar fyrri skoðanir höfundarins eru liður í andlegri þróun hans og eiga að sjálfsögðu rétt á sér í almennum útgáfum; bæði höfundur og lesendur eiga tvímælalaust tilkall til þess, að eldri rit séu prentuð óbreytt, enda mundi mér aldrei detta í hug að breyta í þeim einu orði.

Öðru máli gegnir, ef ný útgáfa er því sem næst eingöngu

[1] Þ. e. a. s. 5.–8. og 11. apríl 1849, en tímaritið kom út í Köln frá 1. júní 1848 til 19. maí 1849. Marx var aðalritstjóri þess. – *Útg.*

ætluð sem fræðslurit fyrir verkamenn. Þá hefði Marx vafalaust breytt frumtextanum frá 1849 til samræmis við síðari skoðanir sínar. Ég er sannfærður um, að hann væri því samþykkur að breyta og bæta við í *þessari útgáfu* því fáa, sem þarf til að þessi tilgangur náist í öllum aðalatriðum. Ég segi því lesendum strax: Þetta kver er ekki eins og Marx skrifaði það 1849, heldur því sem næst eins og hann mundi skrifa það 1891. Auk þess er frumtextinn svo víða til, að það mun nægja, þar til ég get látið prenta hann aftur óbreyttan í heildarútgáfu af ritum höfundarins.

Allar breytingar mínar snúast um sama atriðið. Í frumritinu stendur, að verkamaðurinn selji kapítalistanum *vinnu* sína fyrir vinnulaun; hér er sagt, að hann selji *vinnuafl* sitt. Á þessari breytingu verð ég að gefa skýringu. Verkamönnunum verð ég að gefa skýringu, svo að þeir skilji, að hér er enginn orðhengilsháttur á ferðinni, heldur eitt mikilvægasta atriðið í allri þjóðhagfræði. Borgurunum verð ég að gefa skýringu, svo að þeir geti sannfærzt um hve hinir óskólagengnu verkamenn, sem skilja fyrirhafnarlaust erfiðustu hagfræðiskýringar, standa miklu framar hrokafullum „menntamönnum" vorum, sem aldrei á ævi sinni komast til botns í svo erfiðum viðfangsefnum.

Af viðteknum venjum í iðnaðinum tók klassíska þjóðhagfræðin[1] í arf almennar hugmyndir verksmiðjueigenda um að þeir keyptu og borguðu *vinnu* verkamanna. Þessar hugmyndir höfðu reynzt fullnægjandi fyrir verzlunarrekstur, bókhald og verðlagningu verksmiðjueigandans. En þegar menn í einfeldni sinni höfðu tekið þær upp í þjóðhagfræði, ollu þær furðulegum firrum og ruglingi.

Hagfræðin hitti fyrir þá staðreynd, að verð allra vara, og einnig þeirrar vöru, sem hún kallar „vinnu", er stöðugum breytingum undirorpið. Það hækkar og lækkar af mjög margvíslegum ástæðum, sem oft og einatt koma framleiðslu vörunnar sjálfrar ekkert við; og þannig virðast venjulega hreinar og beinar tilviljanir ráða verðinu. Um leið og hagfræðin verður að vísindagrein, varð eitt af fyrstu verkefnum hennar að leita að lögmálum, er leyndust að baki þeim tilviljunum, sem virtust ráða vöruverðinu, þeim lögmálum, sem í rauninni ákváðu einmitt þessar tilviljanir. Í sífelldum breytingum vöruverðsins, hækkunum og lækkunum, reyndi hún að finna fastan miðpunkt,

[1] Í 1. bd. 1. kap. 4. gr. „Auðmagnsins" segir Marx: „... með klassískri þjóðhagfræði á ég við hagfræðina eftir daga W. Petty, en hún fjallar um innra samhengið í borgaralegum framleiðsluafstæðum, andstætt lágkúruhagfræðinni." Helztu fulltrúar klassísku þjóðhagfræðinnar, auk W. Petty (1623–1687), voru þeir A. Smith (1723–1790) og D. Ricardo (1772–1823). – *Útg.*

sem verðsveiflurnar snerust um. Í stuttu máli: Út frá *verði* varanna reyndi hún að finna hið ákvarðandi verðlögmál, *gildi* þeirra, sem gæti skýrt allar verðsveiflur og þær að lokum ættu allar rót sína að rekja til.

Nú komst klassíska hagfræðin að því, að gildi hverrar vöru ákvæðist af þeirri vinnu, sem í vörunni felst, þ. e. a. s. sem þarf til að framleiða hana. Þessa skýringu lét hún sér nægja. Til þess að girða fyrir misskilning, vil ég aðeins geta þess, að þessi skýring er með öllu orðin ófullnægjandi. Marx varð fyrstur til að rannsaka gildismyndunareiginleika vinnunnar til hlítar og komst að þeirri niðurstöðu, að öll vinna, sem virðist vera eða er nauðsynleg til framleiðslu einhverrar vöru, eykur ekki við allar aðstæður gildi vörunnar sem svarar því vinnumagni, er notað er til framleiðslu hennar. Því er það aðeins með fyrirvara Marx, að vér til styttingar getum tekið undir með hagfræðingum eins og Ricardo og sagt, að gildi hverrar vöru ákveðist af þeirri vinnu, sem nauðsynleg er til framleiðslu hennar. Þetta nægir hér; nánari greinargerð er að finna í bók Marx „Zur Kritik der politischen Oekonomie“ 1859 og í 1. bd. „Auðmagnsins“.

Jafnskjótt og hagfræðingar tóku að ákveða gildi vörunnar „vinna“ með vinnunni, komust þeir í hverja mótsögnina á fætur annarri. Hvernig á að ákveða gildi „vinnunnar“? Með hinni nauðsynlegu vinnu, sem í henni felst. Hversu mikil vinna felst í dagsvinnu, vikuvinnu, mánaðarvinnu eða ársvinnu verkamanns? Vinna eins dags, viku, mánaðar, árs. Sé vinnan mælikvarði á allt gildi, þá getum vér ekki lýst „gildi vinnunnar“ í öðru en vinnu. En vér erum alls engu nær um gildi klukkustundar vinnu þó að vér vitum, að það jafngildi klukkustundarvinnu. Með þessu erum vér ekki hársbreidd nær markinu, vér förum bara alltaf í hring.

Klassíska hagfræðin reyndi því að fara aðra leið. Hún sagði: Gildi hverrar vöru er jafnt framleiðslukostnaði hennar. Hver er framleiðslukostnaður vörunnar? Þessari spurningu geta hagfræðingarnir ekki svarað, án þess að misbjóða dálítið rökfræðinni. Því miður er ekki hægt að finna framleiðslukostnað vinnunnar sjálfrar, og nú rannsaka þeir í hans stað hver sé framleiðslukostnaður *verkamannsins*. Hann er hægt að finna. Að vísu breytist hann eftir tíma og aðstæðum, en í ákveðnu þjóðfélagsástandi, á ákveðnum stað og í ákveðinni framleiðslugrein er hægt að ákveða hann, a. m. k. innan vissra og það allþröngra marka. Nú á tímum er auðvaldsframleiðslan ríkjandi, og stór og sístækkandi stétt manna getur því aðeins lifað, að hún vinni hjá eigendum framleiðslutækjanna – verkfæranna,

vélanna, hráefnanna og lífsgagnanna – fyrir kaup. Við slíka framleiðsluhætti felst framleiðslukostnaður verkamannsins í því magni af lífsnauðsynjum – eða peningaverði þess – sem að meðaltali þarf til þess að gera hann vinnufæran, halda honum vinnufærum og gera nýjan verkamann færan til að taka við af honum, þegar hann fellur frá sakir elli, veikinda eða dauða; þ. e. a. s. viðhalda kyni verkalýðsins eftir því sem þörf krefur. Setjum svo að peningaverð þessara lífsgagna sé að meðaltali 3 mörk á dag.

Þá fær verkamaðurinn 3 mörk í daglaun frá kapítalistanum, sem hann vinnur hjá. Segjum að kapítalistinn láti hann vinna 12 stundir á dag fyrir þessi 3 mörk. Og nú reiknar kapítalistinn eitthvað á þessa leið:

Setjum svo að verkamaðurinn sé vélsmiður og eigi að smíða ákveðinn vélarhluta, sem hann lýkur við á einum degi. Hráefnið – járn og kopar í hæfilega undirbúnu ástandi – kostar 20 mörk. Í kol, slit á gufuvél, rennibekk og öðrum verkfærum notar verkamaðurinn að sínum hluta 1 mark á dag. Áður höfum vér gert ráð fyrir að daglaunin séu 3 mörk. Alls verða þetta 24 mörk fyrir vélarhlutann, en kapítalistanum telst til, að hann fái að meðaltali 27 mörk hjá viðskiptamönnum sínum fyrir stykkið, eða 3 mörk umfram útlagðan kostnað.

Hvaðan koma þessi 3 mörk, sem kapítalistinn stingur í eigin vasa? Klassíska hagfræðin fullyrðir, að vörurnar séu að jafnaði seldar við gildi sínu, nefnilega við verði samsvarandi því vinnumagni, er í þeim felst. Eftir því ætti jafnaðarverð hverrar vörueiningar – 27 mörk – að vera jafnt gildi hennar, þ. e. vinnunni, sem í henni felst. En af þessum 27 mörkum voru 21 fyrir hendi sem gildi, áður en vélsmiðurinn hóf vinnu. 20 mörk fólust í hráefninu, 1 mark í kolum, sem brennt var meðan á vinnunni stóð, í véla- og verkfærasliti, sem rýrði afkastagetu þeirra um þessa upphæð. Þá eru eftir 6 mörk, sem bætzt hafa við gildi hráefnisins. Að áliti hagfræðinga geta þessi 6 mörk ekki stafað af öðru en þeirri vinnu, sem verkamaðurinn lagði í hráefnið. Samkvæmt þessu hafa tólf vinnustundir hans skapað nýtt gildi, er nemur 6 mörkum. Eftir því ættum við loks að hafa uppgötvað hvað „gildi vinnunnar“ er.

„Bíðið við!“ segir vélsmiðurinn. „Sex mörk? Ég hef ekki fengið nema þrjú! Kapítalistinn, sem ég vinn hjá, sver og sárt við leggur, að vinna mín í 12 stundir sé ekki nema þriggja marka gildi; ef ég heimta sex, þá hlær hann að mér. Hvernig kemur þetta heim?“

Áður lentum vér í lokuðum hring með gildi vinnunnar. Nú sitjum vér fyrst fyrir alvöru fastir í óleysanlegri mótsögn. Vér

leituðum að gildi vinnunnar og fundum meira en vér höfum brúk fyrir. Fyrir verkamanninn er gildi 12 vinnustunda 3 mörk, fyrir kapítalistann 6 mörk. Af þeim greiðir hann verkamanninum 3 mörk í kaup og stingur 3 í eigin vasa. Eftir þessu ætti vinnan ekki aðeins að hafa eitt gildi, heldur tvö, og þau þar á ofan mjög misjöfn!

Mótsögnin verður enn fjarstæðari, ef vér breytum gildinu – sem var tjáð í peningum – í vinnutíma. Á 12 vinnustundum verður til nýtt gildi, er nemur 6 mörkum. Á 6 stundum skapast því þriggja marka gildi – en það er sú upphæð, sem verkamaðurinn fær fyrir 12 stunda vinnu. Sem jafngildi 12 stunda vinnu fær verkamaðurinn afurðir sex stunda vinnu. Vinnan hefur því annað hvort tvö gildi, annað tvöfalt stærra en hitt, eða þá að 12 er sama og 6! Hvort tveggja er jafn mikil fjarstæða.

Það er sama hvernig vér snúum oss og vindum, vér komumst aldrei fram hjá þessari mótsögn, á meðan vér höldum áfram að tala um kaup og sölu vinnunnar og gildi hennar. Þannig fór einnig fyrir hagfræðingunum. Það var aðallega þessi óleysanlega mótsögn, sem varð síðasta anga klassísku hagfræðinnar, skóla Ricardos, að falli. Klassíska hagfræðin var komin í algert öngþveiti. Maðurinn, sem fann leiðina út úr öngþveitinu, var Karl Marx.

Það, sem hagfræðingarnir höfðu álitið framleiðslukostnað „vinnunnar“, var framleiðslukostnaður hins lifandi verkamanns, en ekki framleiðslukostnaður vinnunnar. Og það var ekki vinnan, sem verkamaðurinn seldi kapítalistanum. „Undir eins og vinna hans raunverulega byrjar – segir Marx – er hún þegar hætt að vera eign hans og hann getur því ekki lengur selt hana“. Hann gæti í hæsta lagi selt *tilvonandi* vinnu sína, þ. e. skuldbundið sig til að leysa af hendi ákveðið verk á ákveðnum tíma. En með því selur hann ekki neina vinnu (sem fyrst yrði að framkvæmast), heldur veitir hann kapítalistanum afnotarétt á vinnuafli sínu um ákveðinn tíma (daglaunavinna), eða til ákveðins verks (ákvæðisvinna) gegn vissri borgun; þ. e. a. s. hann leigir eða selur *vinnuafl* sitt. En þetta vinnuafl er samvaxið hans eigin persónu og verður ekki frá honum skilið. Framleiðslukostnaður þessa vinnuafls er því jafnframt framleiðslukostnaður verkamannsins. Það, sem hagfræðingar kölluðu framleiðslukostnað vinnunnar, er einmitt framleiðslukostnaður verkamannsins og þá um leið vinnuaflsins. Og þannig getum vér snúið oss frá framleiðslukostnaði vinnuaflsins að *gildi* vinnuaflsins, og ákveðið þá þjóðfélagslega nauðsynlegu vinnu, sem þarf til að skapa ákveðna tegund vinnuafls, eins

og Marx gerði í kaflanum um kaup og sölu vinnuaflsins (Das Kapital, 1 bd. 4. kap., 3. gr.).

Hvað gerist eftir að verkamaðurinn hefur selt kapítalistanum vinnuafl sitt, þ. e. veitt honum afnotarétt af því fyrir umsamin laun – daglaun eða ákvæðislaun? – Kapítalistinn leiðir verkamanninn inn í vinnustofu sína eða verksmiðju, þar sem allt til vinnunnar er fyrir hendi, hráefni, hjálparefni (kol, litarefni o. s. frv.), verkfæri og vélar. Hér hefst stritvinna verkamannsins. Segjum að daglaun hans séu sem fyrr 3 mörk – hvort það eru daglaun eða ákvæðislaun skiptir engu máli. Vér gerum aftur ráð fyrir, að á 12 stundum auki verkamaðurinn með vinnu sinni sem svarar 6 mörkum nýju gildi við hráefnin, sem notuðust, og kapítalistinn komi því í verð, þegar hann selur hlutinn fullgerðan. Af því borgar hann verkamanninum umsamin 3 mörk, hinum þremur heldur hann sjálfur. Ef verkamaðurinn skapar 6 marka gildi á 12 klukkustundum, þá skapar hann 3 marka gildi á 6 stundum. Hefur hann þannig þegar eftir 6 stunda vinnu látið kapítalistanum í té jafngildi þeirra þriggja marka, sem vinnulaunin nema. Eftir 6 stunda vinnu eru þeir kvittir, hvorugur skuldar hinum neitt.

„Bíðið við!“ hrópar kapítalistinn. „Ég leigði verkamanninn í heilan dag, 12 stundir. Sex stundir eru ekki nema hálfur dagur. Gjörðu svo vel og haltu áfram, þangað til hinar sex stundirnar eru liðnar – þá fyrst erum við kvittir!“ Og verkamaðurinn á vissulega ekki annarra kosta völ en halda samninginn, sem hann hefur gert „af fúsum vilja“, en með honum skuldbatt hann sig til að vinna í fullar tólf klukkustundir fyrir afurðir, sem kosta sex vinnustundir.

Ákvæðislaun gefa sömu útkomu. Segjum að verkamaðurinn búi til 12 stykki af vörum á 12 klukkustundum. Hvert þeirra kostar 2 mörk í hráefni og verkfæraslit, og selst á $2^1/_2$ mark. Ef vér gerum ráð fyrir öllu hinu sama og áður, borgar kapítalistinn verkamanninum 0,25 mörk fyrir stykkið, eða 3 mörk fyrir 12 stykki, en fyrir þeim verður verkamaðurinn að vinna í 12 stundir. Fyrir öll stykkin 12 fær kapítalistinn 30 mörk; þar frá dragast 24 mörk fyrir hráefni og slit. Þá eru eftir sex mörk. Af þeim greiðir hann verkamanninum 3 mörk í vinnulaun og stingur þrem í eigin vasa, alveg eins og í fyrra dæminu. Í þessu tilviki vinnur verkamaðurinn einnig 6 stundir fyrir sjálfan sig, þ. e. til að vega á móti laununum ($^1/_2$ klst. af hverjum 12 klst), og 6 klst. fyrir kapítalistann.

Erfiðleikinn, sem beztu hagfræðingar strönduðu á, er þeir byggðu á gildi „vinnunnar“, hverfur samstundis og vér byggjum á gildi „vinnu*aflsins*“. Í nútíma auðvaldsþjóðfélagi er vinnu-

aflið eins og hver önnur vara, en þó alveg sérstök vara. Það hefur sem sé sérstakan eiginleika, er afl, sem skapar gildi, gildisuppspretta. Og það er meira að segja, sé réttilega með það farið, uppspretta meira gildis en það sjálft hefur. Á núverandi stigi framleiðslunnar framleiðir vinnuafl mannsins á einum degi ekki aðeins meira gildi en það sjálft kostar, heldur eykur hver og ein uppgötvun vísindanna, hver uppfinning á sviði tækninnar, þennan afgang af dagsafköstum vinnuaflsins, sem er umfram daglegan kostnað þess; styttir þann hluta vinnudagsins, sem verkamaðurinn þarf til að vega upp á móti daglaununum, og lengir á hinn bóginn þann hluta vinnudagsins, sem hann verður að *gefa* kapítalistanum vinnu sína án endurgjalds.

Grundvallarskipan atvinnumála í gervöllu nútíma þjóðfélagi er þessi: Verkalýðsstéttin ein skapar öll gildi, því að gildi er aðeins annað orð um vinnu, það orð, sem í auðvaldsþjóðfélagi nútímans táknar það þjóðfélagslega nauðsynlega vinnumagn, sem felst í ákveðinni vöru. En þessi gildi, sem verkamennirnir framleiða, eru ekki eign þeirra. Þau eru eign þeirra manna, sem eiga hráefnin, vélarnar, verkfærin og þá fjármuni, sem gera þeim kleift að kaupa vinnuafl verkalýðsstéttarinnar. Þannig fær verkalýðsstéttin aðeins nokkurn hluta af öllu því afurðamagni, sem hún framleiðir; og hinn hlutinn, sem kapítalistinn heldur eftir og í hæsta lagi þarf að láta landeigendastéttina fá nokkra hlutdeild í með sér, verður, eins og vér höfum áður séð, stærri með hverri uppfinningu og hverri uppgötvun. En sá hluti, sem fellur verkalýðsstéttinni í skaut, vex annað hvort mjög hægt og aðeins örlítið (miðað við höfðatölu), eða hann vex alls ekki, og getur undir vissum kringumstæðum minnkað.

En uppfinningar og uppgötvanir bola stöðugt hver annarri burt, og það því örar, sem lengur líður. Afkastageta mannlegrar vinnu vex svo hröðum skrefum, að slíks eru ekki áður dæmi. Þetta skapar að lokum þann árekstur, sem hlýtur að verða auðvaldsbúskap nútímans að falli. Annarsvegar eru ómælanleg auðæfi og ofgnótt afurða, sem neytendurnir koma engu tauti við. Hinsvegar er allur þorri þjóðfélagsþegnanna orðinn að öreigum, launavinnumönnum, og einmitt þess vegna er honum orðið ómögulegt að eignast ofgnótt afurða. Klofning þjóðfélagsins í fámenna, vellauðuga stétt og margmenna, eignalausa verkalýðsstétt verður þess valdandi, að þetta þjóðfélag kafnar í sínum eigin allsnægtum, enda þótt yfirgnæfandi meiri hluti þegna þess hafi varla eða ekki fyrir brýnustu þörfum. Með hverjum degi sem líður verður þetta ástand vitfirringslegra og – þarflausara. Því verður að *útrýma*, og það er *hægt*

að útrýma því. Möguleikarnir fyrir nýju stéttlausu þjóðskipulagi eru fyrir hendi. – Það getur tekið nokkurn tíma að koma því á, og þótt menn verði e. t. v. að neita sér um ýmislegt á meðan á því stendur, verður breytingatíminn í öllu falli mjög nytsamur í siðfræðilegu tilliti. – Í slíku þjóðskipulagi verða hagnýting og fullkomnun framleiðsluaflanna, sem þegar er geysimikil, skipulagðar og jöfn vinnuskylda lögð á alla þegna þjóðfélagsins. Öll tæki til lífsviðurhalds, til þess að njóta lífsins, til eflingar og starfrækslu allra líkamlegra og andlegra hæfileika munu standa öllum jafnt til boða og í síauknum mæli. Á morgun, 1. maí og á sunnudaginn, 3. maí,[1] mun það sýna sig beggja megin Atlantshafsins, að verkamenn eru að verða fastráðnir í að berjast til þrautar fyrir þessu nýja þjóðskipulagi til handa sér.

London, 30. apríl 1891,
Friedrich Engels.

# Launavinna og auðmagn[2]

## I.

Úr ýmsum áttum hefur oss verið brigzlað um það, að vér höfum ekki gert grein fyrir *atvinnuástandinu,* sem er efnalegur grundvöllur þeirrar baráttu, er nú á sér stað milli stétta og þjóða. Að yfirlögðu ráði höfum vér aðeins vikið að þessu ástandi, þegar hinir pólitísku viðburðir gerðu það beinlínis óhjákvæmilegt.

Fyrst og fremst höfum vér orðið að fylgjast með dægurmálum stéttabaráttunnar og nota hið sögulega efni, sem fyrir var og daglega myndaðist, til að sýna fram á, að undirokun sú á verkalýðnum, sem febrúar og marz[3] höfðu í för með sér, bældi einnig undir sig fjandmenn hans – borgaralega lýðveldissinna í Frakklandi, borgara- og bændastéttirnar, sem um allt meginlandið börðust gegn aðals- og einræðisvaldi; að sigur „heið-

[1] Ensku verkalýðssamtökin héldu fyrsta sunnudaginn í maí alþjóðlegan baráttudag. – *Útg.*

[2] Í heildarútgáfum Marx og Engels á þýzku (6. bindi, bls. 397–423) er textinn prentaður eins og Engels gekk frá honum 1891 og neðanmáls þær orðabreytingar, sem Engels gerði á frumtextanum frá 1849. Hér er þýddur textinn frá 1891. – *Útg.*

[3] Hér er átt við byltingarnar 23. og 24. febrúar í París, 13. marz í Vín og 18. marz í Berlín. – *Útg.*

virða lýðveldisins" í Frakklandi var jafnframt fall þeirra þjóða, sem svöruðu febrúarbyltingunni með dáðríkum frelsisstríðum; og loks, að Evrópa féll aftur ofan í sinn fyrri tvöfalda þrældóm – *ensk-rússneska* þrældóminn – um leið og byltingarsinnaður verkalýður beið lægra hlut. Júníbardaginn í París, fall Vínarborgar, hið sorglega og þó um leið spaugilega uppþot í Berlín í nóvember 1848, örvæntingartilraunir Póllands, Ítalíu, Ungverjalands og svelting Írlands – allt þetta voru fram að þessu aðalatriðin í stéttabaráttunni milli borgarastéttarinnar og verkalýðsstéttarinnar. Með þeim sýndum vér fram á, að sérhver byltingarhreyfing, hversu fjarlægt stéttabaráttunni, sem takmark hennar virðist vera, hlýtur að fara út um þúfur, unz byltingarsinnuð verkalýðsstétt sigrar; að allar þjóðfélagsendurbætur verða ekki annað en hugarburður, þar til bylting öreiganna og gagnbylting aðalsins reyna sig með vopnum í *alheimsstríði.* Í lýsingu vorri, eins og í veruleikanum, voru *Belgía* og *Sviss* sorglegar og þó um leið spaugilegar smáskrípamyndir í hinu mikla sögulega málverki. Annað fyrirmyndarríki borgaralegrar konungsstjórnar, hitt fyrirmyndar borgaralegt lýðveldi, hvorttveggja ríki, sem þykjast vera með öllu óháð stéttarbaráttunni og byltingunni í Evrópu.

Nú, þegar lesendur vorir hafa fyrir augum hve risavaxin pólitísk form stéttabaráttan tók á sig 1848, er kominn tími til að víkja nánar að atvinnuástandinu, sem er grundvöllur hvors tveggja í senn, stéttardrottnunar borgaranna og þeirrar þrælkunar, sem verkalýðurinn á við að búa.

Greinargerð vorri skiptum vér í þrennt: 1. *Afstaða launavinnu til kapítals,* þrælkun verkalýðsins, drottnun kapítalistanna. 2. *Óumflýjanlegt hrun borgaralegu millistéttanna og svokallaðrar bændastéttar*[1] *ef núverandi þjóðskipulag helzt.* 3. *Verzlunarkúgun og arðrán af borgarastéttum ýmsra Evrópuþjóða af hendi Englands,* sem er einvaldurinn á heimsmarkaðinum.

Vér munum leitast við að gera framsetninguna sem einfaldasta og alþýðlegasta, og gerum ráð fyrir, að lesendur vorir kunni ekki einu sinni skil á byrjunaratriðum þjóðhagfræði. Fyrst og fremst viljum vér, að verkamennirnir skilji oss. Auk þess ríkir í Þýzkalandi dæmalaus fáfræði og hugsanaruglingur um einföldustu atriði hagfræðinnar, allt frá hinum útvöldu verjendum núverandi ástands niður til *sósíalískra töframanna og misskilinna gáfnaljósa,* sem hið sundurtætta Þýzkaland á enn meira af en kóngum og furstum.

[1] Í Neue Rheinische Zeitung stendur: *Bauernstandes;* í útgáfunni 1891: *sogenannten Bürgerstandes. – Útg.*

Snúum oss þá að fyrsta viðfangsefninu: *Hvað eru vinnulaunin? Hvernig ákveðast þau?*

Ef vér spyrðum verkamenn: Hve mikil laun fáið þið? Þá mundi einn svara: „Kapítalistinn, sem ég vinn hjá, borgar mér 1 franka fyrir hvern vinnudag." Annar mundi segja: „Ég fæ 2 franka" o. s. frv. Allir mundu þeir nefna peningaupphæðir, sem viðkomandi kapítalisti borgar þeim fyrir tiltekna vinnu, t. d. fyrir að vefa eina alin lérefts eða setja stíl í eina prentaða örk, og upphæðirnar mundu vera misháar eftir því hvaða starf þeir ynnu. Þrátt fyrir allan mismun í svörum, mundi þeim bera saman um eitt: Vinnulaunin eru peningaupphæð, sem kapítalistinn greiðir fyrir tiltekinn vinnutíma eða tiltekna vinnu af hendi leysta.

Þannig kaupir kapítalistinn – að því er virðist – vinnu þeirra fyrir peninga. Fyrir peninga *selja* þeir honum vinnu sína. En svo er það aðeins á yfirborðinu. Í raun og veru selja þeir kapítalistanum vinnu*afl* sitt fyrir peninga. Kapítalistinn kaupir vinnuaflið einn dag, viku, mánuð o. s. frv. Og þegar hann hefur keypt það, notar hann það með því að láta verkamanninn vinna hinn umsamda tíma. Fyrir sömu peninga, t. d. 2 franka sem kapítalistinn kaupir vinnuafl þeirra fyrir, hefði hann getað keypt 2 pund af sykri eða hverri annarri vöru, sem vera skal, er nemur sömu upphæð. Þeir 2 frankar, sem hann keypti 2 pund af sykri fyrir, eru *verð* tveggja punda af sykri. Þeir 2 frankar, sem hann keypti fyrir afnot vinnuaflsins í 12 stundir, eru verð 12 stunda vinnu. Vinnuaflið er því vara rétt eins og sykurinn. Fyrri vöruna mælir maður með klukku, en þá síðari á vog.

Verkamennirnir skipta á vöru sinni, vinnuaflinu, og vöru kapítalistans, peningunum, og vissulega er skipt á þessum vörum í ákveðnu hlutfalli. Fyrir afnot vinnunnar um ákveðinn tíma greiðist ákveðin upphæð: 2 frankar fyrir að vefa í 12 stundir. Og þessir tveir frankar – eru þeir ekki ímynd allra annarra vara, sem hægt er að kaupa fyrir tvo franka? Í rauninni hefur því verkamaðurinn skipt á einni vöru, vinnuaflinu, og allskonar öðrum vörum í ákveðnu hlutfalli. Með því að borga honum tvo franka, hefur kapítalistinn látið hann hafa svo og svo mikið af kjöti, fötum, brenni, ljósmeti o. s. frv. í skiptum fyrir vinnudag hans. Þannig sýna þessir tveir frankar skiptahlutfall það, sem vinnuaflið stendur í við aðrar vörur, eða *skiptagildi* vinnuaflsins. Skiptagildi hverrar vöru, metið í *peningum,* kallast *verð* hennar. *Vinnulaun* er því aðeins sérstakt nafn á verði vinnuaflsins, en það *nefna menn* venjulega *verð vinnunnar;* sérstakt nafn á verði þessarar sérkennilegu

vöru, sem ekki er í neinum öðrum umbúðum en mannlegu holdi og blóði.

Sem dæmi getum vér tekið hvaða verkamann sem er, t. d. vefara. Kapitalistinn fær honum vefstólinn og garnið. Vefarinn sezt við vinnuna og garnið verður að lérefti. Kapítalistinn slær eign sinni á léreftið og selur það t. d. fyrir 20 franka. Eru nú vinnulaun vefarans *hluti* af vinnuafurðum hans, léreftinu, eða andvirði þess, 20 frönkunum? Enganveginn. Vefarinn er búinn að fá vinnulaun sín löngu áður en léreftið er selt. Kapítalistinn borgar honum þannig ekki launin með peningum, sem hann fær fyrir léreftið, heldur með peningum, sem hann hafði fyrir. Hvorki vefstóllinn né garnið eru afurðir vefarans – það lét kapítalistinn honum í té – og þær vörur, sem hann fær í skiptum fyrir vöru sína, vinnuaflið, eru það ekki heldur. Kapítalistinn átti engan vísan kaupanda að léreftinu. Það var hugsanlegt, að hann hefði ekki einu sinni vinnulaunin upp úr sölu þess. En það gat líka farið svo, að hann seldi það með mjög góðum hagnaði, samanborið við laun vefarans. Allt þetta kemur vefaranum ekkert við. Fyrir nokkurn hluta af efnum sínum, kapítalinu, kaupir kapítalistinn vinnuafl vefarans, á sama hátt og hann kaupir hráefnið – garnið – og vinnutækin – vefstólinn – fyrir hinn hluta efnanna. Þegar hann hefur gert þessi innkaup, og til innkaupanna verður að telja vinnuaflið, sem þarf til framleiðslu léreftsins, framleiðir hann eingöngu *úr hráefnum og með vinnutækjum, sem eru eign hans.* Til vinnutækjanna telst vissulega einnig vefarinn okkar, sem fær jafnlitla hlutdeild í afurðunum eða verði þeirra og vefstóllinn.

*Vinnulaunin eru því ekki hlutdeild verkamannsins í vörunni, sem hann framleiðir. Vinnulaunin eru hluti af vöru, sem áður var til, sem kapítalistinn kaupir ákveðið magn af framleiðnihæfu vinnuafli fyrir.*

Vinnuaflið er því vara, sem eigandi þess, verkamaðurinn, selur kapítalistanum. Til hvers selur hann það? Til þess að geta lifað.

En vinnuaflið birtist í vinnunni, sem er ekkert annað en lífsstarf verkamannsins, það sem hans eigið líf lýsir sér í. Þetta lífsstarf selur hann öðrum til að afla sér *lífsnauðsynja.* Honum er því lífsstarfið aðeins skilyrði til lífsins. Hann vinnur, til þess eins að geta lifað. Hann telur vinnuna ekki með lífi sínu, heldur er hún þvert á móti fórn, sem hann verður að færa því. Hún er vara, sem hann hefur selt öðrum. Þannig er afraksturinn af starfi hans ekki tilgangur starfsins. Það, sem hann vinnur fyrir sjálfan sig, er ekki silkið, sem hann vefur, ekki gullið sem hann dregur fram úr námugöngunum, ekki höllin, sem

hann byggir. Það, sem hann framleiðir fyrir sjálfan sig, eru *vinnulaunin;* og silkið, gullið og höllin verða honum ákveðið magn af lífsnauðsynjum, e. t. v. baðmullarjakki, koparpeningur og kjallarahola. Og birtist líf verkamannsins, sem vefur, spinnur, borar, rennir, byggir, mokar, heggur grjót og ber byrðar o. s. frv. í 12 stundir, honum í 12 stunda vefnaði, spuna, borun, rennismíði, byggingum, mokstri, steinhöggi og burði, – getur það yfirleitt talizt líf? Það er öðru nær. Fyrir honum byrjar lífið fyrst, þegar þessum störfum er lokið, við matborðið, á knæpunni eða í rúminu. Frá hans sjónarmiði er ekkert vit í 12 stunda vinnu sem vefnaði, spuna, borun o. s. frv., nema af því að hún færir honum *tekjur,* sem gera honum kleift að setjast til borðs, fara á knæpu og hátta í rúm. Ef silkiormurinn spynni til að geta dregið fram lífið sem lirfa, væri hann að öllu leyti eins settur og verkamaðurinn.

Vinnuaflið hefur ekki alltaf verið *vara.* Vinnan hefur ekki alltaf verið launavinna, þ. e. a. s. *frjáls vinna. Þrællinn* selur ekki þrælahaldaranum vinnuafl sitt fremur en uxinn selur bóndanum það, sem hann vinnur honum. Þrællinn, ásamt vinnuafli sínu, hefur verið seldur eigandanum í eitt skipti fyrir öll. Hann er vara, sem getur gengið kaupum og sölum. Hann er *sjálfur* vara, en vinnuaflið er ekki vara *hans. Ánauðugur bóndi* selur aðeins nokkurn hluta vinnuafls síns. Hann fær engin laun frá jarðeigandanum, en verður þvert á móti að greiða honum skatt. Ánauðarbóndinn heyrir jörðinni til, sem nokkurskonar áhöfn, og ber eiganda hennar ávöxt. Aftur á móti selur *frjáls verkamaður* sjálfan sig, og það í pörtum. Hann heldur uppboð á 8, 10, 12, 15 stundum af ævi sinni, hverjum deginum eftir annan, og selur hæstbjóðanda, eigendum hráefnanna, vinnutækjanna og lífsnauðsynjanna, kapítalistunum. Verkamaðurinn er hvorki eign nokkurs manns, né tilheyrir hann nokkurri landareign, en 8, 10, 12, 15 stundir af daglegu lífi hans eru eign þess, sem kaupir þær. Verkamaðurinn fer frá kapítalistanum, sem hann leigir sig, þegar honum sýnist, og kapítalistinn segir honum upp, hvenær sem honum þóknast, þ. e. þegar hann hefur ekki lengur þörf fyrir hann eða þau not, sem hann ætlast til. En verkamaðurinn, sem ekki hefur neina tekjulind, nema hann selji vinnuafl sitt, getur ekki yfirgefið *kaupendastéttina í heild,* þ. e. a. s. *kapítalistana* sem stétt, nema hann afsali sér tilveru sinni um leið. Hann er hvorki eign þessa eða hins kapítalistans, heldur stéttarinnar allrar; og jafnframt verður hann sjálfur að sjá um að koma sér fyrir, þ. e. finna kaupanda innan atvinnurekendastéttarinnar eða kapítalistanna.

Áður en vér víkjum nánar að sambandinu milli auðmagns

og launavinnu, munum vér í stuttu máli lýsa almennustu aðstæðum, sem máli skipta, er ákveða skal vinnulaunin.

Eins og sýnt var hér að framan, eru *vinnulaun verð* vissrar vöru, þ. e. vinnuaflsins. Vinnulaunin lúta því sama lögmáli og ræður verði hverrar annarrar vöru. Þá er spurningin: Hvernig ákvarðast verð vörunnar?

## II.

*Hvað ræður verði hverrar vöru?*

Því ræður samkeppnin milli kaupenda og seljenda, hlutfallið milli framboðs og eftirspurnar. Samkeppnin, sem ræður verði vörunnar, er *þrennskonar.*

Margir seljendur bjóða sömu vöru. Sá, sem býður jafngóða vöru fyrir lægst verð, er viss með að bola öðrum seljendum frá og tryggja sér mesta sölu. Seljendur keppa því sín á milli um söluna eða markaðinn. Sérhver þeirra vill selja, og það sem mest, ef unnt er að vera einn um söluna og bola öllum öðrum frá. Þess vegna selur annar ódýrara en hinn. Meðal *seljenda* á sér þannig stað *samkeppni,* sem *lækkar* verð þeirrar *vöru,* er þeir bjóða.

En á hinn bóginn á sér jafnframt stað *samkeppni meðal kaupenda,* og hún *veldur hækkun* á verðinu.

Loks er *samkeppni milli kaupenda og seljenda;* aðrir vilja kaupa sem ódýrast, hinir selja sem dýrast. Afleiðingin af þessari samkeppni milli kaupenda og seljenda fer eftir því, hvernig hinni áðurnefndu tvennskonar samkeppni er háttað, þ. e. eftir því, hvor vegur meira, samkeppni kaupenda sín á milli, eða samkeppni seljenda innbyrðis. Iðnaðurinn leiðir tvo andvíga heri fram á orustuvöllinn, en báðir verða þeir jafnframt að berjast við sína eigin liðsmenn. Sá herinn, sem minna gerir að innbyrðis barsmíðum, mun sigrast á óvinahernum.

Setjum svo að 100 baðmullarballar séu til sölu, en á sama tíma séu kaupendur að 1000 böllum. Eftirspurnin væri þá tíföld á við framboðið, og samkeppnin milli kaupenda verður því mjög hörð, þar sem hver þeirra vill ná í einn eða helzt alla 100 ballana. Þetta dæmi er ekki gripið úr lausu lofti. Í verzlunarsögunni er getið um tímabil, þegar uppskerubrestur varð á baðmull, og kapítalistar, sem höfðu bundizt samtökum, reyndu að festa kaup á ekki aðeins 100 böllum, heldur öllum baðmullarforða jarðarinnar. Þegar þannig er ástatt, reynir hver kaupandi um sig að bola hinum frá, með því að bjóða hærra verð fyrir baðmularballana en þeir. Seljendur baðmullarinnar, sem

eru handvissir um að geta selt alla sína 100 balla og sjá hinn ákafasta bardaga milli fylkinganna innan óvinahersins, láta sér ekki detta í hug að fara í hár saman, því að það yrði til þess að lækka verðið, einmitt þegar andstæðingarnir keppast við að skrúfa það upp. Allt í einu er friður saminn í herbúðum seljenda. Þeir standa sem *einn* maður gagnvart kaupendum, krossleggja handleggina eins og heimspekingar, og kröfur þeirra væru með öllu taumlausar, ef boð kaupenda, og það jafnvel þeirra áköfustu, væru ekki bundin við sín mjög svo ákveðnu takmörk.

Sé framboð einnar vöru minna en eftirspurnin eftir sömu vöru, þá er aðeins lítil eða jafnvel alls engin samkeppni meðal seljenda. Þegar þessi samkeppni minnkar, eykst samkeppni kaupendanna að sama skapi. Árangurinn er: Meiri eða minni hækkun á vöruverði.

Það er alkunna, að hið gagnstæða, sem einnig hefur gagnstæðar afleiðingar í för með sér, er algengara. Sé framboðið miklum mun meira en eftirspurnin, veldur það stjórnlausri samkeppni meðal seljendanna; skortur á kaupendum fær seljendurna til að henda vörunum út fyrir hlægilega lágt verð. En hvað er verðhækkun og hvað verðlækkun, hvað er hátt verð og hvað lágt? Sandkorn er hátt sé það skoðað í smásjá, og turnar eru lágir í samanburði við fjöll. Ráði hlutfallið milli framboðs og eftirspurnar verðinu, hvað ræður þá hlutfallinu milli framboðs og eftirspurnar?

Ef vér spyrjum einhvern borgarann, mun hann ekki hugsa sig um eitt andartak, heldur fara að eins og Alexander mikli, höggva á háspekihnútinn með margföldunartöflunni: Ef það hefur kostað mig 100 franka að framleiða vöruna, sem ég sel, og ég hef 110 franka upp úr sölunni – auðvitað ekki fyrr en eftir á – þá er það borgaralegur, heiðarlegur og hóflegur ágóði. En hafi ég upp úr skiptunum 120–130 franka, þá er það mikill ágóði; og ef ég fæ 200 franka, þá er það framúrskarandi mikill ágóði, hreinn og beinn stórgróði. Hvað er það þá, sem borgarinn hefur fyrir *mælikvarða á ágóðann?* Það er *framleiðslukostnaður* vörunnar. Ef hann í skiptum fyrir sína vöru fær aðrar vörur, sem hefur kostað minna að framleiða, þá tapar hann. Ef hann í skiptum fyrir vöru sína fær aðrar vörur, sem hefur kostað meira að framleiða, þá græðir hann. Og hækkun eða lækkun ágóðans reiknar hann eftir því, hve mörgum stigum skiptagildi hans eigin vöru er fyrir ofan eða neðan núllpunktinn, þ. e. *framleiðslukostnaðinn.*

Vér höfum nú séð, hvernig breytilegt hlutfall milli framboðs og eftirspurnar veldur ýmist hækkun eða lækkun á verðinu,

skapar ýmist hátt eða lágt verð. Hækki verð einhverrar vöru að mun, sökum of lítils framboðs eða sérlega aukinnar eftirspurnar, þá hlýtur verð einhverrar annarrar vöru að falla tiltölulega; því að verð hverrar vöru sýnir aðeins í peningum skiptahlutfall hennar gagnvart öðrum vörum. Setjum svo að alin af silkidúk hækki úr 5 frönkum í 6 franka, þá lækkar um leið verð silfursins miðað við silkidúkinn, og á sama hátt lækkar, miðað við silkidúkinn, verð á öllum öðrum vörum, sem haldast í óbreyttu verði. Fyrir sama magn af silkidúkum verður nú að láta meira magn af öðrum vörum í skiptum. Hverjar verða þá afleiðingar hækkandi verðs á einhverri vöru? Auðmagnið streymir inn í þá iðngrein, sem stendur í blóma; og þessi auðmagnsstraumur inn í þann iðnað, sem betur er settur, heldur áfram, allt þangað til að þessi iðngrein hættir að gefa af sér meira en venjulegan ágóða, eða öllu heldur, þangað til verðið á afurðum hennar fellur niður fyrir framleiðslukostnaðinn, sökum of mikillar framleiðslu.

Og á hinn bóginn. Falli verð einhverrar vöru niður fyrir framleiðslukostnaðinn, mun auðmagnið draga sig út úr framleiðslu hennar. Að því undanteknu, ef einhver iðngrein samsvarar ekki lengur kröfum tímans og er því dauðadæmd, mun þessi flótti auðmagnsins koma því til leiðar, að framleiðsla, þ. e. framboð slíkrar vöru, heldur áfram að minnka, þangað til það samsvarar eftirspurninni og verð hennar hækkar aftur og nær framleiðslukostnaðinum, eða öllu heldur, þangað til framboðið er orðið minna en eftirspurnin, og verðið þannig aftur komið upp fyrir framleiðslukostnaðinn, því *að markaðsverð hverrar vöru er alltaf annað hvort hærra eða lægra en framleiðslukostnaður hennar.*

Á þessu sést, að auðmagnið streymir sífellt á milli hinna ýmsu iðngreina. Hátt verð veldur of miklu aðstreymi, lágt verð of miklu útstreymi.

Frá öðru sjónarmiði mætti sýna fram á, að framleiðslukostnaðurinn ákveður ekki eingöngu framboðið, heldur einnig eftirspurnina, en með því mundum vér fara of langt út fyrir efnið.

Vér höfum séð hér að framan, hvernig breytingar á framboði og eftirspurn miða að því að gera vöruverðið jafnt framleiðslukostnaðinum.

*Að vísu er raunverulegt verð hverrar vöru alltaf annað hvort hærra eða lægra en framleiðslukostnaðurinn; en hækkun og lækkun jafna hvor aðra upp,* þannig að á ákveðnu tímabili, séu flóð og fjara í iðnaðinum tekin saman í eitt, er skiptahlutfall varanna eins og hlutfallið milli framleiðslukostnaðar þeirra, eða framleiðslukostnaðurinn ákveður verðið.

Þó er ekki svo að skilja, að framleiðslukostnaðurinn ákveði verðið í þeim skilningi, sem hagfræðingarnir halda fram. Hagfræðingarnir segja, að *meðalverð* varanna sé jafnhátt framleiðslukostnaðinum; það sé fast *lögmál*. Þessa stjórnlausu breytingu, þar sem hækkunin vegur lækkunina upp, telja þeir einbera tilviljun. Með sama rétti mætti líta svo á, enda hafa sumir hagfræðingar haldið því fram, að breytingarnar séu lögmálið, en hitt sé tilviljun, að framleiðslukostnaðurinn ákveði verðið. Það eru aðeins þessar raskanir, sem, ef nánar er að gætt, hafa ógurlegar eyðileggingar í för með sér og skaka grundvöll hins borgaralega þjóðfélags, eins og hræringar jarðskorpunnar; það eru aðeins þessar raskanir, sem með gangi sínum verða þess valdandi, að verðið helzt í hendur við framleiðslukostnaðinn. Það er heildarhreyfingin í þessari óreglu, sem skapar regluna. Í rás þessa iðnaðarstjórnleysis, í þessari hringiðu, jafnar samkeppnin, ef svo mætti segja, út öfgarnar á báða bóga.

Þetta sýnir oss, að verð hverrar vöru ákveðst af framleiðslukostnaðinum á þann hátt, að tímabilin, þegar verð vörunnar er fyrir ofan framleiðslukostnaðinn, vega upp þau tímabil, þegar það er fyrir neðan hann og gagnkvæmt. Vitanlega gildir þetta ekki um neinn ákveðinn, einstakan hluta af afurðum iðngreinarinnar, heldur aðeins um iðngreinina sem heild. Það gildir því ekki heldur um neinn einstakan iðjuhöld, heldur aðeins um iðjuhöldastéttina í heild sinni.

En ráði framleiðslukostnaðurinn verðinu, þá miðast það einmitt við þann vinnutíma, sem framleiðsla viðkomandi vöru útheimtir, því að framleiðslukostnaðurinn er í fyrsta lagi hráefni og slit á vinnutækjum, þ. e. iðnaðarafurðir, sem hefur kostað ákveðna tölu vinnudaga að framleiða, og sem því fela í sér ákveðinn vinnutíma; og í öðru lagi hrein og bein vinna, sem mælist í tíma.

Hin sömu almennu lögmál, sem stjórna verði varanna almennt, stjórna vitanlega einnig *vinnulaununum,* sem eru verð *vinnuaflsins.*

Vinnulaunin hækka og lækka á víxl, eftir því hvernig hlutfallið er milli framboðs og eftirspurnar, þ. e. eftir því hvernig samkeppnin milli kapítalistanna, sem eru kaupendur vinnuaflsins, og verkamannanna, sem eru seljendur þess, haga sér. Breytingar á vinnulaununum samsvara breytingum, sem verða á vöruverðinu almennt. *En innan takmarka þessara breytinga ákveðst verð vinnuaflsins af framleiðslukostnaði þess, þ. e. af þeim vinnutíma, sem útheimtist, til þess að framleiða vöruna vinnuafl.*

*Hver er nú framleiðslukostnaður sjálfs vinnuaflsins?*

*Það er sá kostnaður, sem útheimtist til þess að viðhalda verkamanninum sem verkamanni og kenna honum að vinna.*

Því styttri kennslutíma, sem vinnan útheimtir, þeim mun minni er framleiðslukostnaður verkamannsins og þeim mun lægra er einnig verðið á vinnuafli hans, eða laun hans. Í þeim iðngreinum, sem útheimta engan kennslutíma að heitið geti, og láta sér nægja rétta og slétta líkamlega tilveru verkamannsins, er framleiðslukostnaður hans svo að segja ekkert annað en þær vörur, sem hann þarf til þess að halda lífi og kröftum. Verð *vinnuafls hans* ákveðst því af verðinu *á lífsnauðsynjum hans.*

En hér við bætist enn eitt atriði, sem taka verður tillit til. Verksmiðjueigandinn, sem reiknar út framleiðslukostnaðinn og verð afurðanna eftir honum, tekur einnig slit vinnutækjanna með í reikninginn. Ef vél hans kostar t. d. 1000 franka og endist í 10 ár, þá reiknar hann árlega 100 franka með í verði vörunnar, til þess að geta keypt nýja vél að tíu árum liðnum í stað hinnar útslitnu. Á sama hátt verður einnig að reikna með í framleiðslukostnaði óbreytts vinnuafls þann kostnað, sem gerir verkalýðsstéttinni kleift að auka kyn sitt og ala upp nýja verkamenn í stað hinna útslitnu. Þannig er slit verkamanna tekið með í reikninginn á sama hátt og slit vélanna.

Framleiðslukostnaður óbreytts vinnuafls nemur sem sé því, *sem verkamaður þarf til þess að geta lifað og viðhaldið kyni sínu.* Verðið á þessum lífs- og æxlunarnauðsynjum myndar vinnulaunin. Þau vinnulaun, sem þannig eru ákveðin, heita *lágmarkslaun.*

Þessi lágmarkslaun gilda ekki um neinn sérstakan *einstakling,* heldur um *tegundina* á sama hátt og framleiðslukostnaðurinn yfirleitt ákvarðar vöruverðið. Einstakir verkamenn, milljónir verkamanna, fá ekki nóg til þess að halda í sér lífinu og auka kyn sitt; *en vinnulaun allrar verkalýðsstéttarinnar* samsvara að öllum sveiflum meðtöldum þessu lágmarki.

Þar sem vér höfum gert oss ljós þau almennustu lögmál, sem ráða bæði vinnulaununum og verði á öllum öðrum vörum, getum vér snúið oss nánar að efninu.

## III.

Auðmagnið nær yfir hráefni, vinnutæki og lífsnauðsynjar allskonar, sem notuð eru til að framleiða ný hráefni, ný vinnutæki og nýjar lífsnauðsynjar. Allar þessar frumeiningar eru

sköpunarverk vinnunnar, afurðir vinnunnar, *upphlaðin vinna.* Upphlaðin vinna, sem notuð er til nýrrar framleiðslu, er auðmagn.

Þetta segja hagfræðingarnir.

Hvað er svartur þræll? Maður af svarta kynflokknum. Báðar skýringarnar eru jafn mikils virði.

Svertingi er svertingi. Undir vissum skilyrðum verður hann að þræl. Baðmullarspunavél er vél til að spinna með baðmull. Auðmagn verður hún aðeins við ákveðin skilyrði. Séu þau skilyrði ekki fyrir hendi, er hún ekki auðmagn, frekar en gullið í sjálfu sér er peningar eða sykurinn sykurverð.

Í framleiðslunni verka mennirnir ekki einungis á náttúruna, heldur og hverjir á aðra. Þeir framleiða aðeins með því að starfa saman á ákveðinn hátt og skiptast á störfum. Til þess að framleiða, koma þeir sér í ákveðin mök hverjir við aðra og ákveðna innbyrðis afstöðu, og verkanir þeirra á náttúruna – framleiðslan – eiga sér einungis stað við þau þjóðfélagsskilyrði, sem þessi mök og afstaða skapa.

Þessi þjóðfélagsafstaða framleiðenda hvers til annars, skilyrðin, sem þeir skiptast á störfum við og taka þátt í heildarframleiðslunni, er auðvitað mismunandi, eftir því hvers eðlis framleiðslutækin eru. Þegar byssan, hið nýja vopn, hafði verið fundin upp, hlaut allt innra skipulag hersins að breytast. Skilyrðin fyrir því, að einstaklingarnir mynduðu her og gætu starfað sem her, höfðu breytzt, og jafnframt breyttist einnig afstaða herjanna hvers til annars.

Þjóðfélagsskilyrðin, sem einstaklingarnir framleiða undir, *framleiðsluafstæður þjóðfélagsins, eru sem sé breytingum undirorpin, taka stakkaskiptum eftir því sem efnislegu framleiðslutækin breytast og þróast. Framleiðsluafstæðurnar í heild mynda það, sem kallað er þjóðfélagsafstæður eða þjóðfélag, og raunar þjóðfélag á vissu sögulegu þróunarstigi,* þjóðfélag með sérstökum eðlisháttum, er greina það frá öðrum þjóðfélögum. *Fornaldar* þjóðfélagið, *lénsstjórnar* þjóðfélagið og hið *borgaralega* þjóðfélag eru slíkar heildir framleiðsluafstæðna, og hvert þeirra um sig markar jafnframt ákveðið þróunarstig í sögu mannkynsins.

Auðmagnið er einnig þjóðfélagsleg framleiðsluafstæða. *Það er hin borgaralega framleiðsluafstæða* borgaralega þjóðfélagsins. Lífsgögnin, vinnutækin og hráefnið, sem mynda auðmagn – hafa þau ekki hlaðizt upp undir ákveðnum þjóðfélagsskilyrðum, við vissar þjóðfélagsaðstæður? Eru það ekki einmitt þessir ákveðnu þjóðfélagslegu eðlishættir, sem gera afurðir þær, sem notaðar eru til nýrrar framleiðslu, að auðmagni?

Auðmagnið felur ekki eingöngu í sér lífsnauðsynjar, ekki ein-

ungis efnislegar afurðir; það nær engu síður yfir *skiptagildi*. Allar afurðir, sem mynda það, eru *vörur*. Auðmagnið er því ekki aðeins samsafn efnislegra afurða, það er samsafn af vörum, þ. e. skiptagildum eða *þjóðfélagslegum stærðum*.

Auðmagnið helzt óbreytt, enda þótt vér setjum ull í stað baðmullar, hrísgrjón í stað rúgs, gufuskip í stað járnbrauta, ef aðeins baðmullin, hrísgrjónin og gufuskipin – holdtekja auðmagnsins – hafa sama skiptagildi, eða sama verð og ullin, rúgurinn og járnbrautin, sem áður var holdtekja þess. Líkami auðmagnsins getur sífellt verið að taka stakkaskiptum, án þess að nokkur breyting verði á auðmagninu sjálfu.

En enda þótt allt auðmagn sé samsafn af vörum, þ. e. skiptagildum, þá er eigi að heldur sérhvert samsafn af vörum eða skiptagildum auðmagn.

Sérhvert samsafn af skiptagildum er eitt skiptagildi. Hvert eitt skiptagildi er samsafn af skiptagildum. T. d. hús, sem er 1000 franka virði, er skiptagildi, sem nemur 1000 frönkum. Pappírsblað, sem er einnar sentímu virði, er samsafn af skiptagildum, sem nema 100/100 úr sentímu. Afurðir, sem ganga í skiptum fyrir aðrar afurðir, eru *vörur*. Skiptahlutfall afurðanna myndar skiptagildi þeirra, eða – sé það tjáð í peningum – *verð* þeirra. Magn afurðanna getur ekki breytt neinu um þá köllun þeirra að vera *vara*, sýna *skiptagildi*, eða hafa ákveðið *verð*. Hvort sem tréð er stórt eða lítið, þá er það tré. Hvort sem vér skiptum á járni fyrir aðrar vörur í lóða- eða vættatali, þá breytir það ekki eðli þess: Það er vara eða skiptagildi, jafnt fyrir því. Því meira sem magn vörunnar er, þeim mun meira gildi hefur hún, þeim mun hærra verð; og því minna magn, því minna gildi, því lægra verð.

En hvernig verður þá samsafn af vörum eða skiptagildum að auðmagni?

Það verður á þann hátt, að samsafn varanna eða skiptagildanna *skiptir á sjálfu sér fyrir hreint og beint lifandi vinnuafl*, en með þessu heldur það sér við og vex sem sjálfstætt þjóðfélagslegt vald, þ. e. vald *nokkurs hluta þjóðfélagsins*. Til þess að auðmagn geti orðið til og haldizt við, verður að vera til stétt, sem ekkert á nema hæfileikann til að vinna.

Það er drottnun hinnar upphlöðnu, um garð gengnu og hlutbundnu vinnu yfir hreinni og beinni lifandi vinnu, sem gerir upphlaðna vinnu að auðmagni.

Auðmagnið felst ekki í því, að upphlaðin vinna sé tæki lifandi vinnu við nýja framleiðslu. Það felst í því, að lifandi vinna er tæki upphlaðinnar vinnu til að viðhalda skiptagildi hennar og auka það.

Hvað felst í skiptum kapítalista við verkamann?

Verkamaðurinn fær lífsgögn í skiptum fyrir vinnuafl sitt, en í staðinn fyrir þessi lífsgögn fær kapítalistinn vinnu, framleiðslustarf verkamannsins, skapandi mátt, með hverjum verkamaðurinn ekki aðeins vinnur upp það, sem hann eyðir, heldur *gefur uppblöðnu vinnunni meira gildi en hún áður hafði*. Verkamaðurinn fær nokkurn hluta þeirra lífsgagna, sem kapítalistinn hefur á hendinni. Til hvers notar hann þessi lífsgögn? Hann beinlínis neytir þeirra. Jafnskjótt og ég hef neytt lífsgagnanna, ganga þau að fullu og öllu úr greipum mér, nema því aðeins að ég noti tímann, meðan þau halda mér lifandi, til að framleiða ný lífsgögn, skapa ný gildi með vinnu minni, í stað þeirra gilda, sem verða að engu með neyzlunni. Það er einmitt þetta dýrmæta framleiðniafl, sem verkamaðurinn lætur kapítalistanum í té fyrir lífsgögnin. Þess vegna er það sjálfum honum tapað.

Vér skulum taka dæmi: Landseti greiðir daglaunamanni sínum 5 franka á dag. Fyrir þessa 5 franka vinnur daglaunamaðurinn allan daginn á akri landsetans og tryggir honum með því tekjur, sem nema 10 frönkum. Landsetinn fær ekki aðeins endurgoldin þau gildi, sem hann varð að láta daglaunamanninum í té; hann fær þau tvöföld. Hann hefur þannig notað eða neytt 5 frankanna, sem hann greiddi daglaunamanninum, á frjósaman og arðberandi hátt. Hann keypti einmitt vinnuafl daglaunamannsins fyrir 5 frankana, vinnuaflið skapaði honum búsafurðir að tvöföldu gildi og gerði 10 franka úr 5. Aftur á móti fær daglaunamaðurinn í stað framleiðsluaflsins – en áhrif þess lét hann einmitt landsetanum í té – 5 franka, sem hann lætur í skiptum fyrir lífsgögn, er hann neytir svo og svo lengi. Þannig hafa 5 frankarnir farið í gegnum tvennskonar neyzlu, til *endurframleiðslu* fyrir kapítalið, því að þeir voru látnir í skiptum fyrir vinnuafl, sem skapaði 10 franka; sem *óarðbær* eyðslueyrir fyrir daglaunamanninn, því hann lét þá í skiptum fyrir lífsgögn, sem eru að eilífu horfin. Gildi þeirra getur hann því aðeins endurheimt, að hann endurtaki sömu viðskiptin og áður við landsetann. *Þannig krefst kapítalið launavinnu og launavinnan kapítals. Þau skilorðsbinda hvort annað. Þau geta hvort annað af sér.*

Framleiðir verkamaður í baðmullarverksmiðju aðeins baðmullardúk? Alls ekki. Hann framleiðir kapítal. Hann framleiðir gildi, sem notast að nýju til að drottna yfir vinnu hans, til þess að hún skapi gildi enn á ný.

Auðmagnið getur aðeins aukizt með því að skipta á sjálfu sér fyrir vinnuafl, með því að taka launavinnu í þjónustu sína. Verkamaður getur ekki skipt á vinnuafli og auðmagni, nema með því móti að auka auðmagnið, styrkja það vald, sem hann er

ofurseldur sem þræll. Þess vegna *fjölgar öreigalýðnum, þ. e. verkalýðsstéttin vex með vexti auðmagnsins.*

Á þessum grundvelli fullyrðir borgarastéttin og hagfræðingar hennar, að hagsmunir kapítalista og verkamanna *fari saman*. Og í rauninni er það svo, að verkamaðurinn tortímist, ef auðmagnið fær honum ekki starfa; og sömuleiðis tortímist auðmagnið, ef það getur ekki arðrænt vinnuafl, en til þess að arðræna vinnuafl verður auðmagnið að kaupa það. Því örar, sem það auðmagn vex, er framleiðslunni er ætlað, eða framleiðsluauðmagnið, með því meiri blóma, sem iðnaðurinn stendur, því meira sem borgarastéttin auðgast, því fjörugri sem viðskiptin eru, þeim mun fleiri verkamenn þarf kapítalistinn og þeim mun dýrar selur verkamaðurinn sjálfan sig.

Þannig er það óumflýjanlegt skilyrði fyrir þolanlegri líðan verkamannsins, *að framleiðsluauðmagnið vaxi sem örast.*

En hvað er vöxtur framleiðsluauðmagnsins? Hann er aukning á valdi upphlöðnu vinnunnar yfir lifandi vinnu. Hann er aukning á drottnun borgarastéttarinnar yfir hinni vinnandi stétt. Ef launavinnan framleiðir þann framandi auð, sem yfir henni drottnar, það vald, sem henni er fjandsamlegt, auðmagnið, þá streyma atvinnu- þ. e. lífsgögnin til baka frá auðmagninu til verkalýðsins, en þó með því skilyrði, að launavinnan verði enn á ný hluti af auðmagninu, verði lyftistöng, sem kemur því í nýja hreyfingu, er eykur það enn örar.

*Að hagsmunir auðmagnsins og hagsmunir verkamanna fari saman, þýðir ekki annað en það, að auðmagnið og launavinnan eru tvær hliðar einnar og sömu afstæðu. Hvort um sig er hinu óhjákvæmileg nauðsyn, eins og okrarinn og eyðsluseggurinn eru hvor öðrum nauðsyn.*

Meðan launavinnumaðurinn er launavinnumaður er hlutskipti hans háð auðmagninu. Þetta er hið marglofaða, sem er sameiginlegt hagsmunum verkamanns og kapítalista.

## IV.

Vaxi auðmagnið, þá vex launavinna einnig og tala launamanna. Í stuttu máli: Drottnun auðmagnsins þenst út yfir fleiri einstaklinga. Og vér skulum gera ráð fyrir því hagfeldasta, sem fyrir getur komið: Ef framleiðsluauðmagnið eykst, þá vex eftirspurnin eftir vinnu. Þá hækkar einnig verðið á vinnuaflinu, vinnulaunin.

Hvort sem húsið er stórt eða lítið, fullnægir það öllum íbúðarkröfum þjóðfélagsins, meðan húsin í kring eru einnig lítil.

Rísi höll upp við hlið hússins, verður það að hreysi. Eftir það má eigandi þess ekki gera neinar kröfur, a. m. k. verða þær að vera mjög litlar; og þótt húsið stækki og fullkomnist – og það mun það gera með aukinni menningu – þá líður þeim, sem í því býr, verr og verr, honum finnst það óþægilegra og óþægilegra og hann verður óánægðari og óánægðari með það, ef höllin við hlið þess vex að sama skapi eða jafnvel enn meir.

Eigi vinnulaunin að vaxa svo að þess verði vart, verður framleiðsluauðmagnið að vaxa ört. Ör vöxtur framleiðsluauðmagnsins hefur í för með sér jafn öran vöxt auðæfa, hóglífis, þjóðfélagslegra þarfa og neyzlu. Af þessu leiðir, að enda þótt neyzla verkamannsins hafi aukizt, þá hefur hin þjóðfélagslega fullnæging, sem hún veitir, minnkað samanborið við aukna neyzlu kapítalista, sem verkamaðurinn hefur engan aðgang að, eða samanborið við þróunarstig þjóðfélagsins yfirleitt. Þarfir vorar og neyzla eiga rót sína að rekja til þjóðfélagsins; þar af leiðandi mælum vér þær á þess mælikvarða, en miðum ekki við þá hluti, er vér fáum til fullnægingar þeim. Af því að þær eru þjóðfélagslegs eðlis, verða þær líka að miðast við það.

Í heild sinni ákveðast vinnulaunin ekki aðeins af því vörumagni, sem fæst í skiptum fyrir þau. Í þeim felst ýmislegt fleira, sem taka verður tillit til.

Í fyrstu fá verkamenn ákveðna peningaupphæð fyrir vinnuafl sitt. Ákvarðast þá vinnulaunin eingöngu af peningaverðinu?

Á 16. öld fundust nýjar, auðugri og auðunnari námur í Ameríku, og þar af leiðandi óx gull og silfur í umferð í Evrópu. Gildi gulls og silfurs lækkaði því í hlutfalli við aðrar vörur. Eftir sem áður fengu verkamenn sömu upphæð af myntuðu silfri fyrir vinnuafl sitt. Peningaverð vinnuaflsins hélzt óbreytt, en vinnulaunin lækkuðu samt, því að fyrir sömu upphæð silfurs fengu þeir minna magn en áður af öðrum vörum í skiptum. Þetta var eitt af þeim atriðum, sem flýttu fyrir vexti auðmagnsins á 16. öldinni og vexti borgarastéttarinnar.

Lítum á annað dæmi. Veturinn 1847 hækkaði verð á nauðsynjum, svo sem korni, kjöti, smjöri, osti o. s. frv. að mun, sökum uppskerubrests. Setjum svo að verkamenn hefðu eftir sem áður fengið sömu peningaupphæð fyrir vinnuafl sitt. Hefðu vinnulaun þeirra þá ekki lækkað? Vissulega. Í skiptum fyrir sömu peningaupphæð fengu þeir minna brauð, kjöt o. s. frv. Vinnulaun þeirra höfðu lækkað, ekki sökum þess að gildi silfursins hafði lækkað, heldur vegna þess að gildi lífsgagnanna hafði hækkað.

Loks skulum vér gera ráð fyrir, að peningaverð vinnuaflsins haldist óbreytt, en allar landbúnaðar- og vefnaðarvörur lækki í verði, vegna notkunar nýrra véla, góðs árferðis o. s. frv. Þá gætu

verkamenn keypt meira af hverskonar vörum fyrir sömu peningaupphæð. Vinnulaunin myndu þá hækka, einmitt sökum þess að peningagildi launanna breyttist ekki.

Peningaverð vinnuaflsins, nafnverðið, er sem sé annað en nytjalaunin, sem er það vörumagn, er raunverulega kemur í skiptum fyrir vinnulaunin. Sé því um hækkun eða lækkun vinnulauna að ræða, dugir ekki að starblína aðeins á peningaverð vinnuaflsins, þ. e. nafnverðið.

En hvorki nafnverðið, þ. e. a. s. peningaupphæðin, sem verkamaðurinn selur sig kapítalistanum fyrir, né nytjalaunin, þ. e. það vörumagn, sem hann getur keypt fyrir þessa peninga, sýnir til hlítar afstæði vinnulaunanna.

Af þessu, sem áður er sagt, miðast vinnulaunin fyrst og fremst við og ákveðast af því hlutfalli, sem þau standa í til ágóða eða gróða kapítalistans – hlutfallsleg eða afstæð vinnulaun.

Nytjalaunin sýna verð vinnuaflsins í hlutfalli við verð á öðrum vörum. En afstæð vinnulaun tjá aftur á móti, hve mikla hlutdeild hin hreina og beina vinna fær í þeim nýju gildum, sem hún framleiðir, samanborið við hlutdeild upphlöðnu vinnunnar eða auðmagnsins í þeim.

Vér sögðum hér að framan: „Vinnuaflið er ekki hlutdeild verkamannsins í vöru þeirri, sem hann framleiðir. Vinnulaunin eru hluti af vörum, er áður voru til, sem kapítalistinn kaupir ákveðið magn af framleiðnihæfu vinnuafli fyrir". En þessum vinnulaunum verður kapítalistinn að ná aftur með verðinu, sem hann fær fyrir vörurnar, er verkamaðurinn framleiðir; og hann verður að vinna þau upp á þann hátt, að hann um leið fái nokkurn afgang eða gróða umfram útlagðan framleiðslukostnað. Söluverð vörunnar, sem verkamaðurinn framleiddi, skiptist í þrennt fyrir kapítalistann. *Fyrst* er sá hluti, sem fer til að vega upp á móti útlögðu verði hráefna, ásamt sliti á verkfærum og öðrum vinnutækjum, sem hann einnig hefur lagt fram. *Í öðru lagi* er sá hluti, sem fer til þess að vega upp á móti útlögðum vinnulaunum, og *í þriðja lagi* er afgangurinn, sem umfram verður, eða gróði kapítalistans. Þar eð fyrsti hlutinn vegur aðeins upp á móti *gildi, sem var fyrir hendi áður en vinnan fór fram,* þá er augljóst, að bæði sá hluti, sem vegur á móti vinnulaununum og gróði kapítalistans, sem umfram er, verður yfirleitt að takast af hinu nýja gildi, *sem vinna verkamannsins skapaði,* bætti við hráefnið. *Og í þessum skilningi* getum vér skoðað bæði vinnulaunin og gróðann sem hlutdeild í afurðum verkamannsins, til þess að geta borið hvort tveggja saman.

Enda þótt nytjalaunin haldist óbreytt, eða jafnvel hækki, geta afstæðu launin engu að síður lækkað. Gerum t. d. ráð fyrir að

verð á öllum lífsgögnum lækki um $^2/_3$, en daglaunin aðeins um $^1/_3$, t. d. úr þremur frönkum í tvo franka. Enda þótt verkamaðurinn geti með þessum tveimur frönkum fengið umráð yfir meira vörumagni, en hann áður fékk með þremur frönkum, þá hafa laun hans samt lækkað samanborið við ágóða kapítalistans. Gróði kapítalistans (t. d. verksmiðjueigandans) hefur aukizt um 1 franka, þ. e. a. s. verkamaðurinn verður að framleiða meira magn af skiptagildum en áður, en fyrir það borgar kapítalistinn honum minna magn af skiptagildum, en hann áður gerði. Hlutdeild kapítalistans hefur því aukizt í hlutfalli við hlutdeild vinnunnar. Skiptingin á auðæfum þjóðfélagsins milli auðmagns og vinnu er orðin ennþá ójafnari en áður var. Með sama auðmagni drottnar kapítalistinn yfir meira vinnumagni. Vald atvinnurekendastéttarinnar yfir verkalýðsstéttinni hefur aukizt, þjóðfélagsstaða verkamannsins hefur versnað, hann hefur færzt enn einni tröppu lengra niður fyrir kapítalistann í þjóðfélagsstiganum.

*Hver eru þá hin almennu lögmál, sem ráða hækkun og lækkun vinnulauna og gróða í innbyrðis gagnábrifum þessa tvenns?*

*Vinnulaun og gróði standa í öfugu hlutfalli hvort til annars. Hlutdeild kapítalistans, gróðinn, vex að sama skapi og hlutdeild vinnunnar, daglaunin, minnka, og öfugt. Gróðinn eykst að sama skapi og vinnulaunin lækka, hann minnkar að sami skapi og vinnulaunin hækka.*

Ef til vill gera menn þá athugasemd við þetta, að kapítalistinn geti grætt á hagkvæmum skiptum á afurðum sínum við aðra kapítalista, á aukinni eftirspurn eftir vörum sínum, hvort sem það stafar af opnun nýrra markaða eða skyndilega auknum þörfum o. s. frv., þ. e. a. s. að gróði kapítalistans geti aukizt vegna þess, að aðrir kapítalistar raki saman sérstökum aukagróða, og sé þannig óháður hækkun og lækkun vinnulauna, sem er skiptagildi vinnuaflsins; eða að gróði kapítalistans geti einnig aukizt vegna endurbættra vinnutækja, nýrrar hagnýtingar á náttúruöflunum o. s. frv.

Fyrst verða menn að viðurkenna, að útkoman verður sú sama, enda þótt aðferðinni til að finna hana sé snúið við. Að vísu hefur gróðinn ekki aukizt vegna þess, að vinnulaunin hafi lækkað; en vinnulaunin hafa lækkað af því að gróðinn óx. Fyrir sama magn af annarra manna vinnu hefur kapítalistinn keypt meira magn af skiptagildum, án þess að hafa borgað meira fyrir vinnuna; þ. e. a. s. vinnan er verr borguð en áður, samanborið við hreinan gróða kapítalistans af henni.

Auk þess viljum vér minna á það, að þrátt fyrir allar sveiflur á vöruverðinu, ákveðst meðalverð hverrar vöru, skiptahlutfall

hennar gagnvart öðrum vörum, af *framleiðslukostnaði* hennar. Þess vegna hlýtur aukahagnaður einstakra kapítalista að jafna sig upp innan stéttarinnar í heild sinni. Endurbæting á vélum og ný hagnýting náttúruaflanna í þjónustu framleiðslunnar gera mönnum kleift að skapa meira auðmagn á ákveðnum vinnutíma, með jafn miklu auðmagni og jafn mikilli vinnu, en enganveginn meira magn skiptagilda. Ef ég með spunavél get á jafnlöngum tíma framleitt tvöfalt meira en áður en hún var fundin upp, t. d. 100 pund í stað 50, þá fæ ég þegar til lengdar lætur ekki meiri vörur í skiptum fyrir þessi 100 pund en ég áður fékk fyrir 50, vegna þess að framleiðslukostnaðurinn hefur lækkað um helming, eða m. ö. o. vegna þess að ég með sama kostnaði get framleitt tvöfalt meiri afurðir.

Og loks, hvernig sem kapítalistastéttin – borgarastéttin – hvort heldur er í einu landi eða um víða veröld, skipta með sér hreinum gróða af framleiðslunni, þá verður heildarupphæð þessa hreina gróða aldrei annað en sú upphæð, sem upphlaðna vinnan í heild sinni hefur aukizt um fyrir tilverknað hreinnar og beinnar lifandi vinnu. Þessi heildarupphæð vex þess vegna sem svarar því, er vinnan bætir við auðmagnið, þ. e. vöxtur hennar fer eftir sama hlutfalli og vöxtur gróðans samanborið við vinnulaunin.

Það er því augljóst, að jafnvel þótt vér förum ekki út fyrir *afstöðuna milli auðmagns og launavinnu, eru hagsmunir auðmagnsins og hagsmunir launavinnunnar algerlega gagnstæðir.*

Ör vöxtur auðmagnsins er sama sem ör vöxtur gróðans. Gróðinn getur því aðeins vaxið ört, að verð vinnuaflsins – afstæðu vinnulaunin – lækki jafn ört. Afstæðu vinnulaunin geta lækkað, enda þótt nytjalaunin ásamt nafnlaununum – peningagildi vinnuaflsins – hækki, ef þau aðeins hækka ekki í sama hlutfalli og gróðinn. Ef t. d. vinnulaunin hækka í góðæri um 5%, en gróðinn um 30%, þá hafa hlutfallslegu eða afstæðu launin *ekki hækkað,* heldur *lækkað.*

Ef tekjur verkamannsins hækka með örum vexti auðmagnsins, þá vex jafnframt það þjóðfélagsdjúp, sem skilur verkamanninn frá kapítalistanum, þá vex jafnframt vald auðmagnsins yfir vinnunni, vinnan verður háðari auðmagninu.

Að verkamaðurinn hafi hag af örum vexti auðmagnsins, þýðir aðeins þetta: því örar sem verkamaðurinn eykur annarra auðæfi, því stærri molar falla af borðinu til hans, því fleiri verkamenn geta lifað og haft vinnu, því meir getur þrælum auðmagnsins fjölgað.

Það sem vér höfum komizt að raun um er þá þetta:

Jafnvel þegar *auðmagnið vex allra örast* – og það er *hag-*

*kvæmasta ástandið* fyrir verkalýðinn – hverfur ekki hagsmunamótsetningin milli borgarastéttar eða kapítalista og verkalýðsins, hversu mikið sem lífskjör verkalýðsins kunna að batna. Eftir sem áður standa *gróðinn og vinnulaunin í öfugu hlutfalli.*

Vaxi auðmagnið ört geta vinnulaunin hækkað, en gróði kapítalistans vex tiltölulega langtum örar. Efnaleg aðstaða verkamannsins hefur batnað, en á kostnað þjóðfélagsafstöðu hans. Þjóðfélagsdjúpið, sem skilur hann frá kapítalistanum, hefur víkkað.

Og loks:

Örastur vöxtur framleiðslufjármagnsins sem hagstætt skilyrði fyrir verkamenn þýðir, að því örar sem verkalýðsstéttin eykur og magnar valdið, sem henni er fjandsamlegt – annarra auðæfi sem yfir henni drottna –, við því hagkvæmari skilyrði fær hún að starfa á ný að vexti hinna borgaralegu auðæfa, að vexti veldis auðmagnsins; með því meiri ánægju smíðar hún sjálf þá gullnu hlekki, er borgarastéttin teymir hana í á eftir sér.

## V.

Er *vöxtur framleiðsluauðmagnsins og hækkun vinnulaunanna* í raun og veru eins nátengd og borgaralegir hagfræðingar fullyrða? Vér skulum ekki taka of mikið mark á orðum þeirra. Vér megum jafnvel ekki trúa þeim í því, að því sílspikaðra sem auðmagnið sé, þeim mun betur verði þræll þess fóðraður. Borgarastéttin er of menntuð og reiknar hlutina of vel út, til þess að fara að eins og aðallinn, sem státaði af blóma þjóna sinna. Tilveruskilyrði borgarastéttarinnar neyða hana til að reikna.

Það sem vér verðum að rannsaka nánar er þetta:

*Hvaða áhrif hefur vöxtur framleiðsluauðmagnsins á vinnulaunin?*

Ef framleiðsluauðmagn borgaralegs þjóðfélags vex í heild, þá á sér stað *margþættari* upphleðsla vinnu. Kapítalistum fjölgar og þeir stækka. *Fjölgun kapítalistanna eykur samkeppnina milli þeirra.* Aukning auðmagnsins gerir það mögulegt *að leiða fjölmennari verkamannaheri með risavaxnari stríðstækjum fram á orrustuvöll iðnaðarins.*

Kapítalisti getur ekki unnið bug á öðrum kapítalistum og lagt undir sig auðmagn þeirra með öðru móti en því að selja ódýrar. Til þess að geta selt ódýrar, án þess að fara um koll sjálfur, verður hann að framleiða ódýrar, þ. e. a. s. hann verður að auka afköst vinnunnar, eins og mögulegt er. En til þess að auka afkastamátt vinnunnar, verður hann fyrst og fremst *að auka vinnu-*

*skiptinguna,* endurbæta stöðugt *vélarnar* og taka þær upp á fleirum sviðum. Eftir því sem vinnunni er skipt á milli fleiri verkamanna, á því fleiri sviðum sem vélarnar eru hagnýttar, þeim mun minni verður framleiðslukostnaðurinn að tiltölu, þeim mun frjósamari verður vinnan. Þess vegna keppast kapítalistarnir við að skipta vinnunni sem mest á öllum sviðum, auka vélakost og hagnýta þær í sem allra stærstum stíl.

Hvernig mundi sá kapítalisti fara að, sem með aukinni vinnuskiptingu, notkun nýrri og betri vélakosts, meiri og hagkvæmari hagnýtingu náttúruaflanna, hefur opnað sér leið til að skapa meira magn afurða, meiri vörur, en keppinautar hans, með jafn mikilli lifandi upphlaðinni vinnu, ef hann t. d. getur framleitt heila alin af lérefti á sama tíma og keppinautur hans framleiðir hálfa?

Hann gæti haldið áfram að selja hálfa alin af lérefti á sama verði og áður, en með því móti mundi hann ekki sigrast á keppinaut sínum eða auka eigin sölu. En söluþörf hans hefur vaxið að sama skapi og framleiðsla hans óx. Að vísu *gera* hin voldugu dýru framleiðslutæki, sem hann hefur sett á laggirnar, honum kleift að selja vöru sína við vægara verði, en jafnframt *neyða þau hann til að selja meiri vöru,* til þess að vinna miklu *stærri* markað fyrir vörur sínar, og því mun hann selja léreftið ódýrar en keppinautar hans.

En þó mun þessi kapítalisti ekki selja heila alin jafn ódýrt og keppinautar hans hálfa, enda þótt það kosti hann ekki meira að framleiða hana en þá að framleiða hálfa. Annars mundi hann ekki fá neinn aukagróða, heldur aðeins vinna upp framleiðslukostnaðinn með skiptunum. Ef hann fengi meiri tekjur, mundi það aðeins stafa af því, að hann hefur sett meira auðmagn í hreyfingu, en ekki af því að auðmagn hans sé betur nýtt en annarra. Auk þess nær hann þeim tilgangi, sem hann ætlaðist til, ef hann setur verðið á vörum sínum aðeins nokkrum prósentum lægra en keppinautar hans. Hann sigrast á þeim, hann sölsar þá undir sig, a. m. k. nokkurn hluta af sölu þeirra með því að bjóða lægra en þeir. Eins og vér munum, er gangverðið alltaf annað hvort hærra eða lægra en framleiðslukostnaðurinn, eftir því hvort varan er seld á hagstæðum eða óhagstæðum tíma fyrir iðnaðinn. Hve mörg prósent kapítalistinn, sem notar ný og afkastameiri framleiðslutæki, raunverulega græðir á þeim, fer eftir því hvort markaðsverð léreftsins er hærra eða lægra en venjulegur framleiðslukostnaður fram að þessu.

En kapítalistinn okkar nýtur ekki lengi *forréttindanna;* aðrir kapítalistar, sem við hann keppa, taka í notkun sömu vélarnar, sömu vinnuskiptinguna, í jafn stórum eða enn stærri stíl, unz

þetta er orðið svo útbreitt, að verð léreftsins fer ekki aðeins *niður fyrir gamla framleiðslukostnaðinn,* heldur einnig *niður fyrir þann nýja.*

Afstaða kapítalistanna hvers til annars er því hin sama og *áður* en hin nýju framleiðslutæki voru tekin í notkun, og enda þótt þeir með nýju tækjunum geti framleitt tvöfalt meiri afurðir fyrir sama verð, þá eru þeir *nú* neyddir til að selja tvöfalt meiri afurðir fyrir *minna* verð en áður. Sami leikurinn endurtekur sig á grundvelli þessa nýja framleiðslukostnaðar. Meiri vinnuskipting, meiri vélar, og hvort tveggja hagnýtt í stærri mæli. Og þessi nýja útkoma verður fyrir sömu gagnáhrifum af hendi samkeppninnar.

Þannig umturnast eða byltast framleiðsluhættirnir eða framleiðslutækin án afláts, *vinnuskiptingin hefur óhjákvæmilega í för með sér meiri vinnuskiptingu, vélanotkunin meiri vélanotkun og rekstur í stórum stíl, rekstur í enn stærri stíl.*

Þetta eru þau lögmál, sem kasta borgaralegu framleiðslunni æ ofan í æ út úr hinum gamla farvegi hennar og neyða auðmagnið til að auka afkastamátt vinnunnar til hins ýtrasta, vegna þess að það hefur einu sinni aukið hann. Þetta eru þau lögmál, sem unna auðmagninu engrar hvíldar og grenja án afláts í eyru þess: Áfram! Áfram!

Þetta er nákvæmlega sama lögmálið og það, sem óhjákvæmilega *jafnar* verð hverrar vöru eftir framleiðslukostnaði hennar, innan takmarka þeirra breytinga, sem eiga sér stað á vissum tímabilum.

Hversu risavaxin framleiðslutæki, sem hver einn kapítalisti kann að leiða fram á sjónarsviðið, þá gerir samkeppnin þau almenn, og frá því augnabliki að þau eru orðin almenn, hefur hann ekki annað upp úr aukinni frjósemi auðmagnsins en það, að nú verður hann að selja 10, 20 eða 100 sinnum meira en áður, *án þess að fá meira fyrir.* En þar sem hann verður e. t. v. að selja 1000 sinnum meira til þess að geta vegið upp lága verðið með meiri sölu, vegna þess að nú er stórkostleg sala orðin nauðsynleg, ekki aðeins til þess að græða meira, heldur blátt áfram til að vega upp framleiðslukostnaðinn – framleiðslubáknið sjálft verður, eins og áður er sýnt fram á, dýrara og dýrara – af því að þessi stórkostlega sala er orðin lífsnauðsyn, ekki aðeins fyrir hann, heldur einnig fyrir keppinauta hans, þá hefst hin gamla barátta *þeim mun ákafar sem hin uppfundnu* framleiðslutæki eru afkastameiri. *Vinnuskiptingin og vélanotkunin halda því áfram á ný í miklu stærri stíl.*

Hversu máttug sem framleiðslutækin í notkun verða, reynir samkeppnin að ræna auðmagnið gullnum ávöxtum þessa máttar, með því að lækka vöruverðið niður í framleiðslukostnaðinn, með

því að gera það að ófrávíkjanlegu lögmáli, að því ódýrar sem framleitt er, þ. e. a. s. því meira sem hægt er að framleiða með sama vinnumagni, þeim mun ódýrari skuli framleiðslan verða, þeim mun meira afurðamagn skuli látið af hendi fyrir sömu verðupphæð og áður. Þannig vinnur kapítalistinn með viðleitni sinni ekkert á annað en það, að gera sjálfum sér að skyldu að framleiða meira á sama vinnutíma. Í stuttu máli, *hann hefur skapað erfiðari skilyrði fyrir því að hagnýta sér auðmagn sitt.* Eins og samkeppnin eltir hann á röndum með framleiðslukostnaðarlögmálinu og snýr gegn sjálfum honum hverju því vopni, sem hann hefur smíðað á keppinauta sína, leitast kapítalistinn við án afláts að leika á samkeppnina, með því að hann tekur hvíldarlaust upp nýjar vélar, sem að vísu eru dýrari, en framleiða ódýrar, og innleiðir nýja vinnuskiptingu í stað hinnar gömlu, án þess að bíða eftir því að samkeppnin sé búin að gera hinar fyrri aðferðir úreltar.

Ef vér höfum það hugfast, að þessi æðisgengna trylling á sér stað samtímis *á öllum heimsmarkaðinum,* þá verður skiljanlegt, að aukning, upphleðsla og samþjöppun auðmagnsins hefur í för með sér þrotlausa, sífellt stórkostlegri vinnuskiptingu, notkun nýrra og fullkomnun eldri véla, og allt þetta rekur hvað annað.

*En hvaða áhrif hafa þessar aðstæður – óaðskiljanleg fylgja vaxtar framleiðsluauðmagnsins – á ákvörðun vinnulaunanna?*

*Vinnuskiptingin gerir einum verkamanni kleift að vinna 5, 10, 20 manna verk,* og eykur því samkeppnina milli verkamanna 5, 10 eða 20-falt. Samkeppni verkamanna kemur ekki aðeins fram í því, að annar selji sig ódýrar en hinn, heldur einnig í því, að *einn maður* leysir af hendi 5, 10 eða 20 manna vinnu, og hin sívaxandi *vinnuskipting,* sem auðmagnið tekur upp, neyðir verkamenn út í þessa tegund samkeppni sín á milli.

Ennfremur verður vinnan þeim mun *fábreyttari,* sem *vinnuskiptingin* eykst. Sérstæð leikni verkamannsins verður einskis virði. Honum er breytt í einfalt, einstrengingslegt framleiðsluafl, sem hvorki þarf að leggja fram andlega né líkamlega hæfileika. Vinnan verður öllum auðveld. Þess vegna drífa keppinautarnir að úr öllum áttum. Auk þess verðum vér að hafa hugfast, að því einfaldari og auðlærðari sem vinnan er, því minni kostnaði sem það er bundið að tileinka sér hana, þeim mun meira lækka vinnulaunin, því þau ákvarðast af framleiðslukostnaðinum eins og verð hverrar annarrar vöru.

*Að sama skapi og vinnan verður leiðinlegri og viðbjóðslegri vex samkeppnin og vinnulaunin lækka.* Verkamaðurinn leitast við að halda uppi launum sínum, annað hvort með því að vinna lengur eða afkasta meiru á sama vinnutíma. Hann eykur sem sé enn

meir óheillavænlegar afleiðingar vinnuskiptingarinnar, rekinn áfram af örbirgðinni. Afleiðingin er: *Því meira sem hann vinnur, þeim mun minni laun fær hann,* og af þeirri einföldu ástæðu, að hann keppir að sama skapi meira við samverkamenn sína og gerir þá þess vegna að keppinautum sínum, sem bjóða sig upp á jafn ömurleg kjör og hann sjálfur, vegna þess að hann, þegar allt *kemur til alls, keppir við sjálfan sig sem einn af verkalýðsstéttinni.*

*Vélarnar* hafa sömu áhrif, en í miklu stærri stíl, með því að setja ólærða verkamenn í stað faglærðra, konur í stað karla, börn í stað fullorðinna. Séu þær teknar upp á nýjum sviðum, kasta þær verkamönnum unnvörpum á götuna. Og í þeim greinum, þar sem þær eru endurbættar, fullkomnaðar og gerðar afkastameiri, bola þær frá smærri verkamannahópum. Hér að ofan höfum vér lýst í stórum dráttum iðnaðarófriði kapítalista innbyrðis. Það *er sérkennilegt fyrir þennan ófrið, að orusturnar vinnast síður með því að fjölga verkamannahernum en með því að fækka honum. Hershöfðingjarnir – kapítalistarnir – keppast hver við annan um að segja upp sem flestum hermönnum iðnaðarins.*

Hagfræðingarnir segja okkur að vísu, að þeir verkamenn, sem vélarnar reka á dyr á einum stað, fái atvinnu í öðrum atvinnugreinum.

Þeir þora ekki beinlínis að fullyrða, að þeir hinir sömu verkamenn og sagt er upp, komist að í nýjum atvinnugreinum. Staðreyndirnar hrópa of hátt gegn slíkri lygi. Eiginlega fullyrða þeir ekki annað en það, *að aðrir hlutar verkalýðsstéttarinnar,* t. d. sá hluti verkalýðsæskunnar, sem þegar var tilbúinn að ganga inn í þá iðngrein, sem leið undir lok, fái vinnu annars staðar. Þetta er auðvitað mjög mikil huggun fyrir þá verkamenn, sem hröklast úr framleiðslunni. Hina háu herra, kapítalistana, mun ekki skorta nýtt og arðránshæft hold og blóð. Þeir dauðu verða látnir grafa hina dauðu. Með þessu huggar þó borgarastéttin sjálfa sig öllu fremur en verkamennina. Hvílík skelfing væri það ekki fyrir auðmagnið, sem hættir að vera auðmagn án launavinnu, ef vélarnar tortímdu gersamlega allri verkalýðsstéttinni.

En setjum svo, að allir þeir verkamenn, sem vélarnar beinlínis bola frá vinnunni, og að allur sá hluti ungu kynslóðarinnar, sem var að því kominn að ganga í þessa þjónustu, *fái nýja atvinnu.* Trúir því þá nokkur, að þessi nýja atvinna verði eins vel borguð og sú, sem tapaðist? *Það mundi stríða á móti öllum lögmálum hagfræðinnar.* Vér höfum þegar séð, hvernig það siglir í kjölfar iðnaðar nútímans, að einföld og lítilfjörleg vinna kemur í stað margbrotinnar og vandasamrar.

Hvernig gæti þá sá fjöldi verkalýðs, sem vélarnar bola úr ein-

hverri iðngrein, fengið athvarf í annarri, nema við *lægri og verri* launakjör?

Það hefur verið bent á þá verkamenn, sem vinna að framleiðslu sjálfra vélanna, sem undantekningu. Jafnskjótt og iðnaðurinn tekur að nota og heimta meiri vélar, hljóti vélunum óhjákvæmilega að fjölga, vélaframleiðslan að aukast og þá einnig atvinna við hana. Auk þess séu verkamenn í þessari iðngrein lærðir, jafnvel bæði til munns og handa.

Síðan 1840 hefur þessi fullyrðing ekki við neitt að styðjast. Þegar fyrir þann tíma var hún ekki nema hálfur sannleikur. En síðan hefur vélanotkun við framleiðslu véla farið sívaxandi og orðið fjölbreyttari, og vélar engu síður notaðar við framleiðslu þeirra en við framleiðslu baðmullargarns; og verkamenn þeir, sem vinna í vélaverksmiðjunum, inna nú af hendi gersamlega vandalaus vélaverk, samanborið við þau vandasömu verk, sem áður voru unnin í þessari framleiðslugrein.

En í stað karlmannsins, sem vélin hefur svift atvinnu, veitir verksmiðjan e. t. v. *þremur* börnum og einni *konu* atvinnu! Urðu ekki laun karlmannsins að nægja áður handa þrem börnum og einni konu? Varð ekki launalágmarkið að nægja til að viðhalda kyninu og auka það? Hvað sannar þá þessi uppáhalds kjaftháttur borgaranna? Ekkert annað en það, að nú þarf fjórum sinnum fleiri verkamannalíf en áður til að framfleyta *einni* verkamannafjölskyldu.

Vér skulum endurtaka aðalatriðin: *Því meir sem framleiðsluauðmagnið vex, þeim mun víðtækari verður vinnuskiptingin og vélanotkunin. Því víðtækari sem vinnuskiptingin og vélanotkunin verður þeim mun harðari verður samkeppnin milli verkamanna og þeim mun meira skreppa laun þeirra saman.*

Auk þess bætir verkalýðsstéttin við sig nýliðum úr *hærri lögum þjóðfélagsins.* Smáiðnrekendur og minniháttar vaxtatökumenn hrapa unnvörpum niður í hana. Þessir menn eru ekki fyrr þangað komnir en þeir hefja upp arma sína eftir vinnu, ásamt verkamönnunum. Þannig verður skógur hinna uppréttu handa eftir vinnu æ þéttari, en hendurnar sjálfar æ horaðri.

Það er augljóst að smáiðnrekandinn stenzt ekki það stríð, þar sem fyrsta skilyrðið er að framleiða í síauknum mæli, þ. e. vera stóriðjuhöldur en ekki smáatvinnurekandi.

Það þarf varla frekari skýringa við, að vextirnir af auðmagninu minnka að sama skapi og auðmagnið sjálft vex, að minniháttar vaxtatökumenn geta ekki lengur lifað af vöxtum sínum og verða því að fleygja sér út í iðnaðinn og hjálpa þannig til að fylla flokk smáiðnrekenda og þar með flokk tilvonandi öreiga.

Og að lokum. Eftir því sem hreyfing sú, sem hér á undan er

lýst, neyðir kapítalistann til að nota þau risastóru framleiðslutæki, sem fyrir hendi eru, í síauknum mæli, og opna allar lánauppsprettur í þessum tilgangi, að sama skapi fjölgar iðnaðarjarðskjálftunum. Þegar þeir geisa getur verzlunarheimurinn ekki haldið sér á floti, nema með því að fórna undirheimaguðunum nokkrum hluta auðæfanna, afurðanna og jafnvel framleiðsluaflanna – í einu orði sagt, *kreppunum* fjölgar. Þær verða tíðari og skæðari, þó ekki væri nema vegna þess, að eftir því sem afurðamagnið vex og þar með þörfin fyrir meiri markað, skreppur heimsmarkaðurinn meir og meir saman. Alltaf verður minna og minna eftir af nýjum mörkuðum, sem hægt er að arðræna, þar sem sérhver undangengin kreppa hefir þröngvað undir heimsverzlunina markaði, sem annað hvort var áður óunninn eða aðeins lítilsháttar hagnýttur. En auðmagnið *lifir* ekki á vinnunni einni saman. Eins og hver annar tiginn en siðmenningarlaus drottnari, dregur það líka þræla sína með sér í gröfina. Það fórnar heilum herskörum verkamanna, sem tortímast í kreppunum. Niðurstaðan verður því þessi: *Vaxi auðmagnið ört, þá eykst samkeppnin milli verkamannanna samt miklu örar, þ. e. a. s. þeim mun örar minnka atvinnumöguleikarnir og lífsgögnin handa verkalýðsstéttinni að tiltölu. Og þó er ör vöxtur auðmagnsins hagfeldasta skilyrðið, sem til er fyrir launamenn.*

Frumprentun í Neue Rheinische Zeitung 5.–8. og 11. apríl 1849.
Kom út sem sérstakur bæklingur með formála eftir Engels, Berlín 1891.

KARL MARX

# Laun, verð og gróði

## Inngangur

Borgarar.[1]

Leyfið mér að gera nokkrar athugasemdir, áður en ég sný mér að efninu.

Nú sem stendur geisar á meginlandinu sannkölluð verkfallafarsótt, og hvarvetna er kallað til hærri launa. Þetta mál mun verða rætt á þingi okkar. Þið, forusta Alþjóðasambandsins, ættuð að hafa ákveðna afstöðu til þessa höfuðmáls. Því áleit ég, fyrir mitt leyti, það skyldu mína að víkja að málinu, og það ítarlega – þótt ég hætti um leið á að ofreyna þolinmæði ykkar.

Gera verð ég eina athugasemd enn, um borgara Weston. Það er ekki aðeins að hann hafi sett hér fram skoðanir, sem eru ákaflega óvinsælar meðal verkamanna, hann hefur einnig varið þær opinberlega, í samræmi við hagsmuni verkalýðsstéttarinnar, að því er hann heldur. Þann siðferðisþrótt, sem hér kemur fram, hljótum við að meta mikils. Þótt mál mitt sé hispurslaust, mun hann vonandi sjá, er því lýkur, að ég samsinni honum um það sem mér virðist meginhugsunin í því sem hann segir. En ég hlýt að líta svo á, að það sé, í núverandi búningi, fræðilega rangt og hættulegt í reynd.

Ég sný mér nú umsvifalaust að efninu.

## I. Framleiðsla og laun

Borgari Weston grundaði rökfærslu sína í rauninni á tveim forsendum: Í fyrsta lagi þeirri, að magn *þjóðarframleiðslunnar sé óbreytanlegt, sé stöðugt* magn eða stærð, eins og stærðfræðingar

[1] *Borgari* (franska: citoyen kk., citoyenne kvk.) var notað sem almennt ávarpsorð í frönsku byltingunni. Byltingarsinnaðir sósíalistar notuðu það sín á milli á 19. öldinni, unz „félagi" leysti það af hólmi. – *Útg.*

myndu segja. Í öðru lagi, að upphæð *rauntekna,* þ. e. a. s. launa mældra í því vörumagni sem kaupa má fyrir þau, sé *óbreytanleg* upphæð, *stöðug* stærð.

Nú, villan í fyrri fullyrðingunni er deginum ljósari. Þið munuð komast að raun um það, að verðmæti og magn framleiðslunnar eykst ár frá ári, að framleiðni þjóðarvinnunnar vex og að sú fjárupphæð breytist í sífellu sem til þess þarf, að þetta aukna framleiðslumagn fari sína hringrás. Það sem gildir um árslok og mismunandi ár, sem borin eru saman, á líka við um sérhvern meðaldag á árinu. Þjóðarframleiðslan er að magni eða stærð til sífelldum breytingum undirorpin. Hún er ekki *stöðug,* heldur *breytileg* stærð, og svo hlýtur að vera, burtséð frá breytilegri íbúatölu, vegna sífelldra breytinga á *upphleðslu auðmagnsins* og *framleiðni vinnunnar.* Víst er um það: yrði í dag *almenn launahækkun,* þá myndi sú hækkun, til hvers sem hún kynni að leiða að lyktum, ekki *af sjálfri sér* breyta framleiðslumagninu *þegar í stað.* Hún myndi í fyrstunni miðast við það ástand sem nú er fyrir hendi. En hafi þjóðarframleiðslan verið breytileg en ekki stöðug *áður en* launahækkunin átti sér stað, þá er hún áfram *breytileg* en ekki stöðug eftir launahækkunina.

En setjum svo að þjóðarframleiðslan sé að magni til *óbreytanleg* í stað þess að vera *breytileg.* Jafnvel þá væri það fullyrðingin einber, sem Weston vinur okkar álítur rökrétta niðurstöðu. Ef ég hef tiltekna stærð, t. a. m. 8, þá geta *endanleg* mörk hennar engan veginn komið í veg fyrir að einstakir liðir hennar breyti *hlutföllum sínum innbyrðis.* Væri gróðinn 6 og vinnulaunin 2, gætu launin hækkað upp í 6 og gróðinn lækkað niður í 2, samt væri heildarupphæðin óbreytt, 8. Því myndi hið óbreytanlega framleiðslumagn engan veginn sanna, að launaupphæðin væri stöðug. Hvernig sannar nú Weston vinur okkar þennan óbreytanleika? Einfaldlega með því að fullyrða að svo sé.

En jafnvel þótt við samsinntum fullyrðingu hans, myndi tvennt af henni leiða, en hann eygir aðeins eitt. Sé launaupphæðin óbreytanleg, er hvorki hægt að skerða hana né auka við. Ef verkamenn breyta heimskulega með því að knýja fram tímabundna launahækkun, þá breyta kapítalistar ekki síður heimskulega þegar þeir knýja fram tímabundna launalækkun. Vinur vor Weston ber ekki á móti því, að verkamenn geti við ákveðin skilyrði knúið fram hækkun launa, en þar eð upphæð þeirra sé í eðli sínu óbreytanleg, hljóti afturkippur að fylgja. Á hinn bóginn veit hann einnig, að kapítalistar geta knúið fram lækkun launa, og að þeir freista þess reyndar stöðugt. Samkvæmt kenningunni um óbreytanleg vinnulaun hlyti í báðum atvikum að verða afturkippur. Ef því verkamenn risu öndverðir gegn launa-

lækkun eða tilraun til hennar, brygðust þeir öldungis rétt við. Þeir myndu sem sé breyta rétt í því að knýja fram *launahækkun*, því að sérhver *viðbrögð* gegn launalækkun eru *viðleitni* til launahækkunar. Samkvæmt því sem borgari Weston heldur sjálfur fram með kenningu sinni um hin *óbreytanlegu vinnulaun*, ættu verkamenn því við vissar aðstæður að taka höndum saman og berjast fyrir launahækkun.

Ef hann hafnar þessari ályktun, verður hann að fórna þeirri forsendu, sem hana leiðir af. Í stað þess að segja að upphæð vinnulaunanna sé *óbreytanleg að magni*, yrði hann að segja, að þau gætu lækkað, enda þótt þau hvorki gætu hækkað né mættu það, og yrðu að lækka hvenær sem auðmagninu þóknaðist að lækka þau. Ef kapítalistanum þóknast að gefa ykkur kartöflur að borða í stað kjöts og hafra í staðinn fyrir hveiti, þá verðið þið að meðtaka vilja hans sem lögmál hagfræðinnar og lúta honum. Ef laun eru hærri í einu landi, t. d. í Bandaríkjunum, en í öðru, t. d. í Englandi, ber ykkur að skýra þennan launamun út frá mismunandi vilja hins bandaríska kapítalista og hins enska. Þessi aðferð myndi tvímælalaust einfalda mjög rannsóknir ekki einasta hagrænna fyrirbæra heldur líka allra annarra.

En þá hlýtur sú spurning að vakna, *hvers vegna* vilji hins bandaríska kapítalista sé frábrugðinn vilja þess enska. Til að svara þessari spurningu verðið þið að víkja af sviði *viljans*. Klerkur einhver kynni að vilja telja mér trú um að guðs vilji sé eitt á Frakklandi en annað á Englandi. Ef ég heimtaði af honum að útlista fyrir mér þennan viljaklofning, kynni hann að vera nógu frakkur til að svara því til, að það sé guðs vilji að hafa einn vilja í Frakklandi en annan á Englandi. En vinur okkar Weston verður áreiðanlega síðastur manna til að beita sem röksemd svo algjörri afneitun allrar rökrænnar hugsunar.

Vissulega er það *vilji* kapítalistans að taka það sem tekið verður. Það sem fyrir liggur er ekki að fjasa um *vilja* hans, heldur að rannsaka *vald* hans, *takmörk þessa valds* og *eðli þessara takmarka*.

## II. Framleiðsla, laun, og gróði

Ræða sú, er borgari Weston flutti okkur, hefði komizt fyrir í hnotskurn.

Málflutningur hans kom allur í einn stað niður: Ef verkalýðsstéttin neyðir stétt kapítalista til þess að greiða vinnulaunin með fimm shillingum í stað fjögurra í reiðufé, þá myndi kapítalistinn reiða af hendi fyrir þau jafngildi fjögurra shillinga af vörum í stað fimm. Verkalýðsstéttin yrði að borga það með fimm

shillingum sem hún keypti fyrir fjóra áður en launhækkunin átti sér stað. En hví er þessu svo farið? Hvers vegna lætur kapítalistinn aðeins jafngildi fjögurra shillinga af hendi í skiptum fyrir fimm shillinga? Vegna þess að launaupphæðin er föst. En hvers vegna er hún fest við vörugildi fjögurra shillinga? Hví ekki þriggja shillinga eða tveggja, eða við hverja aðra vildarupphæð? Séu mörk launaupphæðarinnar ákvörðuð af hagrænu lögmáli, sem er jafn óháð vilja kapítalistans og vilja verkamannsins, hefði borgari Weston öðru fremur átt að nefna þetta lögmál og sýna fram á tilveru þess. En þá hefði hann líka orðið að sanna það, að sú launaupphæð, sem aðeins er í raun á einhverjum tilteknum tíma, jafngildi alltaf nákvæmlega hinni ófrávíkjanlegu launaupphæð og víki þar aldrei frá. Ef hins vegar hin tilteknu mörk launaupphæðarinnar eru eingöngu *háð vilja* kapítalistans, eða mörkum ágirndar hans, þá eru þessi takmörk að vild sett. Við þau er ekkert óhjákvæmilegt. Hægt er að breyta þeim með vilja kapítalistans og því einnig *gegn* vilja hans.

Borgari Weston útskýrði kenningu sína þannig fyrir ykkur, að ákveðið súpumagn í skál, til að seðja ákveðinn fjölda manna, vaxi ekki við að breikka skeiðarnar. Hann má ekki taka það illa upp, að mér finnst þessi útlistan heldur þunn súpa. Hún minnir mig talsvert á líkinguna sem Menenius Agrippa greip til. Þegar rómversku plebejarnir hófu verkfall gegn hinum rómversku patrisíum, sagði patrisíinn Agrippa við þá að hin patrísíska ístra sæi hinum plebejísku útlimum ríkisins fyrir næringu. Agrippu láðist að sýna fram á það, hvernig næra má útlimi eins manns með því að fylla kvið annars. Borgari Weston hefur að sínu leyti gleymt því, að það sem í skál þeirri er, sem verkamenn snæða úr, er heildarafurð þjóðarvinnunnar. Ef eitthvað tálmar því að verkamenn nái sér í meira úr skálinni, þá er hvorki því til að dreifa að skálin sé þröng né innihaldið rýrt, heldur einungis um smæð skeiðanna að sakast.

Hvaða töfrabragð gerir kapítalistanum kleift að reiða af hendi jafngildi fjögurra shillinga fyrir fimm shillinga? Verðhækkun vörunnar sem hann selur. En er nú verðhækkun, yfirhöfuð breyting á vöruverði, er kannski vöruverðið sjálft háð vilja kapítalistans einum saman? Eða þarf ekki öllu heldur ákveðnar aðstæður til þess að þessi vilji nái fram að ganga? Ef ekki, verður linnulaus ölduhreyfing markaðsverðsins óleysanleg ráðgáta.

Gerum ráð fyrir að hvorki hafi breyting á orðið um framleiðni vinnunnar né um magn þess kapítals og þeirrar vinnu, sem beitt er, né heldur um gildi þess fjár, sem afurðirnar eru metnar til, heldur *eingöngu breyting á launum:* hvernig gæti þessi

*launahækkun* haft áhrif á vöruverðið? Vissulega aðeins með því að orka á hlutfallið milli eftirspurnar eftir þessum vörum og framboðs á þeim.

Það fer ekki milli mála að verkalýðsstéttin, sem heild séð, notar tekjur sínar til *lífsnauðsynja* og hlýtur að gera svo. Af almennri launahækkun sprytti því aukin eftirspurn eftir lífsnauðsynjum og þar af leiðandi *hækkað markaðsverð þeirra.* Þeim kapítalistum, sem þessar vörur framleiða, væru að jöfnu bætt hin hækkuðu laun með hækkandi markaðsverði á þeirra vörum. En hvað um þá kapítalista, sem ekki framleiða lífsnauðsynjar? Og þið skuluð ekki halda að hér sé um einhvern smáhóp að ræða. Þegar þess er gætt að einn fimmti hluti landslýðsins – eða kannski er það ekki nema einn sjöundi hluti, eins og þingmaður nokkur í neðri málstofunni sagði nýlega – neytir tveggja þriðju hluta þjóðarframleiðslunnar, gefur auga leið hversu mikill hluti þjóðarframleiðslunnar verður til sem munaðarvarningur eða lendir í skiptum fyrir munaðarvarning, og hvílíku magni af sjálfum lífsnauðsynjunum er sóað í þjónalið, hesta, ketti o. þ. h., en um þá sóun vitum við af reynslunni, að úr henni dregur alltaf talsvert með hækkandi nauðsynjaverði.

Gott og vel, en hvernig væri nú ástatt um þessa kapítalista, þá sem *ekki* framleiða lífsnauðsynjar? Ekki gætu þeir bætt sér upp þá *lækkun gróðahlutfallsins,* sem stafar af almennri launahækkun, með því að *hækka verðið á vörum sínum,* þar eð eftirspurnin eftir þessum vörum hefði ekki vaxið. Tekjur þeirra hefðu minnkað, og af þessum minni tekjum yrðu þeir að greiða meira fyrir sama magn af dýrari nauðsynjum. En þar með væri sagan ekki sögð öll. Þar eð tekjurnar væru nú rýrari, hefðu þeir minna til munaðareyðslu, og því myndi draga úr eftirspurn þeirra eftir vörum hvers annars. Vegna þessa samdráttar yrði verðlækkun á vörum þeirra. Í þessum iðngreinum myndi því *gróðahlutfallið lækka,* og það ekki einasta í einföldu hlutfalli við hækkun launanna, heldur í hlutfalli, sem ákveðst af samverkan almennra launahækkana, verðhækkun nauðsynjanna og verðlækkun munaðarvarningsins.

Hvaða afleiðingar hefði þessi *mismunur á gróðahlutföllum* fyrir þá höfuðstóla, sem í gangi eru í hinum ýmsu iðngreinum? Vissulega þær sömu og venjulega þegar *meðalgróðahlutfallið* verður af einhverjum ástæðum ójafnt á hinum ýmsu framleiðslusviðum. Kapítal og vinna flyttust úr þeim framleiðslugreinum, sem minna gefa í aðra hönd, til hinna gróðavænlegri greina. Þessi tilfærsla stæði yfir þar til framboðið í hverri grein iðnaðarins hefði vaxið til samræmis við aukna eftirspurn, og þar til svo hefði úr framboðinu dregið í hinum greinunum að svaraði

til hinnar skertu eftirspurnar. Að þessu breyttu hefði hið almenna gróðahlutfall í hinum ýmsu greinum *jafnazt* á ný. Þar eð umskipti þessi öll má rekja til breytinga á hlutfalli eftirspurnar eftir ýmsum vörum og framboðs á þeim, þá sæi ekki afleiðinganna stað að orsökinni horfinni, og *verðlagið* myndi staðnæmast við sömu hæð sem fyrr og í jafnvægi. *Lækkun gróðahlutfallsins,* sem leiddi af hækkun launanna, væri orðin almenn í stað þess að einskorðast við nokkrar iðngreinar. Samkvæmt þeim forsendum sem við tiltókum hefði engin breyting orðið á framleiðni vinnunnar né á heildarmagni framleiðslunnar, en *þetta tiltekna framleiðslumagn hefði breytzt að formi sínu til.* Stærri hluti afurðanna en áður væri nú í mynd nauðsynja, minni hluti í mynd munaðarvarnings, eða – en það kemur út á eitt – minni hluti myndi lenda í skiptum fyrir erlendan munaðarvarning, og hans verða neytt í upprunalegri mynd, eða – en það kemur aftur í sama stað niður – stærri hluti innanlandsframleiðslunnar myndi lenda í skiptum fyrir útlendar nauðsynjar í stað munaðarvarnings. Hin almenna launahækkun myndi því, eftir tímabundna röskun á markaðsverði, aðeins leiða til almennrar lækkunar gróðahlutfallsins án nokkurra varanlegra breytinga á vöruverði.

Einhver kynni að mæla þannig móti rökfærslu minni að ég setji sem svo, að öllum launaukanum sé eytt til lífsnauðsynja. Því er til að svara, að ég hef með því valið þá forsendu sem hagstæðust er skoðun borgara Westons. Væri launaukanum eytt til kaupa á varningi, sem neyzla verkamanna náði ekki til áður, þyrfti hin raunhæfa aukning kaupmáttar engrar sönnunar við. Þar eð þessi kaupmáttaraukning á eingöngu rætur sínar að rekja til hækkaðra vinnulauna, þá hlýtur hún að samsvara nákvæmlega kaupmáttarrýrnun kapítalistanna. *Heildareftirspurn* eftir vörum *ykist* því ekki, en einstakir þættir hennar myndu breytast. Sú vaxandi eftirspurn sem fram kæmi annars vegar, myndi jafnast með minnkandi eftirspurn hins vegar. Að heildareftirspurninni óbreyttri gæti engin breyting orðið á markaðsverði varanna.

Þið eruð sem sé í þessum vanda staddir: Annað hvort deilist launaukinn jafnt til kaupa á öllum tegundum neyzluvarnings – þá hlýtur sú aukning eftirspurnar, sem verður meðal verkamanna, að jafnast með rýrnun á eftirspurn meðal kapítalista –, eða launaukanum er öllum eytt í nokkrar vörutegundir, og markaðsverð þeirra mun hækka um sinn. Þá mun þar af leiðandi hækkun gróðahlutfallsins í sumum greinum iðnaðar og lækkun þess í öðrum valda breyttri dreifingu auðmagns og vinnu, og þessu fer fram þar til framboðið er aukið í annarri grein iðnaðarins í samræmi við aukna eftirspurn, en úr því dregið í hin-

um til samræmis við skerta eftirspurn. Við aðra forsenduna verður engin breyting á vöruverðinu. Sé hin forsendan valin, mun skiptagildi hinna einstöku vörutegunda lenda í sömu hæð og það var áður, eftir nokkrar sveiflur á markaðsverði. Þegar öll kurl eru komin til grafar, leiðir hin almenna launahækkun, við hvora forsenduna sem miðað er, til einskis annars en almennrar lækkunar gróðahlutfallsins.

Til að örva ímyndunarafl ykkar bað borgari Weston um að þið gæfuð þeim erfiðleikum gaum, sem almenn launahækkun við enska landbúnaðarverkamenn úr 9 shillingum í 18 myndi valda. Hugsið ykkur bara, hrópaði hann, hinn hemjulausa vöxt eftirspurnar eftir lífsnauðsynjum og hina ógnvekjandi hækkun á verði þeirra, sem í kjölfarið myndi sigla! Nú vitið þið allir, að meðallaun bandarískra landbúnaðarverkamanna nema hinum ensku launum tvöföldum, enda þótt verð á landbúnaðarafurðum sé lægra í Bandaríkjunum en í Brezka konungsríkinu, enda þótt heildarafstaða milli auðmagns og vinnu sé sú sama í Bandaríkjunum og í Englandi, og enda þótt ársframleiðslan sé miklu minni í Bandaríkjunum en í Englandi. Hví hringir vinur okkar þá herklukkum? Beinlínis til að blanda málum. Skyndileg launahækkun úr 9 shillingum í 18 væri skyndileg hækkun um 100%. Nú er það alls ekki til umræðu hér hvort kleift væri að hækka skyndilega almenn laun á Englandi um 100%. Það kemur málinu ekkert við, hversu *mikil* hækkunin kynni að vera, en það verður í hverju sérstöku tilviki að vera háð tilteknum aðstæðum og hæfa þeim. Okkar er aðeins að rannsaka, hvaða áhrif almenn launahækkun hefði, jafnvel þótt hún næmi ekki nema einu prósenti.

Ég læt þessa 100% hækkun úr hugarheimi Westons vinar vors liggja milli hluta, en vil vekja athygli ykkar á hinni raunverulegu launahækkun sem varð á Stóra-Bretlandi á árunum 1849 til 1859.

Ykkur er öllum kunnugt um tíutímalögin, eða öllu heldur tíuoghálfstímalögin, sem í gildi hafa verið síðan 1848. Þau voru ein sú mesta hagræna breyting sem við höfum orðið vitni að. Hér var knúin fram skyndileg launahækkun, og það ekki í fáeinum staðbundnum starfsgreinum, heldur í þeim forustugreinum iðnaðarins sem gefa Englandi valdið á heimsmarkaðnum. Þessi launahækkun varð við sérstaklega óhagstæð skilyrði. Dr. Ure, prófessor Senior og allir hinir hagfræðimálsvarar borgarastéttarinnar „*sönnuðu*" – og það á miklu traustari grundvelli en vinur okkar Weston, verð ég að segja – að nú myndi láta hátt í líkaböng hins enska iðnaðar. Þeir sýndu fram á, að þessi lög fælu ekki aðeins í sér venjulega launahækkun, heldur þá launahækkun,

sem stafaði af og byggðist á skerðingu þess vinnumagns sem beitt er. Þeir héldu því fram, að tólfta klukkustundin, sem til stæði að svipta kapítalistann, væri einmitt sú einasta stund, sem hann hefði gróða sinn af. Þeir ógnuðu fólki með minnkandi upphleðslu kapítalsins, verðhækkunum, markaðstapi, samdrætti framleiðslunnar, þar af leiðandi afturkipp í launum og endanlegu hruni. Raunar nefndu þeir hámarkslög Maximilien Robespierres[1] smáræði samanborið við þetta; og í vissum skilningi höfðu þeir rétt fyrir sér. Gott og vel, hvað leiddi af þessu? Hækkandi launagreiðslur til verkamanna í verksmiðjum þrátt fyrir styttan vinnudag, mikil fjölgun þessara verkamanna, sífelld verðlækkun á afurðum þeirra, vinna þeirra efldist frábærlega hvað framleiðni snerti, markaðurinn fyrir vörur þeirra þandist svo út að þess voru engin dæmi. Sjálfur heyrði ég herra Newman viðurkenna það, á fundi í Vísindastyrktarfélaginu í Manchester 1860, að honum, dr. Ure, Senior og öllum öðrum formælendum hagfræðinnar hefði skjátlazt, á hinn bóginn hefði eðliávísan alþýðu reynzt rétt. Ég nefni hér W. Newman[2] – ekki Francis Newman prófessor – þar eð hann hefur áunnið sér veglegan sess í hagfræðinni fyrir að eiga þátt í og gefa út *„Sögu verðlagsins"* eftir Thomas Tooke, það dásamlega rit, sem rekur sögu verðlagsins frá 1793 til 1856. Hefði meinloka Westons vinar vors um óbreytanlega launaupphæð, um óbreytanlegt framleiðslumagn, óbreytanlegt framleiðnistig vinnunnar, óbreytanlegan og ævarandi vilja kapítalista verið rétt, svo og allur hans óbreytanleiki annar og óbilgirni, þá hefði hin dapurlega forspá Seniors prófessors verið rétt, en Robert Owen hefði vaðið í villu og svíma, sá maður sem strax 1816 lýsti því yfir að almenn takmörkun vinnudagsins væri fyrsta skrefið að frelsun verkalýðsstéttarinnar og innleiddi raunar styttingu hans upp á eigin spýtur í baðmullarspunaverksmiðju sinni í New Lanark, þvert ofan í alla fordóma.

Einmitt um þær sömu mundir sem tíutímalögin komu til framkvæmda og launahækkanir sigldu í kjölfarið, átti sér stað í Stóra-Bretlandi, af ástæðum sem hér er ekki staður til að rekja, *almenn launahækkun meðal landbúnaðarverkamanna.*

Til að girða fyrir hugsanlegan misskilning ætla ég að hafa hér nokkurn formála, enda þótt hans sé ekki beinlínis þörf.

Hækki kaup manns, sem fær 2 shillinga í vikukaup, upp í 4 shillinga, þá hafa *launin* hækkað um 100%. Þetta virðist stórkostlegt þegar litið er á hina *hlutfallslegu hækkun,* þótt hin *raun-*

---

[1] Hámarkslögin, sem franska þjóðþingið, undir forustu Jakobína, setti 1793, í byltingunni, tiltóku hámarksverð og hámarkslaun. – *Útg.*

[2] Ritvilla: Marx á við hagfræðinginn Newmarch. – *Útg.*

*verulega launaupphæð,* 4 shillingar á viku, væri eftir sem áður eymdarlág sultarlaun. Látið því ekki blekkjast af hinum hljómmiklu hundraðstölum *launahlutfallsins.* Þið verðið alltaf að spyrja: Hver var hin *upphaflega* upphæð?

Ennfremur munuð þið átta ykkur á því, að fái tíu menn 2 shillinga hver á viku, fimm menn 5 shillinga hver og fimm menn 11 shillinga hver, þá fengju allir tuttugu samtals 100 shillinga á viku eða 5 sterlingspund. Ef nú *heildarlaun* þeirra myndu hækka um t. a. m. 20%, þá væri það hækkun úr 5 pundum í 6. Að meðaltali mætti segja að hin *almennu laun* hefðu hækkað um 20%, enda þótt laun tíu manna hópsins hefðu í raun og veru haldizt óbreytt, laun annars fimm manna hópsins hækkað úr 5 í 6 shillinga en hins fimm manna hópsins úr 55 í 70 shillinga. Helmingur þessara manna hefði ekki bætt aðstöðu sína að neinu leyti, fjórðungur í varla merkjanlegum mæli og aðeins fjórðungur svo að nokkru næmi. Samt hefðu heildarlaun þessara tuttugu manna vaxið um 20% að *meðaltali,* og hvað heildarkapítalið snertir, sem þeir vinna fyrir, og verðið á vörum þeim, sem þeir framleiða, kæmi það í sama stað niður og þeir hefðu átt jafna hluti í meðaltalshækkuninni. Það er nú um sveitavinnuna að segja, sem stendur á mjög mismunandi launastigi í hinum ýmsu héruðum Englands og Skotlands, að hækkunin hafði mjög ójöfn áhrif á það.

Að síðustu skal geta þess, að á þessu launahækkunartímabili voru gagnverkandi öfl að verki, svo sem hinir nýju skattar, sem Krímstríðið (1854–1856) hafði í för með sér, eyðilegging íbúðarhúsa sveitaverkamanna í stórum stíl o. s. frv.

Að þessu fram teknu kem ég nú að þeirri staðreynd, að á árunum 1849–1859 *jókst* launahlutur sveitaverkamanna í Stóra-Bretlandi um *því sem næst* 40%. Ég gæti tínt til fjölda atriða sem sanna fullyrðingu mína, álít þó nægilegt í þessu sambandi að vísa á fyrirlestur þann, gerðan af samvizkusemi og gagnrýnum anda, sem John heitinn C. Morton hélt árið 1860 í Listafélagi Lundúna (The London Society of Arts) og nefndi *„Kraftar þeir sem beitt er í landbúnaði“* („The Forces used in Agriculture“). Morton reiðir þar fram talnaskýrslur byggðar á kvittunum og öðrum áreiðanlegum skjölum, sem hann hafði safnað meðal hundrað bænda, eða því sem næst, búsettra í 12 skozkum greifadæmum og 35 enskum.

Að áliti Westons vinar okkar hefði verðlag landbúnaðarafurða átt að hækka gífurlega á árunum 1849–1859, og það ekki síður þegar tekið er tillit til launahækkunar verksmiðjufólks, sem gerðist á sama tíma. En hvað gerðist í raun? Þrátt fyrir Krímstríðið og lélega uppskeru á árunum 1854–1856 féll meðalverð á

hveiti – sem er mikilvægasta landbúnaðarafurð Englands – úr u. þ. b. 3 sterlingspundum á hvern fjórðung[1] á árunum 1838–1848 í u. þ. b. 2 pund og 10 shillinga á fjórðung á árunum 1849–1859. Hér er um að ræða lækkun hveitiverðsins um meira en 16% á sama tíma og hækkun landbúnaðarlauna nam 40% að meðaltali. Á þessu sama tímabili, ef við berum saman upphaf þess og lok, 1849 og 1859, minnkaði opinber þurfamannaframfærsla úr 934 419 í 860 470, mismunurinn nemur 73 949. Ég játa að þetta var lítil lækkun, sem þar að auki varð að engu á næstu árum, en lækkun þó.

Segja má, að afnám kornlaganna hafi leitt til þess, að innflutningur útlends korns tvöfaldaðist á tímabilinu 1849–1859, ef borið er saman við tímabilið 1838–1848. Hvað leiðir af því? Séð af sjónarhóli borgara Westons skyldi mega ætla, að þessi skyndilega, gífurlega og sívaxandi eftirspurn á erlendum markaði hefði hækkað þar verð landbúnaðarafurða upp úr öllu valdi, því að áhrifin af aukinni eftirspurn eru þau sömu, hvort sem hún er tilkomin innanlands eða erlendis. Hvað gerðist í raun og veru? Allt þetta tímabil, að undanteknum nokkrum lélegum uppskeruárum, var hið skaðvænlega verðfall á korni það málefni, sem mest var sungið um og kveðið á Frakklandi; Bandaríkjamenn voru æ ofan í æ tilknúðir að brenna offramleiðslubirgðir sínar; og ef trúa mætti herra Urquhart, þá kynti Rússland undir borgarastyrjöldinni í Bandaríkjunum vegna þess að kornútflutningur Rússa til Evrópu dróst mjög saman fyrir sakir samkeppni Kana.

Rökfærsla borgara Westons, *að öllum aukaatriðum slepptum,* jafngildir þessu: þegar eftirspurn eykst, gerist það alltaf á grundvelli tiltekins afurðamagns. Þessi aukning getur því *aldrei valdið auknu framboði þeirra vörutegunda sem spurt er eftir,* heldur *aðeins hækkuðu verði þeirra.* En nú sýnir hin einfaldasta athugun, að í sumum tilfellum hefur aukin eftirspurn eftir vörum engin áhrif á markaðsverð þeirra, veldur í öðrum tilfellum tímabundinni verðhækkun, sem hefur í för með sér aukið framboð og aftur lækkun verðsins á hið upphaflega stig, og reyndar oft *niður* fyrir það. Það breytir engu um skilyrði þessa vandamáls hvort hin aukna eftirspurn stafar af hækkuðum launum eða einhverri annarri ástæðu. Frá sjónarhóli borgara Westons var eins erfitt að útskýra hið almenna fyrirbæri og hið óvenjulega fyrirbæri sem á sér stað þá sjaldan launahækkun verður. Rökfærsla hans var því ekki í neinu samhengi við það mál sem við erum að fjalla um. Hún sýndi bara ráðaþrot hans gagnvart lögmálum, sem valda því að aukning eftirspurnarinnar leiðir ekki endanlega til hækkaðs markaðsverðs, heldur til aukins framboðs.

[1] Quarter = 260 l. – *Útg.*

## III. Vinnulaun og peningamagn

Á öðrum degi umræðnanna færði vinur okkar Weston hinar gömlu fullyrðingar í nýjan búning. Hann sagði: Það leiðir af almennri hækkun launa í peningum, að meiri peninga þarf til að greiða þessi sömu laun. Þar sem peningamagnið í umferð er *fastákveðið,* hvernig getið þið þá greitt þessi hækkuðu laun með þessu fastákveðna magni peninga? Fyrst stöfuðu erfiðleikarnir af hinu fastákveðna magni vara, sem fellur hinum vinnandi manni í skaut, þrátt fyrir hækkun launa í peningum, nú stafa þeir af hækkun peningalauna þrátt fyrir fastákveðið magn vara. Af sjálfu leiðir, að ef þið hafnið hinni fyrri kreddu hans, þá munu hinir síðartöldu erfiðleikar hans einnig hverfa.

Ég mun nú samt sem áður sýna fram á, að þetta atriði um peninga í umferð snertir ekkert það efni sem við erum að ræða.

Í ykkar landi er greiðslukerfið langtum fullkomnara en í nokkru landi öðru í Evrópu. Vegna umfangs og einbeitingar bankakerfisins þarf hér miklu minna magn peninga til að velta sama magni verðmæta og til reksturs sömu eða meiri viðskipta. Hvað laununum viðvíkur t. d., þá greiðir verksmiðjuverkamaðurinn vikulaun sín til kaupmannsins, sem leggur þau vikulega inn í banka, bankinn sendir þau svo vikulega til verksmiðjueigandans, sem greiðir þau svo verkamanninum og svo koll af kolli. Með þessu fyrirkomulagi er hægt að greiða árslaun verkamanns, við skulum segja 52 pund, með einum pundspeningi, sem fer þessa sömu hringferð í hverri viku. Jafnvel í Englandi er þetta kerfi ekki eins fullkomið og í Skotlandi og það er ekki alls staðar jafn fullkomið. Þessvegna sjáum við t. d. að í sumum landbúnaðarhéruðunum þarf miklu meira magn peninga til að velta sömu eða jafnvel minni verðmætum heldur en í hreinum iðnaðarhéruðum.

Ef þið farið yfir Ermarsund, þá munuð þið sjá, að laun í peningum eru miklu lægri en í Englandi, en til hringrásar þeirra þarf í Þýzkalandi, Ítalíu, Sviss og Frakklandi *miklu meira af peningum í umferð.* Peningurinn, sem verkamaðurinn fær í kaup, mun ekki lenda eins fljótt í fjárhirzlu bankans, né heldur mun bankinn skila honum eins fljótt til iðjuhöldsins. Þess vegna, í stað þess að einn peningur nægi til að greiða 52ja punda árslaun, mun þar e. t. v. þurfa þrjá til greiðslu á árslaunum, sem aðeins nema 25 pundum. Með því þannig að bera saman meginlandsríkin og England, munuð þið sjá, að lág laun í peningum hafa í för með sér meiri þörf á reiðufé og að hér er í rauninni

um hreint tæknilegt atriði að ræða, alls óskylt umræðuefni okkar.

Samkvæmt áreiðanlegustu útreikningum, sem mér er kunnugt um, hafa samanlagðar árstekjur verkalýðsstéttarinnar hér á landi verið áætlaðar 250 milljónir punda. Til að velta þessari geysifjárhæð eru notaðar um það bil 3 milljónir punda. Gerum ráð fyrir að 50% launahækkun ætti sér stað. Í stað 3ja milljóna punda reiðufé þyrfti þá 4½ milljón. Þar sem verulegur hluti daglegra útgjalda verkamanna er inntur af hendi í silfur- og koparpeningum, sem hafa tákngildi, þar sem verðgildi þeirra gagnvart gulli er ákveðið að geðþótta löggjafans eins og óinnleysanlegra seðla, þá myndi 50% hækkun peningalauna í hæsta lagi hafa í för með sér einnar milljónar aukningu á gullpeningum í umferð. Ein milljón, sem nú liggur óhreyfð, í gullstöngum og mótaðri mynt, í kjöllurum Englandsbanka eða einkabankanna, myndi fara í umferð. En jafnvel þann óverulega kostnað, sem aukin myntslátta og slit á þessum viðbótarpeningum hefði í för með sér, mætti spara og hann myndi vissulega verða sparaður, ef einhver fyrirstaða kæmi í ljós við að uppfylla þörfina á auknu reiðufé. Þið vitið öll, að reiðufé í þessu landi skiptist í tvær tegundir. Önnur, bankaseðlar, mismunandi að nafngildi, er notuð í viðskiptum milli kaupsýslumanna og til greiðslu á stærri upphæðum frá neytendum til kaupmanna, en hin, málmmynt, er notuð í smásöluverzluninni. Þótt þær séu ólíks eðlis, eru þessar tvær tegundir gjaldmiðils notaðar jöfnum höndum. Þannig er gullmynt notuð í miklum mæli við greiðslur á stórum upphæðum, sem ekki standa á heilum eða hálfum tug punda. Ef nú á morgun yrðu gefnir út seðlar, 4ra punda, 3ja punda eða 2ja punda, þá myndu gullpeningar, sem nú fylla þennan farveg viðskiptalífsins, á samri stundu hverfa þaðan, en flæða yfir í aðra, þar sem þeirra væri þörf vegna hækkunar peningatekna. Þannig væri hægt að láta í té þessa viðbótarmilljón, sem þörf væri fyrir vegna 50% launahækkunar, án þess að bæta við einum einasta gullpeningi í umferð. Sama árangri mætti ná, án þess að bæta við einum einasta seðli, með auknum víxlaviðskiptum, eins og átti sér stað í Lancashire um alllangt skeið.

Ef almenn launahækkun, t. d. um 100% eins og borgari Weston gerði ráð fyrir að ætti sér stað hjá landbúnaðarverkafólki, leiddi til verðhækkunar á nauðsynjavörum og, að hans áliti, krefðist aukins magns reiðufjár, sem ekki væri hægt að útvega, þá myndi *almenn launalækkun* hafa sömu áhrif og í sama mæli, aðeins þveröfug. Gott og vel! Nú vitið þið öll, að árin 1858–1860 voru hin hagstæðustu fyrir baðmullariðnaðinn og að sérstaklega árið 1860 var algjört metár í sögu verzlunarinnar, samtímis því

sem allar aðrar iðngreinar stóðu í blóma. Laun baðmullarverkamanna svo og annarra verkamanna í skyldum iðngreinum voru hærri árið 1860 en nokkru sinni fyrr. Þá kom ameríska kreppan og þessi laun lækkuðu skyndilega niður í fjórðung þess sem áður var. Ef hreyfingin hefði verið öfug, hefði þetta þýtt 300% hækkun. Því að ef laun hækka úr fimm í tuttugu shillinga þá segjum við að það sé 300% hækkun, ef þau lækka úr tuttugu í fimm, þá segjum við að þau lækki um 75%, en upphæðin, sem þau hækka um í öðru tilfellinu en lækka um í hinu, er hin sama, 15 shillingar. Þetta var því skyndileg og áður óþekkt breyting á launum, sem jafnframt náði til slíks fjölda verkafólks, að ef við teljum alla, sem ekki aðeins beint heldur einnig óbeint eru háðir baðmullariðnaðinum, þá eru það 50% fleiri en tala landbúnaðarverkafólks. Lækkaði þá verðið á hveitinu? Það *hækkaði* úr árlegu meðaltali 47 sh. og 8 pence fjórðungurinn (quarter) á árunum 1858–1860 í árlegt meðaltal 55 sh. og 10 pence á árunum 1861–1863. Hvað reiðufé snerti, þá voru slegin 8 673 232 pund á árinu 1861 á móti 3 378 102 pundum 1860. Það er að segja, það var slegið 5 295 130 pundum meira 1861 en 1860. Að vísu voru bankaseðlar í umferð 1 319 000 pundum minni 1861 en 1860. Drögum það frá. Þá verða eftir 3 976 130 pund, eða nærri 4 milljónir punda, sem peningar í umferð eru meiri 1861 en á metárinu 1860, en gullstöngum Englandsbanka hafði fækkað, að vísu ekki alveg í sama, en nærri því sama hlutfalli.

Berum saman árin 1862 og 1842. Án tillits til hinnar gífurlegu aukningar verðmætis og magns vara í umferð, voru greidd á árinu 1862 aðeins til járnbrautanna í Englandi og Wales 320 milljón pund á venjulegum peningamarkaði fyrir hlutabréf, lán o. s. frv., upphæð, sem hefði þótt ævintýraleg á árinu 1842. Samt var magn peninga í umferð nálægt því hið sama 1842 og 1862 og þið munuð sjá, að yfirleitt er stöðug tilhneiging til að minnka magn peninga í umferð, samhliða gífurlegri aukningu verðmæta, ekki aðeins í vöruviðskiptum heldur einnig í fjármagnsviðskiptum yfirleitt. Frá sjónarhóli vinar okkar Westons er þetta óráðanleg gáta.

Ef hann hefði skyggnzt nokkru dýpra í viðfangsefni sitt, þá myndi hann hafa séð, að alveg án tillits til launa og gerandi ráð fyrir að þau séu fastákveðin, þá breytist frá degi til dags verðmæti og magn vara í umferð og upphæð fjárskuldbindinga yfirleitt, sem þarf að fullnægja; að upphæð útgefinna bankaseðla breytist frá degi til dags; að upphæð greiðslna, sem inntar eru af hendi án þess peningar komi til, með víxlum, tékkum, opnum reikningsviðskiptum og skuldajöfnuði breytist frá degi til dags; að hvað snertir málmmynt, þá breytist frá degi til dags hlut-

fallið milli myntar í umferð og myntar og ómótaðs gulls, sem liggur í kjöllurum bankanna; að það magn gulls, sem bundið er í innanlandsveltunni og það magn, sem flutt er úr landi vegna alþjóðaviðskipta, breytist einnig frá degi til dags. Hann myndi hafa komizt að raun um, að kredda hans um fastákveðið magn reiðufjár er risavaxinn misskilningur, ósamrýmanlegur hinum hversdagslega veruleika. Hann myndi hafa rannsakað þau lögmál, sem ráða því, að peningamagnið lagar sig að síbreytilegum aðstæðum, í stað þess að gera misskilning sinn á lögmálum peningamagnsins að röksemd gegn hækkun launa.

## IV. Framboð og eftirspurn

Vinur okkar Weston aðhyllist latneska spakmælið að *repetitio est mater studiorum,* það er, að endurtekning sé móðir lærdóms. Þar af leiðandi endurtekur hann hina upphaflegu kreddukenningu í nýrri mynd, að samdráttur peningamagnsins, sem sé afleiðing launahækkana, muni hafa í för með sér minnkun fjármagnsins og þar fram eftir götunum. Þar sem ég hefi þegar hrakið grillur hans um peningamagnið, þá sé ég enga ástæðu til að ræða um þær ímynduðu afleiðingar, sem hann heldur að hinar ímynduðu slysfarir á sviði peningamálanna muni hafa. Ég ætla því strax að snúa mér að því, að draga *kreddukenningu hans, sem alltaf hefur verið söm við sig,* þótt endurtekin hafi verið í mörgum myndum, *saman í sitt einfaldasta fræðilega form.*

Það sést bezt á einni einustu athugasemd hve ógagnrýninn hann er í meðferðinni á viðfangsefni sínu. Hann er andvígur hækkun launa og andvígur háum launum sem afleiðingu af slíkri hækkun. Nú spyr ég hann: Hvað eru há laun og hvað eru lág laun? Hvers vegna ber t. d. að líta á 5 shillinga á viku sem lág laun en 20 shillinga á viku sem há laun? Ef 5 er lágt samanborið við 20, þá er 20 ennþá lægra samanborið við 200. Ef maður á að halda fyrirlestur um hitamælinn og byrjar á því að fjargviðrast um hátt og lágt hitastig, þá væru áheyrendur hans engu nær. Hann verður fyrst að útskýra hvernig frostmarkið er fundið og hvernig suðumarkið og hvernig þessi grundvallar-takmörk ákvarðast af náttúrulögmálunum, en ekki af ímyndunarafli seljenda eða framleiðenda hitamæla. Hvað nú viðkemur launum og gróða, þá hefur borgara Weston ekki aðeins mistekizt að leiða í ljós slík mörk til viðmiðunar í lögmálum efnahagslífsins, honum er ekki einu sinni ljóst að það þurfi að leita að þeim. Hann gerir sig ánægðan með að viðhafa almennt orðalag um

hátt og lágt eins og það hefði einhverja ákveðna merkingu, þótt það sé augljóst, að það er aðeins hægt að tala um há laun eða lág með viðmiðun við einhvern kvarða, sem mælir stærð þeirra. Hann mun ekki geta sagt mér hvers vegna ákveðin peningaupphæð er greidd fyrir ákveðið magn vinnu. Ef hann skyldi svara: „Það er lögmál framboðs og eftirspurnar, sem ræður því," þá mun ég byrja á því að spyrja hann, hvaða lögmáli framboð og eftirspurn verði þá að hlíta. Slíkt svar myndi slá hann alveg út af laginu. Afstaðan milli framboðs og eftirspurnar breytist óaflátanlega og þar með markaðsverð vinnunnar. Ef eftirspurnin er meiri en framboðið hækka launin; ef framboðið er umfram eftirspurn lækka launin. Við þær aðstæður kynni þó að vera nauðsynlegt að *kanna* hið raunverulega ástand framboðs og eftirspurnar með verkfalli t. d., eða á einhvern annan hátt. En ef þið aðhyllist lögmálið um framboð og eftirspurn sem ákvarðandi um launin, þá væri það eins barnalegt og það væri fánýtt að æsa sig upp gegn launahækkun, þar sem, samkvæmt hinum æðstu lögmálum, sem menn vitna til, þá eru tímabilsbundnar launahækkanir alveg eins nauðsynlegar og réttmætar eins og tímabilsbundnar launalækkanir. En ef þið aðhyllist *ekki* framboð og eftirspurn sem hið ákvarðandi lögmál um kaupgjald, þá endurtek ég spurninguna: Hvers vegna er ákveðið magn peninga greitt fyrir ákveðið magn vinnu?

En við skulum nú skoða málin á víðara sviði: Það væri algjör misskilningur að ímynda sér, að verðmæti vinnu eða nokkurrar annarrar vöru væri endanlega ákvarðað af framboði og eftirspurn. Framboð og eftirspurn ráða engu öðru en tímabundnum *sveiflum* markaðsverðsins. Þau skýra, hversvegna markaðsverð einhverrar vöru stígur yfir eða fellur niður fyrir *gildi* hennar, en ráða hinsvegar aldrei *gildinu* sjálfu. Gerum ráð fyrir að framboð og eftirspurn séu jöfn eða m. ö. o. standist á. Á því augnabliki sem þessi gagnstæðu öfl eru jafn sterk, vega þau hvort annað upp og hætta að orka til hreyfingar í eina átt eða aðra. Á þeirri stund þegar framboð og eftirspurn standast á, og hafa því ekkert hreyfiafl, þá er *markaðsverð* vörunnar og *raunverulegt gildi* hennar eitt og hið sama, og það er kringum þetta grunnverð, sem markaðsverðið sveiflast. Við rannsókn á eðli þessa *gildis* koma okkur ekkert við hin tímabundnu áhrif framboðs og eftirspurnar á markaðsverðið. Hið sama gildir um vinnulaun eins og um verð hverrar annarrar vöru.

## V. Vinnulaun og vöruverð

Ef við drögum saman allar röksemdir vinar okkar Westons í sem einfaldast fræðilegt form, þá verða þær að einni einustu kreddusetningu: *„Það eru vinnulaunin, sem ákvarða og stjórna vöruverðinu"*.

Ég gæti vísað til raunhæfra athugana og látið þær vitna gegn þessari úreltu og marghröktu villukenningu. Ég gæti sagt ykkur, að enskir verksmiðjuverkamenn, námumenn, skipasmiðir o. s. frv., sem eru tiltölulega hálaunaðir, geta vegna ódýrrar framleiðslu undirboðið allar aðrar þjóðir, samtímis því, sem enskir landbúnaðarverkamenn t. d., sem eru tiltölulega illa launaðir, verða að þola undirboð næstum allra annarra þjóða af því hve framleiðsla þeirra er dýr. Með því að bera saman mismunandi vörutegundir í sama landi og framleiðsluvörur ýmissa þjóða, gæti ég sýnt fram á, með nokkrum undantekningum, sem þó raunar fremur virðast vera en eru það, að velborguð vinna framleiðir yfirleitt ódýrar vörur, en illa launuð vinna dýrar vörur. Þetta sannar þó að sjálfsögðu ekki, að hátt verð á vinnu annarsvegar og lágt verð hinsvegar séu hvort á sinn hátt orsakir til þessara gagnstæðu niðurstaðna, en það sannar að minnsta kosti að vöruverð ákvarðast ekki af verði vinnunnar. En það er annars algjör óþarfi fyrir okkur að nota svona reynslurökfræði.

Nú mætti e. t. v. mótmæla því, að borgari Weston hafi sett fram kreddusetninguna: *„Það eru vinnulaunin, sem ákvarða og stjórna vöruverðinu"*. Og í raun og veru hefur hann aldrei orðað þetta svo. Hann sagði þvert á móti, að gróði og lóðaleiga ættu einnig sinn hlut í að mynda vöruverðið, því að það er af vöruverðinu, sem greiða þarf ekki einasta laun verkamannanna heldur einnig gróða auðmannsins og leiguna til landeigandans. En hvernig myndast vöruverðið, samkvæmt hans hugmyndum? Fyrst af vinnulaununum. Síðan er bætt við vissum hundraðshluta til ágóða auðmanninum og síðan öðrum hundraðshluta til ágóða landeigandanum. Gerum ráð fyrir, að laun verkamanna við framleiðslu á einhverri vöru séu tíu. Ef hlutfall gróðans er 100% þá mun auðmaðurinn bæta öðrum tíu ofan á hin útborguðu laun. Ef jarðarafgjaldið er einnig 100% af laununum, þá er ennþá bætt við tíu og hið samanlagða verð vörunnar væri þá orðið þrjátíu. En að ákvarða verðið þannig þýðir einfaldlega að láta launin ákveða verðið. Ef launin í þessu ofannefnda dæmi hækkuðu í tuttugu, myndi verð vörunnar hækka í sextíu o. s. frv. Þess vegna hafa allir þessir afdönkuðu skriffinnar á sviði þjóðhagfræði, sem halda fram þeirri kreddu, að launin ráði verðlag-

inu, reynt að sanna kenningu sína með því að meðhöndla gróða og jarðarafgjald *aðeins sem álag í hundraðshlutum ofan á launin.* Enginn þeirra gat að sjálfsögðu heimfært takmörk þessara hundraðshluta undir nokkur hagfræðilögmál. Þeir virðast þvert á móti hugsa sér gróðann ákveðinn af hefð, vana, af vilja kapítalistans eða með einhverjum öðrum álíka handahófslegum og óskýranlegum aðferðum. Þegar þeir fullyrða, að gróðinn ákvarðist af samkeppni milli kapítalistanna, þá er ekkert sagt með því. Sú samkeppni jafnar vissulega mismunandi gróðahlutföll í mismunandi iðngreinum eða þrýstir þeim niður á meðaltalsstig, en hún getur aldrei ákveðið þetta stig né heldur hið almenna gróðahlutfall.

Hvað er átt við með því að segja, að vinnulaunin ráði verðinu? Þar sem vinnulaun eru aðeins nafn á verði vinnunnar, þá er átt við, að verð vinnunnar ráði verðlagi varanna. Þar sem „verð" er skiptagildi – og þegar ég tala um gildi, á ég alltaf við skiptagildi – ég endurtek: er *skiptagildi mælt í peningum,* þá verður niðurstaðan sú, að *„gildi vörunnar ákvarðast af gildi vinnunnar"*, eða að *„gildi vinnunnar er hinn almenni mælikvarði á gildi."*

En hvernig er þá sjálft *„gildi vinnunnar"* ákveðið? Hér komumst við í sjálfheldu, þ. e. a. s. sjálfheldu ef við reynum að hugsa rökrétt. En talsmenn áðurnefndrar kreddukenningar láta ekki rökfræðilega smámuni bögglast lengi fyrir brjóstinu á sér. Tökum til dæmis vin okkar Weston. Fyrst sagði hann okkur, að vinnulaunin réðu vöruverðinu og þar af leiddi, að ef vinnulaun hækkuðu þá hækkaði einnig vöruverðið. Svo snýr hann við blaðinu til að sýna okkur, að launahækkun sé til einskis gagns, þar sem vöruverð hafi einnig hækkað og launin verði í rauninni að meta í hlutfalli við verð þeirra vara, sem keyptar séu fyrir þau. Þannig byrjum við á því að segja, að gildi vinnunnar ákvarði gildi vörunnar og endum á fullyrðingu um að gildi vörunnar ákvarði gildi vinnunnar. Þannig ráfum við afturábak og áfram inni í vítahring og komumst ekki að neinni niðurstöðu.

Þegar öllu er á botninn hvolft, þá er það augljóst, að með því að gera gildi einnar vöru, hvort sem það er vinna, korn eða önnur vara, að almennum mælikvarða og því sem ákveður gildið, þá erum við aðeins að skáka til vandræðum okkar, vegna þess að við mælum eitt gildi með öðru gildi, sem svo aftur þarf sinn mælikvarða.

Sé kreddukenningin um að „vinnulaunin ákveði vöruverðið" dregin saman í hnotskurn, þá verður niðurstaðan sú, að „gildi ákvarðast af gildi" og slík þrásögn þýðir í raun og veru að við vitum ekki nokkurn skapaðan hlut um gildið. Ef við byggjum á þessum forsendum, þá verða allar rökræður um hagfræðileg

lögmál að hreinu bulli. Það var þessvegna mikið afrek hjá Ricardo, þegar hann í bók sinni *Um meginrök þjóðhagfræði,* sem kom út 1817, kippti grundvellinum undan hinni gömlu, vinsælu en útslitnu villukenningu að „launin ákvarði verðið", villukenningu, sem Adam Smith og hinir frönsku fyrirrennarar hans höfðu útskúfað í hinum sannvísindalegu þáttum rannsókna sinna, en gekk þó ljósum logum í hinum yfirborðskenndari og alþýðlegri hlutum verka þeirra.

## VI. Gildi og vinna

Borgarar! Ég er nú þar kominn, að ég verð að snúa mér að því að ræða í raun og veru sjálft viðfangsefni okkar. Ég get ekki lofað því, að ræða það á fullnægjandi hátt, því að ef ég ætlaði að gera það, yrði ég að taka fyrir allt svið þjóðhagfræðinnar. Ég get aðeins eins og Frakkar myndu segja „effleurer la question", (hreyft spurningunni) aðeins drepið á meginatriðin.

Fyrsta spurningin, sem við þá leggjum fyrir okkur er: Hvað er *gildi* vöru? Hvernig er það ákveðið?

Fljótt á litið gæti virzt, að gildi vöru væri mjög *afstætt* fyrirbæri, sem ekki væri hægt að ákveða án þess að taka með í reikninginn afstöðu hennar til allra annarra vara. Í raun og veru, þegar við tölum um gildi vöru, skiptagildi hennar, þá eigum við við þau magnhlutföll, sem hægt er að skipta henni eftir gegn öllum öðrum vörum. En þá rís spurningin: Hvað ræður þeim hlutföllum, sem vörum er skipt eftir hverri gegn annarri?

Við þekkjum af reynslunni, að þessi hlutföll breytast óaflátanlega. Ef við tökum t. d. eina einstaka vöru, hveiti, þá vitum við að hægt er að skipta á einni tunnu hveitis í nær óteljandi hlutföllum gegn hinum ýmsu vörutegundum. En samt, þar sem *gildi þess er ávallt það sama,* hvort sem það kemur fram í silki, gulli eða hvaða annarri vörutegund, sem er, þá hlýtur það að vera eitthvað frábrugðið, eitthvað óháð þessum *mismunandi skiptahlutföllum* gagnvart hinum ýmsu vörum. Það hlýtur að vera hægt að setja fram þessar mismunandi jöfnur milli mismunandi vörutegunda á sérstakan óháðan hátt.

Ennfremur, ef ég segi, að hægt sé að skipta á tunnu hveitis gegn ákveðnu magni af járni, að gildi hveititunnu komi fram í ákveðnu magni járns, þá segi ég þar með, að gildi hveitisins og jafnvirðis þess í járni sé jafnt *einhverju því þriðja,* sem hvorki er hveiti né járn, þar sem ég geri ráð fyrir að þessi gildi tákni sömu stærð í tveim ólíkum myndum. Hvoru sem er af

þessu tvennu, hveitinu eða járninu, hlýtur því að vera hægt að breyta, óháð hinu, í þetta þriðja, sem er sameiginlegur mælikvarði þeirra beggja.

Til að varpa ljósi á þetta atriði ætla ég að setja hér fram mjög einfalt flatarmálsdæmi. Ef við eigum að bera saman þríhyrninga af öllum mögulegum gerðum og stærðum eða bera saman þríhyrninga og rétthyrninga eða hverja aðra mynd með beinum hliðum, hvernig förum við þá að? Við táknum flatarmál hvers þríhyrnings með hætti, sem er gjörólíkur hinni sýnilegu mynd hans. Eftir að hafa komizt að því af eðli þríhyrningsins, að flatarmál hans er helmingurinn af útkomunni þegar grunnlína hans er margfölduð með hæðinni, þá getum við borið saman gildi allra tegunda þríhyrninga og allra mynda með beinar hliðar, því að hægt er að leysa þær allar upp í ákveðna tölu þríhyrninga.

Sömu vinnubrögð verður að nota við gildi varanna. Við verðum að geta breytt þeim í hugtak, sem er þeim sameiginlegt og munur þeirra felst þá í því einu, í hvaða hlutfalli þær innihalda þennan sameiginlega mælikvarða.

Þar sem *skiptagildi varanna* er einungis fólgið í *félagslegu hlutverki* þessara hluta, en er alls óviðkomandi *náttúrulegum* eiginleikum þeirra, þá verðum við að byrja á því að spyrja: Hver er hinn sameiginlegi *félagslegi* frumkjarni allra vara? Það er *vinnan.* Til þess að framleiða vöru verður að verja til hennar eða binda í henni ákveðið magn vinnu og ég segi ekki aðeins *vinnu,* heldur *félagslegrar vinnu.* Maður sem framleiðir hlut til beinna eigin nota, til neyzlu handa sjálfum sér, framleiðir *afurð* en ekki *vöru.* Sem sjálfum sér nægur framleiðandi getur hann látið sér samfélagið óviðkomandi. En til þess að framleiða vöru, verður maðurinn ekki aðeins að framleiða hlut, sem bætir úr félagslegri þörf, heldur verður sjálf vinna hans að vera hluti af því heildarmagni vinnu, sem samfélagið leysir af hendi. Hún verður að vera háð *verkaskiptingu innan samfélagsins.* Hún er ekkert án annarra greina þessarar heildarvinnu og hennar er á hinn bóginn þörf til að *fullkomna* hana.

Þegar við lítum á *vörurnar sem gildi,* þá er það einvörðungu frá því sjónarmiði, að líta á þær sem *tilorðna, bundna,* eða ef ykkur líkar betur, *kristallaða félagslega vinnu.* Í þessu tilliti *sundurgreinast* þær eingöngu eftir því, hve mikið eða lítið af vinnu er í þeim fólgið eins og því t. d. að það er varið meira magni af vinnu í silkivasaklút en í tígulstein. En hvernig á þá að mæla *magn vinnu?* Með *tímanum, sem vinnan stendur yfir,* með því að mæla vinnuna í klukkustundum, dögum o. s. frv. Til þess að geta notað þennan mælikvarða, verður að sjálfsögðu að breyta

öllum tegundum vinnu í meðaltals- eða einfalda vinnu sem mælieiningu.

Við komumst því að eftirfarandi niðurstöðu: Vara hefur *gildi* af því að hún er *kristöllun félagslegrar vinnu. Stærð* þessa gildis eða *afstætt* gildi vörunnar fer eftir því, hve mikið eða lítið hún hefur í sér fólgið af þessum félagslega kjarna, þ. e. a. s. eftir því hlutfallslega magni vinnu, sem nauðsynleg hefur verið til framleiðslu hennar. *Afstætt gildi vara* ákvarðast þessvegna af því *tiltölulega magni eða samsafni vinnu,* sem *varið hefur verið* til þeirra, *bundið er í þeim. Samsvarandi* magn vara, sem framleitt hefur verið á *sama fjölda vinnustunda* er *jafngilt.* Eða m.ö.o., gildi einnar vöru að tiltölu við gildi annarrar vöru er eins og það magn vinnu, sem bundið er í hinni fyrri, er að tiltölu við magn vinnu, bundið í hinni síðari.

Mig grunar að mörg ykkar muni nú spyrja: Er þá í raun og veru svo mikill eða jafnvel nokkur munur á því, að ákveða gildi vöru eftir *vinnulaununum* eða að ákveða það eftir því *tiltölulega magni vinnu,* sem nauðsynleg er til framleiðslu hennar? Þið verðið nú samt að gera ykkur ljóst, að *greiðsla* fyrir vinnu og *magn* vinnu er tvennt ólíkt. Gerum ráð fyrir t. d. að *jafn mikið magn vinnu* sé bundið í einni tunnu hveitis og einni únsu af gulli. – Ég gríp til þessa dæmis vegna þess að Benjamín Franklín notaði það í fyrstu ritgerð sinni, sem kom út 1729 undir fyrirsögninni: *„Lítilsháttar athugun á eðli og nauðsyn pappírspeninga“* þar sem hann, meðal þeirra fyrstu, rataði á hið sanna eðli gildis. Jæja, gerum ráð fyrir, að ein tunna hveitis og ein únsa gulls hafi *sama* gildi, séu *jafngildi,* þar sem í þeim felist *jafnt magn meðaltalsvinnu,* svo eða svo margra daga eða vikna vinna sé bundin í þeim. Þegar við þannig ákveðum afstætt gildi hveitis og gulls, höfum við þá einhverja hliðsjón af *launum* landbúnaðarverkamanna og gullgrafara? Ekki hina minnstu. Við látum okkur það *einu gilda,* hvernig dag- eða viku-vinna þeirra var borguð, eða hvort þar var yfirleitt um launavinnu að ræða eða ekki. Ef svo var, þá getur verið að laun þeirra hafi verið mjög misjöfn. Það getur verið, að verkamaðurinn, sem lagði vinnu sína í tunnu hveitis, hafi aðeins fengið tvær skeppur í sinn hlut, en verkamaðurinn í gullnámunni hafi fengið hálfa únsu. Eða ef við gerum ráð fyrir að laun þeirra hafi verið jöfn, þá geta þau í öllum mögulegum hlutföllum verið frábrugðin gildi þeirra vara, sem þeir framleiddu. Þau geta verið helmingur, þriðjungur, fjórði eða fimmti hluti eða hvaða brot sem vera skal úr einni tunnu hveitis eða einni únsu gulls. Að sjálfsögðu geta *laun* þeirra ekki *farið yfir,* verið hærri en gildi hinnar framleiddu vöru, en þau geta verið hvað sem er þar *fyrir neðan. Laun þeirra takmarkast*

af *gildi* framleiðslunnar, en gildi framleiðslu þeirra takmarkast ekki af laununum. Og umfram allt, gildið, hið afstæða gildi korns og gulls, ákvarðast án nokkurrar hliðsjónar af gildi þeirrar vinnu, sem notuð var, þ. e. *laununum.* Það er þessvegna tvennt ólíkt, að ákvarða gildi varanna eftir því *tiltölulega magni vinnu sem er bundið í þeim* eða eftir þeirri vítahrings-aðferð, að ákvarða gildi varanna eftir gildi vinnunnar, þ. e. laununum. Þetta atriði mun samt verða upplýst betur eftir því sem athugun okkar vindur fram.

Þegar reikna skal skiptagildi vöru, þá verður að bæta við það magn vinnu, sem *síðast* var notað, því vinnumagni, sem *áður* hafði verið lagt í hráefnin, einnig því vinnumagni, sem bundið var í tækjum, verkfærum, vélum og byggingum, er nota þurfti til framleiðslunnar. Tökum dæmi. Gildi ákveðins magns baðmullargarns er kristöllun þess vinnumagns, sem bætist í baðmullina við spunann, þess magns vinnu, sem áður hafði verið lagt í baðmullina sjálfa, þess magns, sem lagt hafði verið í kol, olíu og önnur hjálparefni, sem notuð voru, þess vinnumagns, sem bundið var í gufuvél, snældum, verksmiðjuhúsum o. s. frv. Eiginleg framleiðslutæki, svo sem verkfæri, vélbúnaður, byggingar endast í lengri eða skemmri tíma við endurtekið framleiðsluferli. Ef þau eyddust strax eins og hráefnin, þá myndi allt gildi þeirra flytjast strax yfir í vöruna, sem þau væru notuð við að framleiða. En þar sem snælda t. d. slitnar aðeins smátt og smátt, þá er þetta reiknað út sem meðaltal á grundvelli meðalendingar og meðalslits á einhverjum ákveðnum tíma, t. d. einum degi. Á þennan hátt reiknum við út hve mikið af gildi snældunnar flyzt yfir í garnið, sem spunnið er yfir daginn og þessvegna hve mikið af því heildarmagni vinnu, sem bundið er í t. d. einu pundi af garni, stafar af vinnu, sem áður var bundin í snældunni. Það er ekki nauðsynlegt vegna þess, sem við nú ætlumst fyrir, að fara lengra út í þessa sálma.

Þar sem gildi vöru ákvarðast af því *magni vinnu, sem lögð er í framleiðslu hennar,* þá kynni svo að virðast, að því latari og klaufskari, sem maður er, því verðmætari yrði framleiðsla hans, þar sem hann þyrfti þá þeim mun fleiri vinnustundir til að ljúka sínu verki. En það væri samt hrapallegur misskilningur. Þið munuð minnast þess, að ég notaði orðin *„félagsleg vinna"* og það er margt innifalið í þessari skilgreiningu „félagsleg". Þegar sagt er að gildi vöru ákvarðist af því *magni vinnu,* sem er lagt í hana, er kristallað í henni, þá er átt við það *magn vinnu, sem er nauðsynlegt* til framleiðslu hennar í þjóðfélagi á ákveðnu stigi, við ákveðnar félagslegar meðalframleiðsluaðstæður, ákveðinn félagslegan meðalvinnuhraða og meðalhæfni þess vinnuafls, sem not-

að er. Þegar gufuvefstóllinn kom til sögunnar í Englandi og tók að keppa við handvefstólinn, þá þurfti aðeins helming hins fyrri vinnutíma til að breyta ákveðnu magni garns í eina alin af dúk. Hinn fátæki handvefari vann nú sautján eða átján stundir á sólarhring í staðinn fyrir níu eða tíu áður. Þrátt fyrir það fólst í tuttugu stunda afköstum hans aðeins tíu stunda félagsleg vinna eða aðeins tíu félagslega nauðsynlegar vinnustundir til að breyta þessum þræði í ofinn dúk. Tuttugu stunda vinna hans nú var ekki meira virði en fyrri framleiðsla hans á tíu stundum.

Ef því magn hinnar félagslega nauðsynlegu vinnu, sem fólgið er í vörunum, ræður skiptagildi þeirra, þá hlýtur sérhver aukning á því vinnumagni, sem þarf til framleiðslu þeirra, að hækka gildi þeirra, en sérhver minnkun að lækka gildi þeirra.

Ef það magn vinnu, sem nauðsynlegt er til framleiðslu samsvarandi vöru, helzt óbreytt, þá mun gildi hennar einnig haldast óbreytt. En þannig er það ekki í raun. Nauðsynlegt magn vinnu til framleiðslu vara breytist stöðugt í samræmi við þær breytingar, sem verða á framleiðni hinnar notuðu vinnu. Því meiri, sem framleiðni vinnunnar er, því meiri eru afköstin á ákveðnum vinnutíma, og því minni, sem framleiðnin er, því minni eru afköstin á sama tíma. Ef það yrði t. d. nauðsynlegt vegna fólksfjölgunar að taka til ræktunar ófrjórri landssvæði, þá yrði aðeins hægt að ná sama afrakstri með aukinni vinnu og gildi búvöru myndi þannig aukast. Á hinn bóginn, ef með tilkomu nýtízku framleiðslutækja væri hægt að láta eina spunastúlku breyta í garn mörg þúsund sinnum meira af bómull á einum vinnudegi en hún áður gat við sinn spunarokk, þá er augljóst, að hvert einstakt pund af garni sýgur í sig mörg þúsund sinnum minna af vinnu hennar heldur en áður var og þar af leiðandi verður það gildi, sem bætist í hvert pund garns við spunann, mörg þúsund sinnum minna. Gildi garnsins mun falla í samræmi við það.

Auk mismunandi þreks frá náttúrunnar hendi hjá hinum ýmsu þjóðum og misjafnrar áunninnar vinnuhæfni, er framleiðni vinnunnar aðallega komin undir eftirfarandi:

Í fyrsta lagi: Náttúruskilyrðum til framleiðslu, frjósemi jarðarinnar, námuauðæfum og öðru slíku.

Í öðru lagi: Áframhaldandi endurbótum á hinu *félagslega vinnuafli,* svo sem þeim, sem hægt er að ná með framleiðslu í stórum stíl, einbeitingu fjármagns og samhæfingu vinnunnar, verkaskiptingu, vélakosti, endurbættum vinnubrögðum, hagnýtingu ýmissa efna og annarra auðlinda náttúrunnar, sparnaði á tíma og rúmi með bættum samgöngum og flutningatækni og sérhverju öðru, sem fundið er upp og vísindin nota til þess að

þvinga náttúruöflin í þjónustu vinnunnar og því, sem verða má til eflingar hinu félagslega, samvirka eðli hennar. Því meiri sem framleiðni vinnunnar er, því minni vinnu þarf að verja til ákveðins magns framleiðslu, og þar af leiðir minna gildi þessarar framleiðslu. Því minni, sem framleiðnin er, því meiri vinnu þarf að leggja í þetta sama magn framleiðslu og því meira gildi hefur framleiðslan. Við getum þessvegna sett fram eftirfarandi sem almennt lögmál:

*Gildi varanna er í beinu hlutfalli við vinnutímann, sem notaður er við framleiðslu þeirra, en í öfugu hlutfalli við framleiðni vinnunnar, sem notuð er.*

Ég hef hingað til aðeins talað um *gildi*, en ég vil nú bæta við nokkrum orðum um *verðið* sem sérkennilegt gervi, er gildið tekur á sig.

Verðið er í sjálfu sér ekki annað en *gildi í formi peninga.* Gildi allra vara hér á landi t. d. er táknað með verði gulls, en á meginlandinu er það aðallega táknað með verði silfurs. Gildi gulls eða silfurs, eins og allra annarra vara, fer eftir því magni vinnu, sem nauðsynleg er til vinnslu þess. Þið skiptið á ákveðnu magni af þjóðarframleiðslu ykkar, þar sem kristallað er ákveðið magn ykkar félagslegu vinnu og afurðum þeirra þjóða, sem framleiða gull og silfur, þar sem kristallað er ákveðið magn *þeirra* félagslegu vinnu. Það er á þennan hátt, í rauninni með vöruskiptum, sem ykkur lærist að mæla í gulli og silfri gildi allra vara, þ. e. hið samsvarandi magn vinnu, sem lagt hefur verið í þær. Ef við lítum nokkru nánar á *peningaform gildisins* eða það sem er það sama, á *breytingu gildis í verð,* þá sjáum við að það er aðferð til þess að gefa *gildi* allra vara *sjálfstætt* og *samræmt* form eða til að láta þau koma fram sem magneiningar *jafnrar* félagslegrar vinnu. Að svo miklu leyti sem það er aðeins peningaform gildisins, þá er verðið kallað *náttúrlegt verð* hjá Adam Smith en frönsku fysiokratarnir kölluðu það nauðsynlegt verð.

Hvernig er þá afstaðan milli *gildis* og *markaðsverðs* eða milli *náttúrlegs verðs* og *markaðsverðs?* Þið vitið öll, að *markaðsverð* er hið *sama* á öllum vörum sömu tegundar, hversu mjög sem framleiðsluskilyrði geta verið misjöfn hjá hinum einstöku framleiðendum. Í markaðsverðinu kemur fram aðeins *meðalmagn félagslegrar vinnu,* sem nauðsynleg er við meðalframleiðsluaðstæður, til þess að sjá markaðnum fyrir ákveðnu magni af ákveðnum vörum. Það er reiknað á grundvelli heildarmagns vöru af ákveðinni tegund.

Að þessu leyti fer *markaðsverð* vöru saman við *gildi* hennar. Á hinn bóginn eruölduhreyfingar markaðsverðsins, sem stundum

rís yfir, stundum fellur niður fyrir gildið eða náttúrlegt verð, háð sveiflum framboðs og eftirspurnar. Frávik markaðsverðsins frá gildinu eru endalaus, en eins og Adam Smith segir: „Náttúrlega verðið er sá verðkjarni, sú miðlína, sem vöruverðið leitar stöðugt til. Ýms atvik halda því stundum verulega yfir henni eða þrýsta því stundum niður fyrir hana, en þótt hverskonar hindranir komi í veg fyrir að það nemi staðar við þennan miðdepil hvíldar og værðar, þá leitar það stöðugt í átt til hans."

Ég get ekki nú farið lengra út í að ræða einstök atriði þessa máls. Það verður að nægja að benda á, að *ef* framboð og eftirspurn jafna hvort annað, þá samsvarar markaðsverðið hinu náttúrlega verði vörunnar, þ. e. gildi hennar eins og það ákvarðast af því magni vinnu, sem nauðsynleg er til framleiðslu hennar. En framboð og eftirspurn *hljóta* alltaf að leita til samræmis hvort við annað, þótt það gerist raunar aðeins með því að ein sveiflan jafnar aðra upp, ris tekur við af falli og öfugt. Ef þið, í stað þess að horfa aðeins á hinar daglegu sveiflur, rannsakið hreyfingar markaðsverðsins um lengri tíma, eins og Tooke hefur t. d. gert í bók sinni *Sögu verðlagsins*, þá munuð þið sjá, að sveiflur markaðsverðsins, frávikin frá gildinu, hækkanir og lækkanir, vinna hvor gegn annarri, jafna hvor aðra upp, svo að, ef undan eru skilin áhrif einokunar og annarra hafta, sem ég verð nú að hlaupa yfir að ræða, þá eru allar tegundir vöru seldar að meðaltali í samræmi við *gildi* sitt eða náttúrlegt verð. Það meðaltímabil, sem sveiflurnar eru að jafna hvor aðra upp, er mismunandi eftir tegundum, því að ein tegund á auðveldara með að laga framboðið að eftirspurninni en önnur.

Þegar þannig stórt á litið og með hliðsjón af lengri tíma, allar tegundir vara eru seldar í samræmi við gildi sitt, þá er það lokleysa, að gera ráð fyrir að gróði, ekki í einstökum tilvikum, heldur hinn stöðugi, venjulegi gróði í hinum ýmsu iðngreinum, stafi af yfirverði á vörunum eða af því að þær séu seldar yfir *gildi* sínu. Hið fjarstæðukennda í þessari skoðun verður ljóst ef dregnar eru af henni almennar ályktanir. Það sem maður myndi stöðugt græða sem seljandi, myndi hann missa aftur sem kaupandi. Hér gagnar ekki að segja, að það séu til menn, sem séu kaupendur án þess að vera seljendur eða neytendur án þess að vera framleiðendur. Það sem fólk þetta borgar framleiðendunum, verður það þá fyrst að fá frá þeim fyrir ekkert. Ef einhver tekur fyrst af ykkur peninga ykkar og lætur ykkur svo fá þá aftur með því að kaupa vörur ykkar, þá munuð þið aldrei geta auðgast á því að selja vörur ykkar of dýrt þessum sama manni. Slík viðskipti geta orðið til að minnka tap, en þau geta aldrei fært gróða.

Til þess því að útskýra hið *almenna eðli gróðans,* verðum við að byggja á þeirri kennisetningu, að vörur eru að meðaltali *seldar á sínu raunverulega gildi* og að *gróðinn fæst af því að selja þær á sínu gildi,* það er í hlutfalli við það magn vinnu, sem lagt hefur verið í þær. Ef þið getið ekki útskýrt gróðann á þessum grundvelli, þá getið þið alls ekki útskýrt hann. Þetta sýnist vera þverstæða og í mótsögn við hversdagslegar athuganir. Það er líka þverstæða að jörðin hreyfist kringum sólina og að vatnið er gert úr tveim mjög eldfimum lofttegundum. Vísindalegur sannleikur er alltaf þverstæða frá sjónarmiði daglegrar reynslu, því að hún skynjar aðeins sýnd þess sem er.

## VII. Vinnuaflið

Eftir að við höfum nú, eftir því, sem það var hægt í svona stuttaralegri athugun, rannsakað eðli *gildisins, gildis allra vara,* þá verðum við nú að beina athygli okkar að hinu sérstaka *gildi vinnunnar.* Og hér verð ég aftur að vekja undrun ykkar með því sem virðast kann þverstæða. Þið eruð öll alveg viss um, að það sem þið seljið daglega, sé vinna ykkar, að þessvegna vinnan hafi sitt verð og að þar sem verð vöru sé aðeins gildi hennar í formi peninga, þá hljóti vissulega að vera til eitthvað, sem heitir *gildi vinnunnar.* Það er samt sem áður ekki til neitt, sem kallast geti *gildi vinnunnar* í venjulegri merkingu þess orðs. Við höfum séð, að gildi vöru felst í því magni nauðsynlegrar vinnu, sem er kristallað í henni. Þegar við nú styðjumst við þessa skilgreiningu á gildi, hvernig eigum við þá að ákveða t. d. gildi tíu stunda vinnudags? Hve mikil vinna felst í þeim degi? Tíu stunda vinna. Ef sagt er, að tíu stunda vinnudagur jafngildi tíu stunda vinnu, eða því magni vinnu, sem felst í honum, þá væri það þrásögn og þar að auki algjörlega merkingarlaus fullyrðing. Að sjálfsögðu, eftir að hafa komizt að raun um hina sönnu, en duldu merkingu í orðunum *„gildi vinnunnar“,* þá munum við geta útskýrt þessa óskynsamlegu og að því er virðist óhæfu notkun hugtaksins gildi, alveg eins og við myndum, eftir að við hefðum öðlast fulla vitneskju um raunverulegan gang himintunglanna, geta útskýrt hreyfingar þeirra, eins og þær virðast að jafnaði eða birtast sem einstakir fyrirburðir.

Það sem verkamaðurinn selur, er ekki beinlínis *vinna* hans, heldur *vinnuafl,* hann ljær kapítalistanum tímabundin yfirráð yfir því. Þetta er staðreynd í það ríkum mæli, að í lögum, ég veit ekki hvort það er hér í Englandi, en a. m. k. hjá mörgum meginlandsþjóðum, er ákveðinn *hámarkstími* sem manni er

leyfilegt að selja vinnuafl sitt á. Ef það væri leyfilegt í ótakmarkaðan tíma, þá væri þar með þrælahald endurreist. Slík sala, sem næði t. d. yfir alla ævina, mundi þar með gera hann að lífstíðarþræli vinnuveitandans.

Einn af elztu hagfræðingum og frumlegustu heimspekingum Englands Thomas Hobbes, hefur í bók sinni *„Leviathan“*, af eðlisávísun ratað á þetta atriði, sem öllum eftirmönnum hans hefur sézt yfir. Hann segir: *„Gildi mannsins eða virði* er, eins og allra annarra hluta, *verð* hans: það er hve mikið greitt myndi vera fyrir *afnot orku hans“*.

Á þessum grundvelli munum við geta ákveðið *gildi vinnunnar* eins og allra annarra vara.

En áður skulum við leggja fyrir okkur spurningu: Hvernig er til komið það furðulega ástand, að á markaðnum skuli vera hópur kaupenda, sem eiga jörð, vélar, hráefni og lífsnauðsynjar, sem allt er, að undanteknu ósnortnu landi, *afurðir vinnu* og á hinn bóginn hópur seljenda, sem ekkert eiga til að selja annað en vinnuafl sitt, vinnuhendur og hugarorku? Og að annar kaupi endalaust til þess að græða og auðga sig, en hinn selji endalaust til þess að afla sér lífsframfæris? Rannsókn á þessu ástandi mundi verða rannsókn á því, sem hagfræðingar kalla *„fyrri eða upphaflega upphleðslu auðs“*, en ætti að kallast *„upphaflegt eignarán“*. Við mundum komast að raun um, að þessi svonefnda *upphaflega upphleðsla auðs,* merkir ekkert annað en keðju sögulegra ferla, sem leiddu til *upplausnar hins upphaflega sambands,* sem var milli hins vinnandi manns og vinnutækja hans. En slík rannsókn liggur utan marka þess efnis, sem ég nú ræði um. Eftir að aðskilnaður hins vinnandi manns og atvinnutækja hans var einu sinni orðinn, þá helzt hann og endurnýjast í sífellt auknum mæli, þar til ný bylting, sem tekur til grundvallar framleiðsluafstæðnanna, kollvarpar því og kemur að nýju á hinu upprunalega sambandi í nýju sögulegu formi.

Hvert er þá *gildi vinnuaflsins?*

Eins og á við um alla aðra vöru, þá ákvarðast gildi þess af því magni vinnu, sem nauðsynleg er til framleiðslu þess. Vinnuafl manns er aðeins til í honum sem lifandi einstaklingi. Hann verður að neyta ákveðins magns nauðsynja til að vaxa upp og viðhalda lífi og kröftum. En maðurinn, eins og vélin, slitnar og það verður að koma maður í manns stað. Jafnhliða því magni lífsnauðsynja, sem hann þarf til að viðhalda *eigin* tilveru, þarf hann viðbótarmagn nauðsynja til að ala upp nægilegan hóp barna til að leysa hann af á vinnumarkaðnum og sjá þannig fyrir óslitinni endurnýjun verkalýðsins. Þar að auki þarf hann enn viðbót til þess að þroska vinnuafl sitt og tileinka sér ákveðna vinnu-

hæfni. Vegna okkar verkefnis nægir hér að taka til athugunar *meðal*-vinnu, en hún þarfnast aðeins hverfandi lítils kostnaðar til uppeldis og menntunar. Ég verð þó að grípa tækifærið til að segja það, að eins og framleiðslukostnaður vinnuafls af mismunandi gæðaflokkum er breytilegur, eins er og breytilegt gildi þess vinnuafls, sem notað er í mismunandi iðngreinum. Krafan um *jöfn laun* er því byggð á misskilningi, ógrunduðum óskum, sem aldrei geta hlotið uppfyllingu. Þær eru afkvæmi falskrar og yfirborðslegrar róttækni, sem viðurkennir forsendurnar, en hliðrar sér hjá að draga af þeim ályktanir. Á grundvelli launakerfisins ákveðst gildi vinnuaflsins eins og hverrar annarrar vöru og þar sem ólíkar tegundir vinnuafls hafa ólík gildi, eða útheimta ólíkt magn vinnu til þess að verða til, þá *hljóta* þær að ganga á ólíku verði á vinnumarkaðnum. Krafa um *jafnar eða jafnvel réttlátar greiðslur* á grundvelli launakerfisins er sama eins og að krefjast *frelsis* á grundvelli þrælaskipulagsins. Það sem þið teljið sanngjarnt eða réttlátt kemur ekkert málinu við. Spurningin er: Hvað er nauðsynlegt og óhjákvæmilegt á grundvelli ákveðins framleiðsluskipulags?

Í samræmi við það, sem nú hefur verið sagt, er *gildi vinnuaflsins* ákvarðað af *gildi þeirra nauðsynja*, sem útheimtast til framleiðslu, þroskunar, viðhalds og endurnýjunar vinnuaflsins.

## VIII. Framleiðsla gildisauka

Nú skulum við gera ráð fyrir að daglegar lífsnauðsynjar verkamanns útheimti *6 stunda meðalvinnu.* Gerum ennfremur ráð fyrir því, að 6 stunda meðalvinna mæld í gulli jafngildi 3 shillingum. Þá mundu 3 shillingar vera *verð,* eða peningaform hins *daglega gildis vinnuafls* þessa verkamanns. Ef hann vinnur í sex stundir daglega, þá mundi hann framleiða gildi, sem væri nægilegt til að kaupa það meðalmagn lífsnauðsynja, sem með þarf til viðhalds honum sem vinnandi manni.

En nú er þessi maður okkar launaverkamaður. Hann verður því að selja atvinnurekanda vinnuafl sitt. Ef hann selur það á 3 sh. á dag eða 18 sh. á viku, þá selur hann það á gildi sínu. Gerum ráð fyrir að hann sé spunaverkamaður. Ef hann vinnur sex stundir á dag, þá mun hann bæta við gildi baðmullarinnar 3 sh. á dag. Þetta gildi, sem hann daglega bætir við, væri þá nákvæmlega jafnt launum hans eða því verði, sem hann fengi greitt daglega fyrir vinnuafl sitt. En í því tilfelli mundi enginn *gildisauki* eða neins konar aukaframleiðsla ganga til atvinnurekandans. Hér komum við að megin vandanum.

Með því að kaupa vinnuafl verkamannsins og greiða það með gildi sínu hefur atvinnurekandinn, eins og hver annar kaupandi, öðlast rétt til að neyta eða nota hina keyptu vöru. Vinnuafl mannsins er hagnýtt eða þess er „neytt" með því að láta hann vinna, alveg eins og „neyzla" vélarinnar eða hagnýting fer fram með því að láta hana snúast. Með því að borga hið daglega eða vikulega gildi vinnuafls verkamannsins, hefur atvinnurekandinn öðlazt rétt til að nota vinnuaflið eða láta það vinna allan daginn eða alla vikuna. Vinnudagurinn eða vinnuvikan hafa að vísu sín ákveðnu takmörk, en við skulum líta nánar á það síðar.

Sem stendur ætla ég að beina athygli ykkar að einu úrslitaatriði.

*Gildi* vinnuaflsins er ákveðið af því magni vinnu, sem nauðsynleg er því til viðhalds eða endurnýjunar, en *not* vinnuaflsins takmarkast einungis af þreki og líkamlegum burðum verkamannsins. Daglegt eða vikulegt *gildi* vinnuaflsins er allt annað en daglegt eða vikulegt starf þessa vinnuafls, alveg eins og það fóður, sem hesturinn fær er allt annað en sá tími, sem hann getur borið riddarann. Magn þeirrar vinnu, sem ákvarðar *gildi* vinnuafls verkamannsins, ákvarðar enganveginn eða takmarkar það magn vinnu, sem þetta vinnuafl getur leyst af hendi. Tökum spunamanninn okkar sem dæmi. Við höfum séð, að til þess að endurnýja daglega vinnuafl sitt, verður hann að framleiða daglega gildi, sem nemur 3 sh. og það gerir hann með því að vinna í sex klukkustundir á dag. En þetta kemur ekki í veg fyrir að hann sé fær um að vinna tíu eða tólf eða fleiri stundir á dag. En með því að borga dags- eða viku-*gildi* vinnuafls spunamannsins hefur atvinnurekandinn öðlazt rétt til að nota þetta vinnuafl *allan daginn eða alla vikuna.* Hann mun þessvegna láta hann vinna, segjum tólf stundir á dag. *Umfram eða ofan á* þær sex stundir, sem þarf til að bæta atvinnurekandanum upp kaup hans, eða gildi vinnuafls hans, verður hann því að vinna *aðrar sex stundir,* sem ég vil kalla *aukavinnustundir,* en þessi aukavinna skilar sér í *gildisauka* eða *auka-framleiðslu.* Ef spunamaðurinn okkar t. d. bætir 3ja sh. gildi við baðmullina með sex stunda vinnu á dag, gildi, sem samsvarar nákvæmlega kaupi hans, þá mun hann á tólf stundum bæta 6 sh. virði við baðmullina og framleiða *hlutfallslegan viðauka við garnið.* Þar sem hann hefur selt atvinnurekandanum vinnuafl sitt, þá er allt gildi eða allar afurðir, sem hann skapar, eign atvinnurekandans, sem um ákveðinn tíma er eigandi vinnuafls hans. Með því að láta úti 3 sh. mun atvinnurekandinn því fá 6 sh. virði, vegna þess að í staðinn fyrir útilátið gildi, þar sem sex stunda vinna var kristölluð, fær hann aftur gildi, þar sem tólf stunda vinna er kristölluð. Með því að

endurtaka þetta sama ferli daglega lætur atvinnurekandinn úti 3 sh. á dag en stingur í vasa sinn 6 sh., en af því fer helmingurinn til að greiða laun að nýju, en hinn helmingurinn er *gildisauki,* sem hann fær án endurgjalds. Það er á *þesskonar viðskiptum milli auðmagns og vinnu,* sem allt framleiðsluskipulag kapítalismans eða launavinnukerfið er byggt og þau munu stöðugt verða til að endurnýja verkamanninn sem verkamann og kapítalistann sem kapítalista.

*Hlutfall gildisaukans* mun, að öðrum aðstæðum óbreyttum, fara eftir hlutfallinu milli þess hluta vinnudagsins, sem nauðsynlegur er til þess að endurskapa gildi vinnuaflsins og *aukatímans* eða *aukavinnunnar* sem leyst er af hendi fyrir atvinnurekandann. Það fer því eftir því hlutfalli, sem vinnudagurinn er lengdur um framyfir þann tíma, sem verkamaðurinn notar eingöngu til þess að endurskapa gildi vinnuafls síns eða endurgreiða kaup sitt.

## IX. Gildi vinnunnar

Við skulum nú snúa okkur aftur að hugtakinu: *„gildi eða verð vinnunnar".*

Við höfum séð, að þetta er ekki annað en gildi vinnuaflsins, mælt við gildi þeirra vara, sem nauðsynlegar eru því til viðhalds. En þar sem verkamaðurinn fær laun sín greidd *eftir* að vinnan hefur verið af hendi leyst og þar sem hann veit þar að auki, að það sem atvinnurekandinn í rauninni fær er vinna hans, þá hlýtur gildi eða verð vinnuafls hans að birtast honum sem *gildi eða verð vinnunnar sjálfrar.* Ef verð vinnuafls hans er 3 sh. sem innihalda sex stunda vinnu, og ef hann vinnur í tólf stundir þá hlýtur hann að líta á þessa 3 sh. sem gildi eða verð tólf stunda vinnu, þó að þessi tólf stunda vinna hafi sjálf í sér gildi 6 sh. Af þessu leiðir tvennt:

Í fyrsta lagi: *Gildi eða verð vinnuaflsins* tekur á sig mynd *verðs* eða gildis vinnunnar sjálfrar, þó að strangt tekið séu það innantóm orð að tala um verð eða gildi vinnunnar.

Í öðru lagi: Þó að aðeins hluti hinnar daglegu vinnu verkamannsins sé greiddur, en hinn hlutinn óendurgoldinn og þessi ógreiddi hluti, aukavinnan, sé einmitt sú uppspretta, sem myndar *gildisaukann* eða *gróðann,* þá lítur þannig út sem öll vinnan sé greidd vinna.

Þetta falska gervi skilur *launavinnuna* frá öðrum *sögulegum* formum vinnu. Á grundvelli launakerfisins sýnist jafnvel *ógreidd* vinnan vera *greidd* vinna. Hvað þrælana snertir, þá virtist jafnvel sá hluti vinnu þeirra, sem var greiddur, vera ógreidd

vinna. Því að sjálfsögðu verður þrællinn að lifa til þess að geta unnið og hluti vinnudags hans verður því að ganga til þess að endurskapa það gildi, sem viðhald hans útheimti. En þar sem engin verzlun á sér stað milli þræls og þrælaeiganda og engin kaup eða sala fer fram milli þeirra, þá virðist vinna hans látin af hendi fyrir ekkert.

Lítum á hinn bóginn á hinn ánauðuga bónda eins og tilveru hans var háttað, ef svo mætti segja, fram til dagsins í gær í allri Austur-Evrópu. Þessi bóndi vann t. d. þrjá daga fyrir sjálfan sig á sinni spildu eða þeirri spildu, sem honum hafði verið úthlutað, en hina þrjá dagana innti hann af hendi skylduvinnu án greiðslu á búgarði landsdrottins síns. Hér var því hinn greiddi og ógreiddi hluti vinnunnar aðgreindur, greindur að í tíma og rúmi og okkar frjálslyndu helltu úr skálum siðferðilegrar vandlætingar yfir þeirri óheyrilegu hugmynd að láta mann vinna fyrir ekki neitt.

En í raun og veru kemur það í sama stað niður, hvort maður vinnur þrjá daga í viku fyrir sjálfan sig á sínum eigin akri og þrjá daga fyrir ekkert á búgarði landsdrottins síns, eða hvort hann vinnur í verksmiðju eða á verkstæði sex stundir á dag fyrir sjálfan sig og sex stundir fyrir atvinnurekandann þótt í síðara tilfellinu sé hinum greiddu og ógreiddu hlutum vinnunnar óaðskiljanlega blandað saman og eðli allra þessara viðskipta grímuklætt með *samningsgerð* og *greiðslu,* sem móttekin er í vikulokin. Hin ógreidda vinna sýnist vera látin af hendi af frjálsum vilja í öðru tilfellinu en af nauðung í hinu. Það er allur munurinn.

Þegar ég nota orðin *„gildi vinnunnar“,* þá er það aðeins sem alþýðlegt orðalag yfir *„gildi vinnuaflsins“.*

## X. Gróði myndast með því að selja vöru á gildi sínu

Gerum ráð fyrir, að ein meðal vinnustund tákni gildi, sem sé jafnt 6 penníum eða að 6 shillingar feli í sér tólf meðal vinnustundir. Gerum ennfremur ráð fyrir að gildi vinnunnar sé 3 sh. eða afurð sex stunda vinnu. Ef svo í hráefnum, vélum o. s. frv., sem notuð eru við framleiðsluna, eru bundnar tuttugu og fjórar meðal vinnustundir, þá myndi gildi vörunnar vera að upphæð 12 sh. Ef verkamaður í þjónustu atvinnurekandans bætir ennfremur tólf vinnustundum við þessi hráefni, vélar o. s. frv., þá myndu þessar tólf vinnustundir fela í sér viðbótargildi að upphæð 6 sh. *Samanlagt gildi framleiðslunnar* mundi þá verða þrjátíu og sex stunda tilorðin vinna og vera jafnvirði 18 sh. En þar sem gildi

vinnunnar eða laun greidd verkamanninum væru aðeins 3 sh. þá hefði atvinnurekandinn ekki greitt neitt andvirði fyrir sex stunda aukavinnu, sem verkamaðurnn leysti af hendi og fólgið var í gildi vörunnar. Með því að selja þessa vöru á gildi sínu fyrir 18 sh. myndi atvinnurekandinn koma í verð þessu gildi að upphæð 3 sh., sem hann hafði ekki greitt neitt mótvirði fyrir. Þessir 3 sh. eru þá sá gildisauki eða gróði, sem hann getur stungið í vasa sinn. Atvinnurekandinn myndi þannig græða 3 sh., ekki með því að selja vöruna á *hærra* verði en gildi hennar, heldur með því að selja hana *á hinu raunverulega gildi.*

Gildi vöru ákvarðast af *samanlögðu magni vinnu,* sem hún felur í sér. En hluti þessa vinnumagns liggur í gildi, sem mótvirði hefur verið greitt fyrir í formi launa, en hinn hlutinn í gildi, sem *ekkert* mótvirði hefur verið greitt fyrir. Hluti þeirrar vinnu, sem fólginn er í vörunni, er *greidd* vinna, en hitt er *ógreidd* vinna. Með því þess vegna að selja vöruna á gildi sínu, þ. e. sem kristöllun þess *samanlagða vinnumagns,* sem lagt hafði verið í hana, hlýtur atvinnurekandinn óhjákvæmilega að selja hana með gróða. Hann selur ekki aðeins það, sem hann hafði greitt mótvirði fyrir, heldur einnig það, sem ekki hafði kostað hann neitt, þótt það hefði kostað verkamann hans vinnu. Það sem vara hefur kostað atvinnurekandann og það sem hún raunverulega kostar er tvennt ólíkt. Ég endurtek því, hinn venjulegi meðalgróði er ekki fenginn með því, að selja vörurnar *fyrir ofan,* heldur *á raunverulegu gildi þeirra.*

## XI. Mismunandi hlutar gildisaukans

*Gildisaukann,* eða þann hluta af heildargildi vörunnar, þar sem *aukavinna verkamanna* eða *óborgaða vinnan* verður að raunveruleika, kalla ég *gróða.* Atvinnurekandinn (employing capitalist) getur ekki stungið þessum gróða óskertum í eigin vasa. Einokun á landi gerir landeigandanum fært að hirða nokkurn hluta *gildisaukans* sem afgjald, hvort heldur landið er notað til ræktunar, bygginga, undir járnbrautir eða í öðrum framleiðslutilgangi. Á hinn bóginn er það einmitt sú staðreynd, að umráðin yfir atvinnutækjunum gera atvinnurekandanum fært að framleiða *gildisauka* – eða, og kemur í sama stað niður, fært að *eignast ákveðið magn af óborgaðri vinnu* – sem hefur það í för með sér, að eigandi atvinnutækjanna, kapítalistinn sem lánar peninga, krefst handa sér *í vexti* nokkurs hluta gildisaukans, þannig að eftir stendur handa atvinnurekandanum *sem slíkum* aðeins það sem kallað er *iðnaðar- eða verzlunargróði.*

Eftir hvaða lögmálum heildarmagni gildisaukans er deilt á milli þessara þriggja hópa manna, er viðfangsefni óskylt þessum umræðum. Af því, sem þegar hefur verið sagt, má draga þessar ályktanir:

*Afgjöld, vextir og iðnaðargróði* eru aðeins ólík *nöfn á hinum ýmsu hlutum gildisauka vörunnar,* eða *óborguðu vinnunnar sem í honum felst. Þar eiga þau öll jafnt sína uppsprettu, og aðeins þar.* Þau eru ekki ávöxtur af sjálfu *landinu* né *auðmagni* sem slíku, en land og auðmagn gerir eigendum þess fært að hirða hluta af gildisaukanum, sem atvinnurekandinn kreistir út úr verkamönnum. Það er aukaatriði fyrir verkamanninn hvort þessi gildisauki, sem er ávöxtur af aukavinnu hans eða óborguðu vinnunni, gengur allur í vasa atvinnurekandans eða hvort atvinnurekandinn er tilneyddur að gjalda þriðja aðilanum hluta hans sem afgjöld eða vexti. Gerum ráð fyrir að atvinnurekandinn eigi sjálfur höfuðstólinn og landið, sem hann nytjar, þá rennur allur gildisaukinn í hans vasa.

Það er atvinnurekandinn, sem milliliðalaust pínir gildisaukann út úr verkamönnum, hve miklum hluta sem hann að lokum fær sjálfur haldið. Á þessum afstæðum milli atvinnurekenda og launaverkamanna byggist allt launaskipulagið og núverandi framleiðslukerfi í heild. Nokkrir borgarar, sem tóku þátt í þessum umræðum, gerðu þá skyssu að reyna að gera lítið úr þessu og ræddu grunnafstæðurnar milli atvinnurekenda og verkamanna sem aukaatriði, enda þótt þeir hefðu rétt fyrir sér, er þeir fullyrtu, að verðhækkanir við ákveðin skilyrði gætu komið ójafnt við atvinnurekendur og peningalánara – og skattheimtuna, ef ykkur sýnist svo.

Annað leiðir einnig af því, sem nú hefur sagt verið.

Sá hluti vörugildisins, sem eingöngu svarar til gildis hráefna, véla, í stuttu máli, gildi notaðra framleiðslugagna, myndar alls *engar tekjur,* en kemur aðeins í stað *eydds höfuðstóls.* En að þessu undanskildu er það rangt, að hinn hluti vörugildisins, sem *gefur tekjur,* eða hægt er að eyða í laun, gróða, afgjald, vexti, sé samsettur úr gildi launa, gildi vaxta, gildi gróða o. s. frv. Leiðum um sinn launin hjá okkur og ræðum einvörðungu iðnaðargróða, vexti og afgjöld. Við höfum einmitt veitt því athygli, að *gildisaukinn,* sem felst í vörunni eða þeim hluta af gildi hennar, sem svarar til *óborgaðrar vinnu,* leysist upp í mismunandi einingar með ólíkum nöfnum. En það væri ranghverfa sannleikans að halda því fram, að gildi hans sé *samsett af* eða *myndist við* samlagningu *sjálfstæðra gilda þessara þriggja frumparta.*

Ef ein vinnustund svarar til 6 pence verðmætis, ef vinnudagur verkamannsins er 12 klst., ef helmingur vinnutímans er óborg-

uð vinna, þá bætir aukavinnan við gildi vörunnar *gildisauka* að upphæð 3 sh., þ. e. a. s. verðmæti sem ekkert jafnvirði hefur komið á móti. Þessi þriggja shillinga gildisauki myndar þann *sjóð allan,* sem atvinnurekandinn getur deilt með landeigandanum og peningakapítalistanum í hvaða hlutföllum sem er. Þessir þrír shillingar eru hámark þess gildis, er þeir geta skipt sín í milli. En það er ekki atvinnurekandinn, sem bætir við gildi vörunnar verðmæti að geðþótta til að fá gróða, og landeigandinn síðan öðru verðmæti o. s. frv., þannig að þessi sjálfákveðnu verðmæti samanlögð myndi heildarupphæð gildisins. Þið sjáið því hversu villandi sú almenna hugmynd er, sem hefur hausavíxl á *deilingu gefins gildis* í þrjá hluta og *myndun* sama gildis með því að leggja saman þrjú *óháð* gildi; og breytir þannig heildargildinu, sem afgjöld, gróði og vextir eru sprottnir úr, í stærð ákveðna af handahófi.

Ef heildargróði kapítalistans nemur 100 pundum, þá köllum við þessa upphæð, skoðaða sem altæka stærð, *gróðaupphæð.* En ef við reiknum út hlutfall þessara 100 punda af útlögðu fjármagni, þá köllum við þá *tiltölulegu* stærð *gróðahlutfall.* Það er augljóst að hægt er að tjá þetta gróðahlutfall á tvennan hátt.

Gerum ráð fyrir að *útborgað fé til launa* sé 100 pund. Ef gildisaukinn sem myndast er einnig 100 pund – og það mundi þýða, að hálfur vinnudagur verkamannsins sé óborguð vinna – og við berum þennan gróða saman við gildi þess fjármagns, sem varið er til launa, þá segjum við að gróðahlutfallið nemi 100%, af því að framlagt verðmæti nemur 100 og verðmætið sem fæst aftur 200.

Ef við á hinn bóginn tökum ekki tillit til þess *fjármagns,* sem *greitt er í laun,* heldur *heildarfjárfestingarinnar,* segjum t. d. að hún sé 500 pund og 400 pund svari til þess gildis, sem fer í hráefni, vélar o. s. frv., þá segjum við að *gróðahlutfallið* nemi aðeins 20%, af því að 100 punda gróði er aðeins fimmti hluti af *allri* fjárfestingunni.

Fyrri aðferðin til að tjá gróðahlutfallið er sú eina, sem sýnir ykkur afstöðuna milli endurgoldinnar og óendurgoldinnar vinnu,, hið raunverulega stig *arðránsins.* Hin aðferðin er sú algenga, og hún er vissulega raunhæf í ákveðnum tilgangi. Að minnsta kosti er hún mjög gagnleg til að fela, í hve miklum mæli kapítalistinn hefur ókeypis vinnu út úr verkamanninum.

Í máli mínu hér á eftir mun ég nota orðið *gróði* um allan gildisaukann, sem kapítalistinn sölsar undir sig, án tillits til þess hvernig hann skiptist milli hinna ýmsu aðila; og þegar ég nota orðið *gróðahlutfall* miða ég ávallt gróðann við verðmæti fjárfestingarinnar í launagreiðslum.

## XII. Almennt afstæði milli gróða, launa og verðs

Ef dregið er frá gildi vörunnar það gildi, sem svarar til notaðs hráefnis og annarra framleiðslugagna, þ. e. a. s. það gildi, sem fólgið er í *áður* unninni vinnu, þá stenzt það gildi, sem eftir er, á við það magn vinnu, sem aukið var við af verkamanninum, sem vann *síðastur* við framleiðslu vörunnar. Vinni þessi verkamaður í 12 stundir á dag, og tólf stunda vinna til jafnaðar kristallist í gullmagni, er samsvarar sex shillingum, þá er þetta sex shillinga viðbótargildi *eina* gildið, sem hans vinna hefur skapað. Þetta gildi ákveðst af vinnutíma hans og er eini gróðinn, sem bæði hann og kapítalistinn verða að sækja í hlut sinn og ágóða, eina verðmætið til skipta milli launa og gróða. Það er augljóst mál, að gildið sjálft getur ekki breytzt af breyttum hlutföllum í skiptunum milli þessara aðila. Ekki breytir það neinu að heldur, þótt í stað eins verkamanns séu settir allir vinnandi íbúar og tólf milljón vinnudagar t. d. í stað eins.

Þar eð kapítalistinn og verkamaðurinn þurfa aðeins að skipta með sér þessu takmarkaða gildi – þ. e. a. s. því gildi, sem kristallast í heildarvinnu verkamannsins – þá fær annar þeim mun meira sem hinn fær minna, og *öfugt*. Þegar gefið er ákveðið magn, vex annar hluti þess að sama skapi og hinn minnkar. Breytist vinnulaunin, breytist gróðinn í gagnstæða átt. Lækki laun, eykst gróði; ef launin hækka, minnkar gróðinn. Fái verkamaðurinn þrjá shillinga – eins og við höfum áður gert ráð fyrir – sem jafnvirði helmings þess gildis, sem hann skapaði, eða allur vinnudagur hans er að hálfu borguð og að hálfu óborguð vinna, þá verður *gróðahlutfallið* 100%, af því að kapítalistinn fær einnig þrjá shillinga. Fái verkamaðurinn aðeins tvo shillinga, eða vinni aðeins þriðjung dagsins fyrir sjálfan sig, fær kapítalistinn fjóra shillinga og gróðahlutfallið verður 200%. Fái verkamaðurinn fjóra shillinga, þá fær kapítalistinn aðeins tvo, og gróðahlutfallið fellur í 50%. En allar þessar breytingar hafa engin áhrif á gildi vörunnar. Almenn kauphækkun mundi því leiða af sér almenna lækkun gróðahlutfallsins, en ekki hafa nein áhrif á gildi vörunnar.

Enda þótt gildi vörunnar, sem hlýtur að ráða markaðsverði hennar, þegar allt kemur til alls, ákvarðist einvörðungu af heildarvinnu, sem í henni felst, en ekki skiptum á þessu magni í borgaða og óborgaða vinnu, leiðir það alls ekki af sér, að gildi einnar vöru eða fleiri, sem framleiddar eru t. d. á 12 stundum, haldist óbreytanlegt. Fjöldi vara eða magn framleitt á gefnum stundafjölda eða af gefnu vinnumagni er háð *framleiðni* notaðs vinnuafls, en ekki *umfangi* eða tímalengd. Á einu stigi framleiðni eru

t. d. á 12 stunda vinnudegi framleidd 12 pund af garni, á lægra stigi aðeins tvö. Ef 12 stunda vinna fær þannig til jafnaðar samsvörun í sex shillinga verðmæti í einu tilviki, þá kosta tólf pund af garni sex shillinga. Í hinu tilvikinu mundu tvö pund af garni kosta sex shillinga. Eitt pund af garni mundi því í öðru tilvikinu kosta sex pence, í hinu þrjá shillinga. Verðmunurinn stafar af mismun á framleiðni notaðrar vinnu. Ein vinnustund kemur til skila í einu pundi af garni, þegar framleiðnin er meiri, en sex vinnustundir þegar hún er minni. Verðið á garnpundinu yrði í öðru tilvikinu aðeins sex pence, jafnvel þótt kaupið væri tiltölulega hátt og gróðahlutfallið lágt. Í hinu tilvikinu yrði það þrír shillingar, enda þótt kaupið væri lágt og gróðahlutfallið hátt. Þannig gerist þetta, af því að verðið á garnpundinu ákveðst af því *heildarvinnumagni, sem í það fer, en ekki hlutföllum skiptanna á heildarstærðinni í borgaða og óborgaða vinnu.* Sú staðreynd, sem ég áður minntist á, að hátt borguð vinna geti framleitt ódýra vöru og lágt borguð dýra vöru, lítur þá ekki lengur út sem þverstæða. Það kveður aðeins á um hið almenna lögmál, að gildi vöru ákveðst af því vinnumagni, sem fer til framleiðslu hennar, og að magn þessarar vinnu er algerlega komið undir framleiðsluafli þess, og breytist því eftir því sem framleiðni vinnunnar tekur breytingum.

## XIII. Hvenær kauphækkunarkröfur eru helzt gerðar og hvenær barizt gegn kauplækkunum

Athugum nú í fullri alvöru við hvaða aðstæður kröfur um kauphækkun eru helzt bornar fram eða spyrnt gegn kauplækkunum.

1. Við höfum komizt að raun um, að *gildi vinnuafls,* eða *gildi vinnu,* eins og það er kallað í daglegu tali, ákvarðast af gildi lífsnauðsynja eða því vinnumagni, sem þarf til að framleiða þær. Ef gildi þeirra lífsnauðsynja, sem verkamaður þarfnast daglega að jafnaði í viðkomandi landi, er sex vinnustundir eða þrír shillingar, mælt í peningum, þá verður hann að vinna sex stundir dag hvern til að framleiða verðmæti að jafngildi daglegum þörfum. Ef vinnudagurinn er 12 stundir, greiðir kapítalistinn honum gildi vinnunnar með þrem shillingum. Þá er hálfur vinnudagurinn óborguð vinna og gróðahlutfallið 100%. En gerum ráð fyrir, að vegna minnkandi framleiðni þurfi meiri vinnu til að framleiða t. d. óbreytt magn af búvörum, og verðið á daglegum lífsnauðsynjum hækki því úr þrem shillingum í fjóra. Í slíku tilviki mundi *gildi vinnunnar* hækka um þriðjung, eða $33^{1}/_{3}$%. Þyrfti þá átta stunda vinnudag til að framleiða jafn-

virði daglegs viðhalds verkamannsins, miðað við sömu lífskjör og áður. Við þetta mundi umframvinnan styttast úr sex stundum í fjórar, og gróðahlutfallið falla úr 100% í 50%. Með kröfu um kauphækkun færi verkamaðurinn aðeins fram á að fá greidda *aukninguna á gildi eigin vinnu,* eins og aðrir vörusalar hækka vöruverð þegar framleiðslukostnaður vörunnar eykst. Hækki launin ekki, eða hækkunin er ónóg til að jafna upp verðhækkunina á lífsnauðsynjum, þá fellur *verðið* á vinnunni niður fyrir *gildi hennar* og lífskjör verkamannsins versna.

Breytingin getur einnig orðið í hina áttina. Aukin vinnuframleiðni getur lækkað verðið á daglegu neyzlumagni úr þrem shillingum í tvo. Þá þarf aðeins fjögra stunda vinnudag í stað sex til að framleiða jafnvirði daglegra lífsnauðsynja. Verkamaðurinn getur keypt fyrir tvo shillinga sama magn nauðsynja og þrjá áður. *Gildi vinnunnar* hefur vissulega rýrnað, en þetta lækkaða gildi samsvarar áfram sama vörumagni. Við þetta hækkar gróðahlutfallið úr þrem shillingum í fjóra, eða úr 100% í 200%. Enda þótt raunveruleg lífskjör verkamannsins haldist óbreytt, hafa *hlutfallslaun* hans lækkað og *þjóðfélagsstaða* hans versnað *að tiltölu* um leið, samanborið við kapítalistann. Reyni verkamaðurinn að hamla gegn þessari hlutfallslegu launarýrnun, þá er það aðeins tilraun til að ná til sín nokkrum hluta af framleiðsluaukningu eigin vinnu, og halda fyrri samfélagsstöðu miðað við kapítalistann. Því var það að enskir verksmiðjueigendur lækkuðu almennt laun um 10% eftir afnám kornlaganna, og gengu þar með opinskátt á bak hátíðlegra loforða, sem þeir gáfu í áróðrinum fyrir afnámi þeirra. Andspyrna verkamanna tafðist í fyrstu, en síðar jöfnuðu þeir launaskerðinguna við aðstæður, sem ég get ekki farið inn á að þessu sinni.

2. *Gildi* lífsnauðsynja, og þar af leiðandi *gildi vinnunnar,* getur haldizt óbreytt, en það geta orðið breytingar á *peningaverði* þess að undangenginni *verðbreytingu á peningum.*

Finnist t. d. auðugar gullnámur er hægt með óbreyttu vinnumagni að framleiða tvær únsur af gulli í stað einnar áður. Um leið lækkar *gildi* gullsins um helming eða 50%. Þar eð *gildi* allra annarra vara mundi tvöfaldast í *peningaverði* við þetta, fer eins með *gildi vinnunnar.* Tólf stunda vinna, áður talin sex shillinga virði, verður nú talin jafnvirði tólf shillinga. Haldist verkalaunin í þrem shillingum, í stað þess að hækka í sex, verður *peningaverð vinnunnar* aðeins jafngildi *helmings vinnugildisins,* og lífskjör verkamannsins versna óhugnanlega. Það sama gerist í meiri eða minni mæli þótt laun hans hækki, ef hækkunin er ekki í réttu hlutfalli við rýrnunina á verðmæti gulls. En takist hlutfallsleg hækkun, þá hefur engin breyting orðið, hvorki í fram-

leiðni vinnuafls né framboði og eftirspurn, né á verðmætum. Ekkert hefur breytzt nema *nafnið* á peningaupphæð þessara verðmæta. Sé því haldið fram, að í þessu tilviki eigi verkamaðurinn ekki að krefjast hlutfallslegrar kauphækkunar, þá þýðir það að hann eigi að sætta sig við nafnvirði kaupsins í stað verðgildis. Öll undanfarin saga sannar okkur, að kapítalistar eru viðbúnir að grípa tækifærið til að pretta verkamenn, þegar verðlækkanir verða á peningum. Fjölmennur hópur hagfræðinga fullyrðir, að vegna nýrra gulllanda, betri hagnýtingar silfurnámanna og aðgangs að ódýrara kvikasilfri, hafi verðmæti góðmálma aftur rýrnað. Þetta ætti að skýra almenna og samstiga baráttu verkalýðs á meginlandinu fyrir hækkun kaupgjalds.

3. Við höfum fram að þessu gert ráð fyrir, að *vinnudagurinn* hafi ákveðin tímatakmörk. Í sjálfu sér eru honum ekki settar fastar skorður. Auðvaldið hefur stöðuga tilhneigingu til að lengja vinnudaginn svo sem verða má, því að óborgaða aukavinnan lengist að sama skapi og um leið vex gróðinn. Eftir því sem auðvaldinu tekst að lengja vinnudaginn, þeim mun stærri hlut sölsar það undir sig af vinnu manna. Á 17. öld og fyrsta þriðjungi þeirrar átjándu var tíu stunda vinnudagur venjulegur í Englandi. Í stríðinu við Jakobína,[1] sem var í rauninni stríð brezka háaðalsins gegn brezku verkalýðsstéttinni, komust atvinnurekendur í gleðivímu og lengdu vinnudaginn úr tíu klst. í tólf, fjórtán og átján stundir. Malthus, sem ekki verður sakaður um óþarfa viðkvæmni, lýsti því yfir í dreifibréfi 1815, eða þar um bil, að verði þannig fram haldið væri öxin reidd að rótum sjálfs lífsmeiðs þjóðarinnar. Nokkrum árum áður en nýuppfundnar vélar voru almennt teknar í notkun, eða um 1765, kom út í Englandi bæklingur: *An Essay on Trade* (Ritgerð um viðskipti). Höfundurinn er óþekktur, en svarinn óvinur verkalýðsstéttarinnar. Hann heldur fram nauðsyn þess að rýmka takmörk vinnudagsins. Í því skyni leggur hann m. a. til, að komið verði á fót *vinnuheimilum,* sem hann segir að eigi að vera „Houses of Terror" („heimili ógna og ofbeldis"). Og hve langan vinnudag telur hann hæfilegan í þessum „Houses of Terror"? *Tólf klukkustundir,* eða nákvæmlega jafn langan vinnudag og atvinnurekendur, hagfræðingar og ráðherrar lýstu yfir árið 1832, að væri ekki aðeins staðreynd heldur og bráðnauðsynleg vinnudagslengd fyrir börn yngri en 12 ára.[2]

Þegar verkamaður selur vinnuafl sitt – og það verður hann

[1] Sameinaðar hernaðaraðgerðir helztu ríkja Evrópu undir forustu Englands gegn Frakklandi á dögum frönsku byltingarinnar. – *Útg.*

[2] Í febrúar og marz 1832 fóru fram umræður í ensku þinginu um lagafrumvarp frá árinu áður um takmörkun vinnudags barna og unglinga í 10 klst. – *Útg.*

að gera í núverandi skipulagi – þá lætur hann atvinnurekandanum í té afnotarétt af þessu afli, en innan vissra skynsamlegra marka. Hann selur vinnuaflið í því skyni að halda því við, en ekki til þess að eyðileggja það, og er þá ekki tekið tillit til eðlilegs slits. Þegar hann selur vinnuaflið á dags- eða vikuverði er um leið átt við, að á einum degi eða einni viku verði það ekki fyrir tveggja daga eða tveggja vikna vinnuþrælkun. Tökum dæmi af vél, sem kostar 1 000 pund. Ef hún er uppslitin eftir 10 ár, þá hefur hún árlega bætt 100 pundum við verðmæti þeirra vara, sem hún var notuð við framleiðslu á. Slitni hún upp á fimm árum, þá bætir hún árlega 200 pundum við verðmætið, þ. e. a. s. verðmæti árlegs slits er í öfugu hlutfalli við tímann, sem slitið tekur. Í þessu er verkamaðurinn ólíkur vélinni. Vélin slitnar ekki nákvæmlega í réttu hlutfalli við notkun. Verkamaðurinn aftur á móti slitnar hlutfallslega langtum meir en töluleg aukning vinnunnar gefur til kynna.

Verkamenn inna aðeins af hendi skyldu við sjálfa sig og sinn ættstofn, þegar þeir beita sér fyrir stytting vinnudagsins til fyrri og skynsamlegri tímalengdar, eða – ef þeir fá ekki lögfestan eðlilegan vinnudag – hamla gegn yfirvinnu með því að hækka kaupið, ekki aðeins að tiltölu við tilneydda yfirvinnu, heldur í mun hærra hlutfalli. Með þessu eru þeir eingöngu að setja skorður við grimmdarlegum ágangi auðvaldsins. Mannlegur þroski krefst tíma. Maður án frístunda, sem stritar alla ævina fyrir auðvaldið, nema rétt á meðan hann fullnægir brýnustu líkamsþörfum, sefur, borðar o. s. frv., hann er verr settur en burðarklár. Hann er einber vél til að skapa öðrum auðæfi, niðurbrotinn líkamlega og andlega. Öll saga nútíma iðnaðar sýnir samt, að auðvaldið stefnir að því tillitslaust og miskunnarlaust að þrúga alla verkalýðsstéttina niður á stig hörmulegustu niðurlægingar, verði ekki brugðið fæti fyrir.

Atvinnurekandinn getur greitt *meira kaup* með því að lengja vinnudaginn og samt rýrt *gildi vinnunnar,* ef hækkunin samsvarar ekki þeirri vinnuaukningu, sem hann hefur út úr verkamanninum og örari hrörnun vinnuaflsins, sem af þessu leiðir. Þetta getur einnig orðið með öðrum hætti. Miðstétta hagskýrsluskrifarar munu t. d. segja ykkur, að meðallaun hafi hækkað hjá fjölskyldum verksmiðjuverkamanna í Lancashire. Þeir gleyma því, að í stað fyrirvinnu fjölskylduföðurins eins er nú konu hans og e. t. v. þremur eða fjórum börnum þeirra varpað fyrir hjólin á Juggernaut vagni[1] auðvaldsins, og heildaraukning launa-

[1] *Juggernaut* – hátíðavagn indverska guðsins Vishnu. Á hátíðum til heiðurs guði þessum vörpuðu ofsatrúarmenn sér fyrir hjól vagnsins og biðu þar bana. – *Útg.*

teknanna er ekki í neinu samræmi við aukninguna á þeirri heildarvinnu, sem fjölskyldan neyðist til að láta í té.

Enda þótt lengd vinnudagsins sé takmörkuð, eins og nú er í öllum þeim greinum, sem falla undir verksmiðjulöggjöfina, geta kauphækkanir verið nauðsynlegar, þó ekki sé nema til að halda *gildi vinnunnar* óbreyttu. Með meiri gernýtingu vinnunnar er hægt að láta menn eyða jafnmikilli lífsorku á einni klukkustund og tveimur áður. Þetta hefur verið framkvæmt að vissu marki í þeim atvinnugreinum, sem falla undir verksmiðjulögin – gangi véla hefur verið flýtt og þeim vélum fjölgað, sem einn maður stjórnar. Ef aukning vinnuhraðans eða þess vinnumagns, sem látið er í té á klukkustund, helzt í hendur við stytting vinnudagsins, þá hefur verkamaðurinn ávinninginn. Ef farið er yfir þessi mörk, tapar hann annars vegar því, sem hann græðir hins vegar, og 10 vinnustundir verða jafn skaðlegar og 12 áður. Með því að spyrna gegn þessum tilraunum auðvaldsins og berjast fyrir kauphækkunum í hlutfalli við aukinn vinnuhraða, er verkamaðurinn aðeins að rísa gegn verðrýrnun á eigin vinnu og hnignun ættstofnsins.

4. Þið vitið öll, að kapítalísk framleiðsla hrærist í vissum tímaskeiðsbundnum endurtekningum, af ástæðum sem ég þarf ekki að skýra hér. Hún gengur í gegnum tímabil jafnvægis, uppgangstíma, blómaskeiðs, offramleiðslu, kreppu og kyrrstöðu. Markaðsverð og gróðahlutfall fylgist með í þessum sveiflum, fer ýmist niður fyrir meðallag eða upp fyrir. Með því að virða alla hringrásina fyrir sér verður ljóst, að eitt frávik frá markaðsverði jafnast upp af öðru og að markaðsverð vörunnar ákvarðast af gildi hennar, miðað við meðallagið í hringrásinni. Ágætt! Á tíma fallandi markaðsverðs og kreppu og kyrrstöðu getur verkamaðurinn örugglega átt von á kauplækkun, ef ekki atvinnumissi. Til þess að verða ekki hlunnfarinn verður hann jafnvel að takast á við atvinnurekendur um það, að hve miklu leyti kauplækkun er brýn nauðsyn. Hafi hann ekki barizt fyrir kauphækkunum á velgengistímunum, sem gáfu aukagróða, þá mun hann á jafnvægisskeiðinu eða á meðaltímum, jafnvel ekki ná *miðlungslaunum* eða *gildi* vinnunnar. Ef kaup hans lýtur áhrifum frá krepputímum hringrásarinnar, væri það hámarks vitfirring að hann útilokaði sig frá samsvarandi jöfnun á uppgangstímum hennar. Venjulega ákvarðast *gildi* allrar vöru aðeins við jöfnun síbreytilegs markaðsverðs, sem á upptök sín í sveiflum eftirspurnar og framboðs. Í núverandi þjóðskipulagi er vinnan aðeins vara, eins og hver önnur vara. Hún verður því að ganga í gegnum sömu sveiflur til að öðlast meðalverð, sem svarar til gildis hennar. Það væri kjánalegt að telja hana annars vegar vöru, en á hinn bóg-

inn að ætla sér að setja hana utan þeirra lögmála, sem ákvarða vöruverðið. Þrællinn fær að staðaldri ákveðið magn til framfæris sér, launaverkamaðurinn ekki. Hann þarf að fá kauphækkun í einu tilviki, enda þótt það sé aðeins til að jafna upp lækkun í öðru. Beygi hann sig undir vilja og fyrirmæli auðvaldsins sem eilíf efnahagslögmál, gengst hann þar með undir sömu örbirgð og þrællinn, án þess að njóta sama öryggis.

5. Í öllum þeim tilvikum, sem ég hef nefnt hér – og þannig er þetta 99 sinnum af 100 – er auðséð að baráttan fyrir kauphækkunum siglir aðeins í kjölfar *undangenginna* breytinga, er óhjákvæmileg afleiðing af undangengnum breytingum á framleiðslumagni, framleiðni vinnunnar, gildi vinnunnar, gildi peninga, gernýtingu vinnuaflsins, sveiflum á markaðsverði, sem stafar af sveiflum í eftirspurn og framboði og fer eftir mismunandi tímaskeiðum iðnaðarhringrásarinnar. Í stuttu máli: Þessi barátta er viðbrögð verkamanna gegn undangengnum aðgerðum auðvaldsins. Ef við ræðum launabaráttuna án tillits til þessara aðstæðna allra, horfum eingöngu á kaupbreytingarnar, en lítum ekki við öllum öðrum breytingum, sem þær eru sprottnar af, þá byggjum við á sökkum forsendum og hljótum að komast að röngum niðurstöðum.

## XIV. Baráttan milli auðmagns og vinnu og afleiðing hennar

1. Eftir að hafa sýnt fram á, að tímabundin andstaða verkamanna gegn kauplækkunum og tímabundnar tilraunir þeirra til að fá fram kauphækkanir eru órjúfanlega tengdar launaskipulaginu og eru fram knúnar af þeirri staðreynd, að vinnan er samholdguð vörunni og þess vegna undirorpin þeim lögmálum, sem ákvarða almennar hræringar verðsins; eftir að hafa ennfremur sýnt fram á, að venjuleg kauphækkun hafi í för með sér lækkun á almennu gróðahlutfalli, án þess að hafa áhrif á meðalverð vörunnar, þá vaknar óhjákvæmilega sú spurning, að hve miklu leyti vinnan er líklegur sigurvegari í þessum linnulausu átökum milli auðmagns og vinnu.

Ég gæti svarað þessu almennt og sagt, að *markaðsverð* vinnunnar – eins og á öllum vörum öðrum – muni þegar til lengdar lætur samsama sig *vinnugildinu;* verkamaðurinn muni því aðeins fá til jafnaðar verðmæti eigin vinnu, þrátt fyrir hækkanir og lækkanir og allt, sem hann sjálfur aðhefst. Þetta þýðir það sama og að hann fái gildi vinnuaflsins, en það ákvarðast af verðmæti þeirra lífsgagna, sem því eru nauðsynleg til viðhalds

og endurnýjunar. Verðmæti lífsgagnanna ákvarðast svo að lokum af magni þeirrar vinnu, sem þarf til að framleiða þau.

En það eru nokkur sératriði, sem greina *gildi vinnuafls* eða *gildi vinnu* frá gildi allra annarra vara. Gildi vinnuaflsins myndast af tveimur frumatriðum – annað er eingöngu líffræðilegt, hitt sögulegt eða samfélagslegt. *Líffræðilega* frumatriðið ákveður *endanlegu mörkin;* þ. e. a. s. til viðhalds og endurnýjunar, endurframleiðslu á eigin lífi, verður verkalýðsstéttin að fá brýnustu nauðsynjar til að lifa og tímgast. Verðmæti þessara albrýnustu lífsnauðsynja er því lágmarks *verðmæti vinnunnar.* Á hinn bóginn er lengd vinnudagsins einnig endanleg takmörk sett, enda þótt þau séu teygjanleg. Líkamskraftar verkamannsins setja þar yztu mörkin. Ef dagleg eyðsla lífsorkunnar fer fram yfir ákveðið stig, þá getur hann ekki innt af hendi störf sín að nýju dag eftir dag. En, eins og ég sagði, þessi mörk eru teygjanleg. Heilsuveilir og skammlífir ættliðir, sem taka ört við hver af öðrum, byrgja upp vinnumarkaðinn engu síður en hraustir og langlífir.

Auk þessa beinlínis líffræðilega frumatriðis, ákvarðast gildi vinnunnar af *hefðbundnum lífsvenjum* í viðkomandi landi. Þær eru ekki einungis líffræðilegar. Þær eru fullnæging ákveðinna þarfa, sem sprottnar eru af samfélagsaðstæðum og fólk er undirorpið og bundið við. Það er hægt að rýra lífskjör í Englandi í það sama og þau eru í Írlandi, þýzkra bænda í sama og lívlenzkra.[1] Í riti hr. Thorntons *Offjölgun* (Over-population) getur að lesa um það veigamikla hlutverk, sem sögulegar erfðir og samfélgashefð gegnir í þessum sökum. Þar sýnir hann fram á, að meðallaun í mörgum landbúnaðarhéruðum Englands eru mishá enn á okkar dögum, eftir því hvort þau losnuðu undan landbúnaðaránauðinni við hagstæðari eða óhagstæðari skilyrði.

Þetta sögulega eða þjóðfélagslega frumatriði, sem orkar á gildi vinnunnar, getur aukizt eða minnkað að áhrifum eða alveg horfið, svo að ekki verða eftir nema *líffræðilegu mörkin.* Gamla skattasugan og bitlingahítin, George Rose, sagði, að styrjöldinni gegn Jakobínum hafi verið hleypt af stokkunum til að bjarga huggunarorðum vorra heilugu trúarbragða undan fjandsamlegri árás trúlausra Frakka. Meðan á styrjöldinni stóð lækkuðu hinir heiðarlegu ensku stórbændur – sem við fórum svo mjúkum höndum um á fyrri umræðufundi – laun landbúnaðarverkamanna, meira að segja niður fyrir *líffræðilega lágmarkið,* og létu fátækrasjóðinn[2] um að greiða það sem á vantaði, svo að ættstofninn liði ekki

[1] Lívland – landsvæði milli Eistlands, Peipuvatns og Dvínu. Þýzkir gósseigendur voru öflugir þar fram yfir fyrri heimsstyrjöld. – *Útg.*

[2] Ensk fátækralöggjöf var frá 16. öld. Í hverri kirkjusókn var lagður á skattur til fátækrasjóðs. Þeir sóknarmenn, sem ekki gátu séð sér og sínum farborða, gátu fengið hjálp úr fátækrasjóðum. – *Útg.*

undir lok. Þetta var hin glæsilega aðferð til að breyta launaverkamanni í þræl og stoltum óðalsbónda Shakespeares í betlara.

Séu borin saman meðallaun eða gildi vinnunnar í ýmsum löndum, eða á mismunandi sögulegum tímaskeiðum í sama landi, munuð þið veita því athygli, að sjálft *gildi vinnunnar* er ekki óbreytanlegt. Það breytist að stærð, jafnvel þótt gert sé ráð fyrir, að allar aðrar vörur hafi ekkert breytzt að verðmæti.

Hliðstæður samanburður mundi sanna, að *markaðshlutfall* gróðans breytist ekki aðeins, heldur og *meðalhlutfallið.*

En hvað gróðanum viðvíkur þá eru engin lögmál um *lágmark* hans. Við getum ekkert fullyrt um endanleg mörk hans. Og hvers vegna getum við ekki sett honum þessi mörk? Vegna þess að við getum ekki ákvarðað *hámarkslaunin,* þótt við séum færir um að ákvarða *lágmarkslaunin.* Við getum aðeins fullyrt, að þegar takmörk vinnudagsins eru fastbundin, þá svarar *hámarksgróðinn* til *líffræðilegs lágmarks launanna;* og þegar vinnulaunin eru gefin, þá svarar *hámarksgróðinn* til þeirrar lengdar vinnudagsins, sem frekast er hægt að bjóða líkamskröftum verkamannsins. Hámark gróðans takmarkast því af líffræðilegu lágmarki vinnulaunanna og líffræðilegu hámarki vinnudagsins. Það er augljóst, að milli þessara tveggja marka fyrir *hámarki hlutfallsgróðans* eru óendanlega mörg þrep af hugsanlegum tilbrigðum. Raunverulegt hlutfall ákveðst aðeins af sífelldum átökum milli auðmagns og vinnu. Kapítalistinn leitast sí og æ við að lækka launin í líffræðilegt lágmark og lengja vinnudaginn í líffræðilegt hámark, en verkamaðurinn togar stöðugt í hina áttina.

Viðfangsefnið snýzt upp í spurninguna um kraftahlutföll þessara stríðandi afla.

2. Hvorki í Englandi, né í öðrum löndum Evrópu, hafa verið settar reglur um *lengd vinnudagsins,* nema fyrir atbeina löggjafans, og hefði þó hvergi orðið, nema fyrir þrýsting frá verkamönnum. Að minnsta kosti hefði þessi árangur ekki náðzt með samningum milli verkamanna og atvinnurekenda. Það er einmitt þessi nauðsyn á *almennri pólitískri* baráttu, sem færir sönnur á, að í hagsmunabaráttunni er auðvaldið alltaf sterkari aðilinn.

Mörkin fyrir *gildi vinnunnar* ákvarðast í raun og veru alltaf af eftirspurn og framboði, og þá á ég við, eftirspurn auðmagnsins eftir vinnu og framboði verkamanna á vinnu. Í nýlenduríkjunum er lögmálið um framboð og eftirspurn hagstætt fyrir verkamenn. Þess vegna eru verkalaun tiltölulega há í Bandaríkjum Ameríku. Þar getur auðmagnið kostað öllu til, en tekst samt ekki að hindra að atvinnumarkaðurinn tæmist æ ofan í æ, vegna þess að launaverkamenn gerast sjálfstæðir og sjálfbjarga

bændur. Fjöldi Ameríkana lítur aðeins á daglaunavinnu sem bráðabirgðaþrep, er þeir geti örugglega yfirgefið innan lengri eða skemmri tíma.[1] Til þess að ráða bót á þessu ástandi í nýlendunum, hefur hin föðurlega brezka ríkisstjórn um nokkurt skeið játazt svokallaðri nútíma nýlendukenningu, sem er í því fólgin, að sett er hátt tilbúið verð á jarðir í nýlendunum í þeim tilgangi að girða fyrir alltof skjóta breytingu daglaunamanna í sjálfstæða bændur.

Snúum okkur þá að gömlu menningarríkjunum, þar sem auðmagnið drottnar yfir öllu ferli framleiðslunnar. Tökum sem dæmi kauphækkanir í landbúnaðinum í Englandi frá 1849 til 1859. Hverjar voru afleiðingar þeirra? Stórbændur gátu ekki hækkað verðmæti hveitisins, svo sem Weston vinur okkar hefði ráðið þeim til, ekki einu sinni markaðsverðið. Þeir urðu þvert á móti að sætta sig við að það lækkaði. En á þessum 11 árum tóku þeir í notkun allskonar vélar, nýjar vísindalegar aðferðir, breyttu nokkru af akurlendi í beitilönd, stækkuðu búin og juku jafnframt framleiðslumagnið. Með þessu og fleiri ráðum drógu þeir úr þörfinni fyrir vinnuafl með því að auka framleiðnina og gerðu landbúnaðarverkalýð tiltölulega óþarfan. Á þennan hátt eru viðbrögð auðmagnsins yfirleitt – hraðari eða hægari – gegn kauphækkunum í gömlu jarðræktarlöndunum. Ricardo hefur réttilega bent á, að vélar eru alltaf í samkeppni við vinnuna, og iðulega er því aðeins hægt að taka þær í notkun, að verð vinnunnar hafi hækkað að vissu marki; en vélanotkun er aðeins ein af mörgum aðferðum til að auka framleiðni vinnunnar. Nákvæmlega sama þróun og gerir almenna vinnu tiltölulega óþarfa, gerir fagvinnuna á hinn bóginn einfaldari og rýrir þannig gildi hennar.

Sama lögmál kemur í ljós í annarri mynd. Með aukinni framleiðni vinnunnar hleðst auðmagnið hraðar upp, jafnvel þrátt fyrir tiltölulega háar kaupgreiðslur. Af þessu mætti draga þá ályktun, eins og Adam Smith gerði á bernskuskeiði nútíma iðnaðar, að hraðari upphleðsla auðmagns ætti að þyngja vogarskálina verkamanninum í vil, með því að tryggja vaxandi eftirspurn eftir vinnu. Af sömu ástæðum hafa margir nútíma rithöfundar undrazt yfir því, að kaupgjald skuli ekki hafa hækkað meir á undanförnum tuttugu árum, er enskt auðmagn hefur vaxið langt-

[1] Í fyrsta bindi „Auðmagnsins", 25. kafla neðanmáls, segir Marx: „Hér er átt við *raunverulegar nýlendur*, ósnortið land, sem frjálsir innflytjendur nema. Frá efnahags sjónarmiði eru Bandaríki Ameríku ennþá nýlenda Evrópu. Auk þess koma í þennan flokk gamalgrónar plantekrur, þar sem afnám þrælahalds hefur algerlega breytt ástandinu." Eftir að jarðir í nýlendunum komust allsstaðar í einkaeign, lokaðist leiðin fyrir daglaunamenn að verða sjálfstæðir framleiðendur. – *Útg.*

um hraðar en fólksfjölgunin. En jafnhliða aukinni upphleðslu auðmagns fer fram *vaxandi breyting á samsetningu auðmagnsins*. Sá hluti samanlagðs kapítals, sem myndar fastan höfuðstól – vélar, hráefni, öll möguleg framleiðslutæki – vex hraðar en hinn hlutinn, sem varið er í laun eða til kaupa á vinnu. Þetta lögmál hefur verið sannað – misjafnlega nákvæmlega – af þeim Barton, Ricardo, Sismondi, prófessor Richard Jones, prófessor Ramsay, Cherbuliez og fleirum. Ef hlutfallið milli þessara tveggja frumhluta kapítalsins var í upphafi einn á móti einum, breytist það í iðnaðarferlinu í fimm á móti einum o. s. frv. Ef samanlögðu kapítali að upphæð 600 er varið þannig, að 300 fara í verkfæri, hráefni o. s. frv., og 300 í launagreiðslur, þá þarf heildarfjármagnið aðeins að tvöfaldast til að skapa eftirspurn eftir 600 verkamönnum í stað 300. Ef kapítali að upphæð 600 er skipt þannig, að 500 er varið til véla, efnis o. s. frv., en aðeins 100 í kaupgreiðslur, þá þarf fjármagnið að vaxa úr 600 í 3600 til að skapa eftirspurn eftir 600 verkamönnum í stað 300. Í iðnaðarþróuninni dregst þess vegna eftirspurnin eftir vinnu aftur úr upphleðslu auðmagnsins. Hún mun að vísu fara vaxandi, en þó alltaf hlutfallslega minnkandi miðað við vöxt auðmagnsins.

Þessar fáu ábendingar ættu að nægja til að sýna fram á, að einmitt þróun nútíma iðnaðar hlýtur æ meir að þyngja vogarskál kapítalistans, en ekki verkamannsins. Þróunarstefna kapítalískrar framleiðslu er þar af leiðandi ekki sú, að hækka meðalvinnulaunin, heldur að lækka þau, þrýsta *gildi vinnunnar* æ nær *lágmarki*. En þótt slík stefna sé samgróin eðli *hlutanna* í þessu kerfi, þýðir það þá, að verkalýðsstéttin eigi að afsala sér baráttunni gegn ofbeldi auðvaldsins, hætta tilraunum til að ná sem beztum árangri, þegar aðstaða býðst til tímabundinna kjarabóta? Geri hún það, verður hún lítillækkaður og auðkennalaus múgur niðurbrotinna aumingja, sem eiga sér ekki frelsis von. Ég þykist hafa sýnt fram á, að barátta verkalýðsins fyrir ákveðnu stigi launa er fyrirbrigði, sem er órjúfanlega tengt launaskipulaginu í heild, og barátta hans fyrir kauphækkunum er í 99 tilvikum af 100 aðeins tilraun til að halda vinnugildinu óbreyttu. Nauðsyn þess að berjast við atvinnurekandann um verðið á vinnunni, er samofið þeirri aðstöðu verkamannsins að þurfa að selja sjálfan sig sem vöru. Ef verkalýðsstéttin lætur hugfallast í daglegri viðureign við auðvaldið, þá gerir hún sig óhæfa til allra meiriháttar átaka.

Samtímis – og alveg án tillits til þeirrar almennu ánauðar, sem launaskipulagið felur í sér – má verkalýðurinn ekki ofmeta þau endanleg takmörk, sem dægurbaráttunni eru sett. Hún má ekki gleyma því, að hún er að berjast gegn áhrifum, en ekki því

sem áhrifunum veldur; að hún er að spyrna gegn hreyfingu niður á við, en breytir ekki stefnunni; að hún notar fróandi lyf, en læknar ekki meinið. Hún má ekki gefa sig alla á vald þessum óhjákvæmilega skæruhernaði, sem sífellt sprettur af þrotlausum yfirgangi auðvaldsins eða sveiflum á markaðinum. Hún verður að gera sér ljóst, að núverandi skipulag með allri þeirri eymd, sem það leggur henni á herðar, elur jafnframt af sér þau *efnalegu skilyrði* og *samfélagsform,* sem eru nauðsynleg til efnalegra umbreytinga á þjóðfélaginu. Í stað afturhaldssama kjörorðsins: *„Heiðarleg daglaun fyrir heiðarlegan vinnudag!"* ber henni að skrá á fána sinn: *„Afnám launaskipulagsins!"*

Eftir þessa löngu og, ég óttast, þreytandi greinargerð, sem ég varð að gera, til að gera efninu nokkurnvegin viðhlítandi skil, ætla ég að ljúka máli mínu með eftirfarandi tillögu að ályktun:

1. Almenn kauphækkun mun valda lækkun á almennu gróðahlutfalli, en ekki hafa áhrif á vöruverðið yfirleitt.

2. Almenn stefna auðvaldsframleiðslunnar er ekki að hækka, heldur að lækka meðalstöðul launanna.

3. Verkalýðsfélögin eru mjög gagnleg sem miðstöðvar fyrir samstöðu gegn yfirgangi auðvaldsins. Að nokkru mistekst þeim vegna óskynsamlegrar beitingar á valdi sínu. Þeim skjátlast almennt í því, að einskorða sig við skæruhernað gegn afleiðingum ríkjandi skipulags, í stað þess að reyna jafnframt að breyta því; í stað þess að beita afli samtakanna sem vogarstöng fyrir endanlegu frelsi verkalýðsstéttarinnar, þ. e. a. s. endanlegu afnámi launaskipulagsins.

*„Laun, verð og gróði"* er fyrirlestur, sem Marx flutti á ensku á tveim fundum í miðráði 1. Alþjóðasambandsins 20. og 27. júní 1865. Ástæðan til þess að Marx flutti fyrirlesturinn er í stuttu máli þessi:

Á fundi ráðsins 4. apríl 1865 bar einn af ráðsmönnum, Englendingurinn John Weston, fram þessar spurningar: „1. Getur kauphækkun yfirleitt bætt félagslegar og efnalegar framtíðarhorfur verkalýðsstéttarinnar? 2. Geta ekki aðgerðir verkalýðsfélaganna til að fá fram kauphækkanir haft skaðleg áhrif á aðrar framleiðslugreinar?" Weston bauðst til að verja neikvætt svar við þeirri fyrri og jákvætt við þeirri síðari.

Á fundum ráðsins 2. og 20. maí gerði Weston grein fyrir sjónarmiðum sínum. Marx lét sér ekki nægja að taka þátt í umræðunum og samdi þennan fyrirlestur. Í bréfi til Engels 24. júní 1865 segir Marx m. a.: „Ég hef flutt fyrirlestur í miðráðinu (líklega um tvær arkir prentaðar) um spurningar hr. Westons ... Fyrri hlutinn er svar við þvættingi Westons, sá síðari fræðileg skilgreining, að svo miklu leyti sem tækifæri gefst. – Nú vilja þeir láta prenta þetta." (Marx/Engels. Briefwechsel III. bindi, Berlín 1950, bls. 327).

Fyrirlesturinn var ekki gefinn út meðan þeir lifðu, en handritið varðveittist og Eleanor dóttir Marx og maður hennar Eduard Aveling gáfu hann út í London árið 1898 undir heitinu „Value, price and profit". Í handriti hafði Marx ekki sett fyrirsagnir yfir fyrstu sex kaflana, þær eru frá hendi Avelings. Síðari útgáfur bera flestar titilinn „Wages, price and profit" og er farið eftir því hér. – *Útg.*

KARL MARX

# Formáli að fyrstu útgáfu fyrsta bindis „Auðmagnsins“

Ritverk það, sem ég nú birti lesendum fyrsta bindi af, er framhald rits míns „Drög að gagnrýni á þjóðhagfræði“, sem út kom árið 1859. Hið langa hlé, sem orðið hefur á framhaldi útgáfunnar, stafar af langvarandi veikindum, sem hömluðu starfi mínu hvað eftir annað.

Fyrsti kapítuli þessa bindis hefur að geyma ágrip af efni eldra ritsins.[1] Þetta var ekki bara gert samhengisins vegna eða til að gera efninu fullnaðarskil. Efnismeðferðin er önnur og betri. Að því leyti, sem efnið gaf nokkurt tilefni til, eru hér rædd frekar ýmis atriði, sem áður var aðeins drepið lauslega á, en á hinn bóginn er hér aðeins minnzt lauslega á flókin atriði, sem þar eru rædd ýtarlega. Eðlilega falla hér niður kaflarnir um *sögu gildis- og peningakenningarinnar.* Engu að síður munu lesendur fyrra ritsins finna útlistanir á nýjum heimildum að sögu þessarar kenningar í athugasemdum við fyrsta kapítula.

Öll byrjun er erfið – það á við öll vísindi. Það mun því reynast erfiðast að skilja fyrsta kapítulann, einkum þann hluta hans, þar sem *skilgreint er eðli vörunnar.* Hvað sérstaklega snertir skilgreiningu gildiskjarnans eða innsta eðli og stærð gildisins, hef ég hagað orðum mínum á eins einfaldan hátt og mér hefur framast verið unnt.[2] Gildisformið, sem birtist fullgert í pening-

[1] Marx á hér við fyrsta kafla fyrstu útgáfunnar (1867) með fyrirsögninni „Vara og peningar“. Í annarri útgáfu gerði hann nokkrar breytingar og skipti þessum kafla í þrjá sjálfstæða. Hefur það haldizt síðan. – *Útg.*

[2] Mér virtist þetta alveg óhjákvæmilegt, ekki sízt þar sem meiri háttar misskilnings gætir jafnvel í andsvari Ferdinands Lassalles til Schulze-Delitsch, en þar er hið yfirlýsta markmið hans að greina frá sjálfu megininntaki skoðana minna um þetta efni. Og í framhaldi af þessu. Ef Lassalle hefur tekið traustataki úr ritum mínum – og það orðrétt – allar fræðikenningar almenns eðlis, sem finnast í því, sem hann hefur skrifað um hagfræði, er sú ráðabreytni hans að líkindum gerð í áróðursskyni. Hann

unum er mjög einfalt og óbrotið, Engu að síður hefur mannsandinn í meira en 2000 ár án árangurs glímt við að brjóta þetta atriði til mergjar. Hinsvegar hefur tekizt að skilgreina a. m. k. að nokkru leyti verðmætisform, sem bæði eru fyllri og flóknari. Hvers vegna? Af því að það er auðveldara að rannsaka þroskaðan líkama en *líkamsfrumu.* Við sundurgreiningu efnahagsþátta kemur hvorki smásjá né kemísk tilraunaefni að notum. Hæfileiki sértækrar hugsunar verður að koma í stað hvors tveggja. En í borgaralegu þjóðfélagi er afrakstur vinnunnar í *vöruformi* eða *gildisform* vörunnar grundvallareining efnahagslífsins, áþekk frumunni. Hinum fáfróða finnst að skilgreining þessarar frumeindar sé tómur *orðaleikur og smásmygli.* Vissulega er hér um *smásmygli* að ræða, en af þeim sama toga og viðgengst í *smáveruliffærafræði.*

Þegar kaflinn um gildisformin er undanskilinn, er ekki hægt að finna þessari bók það til foráttu að hún sé torskilin. Ég höfða að sjálfsögðu til lesenda, sem vilja auka þekkingu sína og hugsa sjálfstætt.

Eðlisfræðingurinn fylgist með þróunarferlum náttúrunnar ýmist þar, sem þær birtast í fullkomnastri mynd og ótrufluðastar af óviðkomandi áhrifum, eða hann gerir tilraunir við skilyrði, sem tryggja ómengað ferli, sé það unnt. Það, sem ég hef tekið mér fyrir hendur að rannsaka í þessu riti, eru *framleiðsluhættir auðvaldsþjóðfélagsins og samsvarandi framleiðslu- og viðskiptaafstæður.* Allt til þessa hefur England verið hið dæmigerða heimkynni þeirra. Það er ástæðan til þess, að tekið er einkum dæmi af *Englandi* í hinum fræðilegu útlistunum mínum. Ef þýzkir lesendur skyldu yppta öxlum, fullir vandlætingar yfir kjörum landbúnaðar- og iðnverkafólks í Englandi, ellegar leita sér huggunar í þeirri bjartsýnu skoðun, að langt sé nú um liðið síðan ástandið var jafn herfilegt í Þýzkalandi, hlýt ég að hrópa til þeirra: *De te fabula narratur!* (Þetta er þín saga!)

Í sjálfu sér er ekki um hærra eða lægra þróunarstig þeirra þjóðfélagsandstæðna að ræða, sem eiga rót sína að rekja til sjálfra eðlislögmála kapítalískrar framleiðslu. Það eru *þessi eðlislögmál* hennar, sem máli skipta, og sú járnharða *þróunarstefna,* sem ríkjandi er og ekki verður undan vikizt. Þau lönd, sem lengst hafa náð í iðnvæðingu, veita hinum, sem skemmra eru á veg komin, einungis innsýn í þeirra eigin framtíð.

---

tekur meira að segja upp þau fræðiheiti, sem ég hef búið til. Þetta leikur hann í ritum sínum um sögulegt eðli auðmagnsins, um samhengi framleiðsluafstæðna og framleiðsluhátta, og svo mætti lengi telja. Ég á að sjálfsögðu ekki við sérskýringar hans né heldur hagnýt dæmi, sem snerta mig að engu leyti. – Aths Marx.

En nóg um það. Þar sem kapítalísk framleiðsla hefur komizt á hjá okkur, t. d. í hinum raunverulegu verksmiðjum, er ástandið *mun lakara* en í Englandi. Ástæðan er, að okkur skortir það mótvægi, sem verksmiðjulöggjöfin veitir. Það er ekki aðeins þróun kapítalískra framleiðsluhátta á öllum sviðum, sem íþyngir okkur, heldur og skortur á slíkri þróun og þar erum við á báti með öðrum meginlandsríkjum Vesturevrópu. Auk þeirra báginda, sem skipulag nútímans veldur, kreppa að okkur fjölmargar illar fylgjur fornfálegra og úreltra framleiðsluhátta, sem enn eimir eftir af. Til slíks má rekja ýmislegt það, *sem ekki er í samræmi við* ríkjandi ástand á stjórnmálasviðinu eða í þjóðfélaginu yfirleitt. Það eru jafnt lifendur sem dauðir valdir að þjáningum okkar. *Le mort saisit le vif!* (Hinn dauði hremmir þann sem lifir).

Hagskýrslur Þýzkalands og annarra meginlandsríkja eru afar lélegar borið saman við það, sem gerist í Englandi. Þó lyfta þær tjaldskörinni nóg til þess, að manni býður í grun að sú þjóðlífsmynd, sem að baki þeim býr, sé miður glæsileg. Við yrðum *skelfingu lostin yfir því ástandi sem ríkir hjá okkur,* ef þing og stjórnir landa okkar skipuðu hverja nefndina á fætur annarri, sem skyldu rannsaka atvinnuástandið, líkt og tíðkazt hefur í Englandi; ef þeir hefðu ámóta víðtækt valdsvið og aðstöðu til að grafast fyrir um sannleikann; ef svo tækist til, að til þessa verks veldust menn með eins trausta sérþekkingu, eins óhlutdrægir og óvilhallir og þeir menn eru, sem í Englandi hafa eftirlit með verksmiðjum, gefa skýrslur um hollustuhætti almennings („Public Health"), fylgjast með notkun vinnuafls kvenna og barna og rannsaka húsakost og viðurværi fólks o. s. frv. Perseus (grísk goðsagnavera) sveipaði sig huliðsblæju, er hann veitti ófreskjum goðsagnarinnar eftirför. Við sveipum huliðsblæju fyrir augu og eyru til að geta afneitað tilveru ófreskjunnar.

Maður má ekki láta blekkjast í þessum efnum. Á sama hátt og frelsisstríð Bandaríkjanna á 18. öld var herhvöt til millistétta Evrópu, hefur borgarastyrjöldin í Bandaríkjum 19. aldar orðið evrópskri verkalýðsstétt aflvaki til dáða. Engum dylst sú gerbreyting, sem nú er að verða í Englandi. Þegar hún er nægilega langt komin, mun áhrifanna taka að gæta á meginlandinu. Þar mun hennar gæta með harðvítugri eða mannúðlegri hætti og fer það eftir þroskastigi verkalýðsstéttarinnar. Þótt öllum háleitari hvötum sé sleppt, knýja raunverulegir hagsmunir núverandi valdastétta fast á með, að afnumdar séu allar þær tálmanir, sem í formi lagaboða hefta viðgang verkalýðsstéttarinnar. Þetta er m. a. ástæðan til þess að ég hef rakið tildrög, efni og árangur ensku verksmiðjulöggjafarinnar svo rækilega í þessu bindi. Ein þjóð getur bæði lært og á að læra af öðrum. *Enda*

*þótt þjóðfélag hafi komizt á snoðir um sín eigin þróunarlögmál – og það er einmitt tilgangur þessa rits að útskýra efnahagsleg hreyfilögmál nútíma þjóðfélags* – getur það hvorki hoppað yfir eðlisnauðsynlegt þróunarstig né afneitað tilveru þess. En það getur gert fæðingarhríðirnar skammvinnari og vægari.

Til þess að koma í veg fyrir hugsanlegan misskilning vil ég aðeins taka fram eftirfarandi: því fer fjarri, að ég hafi málað mynd kapítalistans og jarðeigandans ljósum dráttum. En ég ræði hér *aðeins um persónur að svo miklu leyti sem þær eru persónugervingar efnahagsþátta, holdtekja tiltekinna hagsmuna og stéttaafstæðna.* Þar eð ég lít á *þróun efnahagslegrar þjóðfélagsskipunar sem náttúrusögulegt ferli,* er síður en svo hægt að gera nokkurn einstakling ábyrgan fyrir ástandinu, sem hefur skapað hann í þjóðfélagslegu tilliti, hversu hátt, sem hann hefur sjálfur hafið sig yfir það. Í þjóðhagfræðinni glímir *óháð vísindaleg rannsóknarstarfsemi* ekki bara við þann draug, sem hún mætir á öllum öðrum sviðum. Því veldur hið sérstæða efnissvið greinarinnar, sem fær ofsaæði sérhagsmunahyggjunnar til að blossa upp gegn þeim og vekur með mönnum þær kenndir, sem telja má ofsafengnastar, lítilmótlegastar og ógeðfelldastar. Enska hákirkjan myndi fremur veita syndafyrirgefningu, þótt ráðizt væri á 38 af hinum 39 trúarsetningum hennar, en ef um árás á 1/39 af tekjustofnum hennar væri að ræða. Á vorum dögum er sjálft guðleysið fyrirgefanlegri synd en athæfi á borð við það að gagnrýna þá skipan eignarréttarins, sem við höfum tekið að erfðum. Samt dylst engum að á þessu sviði er að verða breyting til batnaðar. Ég nefni sem dæmi um það „bláu bókina", sem kom út fyrir viku: *„Bréfaskipti um verkalýðs- og iðnaðarmál við sendimenn hennar hátignar erlendis".* Fulltrúar ensku krúnunnar erlendis kveða umbúðalaust upp úr með það, að gjörbreyting sé auðsæilega að verða á sambandi vinnu og fjármagns í Þýzkalandi, Frakklandi, í stuttu máli í öllum menningarríkjum meginlands Evrópu, og verði ekki umflúin þar fremur en í Englandi. Í sama mund gerðist það handan Atlantsála að *Wade,* varaforseti Bandaríkja Norður-Ameríku, lýsti yfir því á opinberum fundum að eftir afnám þrælahalds kæmi á dagskrá gjörbreyting á eignarhaldi á fjármagni og landi. Þetta eru þau tímanna tákn, sem ekki er unnt að fela undir purpurakápum eða svörtum munkakuflum. Þau tákna ekki að á morgun gerist kraftaverk, en það sýnir að jafnvel ríkjandi stéttir eru gripnar hugboði um, að núverandi þjóðskipulag er ekki fastmótað líkt og kristall, heldur lífræn heild, sem tekið getur breytingum og stöðugt er breytingum undirorpin.

*Annað bindi* þessa rits mun fjalla um *hringrás auðmagnsins*

(önnur bók) og þær myndir, sem ferlið í heild tekur á sig (þriðja bók), *þriðja bindið,* sem er lokabindi verksins (fjórða bók) mun rekja *sögu fræðikenninganna.*

Öll gagnrýni um verk þetta, sem reist er á vísindalegum grunni, er þegin með þökkum.

Ég hef alltaf kært mig kollóttan um svonefnt *almenningsálit,* og ég mun hér eftir sem hingað til fara eftir kjörorði Dantes, hins mikla sonar Florenzborgar: *Segui il tuo corso, e lascia dir le genti!* Far þínar eigin leiðir og lát fólk um að skrafa!

London, 25. júlí 1867.
Karl Marx.

KARL MARX

# Úr eftirmála að annarri útgáfu fyrsta bindis „Auðmagnsins“

Þeir eru ekki margir, sem hafa skilið þær rannsóknaraðferðir, sem beitt er í „Das Kapital“. Mótsagnakenndur skilningur á ritinu hefur sýnt þetta gjörla.

Þannig nýr Parísartímaritið „Revue Positiviste“ mér því um nasir í öðru orðinu, að ég fjalli um hagfræði á háspekilegan hátt; í hinu orðinu – og hverjum hefði hugkvæmzt það – er það talið til dómsáfellis, að ég einskorði mig við það eitt að gagnrýna og rannsaka niður í kjölinn það fyrirkomulag, sem nú ríkir; ég hefði í stað þess átt að láta í té uppskriftir (frá Comte?) handa matstofum framtíðarinnar. Prófessor Sieber hefur látið frá sér fara athugasemd, þar sem andmælt er ásökuninni um háspeki. Hann segir: „Aðferð sú sem Marx beitir, þegar hann fjallar um það, sem í raun og veru flokkast undir fræðikenningu, er afleiðsluaðferðin, sem áhangendur enska hagfræðiskólans aðhyllast. En kostir hennar og gallar koma fram hjá öllum beztu höfundum á sviði vísindalegrar hagfræði.“ Í greininni „Fræðimenn sósíalismans í Þýzkalandi – Úrdráttur úr „Tímariti hagfræðinga“, júní og ágúst heftinu 1872 („Les Théoriciens du Socialisme en Allemagne. Extrait du Journal des Economistes, juillet et aout 1872“) uppgötvar M. Block, að rannsóknaraðferð mín byggist á sundurliðun og segir meðal annars: „Með þessu riti skipar Marx sér í hóp fremstu hugsuða sundurliðunaraðferðarinnar“. Þýzkir ritdómarar hrópa að sjálfsögðu um hegelskar hártoganir. Tímaritið „Sendiboði Evrópu“ (Véstník Evropy) í Pétursborg (maíheftið 1872, bls. 427–436) kemst að þeirri niðurstöðu í grein, sem einvörðungu fjallar um rannsóknaraðferðina í „Das Kapital“, að hún sé raunsæ út í æsar, en framsetning efnisins, illu heilli, þýzk díalektík. Hann segir: „Ef maður dæmir eftir forminu á sjálfri framsetningu efnisins, virðist manni í fljótu bragði Marx vera hugsæismaður framar öllum öðrum, og það meira að segja

á þýzka vísu, þ. e. a. s. í slæmri merkingu. En í raun og veru er óbrúanlegt djúp staðfest milli hans og forvera hans, sem birt hafa gagnrýnisskrif um hagfræðileg efni ... Það er ómögulegt að kalla hann hugsæismann". Bezta svar, sem ég get gefið hæstvirtum höfundi, er að taka upp nokkur atriði úr ritdómi hans, sem kunna að vera fróðleg fyrir marga lesendur mína, sem ekki geta lesið rússneska frumtextann.

Að lokinni tilvitnun í formálsorð mín að ritinu „Gagnrýni á þjóðhagfræði" („Kritik der politischen Oekonomie", Berlín 1859, bls. IV–VII), þar sem ég ræddi efnislega undirstöðu rannsóknaraðferðar minnar, heldur hæstvirtur höfundur áfram:

„Að dómi Marx skiptir aðeins eitt máli: að finna hvaða lögmálum þau fyrirbæri lúta, sem hann fæst við rannsókn á. Og að hans hyggju eru ekki aðeins þau lögmál mikilvæg sem móta fyrirbærin, að svo miklu leyti sem þau hafa fastmótað form og eru í innbyrðis samhengi, sem hægt er að athuga á vissu tímaskeiði. Mikilvægast að hans áliti er lögmálið um breytingu þeirra, þ. e. hvernig háttað sé umskiptum frá einu stigi til annars, hvernig innra samhengi tekur við af öðru. Jafnskjótt og hann hefur uppgötvað þetta lögmál rannsakar hann til hlítar hverjar séu afleiðingar þeirra í þjóðfélaginu ... Þess vegna gerir Marx sér einungis far um að sýna fram á með nákvæmum vísindalegum rannsóknum að tiltekið skipulag þjóðfélagsins sé óhjákvæmilegt og hann leitast við að sanna með eins óyggjandi hætti og unnt er tilvist þeirra staðreynda, sem hann styðst við og sem hann byggði á í upphafi. Í þessu efni nægir honum fullkomlega að færa sönnur á óumflýjanleika ríkjandi skipulags, ef hann sannar jafnframt nauðsyn á annarri skipan sem hljóti að taka við, hvort sem menn trúa því eða ekki, gera sér það ljóst eða ekki. Marx lítur á þróun samfélagsins sem náttúrusögulegt ferli, stjórnað af lögmálum, sem eru ekki aðeins óháð vilja manna, vitund og áformum, heldur þvert á móti stjórni þau vilja þeirra, vitund og áformum. ... Sé þáttur vitundarinnar í menningarsögunni svona lítill er augljóst, að sú gagnrýni, sem beinist að sjálfri menningunni getur síður en svo átt rætur í vitundarformum eða haft vitundarniðurstöður sem undirstöðu. Af þessu leiðir að ókleift er að leggja hugmyndina sjálfa til grundvallar gagnrýninni heldur verður hið ytra fyrirbrigði að nægja. Gagnrýnin mun takmarkast af því að staðreyndir eru bornar saman við aðrar staðreyndir, en ekki við sjálfa hugmyndina. Fyrir hana er það mikilvægast að hver staðreynd fyrir sig sé rannsökuð eins vel og hægt er, og að þær í raun og veru tákni ólík þróunarstig, að rannsökuð séu af engu minni gerhygli í hverju þessi þróunarstig sýna sig, röð þeirra og samhengi. En – munu menn segja – al-

menn lögmál efnahagslífsins eru söm og jöfn, og skiptir hreint engu máli hvort tekið er mið af þeim gagnvart nútímanum eða fortíðinni. Marx afneitar einmitt þessari skoðun. Skoðun hans er sú, að sértæk lögmál af þessu tagi séu ekki til ... Hann álítur þvert á móti að hvert tímabil sögunnar lúti sérstökum lögmálum... Jafnskjótt og samfélagið hefur runnið ákveðið þróunarskeið á enda, færist það af einu þróunarstigi á annað og tekur þá jafnframt að láta stjórnast af öðrum lögmálum. Í fáum orðum er þróun efnahagslífsins af sama toga og sú þróun sem á sér stað á öðrum sviðum líffræðinnar ... Hagfræðingar fyrri tíma gerðu sér ekki grein fyrir eðli efnahagslögmála þegar þeir lögðu þau að jöfnu lögmálum eðlis- og efnafræði ... Djúptækari könnun á fyrirbærinu leiddi í ljós, að samfélagsheildir eru að sínu leyti jafn frábrugðnar hver annarri og dýr og plöntur ... Eitt og sama „fyrirbæri" lýtur gjörólíkum lögmálum á mismunandi þróunarstigum allt eftir því hvernig háttað er uppbyggingu hinnar lífrænu heildar, hvort einstakir þættir hennar eru afbrigðilegir eða hvort hin ytri skilyrði eru með öðrum hætti o. s. frv. Marx neitar því t. d. að lögmál mannfjölgunarinnar sé ætíð hið sama, óháð stað og stund. Hann fullyrðir þvert á móti, að hvert þróunarstig lúti eigin lögmálum um mannfjölgun ... Með mismunandi þróun framleiðsluaflanna breytast afstæðurnar og lögmálin sem þau lúta. Um leið og Marx setur sér það mark að rannsaka og skýra efnahagsskipan kapítalismans út frá þessu sjónarmiði er hann einungis að setja fram á strangvísindalegan hátt það markmið, sem allar nákvæmar rannsóknir á efnahagslífinu hljóta að hafa ... Hið vísindalega gildi slíkra rannsókna felst í því, að þær varpa ljósi á þau sérstöku lögmál sem ráða því að tiltekin samfélagsheild sprettur upp, lifir, dafnar og hrörnar, unz annað háþróaðra samfélag leysir hið fyrra af hólmi. Og sú er raunin, að í þessu felst gildi bókar Marx".

Höfundurinn hittir naglann á höfuðið í lýsingu sinni á því, sem hann kallar raunverulega rannsóknaraðferð mína, og hann er mér hliðhollur að því leyti sem hann fjallar um notkun mína á þessari aðferð. En með þessu hefur hann einmitt verið að lýsa hinni díalektísku rannsóknaraðferð.

Að vísu hlýtur framsetningin að formi til að vera frábrugðin rannsóknarhættinum. Við rannsókn verður að tileinka sér efnið í öllum smáatriðum, skilgreina ólíka þróunarþætti þess og draga fram í dagsljósið innri tengsl þeirra. Ekki er hægt að gera viðhlítandi grein fyrir raunverulegum breytingum fyrr en þessum hluta verksins hafa verið gerð full skil. Heppnist þetta og líf efnisins endurspeglast með ágætum, getur litið svo út sem um hreina rökræna hugsmíð sé að ræða. Díalektísk rannsóknarað-

ferð mín er ekki aðeins ólík Hegels, heldur alger andstæða. Hjá Hegel er ferli hugsunarinnar – sem hann undir nafninu hugmynd (idee) breytir jafnvel í sjálfstæðan geranda (sjálfveru) – skapari raunveruleikans, en raunveruleikinn aðeins holdtekja hugmyndarinnar. Hjá mér er aftur á móti hugmyndin (das ideelle) aðeins endurspeglun efnisins í heila mannsins.

Hina dulrænu þætti í díalektík Hegels gagnrýndi ég þegar fyrir nærfellt 30 árum; meðan hún var tízkufyrirbæri. En einmitt um þær mundir sem ég vann að samningu fyrsta bindisins af „Das Kapital" höfðu þeir leiðigjörnu verrfeðrungar úr hópi þýzkra menntamanna, sem fullir meðalmennsku og hrokagikksháttar óðu uppi á ritvellinum, sér það til yndisauka að fjalla um Hegel með sama hætti og sá góði maður Moses Mendelssohn fjallaði um Spinoza í tíð Lessings, þ. e. sem „dauða hundinn". Þess vegna játaði ég opinskátt, að ég væri lærisveinn þessa mikla hugsuðar, og því var það, að í kaflanum um gildiskenninguna gældi ég á stöku stað við sérkenni í orðalagi Hegels. Sú dulræna sem díalektíkin íklæðist í verkum Hegels rænir hann ekki þeim heiðri, að hann varð fyrstur til að lýsa alhliða og á sannfærandi hátt almennum hreyfimyndum hennar. En hún stendur á höfði hjá honum. Maður verður að hafa endaskipti á henni til þess að svipta dularblæjunni af hinum vitræna kjarna.

Í hinni dulrænu útgáfu varð díalektíkin tízkufyrirbrigði í Þýzkalandi, því að hún virtist varpa dýrðarljóma á ríkjandi ástand. Í sinni vitrænu mynd olli hún hneykslan og ótta hjá borgarastéttinni og kredduföstum málsvörum hennar, af því að jákvæður skilningur hennar á því sem er felur einnig í sér skilning neikvæðisins, þeirrar tortímingar sem ekki verður umflúin. Hún skynjar hvert nýtt form í straumi hreyfingar, sér einnig hina forgengilegu hlið, lætur ekki blekkjast af neinu, er í eðli sínu gagnrýnin og byltingagjörn.

Mótsagnafull þróun auðvaldsþjóðfélagsins kemur harðast við athafnasama borgara þegar iðnaður nútímans fer í gegnum endurteknar sveiflur, unz þær ná hámarki í almennri kreppu. Kreppa er nú í aðsigi að nýju, enda þótt áhrifa hennar gæti lítið enn. Áhrifa hennar mun gæta allsstaðar og með slíkum ofsa, að hamingjuhrólfar hins nýja heilaga prússnesk-þýzka ríkis munu fá lexíu í díalektík.

London, 24. janúar 1873.
Karl Marx.

KARL MARX

# Blætiseðli vörunnar og leyndardómur þess[1]

*Vara* virðist við fyrstu sýn sjálfsagður og hversdagslegur hlutur. Greining hennar sýnir, að hún er mjög flókinn hlutur, full af háspekilegri hártogun og guðfræðilegum heilabrotum. Að því leyti sem hún er *notagildi,* er ekkert dularfullt við hana, hvort sem hún er skoðuð út frá því sjónarhorni, að hún fullnægi mannlegum þörfum með eiginleikum sínum eða hljóti þessa eiginleika ekki fyrr en sem *afurð* mannlegrar vinnu. Það er augljóst, að maðurinn breytir með starfi sínu formum náttúruefna sér í nyt. T. d. breytir viðurinn um útlit, sé úr honum smíðað borð. Engu að síður er borðið áfram viður, venjulegur, skynjanlegur hlutur. En jafnskjótt og það birtist *sem vara,* verður það í senn áþreifanlegt og yfirskilvitlegt. Það stendur ekki aðeins föstum fótum á gólfinu heldur jafnframt á haus gagnvart öllum öðrum vörum og spinnur í tréhaus sínum grillur mun furðulegri en þótt það hæfi borðdans af sjálfsdáðum.*

Dulareðli vörunnar stafar sem sé ekki frá notagildi hennar. Það stafar ekki heldur af því inntaki, sem ákvarðar *gildið.* Því að í fyrsta lagi eru það *lífeðlisfræðileg* sannindi, að öll nytsöm vinna og framleiðandi – hversu margbreytileg sem hún er – er starfsemi *mannlegra* líffæra, og sérhver slík starfsemi, án tillits til inntaks eða forms, er *framlag mannlegs* heila, tauga, vöðva, skynfæra o. s. frv. Í öðru lagi, sé það athugað, er liggur til grundvallar að ákvörðun stærðar gildisins – nefnilega *tímalengd* framlagsins eða *magn* vinnunnar – þá má auðveldlega greina á milli *eigindar* og *megindar* vinnunnar. Ætíð hlaut vinnu*tíminn,* sem fór til framleiðslu lífsnauðsynja, að vekja áhuga mannsins, þótt í mismunandi mæli væri á ýmsum þrepum þró-

* Muna má það, að Kína og borðin hófu dans, þegar allt annað í heiminum virtist standa kyrrt – pour encourager les autres (öðrum til hvatningar).[2]

unarinnar.* Og að lokum, jafnskjótt og mennirnir taka að vinna hverjir fyrir aðra á einn eða annan hátt, tekur vinnan á sig *samfélagslegt* form.

Frá hverju stafar þá þetta torskilda eðli vinnuafurðarinnar, jafnskjótt sem hún tekur á sig *vöruform?* Augljóslega frá sjálfu forminu. Innbyrðis samsvörun mannlegrar vinnu tekur á sig hlutkennda mynd í gildisverund vinnuafurðanna,[3] framlag mannlegs vinnuafls mælt í tímalengd tekur á sig mynd gildisstærðar vinnuafurðanna; og að lokum taka afstæður milli framleiðendanna, – en í þessum afstæðum birtist samfélagseðli vinnu þeirra, – á sig mynd þjóðfélagsafstæðna vinnuafurðanna.

Leyndardómurinn við vöruformið felst sem sé einfaldlega í því, að það endurspeglar mönnum samfélagseðli þeirra eigin vinnu sem hlutkennt eðli vinnuafurðanna sjálfra, sem samfélagslega náttúrueiginleika þessara hluta. Þess vegna endurspeglar það einnig þjóðfélagsafstæður framleiðenda til heildarvinnu sem raunverulegar þjóðfélagsafstæður milli hluta en ekki þeirra sjálfra. Við þessi hausavíxl (quid pro quo) verða vinnuafurðirnar vörur, áþreifanlegir og um leið yfirskilvitlegir eða samfélagslegir hlutir. Á sama hátt skynja menn ekki ljósáhrif frá hlut sem huglæga erting sjóntaugarinnar, heldur sem hlut utan við augað. En við sjónskynjun kastast raunverulega ljós frá einum hlut, hlutnum utan við, á annan hlut, augað. Þetta eru eðlisbundin tengsl milli efniskenndra hluta. Aftur á móti er vöruform vinnuafurða og gildisafstæður, sem það birtist í, í engum tengslum við efniseiginleika þeirra og þær efnalegu afstæður sem af þeim spretta. Það er aðeins sérstök þjóðfélagsafstaða mannanna sjálfra, sem verður hér í þeirra eigin huga að fjarstæðukenndri mynd af afstæðu milli hluta. Til þess að finna hér hliðstæðu, verðum vér að flýja inn í þokuheim trúarbragða. Þar birtast afurðir mannsheilans sem verur, gæddar eigin lífi og sjálfstæðar í innbyrðis afstöðu og í afstöðu til mannsins. Þannig er þetta einnig um afurðir vinnandi handa í vöruheiminum. Kalla ég þetta blætisdýrkun (Fetischismus), sem hér heftist við vinnuafurðir um leið og þær eru framleiddar sem vörur og er því óaðskiljanleg vöruframleiðslu.

Þetta blætiseðli (Fetischcharakter) vöruheimsins orsakast af sérkennilegu samfélagseðli þeirrar vinnu, sem framleiðir vörur, eins og þegar hefur verið sýnt fram á í undangenginni greiningu.

* Hjá forngermönnum var stærð jarðar mæld í dagsverkum og því nefnd *Tagwerk* (einnig Tagwanne) (jurnale eða jurnalis, terra jurnalis eða diornalis), *Mannwerk*, Mannskraft, Mannsmaad, Mannshauet o. s. frv. Sjá *Georg Ludwig von Maurer*, „Einleitung zur Geschichte der Mark-, Hof-, Dorf- und Stadtverfassung und der öffentlichen Gewalt", München 1854, bls. 129–130. – *Höf.* – Sbr. íslenzka orðið *dagslátta*. – *Þýð.*

Gagnhlutir verða yfirleitt því aðeins vörur, að þeir séu *vinnuafurðir innbyrðis óháðra einstaklinga.* Vinna sem einstaklingar láta þannig í té myndar öll samanlagt heildarvinnu þjóðfélagsins. Framleiðendur komast ekki í félagslega snertingu hverjir við aðra fyrr en við skiptin á vinnuafurðum. Þess vegna kemur þá fyrst fram sérstakt samfélagseðli einstaklingsvinnunnar; eða m. ö. o., það er ekki fyrr en við þessi tengsl, sem skiptin setja vinnuafurðirnar í og þær jafnframt framleiðendurna, að vinna einstaklingsins verður ótvíræður þáttur í samfélagslegri vinnu. Samfélagslegar afstæður einstaklingsvinnu *birtast* því ekki framleiðendum sem beinar samfélagsafstæður milli vinnandi manna, þvert á móti – eins og þær *eru í raun og veru – sem hlutkenndar afstæður milli einstaklinga og samfélagslegar afstæður hluta.*

Vinnuafurðir öðlast ekki fyrr en við skipti sams konar gildisverund, aðgreinda frá mismunandi efnislegum eiginleikum þeirra sem gagnhluta. Þessi aðgreining vinnuafurðar í gagnhlut og gildishlut á sér raunhæft aðeins stað, þegar skiptin eru orðin nógu almenn og mikilvæg, til þess að nytsamir hlutir verði framleiddir með skipti fyrir augum, og þegar í upphafi sjálfrar framleiðslu þeirra tekið mið af gildiseðli þeirra. Frá þeirri stundu öðlast einstaklingsvinna framleiðenda raunverulega tvenns konar samfélagseðli. Á annan bóginn verður hún sem sérstök nytsöm vinna að fullnægja ákveðinni samfélagsþörf og standast þannig sem þáttur í heildarvinnunni, í mótaðri verkaskiptingu samfélagsins. Á hinn bóginn fullnægir hún því aðeins margs konar þörfum hvers framleiðanda, að hægt sé að skipta á þessari sérstöku nytsömu vinnu hans og allri annarri nytsamri vinnu, þ. e. a. s. að hún svari til allrar annarrar vinnu. *Samsvörun* allsendis (toto coelo) *ólíkrar* vinnu getur aðeins falizt í því, að *litið sé fram hjá raunverulegri ósamsvörun hennar* (Abstraktion) og augunum beint að sameiginlegu eðli (Reduktion), er hún hefur til að bera sem *framlag mannlegs vinnuafls,* sem sértæk (abstrakt) *mannleg vinna.* Framleiðendur skynja aðeins samfélagslegt tvíeðli einstaklingsvinnu sinnar eins og það birtist í daglegum samskiptum, í afurðaskiptum. Þeir skynja samfélagslegt nytsemdareðli einstaklingsvinnu sinnar þannig, að vinnuafurðin verði að vera gagnhlutur og það fyrir aðra – og samfélagslegt samsvörunareðli ólíkrar vinnu skynja þeir sem sameiginlegt gildiseðli þessara efnisólíku hluta, vinnuafurðanna.

Þegar menn bera saman vinnuafurðir hvers annars sem *gildi,* þá er það ekki vegna þess, að afurðirnar séu þeim *aðeins efniskenndur hjúpur,* sem beri í sér samsvarandi mannlega vinnu, heldur þvert á móti. Þegar þeir setja í skiptum mismunandi *af-*

*urðategundir sem* samsvarandi *gildi,* þá setja þeir jafnframt mismunandi vinnu sem samsvarandi mannlega vinnu. Þeir gera sér þetta ekki ljóst, en *gera það* samt.* Gildið breytir þvert á móti sérhverri vinnuafurð í þjóðfélagslegar rúnaristur. Seinna reyna menn að ráða þessar rúnaristur, grafast fyrir leyndardóm sinna eigin þjóðfélagsafurða, því að hlutverk gagnhluta *sem gilda* er félagsafurð eða afsprengi *manna,* engu síður en tungan. Hin síðborna vísindalega uppgötvun, að vinnuafurðir eru – að því leyti sem þær eru gildi – einber efnisbundin birting á framlagðri mannlegri vinnu við framleiðslu þeirra, skiptir sköpum í þróunarsögu mannkyns, en kemur ekki í veg fyrir, að samfélagseðli vinnunnar heldur áfram að lýsa sér sem afstæður milli hluta. Sérstakt samfélagseðli á vinnu innbyrðis óháðra einstaklinga er hér fólgið í samsvörun hennar sem mannlegrar vinnu og tekur á sig mynd gildiseðlis vinnuafurða en á aðeins við um þetta sérstaka framleiðsluform, vöruframleiðsluna. Í augum þeirra, sem fjötraðir eru í afstæður vöruframleiðslunnar, virðist – fyrir sem eftir uppgötvunina – þetta sérkenni samt vera ævarandi eðlisástand, eins og andrúmsloftið heldur áfram að vera til sem eðlisfræðilegt fyrirbæri, þótt vísindunum hafi tekizt að greina það í frumefni.

Það sem fyrst og fremst vekur áhuga þeirra, sem skipta á afurðum, er sú spurning, hversu miklar afurðir þeir fái frá öðrum fyrir sínar eigin, hvert sé skiptahlutfallið á afurðunum. Þegar þessi hlutföll hafa náð vissri venjubundinni festu, þá virðast þau afleiðing af eðli vinnuafurða, þannig t. d. að eitt tonn af járni jafngildi 2 únsum af gulli á sama hátt og eitt pund af gulli er jafnþungt einu pundi af járni, þrátt fyrir mismunandi eðlis- og efnafræðilega eiginleika. Í reynd festist gildiseðli vinnuafurða ekki í sessi fyrr en þær koma fram sem gildisstærðir. Gildisstærðirnar breytast sífellt, óháð vilja, vitund og aðgerð þeirra, sem að skiptunum standa. Samfélagslegar athafnir þeirra sjálfra eru í þeirra augum síbreytilegar hræringar hluta, sem þeir eru undirorpnir í stað þess að ráða yfir þeim. Það er ekki fyrr en í fullmótaðri vöruframleiðslu, að reynslan mun ala af sér vísindalegan skilning á þessum fyrirbærum. Þá mun verða ljóst, að óháð einstaklingsvinna, og þó jafnframt bundinn þáttur í samfélagslegri verkaskiptingu, breytist stöðugt til samfélagslegra

---

* Þegar *Galiani* segir: Gildið er afstæða milli manna – „La Ricchezza è una ragione tra due persone" –, þá hefði hann átt að bæta við: afstæða falin undir hlutkenndum hjúp. *(Galiani:* „Della Moneta", bls. 220, III. bindi í Custodis safninu „Scrittori Classici Italiani di Economia Politica", Parte Moderna, Milano 1803.)

hlutfallsstærða, af því að í einstökum og sísveiflandi skiptaafstæðum afurða þeirra brýzt fram þjóðfélagslega nauðsynlegur vinnutími við framleiðslu þeirra líkt og drottnandi náttúrulögmál, áþekkt þyngdarlögmálinu, þegar hús hrynur í höfuð manns.* Ákvörðun gildisstærðar eftir vinnustundum er því leyndarmál, sem falið er að baki sýnilegum hræringum afstæðra vörugilda. Uppgötvun þessa leyndarmáls hrekur þær hugmyndir, að ákvarðanir á gildisstærðum vinnuafurða séu tilviljanir einar, en breytir engu um efnismynd þessara ákvarðana.

Bollaleggingar um fyrirbrigði mannlegs lífs og vísindaleg greining þeirra fer yfirleitt inn á þveröfugar brautir miðað við raunverulega þróun. Þær hefjast eftir á og þar af leiðandi samtímis fullburða árangri þróunarferlisins. Þeir framleiðsluhættir, sem stimpla vinnuafurðir sem vörur og eru því forsenda vöruhringrásar, eru þegar fastmótaðir eðlilegir samfélagshættir, áður en maðurinn reynir að gera sér grein fyrir inntaki þeirra – en ekki sögulegu eðli háttanna, sem þvert á móti eru þegar í hans augum óumbreytanlegir. Þannig leiddi aðeins greining vöruverðs til ákvörðunar gildisstærðarinnar og eingöngu sameiginlegt peningaígildi vörunnar festi gildiseðlið í sessi. En það eru einmitt peningarnir, þetta fullskapaða form vöruheimsins, sem dylur í raun og veru þjóðfélagseðli einstaklingsvinnu og þar með þjóðfélagsafstæður milli einstaklinga, í stað þess að lyfta af þeim hulunni. Ef ég t. d. segi, að frakki, skór o. þ. u. l. standi afstætt gagnvart líndúki sem almennri holdtekju sértækrar mannlegrar vinnu, þá blasir fjarstæða þessara ummæla við. Þegar frakka- og skóframleiðendur o. fl. setja aftur á móti þessar vörur í afstæði gagnvart líndúki sem almennu jafngildi – eða gulli og silfri sem almennu jafngildi, það breytir engu – þá skynja þeir einmitt á þennan afskræmda hátt afstæðu einstaklingsvinnu til heildarvinnu þjóðfélagsins.

*Grundvallarhugtök* borgaralegrar hagfræði byggjast einmitt á atriðum af þessu tagi. Þau njóta þjóðfélagslegrar viðurkenningar, eru m. ö. o. hlutlægt hugsunarsnið um framleiðsluafstæður *þessa sérstaka sögulega* framleiðsluháttar þjóðfélagsins – vöruframleiðslunnar. Öll dultrú vöruheimsins, gjörningaþoka og draugagangur, sem umlykur vinnuafurðirnar sökum vöruframleiðslunnar, verður á burt jafnskjótt og vér hverfum til annarra framleiðsluhátta.

* „Hvað á að halda um lögmál, sem getur aðeins látið til sín taka við tímabundnar byltingar? Það er einmitt *náttúrulögmál, sem byggist á þekkingarskorti þeirra, sem í hlut eiga.*" (*Friedrich Engels,* „Umrisse zu einer Kritik der Nationalökonomie" í „Deutsch-Französische Jahrbücher", útg. af *Arnold Ruge* og *Karl Marx,* París 1844.)

Þjóðhagfræði hefur dálæti á Róbínsonsögum,* hverfum því til hans í eyjuna. Þótt hann sé hógvær að upplagi, verður hann samt að fullnægja þörfum sínum og inna af hendi *margs konar gagnlega vinnu,* smíða tól og búsáhöld, temja lamadýr, veiða fisk og villibráð o. s. frv. Um bænastúss hans og þess háttar ræðum vér ekki hér. Róbínson hefur af því skemmtun og lítur á þess konar dund sem heilsubót. Þrátt fyrir fjölbreytnina í þessum framleiðslustörfum skilur hann, að þau eru aðeins mismunandi tilbrigði á hans eigin vinnu, þ. e. mismunandi tilbrigði *mannlegrar* vinnu. Neyðin rekur hann til að skipta *tíma* sínum nákvæmlega niður á ólík störf. Hvort eitt krefst lengri tíma en annað af heildarstarfi hans, er komið undir þeim erfiðleikum, sem hann þarf að yfirstíga, til þess að ná gagnlegum árangri. Þetta lærir hann af reynslunni. Róbínson tókst að bjarga klukku, höfuðbók, bleki og penna úr skipsflakinu og tekur brátt upp bókhald eins og góðum Breta sæmir. Á eignayfirlitið skráir hann nauðsynjahluti sína, *margbreytileg* störf við framleiðslu þeirra og að lokum þann *vinnutíma,* sem tiltekið magn af þessum mismunandi afurðum kosta hann að jafnaði. Öll tengsl milli Róbínsons og hlutanna, sem mynda sjálffengin auðæfi hans, eru hér svo einföld og augljós, að jafnvel M. Wirth ætti að geta áttað sig á þeim án tiltakanlegrar andlegrar áreynslu. Og þó fela þau í sér alla meginákvörðunarþætti *gildisins.*

Yfirgefum Róbínsoneyjuna björtu og hverfum til miðaldamyrkurs Evrópu. Í stað hins frjálsa manns eru hér allir háðir – ánauðugir bændur og stórjarðeigendur, leiguliðar og lénsdrottnar, leikmenn og prestar. Ófrelsi einstaklingsins einkennir ekki síður þjóðfélagsafstæður efnalegrar framleiðslu en önnur svið þjóðlífsins, sem af henni rísa. En af því að einstaklingsófrelsi er hér undirstaða þjóðfélagsins, þarf vinna og afurðir einmitt ekki að taka á sig kynlegar myndir, fjarri raunveruleikanum. Þau samlagast samfélagsstörfum sem vinnuafgjald og landauragjald. Náttúruform vinnunnar og margbreytileg sérkenni er hér þjóðfélagsform hennar umbúðalaust, en í vöruframleiðslunni er hið almenna, sértæka form vinnunnar þjóðfélagsform hennar. Kvaðavinna er mæld að tímalengd, engu síður en vöru-

* Ricardo á einnig sína Róbínsonsögu. „Hann gerir frumfiskimenn og frumveiðimenn strax að vöruframleiðendum, lætur þá skipta á fiski og villibráð í hlutfalli við bundinn vinnutíma í skiptagildinu. Í þessu sambandi varð honum á sú tímaskekkja að láta frumfiskimenn og frumveiðimenn styðjast við vaxtatöflur kauphallarinnar í London árið 1817 við útreikning á vinnutækjum sínum. „Samsíðungar hr. Owens"[4] virðast einu þjóðfélagsfyrirbrigðin, sem hann þekkir, auk þeirra borgaralegu." *(Karl Marx,* „Zur Kritik o. s. frv." bls. 38 og 39.)

framleiðandi vinna, en ánauðugum bónda er ljóst, að það er ákveðið magn af eigin vinnuafli, sem hann lætur herra sínum í té. Tíundin til prestsins er auðskildari en blessun hans. Hvernig sem sá dularbúningur er metinn, sem menn klæðast hverjir gagnvart öðrum, þá birtast a. m. k. samfélagsafstæður einstaklinga í vinnu þeirra sem afstæður milli einstaklinganna sjálfra og eru ekki dulbúnar sem samfélagsafstæður milli hluta, vinnuafurða.

Til þess að rannsaka félagsvinnu, þ. e. a. s. samfélagsvinnuna umbúðalausa, þurfum vér ekki að seilast til upprunalegra tilbrigða hennar eins og þau voru við söguupphaf allra menningarþjóða.* Nærtækara dæmi er athafnalíf búandi ættfeðrafjölskyldu, sem framleiðir til eigin þarfa kornmat, kvikfé, ullarband, vaðmál, föt o. s. frv. Fjölskyldunni eru þessir ólíku hlutir vinnuafurðir hennar, en ekki vörur í gagnkvæmri afstöðu sín í milli. Margbreytileg vinna, sem skapar þessar afurðir – akuryrkja, kvikfjárrækt, tóvinna, vefnaður, saumur o. s. frv. – er í fjölbreytni sinni samfélagsleg vinna, af því að hún er vinna fjölskyldu með upprunalega verkaskiptingu, á sama hátt og vöruframleiðslan hefur sína. Verkaskipting innan fjölskyldunnar og vinnutími einstakra heimilismanna fer eftir kyni, aldri og árstíðum. Framlag hvers einstaks vinnuafls mælt í vinnustundum kemur hér fram frá upphafi sem samfélagslegt inntak vinnunnar sjálfrar, af því að hverju einstöku vinnuafli fjölskyldunnar er aðeins beitt sem hluta af sameiginlegu og samofnu vinnuafli hennar allrar.

Hugsum oss að lokum til tilbreytingar samtök frjálsra manna, er vinna með framleiðslutækjum, sem eru sameign þeirra, og hver einstakur lætur vitandi vits í té vinnuafl sitt sem *sam*félagslegt vinnuafl. Inntakið í vinnu Róbínsons endurtekur sig hér, en nú er það *samfélagslegt* í stað þess að vera *einstaklingsbundið*. Allar afurðir Róbinsons voru hans eigin og beinir gagnhlutir fyrir *hann*. Heildarafurðir félagshópsins eru *samfélagslegar*. Nokkur hluti þeirra er notaður á ný sem framleiðslutæki og er áfram samfélagslegur. Annar hluti er lífsnauðsynjar til neyzlu

---

* „Undanfarið hefur sú hlægilega firra fengið fæturna, að form *upprunalegrar* sameignar sé sérstakt slavneskt eða jafnvel eingöngu rússneskt fyrirbrigði. Vér getum bent á sama frumformið hjá Rómverjum, Germönum og Keltum. Hjá Indverjum verða ennþá á vegi okkar mýmörg dæmi og margbreytileg, þótt sum séu að mestu leifar. Nánari rannsókn á sameign í Asíu, og þó einkum á Indlandi, mundi leiða í ljós, að ólík tilbrigði frumsameignar leiða af sér mismunandi upplausnarhætti þeirra. Þannig er t. d. hægt að finna orsök að breytilegum upphafsmyndum rómverskrar og germanskrar séreignar með samanburði við ólík fyrirbrigði indverskrar sameignar." (*Karl Marx*, „Zur Kritik o. s. frv." bls. 10.)

fyrir hópinn og þeim verður að *skipta* á milli allra í hópnum. Þessi skipti taka breytingum með breytingum á sjálfum framleiðsluhætti þjóðfélagsins og samsvarandi sögulegu þróunarstigi framleiðenda. Til þess að geta gert samanburð við vöruframleiðsluna, gerum vér ráð fyrir, að hlutur hvers framleiðanda í lífsnauðsynjum ákvarðist af *vinnutíma* hans. Vinnutíminn mun því gegna tvöföldu hlutverki. Félagsleg skipulagning hans leiðir til réttra hlutfalla milli ólíkra starfa í samræmi við kröfur mismunandi þarfa. Á hinn bóginn er vinnutíminn einnig mælikvarði á hlut hvers framleiðanda í félagsvinnunni og þá um leið á hluta hans til neyzlu úr félagsframleiðslunni. Samfélagsafstaða manna til vinnu þeirra og vinnuafurða verður auðskilin og einföld, bæði í framleiðslunni og dreifingunni.

*Kristin trúarbrögð* og dýrkun þeirra á hinum sértæka manni, einkum þó borgaraleg afbrigði, lútherska, deismi[5] o. s. frv., eru trúarbrögð í *stíl við* samfélag vöruframleiðenda. En almennar framleiðsluafstæður borgaralegs þjóðfélags felast í því, að framleiðendur líta á afurðir sínar sem *vöru*, þ. e. *gildi*, og stilla í þessari *áþreifanlegu* mynd einstaklingsvinnu sinni hverri gegn annarri sem *mannlegri vinnu með gagnkvæma samsvörun*. Í fornum framleiðsluháttum Asíu, Forngrikkja og Rómverja o. fl. var umbreyting afurða í vörur aukaatriði og þá jafnframt tilvera vöruframleiðandi manna, en óx þó að mikilvægi því nær sem dró að endalokum sameignarskipulagsins. Raunverulegur verzlunarlýður var aðeins til utangarðs í fornaldarsamfélaginu, líkt og guðir Epíkúrs[6] og gyðingar í holum pólska þjóðfélagsins. Framleiðsluheildir fornaldarþjóðfélagsins eru miklu fábrotnari og gagnsærri en þær borgaralegu. Þær byggjast ýmist á þroskaleysi einstaklinga, sem hafa ekki skorið á naflastreng upprunalegrar ættarsamheldni, eða beinlínis á höfðingjaveldi og ánauðarafstæðum. Þær eru skilorðsbundnar lítilli vinnuframleiðni og að sama skapi öryggisleysi manna í öflun lífsnauðsynja – og þess vegna öryggisleysi eins gagnvart öðrum og allra gagnvart náttúrunni. Þessi raunverulegi ótti endurspeglast í gamalli náttúru- og þjóðtrú. *Trúarleg endurspeglun* veruleikans hverfur yfirleitt ekki fyrr en skilyrði daglegs lífs sýna að jafnaði skynsamlegar og gagnsæjar afstæður manna í milli og til náttúrunnar. Samfélagslegt lífsferli, þ. e. efnalegt framleiðsluferli, varpar ekki af sér huliðsblæju dulrænunnar fyrr en það verður verk frjálsra manna með samfélagslega vitund, er gera sér ljósa grein fyrir því og hafa það undir skipulagðri stjórnun sinni. En til þess þarf efnalegan þjóðfélagsgrundvöll, eða fjölmörg efnaleg lífsskilyrði, sem eru árangur af langri þróunarsögu og kvalafullri.

Þjóðhagfræðin hefur reyndar skilgreint gildið og gildisstærð-

ina – að vísu ófullnægjandi* – og uppgötvað inntakið í formum þeirra, en hún hefur aldrei spurt jafnframt: Hvers vegna tekur þetta inntak einmitt á sig þessa mynd? Hvers vegna tekur vinnan á sig mynd *gildis* vinnuafurðanna, og hvers vegna birtist magn vinnunnar mælt í tímalengd sem *gildisstærð* þeirra?** Í borgara-

---

* Í þriðja og fjórða bindi þessa rits verður sýnt fram á, að greining Ricardos á *gildisstærðinni* er ófullnægjandi, og þó er hún sú bezta. Í klassískri þjóðhagfræði um *gildið* almennt er hvergi gerður glöggur eða vísvitandi greinarmunur á vinnu í mynd *gildis* afurðanna og sömu vinnu, þegar hún birtist í *notagildi* þeirra. Að sjálfsögðu gerir hún í reynd mun á þessu, þegar hún fjallar um megind vinnunnar og svo aftur um eigind hennar. En þar örlar ekki á þeim skilningi, að einber *megindarmunur* vinnunnar er forsenda fyrir *eigindarlegu samræmi* eða *samsvörun*, þ. e. a. s. einskorðun hennar í *sértæka mannlega vinnu*. Ricardo segist t. d. vera sammála þessum ummælum *Destutt de Tracy:* „Þar eð víst er, að líkamlegir og andlegir hæfileikar einir voru upphaflegur auður vor, er nýting þessara hæfileika, ein eða önnur tegund vinnu, upphaflegur fjársjóður vor; og það er ávallt þessi hagnýting, sem skapar alla hluti, er vér köllum auðæfi ... Það er einnig víst, að *í öllum þessum hlutum kemur aðeins fram vinnan sem skapaði þá; og hafi þeir gildi eða jafnvel tvenns konar gildi,* þá er það aðeins *fengið frá* (gildi) *vinnu,* er skapaði þá." *(Ricardo:* „The Principles of Political Economy", London 1821, bls. 334 – *Destutt de Tracy:* „Elements d'ideologie", París 1826.) Vér bendum aðeins á, að Ricardo laumaði eigin djúpstæðari skoðunum inn hjá Destutt, sem segir reyndar annars vegar, að í öllum hlutum, sem mynda auðæfi *„komi fram vinnan,* sem skapaði þá", en á hinn bóginn, að þeir öðlist *„tvenns konar gildi",* (notagildi og skiptagildi) frá *„gildi* vinnu". Þar með dettur hann niður á flatneskju lágkúruhagfræðinnar (vulgarhagfræðinnar[7]), sem *undanskilur* tilveru gildis í einni vöru (í þessu tilviki vinnu), er síðan orsaki gildi annarra vara. Ricardo skilur þetta þannig, að *vinnan* (ekki *gildi* vinnunnar) komi fram bæði í notagildi og skiptagildi. Sjálfur gerir hann sér svo litla grein fyrir *tvíeðli vinnunnar,* að í öllum bókarkaflanum: „Gildi og auðæfi, mismunandi eiginleikar þeirra" verður hann að henda á lofti upptuggur *J. B. Says.* Þess vegna er hann líka steinhissa á því í lokin, að Destutt virðist sammála honum um *vinnuna sem gildisuppsprettu* og samt sammála Say á hinn bóginn um gildishugtakið.

** Það er ein meginvöntun klassískrar þjóðhagfræði, að henni hefur aldrei tekizt í greiningu á vörunni, og einkum þó vörugildinu, að finna einmitt þá mynd gildis, sem breytir því í skiptagildi. Beztu fulltrúar hennar, svo sem A. Smith og Ricardo, fjalla um gildisformin sem eitthvað einskisvert eða eðli vörunnar óviðkomandi. Orsökin er ekki einvörðungu sú, að öll athygli þeirra beinist að greiningu á gildisstærðinni. Orsökin liggur dýpra. Gildisform vinnuafurða er sértækasta, en um leið algengasta form borgaralegs framleiðsluháttar, og lýsir sér þess vegna sem sérstök samfélagsframleiðsla og jafnframt sögulegs eðlis. Sé litið á þetta form sem eilíft eðlisform samfélagsframleiðslu, þá sézt óhjákvæmilega yfir hið sérstæða við gildisformið, vöruformið, og við áframhaldandi þróun þess sézt yfir hið sérstæða við peningaformið, auðmagnsformið o. s. frv. Þess vegna hafa margir hagfræðingar – sem eru sammála um vinnutímann sem mælikvarða gildisstærðar – ólíkustu skoðanir um peninga og fullar af mótsögnum, þ. e. a. s. um fullmótaða mynd af almennu jafngildi. Þetta kemur greinilega í ljós þegar þeir t. d. ræða bankastarfsemi. Þar duga ekki almennar blaðursskilgreiningar á peningum. Til mótvægis kom því til

legri vitund er sú þjóðfélagsskipan, er augljóst fellur undir þau þjóðfélagskerfi, þar sem ferli framleiðslunnar ræður yfir mönnum en mennirnir ekki yfir því, jafn sjálfsögð náttúrunauðsyn og sjálft framleiðslustarfið. Þar er því fjallað um framleiðsluheildir fyrir daga borgaralegs þjóðfélags ekki ólíkt og þegar kirkjufeður ræða trúarbrögð frá því fyrir Krist.*

Leiðinlegar og fjarstæðukenndar þrætur nokkurra hagfræðinga um *hlutverk náttúrunnar* í myndun skiptagildis sýna, hversu langt

sögunnar endurbætt verzlunarfræði (Merkantilsystem.[9] Ganilh o. fl.), sem sér aðeins samfélagsform í gildinu eða öllu heldur bjórinn tóman. Ég segi það hér, í eitt skipti fyrir öll, að með klassískri þjóðhagfræði á ég við hagfræðina eftir daga W. Petty, sem rannsakaði samhengið í borgaralegum framleiðsluafstæðum, öfugt við lágkúruhagfræðina, sem eigrar aðeins innanum sýndarsamhengi til að útlista á sennilegan hátt helztu yfirborðsfyrirbrigði, og tönnlast til borgaralegra heimilisþarfa æ ofan í æ á viðfangsefnum, sem vísindaleg hagfræði hefur fullunnið fyrir löngu. Auk þess láta þeir sér nægja að setja í samlíkingar, kerfisbinda og prédika sem eilíf sannindi gatslitnar og sjálfumglaðar hugmyndir erindreka borgaralegra framleiðsluhátta um þeirra heim, þann eina og bezta.

* „Hagfræðingar haga sér skringilega. Þeir þekkja aðeins tvenns konar tilhögun, tilbúna og samkvæmt náttúrulögmálum. Lénsskipulagið var mannanna verk, borgaralegt skipulag er samkvæmt eðli náttúrunnar. Í þessu líkjast þeir guðfræðingum. Þeir skipa trúarbrögðum í tvo flokka. Öll trúarbrögð, önnur en þeirra, eru mannaverk. Þeirra trúarbrögð eru opinberun guðs. – Veraldarsaga var þannig til, en hún er ekki lengur." (*Karl Marx:* „Misère de la Philosophie. Réponse à la Philosophie de la Misère par M. Proudhon", 1847 bls. 113. – „Eymd heimspekinnar. Svar gegn Heimspeki eymdarinnar eftir M. Proudhon".) Herra *Bastiat* er hjákátlegur. Hann heldur að Forngrikkir og Rómverjar hafi lifað af *ránum.* Sé hægt að lifa af ránum öldum saman, verður eitthvað að vera til að ræna, þ. e. a. s. *efnið* í ránsfenginn verður að endurframleiðast sí og æ. Það virðist því svo að Grikkir og Rómverjar hafi búið við framleiðsluferli eða þjóðarbúskap, sem var efnaleg undirstaða að tilveru þeirra á sama hátt og borgaralegur þjóðarbúskapur er grundvöllur að tilveru okkar. Eða heldur Bastiat að framleiðsluháttur, sem byggir á *þrælavinnu* sé *ræningjaskipulag?* Þá er hann kominn út á hálan ís. Fyrst *Aristóteles,* þessum andans jöfri, skeikaði í mati sínu á *þrælavinnunni,* hvernig ætti þá annar eins andans dvergur og *Bastiat* að meta *launavinnu* rétt? Ég nota þetta tækifæri til að vísa á bug andmælum, sem komu fram í þýzkamerísku blaði, er rit mitt „Drög að gagnrýni á þjóðhagfræði" – „Zur Kritik der politischen Ökonomie" kom út 1859. Ég segi þar, að ákveðinn framleiðsluháttur og samsvarandi framleiðsluafstæður hverju sinni „myndi í heild hagkerfi þjóðfélagsins, þann raunverulega grundvöll, sem lagaleg og stjórnmálaleg yfirbygging hvílir á, og viss form félagslegrar vitundar mótsvara. Framleiðsluháttur hins efnalega lífs skilorðsbindur félagslegt, stjórnmálalegt og andlegt lífsferli yfirleitt." – Allt mun þetta rétt á vorum dögum, segir blaðið, þegar efnaleg sjónarmið ráða öllu, en hvorki á valdaskeiði kaþólskunnar á miðöldum né í Aþenu eða Róm til forna, þar sem pólitíkin réði öllu. – Það er í sjálfu sér merkilegt, að nokkrum skuli geta dottið í hug, að til séu þeir menn, er ekki vita skil á þessum talsháttum um miðaldirnar og fornöldina. En svo mikið er víst, að ekki gátu miðaldirnar *lifað* á kaþólskunni eða fornöldin á pólitíkinni. Aðferðir til öflunar lífsnauðsynja skýra aftur á móti, hvers vegna pólitíkin í

þeir hafa látið leiðazt afvega af blætistöfrum, sem loða við *heim vörunnar*, eða m. ö. o. af *hlutlægu* skini *félagslegra* vinnuákvarðana. Þar eð skiptagildið er ákveðinn þjóðfélagsháttur, sem sýnir vinnu í búningi ákveðins hlutar, felur það ekki í sér náttúruefni frekar en t. d. *víxlagengi*.

Þar eð *vöruformið* er algengasta og vanþroskaðasta mynd borgaralegrar framleiðslu, og leit því snemma dagsins ljós – reyndar ekki í þeirri drottnandi og sérkennilegu mynd, sem það hefur nú – virðist blætiseðli þess ennþá all augljóst. Um leið og formið verður hlutbundnara, hverfur þessi sýndar einfaldleiki. Hvaðan stafa blekkingar þess fræðikerfis, sem fjallar um peninga eða gangsilfur (Monetarsystem[8])? Þar skortir skilning á því, að gull og silfur sem peningar stendur fyrir ákveðnum framleiðsluafstæðum samfélagsins. Aftur á móti er því haldið fram, að þessir hlutir hafi sérstaka þjóðfélagseiginleika frá náttúrunnar hendi. Nútíma hagfræðingar brosa háðslega að þessari kenningu, en verður ekki blætisdýrkun þeirra sjálfra áþreifanleg, þegar þeir fjalla um *auðmagnið?*[11] Hve langt er síðan sú blekking fysiokrata[10] leið undir lok, að jarðrenta yxi á jörðinni, en myndaðist ekki í þjóðfélaginu?

Áður en lengra er haldið, ætti að nægja enn eitt dæmi um vöruformið. Ef vörurnar gætu talað, myndu þær segja: Mennirnir hafa e. t. v. áhuga á notagildi okkar. Það varðar okkur ekki sem hluti. *Sem hlutum* kemur aðeins gildið okkur við. Afstæði okkar í milli sem vörur sannar það. Við erum aðeins skiptagildi hver gagnvart annarri. En hlustið á, hvernig hagfræðingar tala fyrir munn varanna: *„Gildi* (skiptagildi) *er eiginleiki hluta;* auðæfi (notagildi) er eiginleiki manna. Í þessum skilningi eru skiptin forsenda gildis, en ekki auðæfa."* „Auðæfi (notagildi) er eiginleiki *mannsins, gildi er eiginleiki vöru.* Maður eða félagssamtök eru *rík;* perla eða demantur er *verðmæti* ... Perla eða demantur *hefur gildi sem perla eða demantur.*"**

---

Aþenu og Róm í fornöld lék aðalhlutverkið og kaþólskan á miðöldunum. Það þarf sérstaka þekkingu, t. d. á sögu rómverska lýðveldisins, til að vita, að eignarhaldið á jörðinni er innri þráður hennar, hin dulda saga. Á hinn bóginn varð Don Quixote að súpa seyðið af þeirri villutrú sinni, að farandriddarar gætu aðlagað sig jafn auðveldlega öllum þjóðfélagsháttum.

* *„Value is a property of things,* riches of men. Value, in this sense, necessarily implies exchange, riches do not." „Observations on certain verbal disputes in Political Economy, particulary relating to value and to demand and supply." London 1821. bls. 16.)

** „Riches are the attributes of man, value is the attributes of commodities. A man or a community is rich, a pearl or a diamond is valuable ... A pearl or a diamond *is valuable as a pearl or diamond.*" *S. Baily* „A critical Dissertation o. s. frv.", bls. 165.

Fram að þessu hefur enginn efnafræðingur uppgötvað skiptagildi í perlum og demöntum. Hinir hagfróðu uppgötvarar þessa efnis – þeir gera háar kröfur um gagnrýna hugsun – uppgötva, að notagildið er óháð efniseiginleikum hluta, en gildið er eiginleiki þeirra sem hluta. Rótin að þessum hugmyndum er þær sérkennilegu aðstæður, að notagildi hluta birtist manninum *án skipta,* þ. e. a. s. í umbúðalausri afstæðu hlutar til manns, en gildið kemur aftur á móti aðeins í ljós í *skiptunum,* þ. e. a. s. í *samfélags*ferlinu. Þetta leiðir hugann að okkar ágæta Dogberry, þegar hann var að fræða Seacoal næturvörð: „Ytri fegurð er gjöf *afstæðna,* að lesa og skrifa er *eðlisgáfa.*"*

* Höfundur „Observations" og *S. Baily* ásaka Ricardo fyrir að hafa breytt skiptagildinu úr einhverju *hrein afstæðu* í einhverskonar *sértak.* Þessu er öfugt farið. *Sýndarafstæðinu,* sem þessir hlutir hafa sem skiptagildi – t. d. demantar og perlur – breytti hann í hið sanna *afstæði,* er lá hulið á bakvið, umbúðalausa holdtekju eða birtingu mannlegrar vinnu. Þegar fylgismenn Ricardos svöruðu Baily fullum hálsi, en ekki að sama skapi sannfærandi, var það vegna þess, að þeir gátu ekki fundið hjá Ricardo neina skýringu á innra samhengi *gildis* og *gildisforms* eða *skiptagildis.*

Karl Marx: „Das Kapital", I. bindi, 1. kafli, 4. grein.

## Skýringar þýðenda

1) Greinin heitir á frummálinu: „Der Fetischcharakter der Ware und sein Geheimnis". Það er vafaatriði hvort betra sé, að nota erlenda orðið *fetis* (helgur dómur, máttar- og töfragripur) eða reyna að finna hentugt íslenzkt orð. Það varð þó að ráði að fara hér að gefnu fordæmi og nota orðið *blæti.* Er það úr fornu máli og af sérfróðum mönnum talið hafa nánast sömu merkingu eða svipaða (sbr. Völsa þátt í Flateyjarbók).

2) Eftir ósigur byltingarinnar 1848–49 skall á afturhaldsmyrkur í stjórnmálum Evrópu. Háyfirstéttin og borgaralegir hópar hrifust þá af andatrú, einkum og sér í lagi af því að fá anda í borð eða *borðdansi.* Um líkt leyti hófst í *Kína* frelsisbarátta gegn lénsskipulaginu, mestmegnis bændahreyfing, svokölluð Tai-Ping uppreist (1850–64), sem jafnframt var upphafið að baráttu Kínverja gegn erlendri ásælni.

3) *Samsvörun* mannlegrar vinnu. Mannleg vinna er mismunandi og ólík, en í gildi vinnuafurða í vöruformi felst samsvörun (Gleichheit, Identität) allrar vinnu innbyrðis, nánar til tekið í abstrakt mannlegri vinnu. Gildið er því nokkurs konar abstrakt samnefnari mismunandi og ólíkrar vinnu, þar sem öll sérkenni hennar mást út, og skapar það þannig möguleika og grundvöll að innbyrðis samanburði eða *afstæði* gildisstærða.

4) Ricardo minnist á *„samsíðunga hr. Owens"* í ritinu „On protection to agriculture", London 1822, bls. 21. Owen hélt því fram, að bæði frá sjónarhorni iðnvæðingar og heimilishagræðis væri hagkvæmast að reisa íbúðabyggingar sem samsíðunga eða á rétthyrndum fleti.

5) *Deismi,* trúarheimspeki, sem kom fram á Englandi á 16. og 17. öld, játar trú á persónulegan guð og skapara heimsins, en neitar því, að hann hafi eftir

það afskipti af þróun heimsins eða geri kraftaverk. Deistar reyna að skýra heiminn samkvæmt vísindalegum náttúrulögmálum.

6) *Guðir Epikúrs.* Forngríski heimspekingurinn *Epikúr* (341–270 f. Kr.) taldi heimkynni guðanna í einhvers konar milliheimi (Intermundium), og þeir hefðu engin áhrif á rás heimsviðburða eða líf manna.

7) *Lágkúruhagfræði – Vulgarhagfræði* (lat. vulgaris). Marx notaði þetta orð um yfirborðslega, fákæna og lágkúrulega borgaralega hagfræði eftir daga Ricardos (1772–1823).

8) *Monetarismi,* hagfræðikenning á 16. og 17. öld – bernskuárum borgaralegs þjóðfélags – sem heldur því fram, að gull og silfur þ. e. peningar, séu einu auðæfin og því skuli keppt að söfnun góðmálma. Kenningin telur peningana auðmagn. En hún bendir þó á, að skilyrði fyrir þróaðri kapítaliskri framleiðslu sé framleiðsla á heimsmarkað og umbreyting afurða í vöru og þá peninga.

9) Afbrigði og framhald ofangreindrar kenningar var *merkantilisminn* á 17. öld í þróuðustu mynd sinni, einkum útbreiddur í Frakklandi og Englandi. Hann telur, að umbreyting vöruverðs í peninga skipti ekki lengur öllu máli, heldur öflun gildisauka, sem myndist í verzluninni og því skuli m. a. stefnt að hagstæðum vöruskiptajöfnuði.

10) *Physiokrat* – áhangandi þeirrar hagfræðikenningar 18. aldar, er einkum var útbreidd í Frakklandi og kenndi, að gildisaukinn myndaðist ekki í hringrásarsviðinu, heldur beint í framleiðslunni sjálfri. Að því leyti lagði þessi kenning grundvöll að rannsókn á kapítalískri framleiðslu og jafnframt þjóðarbúskapnum í heild. En hjá fysiokrötum telst þó landbúnaður og framleiðsla hráefna einu framleiðnu atvinnugreinarnar; í öðrum væri aðeins unnið að því að umbreyta afurðunum.

11) Við þróun gildisforms eða vöruforms vinnuafurða samfara þróun þjóðfélagsins kemur fram form almenns jafngildis eða peningaform og síðar auðmagnsform, þ. e. form þess gildis, er skilar gildisauka við arðránsafstæðum auðvaldsþjóðfélagsins. (Íslenzka orðið *fé* hefur fylgt þessari þróun eftir í gegnum öll þrjú formin: fé (sauðkind) fyrst til afurðaskipta og síðar sem söluvara; fé (sauðkind – peningaígildi – peningar) sem mælieining afurðaverðmætis einstaklingsvinnu og því næst sem almennt jafngildi heildarvinnu, sem aðrar vörur eru settar í afstæði til við vöruskipti, þá peningar við kaup og sölu; og að síðustu fé sem auðmagn (stofnfé, rekstrarfé o. fl.), jafnvel sem auðmagn í sinni æðstu mynd: lánsfé). Við þessa þróun formsins verður blætiseðlið æ óljósara, blætistöfrarnir aukast, eins og Marx ræðir nánar um á ýmsum stöðum í hagfræðiriti sínu Das Kapital.

Blætiseðli vöru stafar frá vöruforminu og felst í því, að vöruformið enduspeglar mönnum samfélagseðli þeirra eigin vinnu sem hlutkennt eðli vinnuafurðanna sjálfra. Blætiseðli peninga er áþekkt eins og Marx bendir á hér, þegar hann getur um blekkingar hagfræðikenninga varðandi blætiseðlið.

*Blætiseðli auðmagns* stafar frá auðmagnsforminu og felst í því, að auðmagnsformið endurspeglar mönnum framleiðsluafstæði í auðvaldsþjóðfélagi sem hlutkennt eðli auðmagnsins sjálfs.

Blætisríkasta form auðmagnsins er fé á vöxtum (zinstragendes Kapital – sjá Das Kapital, III. bindi, 24. kafla). Auðmagnið birtist þá sem hlutur (gildi, vörur, peningar), er hafi þá eiginleika að ná þeim árangri sem í reynd er alls endurframleiðsluferlisins – þ. e. gildisaukningu. Notagildi þeirra verður hér það að auka við gildið – fá fram stærra gildi en þeir svara sjálfir til.

Samfélagsafstæði nær þannig hámarki blætistöfra sem afstæði hlutar til sjálfs sín (peninga til peninga, lánsfjár til vaxta). Auðmagnið, þetta fram-

leiðsluafstæði eða gildi, virðist skapa verðmæti, vera uppspretta eigin vaxtar. Ennfremur snýst þetta við: vextir, sem hluti af heildargróða, birtast sem eiginlegur ávöxtur lánsfjár, en gróði í formi atvinnurekendahagnaðar sem einhvers konar viðauki. Lágkúruhagfræðingum („nútíma hagfræðingum") er þetta fundið fé, þegar þeir eru að útlista auðmagnið sem sjálfstæða uppsprettu gildis, sjálfstæða uppsprettu gróða. Blætisdýrkun þeirra verður áþreifanleg, þegar þeir fjalla um auðmagnið.

KARL MARX

# Leyndardómur upphaflegrar upphleðslu auðmagns

Vér höfum séð hvernig peningum er breytt í auðmagn, gildisauka er aflað með auðmagni og hann síðan látinn auka auðmagnið. Upphleðsla auðmagns (Akkumulation des Kapitals) er skilorðsbundin gildisaukanum, hann aftur framleiðsluhætti kapítalismans, sem er því aðeins mögulegur að einstakir vöruframleiðendur drottni yfir miklu auðmagni og vinnuafli. Þessi hreyfing öll virðist því snúast í takmarkaðri hringrás, sem ekki er hægt að brjótast út úr, nema með því að gera ráð fyrir, að „upphafleg" *upphleðsla* („previous accumulation" segir Adam Smith) hafi átt sér stað, áður en *kapítalisk upphleðsla* hefst – upphleðsla, sem er ekki *afleiðing* framleiðsluháttar kapítalismans, heldur upphaf.

Þessi *upphaflega upphleðsla* leikur sama hlutverk í þjóðhagfræðinni og *syndafallið* í guðfræðinni. Adam beit í eplið og þá kom syndin í heiminn. Upphaf hennar er skýrt í gamansögu frá fortíðinni. Í grárri forneskju var annars vegar iðinn, greindur og framar öllu sparsamur fyrirmyndarhópur; á hinn bóginn latur ruslaralýður, sem sóaði öllu sínu og meira til. Goðsögn trúarbragðanna um syndafallið segir oss a. m. k., hvers vegna maðurinn er dæmdur til að neyta síns brauðs í svita síns andlits. En sagan um efnahagssyndafallið segir oss, hvernig á því stendur að samt er til fólk, sem alls ekki þarf þess. Þetta gerðist sem sé þannig. Fyrri hópurinn *hlóð upp auðæfum,* hinn átti að lokum ekkert eftir til að selja nema sjálfan sig. Frá þessu syndafalli stafar *fátækt alls almennings,* sem enn þann dag í dag – þrátt fyrir allt stritið – á ekkert að selja nema sjálfan sig; og *auðæfi þeirra fáu,* sem vaxa sí og æ, enda þótt þeir séu löngu hættir að vinna. Slíkt barnahjal ber herra Thiers o. fl. í hátíðlegri alvöru á borð fyrir hina áður fyrr andríku Frakka sem vörn fyrir *propriété* (séreignina). Um leið og eignarréttur kemur til umræðu er það

heilög skylda að halda sér við stafrófskverið sem hina einu réttu skýringu handa öllum aldursflokkum og á öllum þróunarstigum. Vér vitum, að í hinni raunverulegu sögu eru stóratburðirnir landvinningar, kúgun, ránmorð – í einu orði: *Ofbeldi.* Í hinni hógværu þjóðhagfræði ríkir friðsældin frá fornu fari. Réttindi og „vinna" voru alltaf einu leiðirnar til auðgunar. Auðvitað með undantekningum *þetta* árið eða *hitt.* Í veruleikanum eru aðferðir upphaflegrar upphleðslu allt annað en friðsamar.

Peningar og vara eru ekki auðmagn frá upphafi, ekki fremur en framleiðslutæki og lífsnauðsynjar. Það verður að *breyta þeim í auðmagn.* Þessi umbreyting getur aðeins orðið við ákveðin skilyrði. Í stuttu máli þannig: Tveir eigendur að mjög ólíkum vörum þurfa að hittast. Annar er *eigandi að peningum, framleiðslutækjum og lífsgögnum* og vill *auka þessi verðmæti* með kaupum á framandi vinnuafli. Hinn er *frjáls verkamaður,* seljandi eigin vinnuafls og því seljandi vinnu. Verkamaðurinn er frjáls í þeirri tvöföldu merkingu, að hann telst ekki beinlínis til framleiðslugagna, svo sem þrælar, ánauðugir bændur o. s. frv. Hann á ekki heldur framleiðslugögn eins og sjálfsegnarbændur o.þ.u.l. Hann er þvert á móti frjáls af þessu, laus og liðugur. Með þessari *klofning vörumarkaðsins* er grundvöllurinn lagður að kapítalískri framleiðslu. *Útilokun verkamanna frá eignarhaldi á þeim tækjum, sem nauðsynleg eru til þess að vinna geti átt sér stað,* er forsenda fyrir afstæði auðmagnsins. Jafnskjótt og framleiðsla kapítalismans hefur komið undir sig fótum, *viðheldur* hún ekki aðeins þessum aðskilnaði, heldur *endurframleiðir hann í æ ríkara mæli.* Ferlið sem *skapar* afstæður auðmagnsins, hlýtur að vera það sama ferli og *útilokar verkamenn frá eignarhaldi á eigin* vinnubrögðum, ferli, sem annars vegar *breytir* lífs- og framleiðslugögnum samfélagsins í *auðmagn,* og á hinn bóginn beinum framleiðendum í *launamenn.* Svokölluð *upphafleg upphleðsla* er því ekkert annað er sögulegt ferli, *sem aðskilur framleiðendur* frá framleiðslugögnunum. Hún virðist *„upphafleg"* af því að hún heyrir til *forsögu auðmagnsins* og framleiðsluháttar kapítalismans.

Efnahagsbygging auðvaldsþjóðfélagsins er vaxin upp úr efnahagsbyggingu lénsskipulagsins. Upplausn þess leysti úr viðjum frumparta auðvaldsskipulagsins.

Hinn beini framleiðandi, verkamaðurinn, fékk þá fyrst umráð yfir sjálfum sér, er hann var ekki framar hnepptur við torfuna og ánauðugur.

Til þess að verða frjáls seljandi vinnuafls, geta boðið vöru sína hvar sem markaður finnst, varð hann auk þess að varpa af sér drottnun gildanna, lærlinga- og sveinaskipan þeirra og

þvingunum. Þannig birtist sú sögulega framvinda, sem breytir framleiðendum í launaverkamenn. Á annan bóginn er lausn þeirra undan vinnukvöð og ófrelsi gildanna – sú hliðin, sem borgaralegir sagnfræðingar sjá. Á hinn bóginn verða þessir nýfrjálsu verkamenn þá fyrst seljendur eigin vinnuafls, er öll framleiðslugögn eru af þeim tekin og þeir hafa glatað því tilveruöryggi, sem gömlu lénsstofnanirnar veittu þeim. Frásögnin af þessu eignarráni er skráð í annála mannkynssögunnar með blóði og eldi.

Iðnaðarkapítalistarnir, nýju herrarnir, urðu ekki aðeins að bola burt gömlu iðnmeisturum gildanna, heldur og lénsherrunum sem réðu yfir auðsuppsprettunum. Frá þessum sjónarhól virðist leið þeirra til valda ávöxtur sigursællar baráttu gegn lénsveldi og andstyggilegum sérréttindum, sem og gegn gildunum og þeim hömlum, er þau lögðu á frjálsa þróun framleiðslu og óhindrað arðrán manns af manni. En riddurum iðnaðarins tókst því aðeins að bola burt riddurum sverðsins, að þeir nutu góðs af atburðum, sem þeir voru sjálfir saklausir af. Þeir brutust til valda með sömu óþokkalegu aðferðunum og rómverskir leysingjar á sínum tíma beittu verndara sína.

*Þrælkun verkamannsins* var upphafið að þeirri þróun, sem skapaði bæði launamenn og kapítalista. Framhaldið var fólgið í því, að *þrælkunin tók á sig nýja mynd, í stað arðráns lénsskipulagsins kom arðrán kapítalismans.* Til þess að skilja gang þessarar þróunar þurfum vér ekki að líta langt aftur. Tímaskeið kapítalismans hefst á 16. öld, enda þótt vér hittum fyrir fyrstu vísa að kapítalískri framleiðslu á víð og dreif í nokkrum Miðjarðarhafsborgum þegar á 14. og 15. öld. Hvarvetna þar sem framleiðsluháttur kapítalismans komst á legg var bændaánauðin löngu úr sögunni og mesti frægðarljómi miðaldanna, tilvera óháðra borgríkja, var löngu farinn að dofna.

Allar þær umbreytingar, sem verðandi auðvaldsstétt notaði sér að lyftistöng, marka tímamót í sögu upphaflegrar upphleðslu, en einkum þó þeir viðburðir, er snögglega og með ofsafengnu afli hröktu stórhópa frá lífsgögnum sínum og kastaði þeim á vinnumarkaðinn sem alfrjálsum öreigum. Grundvöllurinn að þessu ferli öllu er *eignarránið á landi bænda, framleiðenda landbúnaðarafurða.* Þessi saga gerist með breytilegum blæbrigðum eftir löndum, gengur í gegnum hin ýmsu þróunarstig í misjafnri röð og á ólíkum söguskeiðum. Aðeins í Englandi verður þessi þróun með klassískum hætti, og munum vér því hér á eftir taka dæmin þaðan.*

* Bændaánauðin hvarf fyrr á Ítalíu en í öðrum löndum, af því að kapítalísk framleiðsla hófst þar einna fyrst. Ánauðinni var aflétt áður en bænd-

urnir höfðu öðlazt nokkurn rétt til jarðanna. Jafnskjótt og þeir losnuðu úr ánauðinni urðu þeir alfrjálsir öreigar, og hinir nýju húsbændur biðu þeirra albúnir í borgum, sem staðið höfðu alla tíð frá dögum Rómverja. Þessi framvinda tók öfuga stefnu, þegar byltingin á heimsmarkaðinum batt endi á verzlunarveldi Norðurítalíu í lok 15. aldar. Verkamenn voru sendir í stórhópum úr borgunum upp í sveit og ítalskur garðholubúskapur tók áður óþekktum framförum.

Das Kapital, I. bindi, 24. kafli, 1. grein.

KARL MARX

# Söguleg þróunarstefna kapítalískrar upphleðslu

Í hverju felst *upphafleg upphleðsla auðmagns,* þ. e. a. s. sögulegur uppruni? Að því leyti sem hún er ekki eingöngu stakkaskipti frá þrælum og ánauðugum bændum í launamenn – eða *útlitsbreyting einber* – táknar hún aðeins *rán á eignum beinna milliliðalausra framleiðenda; sem sé afnám þeirrar séreignar, er byggist á vinnu eigandans.*

Séreign sem andstæða samfélags- eða sameignar er þá aðeins til, að vinnutækin og ytri skilyrði vinnunnar séu í eigu einstaklingsins. En eðli séreignar fer eftir því, hvort þessir einstaklingar eru verkamenn eða ekki verkamenn. Hin mýmörgu tilbrigði við fyrstu sýn endurspegla aðeins þrepin milli þessara andstæðu skauta.

Séreign verkamanna á vinnutækjum er grundvöllur smáframleiðslu. Og smáframleiðsla er nauðsynleg forsenda fyrir vexti samfélagsframleiðslu og frjálsu einstaklingseðli verkamannsins. Vissulega var þessi framleiðsluháttur til í þrælaskipulaginu, við bændaánauð og aðrar aðstæður ófrelsis, en hann blómgast aðeins, vex ásmegin og fær sígildan svip þegar verkamaðurinn er *frjáls eigandi vinnutækja í eigin hendi og ræður vinnuskilyrðum sínum,* bóndinn á jörðina, sem hann erjar, handiðnaðarmaðurinn áhöldin, sem leika í höndum hans.

Landið og önnur framleiðslutæki *dreifð* á margra hendur er forsenda þessa framleiðsluháttar. Hann útilokar samruna framleiðslutækja, einnig samvinnu og verkaskiptingu í einstökum þáttum framleiðsluferlisins, þjóðfélagslegt vald og stjórn á náttúruöflunum – og frjálsa þróun framleiðsluafla *þjóðfélagsins.* Hann getur aðeins lagað sig að þröngum og frumstæðum takmörkunum framleiðslu og þjóðfélags. Að lengja lífdaga hans um alla tíð væri, eins og Pecqueur segir, „að fyrirskipa almenna meðalmennsku“. Á vissu þróunarstigi elur hann af sér efnislega orsök

að eigin tortímingu. Frá þeirri stundu hrærast í skauti þjóðfélagsins ástríðuþrungin öfl, sem finna að þau eru hlekkjuð af honum. Það verður að tortíma honum, og honum verður tortímt. Endalok hans, *umbreyting dreifðra framleiðslutækja í samfélagsleg og samrunnin,* færsla á dvergeignum margra manna í risaeign fárra, jafnframt *eignaráni á landi, lífsnauðsynjum og verkfærum alls almennings* – þetta þungbæra eignarán- og sársaukafulla *öllum almenningi* er forspilið að sögu auðmagnsins. Það spannar yfir fjölmargar þvingunaraðgerðir, en vér höfum aðeins dregið fram í dagsljósið þær, sem mörkuðu hvörf í *aðferðum upphaflegrar upphleðslu auðmagns.* Ránið á eignum beinna framleiðenda er framið á vægðarlausan ribbaldahátt og rekið áfram af svívirðilegum, og viðbjóðslegum hvötum, smásmugulegum og hatursfullum. *Kapítalískur séreignaréttur* byggður á arðráni á aðfenginni vinnu, frjálsri að nafninu til,* útrýmir *séreign byggðri á vinnu* hvers eins, nánast óháðs, *vinnandi einstaklings samvöxnum verkfærum sínum og vinnuskilyrðum.*

Jafnskjótt og *ferli umbreytinganna* hefur sundurtætt nægjanlega gamla þjóðfélagshætti á alla vegu, jafnskjótt og verkamenn hafa breytzt í öreiga og *vinnuskilyrði* þeirra í *auðmagn,* jafnskjótt og framleiðsluhættir kapítalismans standa á eigin fótum, birtist í nýjum myndum áframhaldandi þróun á framleiðslutækjum í *samfélagsleg framleiðslutæki;* og þar með tekur áframhaldandi *eignarán einstaklingseignar* á sig *nýjar myndir.* Nú er það ekki lengur verkamaður með eigin rekstur, sem verður fyrir eignaráninu, heldur kapítalisti, sem arðrænir fjölda verkamanna.

Þetta *eignarán* gerist í samspili innri lögmála *auðvaldsframleiðslunnar,* er samofið *samþjöppun auðmagnsins.* Einn kapítalisti stendur yfir höfuðsvörðum margra annarra. Samhliða þessari samþjöppun – eða *eignaráni fárra kapítalista frá mörgum* – þroskast í æ ríkara mæli samvirk tilbrigði vinnuferlisins, vísvitandi hagnýting vísinda í þjónustu tækninnar, skipuleg nýting jarðarinnar, atvinnutækin taka þeim breytingum, að margir þurfa að starfrækja þau í félagi. Með félagslegri og samfélagslegri vinnu batnar nýting þeirra. Þjóðir heimsins flækja sig í net heimsmarkaðs og lenda jafnframt undir alþjóðlegri drottnun auðvaldsins. Jafnframt sífækkandi auðdrottnum, sem hrifsa til sín ávinninga umbreytingarferlisins, eykst eymd og ánauð, þrælkun, úrkynjun og arðrán, en einnig uppreistarhugur ört vaxandi verkalýðsstéttar, sem þjálfast og treystir samtök sín og sam-

* „Vér stöndum frammi fyrir nýju þjóðfélagsástandi . . . vér reynum að aðskilja sérhverja tegund eignar frá sérhverri tegund vinnu." (Sismondi: „Nouveaux Principes d'Economie Politique" II. bindi, bls. 434, París 1827.)

stöðu í gangverki framleiðsluferlis kapítalismans. *Einokunarauðmagnið verður fjötur um fót framleiðsluháttunum,* sem hafa þróazt samhliða og í skjóli þess. Samruni framleiðslutækja og samfélagseðli vinnunnar nær því marki, að ósamrýmanlegt verður spennitreyju auðvaldsins. Hún rifnar, *Lokastund séreignar auðvaldsins rennur upp. Eignaræningjarnir verða rúnir eignum sínum.*

Kapítalísk sérhelgun, sprottin af framleiðsluháttum kapítalismans – en hún elur af sér *kapítalíska séreign* – er *fyrsta neikvæðið* (Negation) *á séreign einstaklingsins* af eigin vinnu. En framleiðsluhættir auðvaldsins ala og af sér sitt eigið neikvæði sem óumflýjanlega náttúrunauðsyn. Það er *neikvæði neikvæðisins* (Negation der Negation). Það endurreisir ekki séreignarréttinn, en einstaklingarnir öðlast *einstaklingseign* á grundvelli ávinninga frá tímaskeiði auðvaldsins, þ. e. a. s. *samvinnu- og sameign á landi og þeim framleiðslutækjum, sem vinnan sjálf hefur skapað.*

Umskiptin frá dreifðri séreign á grundvelli einstaklingsvinnu í *kapítalíska* er vitanlega langtum langvinnara ferli, strangara og erfiðara, en umbreyting kapítalískrar séreignar í samfélagslega, er byggir í raun og veru á samfélagsframleiðslu, sem þegar er orðin staðreynd. Í fyrra tilvikinu er um að ræða eignarán fárra valdræningja frá öllum almenningi, í því síðara eignarán alls almennings frá fáum valdræningjum.*

Das Kapital, I. bindi, 24. kafli, 7. grein.

---

* „Borgarastéttin ber iðnaðarþróunina uppi, án þess að henni sé það sjálfrátt og án þess hún fái rönd við reist. En iðnaðarþróunin bindur endi á einangrun þá, sem samkeppnin skapar meðal verkamanna, og sameinar þá í byltingarsamtökum. Fyrir þróun stóriðjunnar er sjálfum grundvellinum kippt undan fótum borgarastéttarinnar, en á grundvelli þeim hvílir öll framleiðsla hennar og eignahagsskipan. Borgarastéttin skapar fyrst og fremst sinn eigin höfuðbana. Fall hennar er jafn óhjákvæmilegt og sigur öreigalýðsins . . . Af öllum þeim stéttum, sem standa andspænis borgarastéttinni, er öreigalýðurinn einn byltingarsinnuð stétt í raun og sannleika. Aðrar stéttir hrörna og líða undir lok í rás iðnþróunarinnar, en öreigalýðurinn er holdgetið afkvæmi hennar. Miðstéttirnar, smáiðjuhöldar, smákaupmenn, handverksmenn og bændur berjast allir gegn borgarastéttinni til þess að forða miðstéttartilveru sinni frá tortímingu. Þessar stéttir eru því ekki byltingarsinnaðar, heldur íhaldssamar. Þær eru meira að segja afturhaldssamar, þær vilja beina rás söguþróunarinnar aftur á bak". (Marx–Engels: Kommúnistaávarpið, ísl. þýð. Rvk. 1949, bls. 104 og 101–102).

FRIEDRICH ENGELS

# „Auðmagnið“ eftir Karl Marx

## I.

Allan þann tíma, sem kapítalistar og verkamenn hafa fyrirfundizt í heimi hér, hefur engin bók komið út, sem er verkalýðnum neitt svipað því eins mikilvæg og sú, sem hér verður gerð grein fyrir. Í henni er í fyrsta sinn rakið á vísindalegan hátt samband fjármagns og vinnu, en það atriði skiptir í raun réttri sköpum í þjóðskipulagi því sem við búum við, og þetta er gert með þeirri vandvirkni og skarpleika, sem er Þjóðverjum einum lagin. Þótt rit Owens, Sains-Simons og Fouriers séu og verði mikils um verð, átti það fyrst fyrir Þjóðverja einum að liggja að öðlast þann víðfeðma skilning, sem veitir glögga yfirsýn yfir öll svið nútíma samfélags, líkt og sá sem klifið hefur hæsta tindinn, getur litið yfir holt og hæðir sem lægra liggja.

Þjóðhagfræði fyrri ára kennir, að vinnan sé uppspretta alls auðs og mælikvarði á öll verðmæti. Af því leiðir að tveir hlutir, sem tekið hefur jafnlangan tíma að framleiða eru jafnir að verðgildi, og af því leiðir enn, að aðeins er hægt að skiptast á jöfnu gildi að öðru jöfnu og að skipti hljóta að fara fram á þeim grundvelli. En jafnframt er það kenning hennar, að til sé vinna, sem hefur hlaðizt upp, og er hún það, sem kallað er auðmagn; að þetta auðmagn með öllum þess gögnum og gæðum, hundrað- eða jafnvel þúsundfaldi framleiðslu lifandi vinnuafls og eigi því heimtingu á að fá eitthvað í sinn hlut, en þá umbun nefna menn gróða eða ágóða. Sem alkunna er, er þessu í reyndinni þannig farið, að gróði hinnar upphlöðnu dauðu vinnu verður stöðugt gífurlegri og fjármagnseign kapítalistanna stórkostlegri, en á hinn bóginn lækka laun lifandi vinnu og sá fjöldi sem aðeins hefur verkalaun sín sér til lífsframfæris verður æ fjölmennari og snauðari. Hvernig á að leysa þessar andstæður? Hvernig

getur orðið afgangs gróði handa kapítalistanum, þegar verkamanninum er goldið fullt verð fyrir vinnu þá, sem hann leggur í vöruna? En einmitt þannig ætti þessu að vera farið, því að öll skipti fara fram á jafnvirðisgrundvelli. Hins vegar mætti spyrja, hvernig unnt sé að eiga skipti á jafnvirðisgrundvelli, hvernig verkamaðurinn fái fullborgað fyrir framleiðslu sína, ef þessi vara skiptist milli hans og kapítalistans, eins og fjölmargir hagfræðingar játa að gert sé? Hin eldri hagfræði stendur ráðþrota gagnvart þessum andstæðum; vandræðalegt og ómerkilegt orðagjálfur eitt saman hefur hún fram að færa í ræðu og riti. Jafnvel þeir sósíalistar sem til þessa hafa gagnrýnt hagfræðina, hafa ekki verið annars megnugir en draga fram andstæðurnar. En enginn hefur kunnað lausn á þeim, fyrr en Marx hefur nú loks tekizt að uppgötva hvernig gróði þessi myndast og hvar hann á upptök sín, og með því skýrt málin.

Hvað aukningu fjármagns snertir, gengur Marx út frá einfaldri og alkunnri staðreynd, sem við þekkjum; kapítalistarnir ávaxta fjármagn sitt með skiptaverzlun. Þeir kaupa vöru fyrir fé sitt og selja hana síðan fyrir hærri upphæð en þeir hafa goldið fyrir hana. Kapítalisti nokkur kaupir t. d. baðmull fyrir eitt þúsund dali og selur hana að nýju fyrir eitt þúsund og eitthundrað; hann „græðir" semsé eitt hundrað dali. Hagnað þennan, sem nemur hundrað dölum umfram það fjármagn, sem hann réð yfir í upphafi, nefnir Marx gildisauka.

Hvaðan kemur gildisaukinn? Hagfræðingar gera því skóna, að einungis sé skipt á jöfnum verðmætum og þetta stenzt líka – sem sértæk fræðikenning. Kaup á baðmull og sala hennar að nýju geta engu fremur skapað gildisauka en skipti á silfurdal og þrjátíu silfurpeningum eða þótt silfurdalurinn sé aftur fenginn í skiptum fyrir smámynt. Maður verður hvorki ríkari né fátækari við það. Gildisaukinn verður ekki heldur til við það, að seljandi selur vöru fyrir meira en sannvirði eða kaupandi gefur fyrir hana minna en sem nemur verðmæti hennar, af því að allir verða hver af öðrum ýmist kaupendur eða seljendur og það mundi jafna sig upp! Jafnfjarri fer því, að hann verði til við það að kaupendur og seljendur féfletti hverjir aðra gagnkvæmt, því að slíkt mundi hvorki skapa ný verðmæti né gildisauka, heldur einungis skipta því fjármagni sem til er öðruvísi milli kapítalistanna. Þrátt fyrir það, að kapítalisti kaupir vöruna fyrir það sem hún er verð og selji hana fyrir það sem hún er verð, ber hann úr býtum meiri verðmæti en hann lagði út. Hvernig stendur á þessu?

Við þær þjóðfélagsaðstæður sem nú ríkja stendur kapítalistanum til boða á markaðnum *vörutegund* ein, sem er einstök að

því leyti, *að notkun hennar er uppspretta nýrra verðmæta, að hún skapar ný verðmæti.* Þessi vara er vinnuaflið.

Hvert er verðmæti vinnuaflsins? Mælikvarðinn á verðmæti allrar vöru er sú vinna, sem þarf til að framleiða hana. Vinnuaflið byggist á tilvist lifandi verkafólks, sem þarfnast tiltekins magns lífsnauðsynja sér til lífsviðurværis og til að framfleyta fjölskyldu, sem tryggir að vinnuafl verði ætíð í boði, þótt fólk falli frá. Sá tími, sem fer til að framleiða þessar lífsnauðsynjar segir til um verðmæti vinnuaflsins. Kapítalistinn borgar þetta verð fyrir viku og fær á móti notkunarrétt á vinnu verkamannsins í viku. Hvað þetta snertir munu hagfræðingarnir, þeir ágætu menn, vera okkur nokkurn veginn sammála um gildi vinnuaflsins.

Kapítalistinn lætur nú verkamann hefja vinnuna. Eftir ákveðinn tíma mun verkamaðurinn hafa innt af hendi vinnu, sem nemur vikukaupi hans. Ef við gerum því skóna, að vikukaup verkamanns samsvari þriggja daga vinnu, hefur verkamaður sem tekur til starfa á mánudegi endurgoldið kapítalistanum að fullu á miðvikudagskvöldi *gildi þeirrar upphæðar, sem hann fær greidda í kaup.* En hættir hann þá að vinna? Öðru nær. Kapítalistinn hefur keypt vinnu hans *alla vikuna* og verkamaðurinn verður einnig að vinna þá þrjá vikudaga sem eftir eru. Þessi viðbótarvinna, sem verkamaðurinn skilar umfram það, sem nauðsynlegt er til að framleiða upp í kaupið, er *uppspretta gildisaukans,* uppspretta gróðans, og veldur æ meiri auðmögnun.

Enginn skyldi segja, að það sé úr lausu lofti gripið, að verkamaðurinn skili aftur með þriggja daga vinnu því kaupi sem hann hefur fengið og vinni síðan hina þrjá dagana í þágu kapítalistans. Reyndar skiptir það engu máli í þessu sambandi, hvort hann notar einmitt þrjá daga til endurgreiðslu kaupsins eða hvort þeir eru tveir eða fjórir. Það er breytilegt og fer eftir aðstæðum hverju sinni. En mergurinn málsins er, að kapítalistinn hefur upp úr krafstrinum vinnu, sem *engin borgun kemur fyrir,* auk þeirrar sem hann greiðir fyrir. Hér er ekki farið með staðlausa stafi, því að renni sá dagur upp, að kapítalistinn hljóti að staðaldri frá hendi verkamannsins vinnu sem nemur þeirri upphæð sem hann greiðir í laun, myndi hann loka verksmiðju sinni, því að allur gróðinn gengi honum úr greipum.

Þetta er lausn allra þeirra andstæðna sem minnzt hefur verið á. Við höfum nú eðlilega og ljósa skýringu á því hvernig gildisaukinn verður til, en verulegur hluti hans er fólginn í gróða kapítalistanna. Það er greitt fyrir gildi vinnuaflsins, en gildi greiðslunnar er miklu minna en sem svarar því gildi, er kapítalistinn hefur tök á að hafa upp úr vinnuaflinu. Mismunurinn, hin *ólaunaða vinna,* er einmitt gróðahluti kapítalistans, eða öllu held-

ur kapítalistastéttarinnar. Því jafnvel sá gróði sem baðmullarkaupmaðurinn hafði af baðmull sinni í dæminu hér að framan hlyti að vera fólginn í ólaunaðri vinnu, ef verðlag á baðmull hefði ekki hækkað. Kaupmaðurinn hlýtur að hafa selt vöruna baðmullarvöruframleiðanda, sem einnig fær í sinn hlut ágóða til viðbótar þeim 100 dölum, sem fyrr er getið, og hreppir þannig að sínu leyti hluta hinnar ólaunuðu vinnu, sem þeir stinga í eigin vasa. Það er einmitt þessi ólaunaða vinna, sem að öllu samtöldu elur önn fyrir hinum iðjulausu þegnum þjóðfélagsins. Hún stendur undir skattgreiðslum kapítalistastéttarinnar til ríkis og sveitarfélaga, að svo miklu leyti sem hún er skattlögð, og frá henni kemur jarðeigendum jarðrentan. Hún er undirstaða ríkjandi þjóðskipulags.

Fráleitt væri hinsvegar að gera ráð fyrir, að fyrirbærið ólaunuð vinna hafi ekki þekkzt nema við þær aðstæður sem okkur eru búnar, þar sem annars vegar kapítalistar og hins vegar verkamenn standa að framleiðslunni. Þvert á móti hefur hin kúgaða stétt á öllum tímum orðið að inna af höndum vinnu án þess laun kæmu fyrir. Allt það langa tímabil, þegar atvinnuskipanin byggðist á þrælahaldi, urðu þrælarnir að vinna mun meir en sem nam þeim lífsnauðsynjum, er þeim voru látnar í té í staðinn. Sama var uppi á teningnum, meðan bændaánauðin var við lýði, allt þar til kvaðavinnu bænda var aflétt. Í þessu tilviki sést meira að segja einkar ljóslega munurinn á þeim tíma, þegar bóndinn vinnur við að afla sér lífsviðurværis, og á aukavinnutímanum í þágu stórjarðeigandans, af því að vinnan er í báðum tilvikum unnin út af fyrir sig. Þetta sama fyrirbæri sést nú í nýrri og breyttri mynd. Það mun jafnan verða svo, „meðan hluti þjóðfélagsþegnanna hefur einokunarvald yfir framleiðslutækjunum, að verkamaðurinn verður að leggja á sig viðbótarvinnu umfram það sem hann þarf að vinna til að hafa í sig og á. Með henni framleiðir hann það, sem eigendur framleiðslutækjanna taka sér til uppihalds. Skiptir í þessu sambandi engu, hvort hann er frjáls eða ófrjáls“. (Marx, „Das Kapital“ 1. bindi, sjá Marx/Engels: Werke, 23. bindi, bls. 249).

## II.

Í fyrri hluta greinarinnar kom fram, að allir verkamenn sem starfa í þágu kapítalista, inna af höndum tvíþætt starf: Hluti vinnutímans fer til að endurgjalda kapítalistanum þau laun sem hann hefur þegar greitt honum. Þennan þátt vinnunnar kallar Marx nauðsynlega vinnu. En að því loknu verður hann að

vinna enn meir, og skapar með þeirri vinnu *gildisaukann*, sem kemur í hlut kapítalistans, en *gróðinn* er einmitt verulegur hluti hans. Þessi þáttur vinnunnar nefnist *umframvinna*.

Gerum ráð fyrir að verkamaðurinn vinni þrjá daga í viku fyrir kaupi sínu, en vinnuafköst hans hina þrjá dagana falli kapítalistanum í skaut sem gildisauki. Í þessu felst með öðrum orðum, að hann vinnur fyrir kaupinu sínu með sex tíma vinnu á dag og afköst hans hina sex tímana skapa viðbótarverðmæti, sé unnið tólf tíma dag hvern. Vinnuvikan er ekki nema sex dagar og jafnvel þótt sunnudeginum sé bætt við verða dagarnir aðeins sjö, en hvern dag fyrir sig er hægt að vinna sex, átta, tíu, tólf, fimmtán stundir, og jafnvel lengur. Verkamaðurinn lætur kapítalistanum í té dagsvinnu gegn dagskaupi. *En hvað er dagsvinna?* Átta stunda vinna eða átján?

Það er kapítalistum í hag að vinnudagurinn sé eins langur og frekast er unnt. Því lengri sem hann er þeim mun meiri er verðmætasköpunin. Verkamaðurinn finnur réttilega með sjálfum sér, að hver tími, sem hann vinnur, umfram það, sem þarf til endurgjalds verkalaunum, er ranglega af honum hafður. Skrokkurinn á honum fær að finna fyrir því hvað það er að vinna of lengi. Það sem um er barizt er annars vegar gróði kapítalistans, hins vegar heilsa verkamannsins og aðstaða hans til nokkurra tíma hvíldar dag hvern, hvort inntak lífs hans á að vera að vinna, sofa og éta, eða hvort hann á að eiga þess kost að sinna hugðarefnum sínum sem maður. En í framhaldi af þessu er rétt að taka fram, að það er engan veginn undir einstökum kapítalistum eða góðum vilja þeirra komið, hvort þeir afráða að kasta sér út í baráttuna eða að gera það ekki. Það er sjálf samkeppnin sem neyðir jafnvel mestu mannvini úr þeirra hópi til að snúast á sveif með öðrum stéttarbræðrum sínum og taka upp eins langan vinnudag og þeir tíðka.

Baráttan um ákvörðun vinnudagsins hefur staðið allt frá því frjáls verkalýður kom fyrst til sögunnar og til vorra daga. Ýmsar arfteknar venjur um vinnudag hafa haldizt og er það mismunandi eftir starfsgreinum. En í raun og veru eru þær sjaldan í heiðri hafðar. Einungis þar, sem vinnudagurinn er ákveðinn með lögum og lögunum er framfylgt, getur maður í raun réttri talað um eðlilegan vinnudag. Sú skipan mála hefur til þessa einungis tekizt í verksmiðjuhéruðum Englands. Þar hefur vinnudagur verið ákveðinn 10 tímar ($10^1/_2$ tími 5 daga vikunnar, $7^1/_2$ á laugardögum). Þetta gildir fyrir allar konur og drengi á aldrinum 13–18 ára, og þar eð karlmennirnir geta ekki unnið án hjálpar þeirra, er 10 tíma vinnudagur einnig í gildi fyrir þá. Lög þessi eru ávinningur af þolgæði enskra verksmiðjuverkamanna í

þrautseigri og harðvítugri baráttu við verksmiðjueigendur um langt árabil, en í baráttunni hafa þeir notið prentfrelsis, funda- og félagafrelsis, og þeir hafa verið lagnir við að færa sér í nyt klofning innan valdastéttanna. Lögin hafa orðið sverð og skjöldur ensks verkalýðs. Þau hafa smátt og smátt tekið til allra mikilvægari greina iðnaðarins, og í fyrra (1867) var gildissvið þeirra aukið og nær nú yfir *allar greinar iðnaðar*, að minnsta kosti þær sem konur og börn starfa við. Rit það sem hér um ræðir hefur að geyma mjög mikið efni um sögu og lagaákvæði þau sem lúta að takmörkun vinnudagsins í Englandi. Næsta „Ríkisþing norðurþýzka sambandsins“ mun einnig taka til meðferðar lög um iðju og iðnað og í því sambandi ræða takmörkun verksmiðjuvinnu. Við væntum þess, að enginn þeirra þingfulltrúa, sem náð hafa kjöri með tilstyrk þýzkra verkamanna, taki þátt í málsmeðferð, án þess að hafa áður kynnt sér til hlítar það sem segir um málið í riti Marx. *Það er miklu hægt að koma fram.* Sundurþykkja valdastéttanna er slík að vígstaða verkalýðsins er hagstæðari en hún nokkurn tíma var í Englandi, því að *hinn almenni kosningarréttur gerir það að verkum að valdastéttirnar neyðast til að biðla til verkalýðsins.* Fjórir eða fimm málsvarar verkalýðsins geta látið að sér kveða þegar þannig er í pottinn búið, svo framarlega sem þeir kunna að notfæra sér aðstöðu sína og umfram allt, ef þeir vita hver kjarni málsins er. Það vita nefnilega borgararnir ekki. Rit Marx færir þeim í hendur óskoraða vitneskju um öll þessi atriði.

Við látum hjá líða að nefna hér ýmsar aðrar einkar vandaðar rannsóknir af fræðilegum toga og snúum okkur nú að síðustu að lokakaflanum, sem fjallar um samsöfnun eða upphleðslu auðmagnsins. Þar er fyrst sýnt fram á að framleiðsluháttum kapítalismans, þ. e. þeirri framleiðsluskipan sem byggist á tilvist kapítalista annars vegar og launaverkafólks hins vegar, fylgir ekki aðeins það, að auðmagnið skilar sér jafnt og þétt í vasa kapítalistans á nýjan leik, heldur framleiðir hann og fátækt verklýðsins sí og æ á nýjan leik. Þannig er séð fyrir því að stöðugt verða til kapítalistar að nýju, eigendur allra lífsgagna eða hráefna og vinnutækja, og í annan stað ný og fjölmenn verkalýðsstétt sem er tilneydd að selja þessum kapítalistum vinnuafl sitt fyrir ákveðið magn lífsgagna er hrökkva, þegar bezt lætur, aðeins til að viðhalda starfsgetu þeirra og til uppeldis nýrri kynslóð vinnufærra öreiga. En auðmagnið endurnýjast ekki aðeins; það eykst stöðugt og magnast, og jafnframt valdið yfir hinni eignalausu verkalýðsstétt. Og samfara því að það endurframleiðist í æ ríkari mæli endurframleiðir kapítalísk framleiðsluskipan nútímans jafnhliða æ fjölmennari stétt eignalausra verkamanna.

„Upphleðsla auðmagnsins endurframleiðir afstæður auðmagnsins í auknum mæli, fleiri kapítalistar eða stærri annars vegar, á hinn bóginn fjölgar launamönnum ... *Upphleðsla auðmagns þýðir sem sé fjölgun í öreigastéttinni.*" („Das Kapital" 1. bindi, bls. 600).[1] En þar sem framfarir á sviði vélvæðingar og bættir búskaparhættir gera það að verkum að stöðugt þarf færri verkamenn til að framleiða sama vörumagn, og þessi fullkomnun, þ. e. offjölgun verkamanna, er jafnvel örari en sem nemur vexti auðmagnsins, vaknar sú spurning, hvað verði um þennan sívaxandi fjölda verkamanna? Þeir mynda varalið iðnaðarins, sem á krepputímum og í meðalári hefur stopula vinnu og lægra kaup en verðgildi vinnunnar gefur þeim rétt til eða þeir lenda á fátækraframfæri hjá hinu opinbera. En þeir eru kapítalistastéttinni ómissandi á sérstökum uppgangstímum í atvinnulífinu, eins og glögglega hefur sannazt í Englandi. En hvernig sem allt veltist er þeim ætlað það hlutverk að brjóta niður baráttuþrek þeirra verkamanna, sem hafa fasta vinnu, og að halda kaupgjaldi þeirra niðri. „Því meiri sem þjóðarauðurinn er, þeim mun hærri er hlutfallsleg offjölgun íbúa, eða varalið iðnaðarins. Eftir því sem varaliðið er fjölmennara að tiltölu við þá sem fasta vinnu hafa, þeim mun mannfleiri er hin stöðuga offjölgun, eða þeir hópar vinnandi manna, sem búa við fátækt í öfugu hlutfalli við stríðið. Og loks eftir því sem tötralýður verkalýðsstéttarinnar er fjölmennari og varalið iðnaðarins, þeim mun meiri er almenn fátækt og neyð. *Þetta er fortakslaust almennt lögmál auðmagns upphleðslunnar.*" (Das Kapital" 1. bd. bls. 631).[2]

Þetta eru nokkur helztu lögmál auðvaldsskipulagsins, sem eru strangvísindalega sönnuð, og hagfræðingar hins opinbera munu veigra sér við að andmæla. En er sagan þar með öll? Alls ekki. Að sama skapi sem Marx leggur áherzlu á hinar vondu hliðar auðvaldsframleiðslunnar, jafn ljóslega færir hann sönnur á, að þessi þjóðfélagsháttur var nauðsynlegur fyrir þróun þjóðfélagsaflanna á nýtt stig – stig sem gerir færa jafna mannsæmandi þróun til hags *öllum* þegnum samfélagsins. Öll fyrri samfélagsform voru of fátæk til þess. Það er ekki fyrr en í auðvaldsþjóðfélaginu að þau auðæfi verða til og framleiðsluöfl, sem eru nauðsynleg forsenda þessa, en samtímis skapar það úr hinum kúgaða verkalýð þá þjóðfélagsstétt, sem neyðist æ meir til að krefjast þessara auðæfa og framleiðsluafla öllu samfélaginu til handa – í stað núverandi einokunar auðvaldsins.

Ritað 1.–13. marz 1868.
Birt í „Demokratisches Wochenblatt" 21. og 28. marz 1868.

[1] Sjá Marx/Engels: Werke, 23. bindi, bls. 642.
[2] Sama stað, bls. 674.

KARL MARX

# Drög að gagnrýni á þjóðhagfræði[1]

## Formáli

Hagkerfi borgaralegs þjóðfélags tek ég til meðferðar í eftirfarandi sundurliðun: Auðmagn, jarðeign, launavinna; ríkisvald, utanríkisverzlun, heimsmarkaður. Í fyrstu þrem liðunum rannsaka ég efnahagsleg lífsskilyrði þeirra 3ja höfuðstétta, sem borgaralegt þjóðfélag vorra tíma skiptist í. Samhengi hinna atriðanna eru deginum ljósari. Í fyrsta hluta fyrstu bókar, sem fjallar um auðmagnið, er þessi kaflaskipting: 1. Vörur. 2. Peningar ellegar einföld hringrás. 3. Auðmagnið yfirleitt. Tveir fyrstu kaflarnir koma nú fyrir almenningssjónir í þessu kveri. Efniviðurinn í heild er mér ekki tiltækur nema í afmörkuðum minnisgreinum, sömdum með löngu millibili, ekki til prentunar, heldur til að skýra málið fyrir sjálfum mér. Samfelld úrvinnsla eftir tilgreindri áætlun er háð ytri aðstæðum síðar meir.

Ég hafði hripað almennan inngang,[2] en við nánari umhugsun sleppi ég honum, þar eð mér sýnist truflandi sérhver forskýring á niðurstöðum, sem eftir er að sanna. Auk þess verður ekki hjá því komizt, að hver sá lesandi, sem á annað borð vill fylgjast með, þræði með mér hið rökfræðilega einstigi frá hinu einstaka til hins almenna. Nokkrar ábendingar um það, hvernig mér

---

[1] Athugasemd þýðanda: Hugtakið „politische Ökonomie" er hér þýtt með orðinu þjóðhagfræði, stundum aðeins hagfræði, en ekki pólitísk hagfræði, eins og oft hefur verið gert. Hér er nefnilega ekki um að ræða stjórnmálafræði, ólíka annarri hagfræði, heldur almenna undirstöðu að athugunum á hagkerfi þjóðfélagsins. Englendingar hafa haft fyrir sið að kalla fræðigrein þessa *political economy*, og Marx fór í þessu að þeirra dæmi.

[2] Handrit að inngangi þessum, dagsett 29. ágúst 1857, er enn til, og hefur hann verið prentaður síðar sem viðbætir við sumar útgáfur að ritinu „Drög að gagnrýni á þjóðhagfræði." Inngangur þessi er um það bil 35 blaðsíður, en megintexti nefnds rits er tæpar 200 blaðsíður. – *Útg.*

hefur sjálfum miðað í athugunum mínum á stjórnvísindum og hagfræði, eiga þó ef til vill erindi við lesendur.

Í háskóla var ég innritaður til laganáms, en lagði þó lítt stund á það nema helzt í hjáverkum frá heimspeki og sagnfræði. Veturinn 1842–43, þá ritstjóri Rínartíðinda,[1] komst ég fyrst í þann vanda að þurfa að leggja orð í belg um svonefnda efnalega hagsmuni. Meðferð Rínarþings á timburstuldum og skiptingu stórjarðeigna; ritdeilur, sem herra von Schaper, þáverandi stjórnarforseti Rínarhéraðsins, efndi til gegn Rínartíðindum um hag Móselbænda; og loks almennar umræður um fríverzlun og verndartolla: þetta urðu fyrstu tilefni til afskipta minna af efnahagsmálum. Um þessar mundir, þegar mjög var í tízku að setja öfgar ofar sérþekkingu, hafði veikt bergmál franska sósíalismans og kommúnismans heyrzt í Rínartíðindum,[2] þó með ögn heimsspekilegum hreim. Ég lýsti mig andvígan slíkum fúskara vinnubrögðum, en viðurkenndi um leið hreinskilnislega í rifrildi við Almennu Ágsborgar tíðindin,[3] að ég hefði ekki lærdóm til að voga að fella neinn dóm um innihald hinna frönsku stefna. Ég notfærði mér því fegins hendi tækifæri, sem gafst vegna hugmyndar framkvæmdastjóra Rínartíðinda um að unnt væri að fresta óhjákvæmilegum dauðadómi yfir blaðinu með því að það færi hægar í sakir, og dró mig í hlé frá opinberu sviði inn í næði lærdómssala.

Fyrsta verkið sem ég tók mér fyrir hendur til að losna við þær efasemdir, sem að mér sóttu, var gagnrýn endurskoðun á lögspeki Hegels.[4] Inngangur að því verki birtist í „Þýzk-frönskum árbókum“[5] árið 1844 í París. Ályktun af rannsókn minni var

---

[1] Rheinische Zeitung var róttækt dagblað, gefið út í Köln á árunum 1842–43. Marx var ritstjóri þess umræddan vetur frá 15. október til 18. marz. – *Útg.*

[2] Hér mun einkum átt við þjóðfélagsstefnur á borð við þær, sem Fourier (1772–1837) og Saint-Simon (1760–1825) boðuðu, og er þar um að ræða eins konar draumsýnir um réttlát samfélög vinnandi fólks. Sósíalismi þeirra er kallaður útópískur, staðfestulaus, og vísar það til ritsins Utopia (= staðleysa) eftir brezka stjórnmálamanninn Thomas More, 1516. Lætur það í ljós, að ekki var bent á það þjóðfélagsafl, sem hrundið gæti af stað slíkum breytingum á þjóðfélaginu, né skilgreindar efnahagslegar forsendur þess, að hin nýja þjóðfélagsskipan standist. – *Útg.*

[3] Allgemeine Augsburger Zeitung. Marx hefur hér í huga grein sína, „Kommúnisminn og Almennu Ágsborgar tíðindin“, sem m.a. er prentuð í ritsafninu Marx–Engels, Werke, I. bindi, bls. 105–108. – *Útg.*

[4] Friedrich Hegel, 1770–1831, þýzkur prófessor, meðal merkustu heimspekinga allra tíma. Kenningar hans um díalektísk hvörf eru meðal meginstoða marxismans. – *Útg.*

[5] Deutsche-französische Jahrbücher, stjórnmálarit í byltingarsinnuðum og kommúnískum anda, sem Marx ritstýrði og gaf út 1844. – *Útg.*

sú, að lögfræðilegt réttarsamband sem og stjórnarform ríkis séu hvorki skýranleg með sjálfsþróun fyrirbæranna né hinni svokölluðu framþróun mannsandans, heldur þvert á móti sprottin af rót efnalegra lífsskilyrða. Hegel fór að dæmi Englendinga og Frakka 18. aldar að kalla efnaleg lífsskilyrði í heild „borgaralegt félag", en í ályktun minni fólst, að þekkingar á beinagrind hins „borgaralega félags" sé að leita í þjóðhagfræði. Þá leit hóf ég í París og hélt henni áfram í Brüssel, en þangað hafði ég flutzt búferlum eftir útlegðartilskipun frá herra Guizot.[1] Þær almennu niðurstöður, sem ég komst að og urðu mér svo grundvöllur að frekari rannsóknum, gætu hljóðað svo í stuttu máli:

Í framleiðslustörfum sínum í þjóðfélaginu gangast menn undir ákveðnar og óhjákvæmilegar afstæður óháðar vilja sínum, framleiðsluafstæður samsvarandi því þrepi þróunar, sem framleiðsluöflin standa á. Þessar framleiðsluafstæður mynda í heild hagkerfi þjóðfélagsins, þann raunverulega grundvöll, sem lagaleg og stjórnmálaleg yfirbygging hvílir á, og viss form félagslegrar vitundar svara til. Framleiðsluháttur hins efnalega lífs skilorðsbindur félagslegt, stjórnmálalegt og andlegt lífsferli yfirleitt. Það er ekki vitund manna sem skilorðsbindur veru þeirra, heldur öfugt – félagsleg vera sem skilorðsbindur vitund. Á vissu stigi þróunar sinnar komast efnaleg framleiðsluöfl þjóðfélagsins í stríð við ríkjandi framleiðsluafstæður, ellegar – með lögfræðilegu orðalagi – við þau eignarform er verið höfðu rammi framleiðsluaflanna. Þau breytast úr þróunarformum framleiðsluaflanna í fjötra þeirra. Þá hefst skeið þjóðfélagsbyltingar. Í kjölfar breytingar á efnahagsgrundvellinum hlýtur öll hin volduga yfirbygging fyrr eða síðar að kollsteypast. Þegar athugaðar eru slíkar gerbreytingar verður alltaf að gera greinarmun á þeim efnalegu breytingum á hagrænum framleiðsluskilyrðum, sem unnt er að ákvarða með raunvísindalegri nákvæmni og hins vegar lögfræðilegum, stjórnmálalegum, trúarlegum, listrænum, í stuttu máli hugmyndafræðilegum aðstæðum, sem gera fólki viðvart um nefnda þversögn og eru jafnframt vettvangur átaka, þegar málum er ráðið til lykta.

Enginn er dæmdur eftir þeim hugmyndum, sem hann gerir sér um sjálfan sig, og eins er ekki hægt að dæma slíka umbrotatíma eftir hugmyndaheimi þeirra sjálfra, heldur verður að skýra þennan hugmyndaheim af þversögnum hins efnalega lífs, af því stríði sem stendur milli félagslegra framleiðsluafla og ramma þeirra, framleiðsluafstæðnanna. Þjóðfélagsskipan þurrkast ekki út fyrr en öll þau framleiðsluöfl eru fullþroska, sem það rúmar

[1] François Guizot, 1787–1874, franskur stjórnmálamaður og sagnfræðingur; ráðherra 1830–48. – *Útg.*

innan sinna takmarka, og nýjar framleiðsluafstæður koma aldrei fram á sjónarsviðið fyrr en efnaleg skilyrði fyrir tilveru þeirra hafa orðið til í skauti hins gamla þjóðfélags. Þess vegna setur mannkynið sér aðeins þau verkefni sem það getur leyst, því sé betur að gáð lætur verkefnið sjálft ekki annars staðar á sér bæra en þar, sem efnaleg skilyrði fyrir lausn þess eru þegar fyrir hendi eða eru að verða til.

Líta má svo á, að í stórum dráttum hafi framleiðsluhættir Asíu, fornaldar (við Miðjarðarhaf – þýð.), lénsveldis miðalda og hins borgaralega nútíma verið, hver fyrir sig, framfaraskeið hvað snertir efnahagslega mótun þjóðfélagsins. Borgaralegar framleiðsluafstæður eru síðasta mótsagnakennda form félagslegs framleiðsluferlis, mótsagnakennt ekki sem persónulegar erjur, heldur sem afleiðing af ólíkum, félagslegum lífsskilyrðum einstaklinganna. En um leið skapa þau framleiðsluöfl, sem þróast í skauti borgaralegs þjóðfélags, efnaleg skilyrði fyrir því, að andstæðurnar upphefjist. Forsögu mannlegs þjóðfélags er því lokið með þessari þjóðfélagsmyndun.

Við Friedrich Engels höfðum verið í stöðugu bréfasambandi og skipzt á hugmyndum, allt frá því er hin snjöllu drög hans að gagnrýni á hagfræðisetningum birtust (í „Þýzk-frönskum árbókum"). Nú var hann kominn að sömu niðurstöðu og ég, en að vísu eftir öðrum leiðum (samanber rit hans „Hagur vinnandi stétta á Englandi"). Þegar hann settist einnig að í Brüssel vorið 1845, ákváðum við að vinna í sameiningu að því að sýna fram á, hvernig sjónarmið okkar gengju í berhögg við hugmyndakerfi þýzkrar heimspeki, og gera þannig endanlega upp sakir við eigin fortíð, að því er tók til heimspekilegrar undirstöðu að vitund okkar. Þetta gerðum við með því að skrifa gagnrýni á heimspeki eftirkomenda Hegels. Handritið, tvö þykk bindi í áttungsbroti,[1] var löngu komið á útgáfustað í Westfalen, er við fengum þær fregnir, að breyttar kringumstæður kæmu í veg fyrir prentunina. Við létum handritið eftir hinni nagandi gagnrýni músanna þeim mun fúsar sem við höfðum náð aðaltakmarki okkar – sjálfsskilningi. Af dreifðum ritum, sem birtu þá almenningi skoðanir okkar frá einni eða annarri hlið, vil ég aðeins nefna „Kommúnistaávarpið", sem við Engels sömdum sameiginlega, og „Ritgerð um fríverzlun",[2] sem ég stóð einn að. Úrslitaatriði í afstöðu okkar var fyrst drepið á vísindalega, þótt í

---

[1] Átt er við ritið „Þýzkt hugmyndakerfi", Die deutsche Ideologie, eftir þá Marx og Engels, en það birtist ekki á prenti fyrr en 1932. – Sjá Marx-Engels, Werke, 3. bindi, bls. 9–530.

[2] Discours sur le libre échange, samið á frönsku, sjá Marx-Engels, Werke, 4. bindi, bls. 444–458. – *Útg.*

ádeilustíl væri, í riti mínu, sem út kom 1847 og beint var gegn Proudhon, „Eymd heimspekinnar".[1] Ritgerð um launavinnu,[2] sem ég hafði tekið saman á þýzku úr fyrirlestrum höldnum um það efni fyrir þýzka verkamannafélagið í Brüssel, stöðvaðist í prentun vegna febrúarbyltingarinnar, enda neyddist ég síðan til að flytja búferlum frá Belgíu í kjölfar hennar.

Útgáfa „Nýrra Rínartíðinda" 1848 og 1849 og síðari viðburðir töfðu hagfræðilegar rannsóknir mínar, og gat ég ekki snúið mér að þeim aftur fyrr en 1850 í London. Hið gífurlega efni til sögu þjóðhagfræðinnar saman komið á Brezka safninu; góð aðstaða til að virða fyrir sér borgaralegt þjóðfélag einmitt frá London; nýtt þróunarskeið þess sem virtist renna upp við gullfundina miklu í Kaliforníu og Ástralíu[3]; allt þetta kom mér til að endurskoða það, sem ég hafði áður unnið í þessum efnum og fara gagnrýnisaugum yfir hið nýja, sem barst mér í hendur. Þessar athuganir leiddu sumpart til viðfangsefna, sem sýndust svo og svo fjarlæg, en tóku hug minn fanginn um lengri eða skemmri tíma. En einkum fór mikill tími hjá mér forgörðum vegna knýjandi nauðsynjar á atvinnu til lífsuppihalds. Starf mitt síðustu 8 árin við fremsta dagblað Engilsaxa, New York Tribune[4] hefur neytt mig til að drepa lærdómsiðkunum feiknarlega á dreif, ekki sízt af því ég fæst ekki við eiginleg blaðamennskuskrif nema rétt til undantekningar. Aftur á móti urðu greinar um stórviðburði efnahagslífsins í Englandi og á megnlandinu svo þýðingarmikill hluti af skrifum mínum, að ég komst ekki hjá því að kafa til botns í ýmsum smáatriðum hins daglega lífs, sem liggja víðsfjarri allri vísindamennsku í þjóðhagfræði.

Þetta yfirlit yfir iðkanir mínar á sviði þjóðhagfræði er aðeins ætlað til þess að sýna, að sjónarmið mín, hvernig sem þau verða metin og hversu lítt sem þau kunna að koma heim við hagsmunafordóma ríkjandi stétta, byggjast á samvizkusömum rannsóknum um margra ára skeið. En við fordyr vísindanna, rétt eins og við fordyr Vítis, verður að gera kröfuna:

[1] Misère de la philosophie, samið á frönsku, sjá Marx–Engels, Werke 4. bindi, bls. 63–182. Proudhon, 1809–65, franskur hughyggjuheimspekingur og sósíalisti í smáborgaralegum anda, talinn einn af kennifeðrum stjórnleysisstefnu, anarkisma. Titillinn á riti Marx vísar til þá nýútkominnar bókar eftir Proudhon, La philosophie de la misère. – *Útg.*

[2] Sjá ritið „Launavinna og auðmagn" hér á undan í þessu bindi.

[3] Gullnám á umræddum stöðum hófst 1848–49, og tífaldaðist þá á skömmum tíma heimsframleiðsla á gulli miðað við það, sem mest hafði verið áður. – *Útg.*

[4] Frjálslynt dagblað, gefið út í New York frá 1841. Blað þetta lifði til 1924, var þá sameinað öðru blaði, hét eftir það New York Herald Tribune og var um langt skeið eitt af stórblöðum Bandaríkjanna. – *Útg.*

Qui si convien lasciare ogni sospetto;
Ogni viltà convien che qui sia morta.[1]

Karl Marx.

London í janúar 1859.
Fyrst prentað í bókinni „Drög að gagnrýni á þjóðhagfræði", sem kom út í Berlín í júnímánuði ársins 1859.

---

[1] Eigi skal hér úti doka,
en ótta og kvíða burtu þoka!
Dante: Hið guðlega sjónarspil.

FRIEDRICH ENGELS

# Bókarumsögn: „Drög að gagnrýni á þjóðhagfræði" eftir Karl Marx

## I

Á öllum sviðum vísinda hafa Þjóðverjar löngu sýnt getu sína, þeir standa öðrum menningarþjóðum jafnfætis og á flestum sviðum raunar framar. Aðeins í einni grein er engan Þjóðverja að finna meðal forgöngumanna: í þjóðhagfræði. Ástæðunnar er ekki langt að leita. Þjóðhagfræði fæst við fræðilega sundurgreiningu á borgaralegu þjóðfélagi nútímans. Borgaralegar kringumstæður þurfa því að vera fyrir hendi, en í Þýzkalandi voru þróunarskilyrði þeirra útilokuð öldum saman sökum siðaskipta- og bændastyrjaldanna og þó einkum af völdum Þrjátíuárastríðsins. Aðskilnaður Hollands frá þýzka ríkinu bægði Þýzkalandi frá millilandaverzlun á heimsmarkaði, og setti þetta iðnþróun þess hinar þrengstu skorður, áður en hún hófst. Með ærnu erfiði og um langar tíðir urðu Þjóðverjar að afplána alla þá eyðingu, sem þeir höfðu sjálfir valdið í borgarastyrjöldunum. Linnulaust þurftu þeir að neyta allrar þeirrar orku, sem þeim var gefin í félagslegri mynd og aldrei var til að státa af, í árangurslausu stríði við tollmúra og aðrar fáránlegar viðskiptahömlur, sem hver smáfursti og brókarbarón náðarsamlegast setti á iðju þegna sinna. Reyrðar í viðjar iðngildanna annars vegar og hlekkjaðar við frumburðarrétt tignarmanna hins vegar voru alríkisborgirnar þýzku ofurseldar spillingu og hnignun.

Meðal þessu fór fram í Þýzkalandi, varð annað uppi á teningnum í umheiminum. Holland, England og Frakkland voru í kapphlaupi um fyrstu sætin á heimsmarkaðinum, stofnuðu hverja nýlenduna á fætur annarri og komu handiðju[1] hjá sér til hins mesta vegs. Loks tókst Englandi að komast óskorað í fylkingar-

[1] Handiðja = Manufaktur á þýzku, millistig í iðnaðarþróun milli handverks miðalda og verksmiðjuframleiðslu nútímans. – *Útg.*

brjóst nútíma borgaralegrar þróunar, enda var þá komin til skjalanna nýting gufuorku, sem kunni vel að meta ríkuleg kola- og járnlög landsins. En í Þýzkalandi var önnur öldin, og þar gat ekki verið um að ræða neina þýzka þjóðhagfræði. Fram um 1830 voru þeir fjötrar á borgaralegri hagþróun landsins, að hlálegt mætti þykja að berjast þyrfti gegn þvílíkum forngripum aftan úr gráum miðöldum. Það var ekki fyrr en með stofnun Tollabandalagsins, að fólki gafst einhver *lykill að skilningi* á frumatriðum hagfræðinnar. Enda hófst nú óðara innflutningur enskra og franskra hagfræðikenninga þýzkri borgarastétt til hagsældar. Ekki leið á löngu áður en hlaupastrákar skriftarkunnáttu og annarra lærdómslista höfðu náð þessu innflutta hráefni undir sig og böðlazt svo með það, að „þýzkur andi“ fölnaði við. Þar komu og til liðs fjárplógsmenn, kaupahéðnar og uppalendur og hnoðuðu úr þessu hagfræðikenningadeig, sem hvergi á sinn líka að leiðindum, grunnfærni, hugsunarþoku, mælgi og ritstuldi, nema ef vera skyldi í þýzkum skáldsögum.

Af þeim, sem höfðu hagnýt markmið í huga, voru iðjuhöldarnir fyrstir til að hasla sér völl með verndartollastefnunni. Fræðilegur forvígismaður hennar, List, er enn það bezta, sem þýzkar hagfræðibókmenntir hafa upp á að bjóða, enda þótt allt hans glæsta verk sé í raun ekki annað en upptugga úr Ferrier, þeim sem lagði fræðilegan grundvöll að verzlunarbanninu.[1] Til andstöðu við verndartolla reis á 5. áratug aldarinnar fríverzlunarstefna kaupmanna í Eystrasaltshéruðunum, og var gaman að heyra þá babla játningar enskrar fríhöndlunar, barnalega en vissulega trúvædda eiginhagsmunum.

Loks voru þýzk hagfræðiskrif sokkin svo djúpt að meðal þess lærða kennara- og blekslettulýðs, sem átti að fjalla um fræðilega hlið greinarinnar, voru sjóndaprir grasatínslumenn á öræfum kreddufestunnar á borð við herra Rau; hnakkakerrtir fiðrildaveiðarar, sem kærðu sig kollótta um allt nema að sveifla háfnum á hegelska vísu eftir erlendu litskrúði, eins og herra Stein; nosturssamir rósaræktarmenn með „menningarsögulegan“ húsdýraáburð á fingrunum, svo sem herra Riehl. Hvað gat svo úr þessu orðið annað en bannsett viðskiptafræðin, samanhristingur allra mögulegra aðskotaefna, kryddaður ídýfu af hagfræðikenningaslitrum héðan og handan, en þetta var nú einu sinni talið

---

[1] Átt er við viðskiptabann Napóleons og bandamanna hans, sem hófst 1806 gagnvart enskum vörum. Friedrich List, 1789–1846, þýzkur hagfræðingur, prédikaði verndartolla til að byggja upp efnahag rísandi þjóðar, og beindist það gegn enskum hagfræðikenningum um skilyrðislausa, frjálsa verzlun. François Ferrier, 1777–1861, franskur stjórnmálamaður og hagfræðingur. – *Útg.*

fullboðlegt hverjum þeim, sem gera vildi sig hæfan til embættisverka á stjórnarskrifstofum.

Á meðan þýzkir burgeisar, kennaralið þeirra og skrifaraher sátu hoknir yfir skræðum sínum og rembdust við að læra utanbókar frumatriði ensk-franskrar hagfræði, eins og um óvefengjanlegar opinberanir væri að ræða, gekk stjórnmálaflokkur þýzkra öreiga fram á sviðið. Megin forsenda að tilveru hans, fræðilega séð, er sú, að frumatriði þjóðhagfræðinnar séu fullmótuð og skilin réttum skilningi. Þarna er því upphafið að vísindalegri, sjálfstæðri, *þýzkri hagfræði*. Þessi þýzka hagfræði er í veigamiklum atriðum byggð á *efnisbyggjukenndri söguskoðun*, en helztu drættir hennar eru dregnir lauslega í formála að tilvísuðu riti. Þessi formáli[1] hefur þegar að mestu leyti verið prentaður hér í þessu blaði, og er því hér til hans vísað.

Ekki aðeins fyrir hagfræðina, heldur og fyrir öll söguvísindi (öll vísindi eru söguvísindi nema þau séu náttúruvísindi) var þessi setning byltingarkennd uppgötvun: „að framleiðsluháttur hins efnalega lífs skilorðsbindur félagslegt, stjórnmálalegt og andlegt lífsferli yfirleitt"; að hvers kyns afstæður í þjóðfélagsmálum og stjórnmálum, öll trúarbrögð og réttarkerfi, allar fræðikenningar sem komast í dagsljós sögunnar – allt þetta er því aðeins skiljanlegt, að áður hafi verið beitt vopnum skynsamlegs vits á ríkjandi efnahagsleg lífsskilyrði hvers tíma og fyrrgreindar afstæður, hugkerfi og skoðanir, rökfræðilega leiddar af þessum lífsskilyrðum. Það er ekki vitund manna sem ákvarðar veru þeirra, heldur öfugt – félagsleg tilvera sem ákvarðar vitund. Fullyrðingin er svo einföld, að sannleiksgildi hennar hlýtur að liggja í augum uppi hverjum þeim, sem ekki situr fastur í feni hughyggju. En ekki aðeins í kenningu heldur og í athöfn hefur þetta mál mjög svo byltingarkenndar afleiðingar: „Á vissu stigi þróunar sinnar komast efnaleg framleiðsluöfl þjóðfélagsins í stríð við ríkjandi framleiðsluafstæður, ellegar – með lögfræðilegu orðalagi – við þau eignarform er verið höfðu rammi framleiðsluaflanna. Þau breytast úr þróunarformum framleiðsluaflanna í fjötra þeirra. Þá hefst skeið þjóðfélagsbyltinga. Í kjölfar breytingar á efnahagsgrundvellinum hlýtur öll hin volduga yfirbygging fyrr eða síðar að kollsteypast ... Borgaralegar framleiðsluafstæður eru síðasta mótsagnakennda form félagslegs framleiðsluferlis, mótsagnakennt ekki sem persónulegar erjur heldur sem afleiðing af ólíkum félagslegum lífsskilyrðum einstaklinganna. En um leið

---

[1] Átt er við þann formála, sem birtur er í þýðingu hér næst á undan. Blaðið, sem Engels talar hér um, hét Das Volk, þýzkt blað, sem um skamma hríð kom út í London, sumarið 1859, og Marx átti mikinn hlut að. – *Útg.*

skapa þau framleiðsluöfl, sem þróast í skauti borgaralegs þjóðfélags, efnaleg skilyrði fyrir því, að andstæðurnar upphefjist.“ Það opnast því fyrir oss framtíðarsýn til voldugrar, til voldugustu byltingar allra tíma, undir eins og rakin er áfram kenning efnishyggjuskoðunar vorrar og henni er beitt á samtíðina.

Sé nú nánar að gætt, kemur í ljós, að hin sakleysislega kennisetning um vitund manna háða tilveru þeirra en ekki öfugt, gengur þvert á alla hughyggju, líka þá sem læðist með veggjum. Hún hafnar öllum viðteknum og venjubundnum skoðunum á sögulegum efnum. Arfgengum hugsunargangi í stjórnmálum er kollvarpað. Ekki er furða þótt hárin rísi á göfuglyndri ættjarðarást gagnvart þvílíkum firrum. Hin nýja lífsskoðun steytir ekki aðeins á fulltrúum borgarastéttarinnar heldur og óhjákvæmilega á öllum fjöldanum af frönskum sósíalistum, sem hugðust umskapa heiminn með töfraþulu sinni: *liberté, égalité, fraternité* (frelsi, jafnrétti, bræðralag). En umfram allt hefur hún valdið megnri gremju hjá þýzkum lýðskrumurum. Þrátt fyrir það hafa þeir kosið að reyna að nýta hinar nýju hugmyndir með því að stela úr þeim sér til framdráttar, en verið seinheppnir að vanda.

Vísindalegrar vinnu í mörg kyrrlát ár hefði þurft til að fullkomna söguskoðun efnishyggjunnar við að beita henni á eitt einasta sögulegt dæmi. Enda augljóst mál, að hér vinnst ekkert með orðagjálfri einu saman, heldur með því að geta sótt óhindrað í sjóð vandlega valinna sannreynda. Febrúarbyltingin ýtti flokki vorum út á vettvang stjórnmálaátaka, og gerði honum því ókleift að stunda vísindastörfin einber. En eigi að síður gengur grundvallarskoðunin eins og rauður þráður í gegnum allt, sem flokkurinn lét frá sér fara. Hvarvetna er sýnt fram á við hvert atvik, hvernig athafnir spretta alltaf af beinum efnahagslegum hvötum, en ekki ummælum sem látin eru fylgja þeim, og hvernig á hinn bóginn stjórnmálaþras og lagastafir eru afkvæmi efnahagslegra umbrota, rétt eins og pólitísk framkvæmd og afleiðing hennar.

Eftir ósigur byltingarinnar 1848–49, þegar þeir tímar komu, að áhrifa á Þýzkaland utanfrá varð ekki lengur beitt að gagni, yfirgaf flokkur vor vígvöll útlagajagsins – því þar var nú eina tækifærið til að láta að sér kveða – og lét hann lýðskrumi eftir. Lýðskrumarar efndu nú til æsinga að vild sinni, skömmuðust einn daginn og friðmæltust annan, en höfðu svo eldhúsdag hinn þriðja, gengu með betlistaf um þvera Ameríku og fóru svo í hár saman út af fáeinum dölum, sem fengizt höfðu upp úr krafsinu. Á meðan þeir höfðust þetta að, gladdist flokkur vor yfir fengnu næði til rannsókna. Hann naut þess mikla hagræðis að hafa vísindalega skoðun að fræðilegum grundvelli, og mótun

hennar fékk honum nóg að starfa. Þó ekki væri af öðru en því, gat hann aldrei sokkið eins djúpt og „mikilmenni" útlagahópsins.

Fyrsti ávöxtur þessara rannsókna er bók sú, sem hér er til umræðu.

## II

Í riti eins og því sem hér er til meðferðar getur ekki verið um að ræða ágripskennda gagnrýni á einstökum köflum hagfræðinnar, ellegar að þessi eða hin deiluefni í hagfræði séu einangruð tekin til meðferðar. Fremur er leitast við að gera úr því kerfisbundna samantekt á hagfræðivísindum í heild, og gefa þannig mynd af samtengdri þróun þeirra lögmála, sem stjórna borgaralegri framleiðslu og borgaralegum markaðsskiptum. Þar sem nú hagfræðingar eru ekki annað en túlkendur og verjendur þessara lögmála, þá er þessi rökfærsla um leið gagnrýni á öllum hagfræðibókmenntum.

Síðan Hegel leið hefur ekki verið gerð umtalsverð tilraun til að efla neina vísindagrein með aðferðum innan hennar eigin veru. Opinberlega viðurkenndir hegelistar höfðu aðeins tileinkað sér allra einföldustu handbrögðin af rökþróunarhyggju (díalektík) lærifööurins og beittu þeim á hvað sem var, oft af næsta broslegum klaufaskap. Fyrir þeim var allur arfurinn eftir Hegel sem deigla á afli, er öllum óleystum viðfangsefnum skyldi hellt í til mótunar, eða hann takmarkaðist við máltæki, þar sem orðin höfðu ekki annan tilgang en þann að vera til taks, er hugsun og jákvæða þekkingu brast. Þannig gerðist það, sem prófessor nokkur í Bonn orðaði svo, að þessir hegelistar gætu ekki skilið neitt, en skrifað um allt. Og þetta var orð að sönnu. Samtímis vissu þessir háu herrar svo vel af getuleysi sínu, að þeir sniðgengu eftir mætti öll alvarleg vandamál. Gömlu smásmyglisvísindin héldu því velli í krafti yfirburða sinna af þekkingarmolum. Það var ekki fyrr en Feuerbach hafði sagt hugleiðingarruglinu upp hollustu, að hegelisminn sofnaði útaf. Það virtist því sem enn yrði í vísindunum endurvakið veldi gömlu frumspekinnar með hennar föstu grunnhugtökum (kategóríum).

Hér voru eðlilegar orsakir að verki. Eftir að „díadókar"[1] Hegels höfðu ráðið ríkjum, kom að sjálfsögðu tímabil, þegar jákvætt innihald vísindanna vó aftur upp formlega hlið þeirra. Um leið sneri Þýzkaland sér að raunvísindum með einstakri atorku,

[1] Svo nefndust eftirmenn Alexanders mikla. Innanlandsstyrjaldir þeirra að Alexander látnum leiddu til upplausnar makedónska heimsveldisins. Engels notar þetta háðungarheiti á opinbera fulltrúa hegelskrar heimspeki við þýzka háskóla. – *Útg.*

og var það í samræmi við hraðfara borgarlega þróun eftir 1848. Sem nú þessi vísindi komust í tízku, þar sem hugleiðingahneigðin hafði aldrei komizt til vegs, opnuðust allar gáttir fyrir hugsunarhætti gömlu frumspekinnar, svo að jafnvel marflöt lágkúran hjá Wolff[1] fékk aðgang. Hegel var fallinn í gleymsku, nýr efnishyggjuandi á raunvísindalegum grunni efldist til áhrifa, en fræðilega með sama sniði og efnishyggja 18. aldar, aðeins auðugri að þekkingu á raunvísindum, einkum efnafræði og lífeðlisfræði. Þröngsýnan hugsunarhátt slíkan sem hjá forverum Kants er að finna endurgerðan í snautlegustu lágkúru hjá Bücher og Vogt og jafnvel Moleschott, sem þó bölvar sér upp á Feuerbach, honum verða lítilmótlegustu grunnhugtök (kategóríur) að fótakefli á hinn spaugilegasta hátt. Fótfúinn áburðarjálkur borgaralegs hversdagsskilnings verður staður við þá keldu, sem skilur milli veru og sýndar, orsakar og afleiðingar. En þegar farið er að gamni sínu til fanga á sundurskornum heiðalöndum sértekinnar hugsunar, þá er ráðlegt að hafa eitthvað annað en móbikkju til reiðar.

Hér bíður líka annað úrlausnar, sem ekki er neitt vandabundið hagfræðilegri afstöðu til þjóðfélagsins. Hvernig átti að umgangast vísindin? Annars vegar var rökþróunarfræði (díalektík) Hegels í þeirri gersamlega sérteknu „hugleiðingar"-mynd, svo sem höfundurinn hafði við hana skilið. Á hinn bóginn var algeng, en nú tízkubundin, rannsóknaraðferð, þó fyrst og fremst frumspekileg, runnin frá Wolff, sem borgaralegir hagfræðingar höfðu líka haft að leiðarljósi við samantekt sundurlausra doðranta sinna. Á þessari rannsóknaraðferð hafði þó verið gengið milli bols og höfuðs, fyrst af Kant og svo enn betur af Hegel, svo að einungis tregða og skortur á annarri *einfaldri* aðferð hafði treint henni tilveruna til hagnýtra nota. Á hinn bóginn var aðferð Hegels í *verandi* mynd ónothæf. Hún var hughyggjustefnd í innsta eðli, en hér var um að gera að leiða fram heimsskoðun, sem væri meira til efnishyggjuáttar en hinar fyrri. Að baki aðferðinni var ekkert nema íhugun, en hér hefði þurft að hefja för við bæjardyr heimaríkra staðreynda. Aðferð sem að eigin umsögn „hófst í engu við ekkert til einskis" var í því formi til lítilla málsbóta. Samt var hún, af öllu því fræðilega uppstillta efni, sem til staðar var, eina haldreipið, sem eitthvert átak þoldi. Hún var ekki gagnrýnd, hafði ekki verið yfirunnin; engum andstæðingi þessa mikla meistara rökþróunarfræðinnar hafði tekizt að finna rifu á hinu rammgerða vígi. En hún hlaut að fyrnast, sökum þess að aðdáendur Hegels kunnu ekkert með hana að fara. Því var það höfuðnauðsyn að rýna aðferð Hegels niður í kjölinn.

[1] Christian Wolff, 1679–1754, þýzkur heimspekingur. – *Útg.*

Það sem prýddi hugsun Hegels fram yfir háttu allra annarra heimspekinga, var hið stórkostlega söguskyn, sem hún byggist á. Hversu sértekin sem þessi hughyggja var að formi, þá gekk hugsunarþráður hennar þó alltaf samsíða atburðum mannkynssögunnar, en þar er raunar að finna prófstein allrar kenningar. Jafnvel þótt réttar afstæður snerust við og færu á hvolf, þá fékk hið rétta innihald alls staðar inni í heimspekinni. Á sveif með þessu snerist, að Hegel veðjaði ekki á fáfræðina eins og lærisveinar hans, heldur gerðist sjálfur einn hinn lærðasti maður allra tíma. Hann var fyrstur manna til að reyna að sýna fram á þróunarstefnu og innra samhengi í sögunni, og hversu kynlegt sem fjölmargt í söguspeki hans kann að virðast fólki nú, þá er snilld grundvallarhugmynda hans óumdeilanleg, hvort sem hann er mældur við fyrirrennara sína, að ekki sé talað um þá, sem leyft hafa sér almennar hugleiðingar um söguna eftir hans dag. Í ritum hans, Fyrirbrigðafræði, Fagurfræði, Sögu heimspekinnar, hvarvetna blasir við þessi heiði skilningur á sögunni, og hvarvetna er sagnfræðilega úr efniviðnum unnið, í ákveðnu, að vísu býsna sérteknu og umsnúnu, samhengi við mannlega sögu. Þessi tímamótamarkandi skilningur á sögunni var bein fræðileg forsenda nýrrar lífsskoðunar efnishyggjunnar, og þetta var líka snertipunktur við hina rökfræðilegu aðferð. Úr því að þessi rykfallna rökþróunaraðferð hafði áorkað svo miklu með „eintómri íhugun", og hafði auk þess svo léttilega snúið af sér rökfræði og frumspeki fyrri tíma, þá hlaut að vera hér eitthvað merkilegra á ferðinni en orðaleikur einn eða hártoganir. En gagnrýn endurskoðun þessarar aðferðar í heimspeki, sem öll ríkjandi heimspekikerfi hafa alltaf forðazt að taka afstöðu til, það var ekkert áhlaupaverk.

Marx var hinn eini sem gat tekið sér það verk fyrir hendur að flysja utan af rökfræði Hegels, svo að kjarni hennar, raunverulegar uppgötvanir Hegels á þessu sviði, sæi dagsins ljós. Hann svipti hana hughyggjuvafningunum og endurgerði hana í einfaldari mynd, sem sýnir hana sem hið eina rétta form hugsunarferlisins. Sköpun þeirrar aðferðar, sem liggur til grundvallar að gagnrýni Marx á þjóðhagfræði, er afrek sem að voru mati stendur lítt að baki sjálfri undirstöðunni, heimsskoðun efnishyggjunnar.

Gagnrýni á hagfræðinni, jafnvel eftir þeirri aðferð sem nú var til staðar, mátti vinna á tvennan hátt: sagnfræðilega og rökfræðilega. Þar sem því er eins háttað í sögunni sem í endurspeglun hennar í rituðu máli, að þróunin beinist í heild frá einfaldari til flóknari afstæðna, þá bauð söguleg þróun hagfræðibókmennta upp á eðlilega leið, sem gagnrýnin gat fetað sig eftir,

og í stórum dráttum mundu þá hagfræðileg grunnhugtök koma fram á sviðið í sömu röð og þær gerðu við rökfræðilega sundurgreiningu. Þetta form sýndist skýrara, þar eð fylgt er *reyndarþróun*, en auðvitað hefðu kostirnir í mesta lagi legið í alþýðlegri framsetningu. Sagan tekur oft stökk og hliðarhopp. Alla dynti hefði orðið að rekja, en það hefði ekki aðeins þýtt söfnun á miklu efni lítillar þýðingar, heldur og sundurslitinn hugsunarþráð í fjölda tilvika. Ennfremur hefði ekki verið unnt að rita sögu hagfræðikenninga án hagfræði borgaralegs þjóðfélags, en það hefði gert verkið endalaust, þar sem alla frumvinnu vantar. Rökræn meðferð efnisins var því það eina framkvæmanlega. En í raun og veru er hún ekkert annað en sagnfræðileg aðferð, aðeins afhjúpuð sögulegri blæju og truflandi tilviljunum. Þar sem sagan hefst, þar hlýtur hugsunarferlið líka að hefjast, og frekari rás þess er ekkert annað en endurspeglun sögulegrar viðburðakeðju, að vísu í sértekinni og fræðilega samkvæmri mynd. Þetta er leiðrétt spegilmynd, leiðrétt eftir reglum sem raunveruleg atburðarás sögunnar setur sjálf, þar sem hvert örskot er greint í þeim svifum er þróun þess ber hæst eða í sígildri mynd þess.

Við þessa framkvæmd er tekið upphaf í fyrstu og einföldustu afstæðum, sem oss eru sögulega kunnar. Hér er um að ræða fyrstu efnahagsafstæður sem vér finnum. Þessar afstæður limum vér í sundur. Það að tala um afstæður, felur í sér að um er að ræða tvær hliðar, sem *standa einhvernveginn af sér hvor til annarrar.* Hvor hliðin um sig er tekin til athugunar, en þar sést hvernig þær snúa hvor að annarri, víxlverkan þeirra. Það munu koma fram mótsagnir sem heimta lausn. En þar sem hér er ekki til athugunar sértekið hugsunarferli, hvergi á kreiki nema í eigin heilabúum vorum, heldur sannreynt ferli, sem gerðist í raun á einhverjum tíma eða gerist enn, þá hafa þessar mótsagnir náð að þróast með atburðum, leitað og sennilega líka fundið lausn á spennunni. Þá verða rakin öll spor eftir eðli þessarar lausnar og uppgötvað, að hún komst í kring með uppkomu nýrra afstæðna, sem aftur bjóða upp á rannsókn sinna tveggja gagnstæðu hliða, og svo framvegis.

Þjóðhagfræði byrjar á vöru, á því andartaki er skipzt er á vörum, hvort sem er milli einstaklinga ellegar hópaðila frumstæðs samfélags. Afurð sú, sem skipt er á, er vara. Hún er því aðeins vara, að afstæður tengist við hana milli tveggja persóna eða hópaðila, afstæður milli framleiðenda og neytenda, sem ekki eru hér lengur sameinaðir í einum manni. Hér getur þegar að líta dæmi um kynlegt fyrirbrigði, sem gengur ljósum logum í allri hagfræði og hefur valdið miklu hugarstríði og rugli hjá

borgaralegum hagfræðingum. Hagfræðin fjallar ekki um hluti, heldur afstæður milli mannlegra einstaklinga og, í síðustu greiningu, milli þjóðfélagsstétta. En þessar afstæður *tengjast sífellt við hluti* og *sýnast* vera *hlutir*. Þetta samhengi, sem þó hefur grillt í einstaka sinnum hjá einum og öðrum hagfræðingi, uppgötvaði Marx fyrstur í algildi þess fyrir alla hagfræðina, og gerir hann þar með erfiðustu vandamál svo einföld og skýr, að jafnvel borgaralegir hagfræðingar munu geta gripið þau.

Ef vara er skoðuð frá ólíkum hliðum, og að vísu eins og hún er að runnu þróunarskeiði sínu á enda, en ekki eins og hún fyrst staulast með erfiðismunum fram í náttúrulegri skiptaverzlun tveggja hópaðila í frumstæðu samfélagi, þá birtist hún oss undir tveimur sjónarhornum, nefnilega sem notagildi og sem skiptagildi. Þar með erum vér komin inn á orrustuvöll hagfræðilegra deilna miðjan. Sá sem fá vill í hendur talandi dæmi um það, að þýzk rökþróunaraðferð á núverandi úrvinnslustigi hefur að minnsta kosti jafn mikla yfirburði yfir hina gömlu, lágkúrulegu vangaveltuaðferð frumspekinnar, eins og eimreiðin er hraðskreiðari en hestalestir miðalda, hann geri svo vel að fletta upp í Adam Smith eða öðrum gáfnaljósum opinberra hagfræðikenninga. Þar getur að líta, hvílíkar hugarkvalir þeir heiðursmenn liðu vegna skiptagildis og notagildis, hve torsótt þeim reyndist að skilja þau almennilega að og höndla hvort um sig í eiginlegri ákvörðun þess – þetta beri menn saman við hina heiðu og tæru framsetningu hjá Marx.

Eftir að búið er að gera grein fyrir skiptagildi og notagildi, er hugtakið vara aftur leitt fram og skilgreint sem óskoruð eining beggja, svo sem hún kemur *inn í vöruskiptaferlið*. Hvaða mótsagnir leiðir af þessu má lesa á bls. 20 og 21 í umræddri bók.[1] Vér viljum rétt vekja athygli á því, að þessar mótsagnir hafa ekki aðeins fræðilega og sértekna þýðingu, heldur endurspegla þær jafnframt þá eiginleika, sem leiðir af eðli beinna skiptaafstæðna, einfaldrar vöruskiptaverzlunar, og endurspegla þær óyfirstíganlegu torfærur, sem þetta fyrsta grófgerða form viðskipta stendur óhjákvæmilega frammi fyrir. Þessum óyfirstíganlegu torfærum er rutt úr vegi með því, að eigind þess að koma fram sem skiptagildi allra annarra vara er fengið einni sérstakri vörutegund – peningum. Peningar ellegar einföld hringrás viðskipta verða skýrð í öðrum kaflanum í þessari röð: 1) Peningar sem *gildismælir*, en þar er kveðið nánar á um gildið mælt í peningum, þ. e. *verð*. 2) Peningar sem viðskiptamiðill og 3) sem eining beggja hinna skilgreininganna: Peningar sem *raunverulegt* fé eða stað-

[1] Blaðsíðutal á við 1859-útgáfuna af „Drög að gagnrýni á þjóðhagfræði". – *Útg.*

gengill allra efnalegra, borgaralegra gæða, auðæfanna. Þetta eru ályktunarorð fyrsta heftisins, en umbreytingu peninga í auðmagn er ætlað að bíða síðara heftis.

Vér sjáum, að með þessari aðferð neyðist rökræn efnisskipan alls ekki til að einangra sig við grómlaus, sértekin svið. Þvert á móti þarfnast hún sögulegra dæma, sífelldrar snertingar við hlutveruleikann. Innskot af því tæi eru því víða og hin margvíslegustu, sumpart tilvísanir til orðinnar atburðarásar á ýmsum stigum þjóðfélagsþróunar, sumpart ívitnanir í hagfræðingaritsmíðar, en í þessum viðaukum er gerð grein fyrir því, sem reynzt hefur ákvarðandi um efnahagslegar afstæður frá upphafi. Í veigamiklum atriðum er gagnrýni á einstök, meira eða minna einhæf eða þvæld viðhorf, fólgin í sjálfri efnismeðferð hins rökræna stíls, og unnt að afgreiða hana án málalenginga.

Í þriðju greininni[1] munum vér víkja að hagfræðilegu innihaldi bókarinnar sjálfrar.

Samið af Friedrich Engels fyrri hluta
ágústmánaðar sumarið 1859.
Birt fyrst í blaðinu „Das Volk" (þ. e.
Alþýðan), 6. og 20. ágúst 1859.
Undirskrift vantar í blaðinu.

[1] Sú grein var aldrei samin, að því er bezt er vitað. – *Útg.*

KARL MARX og FRIEDRICH ENGELS

# Bréf

## Bréf frá Marx til Annenkoffs

Brüssel 28. desember 1846

Þér væruð fyrir löngu búinn að fá svar frá mér við bréfi yðar frá 1. nóvember, ef ekki hefði dregizt fram í síðustu viku, að bóksali minn sendi mér bók herra Proudhons „Heimspeki eymdarinnar". Ég hef hlaupið í gegnum hana á tveim dögum, til að geta tjáð yður álit mitt þegar í stað. Þar sem ég hef lesið bókina í miklum flýti, get ég ekki fjallað um einstök atriði, og get aðeins skýrt yður frá heildaráhrifunum, sem hún hefur haft á mig. Ef þér óskið þess, get ég fjallað um einstök atriði í öðru bréfi.

Ég skal játa afdráttarlaust fyrir yður, að í heild finnst mér bókin slæm, já mjög slæm. Þér skopizt sjálfur í bréfi yðar „að þeirri ögn af þýzkri heimspeki", sem herra Proudhon skartar með í þessu álappalega og yfirlætisfulla verki sínu, en gerið þó ráð fyrir að hagfræðilega framsetningin hafi ekki mengazt af hinu heimspekilega eitri. Það sé líka fjarri mér, að kenna heimspeki um annmarkana á hagfræðilegri framsetningu herra Proudhons. Því er ekki svo farið, að herra Proudhon beri fram ranga gagnrýni á þjóðhagfræði, vegna þess að hann aðhyllist hlægilega heimspeki, heldur ber hann fram hlægilega heimspeki, vegna þess að hann hefur ekki skilið nútíma þjóðfélagsaðstæður og þeirra samhengi (engrènement) – svo notað sé orð, sem herra Proudhon hefur tekið að láni hjá Fourier, eins og svo margt annað.

Hvers vegna ræðir herra Proudhon um guð, um alheimsvizkuna, um ópersónulega vizku mannkynsins, sem aldrei skjátlast, sem ævinlega var söm og jöfn, sem menn þurfa aðeins að vera sér fyllilega meðvitandi, til að rata á hið rétta? Því föndrar hann við meinlausan hegelisma, til þess að þykjast karl í krapinu?

Hann kemur sjálfur með ráðninguna á gátunni. Herra Proud-

hon eygir í sögunni ákveðna röð félagslegra þróunarstiga; hann kemst að raun um að í sögunni eiga framfarir sér stað; loks kemst hann að raun um að menn vissu ekki hver út af fyrir sig hvað þeir höfðust að, að þeim skjátlaðist um hvert þá sjálfa bar, það er að segja, við fyrstu sýn virðist félagsleg þróun þeirra nokkuð sem er frábrugðið, laust við og óháð þróun þeirra hvers og eins. Hann fær ekki skýrt þessar staðreyndir, og þá kemur tilgátan um alheimsvizkuna, sem er að opinbera sig, eins og kölluð. Ekkert er auðveldara en finna upp dulrænar orsakir, það er að segja orðagjálfur, þegar heilbrigða, mannlega skynsemi brestur.

En játar ekki herra Proudhon, um leið og hann viðurkennir að hann skilji ekki söguþróun mannsins – og hann viðurkennir það, úr því hann grípur til hástemmdra orða eins og alheimsvizka, guð o. s. frv. – játar hann ekki þar með í sjálfu sér og óhjákvæmlega, að ekki er á hans færi að skilja efnahagsþróunina?

Hvað er mannlegt samfélag, hver svo sem mynd þess er? Útkoman af gagnkvæmum athöfnum manna. Hafa menn frjálsar hendur að velja þetta eða hitt samfélagsform? Engan veginn. Gerið ráð fyrir ákveðnu þróunarstigi framleiðsluafla manna, og þér fáið tilsvarandi form samskipta og neyzlu. Gerið ráð fyrir ákveðnum þróunarstigum framleiðslu, samskipta og neyzlu, og þér fáið tilsvarandi form félagslegrar skipanar, tilsvarandi skipulag á fjölskyldu, starfsgreinum eða stéttum, í einu orði sagt, tilsvarandi samfélag borgaranna. Gerið ráð fyrir slíku samfélagi, og þér fáið tilsvarandi stjórnmálaástand, sem er einungis opinber tjáning þessa samfélags. Þetta skilst herra Proudhon aldrei, því hann heldur sig vinna afrek, þegar hann skírskotar frá ríkinu til samfélagsins, það er að segja frá opinberum heildartengslum samfélagsins til hins opinbera samfélags.

Ekki þarf að bæta því við, að menn hafa ekki frjáls umráð yfir *framleiðsluöflum sínum* – undirstöðu allrar sögu sinnar – því sérhvert framleiðsluafl er áunnið afl, árangur undangengins starfs. Framleiðsluöflin eru því árangur af framlagðri orku manna, en þeirri orku eru svo takmörk sett af þeim aðstæðum sem menn búa við, af þegar áunnum framleiðsluöflum, af samfélagsforminu, sem orðið er til á undan þeim, sem þeir leggja ekki til, sem er verk undangenginnar kynslóðar. Sökum þeirrar einföldu staðreyndar, að sérhver kynslóð, sem við tekur, fær í hendur framleiðsluöfl, sem fyrri kynslóð hefur fengið til umráða, og þau verða henni svo hráefni í nýja framleiðslu, myndast samhengi í sögu mannsins, myndast saga mannkynsins, sem verður í þeim mun ríkari mæli saga mannkynsins, sem fram-

leiðsluöfl mannanna og þar af leiðandi félagsleg samskipti þeirra þróast. Af þessu verður að álykta: Samfélagssaga manna er ætíð einvörðungu saga einstaklingsþróunar þeirra, hvort sem menn eru sér þess meðvitandi eða ekki. Efnislegar aðstæður þeirra eru undirstaða allra þeirra aðstæðna. Þessar efnislegu aðstæður eru ekkert annað en þær óhjákvæmilegu myndir, sem efnislegar og einstaklingsbundnar athafnir þeirra birtast í.

Herra Proudhon ruglar saman hugmyndum og hlutum. Menn afsala aldrei því sem þeir hafa áunnið sér, en þar með er ekki sagt að þeir afsali sér aldrei því samfélagsformi sem ríkti, meðan þeir áunnu sér tiltekin framleiðsluöfl. Þvert á móti. Til að missa ekki af tilætluðum árangri, til að glata ekki ávexti siðmenningarinnar, eru menn frá þeirri stundu, þegar gerð og hættir samskipta þeirra samsvara ekki lengur áunnum framleiðsluöflum, nauðbeygðir til að breyta öllum arfteknum samfélagsformum sínum. – Hér nota ég orðið samskipti í víðustu merkingu. Til dæmis: Forréttindin, stofnanir eins og gildin og borgarafélögin, allar regluviðjar miðalda, voru samfélagstengsl sem ein samsvöruðu áunnum framleiðsluöflum og áður ríkjandi þjóðfélagsástandi, sem þessar stofnanir voru sprottnar úr. Undir vernd gildisbundins og regluþrúgandi stjórnarfars hafði safnazt fjármagn, höfðu kaupsiglingar þróazt, höfðu nýlendur verið settar á stofn – og menn hefðu einmitt orðið að láta þessa ávexti ganga sér úr greipum, hefðu þeir reynt að halda fast við þau samfélagsform, sem verndað höfðu ávextina meðan þeir voru að ná þroska. Því dundu yfir tvö reiðarslög: Byltingarnar 1640 og 1688. Í Englandi moluðust öll form hins gamla hagkerfis, samfélagshættirnir sem þeim samsvöruðu og stjórnarfarið sem var opinber tjáning hins gamla þjóðfélags. Hagkerfin sem menn notfæra sér við framleiðslu, neyzlu og viðskipti eru því *tímabundin og háð söguþróuninni.* Með því að ávinna sér ný framleiðsluöfl breyta menn framleiðsluháttum sínum, og um leið og framleiðsluhættirnir breytast breyta þeir öllum hagrænum aðstæðum, sem voru einungis þær samskiptareglur sem nauðsynlegar voru við þessa tilteknu framleiðsluhætti.

Þetta hefur herra Proudhon ekki skilið, og þaðan af síður sýnt fram á það. Herra Proudhon er ófær um að fylgjast með raunverulegri framvindu sögunnar, og lætur frá sér fara heilaspuna, sem gerir kröfu til að vera díalektískur heilaspuni. Hann finnur enga þörf á að tala um 17., 18. eða 19. öld, því saga hans gerist á þokukenndu sviði ímyndunarinnar og er hátt hafin yfir stað og stund. Í einu orði sagt: Þetta er gamall grautur frá Hegel, þetta er engin saga, þetta er engin veraldleg saga – saga mannanna, –, heldur heilög saga – saga hugmyndanna. Að hans áliti er

maðurinn einungis verkfærið, sem hugmyndin eða hin eilífa vizka notar við framvindu sína. *Þróunin* sem herra Proudhon ræðir um, skal vera þróun eins og hún á sér stað í dulrænu skauti hinnar algeru hugmyndar. Rífi maður sundur fortjald þessa dulræna tjáningarmáta, þýðir það að herra Proudhon setur okkur fyrir sjónir niðurröðun hagfræðilegra hugtaka eins og hún gerist inni í hans eigin kolli. Og mér skal ekki verða skotaskuld úr því að sýna yður fram á, að í því heilabúi ríkir hvorki röð né regla.

Herra Proudhon hefur bók sína á hugleiðingu um *verðmætið,* sem er rórillið hans. Ég sleppi því að sinni að kanna þessa hálærðu hugleiðingu.

Halarófa hagþróunarstiga hinnar eilífu vizku hefst á *verkaskiptingunni.* Í augum herra Proudhons er verkaskiptingin afar einfalt mál. En var ekki erfðastéttakerfið nokkur verkaskipting? Og var ekki gildakerfið önnur verkaskipting? Og var ekki verkaskiptingin í skipulagða handiðnaðinum, sem hefst á Englandi um miðja 17. öld og lýkur á ofanverðri 18. öld, ekki sömuleiðis gerólík verkaskiptingunni í stóriðnaðinum, iðnaði nútímans?

Herra Proudhon er svo fjarri sannleikanum, að hann lætur hjá líða það sem meira að segja óbreyttir hagfræðingar sinna. Til að geta rætt um verkaskiptingu, þarf hann ekki að ræða um heims*markað.* En hlaut ekki verkaskiptingin á 14. og 15. öld, þegar engar nýlendur voru til, þegar Ameríka var ekki enn til hvað Evrópu snerti, þegar Austur-Asía var aðeins til fyrir milligöngu Miklagarðs, að vera í grundvallaratriðum frábrugðin verkaskiptingunni á 17. öld, þegar þróaðar nýlendur voru komnar til sögunnar?

Og ekki nóg með þetta. Hvað er öll innri skipan þjóðanna, öll milliríkjasamskipti þeirra, annað en tjáning á tiltekinni verkaskiptingu? Og hlýtur þetta ekki að breytast með breyttri verkaskiptingu?

Herra Proudhon skilur svo lítið í verkaskiptingunni, að hann nefnir ekki einu sinni greininguna í borg og sveit, sem átti sér til dæmis stað í Þýzkalandi frá því á níundu öld fram á hina tólftu. Þannig verður þessi greining í augum herra Proudhons að eilífu lögmáli, sökum þess að hann þekkir hvorki upphaf hennar né framvindu. Hann lætur því svo í allri bók sinni, sem þessi ávöxtur tiltekinna framleiðsluhátta muni vara fram á efsta dag. Allt það sem herra Proudhon hefur fram að færa um verkaskiptinguna er einungis upptugga, og þar á ofan mjög yfirborðsleg, mjög ófullkomin upptugga á því, sem Adam Smith og þúsund höfundar aðrir hafa sagt á undan honum.

Annað þróunarstigið er *vélarnar.* Samhengið milli verka-

skiptingarinnar og vélanna er algerlega af dulrænum toga hjá herra Proudhon. Sérhverju afbrigði verkaskiptingar fylgdu sérhæfð framleiðslutæki. Til dæmis framleiddu menn frá miðri 17. öld til miðrar 18. aldar ekki alla hluti í höndunum. Þeir höfðu til umráða verkfæri, og það meira að segja mjög margbrotin verkfæri, eins og rennibekki, skip, vindur o. s. frv., o. s. frv. Ekkert er því hjákátlegra en að láta vélarnar verða til sem almenna afleiðingu verkaskiptingarinnar.

Í framhjáhlaupi vil ég bæta því við, að þar sem herra Proudhon hefur ekki skilið sögulegan uppruna vélanna, hefur hann því síður gert sér grein fyrir þróun þeirra. Fyrir 1825, tímabil fyrstu allsherjarkreppunnar – má segja – uxu þarfir neyzlunnar yfirleitt örar en framleiðslan, og þróun vélanna fór óhjákvæmilega eftir þörfum markaðsins. Síðan 1825 er uppfinning og hagnýting vélanna eingöngu afleiðing af stríðinu milli atvinnurekenda og verkamanna. Og það á líka einungis við um England. Hvað þjóðir Evrópu varðar, hefur samkeppnin sem þær verða fyrir af hálfu Englendinga, bæði á heimamörkuðum og á heimsmarkaðnum, knúið þær til að nota vélar. Loks er málum svo háttað hvað Norður-Ameríku áhrærir, að þar komu vélarnar til sögunnar bæði vegna samkeppni við aðrar þjóðir og vegna skorts á vinnuafli, þ. e. a. s. ósamræmisins milli íbúatölu og iðnaðarþarfa Norður-Ameríku. Af þessum staðreyndum getið þér ráðið, hvílíka skarpskyggni herra Proudhon sýnir, þegar hann vekur upp samkeppnisdrauginn sem þriðja þróunarstig, sem andstæðu vélanna.

Loks er það hreint og beint fáránlegt að gera vélarnar að efnahagslegu grunnhugtaki á borð við verkaskiptingu, samkeppni, lánakerfi o. s. frv.

Vélin er engu frekar hagþáttur en uxinn sem plóginn dregur. Núverandi *notkun* vélanna er ein af aðstæðunum í núverandi hagkerfi okkar, en sá háttur sem hafður er á notkun vélanna er allt annað en vélarnar sjálfar. Púðrið er óbreytt, hvort sem við notum það til að særa mann eða búa um sár hins særða.

Herra Proudhon yfirgengur sjálfan sig, þegar hann lætur samkeppnina, einokunina, skattana eða lögregluna, viðskiptajöfnuðinn, lánakerfið, eignarréttinn spretta í höfði sínu í þeirri röð sem hér er tilfært. Næstum allt lánakerfið hafði þróazt til fullnustu í Englandi í upphafi 18. aldar, áður en vélarnar voru fundnar upp. Ríkislánin voru einungis ný aðferð til að hækka skattana og uppfylla nýjar þarfir sem myndazt höfðu við valdatöku borgarastéttarinnar. *Eignarrétturinn* er loks síðasti þátturinn í kerfi herra Proudhons. Í heimi raunveruleikans eru aftur á móti verkaskiptingin og allir aðrir þættir herra Proudhons félagslegar að-

stæður, sem í sameiningu mynda það sem nú nefnist *eignarréttur;* utan þessara aðstæðna er borgaralegur eignarréttur ekkert annað en háspekileg eða lögfræðileg glapsýn. Eignarréttur annars söguskeiðs, lénseignarrétturinn, þróast við allt aðrar félagslegar aðstæður. Við það að herra Proudhon gerir eignarréttinn að óháðri aðstæðu, verður honum á meira en skyssa í rannsóknaraðferð; hann sýnir ljóslega, að hann hefur ekki gert sér grein fyrir bandinu, sem tengir saman allar myndir *borgaralegs* eignarréttar, að hann hefur ekki skilið *sögulegt* og *tímabundið* eðli framleiðslumyndanna á tilteknu söguskeiði. Herra Proudhon, sem ekki kemur auga á að félagslegt fyrirkomulag okkar er afsprengi sögunnar, sem hvorki skilur uppruna þess né þróun, er einungis fær um að beita það kreddubundinni gagnrýni.

Því neyðist herra Proudhon líka til að grípa til *hugsmíðar* til að skýra þróunina. Hann ímyndar sér að verkaskiptingin, lánastarfsemin, vélarnar o. s. frv., allt hafi þetta verið fundið upp til að þjóna þráhyggju hans, hugmyndinni um jöfnuðinn. Skýring hans lýsir furðulegri einfeldni. Þessir hlutir hafa verið fundnir upp í þágu jafnaðarins, en því miður hafa þeir snúizt gegn jöfnuðinum. Þetta er öll hans röksemdafærsla. Það er að segja, hann leggur til grundvallar getgátu, gripna úr lausu lofti, og þegar raunveruleg þróun og hugsmíð hans rekast á í öllum greinum, ályktar hann af því að hér sé um mótsögn að ræða. Með því breiðir hann yfir að mótsögnin er einungis milli þráhyggju hans sjálfs og þess sem fram vindur í raun og veru.

Þannig hefur herra Proudhon, aðallega sökum skorts á söguþekkingu, ekki tekið eftir: Að mennirnir þróa með sér tilteknar aðstæður með því að þróa framleiðsluöfl sín, það er að segja, með því að lifa, og að gerð þessara aðstæðna breytist óhjákvæmilega með ummyndunum og vexti þessara framleiðsluafla. Hann hefur ekki komið auga á að *hagfræðileg grunnhugtök* eru einvörðungu *sértök* þessara raunverulegu aðstæðna, að þau eru ekki sannindi nema meðan þessar aðstæður vara. Því verður honum á sama villan og borgaralegum hagfræðingum, sem líta á þessi hagfræðilegu grunnhugtök sem tjáningu eilífra lögmála en ekki sögulegra, sem aðeins gilda á tilteknu sögulegu þróunarstigi, á tilteknu þróunarstigi framleiðsluaflanna. Í stað þess að líta á þjóðfélagsleg grunnhugtök sem sértök hinna raunverulegu, tímabundnu samfélagsaðstæðna, sér því herra Proudhon, sökum dulrænnar ummyndunar, í raunverulegum aðstæðum einungis holdtekju þessara sértaka. Þessi sértök eru sjálf reglur, sem frá upphafi tímanna hafa blundað í skauti guðs almáttugs.

En nú fær herra Proudhon blessaður áköf sálarflog. Ef allt það sem þessi efnahagslegu grunnhugtök taka til er útstreymi guð-

legs hjarta, ef það er dulið og eilíft líf mannanna, hversu má það þá vera, í fyrsta lagi, að þróun á sér stað, og í öðru lagi, að herra Proudhon er ekki íhaldsmaður? Þessar augljósu mótsagnir skýrir hann með heilu kerfi andstæðna.

Tökum eitt dæmi, til að skýra þetta andstæðukerfi.

*Einokunin* er góð, því hún er efnahagslegt grunnhugtak, sem sé útstreymi frá guði. Samkeppnin er góð, því hún er það sömuleiðis. En það, sem ekki er gott, er hversu einokun og samkeppni eru í framkvæmd. Enn verra er þó, að einokun og samkeppni éta hvor aðra upp til agna. Hvað skal gera? Þar sem þessar tvær eilífu hugsanir guðs eru hvor í mótsögn við aðra, virðist honum augljóst að í skauti guðs sé einnig að finna samruna beggja þessara hugsana, þar sem samkeppnin máir út galla einokunarinnar og öfugt. Baráttan milli hugmyndanna tveggja verður að lokum til þess að góða hliðin ein verður eftir. Þessa leyndu hugsun verða menn að hrifsa frá guði, hagnýta hann tafarlaust, og allt fellur í ljúfa löð. Það er um að gera að opinbera duldar reglur í svartnætti ópersónulegrar mannlegrar skynsemi. Herra Proudhon hikar ekki eitt andartak við að gerast opinberari.

En lítið eitt andartak á lífið eins og það er í raun og veru. Í haglífi nútímans rekizt þér ekki bara á samkeppnina og einokunina, heldur einnig á samruna þeirra, sem er ekki *regla* heldur *hreyfing*. Einokunin fæðir af sér samkeppni og samkeppnin fæðir af sér einokun. Þessi jöfnun fjarlægir þó engan veginn erfiðleikana sem nú ríkja, eins og borgaralegir hagfræðingar gera sér í hugarlund, heldur skapar aðeins enn erfiðara og ruglingslegra ástand. Sem sagt, ef þér breytið grundvellinum undir ríkjandi hagrænum aðstæðum, ef þér eyðileggið núverandi framleiðslu*hætti,* eyðileggið þér ekki aðeins samkeppnina, einokunina og andstæðuna þeirra á milli, heldur einnig einingu þeirra, samruna þeirra, hreyfinguna, sem myndar hinn raunverulega jöfnuð milli samkeppni og einokunar.

Nú ætla ég að sýna yður dæmi um díalektík herra Proudhons.

Frelsi og þrælahald mynda andstæðu. Ég þarf hvorki að ræða kosti né galla frelsisins. Hvað þrælahald snertir, þarf ég ekki að ræða galla þess. Eina atriðið sem skýra verður er kosturinn við þrælahaldið. Hér er ekki um að ræða óbeina þrælkun, þrælkun öreigalýðsins, heldur beina þrælkun, þrælkun svertingja í Surinam, í Brasilíu, í Suðurríkjum Norður-Ameríku.

Bein þrælkun er möndulás núverandi iðnaðarskipulags okkar, rétt eins og vélarnar, lánakerfið o. s. frv. Án þrælahalds engin baðmull, án baðmullar enginn nútímaiðnaður. Þrælahaldið eitt hefur gert nýlendurnar verðmætar, nýlendurnar hafa skapað heimsverzlunina, og heimsverzlunin er óhjákvæmilegt skilyrði fyr-

ir vélvæddum stóriðnaði. Því var það að nýlendurnar veittu gamla heiminum mjög fáar afurðir fyrir daga þrælaverzlunarinnar og breyttu ekki ásjónu jarðar svo á bæri. Þess vegna er þrælahaldið afar mikilvægt efnahagslegt grundvallaratriði. Án þrælahalds myndu Norður-Ameríkumenn, sú þjóð sem lengst er komin á framfarabrautinni, breytast í ættfeðraveldi. Striki maðuð Norður-Ameríkumenn út úr tölu þjóðanna, tekur við óstjórn, algert hrun verzlunarviðskipta og nútíma siðmenningar. En að láta þrælahaldið hverfa, væri sama og strika Norður-Ameríku út af landakortinu. Vegna þess að þrælahald er grundvallaratriði hagkerfis, er það að finna frá upphafi vega með öllum þjóðum. Þjóðir nútímans hafa bara haft lag á að dulbúa þrælahaldið heima fyrir og koma því á opinskátt í nýja heiminum. Hvað á nú herra Proudhon blessaður að taka til bragðs, eftir þessar hugleiðingar um þrælahaldið? Hann leitar samruna frelsis og þrælahalds, hins sanna, gullna meðalvegar, með öðrum orðum: Jafnvægis milli þrælahalds og frelsis.

Herra Proudhon hefur látið sér skiljast ágæta vel, að menn búa til dúka, léreft og silki, og það er þó alltaf nokkuð að hafa gert sér grein fyrir slíku smáræði! Aftur á móti hefur herra Proudhon ekki skilið að menn framleiða einnig, hver eftir sínum framleiðsluöflum, *félagslegu aðstæðurnar,* sem þeir framleiða við dúka og léreft. Því síður hefur herra Proudhon skilið, að mennirnir, sem framleiða félagslegar aðstæður samsvarandi efnislegum framleiðsluháttum sínum, framleiða einnig *hugmyndirnar, hugtökin,* það er að segja sértæka, huglæga tjáningu einmitt þessara félagslegu aðstæðna. Hugtökin eru semsé jafn lítt eilíf og aðstæðurnar sem þau tjá. Þau eru söguleg og tímabundin framleiðsla. Í augum herra Proudhons eru aftur á móti sértökin, hugtökin frumorsökin. Eftir því sem hann segir eru það þau en ekki mennirnir sem skapa söguna. *Sértökin, hugtökin sem slík,* það er að segja slitin úr tengslum við mennina og efnislega starfsemi þeirra, eru auðvitað ódauðleg, óumbreytanleg, ómerkjanleg, þau eru einvörðungu verur úr heimi hinnar hreinu vizku, sem þýðir það eitt að sértakið í sjálfu sér er sértækt – dálagleg upptugga!

Hagrænar aðstæður eru því, séðar sem hugtök, í augum herra Proudhons eilífar reglur, sem hvorki eiga sér upphaf né framvindu.

Orðum þetta á annan veg: Herra Proudhon segir ekki berum orðum, að *borgaralegir lífshættir* séu í hans augum *eilíf sannindi.* Hann segir þetta óbeint, með því að hefja í guðatölu hugtökin, sem tjá borgaralegar aðstæður í formi hugsunarinnar. Hann tekur afsprengi borgaralegs samfélags fyrir sjálfskapaðar, lífi gædd-

ar, eilífar verur, þegar þær birtast honum í mynd hugtaka, í mynd hugsunarinnar. Svo hann kemst aldrei út fyrir borgaralegan sjóndeildarhring. Þar sem hann umgengst borgaralegar hugmyndir eins og væru þær eilífar, leitar hann samruna þessara hugmynda, jafnvægis þeirra, og sér ekki að sá háttur sem nú er á jafnvægi þeirra, er sá eini háttur sem mögulegur er.

Í raun og veru gerir hann það sama og allir góðir borgarar gera. Þeir segja allir, að samkeppnin, að einokunin o. s. frv. séu í grundvallaratriðum, það er að segja sem sértækar hugmyndir, allsherjar undirstaða lífsins, en í framkvæmd sé ýmislegt út á þau að setja. Þeir vilja allir samkeppni án óheppilegra afleiðinga samkeppninnar. Þeir vilja allir það sem ómögulegt er, sem sé borgaraleg lífsskilyrði án óhjákvæmilegra afleiðinga þessara skilyrða. Öllum er þeim jafn hulið, að borgaralegt form framleiðslunnar er sögulegt og tímabundið form, nákvæmlega eins og lénska formið var. Þessi villa stafar af því, að hinn borgaralegi maður er í þeirra augum eina hugsanlega undirstaða sérhvers samfélags, af því að þeir geta ekki hugsað sér samfélagsfyrirkomulag, þar sem maðurinn er hættur að vera borgari.

Herra Proudhon er þannig óhjákvæmilega *kreddufastur*. Sú söguhreyfing, sem byltir um heimi nútímans, verður í hans skilningi að þeim vanda, að finna rétt jafnvægi, samruna tveggja borgaralegra hugmynda. Svo uppgötvar þessi snjalli, ungi maður af einni saman kænsku leynda hugsun guðs, einingu tveggja einangraðra hugmynda, sem því aðeins eru tvær einangraðar hugmyndir, að herra Proudhon hefur einangrað þær frá hagnýtu lífi, frá nútímaframleiðslu, sem er samsteypa þeirra staðreynda sem þessar hugmyndir tjá. Í stað þeirrar voldugu söguhreyfingar, sem sprettur af árekstrinum milli framleiðsluaflanna sem menn hafa þegar áunnið sér og félagslegra aðstæðna þeirra, sem svara ekki lengur til þessara framleiðsluafla; í stað þeirra hroðalegu styrjalda sem á döfinni eru, milli mismunandi stétta sömu þjóðar og milli mismunandi þjóða; í stað hagnýtrar valdbeitingar fjöldans, sem ein getur leitt þessa árekstra til lykta; í stað þessarar víðfeðmu, viðvarandi og flóknu framvindu setur herra Proudhon óyndislegar hreyfingar síns eigin kolls. Lærðu mennirnir, þeir menn sem kunna að lokka út úr guði leyndar hugsanir hans, móta semsé söguna. Smámennin þurfa ekki annað að aðhafast en hagnýta opinberanir þeirra. Nú skiljið þér, hvers vegna herra Proudhon er yfirlýstur óvinur allra stjórnmálahreyfinga. Lausn vandamála nútímans er í hans augum ekki fólgin í opinberri athöfn, heldur í díalektískri hringrás innan í höfði hans. Þar sem hugtökin eru í hans augum hreyfiaflið, þarf ekki að breyta lífinu eins og það gerist til að breyta hugtökunum. Þvert á móti: Breyta

þarf hugtökunum, og það mun hafa í för með sér breytingu á samfélagsveruleikanum.

Svo logandi er herra Proudhon af áhuga á að sætta mótsagnirnar, að hann spyr ekki einu sinni sjálfan sig, hvort ekki þurfi í rauninni að umbylta undirrót þessara mótsagna. Hann er nauðalíkur kredduföstum stjórnmálamanni, sem þykist þar sem er konungurinn og báðar deildir þingsins sjá ómissandi hluta þjóðlífsins, eilíf hugtök. Hann leitar einungis að nýrri reglu um jafnvægi þessara valdhafa, en jafnvægi þeirra felst einmitt í ríkjandi umskiptum, þar sem valdahafarnir eru ýmist sigurvegari eða þræll hvors annars. Svona fékkst grúi meðalgáfaðra heila við það á 18. öld að finna einu, réttu regluna, sem komið gæti á jafnvægi milli stéttanna í þjóðfélaginu, konungs, aðalsins, héraðsþinganna o. s. frv., en í einu vetfangi var allt – konungur, aðall og stéttaþing – horfið. Rétta jafnvægið í þessari andstæðu var umbylting allra félagslegra aðstæðna, sem voru grundvöllur undir þessum lénsfígúrum og andstæðunni þeirra á milli.

Þar sem herra Proudhon setur á aðra hönd hinar eilífu hugmyndir, hugtök hinnar hreinu vizku, og á hina mennina og raunverulegt líf þeirra, sem hann telur felast í hagnýtingu þessara hugtaka, rekst maður þegar í öndverðu hjá honum á *tvíhyggju* milli lífsins og hugmyndanna, milli líkama og sálar – tvíhyggju sem gengur aftur í mörgum myndum. Nú sjáið þér, að þessi andstæða er ekkert annað en getuleysi herra Proudhons að skilja jarðneskan uppruna og veraldlega sögu hugtakanna, sem hann hefur í guðatölu.

Bréf mitt er þegar orðið lengra en svo að ég geti enn fjallað um á hve hlægilegan hátt herra Proudhon kveður upp dóm yfir kommúnismanum. Þér hljótið að fallast á það fyrirfram, að maður sem ekki hefur fengið skilning á ríkjandi samfélagsástandi, er enn síður fær um að skilja hreyfinguna sem vill umbylta því og það sem þessi byltingarhreyfing hefur látið frá sér fara í rituðu máli.

*Eina atriðið* sem ég er herra Proudhon algerlega sammála um, er viðurstyggð hans á hinni sósíalísku tilfinningasemi. Ég hef þegar aflað mér mikillar óvildar með háðsyrðum mínum um hinn sauðheimska, munklökka, staðleysusósíalisma. En gerir herra Proudhon sér ekki kynlegar grillur, þegar hann teflir fram smáborgara-tilfinningasemi sinni, ég á við raus hans um hjónabandið, hjónaást og alla þá lágkúru, gegn sósíalískri tilfinningasemi, sem t. d. hjá Fourier er miklu dýpri en uppþembt glamur okkar góða Proudhons? Sjálfur finnur hann svo glöggt fánýti röksemda sinna, algert getuleysi sitt til að ræða þessi efni, að hann tryllist gersamlega, setur sig í ræðustellingar, gerir sér upp

réttláta reiði, að hann froðufellir, formælir, ákærir, æpir um svívirðu og hrópar á hjálp, að hann ber sér á brjóst og stærir sig fyrir guði og mönnum af að eiga engan þátt í fúlmennsku sósíalista! Hann gagnrýnir ekki sósíalíska tilfinningasemi, eða það sem hann telur vera tilfinningasemi. Hann bannfærir sem dýrlingur eða páfi væri hina aumu syndara og syngur smáborgaraskapnum og vesölum feðraveldis- og ástarblekkingum hins kæra heimilis lofsöngva. Og það er síður en svo tilviljun. Herra Proudhon er frá hnakka á hæl heimspekingur og hagspekingur smáborgaraskaparins. Í þróuðu samfélagi verður *smáborgarinn,* vegna klípunnar sem hann er í, sósíalisti í aðra röndina og hagspekingur í hina, það er að segja, hann fær ofbirtu í augun af dýrð broddborgaranna og kennir í brjósti um þjáða alþýðu. Hann er í senn borgari og alþýða. Í djúpum samvizku sinnar telur hann sér hreykinn trú um að vera óhlutdrægur, að hafa fundið hið rétta meðalhóf, sem gerir tilkall til að vera eitthvað annað en bil beggja. Slíkur smáborgari hefur *mótsögnina* í guða tölu, því *mótsetningin* er kjarni veru hans. Hann er sjálf félagslega mótsögnin að verki. Hann verður að réttlæta fræðilega það sem hann er í framkvæmd, og herra Proudhon hefur þann verðleika að vera vísindalegur túlkandi frönsku smáborgarastéttarinnar, og það er raunverulegur verðleiki, því smáborgarastéttin verður ómissandi hluti af öllum þjóðfélagsbyltingum sem nú eru að búa um sig.

Ég hefði gjarnan viljað senda yður með þessu bréfi bók mína um þjóðhagfræði, en hingað til hefur mér ekki lánazt að fá prentaða þessa bók og gagnrýnina á þýzku heimspekingunum og sósíalistunum, sem ég skýrði yður frá í Brüssel. Þér getið ekki gert yður í hugarlund, hvílíkir erfiðleikar verða á vegi slíkrar útgáfu í Þýzkalandi, sumpart af hálfu lögreglunnar, sumpart af hálfu bóksalanna, sem sjálfir eru hagsmunabundnir fulltrúar allra þeirra stefna, sem ég ræðst á. Og hvað okkar eigin flokk áhrærir, þá er hann ekki aðeins fátækur, heldur tekur öflugur hópur innan þýzka kommúnistaflokksins mér það illa upp, að ég snýst gegn framtíðarsýnum þeirra og orðagjálfri.

## Úr bréfi frá Marx til Weydemeyers

London 5. marz 1852

... Hvað mig snertir, ber mér hvorki heiðurinn af að hafa uppgötvað tilveru stéttanna í nútímaþjóðfélagi né baráttu þeirra sín í milli. Borgaralegir sagnaritarar höfðu löngu á undan mér

lýst söguþróun þessarar stéttabaráttu og borgaralegir hagfræðingar lýst hagrænu eðli stéttanna. Það nýja sem ég gerði var: 1) Að sýna fram á að *tilvera stéttanna* er einvörðungu tengd *tilteknum, sögulegum þróunarskeiðum framleiðslunnar.* 2) Að stéttabaráttan leiðir óhjákvæmilega til *alræðis öreiganna.* 3) Að þetta alræði er sjálft aðeins millibilsástand fyrir *afnám* allra stétta og myndun *stéttlauss samfélags.*

## Úr bréfi frá Marx til Engels

London 25. september 1857

... „Army"[1] þinn er afbragð; magnið er bara eins og kjaftshögg á mig, því þú hlýtur að hafa illt af svona miklu annríki. Hefði ég nefnilega vitað, að þú yrðir að vinna fram á nætur, hefði ég heldur kosið að láta allt þetta mál fara fjandans til.

Sagnfræðin í „Army" sýnir ljóslegar en nokkuð annað fram á, hve rétt er skoðun okkar á samhenginu milli framleiðsluafla og félagslegra aðstæðna. Yfirleitt er herinn þýðingarmikill fyrir hagþróunina. T. d. þróast launagreiðsla fyrst til fullnustu í hernum hjá fornmönnum. Sömuleiðis herbúðaeignin hjá Rómverjum, fyrsta réttarregla sem viðurkennir lausafé í eigu einhleypra. Sömuleiðis gildisskipanin hjá iðnaðarmönnum hersins. Sömuleiðis þar fyrsta notkun véla í stórum stíl. Meira að segja sérstakt verðmæti málma og notkun þeirra sem skotsilfurs virðist upphaflega – þegar steinöld Grimms var um garð gengin – hafa stafað af hernaðarþýðingu þeirra. Einnig verkaskiptingu *innan* starfsgreinar fyrst komið á í hernum. Þar að auki öll saga borgaralegra þjóðfélaga þar í afar skýru ágripi. Einhvern tíma þegar þér gefst tóm, máttu til með að fjalla um efnið frá þessu sjónarmiði.

Einu atriðin sem að mínu áliti skortir í framsetningu þína: 1. Fullgild málaliðsmennska kemur fyrst fram í stórum stíl og skyndilega hjá Karþagómönnum (til einkaafnota fyrir okkur ætla ég að fletta upp aftur í riti Berlínarbúa nokkurs um heri Karþagómanna, sem ég frétti ekki af fyrr en síðar). 2. Þróun hermennsku á Ítalíu á 15. öld og í upphafi þeirrar 16. Að minnsta kosti þjálfuð þar herbrögð. Auk þess mjög fyndin lýsing Machiavellis (sem ég ætla að rífa úr handa þér) í Flórenssögu hans á bardagaaðferðum málaliða. (Ég ætla samt heldur þegar ég heimsæki þig í Brighton (hvenær?) að færa þér bók Machiavellis.

[1] Engels skrifaði greinina „Army" (Her) í alfræðiverkið „New American Cyclopedia".

Saga Flórens er meistaraverk.) Loks 3. Hermennska Asíuþjóða, eins og hún birtist fyrst hjá Persum, en kemur svo fram með mjög mismunandi breytingum m. a. hjá Mongólum og Tyrkjum. ...

## Úr bréfi frá Engels til Schmidts

London 5. ágúst 1890

... Gagnrýni um bók Pauls Barths eftir óheillakrákuna Moritz Wirth sá ég í Vínarblaðinu „Deutsche Worte", og *þessi* gagnrýni hefur skilið eftir hjá mér áhrif sem ekki eru bókinni sjálfri í hag. Ég ætla að líta í hana, en það verð ég að segja, að hafi Moritz greyið það rétt eftir honum, að Barth hafi í öllum ritum Marx fundið það eitt dæmi um hve háð heimspekin o. s. frv. er efnislegum tilveruskilyrðum, að Descartes segir dýrin vera vélar, kenni ég í brjósti um þann mann, sem getur skrifað þvílíkt. Og hafi maðurinn ekki enn uppgötvað það, að þótt efnislegir tilveruhættir séu driffjöðrin, útilokar það ekki að huglæg svið hafi aftur á móti gagnverkandi en minniháttar áhrif á þá, getur hann engan veginn hafa skilið efnið sem hann skrifar um. En sem sagt, þetta er allt um millilið komið, og Moritz greyið er illt að eiga að vin. Nú eru þeir líka margir, sem hafa efnislega söguskoðun að yfirvarpi til að kynna sér *ekki* sögu. Alveg eins og Marx komst að orði um frönsku „marxistana" síðast á áttunda tug aldarinnar: „Það eitt veit ég, að ég er ekki marxisti."

Svo hefur líka verið ritdeila í „Volkstribüne" um skiptingu framleiðslunnar í samfélagi framtíðarinnar, hvort hún fari eftir vinnuframlagi eða öðru. Líka hefur verið tekið mjög „efnislega" á málinu á móti hugsjónaþrungnu réttlætistali sumra manna. En þótt kynlegt sé hefur engum hugkvæmzt, að hátturinn sem á skiptingunni er hafður veltur þó að verulegu leyti á því, hve miklu er að deila, og það hlýtur að breytast með framförum í framleiðslu og félagslegum skipulagsháttum, svo skiptingin ætti líka að geta breytzt. En hjá öllum þátttakendum birtist „hið sósíalíska samfélag" ekki sem fyrirbæri í stöðugri breytingu og framförum, heldur sem kyrrstæður hlutur, fastmótaður í eitt skipti fyrir öll, sem þess vegna skal búa við óumbreytanlega skiptingu. Sé vitið haft með í ráðum getur maður þó aðeins: 1. Reynt að finna þann hátt á skiptingu sem viðhafa ber *í upphafi*, og 2. Reynt að komast að raun um *í hvaða átt* framþróunin muni beinast. Að því sá ég samt engu orði vikið í allri deilunni.

Yfirleitt verður orðið „efnislegur" í meðferð margra hinna

yngri rithöfunda í Þýzkalandi að einföldu glamuryrði, sem menn merkja með alla skapaða hluti án frekari könnunar, þ. e. a. s. líma á þennan merkimiða og halda sig þar með hafa afgreitt málið. En söguskoðun okkar er öllu öðru fremur hvöt til rannsóknar, engin vogarstöng til að nota við byggingu eins og hegelskan. Gervalla söguna þarf að kanna á ný, rannsaka verður tilveruskilyrði mismunandi samfélagsmyndana í einstökum atriðum, áður en tekið er til við að reyna að álykta af þeim um pólitíska, lagalega, fagurfræðilega, heimspekilega, trúarlega o. s. frv. skoðunarhætti sem þeim samsvara. Í því efni hefur lítið verið aðhafzt til þessa, því fáir einir hafa snúið sér að því af alvöru. Við það höfum við not fyrir ógrynni aðstoðarmanna, sviðið er óendanlega vítt, og hver sem starfa vill af kostgæfni getur áorkað miklu og unnið sér orðstír. Þess í stað nota alltof margir ungir Þjóðverjar glamuryrðið efnisleg söguskoðun (úr *öllu* má nefnilega gera glamuryrði) til þess eins að færa þeirra eigin tiltölulega fátæklegu söguþekkingu – hagsagan er jú enn í reifum! – í snatri í samfellt kerfi, og þykjast síðan vera miklir menn. Og þegar svo er komið getur náungi eins og Barth komið fram og ráðizt á málstaðinn sjálfan, sem að minnsta kosti í hans umhverfi er sokkinn niður í eintómt glamur.

Hvað sem því líður, þetta jafnast allt bráðum. Nú erum við orðnir nógu öflugir í Þýzkalandi til að geta þolað sitt af hverju. Einn mesti greiðinn sem sósíalistalögin gerðu okkur, var að losa okkur við áleitni þýzkra stúdenta sem hafa fengið nasasjón af sósíalisma. Nú erum við nógu öflugir til að geta meira að segja melt þýzka stúdentinn, sem enn á ný gerist fyrirferðarmikill. Þér, sem hafið í raun og sannleika afrekað nokkuð, hljótið að hafa tekið eftir því sjálfur, hve fáir af þessum ungu, skrifandi mönnum, sem gerast áhangandi flokknum, hafa fyrir því að leggja stund á hagfræði, hagsögu, verzlunarsögu, iðnsögu, búnaðarsögu, sögu samfélagsskipunarinnar. Hversu margir skyldu vita meira um Maurer en nafnið eitt! Blaðamannsgorgeirinn er látinn duga, og þar eftir er árangurinn. Oft er eins og þessir herrar haldi, að allt sé nógu gott handa verkamönnum. Ef þessir herrar vissu, hvernig Marx fannst að það bezta sem frá honum kom væri ekki enn nógu gott fyrir verkamennina, hvað hann áleit það mikinn glæp, að bjóða verkamönnum það sem lélegra var en það allra bezta....

# Úr bréfi frá Engels til Blochs

London 21./22. september 1890

... Samkvæmt efnislegri söguskoðun er framleiðslan og endurnýjun í lífinu sjálfu *þegar allt kemur til alls* ráðandi aflið í sögunni. Hvorki Marx né ég höfum nokkru sinni staðhæft meira. Þegar einhver kemur nú og rangfærir þetta á þann veg, að efnahagsatriðið sé *eitt* ráðandi, ummyndar hann þessa setningu í merkingarlaust, óhlutlægt, fáránlegt orðagjálfur. Efnahagsástandið er undirstaðan, en mismunandi atriði yfirbyggingarinnar – pólitískar myndir sem stéttabaráttan tekur á sig og úrslit hennar – stjórnarskrár sem sigursæl stétt setur að unninni orustu o. s. frv. – réttarreglur, og meira að segja speglanir allra þessara raunverulegu viðureigna í heilum þeirra sem þar taka þátt, pólitískar, lagalegar, heimspekilegar kenningar, trúarskoðanir og þróun þeirra í kenningakerfi, hafa einnig sín áhrif á baráttuna í sögunni, og hafa oft yfirgnæfandi áhrif á *myndina* sem hún tekur á sig. Í víxlverkun allra þessara atriða gerist það að lokum að efnahagsþróunin gerir sig gildandi sem *nauðsyn* fyrir tilstilli óendanlegs grúa tilviljana (þ. e. a. s. hluta og atvika, þar sem samhengið á milli er svo lauslegt eða ósannanlegt að líta má svo á að það sé ekki til og því óhætt að láta vera að kanna það.) Ella væri auðveldara að heimfæra kenninguna upp á hvaða söguskeið sem vera skal, en að leysa jöfnu með einni óþekktri stærð.

Við sköpum sjálf sögu okkar, en í fyrsta lagi við mjög ákveðnar forsendur og skilyrði. Þar í flokki er það hið efnahagslega sem ræður úrslitum að lokum. En einnig hið pólitíska o. s. frv., já, meira að segja hefðin sem draugast í höfðum manna, hafa einnig sín áhrif, þótt þau ráði ekki úrslitum. Prússneska ríkið myndaðist og dafnaði af sögulegum orsökum, efnahagslegum þegar allt kemur til alls. En vart verður því haldið fram nema með hótfyndni, að af öllum smáríkjum Norður-Þýzkalands hafi einmitt Brandenburg af efnahagslegri nauðsyn en ekki af tilverknaði annarra atriða (fyrst og fremst viðurskiptanna við Pólland, sökum yfirráða yfir Prússlandi, og þátttöku í alþjóðlegum samskiptum sem þar af leiddu – en hún var líka úrslitaatriði við myndun drottinvaldsins í Austurríki) verið til þess kjörið að gerast stórveldið þar sem afbrigðileiki norðurs frá suðri í atvinnumálum, málfari, og frá því á siðskiptatímanum einnig í trúarefnum, tók á sig mynd. Erfitt mun reynast að skýra efnahagslega, öðru vísi en gera sig að athlægi, tilveru sérhvers þýzks smáríkis fyrr og nú, eða uppruna háþýzku hljóðbreytingarinnar, sem gerði land-

fræðilegu markalínuna sem fjöllin frá Súdetafjöllum til Taunus mynda, að reglulegum skilum þvert yfir Þýzkaland.

En í öðru lagi gerist sagan þannig, að lokaniðurstaðan sprettur ætíð af átökum milli margra einstaklingsvilja, en sérhvern þeirra hefur fjöldi sérstakra lífsskilyrða gert að því sem hann er; það er sem sagt óendanlegur fjöldi afla sem hvert toga í sína átt, óendanlegur hópur aflsviða, sem leiða til niðurstöðu – hins sögulega árangurs – en á þau má svo líta sem árangur krafts sem starfar, þegar á heildina er litið, *vitundarlaust* og viljalaust. Því það sem hver einstakur vill, hindrar sérhver hinna, og það sem fram kemur er eitthvað sem enginn hefur viljað. Þannig hefur sagan liðið hingað til að hætti náttúrufyrirbæris, og er líka að verulegu leyti undirorpin sömu framvindulögmálum. En af því að viljar einstaklinganna – sem hver um sig vill það sem líkamsburðir og ytri aðstæður, þegar allt kemur til alls þær efnahagslegu (annað hvort persónulegar eða almennar og félagslegar) knýja hann til – koma ekki því til leiðar sem þeir vilja, heldur renna saman í heildarmeðaltal, sameiginlega niðurstöðu, af því má samt ekki álykta að þeir jafngildi núlli. Þvert á móti, hver og einn stuðlar að niðurstöðunni og á sinn hlut í henni.

Ég vildi mega biðja yður að kanna þessa kenningu nánar í frumheimildum en ekki hjá milliliðum, það er í rauninni miklu auðveldara. Marx hefur varla skrifað nokkuð, þar sem hún kemur ekki við sögu. Sérstaklega er þó *„Átjándi brumaire Lúðvíks Bonaparte“* afbragðs dæmi um beitingu hennar. Sömuleiðis eru margar bendingar í *„Auðmagninu“*. Leyfist mér að vísa yður líka á rit mín *„Herra Eugen Dühring kollvarpar vísindunum“* og *„Ludwig Feuerbach og endalok klassísku þýzku heimspekinnar“*, þar sem ég kem með ýtarlegustu útlistun á efnislegri söguskoðun sem ég veit til að fyrirfinnist.

Marx og mér er að nokkru um að kenna, að sumir yngri manna leggja stundum meiri áherzlu á efnahagslegu hliðina en henni ber. Gagnvart andstæðingunum urðum við að leggja áherzlu á höfuðatriðið sem þeir höfnuðu, og þá gafst ekki alltaf tími, staður og tækifæri til að láta hin atriðin sem þátt eiga í víxláhrifunum njóta réttar síns. En strax þegar um var að ræða lýsingu á söguskeiði, það er að segja raunhæfa hagnýtingu, var öðru máli að gegna, og þá var ekki um neitt hægt að villast. En því miður er það alltof algengt, að menn telja sig hafa skilið nýja kenningu til fullnustu og geta beitt henni umsvifalaust, jafnskjótt og menn hafa tileinkað sér meginatriðin, og það þó ekki alltaf að gagni. Og mörgum nýrri „marxistanna“ fæ ég ekki hlíft við þessari ákúru, enda hefur mörg endemisþvælan komið fram ...

# Úr bréfi frá Engels til Schmidts

London 27. október 1890.

Ég gríp fyrstu tómstund sem gefst til að svara yður. Ég held þér gerðuð hárrétt í því að þiggja stöðuna í Zürich. Þar getið þér fræðzt um margt í efnahagsmálum, sér í lagi ef þér missið ekki sjónar á að Zürich er þrátt fyrir allt ekki nema þriðja flokks peninga- og spákaupmennskumarkaður, og af þeim sökum eru áhrifin sem þar ríkja deyfð eða þá vísvitandi fölsuð með tvöfaldri eða þrefaldri endurspeglun. En þér fáið hagnýta þekkingu á ganghjólinu og verðið að fylgjast milliliðalaust með kauphallarfregnunum frá London, New York, París, Berlín og Vínarborg, og þar opnast yður heimsmarkaðurinn – eins og hann speglast í peninga- og verðbréfamarkaðinum. Nákvæmlega sama gildir um efnahagslegar, pólitískar og aðrar endurvarpsmyndir og þær í mannsauganu, þær fara um safngler og birtast þess vegna öfugar, á haus. Þarna vantar bara taugakerfið, sem réttir þær aftur við fyrir skynjunina. Maður peningamarkaðsins sér einmitt þróun iðnaðarins og heimsmarkaðsins einungis í öfugri speglun peninga- og verðbréfamarkaðsins, og því verður í hans augum afleiðingin að orsök. Því kynntist ég þegar á fimmta tug aldarinnar í Manchester: Kauphallarfréttirnar frá London voru vita gagnslausar varðandi gang iðnaðarins og háttbundnar sveiflur hans milli hámarka og lágmarka, því þessir herrar vildu skýra allt með kreppum á peningamarkaðinum, sem voru þó sjálfar að mestu aðeins sjúkdómseinkenni. Þá reið á að afsanna uppruna iðnaðarkreppunnar í tímabundinni offramleiðslu, svo málið hafði líka hlutdrægnishlið sem ýtti undir rangfærslu. Þetta atriði hverfur nú – hvað okkur varðar í eitt skipti fyrir öll – úr sögunni, og þar að auki er það staðreynd að peningamarkaðurinn getur orðið fyrir sínum eigin kreppum, þar sem beinar iðnaðartruflanir koma lítt við sögu eða jafnvel alls ekkert, og í þessu efni á enn eftir að rannsaka og ganga úr skugga um margt, ekki sízt sögulegt frá síðustu 20 árum.

Þar sem verkaskipting nær til alls samfélagsins, fá verkhlutarnir sjálfstæði hver gagnvart öðrum. Framleiðslan er það sem að lokum ræður úrslitum. En að svo miklu leyti sem verzlun með framleiðsluvörurnar fær sjálfstæði gagnvart hinni raunverulegu framleiðslu, fylgir hún þróunarbraut sem framleiðslan ræður að vísu í stórum dráttum, en í einstökum atriðum og innan þessara almennu afstæðna, sem hún er háð, fylgir hún svo sínum eigin lögmálum, sem felast í eðli þessa nýja þáttar, sem er gæddur sínum eigin sveiflum og verkar fyrir sitt leyti aftur á þróun fram-

leiðslunnar. Fundur Ameríku stafaði af gullhungrinu, sem áður hafði rekið Portúgalsmenn til Afríku (sjá rit Soetbeers „Málmframleiðsla"), vegna þess að stóraukinn iðnaður í Evrópu á 14. og 15. öld með tilheyrandi verzlun krafðizt meiri gjaldmiðils, sem Þýzkaland – silfurlandið mikla frá 1450 til 1550 – gat ekki látið í té. Markmið Portúgala, Hollendinga og Englendinga með því að leggja undir sig Indland á tímabilinu 1500 til 1800 var að afla *innflutnings* frá Indlandi, engum manni datt í hug útflutningur þangað. Og þó, hversu stórkostlega gagnverkun á iðnaðinn höfðu ekki þessir landafundir og landvinningar, sprottnir af hreinum viðskiptaástæðum – einmitt þörfin á *útflutningi til* þessara landa skapaði stóriðnaðinn og lét hann dafna.

Sama máli gegnir um peningamarkaðinn. Að svo miklu leyti sem verzlun með peninga greinir sig frá verzlun með vörur á hún sér sína eigin þróun – við tiltekin skilyrði sem framleiðsla og vöruverzlun setja og innan þeirra marka – sérstök lögmál sem eðli hennar sjálfrar setur og frábrugðnar sveiflur. Bætist það nú við að peningaverzlunin þenst í þessari þróun sinni út í verðbréfaverzlun, að þessi verðbréf eru ekki einvörðungu ríkisskuldabréf, heldur bætast þar við hlutabréf í iðnaði og samgöngutækjum, peningaverzlunin nær sem sagt beinum yfirráðum yfir hluta af framleiðslunni, sem þó ræður í stórum dráttum yfir henni sjálfri, þá verður gagnverkun peningaverzlunarinnar á framleiðsluna enn öflugri og flóknari. Peningakaupmennirnir eru eigendur járnbrautanna, námanna, járnbræðslanna o. s. frv. Þessi framleiðslutæki verða tvöföld í roðinu: Rekstur þeirra verður ýmist að miða við hagsmuni framleiðslunnar sjálfrar, eða þá þarfir hluthafanna, að svo miklu leyti sem þeir eru peningakaupmenn. Áhrifamesta dæmið um þetta: Járnbrautir Norður-Ameríku, þar sem reksturinn er gersamlega háður kauphallarbraski einhvers Jay Goulds, Vanderbilts o. s. frv. þá og þá stundina, þó það sé með öllu framandi hverri einstakri járnbraut og hagsmunum hennar sem samgöngutækis. Og meira að segja hér í Englandi höfum við orðið vitni að áratugalangri baráttu ýmissa járnbrautarfélaga um svæðin á mörkum hverra tveggja um sig – baráttu þar sem of fjár var sóað, ekki í þágu framleiðslu og samgangna, heldur einvörðungu vegna keppni, sem að mestu snerist um það að greiða fyrir kauphallarbraski peningakaupmannanna sem áttu hlutabréfin.

Í þessum fáu bendingum um skoðun mína á afstöðu framleiðslu gagnvart vöruverzlun og beggja gagnvart peningaverzlun, hef ég í rauninni einnig þegar svarað spurningu yðar um efnislega söguskoðun yfirleitt. Málið er aðgengilegast sé tekið mið af verkaskiptingunni. Samfélagið getur af sér tiltekin sam-

eiginleg störf, sem það getur ekki án verið. Fólkið sem í þau velst myndar nýja grein verkaskiptingarinnar *innan samfélagsins*. Það öðlast þar með sérhagsmuni, líka gagnvart umbjóðendum sínum, það gerist sjálfstæðara gagnvart þeim, og – ríkið er orðið til. Og nú fer á svipaða lund og um vöruverzlunina og síðar peningaverzlunina: Hið nýja, sjálfstæða vald verður að vísu í megindráttum að fylgja þróun framleiðslunnar, en gagnverkar hins vegar aftur á aðstæður og rás framleiðslunnar samkvæmt hlutfallslegu sjálfstæði sem það var gætt frá upphafi og smátt og smátt hefur aukizt. Þetta er gagnverkun tveggja ójafnra afla, annað er efnahagsþróunin, hitt hið nýja pólitíska vald, gætt eigin þróun úr því það einu sinni er komið á og leitar eftir sjálfstæði eftir því sem kostur er; efnahagsþróunin verður í stórum dráttum yfirsterkari, en hún verður einnig að þola gagnverkun af hálfu stjórnmálaþróunarinnar, sem hún hefur sjálf hrundið af stað og gætt hlutfallslegu sjálfstæði, annars vegar þróun ríkisvaldsins, hins vegar stjórnarandstöðunnar, sem varð til um leið og það. Eins og þróun iðnaðarmarkaðsins speglast í stórum dráttum í peningamarkaðinum, með þeim fyrirvörum sem áður var vikið að, og *afmyndast* að sjálfsögðu, þannig endurspeglast í baráttunni milli ríkisstjórnar og stjórnarandstöðu baráttan milli stéttanna, sem til voru og áttust við á undan þeim, en sömuleiðis afmynduð, ekki lengur beint heldur óbeint, ekki sem stéttabarátta heldur barátta um stjórnmálastefnur, og svo afmynduð, að það hefur tekið okkur þúsundir ára að komast aftur til botns í þessu.

Gagnverkun ríkisvaldsins á efnahagsþróunina getur verið þrennskonar: Hún getur miðað í sömu átt, þá flýtir hún fyrir, hún getur verið mótsnúin, nú á dögum verður það henni þegar til lengdar lætur að falli hjá sérhverri stórþjóð, eða hún getur lokað tilteknum leiðum fyrir efnahagsþróuninni og beint henni á aðrar – úr þessum kosti verður á endanum annar hvor hinna fyrri. En ljóst er, að í öðru og þriðja tilfelli getur stjórnmálavaldið gert efnahagsþróuninni mikinn skaða og valdið gífurlegri sóun á kröftum og efnivið.

Enn bætist hér við möguleikinn á hertöku og hrottalegri eyðileggingu bjargræðisvega, en af því gat fyrrum þegar verkast vildi efnahagsþróun svæðis eða þjóðar liðið undir lok. Nú eru áhrif slíks oftast öfug, að minnsta kosti með stórþjóðum: Hinn sigraði hlýtur oft og tíðum meiri ávinning, efnahagslegan, pólitískan og siðferðilegan, en sigurvegarinn, þegar til lengdar lætur.

Svipuðu máli gegnir um lögfræðina: Jafnskjótt og nauðsyn verður nýrrar verkaskiptingar, sem elur af sér atvinnulögfræð-

inga, opnast nýtt sjálfstætt svið, sem hversu háð sem það er framleiðslu og verzlun þegar á heildina er litið, ræður þó yfir sérlegum hæfileika til gagnverkunar á hin sviðin. Í nútímaríki verður réttarfarið ekki einungis að samsvara heildarmynd efnahagsástandsins, vera tjáning þess, heldur líka *sjálfri sér samkvæm* tjáning, sem ekki verður sjálfri sér sundurþykk vegna innri mótsagna. Og til að koma því í kring fer nákvæmnin í endurspeglun efnahagslegra aðstæðna í vaxandi mæli forgörðum. Það því fremur sem sjaldgæfara verður, að lögbók sé hranaleg, ómýkt, ófölsuð tjáning yfirráða einstakrar stéttar: Það væri í sjálfu sér andstætt „réttarhugtakinu". Hreint og samstætt réttarhugtak hinnar byltingarsinnuðu borgarastéttar áranna 1792–1796 er að ýmsu leyti falsað strax í Napóleonslögum, og að svo miklu leyti sem það er þar enn að finna, verður það dag frá degi að þola hverskyns rýringu fyrir vaxandi mátt öreigastéttarinnar. En það kemur ekki í veg fyrir að Napóleonslög eru sú lögbók sem lögð er til grundvallar við alla nýja lagasmíð í öllum heimshlutum. Gangur „réttarþróunarinnar" felst því að mestu leyti í að rýma burt mótsögnum sem hljótast af að efnahagslegar aðstæður eru milliliðalaust færðar í búning lagareglna, og leitazt er við að koma á samræmdu réttarkerfi, en áhrif og nauðsyn áframhaldandi efnahagsþróunar sprengja þetta kerfi æ ofan í æ og flækja í nýjar mótsagnir (hér ræði ég nær einvörðungu um einkamálarétt).

Óhjákvæmilega speglast líka efnahagslegar aðstæður á haus í réttarreglum: Speglunin á sér stað án þess að þeir sem í hlut eiga séu sér hennar meðvitandi, lögfræðingurinn ímyndar sér að hann beiti skynsemdarreglum, þótt það séu einungis efnahagslegar endurspeglanir – svona stendur allt á haus. Og mér virðist það augljóst að þessi hausavíxl, sem meðan ekki eru borin á þau kennsl mynda það sem við nefnum *hugmyndafræðilegt viðhorf*, endurverka að sínu leyti aftur á efnahagslegu undirstöðuna og megna að hafa áhrif á hana innan tiltekinna marka. Undirstaða erfðaréttar er efnahagsleg, sé gert ráð fyrir sama þróunarstigi fjölskyldunnar. Engu að síður mun reynast erfitt að sýna fram á t. d. að algert arfleiðslufrelsi í Englandi og miklar hömlur á því í Frakklandi stafi í einstökum atriðum einvörðungu af efnahagslegum ástæðum. En hvorttveggja hefur veruleg áhrif á hagkerfið, vegna þess það segir til sín í eignaskiptingunni.

Hvað svo snertir þau hugmyndafræðilegu svið sem svífa enn hærra í lofti, trúarbrögð, heimspeki o. s. frv., þá er þar að finna forsögulegt góss, sem sögulegur tími tók við, af því tagi sem við nú myndum kalla rugl. Undirrót þessara margvíslegu hégilja um náttúruna, um eðli mannsins sjálfs, um anda, töframagn

o. s. frv., er mestmegnis efnahagslegur vanþroski; rangar hugmyndir um náttúruna verða fylgifiskur, en á takmörkuðum sviðum einnig skilyrði og jafnvel orsök, lágs efnahagsþroska á forsögulegum tíma. Og enda þótt efnahagslegar þarfir hafi verið og séu í sívaxandi mæli megindriffjöður aukinnar þekkingar á náttúrunni, væri samt hótfyndni að fara að leita að efnahagslegum ástæðum fyrir öllu þessu frumstæða rugli. Saga vísindanna er saga útrýmingar ruglsins skref fyrir skref, eða þess að í staðinn kemur nýtt en ekki alveg eins fáránlegt rugl, og svo koll af kolli. Fólkið sem þetta annast er sett á enn aðra sérstaka bása í verkaskiptingunni, og sjálfu finnst því það starfa á óháðu sviði. Og að svo miklu leyti sem það myndar sjálfstæðan hóp innan félagslegrar verkaskiptingar, að því marki hafa afköst þess, þar á meðal villurnar, afturverkandi áhrif á alla samfélagsþróunina, meira að segja hina efnahagslegu. En þrátt fyrir þetta eru aðilar sjálfir undirorpnir úrslitaáhrifum hagþróunarinnar. Til að mynda í heimspekinni er auðveldast að sýna fram á þetta á hinu borgaralega söguskeiði. Hobbes var fyrsti efnishyggjumaður nútímans (í 18. aldar skilningi) en einveldissinni á öld þegar einvöld konungsstjórn stóð í blóma um alla Evrópu og hóf baráttu við almenning í Englandi. Locke var í trúarefnum jafnt og stjórnmálum sonur málamiðlunar stéttanna sem varð 1688. Ensku guðhyggjumennirnir og rökréttir eftirkomendur þeirra, frönsku efnishyggjumennirnir, voru sannir heimspekingar borgarastéttarinnar, Frakkarnir meira að segja borgarabyltingarinnar. Í þýzkri heimspeki frá Kant til Hegels gengur þýzki broddborgarinn ljósum logum – jákvæður og neikvæður til skiptis. En heimspeki sérhvers tímabils hefur sem sérstakt svið verkaskiptingarinnar að forsendu tiltekinn hugmyndaforða, sem fyrirrennararnir hafa látið eftir sig og leggja verður til grundvallar. Og af þessu stafar að lönd sem dregizt hafa afturúr í efnahagsþróun, geta samt haft forustuna í heimspeki: Frakkland á 18. öld gagnvart Englandi, en á herðum heimspekinga þess stóðu Frakkarnir, Þýzkaland síðar gagnvart hinum báðum. En í Frakklandi jafnt og Þýzkalandi var heimspekin, eins og allsherjar bókmenntagróska þessa tímabils, einnig árangur efnahagslegs uppgangs. Endanlegt úrslitavald efnahagsþróunarinnar, einnig á þessum sviðum, er í mínum augum staðreynd, en það á sér stað við þau skilyrði sem hvert sérsvið setur sjálft, í heimspekinni til dæmis fyrir tilverknað efnahagslegra áhrifa (sem aðallega segja þó til sín í pólitísku o. þ. h. dulargervi) á heimspekiefnið sem fyrir er og fyrirrennararnir hafa látið eftir sig. Á þessu sviði leggur hagþróunin ekkert nýtt af mörkum, en hún ákvarðar á hvern hátt hugmyndaforðinn sem fyrir er tekur breytingum og fær viðbætur, en það þó að mestu

óbeint, því það eru pólitísku, lagalegu og siðfræðilegu speglanirnar, sem mest bein áhrif hafa á heimspekina.

Það brýnasta um trúarbrögðin hef ég sagt í síðasta kaflanum um Feuerbach.

Haldi því Barth að við afneitum hverri og einni gagnverkun pólitískra og annarra speglana efnahagsþróunarinnar á þá þróun sjálfa, þá berst hann hreinlega við vindmyllur. Hann ætti að líta í *„Átjánda Brumaire“* eftir Marx, sem fjallar næstum eingöngu um það *sérstaka* hlutverk, sem pólitísk átök og atvik hafa, að sjálfsögðu innan *almenns* ramma sem efnahagsleg skilyrði marka. Eða „Auðmagnið“, til að mynda kaflann um vinnudaginn, þar sem löggjöfin, sem er þó pólitískur þáttur, hefur slík úrslitaáhrif. Eða kaflann um sögu borgarastéttarinnar (24. kapítula). Eða hvers vegna berjumst við fyrir pólitísku alræði öreigastéttarinnar, ef pólitíska valdið er efnahagslega máttlaust? Valdið (þ. e. a. s. ríkisvaldið) er líka efnahagslegur máttur!

En sem stendur hef ég engan tíma til að gagnrýna bókina. Fyrst verður að koma 3. bindinu[1] út, og þar að auki held ég að t. d. Bernstein væri vel fær um þetta.

Það sem alla þessa herra skortir er díalektík. Alltaf sjá þeir einvörðungu orsök hér, afleiðingu þar. Að þetta er innantóm sértekning, að í heimi raunveruleikans eiga slíkar frumspekilegar, algerar andstæður sér aðeins stað á úrslitastundum, að öll þessi stórfellda framrás á sér stað í mynd víxláhrifa – að vísu mjög ójafnra afla, þar sem efnahagsþróunin er lang sterkust, upprunalegust, afdrifaríkust – að hér er ekkert allsráðandi en allt afstætt, það fá þeir með engu móti séð, hvað þá varðar hefur Hegel ekki verið til ...

## Bréf frá Engels til Mehrings

London 14. júlí 1893

Í dag kemst ég loksins til að þakka yður fyrir „Lessing-Legende“, sem þér voruð svo vænn að senda mér. Ég vildi ekki bara senda yður formlega móttökukvittun fyrir bókina, heldur láta yður jafnframt heyra eitthvað frá mér um hana – um innihaldið. Af því stafar drátturinn.

Ég byrja á endinum – viðbætinum um efnislega söguskoðun, þar sem þér hafið dregi meginstaðreyndirnar ágætlega saman og sannfærandi fyrir hvern óvilhallan. Það sem ég hef út á að setja, er að þér eignið mér meiri verðleika en mér ber, meira

[1] Af „Auðmagninu“.

að segja þótt ég telji allt það með sem ég kynni að hafa komizt að raun um á sjálfstæðan hátt – með tímanum – en sem Marx var miklu fljótari að uppgötva með sínu skjótara innsæi og víðari yfirsýn. Sá sem átt hefur því láni að fagna að vinna í fjörutíu ár með öðrum eins manni og Marx, fær venjulega ekki þá viðurkenningu sem hann telur sig eiga skilið meðan hinn er á lífi; deyi meiri maðurinn er hætt við að sá minni verði ofmetinn – og það finnst mér nú einmitt hafa komið fyrir mig; sagan lagfærir það allt saman að lokum, og þá er maður gæfusamlega sloppinn fyrir hornið og veit ekkert af neinu framar.

Annars er aðeins eitt atriði enn sem vantar, en það er líka segin saga að því eru ekki gerð nægileg skil í ritum okkar Marx, svo í þessu efni erum við allir undir sömu sök seldir. Við höfum sem sé allir lagt, og *urðum að leggja,* megináherzlu á *afleiðslu* pólitískra, lagalegra og annarra hugmyndafræðilegra fyrirbæra, og athafna sem þaðan eru runnar, af efnahagslegum grundvallaratriðum. Formshlið málsins, með hverjum hætti þessar hugmyndir o. þ. h. verða til, varð af þeim sökum að sitja á hakanum hjá okkur fyrir efnishliðinni. Þetta varð andstæðingunum kærkomið tilefni til misskilnings eða rangfærslna, og er Paul Barth gott dæmi þess.

Hugmyndakerfi myndast að vísu með vitund svonefnds hugsuðar, en með rangsnúinni vitund. Raunverulegar hvatir sem knýja hann eru honum duldar, ella væri nefnilega ekki um hugmyndafræðilegt fyrirbæri að ræða. Hann ímyndar sér því rangar eða yfirskins hvatir. Þar sem um hugsunarferli er að ræða, dregur hann jafnt innihald þess og form af hreinni hugsun, annað hvort sjálfs sín eða fyrirrennara sinna. Hann vinnur úr eintómu hugsunarefni, sem hann gerir athugunarlaust ráð fyrir að myndazt hafi við hugsun, og kannar svo ekki frekar hvort eigi sér fjarlægan og hugsuninni óháðan uppruna, og þetta finnst honum reyndar sjálfsagt, þar sem honum virðist þegar allt kemur til alls öll athöfn *stafa af* hugsun, vegna þess að hún á sér stað *fyrir milligöngu* hugsunar.

Sagnfræðilegur hugmyndafræðingur (sagnfræðilegur á hér aðeins að vera skammstöfun fyrir pólitískur, lögfræðilegur, heimspekilegur, trúarlegur, í stuttu máli öll þau svið sem *samfélaginu* tilheyra og ekki einungis náttúrunni) – sagnfræðilegur hugmyndafræðingur hefur sem sagt í sérhverri fræðigrein til umráða efni, sem hefur myndazt sjálfstætt af hugsun fyrri kynslóða og átt sér sína eigin, sjálfstæðu þróun í heilum þessara kynslóðaraða. Að vísu kunna utanaðkomandi staðreyndir af einhverju sviði að hafa haft áhrif á þessa þróun, en þessar staðreyndir eru samkvæmt óvefengdri forsendu líka ávöxtur hugsunarferlis eins sam-

an, og þannig höldum við okkur stöðugt innan endimarka hreinnar hugsunar, sem virðist hafa melt hörðustu staðreyndir prýðilega.

Þessi sýndartilvist sjálfstæðrar sögu stjórnskipunarlaga, réttarfars, hugmyndafræðilegra fyrirbæra á hverju og einu sérsviði, er það sem öðru fremur villir um fyrir flestum. Þegar Lúther og Kalvín „yfirbuga" hina opinberu, kaþólsku trú, þegar Hegel „yfirbugar" Fichte og Kant, þegar Rousseau gerir stjórnlagasinnanum Montesquieu sömu skil með lýðveldissinnuðu riti sínu „Samfélagssáttmálinn", þá halda þeir atburðir sig innan endimarka guðfræðinnar, heimspekinnar eða þjóðfélagsfræðinnar, mynda lið í sögu þessara hugsunarsviða og ná alls ekki út fyrir hugsunarsviðin. Og síðan við bættist sú borgaralega tálsýn að kapítalistískir framleiðsluhættir séu eilífir og endanlegir, er meira að segja látið heita svo sem sigur búríkisstefnumanna og A. Smiths yfir kaupskaparstefnumönnum sé einber sigur hugsunarinnar; ekki hugarspeglun breyttra efnahagsstaðreynda, heldur loks höndlaður réttur skilningur á raunhæfum aðstæðum sem ævinlega og allsstaðar ríki; hefðu Ríkarður ljónshjarta og Filippus Ágústus komið á fríverzlun í stað þess að flækjast í krossferðum, hefðum við sloppið við fimm alda eymd og fáfræði.

Þessa hlið málsins, sem ég get einungis drepið á hér, höfum við að mínu áliti allir látið liggja meira í láginni en skyldi. Það er gamla sagan: Í öndverðu er formið ætíð látið sitja á hakanum fyrir efninu. En það hef ég sem sagt líka gert sjálfur, og aldrei áttað mig á skyssunni fyrr en eftir á. Það er því ekki einungis fjarri mér að áfellast yður á nokkurn hátt fyrir þetta – til þess hef ég, eldri maður og samsekur, líka alls engan rétt, þvert á móti – en framtíðarinnar vegna vildi ég gjarnan vekja athygli yðar á þessu atriði.

Í nánu sambandi við þetta er líka sú kjánalega grilla hugmyndafræðinganna, að sökum þess að við sviptum margvísleg hugmyndafræðileg svið, sem hafa hlutverki að gegna í sögunni, sjálfstæðri, sögulegri þróun, þá sviptum við þau líka öllum *sögulegum áhrifum.* Hér er undirrótin þessi venjulega, ódíalektíska hugmynd um orsök og afleiðingu sem óbifanleg, andstæð skaut, alger blindni á víxláhrifin. Þessir herrar gleyma því oft næstum viljandi, að strax og sögulegt atriði er orðið til fyrir tilverknað annarra orsaka, efnahagslegra sé rakið til róta, hefur það líka gagnverkun, getur orkað á umhverfi sitt og meira að segja sínar eigin orsakir. Þetta á við um Barth, t. d. varðandi klerkastétt og trúarbrögð á bls. 475 hjá yður. Ég hafði mikla ánægju af, hvernig þér afgreidduð þennan óhemju lágkúrulega pilt. Og þennan náunga gera þeir að söguprófessor í Leipzig.

Þá var þó Wachsmuth gamli, sem sté nú ekki heldur í vitið, en bar afarmikið skynbragð á staðreyndir, hátíð hjá honum.

Annars get ég aðeins endurtekið um bókina, það sem ég sagði hvað eftir annað um greinarnar, þegar þær birtust í „Neue Zeit": Þetta er langbezta lýsing á uppruna prússneska ríkisins sem til er, já, ég get víst sagt sú eina góða, í flestum atvikum er samhengið rétt rakið allt út í smáatriði. Eina harmsefnið er að þér skulið ekki hafa getað þegar í stað tekið með alla þróunina fram til Bismarcks, en vonandi tekst yður síðar að draga upp heildarmynd frá Friðrik Vilhjálmi kjörfursta fram til gamla Vilhjálms. Frumrannsóknirnar hafið þér gert og að minnsta kosti hvað aðalatriðin varðar svo gott sem lokið þeim. Og þetta verður að gera einhvern tíma áður en hrófatildrið hrynur; þótt vera megi að útrýming drottinhollra og þjóðræknislegra skröksagna sé ekki beinlínis óhjákvæmileg forsenda fyrir að svipta stéttakúgunina yfirbreiðslu keisaradæmisins (því að *hreint*, borgarlegt lýðveldi er orðið úrelt í Þýzkalandi áður en það kemst á) er hún samt eitt áhrifaríkasta verkfærið til að koma því í kring.

Þá gefst yður líka meira svigrúm og tækifæri til að setja fram sérsögu Prússlands sem hluta af þýzku heildarhörmunginni. Þetta er það atriði, þar sem ég er ekki í öllu samþykkur yðar skilningi, sem sé skilningnum á skilyrðunum fyrir sundrungu Þýzkalands og óförum þýzku borgarabyltingarinnar á 16. öld. Þegar ég kemst höndum undir að endurskoða sögulega innganginn að riti mínu um Bændastríðið, sem ég vona að verði næsta vetur, fæ ég þar tækifæri til að gera grein fyrir þeim atriðum sem þetta varða. Ekki svo að skilja að ég telji þau röng sem þér setjið fram, en ég bæti öðrum við og flokka nokkuð öðruvísi.

Við rannsóknir á þýzkri sögu – sem rekur jú einn óslitinn eymdarferil – hef ég alltaf komizt að raun um að réttur mælikvarði fæst þá fyrst, þegar búið er að taka til samanburðar hliðstæð tímabil hjá Frökkum, því þar fer allt þveröfugt við það sem gerist hjá okkur. Þar myndun þjóðríkis af brotasilfri lénsríkisins, einmitt samtímis hruninu hjá okkur. Þar fágætlega hlutlæg rökvísi í öllum þróunarferlinum, hjá okkur ömurlegur og sífellt ömurlegri ruglingur. Þar koma enskir landvinningamenn með erlenda íhlutun með stuðningi sínum við próvensalska þjóðarbrotið gegn hinu norður-franska; stríðin við Englendinga leika, ef svo má segja hlutverk Þrjátíu ára stríðsins, en þeim lýkur með því að erlendu íhlutuninni er stökkt á brott og norðurhlutinn leggur undir sig suðurhlutann. Þá hefst barátta konungsvaldsins við búrgundska lénsmenn, sem sækja styrk í eignir í öðrum löndum og leika hlutverk Brandenborgar-Prússlands, en lýkur með sigri konungsvaldsins og gerir myndun þjóðríkisins

endanlega. En einmitt á samri stundu líður þjóðríkið gersamlega undir lok hjá okkur (að svo miklu leyti sem hægt er að kalla „þýzka konungdæmið“ innan Heilaga rómverska ríkisins þjóðríki), og tekið er að ræna þýzku landi í stórum stíl. Þetta er samanburður sem Þjóðverji hlýtur að bera kinnroða fyrir, en þeim mun lærdómsríkari, og síðan verkalýður okkar hefur á ný fært Þýzkaland fram í fararbrodd söguþróunarinnar, eigum við heldur auðveldara með að kingja smán fortíðarinnar.

Enn er eitt sem einkennandi er fyrir þýzka þróun, að bæði partríkin, sem loks hafa skipt öllu Þýzkalandi á milli sín, eru hvorugt af hreinum, þýzkum toga, heldur nýlendur á herteknu, slavnesku landi, Austurríki bæversk en Brandenborg saxnesk nýlenda, og þau hafa fyrir þá sök eina hafizt til valda í Þýzkalandi, að þau styðjast við yfirráð yfir framandi, óþýzkum löndum: Austurríki við Ungverjaland (svo ekki sé minnzt á Bæheim), Brandenborg við Prússland. Við vesturlandamærin, þar sem hættan var mest, gerðist ekkert slíkt, við norðurlandamærin var Dönum falið að vernda Þýzkaland fyrir Dönum, og í suðri var svo lítið að vernda, að landamæraverðirnir, Svisslendingar, gátu meira að segja slitið sig lausa frá Þýzkalandi.

Svona nú, ég lendi út í allskonar hégóma – en af þessu rausi getið þér þó að minnsta kosti markað, hversu örvandi verk yðar er fyrir mig ...

## Bréf frá Engels til Starkenburgs

Heiðraði herra! London 25. janúar 1894

Hér kemur svar við spurningum yðar.

1. Með þeim efnahagslegu aðstæðum, sem við álítum ráðandi grundvöll að sögu samfélagsins, eigum við við það með hverjum hætti menn í tilteknu samfélagi framleiða lífsviðurværi sitt og skiptast á framleiðsluafurðunum sín í milli (að svo miklu leyti sem verkaskipting ríkir). Sem sé, *heildartækni* við framleiðslu og flutninga er þar innifalin. Þessi tækni ákvarðar að okkar áliti skiptaháttina, sömuleiðis deilingu framleiðsluafurðanna og þar með, eftir upplausn jafnræðissamfélagsins, einnig stéttaskiptinguna, þar með drottnunar- og undirgefnisafstöðu, þar með ríki, stjórnmál, réttarfar o. s. frv. Ennfremur eru innifalin í efnahagslegum skilyrðum *landskostir* sem þau eru reist á og arfteknar leifar fyrri efnahagsþróunarstiga sem haldizt hafa, oft af hefð einni saman eða tregðu, sömuleiðis auðvitað umhverfið sem lykur um þetta samfélagsform.

Þótt tæknin, eins og þér segið, sé mjög háð vísindastiginu, eru

vísindin þó enn háðari *þróunarstigi* og *þörfum* tækninnar. Ríki þörf á tækni í samfélaginu, lyftir það meira undir vísindin en tíu háskólar. Öll vatnsstöðufræðin (Torricelli o. s. frv.) spratt af þörfinni á að beizla fjallaárnar á Ítalíu á 16. og 17. öld. Þá fyrst fengum við eitthvað af viti að vita um rafmagnið, þegar tæknilegt notagildi þess fannst. En því miður hafa menn vanið sig á það í Þýzkalandi, að skrifa sögu vísindanna eins og væru þau dottin af himnum ofan.

2. Efnahagslegu skilyrðin eru að okkar áliti það sem þegar allt kemur til alls mótar söguþróunina. En kynþátturinn er sjálfur efnahagslegt atriði. En hér má ekki láta sér sjást yfir tvennt:

a) Þróun stjórnmála, réttarfars, heimspeki, trúarbragða, bókmennta, lista o. s. frv. er komin undir efnahagsþróuninni. En allt verkar þetta hvað á annað og á hina efnahagslegu undirstöðu. Öðru er nær en efnahagsástandið sé *orsök, eitt sér virkt* og allt annað einungis óvirk afleiðing. Heldur eiga sér stað víxláhrif á grundvelli efnahagslegrar nauðsynjar, sem ætíð lætur til sín taka *þegar allt kemur til alls.* Ríkið hefur t. d. áhrif með verndartollum, fríverzlun, góðri eða slæmri skattheimtu, og meira að segja dauðans örþreyta og vanmegnan þýzka broddborgarans, sem hlauzt af efnahagslegri eymd Þýzkalands frá 1648 til 1830, og fyrst kom fram í heittrúarstefnu, svo í tilfinningasemi og skríðandi þrælsótta við fursta og aðal, var ekki laus við efnahagslegar afleiðingar. Hún var ein mesta tálmunin fyrir viðreisn, og haggaðist ekki fyrr en byltingar- og Napóleonsstyrjaldirnar gerðu landlæga eymd óþolandi. Hér er sem sé ekki um að ræða, eins og menn sumstaðar vilja halda sér til hægri verka, sjálfvirkar afleiðingar efnahagsástandsins, heldur skapa menn sögu sína sjálfir, en í tilteknu umhverfi sem setur henni skorður, á grundvelli fyrirframsettra, raunverulegra aðstæðna, og í þeim hópi eru þær efnahagslegu, hversu mjög sem þær verða fyrir áhrifum af öðrum pólitískum og hugmyndafræðilegum, þegar allt kemur til alls þær sem úrslitum ráða og mynda óslitna hjartaþáttinn sem einn leiðir til skilnings.

b) Mennirnir skapa sögu sína sjálfir, en hingað til ekki af sameiginlegum vilja eftir sameiginlegri áætlun, ekki einu sinni í tilteknu og skýrt aðgreindu samfélagi. Kappsmunir þeirra rekast á, og í öllum slíkum samfélögum ríkir af þeim sökum *nauðsynin,* sem birtist í *tilviljuninni* og tilviljunin fyllir upp. Nauðsynin, sem þar lætur til sín taka gegnum allar tilviljanir, er aftur að lokum hin efnahagslega. Hér koma svo hin svonefndu stórmenni til meðferðar. Að sjálfsögðu er það hrein tilviljun, að einn þeirra, og það einmitt þessi, kemur fram á þessum ákveðna tíma í þessu tiltekna landi. En strikum við hann út kemur upp eftirspurn eftir

staðgengli, og þessi staðgengill kemur í ljós, með illu eða góðu, en hann kemur í ljós að lokum. Það var tilviljun að Napóleon, einmitt þessi Korsíkumaður, varð sá hernaðareinvaldur sem franska lýðveldið, uppgefið af eigin styrjöld, gerði nauðsynlegan; en að annar hefði komið í staðinn hefði Napóleon skort, það er sannað af því að maðurinn hefur alltaf fundizt strax og hans varð nauðsyn: Sesar, Ágústus, Cromwell o. s. frv. Þótt Marx hafi uppgötvað efnislega söguskoðun, sanna samt Thierry, Mignet, Guizot, allir ensku sagnaritararnir fram til 1850, að á það var stefnt, og að Morgan skyldi uppgötva sömu skoðun sannar, að tími hennar var kominn og hún *hlaut* að verða uppgötvuð.

Svona er háttað öðrum tilviljunum og því sem virðast tilviljanir í sögunni. Við munum komast að raun um að því meira sem það svið sem við rannsökum hverju sinni fjarlægist hið efnahagslega og nálgast hið algerlega sértæka og hugmyndafræðilega, þeim mun meira ber á tilviljunum í þróun þess, þeim mun krókóttari verður þróunarlínan. En ef þér teiknið meðalöxul þróunarlínunnar, munuð þér komast að raun um, að því lengra tímabil sem er kannað og því víðara sem könnunarsviðið er, þeim mun nær fer því að þessi öxull og öxull efnahagsþróunarinnar liggi samhliða.

Mesta tálmunin fyrir réttum skilningi er í Þýzkalandi hversu ósæmilega hagsagan er vanrækt í því sem ritað er. Þetta er svo erfitt, ekki bara að venja sig af söguskoðunum sem innprentaðar voru í skóla, heldur enn frekar að hóa saman efninu sem á þarf að halda. Hver hefur t. d. nú á dögum lesið gamla G. v. Gülich,[1] sem geymir þó í þurrum gagnasöfnum sínum svo mikið efni til skýringar óteljandi pólitískum staðreyndum.

Annars finnst mér að það afbragðsdæmi sem Marx hefur gefið í „Átjánda brumaire" ætti að hafa veitt yður sæmilega úrlausn á spurningum yðar, einmitt af því að það er hagnýtt dæmi. Líka þykist ég hafa drepið á flest atriðin áður í „Anti -Dühring" I, kapít. 9–11 og II, 2–4, sömuleiðis III, 1, og svo í lokakafla „Feuerbachs".

Ég bið um að það sem hér fer á undan sé ekki vegið á gullvog, heldur hliðsjón höfð af samhenginu; mér þykir leitt að hafa ekki tíma til að vanda tilskrifið til yðar eins rækilega og ég yrði að gera væri ég að skrifa til birtingar. ...

---

[1] Engels á við margra binda verk G. v. Gülichs: „Söguleg lýsing á verzlun, iðnum og jarðyrkju helztu verzlunarríkja vorra tíma."

FRIEDRICH ENGELS

# Ludwig Feuerbach og endalok klassísku þýzku heimspekinnar

## Formálsorð

Í formálanum fyrir bókinni „Þjóðhagfræðin gagnrýnd", sem út kom árið 1859 í Berlín, skýrir Marx frá því, að árið 1845 komum við tveir okkur saman um eftirfarandi: „... að gera sameiginlega grein fyrir andstæðunni milli skoðunar okkar og hughyggju þýzku heimspekinnar, að gera í rauninni upp sakirnar við fyrri heimspekilega samvizku okkar. (Skoðun okkar er hin sögulega efnishyggja, sem Marx er höfundur að). Þessi fyrirætlun var framkvæmd á þann veg, að heimspekin eftir Hegel var tekin til gagnrýni. Handritið, tvö þykk bindi í áttablaðabroti, var fyrir löngu komið á útgáfustaðinn í Westfalen, þegar okkur bárust þau tíðindi, að vegna breyttra aðstæðna væri ekki hægt að prenta það. Við ofurseldum handritið nagandi gagnrýni músanna með þeim mun ljúfara geði, sem við höfðum náð þeim árangri, er var höfuðtilgangurinn, að gera sjálfum okkur grein fyrir hlutunum."

Síðan eru liðin meira en fjörutíu ár og Marx er dáinn, án þess að öðrum hvorum okkar gæfist tækifæri til þess að víkja aftur að málefninu. Á stöku stað höfum við getið um afstöðu okkar til Hegels, en aldrei gert hana að umtalsefni á rækilegan og samfelldan hátt. Aldrei höfum við vikið aftur að Feuerbach, enda þótt hann sé að mörgu leyti tengiliður milli heimspeki Hegels og skoðana okkar.

Á þessu tímabili hefur heimsskoðun marxismans öðlazt formælendur víðsvegar utan landamæra Þýzkalands og Evrópu og á málum allra menningarþjóða heims. Hinsvegar hefur klassíska þýzka heimspekin endurfæðzt með vissum hætti erlendis, einkum í Englandi og á Norðurlöndum og jafnvel í Þýzkalandi virðist svo sem menn gerist nú leiðir á þeim betlarahrærigraut, sem menn eru mataðir á við háskólana og kallaður er heimspeki.

Þegar svo er ástatt leit ég svo á, að það yrði í æ ríkara mæli tímabært að gera samfellda grein fyrir afstöðu okkar til heim-

speki Hegels, viðskilnaði okkar við hana og því sem á milli ber. Ennfremur virtist mér að full viðurkenning þeirra áhrifa, sem Feuerbach hafði á okkur á umbrotatímabili okkar framar öllum öðrum heimspekingum, er komu eftir Hegel, væri drengskaparskuld, sem enn væri ógreidd. Ég greip því tækifærið með glöðu geði, þegar „Neue Zeit" bað mig að skrifa gagnrýnandi umsögn um bók Starcke um Feuerbach. Ritgerð mín birtist í fjórða og fimmta hefti tímaritsins árið 1886 og kemur hér sérprentuð í endurskoðaðri útgáfu.

Áður en ég sendi þessar línur í prentsmiðjuna leitaði ég uppi handritið frá 1845–1846[1] og renndi augunum enn yfir það. Kaflinn um Feuerbach er ekki fullgerður. Sá hluti, sem við höfum lokið við, fjallar um söguskoðun efnishyggjunnar og sýnir aðeins hversu ófullkomna þekkingu við höfðum þá á hagsögunni. Þarna vantar gagnrýni á sjálfa kenningu Feuerbachs. Hinsvegar hef ég fundið þær ellefu greinar um Feuerbach, sem prentaðar eru í viðbæti, í gömlum blöðum eftir Marx. Þetta eru athugasemdir, sem átti að vinna úr síðar, skrifaðar í flýti og alls ekki ætlaðar til prentunar, en eru þó ómetanlegar sem fyrsta ritaða heimildin, er felur í sér vísi hinnar nýju heimsskoðunar í allri sinni snilli.

London, 21. febrúar 1888.
Friedrich Engels.

[1] Hér er átt við ritið: „Þýzka hugmyndakerfið" (Die deutsche Ideologie). – *Útg.*

# Ludwig Feuerbach og endalok klassísku þýzku heimspekinnar

## I.

Rit það, sem hér um ræðir,[1] fjallar um tímabil, sem ekki er fjær oss í tímanum en svarar rúmum mannsaldri, en er þó jafn framandi þeirri kynslóð, sem nú er uppi í Þýzkalandi, eins og liðin væri heil öld. Þó bjó Þýzkaland sig undir byltinguna 1848 á þessu tímabili. Og allt það, sem síðar hefur gerzt meðal vor, er aðeins framhald þess, er gerðist 1848, einungis framkvæmd á erfðaskrá byltingarinnar.

Það gerðist hið sama í Þýzkalandi á nítjándu öld og í Frakklandi á þeirri átjándu: Hið pólitíska hrun hófst með byltingu í heimspeki. En hversu gerólíkar urðu þessar byltingar! Frakkar voru í yfirlýstu stríði við öll hin opinberu vísindi, við kirkjuna og oft líka við ríkið. Rit þeirra voru prentuð handan við landamærin, í Hollandi og Englandi, og ósjaldan munaði minnstu að þeir færu sjálfir í Bastilluna. Þjóðverjarnir voru aftur á móti prófessorar, kennarar æskulýðsins útnefndir af ríkinu, rit þeirra voru viðurkenndar kennslubækur, og kerfið, sem batt endahnútinn á alla þróunina, kerfi Hegels, fékk meira að segja þann tignarsess, að verða einskonar konungleg ríkisheimspeki í Prússlandi! Gat þá byltingin dulist bak við þessa prófessora, bak við hin smásmugulegu, myrku orð þeirra, hinar þunglamalegu og langdregnu málsgreinar þeirra? Voru það ekki einmitt hinir frjálslyndu, áköfustu andstæðingar þessarar heimspeki, er gerði menn ruglaða í kollinum, sem þá voru taldir fulltrúar byltingarinnar? En það sem hvorki ríkisstjórnirnar né hinir frjálslyndu

[1] „Ludwig Feuerbach", eftir C. N. Starcke, dr. Phil., Stuttgart, Ferd. Encke 1885. (Aths. Engels).

sáu, það sá að minnsta kosti einn maður þegar á árinu 1833. Sá hét Heinrich Heine.[1]

Tökum dæmi. Engin kennisetning heimspekinnar hefur hlotið aðrar eins þakkir takmarkaðra ríkisstjórna og valdið annarri eins reiði jafntakmarkaðra frjálslyndra og hin fræga setning Hegels: „Það sem er raunverulegt er skynsamlegt og það sem er skynsamlegt er raunverulegt". Ekki varð um villzt að hér var tekið í heilagra tölu allt sem er, þetta voru heimspekileg blessunarorð yfir harðstjórnina, lögreglurikið, ráðuneytisréttarfarið og ritskoðunina. Þannig skildi Friedrich Wilhelm III. það og þegnar hans sömuleiðis. En fyrir Hegel er allt, sem tilvist hefur, enganveginn raunverulegt án fyrirvara. Samkvæmt kenningu hans hefur það eitt eigind raunveruleikans, sem jafnframt er nauðsynlegt. „Í þróun sinni birtist raunveruleikinn sem nauðsyn." Hann telur heldur ekki hverja þá stjórnarráðstöfun, sem vera skal, raunverulega án alls fyrirvara. Sjálfur nefnir hann „ákveðna skattatilhögun" sem dæmi. En þegar öllu er á botninn hvolft sannast það, að hið nauðsynlega er einnig skynsamlegt og ef að setning Hegels er látin taka til prússneska ríkisins eins og það var þá, merkir hún aðeins þetta: Þetta ríki er skynsamlegt, í samræmi við skynsemina, að því leyti sem það er nauðsynlegt. Og ef oss finnst það eigi að síður slæmt, en heldur þó áfram að vera til þrátt fyrir það, þá felst réttlæting og skýring á slæmsku ríkisstjórnarinnar í samsvarandi slæmsku þegnanna. Prússar þeirra tíma höfðu yfir sér þá ríkisstjórn, sem þeir verðskulduðu.

Nú fer fjarri því að Hegel telji raunveruleikann vera eigind hverrar þeirrar skipanar þjóðfélagslegrar og pólitískrar, sem til er, undir öllum kringumstæðum og á öllum tímum. Rómverska lýðveldið var raunverulegt, en rómverska keisaraveldið, sem tók við af því, var það líka. 1789 var franska konungsveldið orðið svo óraunverulegt eða með öðrum orðum svo laust við að vera nauðsynlegt og svo óskynsamlegt, að byltingin mikla, sem Hegel talaði jafnan um með mikilli hrifningu, hlaut að kollvarpa því. Svo að í þessu tilviki var konungsveldið hið óraunverulega og byltingin hið raunverulega. Þannig verður allt, er áður var raunverulegt, óraunverulegt í rás þróunarinnar, það hættir að vera nauðsynlegt, glatar tilverurétti sínum og skynsamlegum rökum. Í stað hins deyjandi veruleika kemur nýr, lífvænlegur veruleiki. Þetta gerist með friðsamlegum hætti, þegar hið gamla er nógu skynsamt til þess að ganga í dauðann án mótþróa og með valdi, þegar það spyrnir fæti gegn þessari nauðsyn. Og þannig breyt-

[1] Engels á við það, sem Heine segir um „heimspekibyltinguna í Þýzkalandi" í ritgerðum sínum „Um sögu trúarbragða og heimspeki í Þýzkalandi", er hann samdi árið 1833. – *Útg.*

ist setning Hegels samkvæmt díalektik hans sjálfs í andstæðu sína: Allt, sem er raunverulegt á sviði mannkynssögunnar, verður óskynamlegt með tímanum, svo að óskynsemin er frá fyrstu tíð hlutskipti þess, hún loðir við það frá upphafi. Og allt, sem er skynsamlegt í kolli manna, er til þess kjörið að verða raunverulegt, hversu mjög sem það virðist andstætt hinum verandi raunveruleika. Setningin um skynsemina í öllu raunverulegu breytist samkvæmt öllum hugsanareglum Hegels í aðra setningu svohljóðandi: Allt, sem er, er þess virði að líða undir lok.

Einmitt í þessu felst hið sanna gildi og byltingareðlið í heimspeki Hegels, en við verðum að takmarka okkur við hana, þar sem hreyfingunni, sem hefst með Kant, lýkur með henni. Gildi hennar og byltingareðli felst í því, að í eitt skipti fyrir öll kveður hún niður óhagganleik allra niðurstaðna mannlegrar hugsunar og mannlegra athafna. Það var verkefni heimspekinnar að leitast við að finna sannleikann og fyrir Hegel var hann ekki lengur safn fullbúinna kennisetninga, sem ekki þurfti annað en læra utan að eftir að menn höfðu fundið þær. Sannleikurinn fólst í sjálfum ferli þekkingaröflunarinnar, í hinni löngu, sögulegu þróun vísindanna, sem feta sig upp eftir stiga þekkingarinnar frá einu þrepi til annars, en komast þó aldrei á þann stað, þar sem hinn svokallaða algilda sannleika er að finna, þaðan sem ekki verður lengra komizt, svo að þeim er ekki annað eftir skilið en að leggja hendur í skaut og horfa undrandi á hinn algilda sannleika, er þau hafa fundið. Og þetta á ekki einungis við svið heimspekinnar, hið sama gildir um hverja aðra þekkingaröflun og sérhvert verklegt athafnasvið. Sagan getur heldur ekki fremur en þekkingin náð neinu lokatakmarki í einhverju alfullkomnu ástandi mannkynsins. Fullkomið þjóðfélag og fullkomið „ríki“ geta ekki átt sér tilvist nema í ímyndun manna. Þvert á móti eru allar þær sögulegu aðstæður, sem taka við hver af annarri, aðeins þrep á endalausum þróunarferli mannfélagsins upp á við frá hinu lægra til hins hærra. Hvert stig er nauðsynlegt, eða með öðrum orðum á rétt á sér á þeim tímum og við þau skilyrði, sem uppruni þess verður rakinn til. En það verður úrelt og hættir að eiga rétt á sér við ný skilyrði hærra þróunarstigs, er smám saman verður til í skauti þess sjálfs. Það verður að víkja fyrir æðra stigi, en seinna kemur líka röðin að því til að hnigna og líða undir lok. Rétt eins og borgarastéttin kollvarpar í rauninni öllum gömlum og grónum og æruverðugum stofnunum með stóriðnaðinum, samkeppninni og heimsmarkaðnum, svo ónýtir hin díalektíska heimspeki allar hugmyndir um óhagganlegan, algildan sannleika og tilsvarandi algild lokastig mannkynsins. Frá hennar sjónarmiði er ekkert til, sem er óhagganlegt, algilt, heilagt. Hún

sýnir fram á fallvaltleika alls og fallvaltleikann í öllu, og hún lítur svo á að ekkert sé til nema hið órofa ferli verðandi og hnignunar, hin endalausa þróun upp á við frá hinu lægra til hins hærra, og sjálf er hún ekki annað en endurspeglun þessarar þróunar í hugsandi heila mannsins. Að vísu er hún íhaldssöm að einum þræði. Hún viðurkennir réttmæti ákveðinna stiga þekkingarinnar og þjóðfélagsins á þeim tímum og við þær aðstæður, er þeim heyrir. En einungis að því leyti. Íhaldssemi þessa viðhorfs er afstæðileg, en byltingareðli þess er algert, hið eina algilda, sem það viðurkennir.

Hér gerist ekki þörf að taka til meðferðar þá spurningu, hvort þetta viðhorf sé í samræmi við náttúruvísindin á núverandi stigi þeirra. Þau segja fyrir um það, að ef til vill muni jörðin líða undir lok og að hitt sé nokkurnveginn víst að hún hætti að vera byggileg, svo að þau viðurkenna að leið mannkynssögunnar verði ekki einungis upp á við heldur og niður á við. Að minnsta kosti erum vér alllangt frá þeim vatnaskilum, þar sem halla tekur undan í sögu mannfélagsins, og ekki getum vér ætlast til þess af heimspeki Hegels að hún fjalli um þá hluti, sem ekki voru komnir á dagskrá náttúruvísindanna á hennar tímum.

En það sem vissulega þarf að segjast hér er þetta: Greinargerðina hér að framan er ekki að finna í ritum Hegels í svona skörpum dráttum. Hún er óhjákvæmileg afleiðing af aðferð hans, enda þótt hann hafi aldrei dregið þá ályktun sjálfur jafnafdráttarlaust. Raunar var það af þeirri einföldu ástæðu, að hann neyddist til að búa til kerfi, og í samræmi við kröfur hefðarinnar verður heimspekikerfi að komast að einhverjum algildum sannleika að lokum. Hversu mjög sem Hegel leggur áherzlu á það í ritum sínum, einkum í rökfræðinni, að þessi eilífi sannleikur sé ekkert annað en rökþróunin eða söguþróunin, þá finnur hann sig eigi að síður tilneyddan að binda einhvern endi á þessa þróun, því að einhvernveginn verður hann að komast að lokaniðurstöðu í kerfi sínu. Í rökfræðinni getur hann gert þennan endi aftur að upphafi, þar sem lokastigið, hin algera hugvera, „fráhverfist" þ. e. umbreytist í náttúruna og kemur til sjálfrar sín aftur í andanum, þ. e. í hugsuninni og sögunni. Hin algera hugvera er raunar einungis alger að því leyti, að hann getur alls ekkert um hana sagt. En við lok allrar heimspeki er þvílíkt afturhvarf til upphafsins aðeins hugsanlegt með *einu* móti, með því að láta sögunni ljúka samtímis, þannig að mannkynið öðlist þekkingu einmitt á þessari algeru hugveru, og lýsa yfir því, að nú hafi því marki verið náð að fá fulla vitneskju um hina algeru hugveru í heimspeki Hegels. Þar með er inntakið í kerfi Hegels með öllum sínum kreddum gert að algildum sannleika, í mótsögn við hina

díalektísku aðferð hans, sem leysir allt í sundur. Þannig vex hin íhaldssama grein hinni byltingarsinnuðu yfir höfuð og kæfir hana. Og um hið sögulega athafnalíf fer á sömu leið og hina heimspekilegu þekkingu. Mannkynið, sem í persónu Hegels hefur komizt svo langt að gera sér fulla grein fyrir hinni algeru hugveru, hlýtur einnig að vera komið svo langt í verki, að það getur látið þessa algeru hugmynd koma til framkvæmda í veruleikanum. Með hinum pólitísku kröfum hinnar algeru hugveru til samtímamannanna mátti því ekki spenna bogann allt of hátt í sjálfri framkvæmdinni.

Svo að í lok Réttarheimspekinnar fáum vér að vita, að hin algera hugvera á að koma til framkvæmda í hinu stéttbundna einveldi, sem Friedrich Wilhelm III. lofaði þegnum sínum svo þrálátlega en árangurslaust, eða með öðrum orðum í hinu takmarkaða, hófsamlega og óbeina drottnunarvaldi eignastéttanna, sem sniðið skyldi eftir hinum smáborgaralegu aðstæðum þeirra tíma í Þýzkalandi. Við þetta bætist ennfremur, að oss er sýnd og sönnuð nauðsyn aðalsins með aðferð hreinnar íhugunar.

Þannig dugar innri nauðsyn kerfisins til þess eins að leiða af því mjög hæglætislega pólitíska ályktun með tilstyrk algerlega byltingarsinnaðrar aðferðar. En hin sérstæða mynd, sem þessi ályktun tekur á sig, kemur til af því, að Hegel var Þjóðverji, og eins og samtímamaður hans Goethe, hafði hann ofurlítinn broddborgarahárpísk í hnakkanum. Hvor á sínu sviði voru þeir Goethe og Hegel Seifar á Ólympstindi, en hvorugur losaði sig með öllu við þýzka broddborgarann í sjálfum sér.

Þrátt fyrir allt þetta spannaði kerfi Hegels yfir svo miklu stærra svið en öll kerfi á undan því, að þar kemst enginn samanburður að, og á þessu sviði var hugmyndaauður þess slíkur, að undrum sætir enn í dag. Fyrirbærafræði andans, (sem kalla mætti hliðstæðu við fósturfræði og steingervingafræði andans, greinargerð fyrir þróun einstaklingsvitundarinnar frá einu stigi til annars, og er litið á hana sem stytta endurtekningu þeirra stiga, sem vitund manna hefur fetað sig upp eftir á sögulegri vegferð sinni), Rökfræði, Náttúruheimspeki, Heimspeki andans, en í hinni síðastnefndu er hver einstök söguleg mynd hennar tekin til meðferðar. Verk hans fjalla um heimspeki sögunnar, réttarins, trúarbragðanna, sögu heimspekinnar, fagurfræðinnar o.s.frv. og á öllum þessum sögulegu sviðum leitast Hegel við að finna, sýna og sanna hinn rauða þráð þróunarinnar. Og þar sem hann hafði ekki aðeins skapandi snilligáfu til að bera heldur og alfræðiþekkingu mikils lærdómsmanns, olli hann straumhvörfum í hvívetna. Það gefur auga leið, að vegna nauðsynjar „kerfisins“ hlaut hann ærið oft að grípa til tilfundinna hugsmíða, sem dverg-

vaxnir andstæðingar hans hafa gert óskaplegt hróp að allt fram á þennan dag. En þessar hugsmíðar eru aðeins umgjörð og uppistaða verks hans. Ef maður dvelur ekki allt of mjög við þær og kemst lengra inn í hina voldugu byggingu, finnur maður svo marga dýrgripi, að ekki verður tölu á komið, og þeir eru líka í fullu gildi enn í dag. Hjá öllum heimspekingum er einmitt „kerfið" hið fallvalta, af þeirri ástæðu, að það sprettur upp af eilífri þörf mannsandans, þeirri, að vinna bug á öllum mótsögnum. En ef öllum mótsögnum hefur verið rutt úr vegi í eitt skipti fyrir öll, þá höfum vér komizt að hinum svokallaða algilda sannleika, veraldarsagan er á enda, og þó verður hún að halda áfram, enda þótt henni sé nú ekkert framar eftir skilið, svo að hér kemur upp ný og óleysanleg mótsögn. Hegel sjálfur hefur raunar hjálpað oss allra manna bezt til að skilja, að þegar heimspekin setur sér slíkt verkefni, þá er verið að krefjast þess, að einstakur heimspekingur skuli afreka það, sem aðeins mannkynið allt getur afrekað í sögulegri framþróun sinni. Jafnskótt og vér skiljum það, hefur öll heimspeki í núverandi skilningi þess orðs runnið skeið sitt á enda. Vér látum hinn „algera sannleika", sem enginn einstakur getur náð til og ekki verður náð til eftir þessari leið, sigla sinn sjó, og í stað þess reynum vér að ná tökum á hinum afstæðilegu sannindum eftir leiðum reynsluvísindanna og með því að gera oss heildargrein fyrir niðurstöðum þeirra með díalektískri hugsun. Með Hegel lýkur allri heimspeki yfirleitt. Annarsvegar vegna þess að hann tekur saman og gerir skil allri þróun hennar í kerfi sínu með stórbrotnum hætti, og hinsvegar vegna þess, að enda þótt það sé honum óméðvitað, vísar hann oss leiðina út úr völundarhúsi kerfanna til raunverulegrar, jákvæðrar þekkingar á heiminum.

Maður getur skilið hversu óhemjuleg áhrif kerfi Hegels hlaut að hafa á hið heimspekilega hlaðna andrúmsloft í Þýzkalandi. Þetta var sigurganga, sem stóð í áratugi, og lauk enganveginn með dauða Hegels. Þvert á móti, á árunum 1830 til 1840 drottnaði „hegelisminn" meira óskorað en áður svo að jafnvel andstæðingar hans höfðu smitazt af honum í meira eða minna mæli. Einmitt á þessu tímabili, skutu skoðanir Hegels, meðvitað eða óméðvitað, mestum rótum í hinum ólíkustu vísindagreinum og þær gagnsýrðu alþýðlegar bókmenntir og dagblöðin, sem hin venjulega „menntaða vitund" fær hugmyndir sínar frá. En þessi sigur á allri víglínunni var aðeins forleikur að innri baráttu.

Eins og séð verður á öllu þessu, gat heildarkenning Hegels rúmað mjög margvíslegar raunvirkar flokksskoðanir. Og í hinu fræðilega Þýzkalandi þeirra tíma var það tvennt, sem framar öllu gat talizt raunvirkt: trúarbrögð og stjórnmál. Sá sem lagði

aðaláherzluna á *kerfi* Hegels gat verið allíhaldssamur. Hinn, sem leit svo á, að hin díalektíska *aðferð* væri aðalatriðið, gat átt heima meðal þeirra, er lengst gengu í andstöðunni bæði á sviði trúarbragða og stjórnmála. Þrátt fyrir hin nokkuð tíðu byltingarsinnuðu reiðiköst í verkum Hegels, virtist hann sjálfur hallast yfirleitt meira í íhaldsáttina. Vissulega hafði kerfi hans kostað hann meira „hugarerfiði með súrum svita" en aðferðin. Við lok fjórða áratugsins fór klofningurinn í hreyfingunni að láta æ meira til sín taka. Í baráttunni við hina heittrúuðu bókstafsmenn og afturhaldsmenn lénsveldisins fórnaði vinstri armurinn, hinir svonefndu ungu Hegelssinnar, hinni tiginmannlegu heimspekilegu hlédrægni í stöðugt ríkari mæli á altari hinna brýnu dægurmála, þeirri hlédrægni, sem hingað til hafði tryggt kenningu þeirra frið fyrir afskiptum ríkisins og veitt þeim jafnvel vernd þess. Og loks þegar hin rétttrúaða guðrækni og afturhald lénsveldis og einveldis settist í hásætið árið 1840 með Friedrich Wilhelmi IV., varð óhjákvæmilegt að taka opinbera afstöðu. Enn var baráttan háð með vopnum heimspekinnar, en hún snerist nú ekki lengur um sértæk og heimspekileg markmið. Nú var um það að ræða, að leggja hin hefðbundnu trúarbrögð og hið drottnandi ríki að velli. Í „Deutschen Jahrbüchern"[1] voru hin hagnýtu markmið oftast í heimspekilegum dulbúningi, en í Rheinische Zeitung árið 1842 sýndi það sig, að hreyfing ungra Hegelssinna var ekkert annað en heimspeki hinnar rísandi borgarastéttar, sem notaði nú heimspekigervið einungis til þess að blekkja ritskoðunina.

En svið stjórnmálanna var þá mjög svo þyrnum stráð, svo að öllum þunga baráttunnar var stefnt gegn trúarbrögðunum. Óbeinlínis var þetta líka pólitísk barátta, einkum eftir 1840. Strausz reið á vaðið með „Ævi Jesú" árið 1835. Brúno Bauer snerist síðar gegn þeirri kenningu um goðsagnamyndun guðspjallanna, sem haldið er fram í þeirri bók og sýndi fram á, að höfundar guðspjallanna hafa sjálfir búið til margar frásögur þeirra. Deila þeirra var háð í heimspekilegum dulbúningi, eins og hér væri um að ræða baráttu „sjálfsvitundarinnar" og „frumverundarinnar", eins og deilt væri um þá spurningu, hvort kraftaverkasögur guðspjallanna hefðu orðið til meðal safnaðanna eins og gerist um goðsagnir, er verða til ómeðvitað og þróast frá kynslóð til kynslóðar, eða hvort guðspjallamennirnir hefðu sjálfir búið þær til. Þetta var blásið út og gert að spurningu um það, hvort „frumverundin" eða „sjálfsvitundin" væri það afl, er úrslitum réði í veraldarsögunni. Og loks kom Stirner, spámaður stjórnleysis-

[1] „Þýzkar árbækur" (Deutsche Jahrbücher für Wissenschaft und Kunst), málgagn ungra Hegelsinna. Kom út 1841–1843. – *Útg.*

stefnu nútímans, með sinn alvalda „einstakling", sem óx hinni alvöldu „sjálfsvitund" yfir höfuð. Bakúnín hefur tekið upp margt úr kenningum Stirners.

Við ræðum ekki nánar um upplausn þeirrar hreyfingar, sem kennd er við Hegel. Frá okkar sjónarmiði er hitt mikilvægara, að allur þorri hinna ungu Hegelssinna, sem ákveðnastir voru, hurfu á vit ensk-frönsku efnishyggjunnar fyrir nauðsyn hagnýtrar baráttu gegn raunvirkum trúarbrögðum. Og í þessu efni komust þeir í beina andstöðu við kenningarkerfi sitt. Í efnishyggjunni er náttúran hið eina raunverulega, en í kerfi Hegels er hún einungis „fráhvarf" hinnar algeru hugveru, einskonar niðurlæging hennar. Allavega er hugsunin og framkvæmd hennar, hugveran, hið upprunalega í þessu kerfi, en náttúran afleiðing, sem á sér tilvist einungis vegna þess, að hugveran fer á lægra tilverustig. Flæktir í þessari mótsögn ræddu menn málin fram og aftur og urðu að bjarga sér sem bezt þeir gátu.

Þá kom „Eðli kristindómsins"[1] eftir Feuerbach. Með einu bragði skar hann á hnút mótsagnarinnar og setti efnishyggjuna aftur í öndvegi án allra vafninga. Náttúran er til óháð allri heimspeki. Hún er sá jarðvegur, sem mennirnir eru sprottnir upp af, sjálfir eru þeir afurð náttúrunnar. Ekkert er til nema náttúran og mennirnir, og hinar æðri verur, sem trúarlegt ímyndunarafl vort skóp, eru aðeins ævintýralegar endurspeglanir vors eigin eðlis. Álagafjötrarnir voru rofnir. Kerfið var sprengt og látið sigla sinn sjó, mótsögnin var leyst, þar sem hún var aðeins til í ímynduninni. Sjálfur verður maður að hafa lifað endurleysandi áhrif þessarar bókar til þess að geta gert sér hana í hugarlund. Hrifningin var almenn. Í svipinn vorum vér allir Feuerbachssinnar. Í „Heilagri fjölskyldu" (Heilige Familie) má lesa um það, með hvílíkri hrifningu Marx fagnaði hinni nýju skoðun og hversu mjög hún orkaði á hann, þrátt fyrir alla gagnrýnandi fyrirvara.

Jafnvel villurnar áttu sinn þátt í hinum skjótu áhrifum bókarinnar. Hinn skáldlegi og á köflum íburðarmikli stíll tryggði henni mikinn lesendahóp og var allavega mikil hressing eftir hin löngu ár hins hlutfirrta og myrka hegelisma. Sama er að segja um hina taumlausu dýrkun kærleikans, sem hægt var að afsaka en ekki réttlæta sem andsvar gegn því alveldi „hreinnar hugsunar", er var orðið óþolandi. Hinu megum vér ekki gleyma, að „sanni sósíalisminn", sem fór um hið „menntaða" Þýzkaland eins og landfarsótt eftir 1844, stóð í sambandi einmitt við báðar þessar veilur Feuerbachs. En þessi „sanni sósíalismi" lét skáldleg orðatiltæki koma í stað vísindalegrar þekkingar og frelsun mannkynsins fyrir tilstuðlan „kærleikans" í stað frelsunar verka-

[1] „Wesen des Christentums" kom út í Leipzig 1841. – *Útg.*

lýðsins með efnahagslegri umbyltingu framleiðslunnar, í stuttu máli, hann lenti í þeim ógeðslega fagurkerahætti og þeirri væmnu kærleiksmollu, sem herra Karl Grün er dæmigerður fulltrúi fyrir.

Enn er eitt, sem vér ekki megum gleyma. Hreyfing hegelismans hafði sundrazt, en menn höfðu ekki sigrazt á heimspeki Hegels með því að gagnrýna hana. Strausz og Bauer tóku hvor um sig upp annan þátt hennar og beittu honum fyrir sig í ádeilu gegn hinum. Feuerbach sprengdi kerfið og lagði það blátt áfram á hilluna. En maður sigrast ekki á neinni heimspeki með því einu að lýsa yfir að hún sé röng. Og jafnstórbrotnu verki og heimspeki Hegels, sem hafði svo geysimikil áhrif á alla andlega þróun þjóðarinnar, var ekki unnt að útrýma með því að gera sér lítið fyrir og hafa það að engu. Það varð að „láta hana þoka" í hennar eigin skilningi, þ. e. með því að ónýta form hennar með gagnrýni, en bjarga inntakinu, er unnizt hafði fyrir tilstyrk hennar. Síðar verður rætt nánar um hvernig þetta gerðist.

En um sinn lagði byltingin 1848 alla heimspeki jafnfeimnislaust á hilluna og Feuerbach sinn Hegel. Og jafnframt var Feuerbach sjálfum þokað í skuggann.

## II.

Hið mikla grundvallarviðfangsefni allrar heimspeki, en þó einkum síðari tíma heimspeki, er sú spurning, hver sé afstaða hugsunar til veruleika. Á meðan menn höfðu alls enga hugmynd um gerð líkama síns, fengu menn þá hugmynd, sem draumfarir[1] þeirra áttu sinn þátt í að vekja, að hugsanir þeirra og kenndir væru ekki starfsemi líkamans, heldur bæri að rekja þær til sérstakrar sálar, er byggi í líkamanum og skildi við hann í dauðanum. Allt frá þeim tímum hlutu menn að gera sér einhverjar hugmyndir um afstöðu þessarar sálar til hins ytra heims. Ef hún skildi við líkamann í dauðanum, og lifði áfram, var engin ástæða til að ímynda sér, að hún dæi sérstaklega. Þannig varð til hugmyndin um ódauðleika hennar, sem mönnum virtist enganveginn vera huggun í á því þróunarstigi, heldur örlög, er ekki varð á móti staðið, og alloft var þetta beinlínis talin vera ógæfa, eins og meðal Grikkja. Það var ekki trúarleg þörf fyrir huggun, sem leiddi til hinnar leiðigjörnu ímyndunar um persónulegan ódauðleika, heldur hitt, að menn voru í vandræðum með hvað

[1] Ennþá er sú hugmynd algeng meðal villimanna og ósiðmenntaðra þjóðflokka á lágu þroskastigi, að mannsmyndir þær, sem birtast í draumi, séu sálir, er skilið hafi við líkamann um stundarsakir. Hinn raunverulegi maður er því talinn vera ábyrgur fyrir þeim verkum, sem mynd hans í draumi fremur gagnvart þeim, sem dreymir. Til dæmis komst Imthurn að raun um þetta meðal Indíánanna í Guyana árið 1884. (Aths. Engels.)

þeir ættu að gera við sálina eftir líkamsdauðann, úr því að þeir höfðu nú einu sinni gert ráð fyrir tilvist hennar. Alveg á samskonar hátt urðu til persónugervingar náttúruaflanna, hinir fyrstu guðir, sem með þróun trúarbragðanna tóku sí og æ á sig óveraldlegri mynd, þar til loks að upp kom í kolli manna hugmynd eingyðistrúarbragðanna um aðeins einn guð, er varð til úr hinum mörgu, meira eða minna takmörkuðu guðum, sem enda takmörkuðu hver annan. Sú hugmynd kom upp í rás hinnar andlegu þróunar, sem eðli sínu samkvæmt leiddi til hlutfirringarferla, mér liggur við að segja eimingarferla hugsunarinnar.

Spurningin um afstöðu hugsunar til veruleika, andans til náttúrunnar, æðsta viðfangsefni allrar heimspeki, á því rót sína að rekja til hinna þröngsýnu og þekkingarsnauðu hugmynda villimennskunnar eigi síður en öll trúarbrögð. En spurninguna var þá fyrst hægt að bera fram alveg afdráttarlaust, þegar mannkyn Evrópu vaknaði af hinum langa vetrardvala hinna kristnu miðalda, og þá, en ekki fyrr, gat hún öðlazt fullt gildi. Spurningin um stöðu hugsunarinnar gagnvart veruleikanum, sú spurning hvað væri hið upprunalega, andinn eða náttúran, gegndi raunar líka miklu hlutverki í skólaspeki miðalda, en nú var broddi hennar snúið gegn kirkjunni í þeirri veru, að spurt var í rauninni: Hefur guð skapað heiminn, eða hefur heimurinn verið til um alla eilífð?

Heimspekingarnir skiptust í tvo meginflokka eftir því, hvernig þeir svöruðu þessari spurningu. Þeir sem héldu því fram, að andinn væri hið upprunalega, en ekki náttúran, og gerðu því, þegaröll kurl koma til grafar, ráð fyrir sköpun heimsins á einn eða annan hátt, fylltu flokk hughyggjumanna. Og í meðferð heimspekinganna, t. d. Hegels, verður þessi sköpun einatt miklu flóknari og fráleitari en í kristinni trú. Hinir, sem héldu náttúruna vera hið upphaflega, teljast til hinna margvíslegu hópa, er fylla flokk efnishyggjunnar.

Upprunalega þýddu orðin hughyggja og efnishyggja ekki annað en þetta, og hér verða þau ekki notuð í öðrum skilningi. Síðar munum við fá að sjá, hvílíkum ruglingi það veldur, ef einhver önnur merking er lögð í þessi orð.

En það getur líka snúið upp annar flötur á spurningunni um afstöðu hugsunar til veruleika: Hver er afstaða hugmynda vorra um þann heim, sem umlykur oss, til þessa heims sjálfs? Getur hugsun vor öðlazt þekkingu á hinum raunverulega heimi, tekst oss að skapa rétta spegilmynd veruleikans í hugmyndum vorum og hugtökum um hinn raunverulega heim? Á máli heimspekinnar er þetta kallað spurningin um samsemd hugsunar og veruleika og langflestir heimspekingar svara henni játandi. Til að mynda lít-

ur Hegel svo á, að játandi svar við henni leiði af sjálfu sér. Því að það sem vér öðlumst þekkingu á í hinum raunverulega heimi er einmitt hugsunarinntak hans, sem gerir heiminn að framkvæmd hinnar algeru hugveru stig af stigi, en hún hefur verið til einhversstaðar óháð heiminum og á undan honum um alla eilífð. Hitt er augljóst, að hugsunin getur öðlazt þekkingu á inntaki, sem frá upphafi vega er hugsunarinntak. Það er líka jafnaugljóst, að það sem sanna skal, felst þegar í forsendunni ósagt. En Hegel lét það síður en svo standa í vegi fyrir því, að leiða ennfremur þá ályktun af sönnun sinni fyrir samsemd hugsunar og veruleika, að þar sem heimspeki hans væri rétt fyrir hugsun hans, væri hún einnig hið eina rétta, og að samsemd hugsunar og veruleika yrði að sannreynast með þeim hætti, að mannkynið breytti þegar í stað heimspeki hans úr fræðikenningu í athöfn, og allur heimurinn yrði umskapaður í samræmi við hegelskar grundvallarreglur. Þetta er sjálfsblekking, sem hann á sameiginlega með flestöllum heimspekingum.

En auk þess eru til æði margir aðrir heimspekingar, sem neita því, að unnt sé að öðlast þekkingu á heiminum, eða þá að þekkja hann til fullrar hlítar. Af heimspekingum síðari tíma eru Hume og Kant á meðal þeirra, og þeir hafa gegnt mjög mikilvægu hlutverki í þróun heimspekinnar. Hegel hefur þegar sagt það, sem hefur úrslitaþýðingu til þess að afsanna þessa skoðun, að því leyti sem það er unnt frá sjónarmiði hughyggjunnar. Það sem Feuerbach bætir við frá efnishyggjusjónarmiði, er mög andríkt og ristir djúpt. Ótvíræðasta afsönnun þessarar heimspekigrillu, svo og allra annarra, er starfið, fyrst og fremst tilraunirnar og iðnaðurinn. Ef oss tekst að sanna réttmæti hugmynda vorra um eitthvert náttúruferli með því að búa það til sjálfir, framleiða það úr skilyrðum sínum, og láta það þar að auki þjóna markmiðum vorum, þá er hinn óþekkjanlegi „hlutur" Kants „í sjálfum sér" úr sögunni. Efni þau, sem myndast í líkömum plantna og dýra voru slíkir „hlutir í sjálfum sér", þar til lífefnafræðin tók að framleiða þau eitt af öðru. Um leið varð „hluturinn í sjálfum sér" að hlut fyrir oss, eins og til að mynda litarefni krappjurtarinnar, alizarínið, sem menn eru nú hættir að rækta í rótum jurtarinnar á ökrum úti, en vinna það í þess stað úr koltjöru á miklu ódýrari og einfaldari hátt. Í þrjú hundruð ár var sólkerfi Kópernikusar tilgáta, þar sem líkurnar voru hundrað, þúsund eða tíu þúsund gegn einum, en eigi að síður aðeins tilgáta. En þegar Leverrier reiknaði út samkvæmt tölugildum kerfisins, að eigi aðeins hlyti óþekkt reikistjarna að vera til, heldur líka hvar hana væri að finna, hvar staður hennar væri á himni, og þegar Galle fann hana í raun og veru, þá var fengin sönnun fyrir kerfi Kópernikusar.

Þegar skoðun Kants er eigi að síður vakin til lífs að nýju í Þýzkalandi af hálfu hinna nýju Kantsinna og skoðun Humes í Englandi, þar sem hún hefur aldrei dáið út, af hálfu óvissuheimspekinga, þá er hér um að ræða skref aftur á bak á sviði vísindanna, þegar þess er gætt, að þessar skoðanir hafa fyrir löngu verið hraktar bæði í kenningu og verki. Og frá hagnýtu sjónarmiði er hér um að ræða þá skömmustulegu aðferð, að aðhyllast efnishyggjuna bak við tjöldin, en afneita henni frammi fyrir heiminum.

En það var alls ekki orka hinnar hreinu hugsunar, sem knúði heimspekingana áfram á hinu langa tímabili frá Descartes til Hegels og frá Hobbes til Feuerbachs, eins og þeir sjálfir héldu. Þvert á móti. Það sem í sannleika knúði þá áfram, voru hinar voldugu framfarir í náttúruvísindum og iðnaði, sem geystust fram með æ meiri hraða. Þetta kom þegar fram í dagsljósið hjá efnishyggjumönnum, en hughyggjukerfin drukku líka í sig það, sem efnishyggjan hafði til brunns að bera í æ ríkara mæli og reyndu að sætta andstæðuna milli anda og efnis með algyðistrú. Svo þegar öllu er á botninn hvolft, er kerfi Hegels aðeins dæmi um efnishyggju, sem höfð hafa verið endaskipti á að hætti hughyggjunnar, að því er tekur til aðferðar og inntaks.

Það er því skiljanlegt, að þegar Starcke lýsir skoðunum Feuerbachs, rannsakar hann fyrst hvernig hann snýst við grundvallarviðfangsefninu, afstöðu hugsunar til veruleika. Fyrst kemur stuttur inngangur, þar sem hann lýsir skoðunum fyrri heimspekinga, einkum eftir daga Kants, á óþarflega þunglamalegu heimspekimáli, og þarna verður hlutur Hegels alltof lítill, vegna þess að höfundur dvelur svo mjög við einstaka staði í verkum hans af alltof mikilli formfestu. Þvínæst kemur ítarleg lýsing á þróunarferli „frumspekinnar“ hjá Feuerbach sjálfum, eins og má rekja hann með því að kynna sér í réttri röð þau rit þessa heimspekings, sem hér um ræðir. Þessi greinargerð er unnin af kostgæfni og gefur gott yfirlit, en gallinn einungis sá, að eins og bókinni allri er henni ofþyngt með kjölfestu heimspekilegs orðalags, sem er fjarri því að vera allsstaðar nauðsynlegt og truflar þeim mun meir, sem höfundur bindur sig minna við orðafar einnar og sömu stefnu eða þá Feuerbachs sjálfs og blandar það orðatiltækjum úr ýmsum áttum, en þó einkum frá þeim stefnum, sem nú ríða húsum og kalla sig heimspekistefnur.

Feuerbach hefur þróazt úr Hegelssinna, sem raunar var aldrei rétttrúaður, í efnishyggjumann. En sú þróun hefur það í för með sér, að sagt er með öllu skilið við hughyggjukerfi fyrirrennarans á vissu stigi. Sá skilningur gagntekur hann með afli, sem ekki verður á móti staðið, að tilvist hinnar „algeru hugveru“

Hegels áður en heimurinn varð til, „fortilvera hinna rökfræðilegu grunnhugtaka“ á undan heiminum, sé ekki annað en draumórakenndar leifar trúarinnar á skapara, sem ekki er af þessum heimi. Hann getur ekki varizt þeim skilningi, að hinn efnislegi, skynjanlegi heimur sé hið eina raunverulega, og hversu yfirskilvitlegar sem vitundin og hugsunin virðast vera, séu þær eigi að síður afurð efnislegs og líkamlegs líffæris, heilans. Efnið er ekki afurð andans, heldur er andinn sjálfur hin æðsta afurð efnisins. Þegar hér er komið sögu, bregður Feuerbach í brún. Honum tekst ekki að vinna bug á hinum venjubundna heimspekilega hleypidómi, sem þó er ekki hleypidómur gagnvart málefninu, heldur gagnvart nafninu efnishyggja. Hann segir: „Í mínum augum er efnishyggjan undirstaða byggingarinnar, mannlegs eðlis og þekkingar. En að mínum dómi er hún ekki það, sem lífeðlisfræðingarnir og náttúruvísindamennirnir í þrengri merkingu telja hana vera og hljóta raunar að gera frá sínu sjónarmiði og starfs síns, hún er ekki byggingin sjálf. Þegar litið er til baka, er ég algerlega sammála efnishyggjunni, en ekki þegar horft er fram á við.“

Hér setur Feuerbach undir einn hatt efnishyggjuna, sem er almenn heimsskoðun, er grundvallast á tilteknum skilningi á afstöðu efnis og anda, og sérstaka mynd, sem þessi heimsskoðun tók á sig á vissu sögulegu stigi, einkum á 18. öld. Og hann lætur ekki þar við sitja. Hann ruglar henni saman við hina flatbotna og óvísindalegu mynd átjándu aldar efnishyggjunnar, sem enn lifir í kollum náttúrufræðinga og lækna og þeir Büchner, Vogt og Moleschott boðuðu að hætti farandpredikara á sjötta áratugnum. En það gildir hið sama um efnishyggjuna og hughyggjuna, það hafa verið mörg þróunarstig á ferli hennar. Með hverri þeirri uppgötvun, er markaði tímamót á sviði náttúruvísindanna, hlaut hún einnig að taka á sig nýja mynd. Og eftir að farið er að taka söguna efnishyggjutökum, opnast einnig þar nýjar þróunarleiðir.

Efnishyggja aldarinnar, sem leið, var framar öllu mekanísk (aflfræðileg), vegna þess að af öllum greinum náttúruvísindanna hafði þá aflfræðin ein náð lokastigi í vissum skilningi, og þó aðeins aflfræði fastra hluta á himni og jörðu, í einu orði sagt, þyngdaraflfræðin. Efnafræðin var þá aðeins á bernskuskeiði, á stigi flógistonkenningarinnar. Líffræðin var enn í reifum. Líkamir plantna og dýra voru einungis rannsakaðir í grófum dráttum og allt var skýrt með aflfræðilegum orsökum einum. Efnishyggjumenn átjándu aldar litu á manninn sem vél, eins og Descartes leit á dýrið. Í þessu fólst hin sérstaka takmörkun klassísku frönsku efnishyggjunnar, sem þó var óhjákvæmileg á þeim tíma. Hún fólst í því, að menn notuðu eingöngu aflfræðilegan

mælikvarða á ferli, sem í eðli sínu eru efnafræðileg og líffræðileg, þar sem aflfræðileg lögmál hverfa í skuggann fyrir æðri lögmálum, enda þótt hin fyrrnefndu haldi einnig gildi sínu.

Þessi efnishyggja var líka takmörkuð að öðru leyti, sem var annað sérstakt einkenni hennar. Hún var þess ekki umkomin að skilja heiminn sem framvindu, sem efni í sögulegri framþróun. Þetta var í samræmi við stöðu náttúruvísindanna á þeim tímum og þann frumspekilega eða, með öðrum orðum, ódíalektíska hátt heimspekilegrar hugsunar, sem henni fylgdi. Menn vissu að náttúran var í eilífri hreyfingu. En þessi hreyfing var jafneilífur hringsnúningur, og komst því ekki úr sporunum, samkvæmt hugmyndum manna í þann tíð. Sami árangurinn endurtókst án afláts. Þetta var óhjákvæmileg hugmynd á þeim tíma. Kenning Kants um uppruna sólkerfisins var þá nýlega komin fram og menn líta á hana einungis sem skringilega hugmynd. Þróunarsaga jarðarinnar, jarðfræðin, var með öllu óþekkt enn og þá hugmynd, að þær lífverur, sem nú eru á lífi, væru árangur langrar þróunar frá hinu einfalda til hins margbrotna, var yfirleitt ekki unnt að bera fram á vísindalegan hátt. Svo að hinn ósögulegi skilningur á náttúrunni var óhjákvæmilegur. Þennan skilning er einnig að finna í heimspeki Hegels, svo að það er þeim mun minni ástæða til að áfellast heimspekinga átjándu aldar fyrir þær sakir. Samkvæmt heimspeki Hegels getur náttúran ekki þróazt í tímanum, vegna þess að hún er ekki annað en hugveran „fráhverf", fjölbreytni hennar getur einungis breiðst út í rúmi, svo að samtímis og samhliða koma fram í henni öll þau þróunarstig, sem í henni felast og hún er dæmd til eilífrar endurtekningar sömu ferlanna. Og þessari fjarstæðu um þróun í rúmi og utan tímans, sem er grunnskilyrði allrar þróunar, þröngvaði Hegel upp á náttúruna einmitt á sama tíma, sem jarðfræðin, fósturfræðin, lífeðlisfræði plantna og dýra og lífefnafræðin voru í sköpun og á grundvelli þessara nýju vísinda var allsstaðar að skjóta upp snjöllum hugboðum um þá þróunarkenningu, sem síðar kom fram. (T. d. Goethe og Lamarck). En kerfið krafðist þess að svona skyldi það vera, og þá varð aðferðin að gerast sjálfri sér ótrú til þess að þóknast kerfinu.

Sama ósögulega viðhorfið var einnig á sviði sögunnar. Á þessum vettvangi var einblínt á baráttuna gegn leifum miðalda. Það var blátt áfram litið svo á, að sagan hefði verið rofin og gert hlé á henni með almennu siðmenningarleysi í þúsund ár. Hinar miklu framfarir miðalda sáu menn ekki, hvorki útbreiðslu evrópska menningarsvæðisins, hinar lífvænlegu þjóðir, sem þar mynduðust hver við annarrar hlið, né heldur hinar gífurlegu tækniframfarir 14. og 15. aldar. En þar með var girt fyrir skynsamlega innsýn í

hið mikla samhengi sögunnar og sagan gat í hæsta lagi orðið safn dæma og skýringarmynda til afnota fyrir heimspekingana.

Farandsalarnir og gæðaspillarnir, sem föndruðu við efnishyggju í Þýzkalandi á sjötta tug aldarinnar, komust enganveginn út fyrir þessar takmarkanir kennara sinna. Allar þær framfarir, sem síðar urðu í náttúruvísindum, notuðu þeir einungis sem sannanir gegn tilvist heimsskapara. Og vissulega var það ekki í þeirra verkahring að koma kenningunni til meiri þroska. Enda þótt hughyggjan væri að þrotum komin og fengi banahöggið með byltingunni 1848, gat hún þó huggað sig við það, að í svipinn hafði efnishyggjan komizt á enn lægra stig. Feuerbach hafði tvímælalaust rétt fyrir sér, þegar hann hafnaði allri ábyrgð á þessari efnishyggju. Hitt hefði hann ekki átt að gera, að rugla kenningu þessara farandpredikara saman við efnishyggjuna yfirleitt.

Hér er þó tvennt, sem þarf að taka fram. Í fyrsta lagi að á dögum Feuerbachs voru ennþá áköf umbrot í þróun náttúruvísindanna, svo að málin skýrðust ekki fyrr en síðustu fimmtán árin, þegar þessi þróun komst að því leyti á lokastig í afstæðilegum skilningi. Nýr þekkingarefniviður barst að í ríkara mæli en nokkur dæmi voru til allt til þessa. En það var ekki fyrr en alveg nýlega, að unnt reyndist að tengja saman og koma þar með skipan á þennan óskapnað uppgötvana, sem hrúguðust upp hver á fætur annarri. Að vísu lifði Feuerbach það, að fram komu þrjár uppgötvanir, sem úrslitum réðu: uppgötvun frumunnar, umbreytingar orkunnar og þróunarkenningarinnar, sem kennd er við Darwin. En hvernig var hægt að ætlast til þess af einmana heimspekingi, sem bjó uppi í sveit, að hann fylgdist nægilega vel með vísindunum og kynni að meta til fulls þær uppgötvanir, sem náttúrufræðingarnir sjálfir ýmist vefengdu eða kunnu ekki að hagnýta á fullnægjandi hátt? Í þessu efni eiga hinar vesælu aðstæður í Þýzkalandi alla sök, sem höfðu það í för með sér, að heilaspunamenn, grautargerðarmenn og flóaveiðarar sátu í embættum heimspekikennaranna, en Feuerbach, sem bar af þeim öllum eins og gull af eiri, varð að forpokast og gerast leiður á lífinu í litlu sveitaþorpi. Það er því ekki sök Feuerbachs, þó honum tækist ekki að ná tökum á þeirri sögulegu náttúruskoðun, sem nú er unnt að mynda sér, og er víðsfjarri einstrengingshætti frönsku efnishyggjunnar.

Í öðru lagi hefur Feuerbach alveg rétt fyrir sér í því efni, að efnishyggja náttúruvísindanna er að vísu „undirstaða byggingarinnar, mannlegrar þekkingar, en ekki byggingin sjálf". Því að vér lifum eigi aðeins í náttúrunni, heldur og í mannlegu þjóðfélagi, og það á líka sína þróunarsögu og sín vísindi ekki síður en náttúran. Verkefnið var því að samræma vísindin um

þjóðfélagið, sem fela í sér hin svokölluðu sagnfræðilegu og heimspekilegu vísindi, grundvelli efnishyggjunnar, og endurskapa þau á þeim grunni. En þetta auðnaðist Feuerbach ekki. Að þessu leyti var hann í fjötrum þeirrar hughyggju, er hann hafði tekið í arf, þrátt fyrir „grundvöll" sinn, og þetta viðurkennir hann sjálfur með þessum orðum: „Þegar litið er til baka, er ég sammála efnishyggjunni, en ekki þegar horft er fram á við". En það var Feuerbach sjálfur, sem ekki komst „fram á við". Hann gat ekki náð fram til annars sjónarhóls en þess, sem hann stóð á árið 1840 eða 1844, og einnig þetta átti fyrst og fremst rót sína að rekja til einmanaleika hans, sem neyddi þennan mann, sem var meira hneigður fyrir mannlegan félagsskap en allir aðrir heimspekingar, til þess að framleiða hugsanir úr efniviði síns einmana höfuðs, í stað þess að láta þær spretta upp af vinsamlegum og fjandsamlegum samfundum við aðra menn af hans eigin gerð. Seinna verður að því vikið í einstökum atriðum, hversu mikill hughyggjumaður hann var á þessu sviði.

Hér skal það aðeins tekið fram, að þegar Starcke talar um hughyggju Feuerbachs, þá kemur hann á skakkan stað niður. „Feuerbach er hughyggjumaður, hann trúir á framfarir mannkynsins" (19. bls.) „Grundvöllurinn, undirstaða alls, er eigi að síður hughyggja. Hjá oss er raunveruhyggjan ekki annað en vernd gegn því, að lenda á villigötum, en vér fylgjum hinum hugsæislegu straumum vorum. Eru samkennd, kærleikur og sannleiks- og réttlætiseldmóður ekki hugsæisleg öfl?"

Í fyrsta lagi merkir hughyggja hér ekkert annað en það, að stefna að hugsjónamarkmiðum. Þetta getur í allra hæsta lagi átt við hughyggju Kants og „hið skilyrðislausa siðaboðorð" hans. En jafnvel Kant kallaði heimspeki sína „forskilvitlega[1] (transcententala) hughyggju," alls ekki vegna þess, að hún fjallar einnig um siðferðilegar hugsjónir, heldur af allt öðrum ástæðum, eins og Starcke hlýtur að muna. Sú hjátrú, að hin heimspekilega hughyggja snúist um siðferðilegar eða, með öðrum orðum, þjóðfélagslegar hugsjónir, hefur komið upp utan heimspekinnar, meðal þýzkra broddborgara, sem læra utan að hina fáu heimspekilegu fróðleiksmola, sem þeir þurfa á að halda og finna má í kvæðum Schillers. Enginn hefur borið fram skeleggari gagnrýni gegn hinu vanmáttuga „skilyrðislausa siðaboðorði" Kants, en einmitt Hegel, hinn fullkomni hughyggjumaður. En vanmáttugt er þetta boðorð vegna þess, að það krefst hins ógerlega og kemur

[1] Þetta er í rauninni óþýðanlegt með einu orði, þótt hér sé notast við orðið „forskilvitlegur". Hér er átt við þá heimspeki, er fæst við þau þekkingarskilyrði manna, sem að vísu taka til reynslunnar, en eru þeim gefin á undan allri reynslu (a priori) og gera hana mögulega. – *Þýð.*

því aldrei til neinna framkvæmda. Enginn annar en Hegel hefur dregið jafn miskunnarlaust dár að þeirri broddborgarahrifningu af óframkvæmanlegum hugsjónum, sem á ætt sína að rekja til Schillers. (Sjá t. d. „Fyrirbærafræðina").

Í öðru lagi verður nú einu sinni ekki hjá því komizt, að allt það, sem orkar á manninn til athafna, verður að fara leiðina gegnum höfuð hans. Þetta á meira að segja við, þegar maðurinn étur og drekkur, sem hefst með hungri og þorsta, er hann finnur til með höfðinu, og lýkur með saðningu, en hennar verður hann líka var með höfðinu. Áhrif umheimsins á manninn tjá sig í höfði hans, endurspeglast þar sem tilfinningar, hugsanir, hvatir, viljaákvarðanir, í stuttu máli sem „hugsæislegir straumar" og verða í þeirri mynd að „hugsæislegum öflum". En ef sú staðreynd, að maðurinn skuli yfirleitt fylgja „hugsæislegum straumum", og viðurkenna áhrif „hugsæislegra afla" nægir til að gera hann að hughyggjumanni, þá er hver maður, sem komizt hefur til nokkurnveginn eðlilegs þroska, fæddur hughyggjumaður. Og hvernig geta þá yfirleitt verið til efnishyggjumenn?

Í þriðja lagi er þess að geta, að sú sannfæring að mannkynið þróist í framfaraátt, þegar á heildina er litið, að minnsta kosti eins og sakir standa, stendur alls ekki í neinu sambandi við andstæðuna milli efnishyggju og hughyggju. Frönsku efnishyggjumennirnir voru svo sannfærðir um þetta, að jaðraði við ofstæki, ekki síður en guðstrúarmennirnir (deistarnir) Voltaire og Rousseau, og ósjaldan lögðu þeir persónulega mikið í sölurnar fyrir þessa sannfæringu sína. Ef nokkur maður hefur vígt allt líf sitt „sannleiks- og réttlætiseldmóði" í bezta skilningi þessara orða, þá var það til dæmis Diderot. Svo að þegar Starcke kallar allt þetta hughyggju, þá sannar það aðeins að orðið efnishyggja og öll andstæðan milli stefnanna tveggja hefur glatað allri merkingu í hans huga.

Staðreyndin er sú, að hér er um að ræða ófyrirgefanlega tilslökun af hálfu Starcke við þann broddborgarahleypidóm, sem rekja má til níðs prestanna, og ekki hefur verið lát á um langt árabil, enda þótt vera megi að hann geri sér ekki grein fyrir því sjálfur. Í huga broddborgarans merkir efnishyggjan ofát, drykkjuskap, ágirnd, augnagaman, holdlegan munað og drembilæti, fjárgræðgi, nízku, ágirnd, gróðrabrall og kauphallarrefjar, í stuttu máli alla þá saurugu lesti, sem eru ástríða hans sjálfs undirniðri. Og hughyggja merkir trú á dygðina, almenna mannást og „betri heim" yfirleitt, sem hann gortar af við aðra, en trúir sjálfur á í hæsta lagi meðan timburmennirnir eru að verki eða gjaldþrotið stendur yfir, er óhjákvæmilega siglir í kjölfar hins venjubundna „efnishyggju"-svalls hans, og á slíkum stundum syngur hann eftir-

lætisljóð sitt: Hvað er maðurinn, að hálfu dýr, að hálfu engill. Annars gerir Starcke sér mikið far um að verja Feuerbach gegn árásum og kennisetningum þessara dósenta, sem skreyta sig með heimspekingsnafni og láta nú mikið yfir sér í Þýzkalandi. Þetta er vissulega mikilvægt fyrir fólk, sem hefur áhuga á þessari fylgju klassísku þýzku heimspekinnar. Starcke sjálfur kann að álíta það nauðsynlegt. Við hlífum lesandanum við því.

## III.

Hin raunverulega hughyggja Feuerbachs sýnir sig, þegar kemur að trúarbragðaheimspeki hans og siðfræði. Hann vill enganveginn leggja trúarbrögðin fyrir róða, heldur fullkomna þau. Heimspekin sjálf á að verða trúarbrögð. „Tímaskeið mannkynsins greinast eingöngu vegna þeirra breytinga, sem verða á trúarbrögðunum. Söguleg hreyfing kafar því aðeins til botns, að hún taki til hjarta mannsins. Trúarbrögðin eru ekki hjartans mál að forminu til, þannig að þau ættu einnig að ná til hjartans. Þetta er eðli trúarbragðanna.“ (Tilvitnun Starcke á 168. bls..) Að dómi Feuerbachs eru trúarbrögðin tilfinningaafstæður, samband mannlegra hjartna, sem allt til þessa leituðu þeirra sanninda, sem fyrir þeim vöktu, í spegilmynd hugaróra, fyrir milligöngu eins eða fleiri guða, sem voru draumórakenndar endurspeglanir mannlegra eiginleika. En nú finna þau þennan sannleik beinlínis í kærleikanum milli mín og þín án allrar milligöngu. Og því verður ástin milli kynjanna að lokum ein hinna æðstu mynda í iðkun hinna nýju trúarbragða, ef ekki sú æðsta.

Nú er það svo, að meðan menn hafa verið til, hafa þeir borið tilfinningar í brjósti hver til annars, en þó fyrst og fremst bæði kynin. Einkum hefur ástin milli kynjanna náð slíkum þroska og fengið slíka stöðu í lífi manna síðustu átta hundruð árin, að í öllum skáldskap þykir skylt, að hún sé sá möndull, er allt snýst um. Hin virku, ríkjandi trúarbrögð hafa látið sér nægja að gefa þeim reglum, er ríkið setur um ást milli kynja, eða hjónabandslöggjöfinni, æðri vígslu, og öll geta þau horfið af sviðinu strax á morgun, án þess að nokkur breyting verði á því, hvernig menn elskast og sýna hver öðrum vináttu. Þannig var það líka í Frakklandi, á árunum 1793–1798 var kristin trú horfin í svo ríkum mæli, að jafnvel Napóleon gat ekki komið henni á aftur án mótþróa og erfiðleika. En ekki bar á því, að á þessu millibilstímabili bólaði á nokkurri þörf fyrir eitthvað í anda Feuerbachs, er kæmi í hennar stað.

Í þessu efni felst hughyggja Feuerbachs í því, að hann viður-

kennir ekki blátt áfram og af sjálfu sér gildi þess sambands milli manna, sem sprettur upp af hlýhug þeirra hvers til annars, ást milli kynja, vináttu, samkennd, fórnfýsi o. s. frv., án allra endurminningartengsla við trúarbrögð, sem heyra til fortíðarinnar, einnig að dómi Feuerbachs sjálfs. Í stað þess fullyrðir hann, að þessi tilfinningasambönd öðlist ekki fullt gildi fyrr en þau hafa hlotið æðri vígslu með nafninu trúarbrögð. Fyrir hann er það ekki aðalatriði, að þessi mannlegu sambönd eru til, heldur hitt, að á þau verði litið sem hin nýju, sönnu trúarbrögð. Þau eiga ekki að öðlast fullt gildi fyrr en þau hafa fengið stimpil trúarbragðanna. Orðið religion (trúarbrögð) kemur af sögninni religare og þýðir upprunalega samband. Svo að sérhvert samband milli tveggja manna er religion. Slík samanburðarmálfræðileg snillibrögð eru síðustu fræðsluaðferðir hughyggjuheimspekinnar. Uppruni orðsins skal gilda, en ekki hitt í hvaða merkingu það hefur raunverulega verið notað samkvæmt sögulegri þróun þess. Og svo er ástin og sambandið milli kynjanna gert himinborið, svo að orðið religion, sem svo ástkærar hughyggjuminningar eru bundnar við, hverfi ekki úr málinu. Einmitt þannig var málflutningur frönsku endurbótasinnanna, sem fylgdu stefnu Louis Blancs, en þeir gátu ekki heldur hugsað sér trúlausan mann nema sem ófreskju, og sögðu við okkur: Donc, l'athéisme c'est votre religion![1] Þegar Feuerbach ætlar að stofna til sannra trúarbragða á grundvelli náttúruskoðunar, sem í meginatriðum er efnishyggja, þá er það svona álíka og að líta á efnafræði nútímans sem hina sönnu gullgerðarlist. Ef trúarbrögðin geta komizt af án guðs síns, þá getur gullgerðarlistin líka komizt af án vizkusteinsins. Vizkusteinninn hefur marga eiginleika, sem líkjast guðlegum eigindum, og á fyrstu tveimur öldum tímatals vors höfðu egypzkir og grískir gullgerðarmenn hönd í bagga við sköpun hinna kristnu trúarkenninga, eins og heimildir þær, sem finna má í ritum þeirra Kopps og Bertelots, sanna.

Algerlega röng er sú staðhæfing Feuerbachs að „tímaskeið mannkynsins greinist eingöngu vegna þeirra breytinga, sem verða á trúarbrögðunum". Breytingar á trúarbrögðum hafa *fylgt* miklum sögulegum tímamótum, aðeins að því er tekur til heimstrúarbragðanna þriggja, búddatrúar, kristinsdóms og íslams. Hin gömlu kynflokka- og þjóðartrúarbrögð, sem spruttu upp eins og frumgróður, höfðu engar boðunartilhneigingar og glötuðu mótstöðuafli sínu jafnskjótt og sjálfstæði hlutaðeigandi kynflokka og þjóða var brotið á bak aftur. Germanir þurftu jafnvel ekki að komast nema rétt í snertingu við hið hnignandi rómverska heimsveldi og hin kristnu heimstrúarbrögð þess, er það hafði ný-

[1] Svo að guðleysið er ykkar trúarbrögð! – *Útg.*

lega tekið upp og sniðið að efnahagslegum, stjórnmálalegum og hugmyndalegum aðstæðum sínum. Það er ekki fyrr en með uppkomu heimstrúarbragðanna, sem eru að meira eða minna leyti tilbúin, en þó einkum með tilkomu kristindóms og múhameðstrúar, að almennari sögulegar hreyfingar taka á sig trúarlegt svipmót. Og þegar um kristindóminn er að ræða, takmarkast hið trúarlega svipmót þeirra byltinga, sem raunverulega hafa almennt gildi, við fyrstu stigin í frelsisbaráttu borgarastéttarinnar frá þrettándu öld og allt fram á þá seytjándu. Skýringin felst ekki í hjörtum manna og trúarþörf þeirra, eins og Feuerbach ímyndar sér, heldur í allri forsögunni á miðöldum, sem þekkti engin önnur hugmyndakerfi en þau, sem voru í trúarlegum og guðfræðilegum búningi. En á átjándu öld, þegar borgarastéttin var orðin nógu öflug til þess að eignast sjálf hugmyndakerfi við hæfi stéttarstöðu sinnar, þá gerði hún sína miklu úrslitabyltingu, frönsku byltinguna, með skírskotun til hugmynda, sem eingöngu voru lögfræðilegar og stjórnmálalegar, og lét sig trúarbrögðin engu skipta, nema að því leyti sem þau stóðu í vegi fyrir henni. Henni kom ekki til hugar að setja ný trúarbrögð í stað hinna gömlu. Alkunnugt er hvernig Robespierre mistókst þetta.[1]

Öll tiltök hreinna mannlegra tilfinninga og samskipta við aðra menn eru nógu fátækleg á vorum dögum af völdum þess þjóðfélags, sem vér verðum að búa við og hvílir á stoðum stéttardrottnunar og stéttaandstæðna. Svo að vér höfum enga ástæðu til þess að bæta enn við kröm þessara tilfinninga með því að gera þær himneskar í anda einhverra trúarbragða. Sömuleiðis hefur söguritun sú, sem nú tíðkast, einkum í Þýzkalandi, slævt nægilega skilning manna á hinni miklu stéttabaráttu sögunnar, svo að þess gerist engin þörf að girða með öllu fyrir allan skilning á þessari baráttusögu með því að breyta henni í réttan og sléttan viðauka við kirkjusöguna. Þetta eitt sýnir hversu mjög við höfum fjarlægzt Feuerbach, eins og nú er komið. „Fegurstu staðirnir“ í verkum hans til vegsömunar þessum nýju trúarbrögðum eru alls ekki lesandi lengur.

Einu trúarbrögðin, sem Feuerbach tekur til verulegrar rannsóknar, er kristindómurinn, heimstrúarbrögð Vesturlanda, er grundvallast á eingyðistrú. Hann sýnir fram á, að guð kristinna manna er ekki annað en endurspeglun í heimi ímyndunarinnar, spegilmynd mannsins. Nú er þessi guð sjálfur árangur langrar hlutfirringarverðandi, hinn samanþjappaði kjarni kynflokka- og þjóðarguðanna frá fyrri tímum. Og samkvæmt því er maðurinn, sem þessi guð er eftirmynd af, ekki raunverulegur maður, heldur líka

[1] Hér er átt við tilraun Ropespierre til að setja á stofn trúarbrögð, er tignuðu „hina æðstu veru“. – *Útg.*

kjarni hinna mörgu raunverulegu manna, hinn sértæki maður, svo að sjálfur er hann hugmynd. Sá hinn sami Feuerbach, sem á hverri blaðsíðu prédikar skilvitlega veraldarhyggju og brýnir fyrir mönnum að hafa allan hugann við hið hluttæka og veruleikann, hugsar algerlega sértækt, jafnskjótt og hann tekur að fjalla um einhver önnur samskipti manna en hin kynferðislegu.

Hann sér aðeins eina hlið þessara samskipta, siðferðið. Og hér vekur það aftur furðu, hve undurfátæklegar hugmyndir Feuerbachs eru, ef borið er saman við Hegel. Siðfræði Hegels eða kenningin um siðgæðið er Réttarheimspeki hans og fjallar um eftirfarandi: 1. hinn sértæka rétt, 2. siðferðið og 3. siðgæðið, en það lætur hann svo taka til fjölskyldu, borgaralegs þjóðfélags og ríkis. Þetta spannar yfir allt svið réttarfarsins, efnahagsmálanna og stjórnmálanna ásamt siðferðismálunum. Þessu er beinlínis öfugt farið hjá Feuerbach. Að forminu til er hann raunsæismaður, hann tekur mið af manninum. En sá heimur, sem þessi maður lifir í, er alls ekki til umræðu, og því verður maður þessi hinn sami sértæki maður, sem allt snýst um í trúarheimspekinni. Þessi maður er sem sé ekki af konu fæddur, hann er sprottinn úr skauti þess guðs, sem eingyðistrúarbrögðin tigna, og þessvegna lifir hann ekki í hinum raunverulega heimi, er á sér sögulegan uppruna og sögulegar forsendur. Að vísu hefur hann samskipti við aðra menn, en sérhver annar er jafn sértækur og hann sjálfur. Í trúarheimspekinni voru þó til karl og kona, en í siðfræðinni hverfur þessi munur einnig. Að vísu koma fyrir hjá Feuerbach með löngu millibili setningar eins og þessar: „Í höll hugsa menn öðruvísi en í kofa". „Þar sem þú hefur ekkert efni í líkama þínum vegna hungurs og eymdar, þar hefur þú heldur ekkert efni í siðgæði í höfði þínu, hug þínum og hjarta". „Stjórnmálin verða að gerast trúarbrögð vor" o. s. frv. En Feuerbach tekst ekki að gera neitt úr þessum setningum, þær verða ekki annað en tóm orðatiltæki, svo að jafnvel Starcke verður að viðurkenna, að óyfirstíganleg takmörk skilji Feuerbach frá stjórnmálunum og „fyrir hann séu fræðin um þjóðfélagið, félagsvísindin, terra incognita".[1]

Ekki er hærra á honum risið borið saman við Hegel, þegar hann fjallar um andstæðuna milli góðs og ills. Hegel segir: „Menn halda að þeir segi eitthvað stórkostlegt, þegar þeir segja að maðurinn sé góður frá náttúrunnar hendi. En þeir gleyma því, að það er miklu stórfenglegra, sem felst í orðunum: maðurinn er illur frá náttúrunnar hendi." Að dómi Hegels birtist aflvaki söguþróunarinnar í mynd hins illa. Og í þessu felst tvöföld merking. Annarsvegar birtist sérhver framför á sviðinu sem glæpur gegn

[1] Óþekkt land. – *Útg.*

einhverju heilögu, sem uppreisn gegn gömlum, deyjandi mannfélagsháttum, sem eru helgaðir af venjunni, og hinsvegar eru það hinar slæmu ástríður mannsins, ágirnd og drottnunargirni, sem orðið hafa lyftistöng sögulegrar þróunar síðan stéttaandstæður komu til sögunnar, eins og til að mynda saga lénsveldisins og borgarastéttarinnar hefur alltaf verið að sanna. En Feuerebach dettur ekki í hug að rannsaka sögulegt hlutverk hins siðferðilega illa. Yfirleitt finnst honum sagan vera ógeðfellt og óhugnanlegt svið. Þegar hann segir: „Maðurinn, sem í fyrstunni þróaðist úr skauti náttúrunnar, var líka einvörðungu náttúruvera, en ekki maður. Maðurinn er framleiðsla mannsins, menningarinnar og sögunnar", – þá verða jafnvel svona setningar algerlega ófrjóar.

Af þessu er augljóst, að það sem Feuerbach getur sagt oss um siðferðismál hlýtur að vera ákaflega rýrt í roðinu. Sæluhvötin er manninum meðfædd og hlýtur því að vera grundvöllur siðferðisins. En sæluhvötina verður að leiðrétta með tvennu móti. Í fyrsta lagi að því er tekur til eðlilegra afleiðinga af athöfnum vorum. Eftir vímuna koma timburmennirnir, eftir venjubundið svall koma veikindin. Í öðru lagi að því er tekur til þjóðfélagslegra afleiðinga. Ef vér virðum ekki þessa sömu sæluhvöt hjá öðrum mönnum, þá rísa þeir til varnar og trufla vora eigin sæluhvöt. Af þessu leiðir, að til þess að fullnægja hvöt vorri, verðum vér að kunna að meta rétt afleiðingar athafna vorra, og í annan stað verðum vér að viðurkenna jafnrétti tilsvarandi hvatar hjá öðrum mönnum. Grundvallarreglurnar í siðgæðiskenningum Feuerbachs, sem allar aðrar reglur eru leiddar af, eru því skynsamleg sjálfstakmörkun, að því er varðar oss sjálfa, og kærleikur í samskiptum við aðra. Alltaf er það sami kærleikurinn! Og hvorki geta hinar andríku hugleiðingar Feuerbachs né hin sterku lofsyrði Starcke dulið þynnkuna og lágkúruna í þessum setningum.

Það telst til sjaldgæfra undantekninga að sæluhvötinni verði fullnægt, þegar maðurinn sýslar við sjálfan sig, og aldrei getur það orðið honum til gagns né heldur öðrum mönnum. Til þess að fullnægja þessari hvöt, verða menn að fást við umheiminn, það þarf tæki og ytri skilyrði til þess, fæði, einstakling af öðru kyni, bækur, samræður, rökræður, starfsemi, hluti til notkunar og til þess að vinna úr. Annaðhvort gerir siðfræði Feuerbachs ráð fyrir því sem sjálfsögðum hlut, að hverjum manni standi þessir hlutir og þessi tæki til fullnægingar til boða, eða þá að hún gefur mönnum aðeins góð og ónothæf ráð, og er því ekki tvískildings virði fyrir það fólk, sem skortir þessa hluti. Og þessu lýsir Feuerbach sjálfur yfir blátt áfram og umbúðalaust með þessum orðum: „Í höll hugsa menn öðruvísi en í kofa. Þar sem

þú hefur ekkert efni í líkama þínum vegna hungurs og eymdar, þar hefur þú heldur ekkert efni í siðgæði í höfði þínu, hug þínum og hjarta."

Erum vér þá eitthvað betur á vegi staddir, að því er varðar jafnrétti annarra manna til þess að fullnægja sæluhvötum sínum? Feuerbach gerir þetta að algildri kröfu, sem á við á öllum tímum og undir öllum kringumstæðum. En síðan hvenær hefur hún verið í gildi? Kom jafnrétti sæluhvatarinnar nokkurntíma til greina með þrælum og húsbændum þeirra í fornöld og með ánauðugum bændum og barónum á miðöldum? Var sæluhvöt undirokuðu stéttanna ekki fórnað án allrar miskunnar og „í réttarins nafni" á altari yfirráðastéttanna? Jú, þetta var siðleysi, en nú er jafnréttið viðurkennt. Það er viðurkennt í orði síðan borgarastéttin neyddist til að nema úr gildi öll forréttindi löghelgaðra stétta, þ. e. persónuleg forréttindi, vegna baráttu sinnar gegn aðlinum og þarfa auðvaldsframleiðslunnar, þegar hún var að vaxa úr grasi, og að koma á jafnrétti einstaklinga, fyrst á sviði einkaréttar og síðar smámsaman á sviði ríkisréttar, jafnrétti fyrir lögunum. En sæluhvötin lifir aðeins að litlu leyti á hugmyndalegum réttindum, heldur á efnislegum tækjum og skilyrðum að langmestu leyti, og auðvaldsframleiðslan sér um það, að í hlut alls þorra hinna jafnrétthˊau einstaklinga fellur aðeins rétt hið nauðsynlegasta til þess að framfleyta lífinu við kröpp kjör. Svo að hún virðir jafnrétti meirihlutans til þess að fullnægja sæluhvötinni litlu eða engu meira en þrælaskipulagið og bændaánauðin gerðu áður. Og er betur séð fyrir hinum andlegu hjálpargögnum til þess að öðlast hamingju, menntunarskilyrðunum? Er ekki sjálfur „skólastjórinn frá Sadowa" goðsagnapersóna?[1]

Og enn kemur fleira til. Samkvæmt siðakenningu Feuerbachs er kauphöllin æðsta musteri siðgæðisins að því tilskildu að fjármálavitið hrökkvi til að bralla ávallt rétt. Ef sæluhvötin leiðir mig til kauphallarinnar og mér tekst að vega og meta afleiðingar gerða minna svo rétt, að þær skaði mig aldrei, en veiti mér aðeins aukin þægindi, eða með öðrum orðum, ef ég vinn alltaf, þá er reglum Feuerbachs fullnægt. Með þessu trufla ég ekki heldur hina sömu sæluhvöt annarra manna, því að þeir hafa farið til kauphallarinnar af jafn frjálsum vilja og ég, og að loknum gróðabrallsviðskiptunum við mig hafa þeir fylgt sæluhvöt sinni jafndyggilega og ég minni. Og hafi viðskiptamaður minn tapað peningum sínum, þá sannast það að athöfn

[1] Almennt orðatiltæki í skrifum þýzkra borgara eftir sigur Prússa við Sadowa í stríðinu 1866. Kemur hér fram sú skoðun, að Prússar hafi átt sigur sinn því að þakka hversu gott skólakerfi þeirra var. – *Útg.*

hans var ósiðleg, og þar sem ég er sá, sem úthluta honum þeirri refsingu, er hann verðskuldar, get ég verið hreykinn af sjálfum mér og fundið til mín eins og ég væri nýr Rhadamanthus.[1] Kærleikurinn drottnar einnig á kauphöllinni, að svo miklu leyti, sem hann er annað og meira en tilfinningavaðall, því að hver og einn finnur sæluhvöt sinni fullnægt í samskiptum við aðra menn, og það er einmitt þetta, sem á að vera hlutverk kærleikans og þannig kemur hann fram í verki. Og ef ég sé rétt fyrir afleiðingar þess, hvernig ég haga framkvæmdum mínum á þessum stað, þ. e. ef ég næ árangri með leik mínum, þá fullnægi ég hinum ströngustu siðgæðiskröfum Feuerbachs og verð auk þess ríkur maður. Með öðrum orðum, siðgæði Feuerbachs fellur að auðvaldsþjóðfélagi nútímans eins og tilsniðið fat, hversu litla hugmynd sem hann kann að hafa um það sjálfur og hversu mjög sem það kann að vera fjarri því, er hann sjálfur vill.

En kærleikurinn! Já, í ritum Feuerbachs er kærleikurinn allsstaðar og ævinlega sá guð, sem gerir kraftaverkin og á að hjálpa mönnum til að vinna bug á öllum erfiðleikum hins virka lífs, og það í þjóðfélagi, sem er klofið í stéttir með algerlega andstæðum hagsmunum. Þar með eru hinar síðustu leifar byltingareðlisins horfnar úr heimspekinni og eftir stendur aðeins gamli söngurinn: Elskið hver annan, fallizt í faðma án tillits til kynferðis og þjóðfélagsstöðu – allsherjar sáttavíma!

Í stuttu máli: Því er eins farið um siðakenningu Feuerbachs og allar aðrar á undan henni. Hún er miðuð við alla tíma, allar þjóðir og allar aðstæður og einmitt þessvegna er hún hvergi nothæf og verður jafnvanmáttug gagnvart heimi raunveruleikans og hið skilyrðislausa siðaboðorð Kants. Í rauninni hefur sérhver stétt og meira að segja sérhver atvinnugrein sínar eigin siðareglur og brýtur þær líka, þegar unnt er að gera það vítalaust, og kærleikurinn, sem allt á að sameina, birtist í styrjöldum, deilum, málaferlum, heimiliserjum, hjónaskilnuðum og gagnkvæmu arðráni svo sem frekast er kostur.

En hvað kom til að hin mikla vakning, sem Feuerbach var upphafsmaður að, skyldi reynast svona ófrjó fyrir hann sjálfan? Ástæðan var blátt áfram sú, að Feuerbach fann ekki leiðina úr ríki sértakanna, sem hann hataði svo ákaflega sjálfur, til hins lifandi veruleika. Hann hélt sér dauðahaldi í náttúruna og manninn. En hjá honum urðu náttúran og maðurinn aðeins orðin tóm. Hann gat ekki sagt oss neitt ákveðið um hina raunverulegu náttúru né heldur um raunverulega menn. En því aðeins er unnt að komast áfangann frá hinum sértæka manni Feuerbachs til raun-

[1] Grísk sagnapersóna, sem vegna réttlætis síns var gerður að dómara í undirheimum. – *Útg.*

verulegra lifandi manna, að skyggnzt sé um bekki þar sem þeir eru að starfi í sögunni. En það vildi Feuerbach ekki, heldur streittist á móti, og þessvegna varð árið 1848, sem hann ekki skildi, einungis til þess, að hann sagði að fullu og öllu skilið við hinn raunverulega heim og dró sig inn í skel einmanaleikans. Og enn er hér fyrst og fremst um að saka hinar þýzku aðstæður, sem sáu fyrir því, að hann vesiaðist upp í eymd og volæði.

Hinsvegar varð að stíga það skref, sem Feuerbach steig ekki. Í staðinn fyrir dýrkun hins sértæka manns, sem er kjarninn í hinum nýju trúarbrögðum Feuerbachs, urðu að koma vísindin um hina raunverulegu menn og sögulega þróun þeirra. Þessi þróun á viðhorfum Feuerbachs lengra áleiðis en honum sjálfum auðnaðist hófst árið 1845 með „Hinni heilögu fjölskyldu" eftir Marx.

## IV.

Strauss, Bauer, Stirner og Feuerbach voru sprotarnir, sem spruttu upp af stofni Hegelsheimspekinnar, að því leyti sem þeir hurfu ekki af hinum heimspekilega vettvangi. Eftir að „Ævi Jesú" og „Trúarlærdómarnir" komu út, stundaði Strauss einungis heimspekilegar og kirkjusögulegar fagurbókmenntir í anda Renans. Bauer lét ekki eftir sig nein afrek nema á sviði sagnfræðinnar um uppruna kristindómsins, en það var líka mikilsvert framlag. Stirner var alla tíð furðufugl, jafnvel eftir að Bakúnín hrærði honum saman við Proudhon og þessum hræringi var gefið nafnið „anarkismi". Feuerbach einn var merkur heimspekingur. Að dómi hans sveif heimspekin yfir öllum einstökum vísindagreinum, hún var vísindi vísindanna, sem sameinaði þau öll, og hún varð honum eigi aðeins óyfirstíganleg takmörk, eitthvað heilagt og ósnertanlegt, heldur kom fleira til. Sem heimspekingur staðnæmdist hann líka á miðri leið, að neðan var hann efnishyggjumaður en hughyggjumaður að ofan. Honum tókst ekki að gera Hegel full skil með gagnrýni, en fleygði honum blátt áfram í glatkistuna, sem væri hann til einskis nýtur. En gagnvart hinni fjölfræðilegu auðlegð í kerfi Hegels gat hann ekkert lagt til málanna sjálfur, nema íburðarmikla kærleikstrú og vanmáttuga siðakenningu, þunna í roðinu.

En þegar hegelisminn tók að sundrast óx enn önnur stefna úr grasi, og það var eini sprotinn, sem bar raunverulega ávexti. Þessi stefna er aðallega tengd við nafn Marx.[1]

[1] Hér leyfi ég mér að gefa persónulega skýringu. Nú um sinn hefur margsinnis verið bent á hlutdeild mína í þessari kenningu, svo að ég kemst varla hjá því að segja hér nokkur orð til þess að taka af öll tvímæli um

Það á einnig við um þessa stefnu, að viðskilnaðurinn við heimspeki Hegels varð með þeim hætti, að aftur var horfið til sjónarmiðs efnishyggjunnar. Það merkir, að sú ákvörðun var tekin að líta á hinn raunverulega heim, náttúruna og söguna, eins og hann birtist hverjum þeim, sem kemur til móts við hann, án þess að hafa hughyggjugrillur í kollinum fyrirfram. Það var tekin sú ákvörðun að fórna miskunnarlaust hverri þeirri hughyggjugrillu, sem ekki gat samrýmzt staðreyndunum, ef þær voru skoðaðar í sínu raunsanna samhengi en ekki sem þættir í einhverjum vef ímyndunaraflsins. Og efnishyggja merkir raunar ekki annað en þetta. Hér er heimsskoðun efnishyggjunnar einungis tekin í fullri alvöru í fyrsta skipti, hún er látin taka til allra sviða þekkingarinnar, er til greina koma, að minnsta kosti í grundvallaratriðum, og hvergi vikið frá þeirri stefnu.

Hegel var ekki blátt áfram vikið afsíðis og lagður á hilluna. Síður en svo. Tengslunum var haldið við byltingarþáttinn í kenningu hans, hina díalektísku aðferð. En þessi aðferð var ónothæf í þeirri mynd, sem Hegel gaf henni. Hjá Hegel er díalektíkin sjálfsþróun hugtaksins. Hið algera hugtak hefur ekki aðeins verið til um eilífð (ekki vitað hvar?), það er líka hin sanna lifandi sál þess alheims, sem er. Það þróast á ferlinum til sjálfs sín frá einu forstigi til annars, sem um er fjallað í löngu máli í „Rökfræðinni“, og felur þau öll í sér. Síðan „fráhverfist“ það, er það umbreytist í náttúru, þar sem það tekur nýrri þróun dulbúið sem nauðsyn og án vitundar um sjálft sig, og kemst að lokum aftur til sjálfsvitundar í manninum. Með starfi sínu í sögunni kemst svo þessi sjálfsvitund til meiri þroska en felst í hinni frumstæðu mynd hennar, unz hið algera hugtak kemur að lokum fullkomlega til sjálfs sín að nýju í heimspeki Hegels. Sú díalektíska þróun, sem birtist í náttúrunni og sögunni er orsakasamhengi framsóknarinnar frá hinu lægra til hins æðra, sem ryður sér braut gegnum allar krókaleiðir og afturfarir um stund, og í allt þetta leggur Hegel þann skilning, að það sé ekki annað en eftirmynd af

þetta atriði. Sjálfur get ég ekki borið á móti því, að hafa átt nokkurn sjálfstæðan þátt í því að leggja grundvöllinn að þessari kenningu en þó einkum að því að fullvinna hana. En mestan hlutann af leiðsögu- og grundvallarhugmyndunum ber að rekja til Marx, þó einkum á sviði hagfræðinnar og sagnfræðinnar og alveg sérstaklega þá mynd, sem kenningin tók á sig að lokum með sínum skýru og hnitmiðuðu dráttum. Það sem ég hef lagt til mála, hefði Marx getað gert sjálfur án mín, ef undan eru skildar nokkrar sérgreinar. Það sem Marx afrekaði, hefði ég ekki getað leyst af hendi. Marx stóð á hærra stigi, sá lengra, hafði meiri yfirsýn og var skjótari að átta sig á henni en við allir hinir. Marx var snillingur, við hinir höfðum í mesta lagi hæfileika. Fjarri fer því, að án hans væri kenningin það, sem hún er nú. Því ber hún með réttu hans nafn. (Aths. Engels).

sjálfshreyfingu hugtaksins, sem farið hefur fram um eilífð, og þótt ekki sé vitað hvar, að minnsta kosti óháð sérhverjum hugsandi mannsheila. Við aftur á móti litum á þau hugtök, sem mynduðust í kolli okkar, augum efnishyggjunnar og töldum þau vera eftirmynd hinna raunverulegu hluta, en ekki á hinn veginn, að hinir raunverulegu hlutir væru eftirmynd einhvers stigs hins algera hugtaks. Þar með varð díalektíkin ekki annað en vísindin um hin almennu lögmál hreyfingarinnar jafnt í hinum ytra heimi sem í hugsun mannsins, tvær lögmálsraðir, samar í sjálfri verunni, en koma fram með ólíkum hætti að því leyti, að höfuð mannsins getur notað þær vitandi vits, en í náttúrunni og fram til þessa að langmestu leyti í mannkynssögunni ryðja þær sér braut ómeðvitað í mynd ytri nauðsynjar þvert í gegnum endalausa röð sýndartilviljana. Þar með varð hugtakadíalektíkin sjálf einungis meðvitað endurskin díalektískrar hreyfingar hins raunverulega heims og þar með voru höfð endaskipti á díalektík Hegels svo að hún stóð á höfði, eða réttara sagt, hún stóð á höfði og við reistum hana aftur á fætur. Stórmerkilegt var að þessi efnishyggjudíalektík, sem um mörg ár hefur verið bezta vinnutæki og bitrasta vopn okkar, var ekki fundin upp af okkur einum, þýzkur verkamaður, Jósep Dietzgen, fann hana einnig óháð okkur og jafnvel Hegel sjálfum.[1]

Með þessu var tekinn upp byltingarþátturinn í heimspeki Hegels og jafnframt var hann losaður við hughyggjuútflúrið, sem komið hafði í veg fyrir stefnufasta meðferð hans hjá Hegel. Hér er um að ræða þá miklu grundvallarhugmynd, að ekki beri að líta á heiminn sem samsafn fullgerðra *hluta* heldur sem vef *ferla,* þar sem hlutirnir, sem virðast vera varanlegir, eru í látlausri breytingu, verða til og líða undir lok, eigi síður en hugareftirmyndir þeirra í höfði voru, hugtökin, og þar sem framþróunin brýtur sér braut þrátt fyrir allar sýndartilviljanir og afturfarir um stund. Þessi mikla grundvallarhugmynd hefur nú síast svo inn í hversdagslega vitund manna, einkum eftir að Hegel kom til, að henni er nú varla mótmælt í þessari almennu mynd. En eitt er það, að viðurkenna þessi sannindi í orði kveðnu og annað að framfylgja þeim í raunveruleikanum á hverju því sviði, sem tekið er til rannsóknar. Hafi maður hinsvegar ævinlega þetta sjónarmið við rannsóknirnar, þá fellur niður í eitt skipti fyrir öll krafan um algilda lausn og eilíf sannindi. Menn gera sér þá ávallt fulla grein fyrir því, að öll þekking hlýtur að vera takmörkuð og skilorðsbundin af þeim aðstæðum, sem fyrir voru, þegar hennar var aflað. En menn gerast þá heldur ekki upp-

[1] Sjá „Eðli vinnunnar með höfðinu, eftir handverksmann", Hamburg, Meissner. (Aths. Engels).

næmir fyrir þeirri frumspeki, sem enn liggur í landi, um ósigrandi andstæður hins sanna og ranga, góða og illa, sama og ólíka, nauðsynlega og tilviljunarkennda. Menn vita þá að þessar andstæður hafa aðeins afstæðilegt gildi, að sannindi núverandi þekkingar eiga sína duldu hlið, sem síðar kemur upp og leiðir í ljós hvað rangt er í þeim, alveg eins og það sem rangt er samkvæmt núverandi þekkingu á aðra hlið, er sýnir þau sannindi, sem í því felast og olli því, að áður gátu menn haft það fyrir satt. Mönnum skilst þá, að það sem þeir kalla nauðsyn, er gert úr tómum tilviljunum, og það sem þeir kalla tilviljun, er það form, sem nauðsynin leynist bak við – og svo framvegis.

Gamla rannsóknar- og hugsunaraðferðin, sem Hegel kallar „frumspekilega“, átti mikinn sögulegan rétt á sér á sínum tíma. Hún fjallaði fyrst og fremst um *hlutina* eins og væru þeir tiltækar, varanlegar geymdir, og enn eru leifar hennar sem svipir á ferli í kollum manna. Fyrst varð að rannsaka hlutina áður en unnt væri að rannsaka ferlin. Fyrst urðu menn að vita hvað tiltekinn hlutur væri, áður en menn gætu tekið breytingar hans til meðferðar. Og þannig var það í náttúruvísindunum. Gamla frumspekin, sem leit á hlutina eins og þeir væru fullgerðir, átti rætur sínar að rekja til náttúruvísinda, sem rannsökuðu lifandi og dauða hluti eins og þeir væru fullgerðir. En þegar þessar rannsóknir höfðu náð þeim þroska, að unnt var að taka það skref fram á við, sem sköpum skipti, að taka upp kerfisbundna rannsókn á breytileika þessara hluta í sjálfri náttúrunni, þá var líka komið að skapadægri frumspekinnar á sviði heimspekinnar. Og í rauninni var það líka svo, að þar sem náttúruvísindin voru aðallega *gagnasafnandi* vísindi allt til loka síðastliðinnar aldar, vísindi um fullgerða hluti, urðu þau einkum *skipuleggjandi* vísindi á vorri öld, vísindi um breytingarferli, uppruna og þróun þessara hluta og um það samhengi, er tengdi þessi náttúruferli í eina stóra heild. Lífeðlisfræðin, sem rannsakaði líkamsferli plantna og dýra, fósturfræðin, sem rannsakaði líkama einstaklingsins allt frá fyrsta vísi til fullþroska, jarðfræðin, sem aflaði sér vitneskju um það, hvernig yfirborð jarðar myndaðist smámsaman – allt eru þetta börn vorrar aldar.

Einkum eru það þó þrjár miklar uppgötvanir, sem hafa gefið þekkingu vorri á samhengi náttúruferlanna sjö mílna skó í sókninni fram á við. Í fyrsta lagi uppgötvun frumunnar, þeirrar eindar, sem margfaldast og umbreytist með þeim hætti, að úr verður allur líkami plantna og dýra. Þannig hafa menn eigi aðeins komizt að raun um, að þróun og vöxtur allra æðri lífvera fer fram samkvæmt einu allsherjarlögmáli. Hæfileiki frumunnar til umbreytingar var einnig vísbending um það, hvernig lífverurnar geta

breytt tegund sinni, svo að þróun þeirra verður annað og meira en einstaklingsþróun. Í öðru lagi umbreyting orkunnar. Með þeirri uppgötvun var sýnt fram á, fyrst um sinn að því er tekur til hinnar líflausu náttúru, að öll hin svonefndu öfl, sem þar eru að verki, mekanískur kraftur og tilsvörun hans, hin svonefnda staðorka, varmi, geislun (ljós eða varmageislun), rafmagn, segulmagn, kemísk orka, eru mismunandi myndir hinnar altæku hreyfingar, sem breytast hver í aðra í ákveðnum magnhlutföllum, svo að í staðinn fyrir það magn, sem hverfur í einni mynd, kemur aftur fram tiltekið magn í annarri. Þannig sýnir það sig, að öll hreyfing náttúrunnar er ekki annað en þessi látlausa umbreyting úr einni mynd í aðra. Loks er að nefna þá uppgötvun, sem Darwin gerði fyrstur manna skipulega grein fyrir, að allt það magn lífrænnar framleiðslu náttúrunnar, sem nú er allt í kringum oss, mannkynið meðtalið, sé afurð langs þróunarferils úr fáeinum upprunalegum einfrumungum og að þeir eigi aftur uppruna sinn að rekja til frymis eða eggjahvítu, sem orðið hafi til við efnaferli.

Vegna þessara þriggja stóru uppgötvana og hinna geysimiklu framfara náttúruvísindanna að öðru leyti, höfum vér nú tök á því, að sýna í stórum dráttum fram á samhengið í ferlum náttúrunnar, eigi aðeins á einstökum sviðum, heldur og tengsl sviðanna sín á milli. Þannig getum vér gert oss yfirlitsmynd af samhengi náttúrunnar með nokkurnveginn kerfisbundinni skipan, með tilstyrk þeirra staðreynda, sem náttúruvísindi þau, er söfnuðu reynslu, hafa fært oss í hendur. Áður var það hlutverk svonefndrar náttúruheimspeki að gera slíka heildarmynd. Þetta gat hún því aðeins gert, að hún beitti ímyndunarafli til þess að skapa hugmyndatengsl í stað hinna raunverulegu, léti hugmyndir koma í stað þess, sem á skorti í staðreyndum, fyllti upp í hinar raunverulegu eyður með ímyndunum einum. Með þessari aðferð hefur hún dottið niður á margar snilldarhugmyndir, órað fyrir mörgum uppgötvunum, er síðar voru gerðar, en jafnframt borið á borð töluvert af marklausri fásinnu, enda varð ekki hjá því komizt. Nú á dögum þarf ekki annað til þess að gera sér fullnægjandi „náttúrukerfi“ fyrir vora tíma en að skilja náttúrurannsóknirnar díalektískt, í þeirri veru, sem felst í samhengi þeirra sjálfra. Jafnvel frumspekilega þjálfuð höfuð náttúruvísindamannanna neyðast gegn vilja sínum til þess að viðurkenna hið díalektíska eðli þessa samhengis. Og nú hefur líka náttúruheimspekin verið lögð á hilluna fyrir fullt og allt. Sérhver tilraun til þess að vekja hana aftur til lífsins væri ekki einungis þarflaus, *heldur líka afturför.*

Á þennan hátt hafa menn komizt að raun um að náttúran er einnig söguleg framvinda, og það sem á við um hana, á líka

við um sögu þjóðfélagsins og allar greinar hennar svo og um öll þau vísindi í heild, sem fjalla um mannleg (og guðdómleg) málefni. Einnig á þessu sviði hefur söguheimspekin, réttarheimspekin og trúarheimspekin verið á þann veg, að tilbúið samhengi í höfði heimspekingsins var látið koma í staðinn fyrir hin raunverulegu tengsl, sem er að finna í atburðunum. Það var litið á söguna, jafnt heildina sem einstaka hluta hennar, sem hægfara framkvæmd hugmynda, sem að sjálfsögðu voru aðeins eftirlætishugmyndir heimspekingsins sjálfs. Samkvæmt þessu stefndi sagan að tilteknu, fyrirfram ákveðnu hugmyndalegu markmiði, óafvitað en af nauðsyn. Hjá Hegel stefndi hún til dæmis að framkvæmd hinnar algeru hugveru, og innri tengsl sögulegra atburða fólust í því, að ekkert gat breytt stefnunni á þessa algeru hugveru. Í stað hins raunverulega samhengis, sem enn var óþekkt, létu menn koma nýja, dularfulla forsjón, sem var ómeðvituð, en kom smámsaman til vitundar. Hér var því verkefnið, eins og á sviði náttúrunnar, að ryðja þessum tilbúnu og tilfundnu almennu tengslum úr vegi með því að finna hin raunverulegu. Og þegar á allt er litið, fólst þetta verkefni í því, að uppgötva hin almennu hreyfingarlögmál, sem ríkja og láta til sín taka í sögu mannfélagsins.

En nú kemur í ljós, að í einu atriði er þróunarsaga þjóðfélagsins verulega frábrugðin þróunarsögu náttúrunnar. Ef vér látum enduráhrif mannanna á náttúruna liggja milli hluta, þá finnum vér þar eingöngu vitundarlaus hreyfiöfl, sem orka hvert á annað og í leik þessara víxláhrifa lætur hið almenna lögmál til sín taka. Ekkert gerist með vilja eða vísvituðu markmiði, og gildir þetta jafnt um hið fjölmarga, er virðist vera tilviljun og sýnilegt er á yfirborðinu, og um árangur þess löggengis, sem að lokum megnar að láta til sín taka í rás allra þessara tilviljana. Gerendurnir í sögu þjóðfélagsins eru hinsvegar einungis menn, sem gæddir eru vitund, athöfnum þeirra fylgir umhugsun og ástríða og þeir stefna að ákveðnum markmiðum. Ekkert gerist án vísvitaðrar fyrirætlunar, án markmiðs, sem menn vilja ná. En enda þótt þessi munur sé mikilvægur fyrir sögulegar rannsóknir og sérstaklega að því er tekur til einstakra tímaskeiða og atburða, þá breytir hann samt enganveginn þeirri staðreynd, að í framvindu sögunnar ríkja almenn lögmál. Því að einnig hér virðist tilviljunin yfirleitt ríkja á yfirborðinu, þrátt fyrir hin vísvituðu markmið og vilja allra einstaklinga. Sjaldan gerist það, sem menn vilja, í flestum tilvikum víxlast og rekast á hin mörgu markmið, sem hver og einn vill ná, eða þá að þessi markmið eru óframkvæmanleg frá upphafi, ellegar tækin til að ná þeim eru ófullnægjandi. Með þessum hætti skapa árekstrar hinna fjölmörgu

einkavilja og einkaathafna sögulegar aðstæður, sem eru algerlega hliðstæðar þeim, er ríkja í náttúrunni. Menn vilja þau markmið, sem að er stefnt með athöfnunum, en hinn raunverulega árangur athafnanna vilja menn ekki, og í þeim tilvikum, sem hann virðist vera í samræmi við þann tilgang, er menn vildu ná, verða afleiðingarnar samt allt aðrar en þeir vildu. Tilviljunin virðist því einnig ríkja í stórum dráttum í atburðarás sögunnar. En þar sem tilviljunin er að verki á yfirborðinu, er hún ævinlega undir stjórn dulinna innri lögmála, og það sem mestu máli skiptir, er að uppgötva þessi lögmál.

Mennirnir skapa sögu sína, hvernig sem henni annars vindur fram, þannig að hver stefnir með vitund og vilja að sínu markmiði, og útkoma þessara mörgu vilja, sem beinast í ýmsar áttir, og hin margvíslegu áhrif þeirra á umheiminn, einmitt það er sagan. Svo að það hefur einnig sitt gildi hvað hinir mörgu einstaklingar vilja. Viljinn ákvarðast af ástríðu eða umhugsun. Hinsvegar eru þau öfl, er vekja ástríðuna eða umhugsunina beinlínis, mjög margvísleg. Sumpart geta það verið hlutir í umhverfinu, sumpart hugmyndalegar hvatir, metnaðargirni, „áhugi fyrir sannleik og réttlæti", persónulegt hatur, eða þá hreinlega allskonar dutlungar einstaklingsins. Annarsvegar höfum vér komizt að raun um, að hinir mörgu einstaklingsviljar, sem eru að verki í sögunni, koma oftast til leiðar allt öðrum árangri en þeir vildu og tíðum beinlínis andstæðum því, svo að gildi þess, sem fyrir þeim vakti, er sömuleiðis aðeins minniháttar fyrir niðurstöðuna í heild. Hinsvegar vaknar enn sú spurning, hvaða hreyfiöfl séu svo á bak við þessar hvatir, hvaða sögulegar orsakir það séu, sem umbreytast í hvatir í höfðum þeirra, er framkvæma athafnirnar.

Gamla efnishyggjan hefur aldrei borið fram þessa spurningu. Að því leyti, sem hún hafði nokkra söguskoðun, var hún líka að mestu leyti hagnýt, dæmdi allt eftir hvötum athafnanna, skipti þeim mönnum, sem voru virkir á sviði sögunnar, í göfuga og ógöfuga, og komst þá venjulega að raun um að hinir göfugu létu gabbast, en hinir ógöfugu yrðu sigurvegarar. Af þessu leiddi gamla efnishyggjan þá ályktun, að ekki væri mikils árangurs að vænta af sögurannsóknum, en ályktun vor er sú, að á sviði sögunnar hafi gamla efnishyggjan verið sjálfri sér ótrú, þar sem hún leit svo á, að hinztu orsakirnar væru hugmyndaleg hreyfiöfl, sem þar eru að verki, í stað þess að rannsaka hvað býr að baki þeim, hver séu hreyfiöfl þessara hreyfiafla. Ósamkvæmnin felst ekki í því, að *hugmyndaleg* hreyfiöfl eru viðurkennd, heldur í hinu, að ekki er leitað lengra að þeim orsökum, sem vekja þau. Aftur á móti viðurkennir söguheimspekin, einkum sú, sem Hegel er fulltrúi fyrir, að sýndarhvatir og líka hinar raunverulegu hvatir

manna, sem eru að verki í sögunni, séu enganveginn hinztu orsakir sögulegra atburða, en á bak við þessar hvatir séu önnur hreyfiöfl, sem öllu máli skipti að rannsaka. En hún leitar ekki þessara afla í sögunni sjálfri, heldur flytur hún þau úr heimspekilegri hugmyndafræði inn í söguna. Í stað þess að leita skýringa á sögu Forngrikkja í innra samhengi hennar sjálfrar, fullyrti Hegel til að mynda blátt áfram, að hún væri ekki annað en „sköpunarverk hins fagra einstaklings", framkvæmd „listaverksins" í sjálfs sín veru. Í þessu sambandi segir hann margt fallegt og djúphugsað um Grikkland hið forna, en það breytir engu um það, að nú á dögum er ekki hægt að láta oss lúta að svo litlu sem þessari skýringu, sem er ekkert annað en orðin tóm.

Þegar verkefnið er að rannsaka þau vísvituðu eða óvituðu og raunar mjög oft óvituðu hreyfiöfl, sem búa að baki mannlegra hvata á athafnasviði sögunnar, og eru hin hinztu og sönnu hreyfiöfl hennar, þá er ekki fyrst og fremst um að ræða hvatir einstakra manna, hversu miklir afburðamenn, sem þeir kunna að vera, heldur miklu fremur þær hvatir, er koma heilum þjóðum svo og þjóðfélagsstéttum meðal hverrar þjóðar á hreyfingu. Oss varðar heldur ekki svo mjög um það, sem veldur hreyfingum, er blossa snöggvast upp um stund, eins og eldur komist í sinu og kulni fljótt út, heldur hitt, sem knýr menn til stórvirkja er hafa miklar sögulegar umbreytingar í för með sér. Eina leiðin til þess að finna þau spor, er geta leiðbeint oss til að uppgötva þau lögmál, sem ríkja í sögunni í heild svo og á tilteknum tímaskeiðum hennar og í einstökum löndum, er að kanna þær orsakir, er hreyfingunum valda og endurspeglast í kollum hins athafnasama fjölda og foringja hans, hinna svokölluðu mikilmenna, sem vísvitaðar ástæður, skýrt eða óljóst, beinlínis eða hugmyndalega, jafnvel í mynd skýjaborga, sem lyft er í himneskar hæðir. Allt, sem kemur mönnum á hreyfingu, verður að fara gegnum höfuð þeirra. En það fer mjög eftir atvikum hvaða mynd það tekur á sig í kolli manns. Verkamenn hafa enganveginn sætt sig við vélaframleiðslu auðvaldsins, eftir að þeir hættu að brjóta vélarnar, eins og þeir gerðu enn árið 1848 við Rín.

Áður fyrr, á öllum fyrri tímaskeiðum, var næstum því ómögulegt að rannsaka þær orsakir, er valda sögulegum hreyfingum, vegna þess hve tengslin við afleiðingar þeirra voru flókin og falin. En núverandi tímaskeið hefur gert þessi tengsl nægilega einföld til þess, að hægt er að leysa gátuna. Eftir að stóriðnaðurinn ruddi sér til rúms og að minnsta kosti eftir að friður komst á í Evrópu árið 1815, var það engum manni leyndarmál lengur í Englandi, að öll hin pólitíska barátta snerist um yfirdrottnunarkröfur tveggja stétta, aðalsins, sem átti jarðeignir (landed aristo-

cracy) og borgarastéttarinnar (middle class). Í Frakklandi gerðu menn sér grein fyrir sömu staðreyndinni, þegar Bourbonarnir komu aftur. Söguritarar viðreisnartímans allt frá Thierry til Guizots, Mignets og Thiers tala allsstaðar um þessa staðreynd sem lykilinn að skilningi franskrar sögu allt frá miðöldum. Og eftir 1830 var viðurkennt að verkalýðsstéttin, öreigalýðurinn, væri þriðji aðilinn í baráttunni um völdin. Svo mjög höfðu allar afstæður skýrzt og orðið einfaldari í sniðum, að menn urðu að loka augunum viljandi til þess að sjá ekki, að hreyfiafl nútímasögunnar er baráttan milli þessara þriggja stétta og árekstrarnir milli hagsmuna þeirra, að minnsta kosti í þeim löndum, þar sem þróunin er lengst á veg komin.

En hvernig höfðu þessar stéttir orðið til? Enda þótt unnt væri við fyrstu sýn að rekja upphaf stórjarðeigna, sem áður voru lén, til eignarupptöku með valdi og þar með til pólitískra orsaka, að minsta kosti í fyrstu lotu, þá var ekki hægt að grípa til slíkrar skýringar, þegar borgarar og öreigar áttu í hlut. Hér var það deginum ljósara að uppruna og þróun þessara tveggja miklu stétta bar að rekja eingöngu til efnahagslegra orsaka. Hitt var líka jafnaugljóst, að baráttan milli stóreignamanna og borgara snerist fyrst og fremst um efnahagslega hagsmuni, ekki síður en baráttan milli borgara og öreiga, og að hið pólitíska vald var einungis tæki til þess að heyja þessa baráttu. Borgarar og öreigar áttu hvorirtveggja uppruna sinn að rekja til breytinga á efnahagslegum afstæðum, eða til framleiðsluháttanna, ef notað er nákvæmara orðalag. Breytingin úr handverki gildanna í skipulagðan handiðnað í fyrstu og síðan úr skipulögðum handiðnaði í stóriðnað með vélum og gufuafli skópu báðar þessar stéttir. Þau framleiðsluöfl, sem borgarastéttin leysti úr læðingi – og var þá í fyrstu lotu um að ræða verkaskiptingu og sameiningu margra sérhæfðra verkamanna í sameiginlegan handiðnað – svo og þau viðskiptaskilyrði og viðskiptaþarfir, sem þetta hafði í för með sér, urðu á vissu stigi ósamrýmanleg ríkjandi framleiðsluskipan, sem var löghelgaður arfur sögunnar. Þessi arfur var forréttindi gildanna og fjölmörg önnur staða- og einkaforréttindi í þjóðskipulagi lénsveldisins, og hver sérréttindi um sig voru jafnframt fjötur um fót þeirra fastastétta, sem ekki nutu þeirra. Framleiðsluöflin, sem borgarastéttin var fulltrúi fyrir, gerðu uppreisn gegn framleiðsluskipaninni, sem hinir lénsku jarðeigendur og meistarar gildanna voru fulltrúar fyrir. Alkunnugt er hvað af þessu leiddi, fjötrar lénsveldisins voru rofnir, í Englandi smátt og smátt, í Frakklandi með einu átaki, í Þýzkalandi er því verki enn ekki lokið. En eins og skipulagða handiðnaðinum og hinni lénsku skipan framleiðslunnar laust saman á ákveðnu þróunar-

stigi, þannig hefur nú orðið árekstur milli stóriðnaðarins og hinnar borgaralegu framleiðsluskipanar, er kom í stað hinnar lénsku. Annarsvegar breytir hún sívaxandi hluta hins mikla fólksfjölda í öreiga og hinsvegar framleiðir hún sífellt meira magn óseljanlegra afurða, vegna þess að hún er lokuð inni í þeim vítahring, sem hin þröngu takmörk auðvaldsframleiðsluháttanna setja henni. Offramleiðsla og örbirgð fjöldans, þar sem hvort fyrir sig er orsök hins, þetta er hin fjarstæðukennda mótsögn, er hin borgaralega framleiðsluskipan hefur í för með sér, og hlýtur óhjákvæmilega að vekja þá kröfu, að framleiðsluöflin verði leyst úr læðingi með því að breyta framleiðsluháttunum.

Að minnsta kosti í nútímasögunni hefur það sannazt, að öll stjórnmálabarátta er stéttabarátta og öll frelsisbarátta stétta er efnahagsleg frelsisbarátta, þegar öll kurl koma til grafar, enda þótt hún hljóti að taka á sig pólitíska mynd, vegna þess að öll stéttabarátta er stjórnmálabarátta. Hér er það að minnsta kosti víst, að ríkið, stjórnmálaskipanin, er ekki aðalatriðið, heldur er það hið borgaralega þjóðfélag, svið efnahagsafstæðnanna, sem úrslitum ræður. Hin gamalkunna skoðun, sem Hegel aðhylltist líka, var á þá leið, að allt væri undir ríkinu komið, en hið borgaralega þjóðfélag væri sá þáttur, er ákvarðaðist af ríkinu. Þetta er í samræmi við það, sem virðist vera. Eins og allir hvatar til athafna hljóta að leggja leið sína um höfuð hvers einstaks manns og umbreytast í áform viljans til þess að hann hafist að, svo verða allar þarfir hins borgaralega þjóðfélags að ná fram að ganga fyrir tilstuðlan ríkisviljans til þess að hljóta almennt gildi í mynd löggjafar, hvaða stétt, sem fer með völdin. Þetta er hin formlega hlið málsins, sem liggur í augum uppi. Hitt er svo spurningin, hvert sé inntak þess vilja, hvort sem um einstakling eða ríki er að ræða, og af hvaða rótum þetta inntak sé runnið, hversvegna menn vilja þetta og ekkert annað. Og ef vér leitum að svari í þessu efni, þá komumst vér að raun um, að í nútímasögunni ákvarðast ríkisviljinn fyrst og fremst af breytilegum þörfum hins borgaralega þjóðfélags, af því, hvort þessi eða hin stéttin fer með völdin, hann ákvarðast af þróun framleiðsluaflanna og viðskiptaafstæðnanna, þegar rakið er til grunna.

En ef það er nú svo á vorum tímum, að ríkið með öllum sínum tröllauknu framleiðslu- og samgöngutækjum hafi ekki sjálfstætt tilverusvið og sjálfstæða þróun, heldur beri að skýra tilvist þess og þróun með efnahagslegum lífsskilyrðum þjóðfélagsins, þegar rakið er til upprunans, þá hlýtur því miklu fremur að hafa verið þannig háttað fyrr á tímum, þegar menn réðu ekki yfir svona ríkulegum hjálpargögnum við framleiðslu efnislegra lífsskilyrða sinna, svo að nauðsyn þessarar framleiðslu hlaut að drottna yfir

mönnum í enn ríkara mæli. Ef ríkið nú á tímum stóriðnaðarins og járnbrautanna er aðeins endurspeglun í stórum dráttum á efnahagslegum þörfum þeirrar stéttar, sem drottnar yfir framleiðslunni, þá hlaut þetta miklu fremur að vera svo á því tímaskeiði, þegar hver kynslóð manna varð að verja miklu stærri hluta af öllu lífi sínu til þess að fullnægja efnislegum þörfum sínum og var því miklu háðari þeim en vér erum nú. Rannsóknir á sögu fyrri tímaskeiða staðfesta þetta í mjög ríkum mæli, jafnskjótt og menn snúa sér að því af fullri alvöru að kanna þessa hlið málsins. En að sjálfsögðu er ekki unnt að taka þetta til meðferðar hér.

Ef ríkið og ríkisrétturinn ákvarðast af efnahagsafstæðum, þá er augljóst að svo er einnig um einkaréttinn, sem í meginatriðum gerir ekki annað en löghelga ríkjandi efnahagsafstæður milli einstaklinganna, eins og eðlilegt er talið við hinar tilteknu aðstæður. Hinsvegar getur þetta gerzt í mjög mismunandi myndum. Það getur gerzt eins og í Englandi, þar sem form lénsréttarins voru látin haldast að mestu leyti í samræmi við alla þjóðlega þróun þessa lands, enda þótt þau fengju borgaralegt inntak og lögð væri beinlínis borgaraleg merking í nöfnin frá tímum lénsveldisins. Það er líka hægt að hafa þann hátt á, sem gert var á meginlandi Evrópu vestanverðu, að leggja Rómarréttinn til grundvallar, hinn fyrsta alþjóðlega rétt þjóðfélags, sem stundaði vöruframleiðslu, þar sem öllum helztu réttarafstæðum einfaldra vörueigenda eru gerð svo glögg skil, að ekki verður betur gert, réttarstöðu kaupenda og seljenda, lánardrottna og lántakenda, samningum, skuldabréfum o. s. frv. Þegar þjóðfélagið er enn á smáborgaralegu og hálflénsku stigi, kemur þá annaðhvort til greina, að fullnægja þörfum þess og óskum með því að koma réttarfarinu blátt áfram niður á sama stig í sjálfri framkvæmdinni (almennur réttur), eða þá að semja sérstaka lögbók, er hæfir slíkum þjóðfélagsaðstæðum, með úrvinnslu úr þessum rétti og aðstoð svokallaðra menntaðra og siðprédikandi lögfræðinga. En þegar svo er í pottinn búið, hlýtur bókin líka að verða lögfræðilega léleg (prússneski landsrétturinn). Eftir mikla borgaralega byltingu getur það einnig komið til greina, að á grundvelli Rómarréttarins verði samin jafnsígild lögbók borgaralegs þjóðfélags og franski borgararétturinn er (Code civil). Af þessu má sjá, að enda þótt borgaralegar réttarreglur séu ekki annað en tjáning efnahagslegra lífsskilyrða þjóðfélagsins, þá getur hún farið vel eða illa úr hendi eftir atvikum.

Í ríkinu birtist hið fyrsta hugmyndalega vald yfir mönnum. Þjóðfélagið kemur sér upp tæki til varnar sameiginlegum hagsmunum sínum gegn árásum innan að og utan frá. Þetta tæki er ríkisvaldið. Þessi stofnun er varla orðin til, þegar hún gerist sjálf-

stæð gagnvart þjóðfélaginu, og í þeim mun ríkara mæli sem hún verður tæki ákveðinnar stéttar, er beitir yfirdrottnun sinni með tilstyrk þess. Barátta hinna undirokuðu gegn yfirráðastéttinni hlýtur óhjákvæmilega að verða pólitísk, fyrst um sinn barátta gegn pólitískum yfirráðum þessarar stéttar. Vitundin um tengsl þessarar pólitísku baráttu við hinn efnahagslega grundvöll sljóvgast og getur horfið með öllu. Í þeim tilvikum, sem þetta á ekki að öllu leyti við um þá, sem þátt taka í baráttunni, á það næstum alltaf við um sagnaritarana. Af öllum þeim heimildum, sem til eru um átökin í rómverska lýðveldinu, er það Appian einn, sem segir oss skýrt og skorinort um hvað barizt var í raun og veru. Það var barizt um jarðeignir.

En þegar ríkið er orðið að sjálfstæðu valdi gagnvart þjóðfélaginu, tekur það brátt að framleiða hugmyndakerfi til viðbótar. Meðal atvinnustjórnmálamanna, fræðimanna í ríkisrétti og lögfræðinga einkaréttarins, fara tengslin við efnahagsstaðreyndirnar fyrst algerlega forgörðum. Því er haldið fram, að lögfræðiformin séu allt og inntak efnahagsmálanna ekki neitt, af því að í hverju einstöku tilviki verða efnahagslegar staðreyndir að taka á sig mynd lögfræðilegs rökstuðnings til þess að verða viðurkenndar sem lög og vegna þess, að þá verður líka að sjálfsögðu að taka tillit til gildandi réttarkerfis í heild. Það er farið með ríkisrétt og einkarétt sem sjálfstæð svið með sjálfstæðri sögulegri þróun, er unnt sé að gera grein fyrir út af fyrir sig á kerfisbundinn hátt og enda þörf fyrir slíka greinargerð, er sé sjálfri sér samkvæm, þannig að öllum innri mótsögnum verði rutt úr vegi.

Önnur hugmyndakerfi, sem lyfta sér enn hærra til flugs, eða með öðrum orðum fjarlægjast hinn efnislega og efnahagslega grundvöll enn meira, taka á sig mynd heimspeki og trúarbragða. Þegar hér er komið, verða tengslin milli hugmyndanna og hinna efnislegu tilveruskilyrða þeirra æ flóknari, milliliðir hjúpa þau sífellt meiri dul. En þau eru til. Eins og allt endurreisnartímabilið frá miðri fimmtándu öld var mestmegnis afurð borganna og þar með borgarastéttarinnar, svo er einnig um heimspekina, sem vaknaði til nýs lífs frá þeim tíma. Það sem hún fól í sér, var að mestu leyti aðeins heimspekileg tjáning þeirra hugsana, er svöruðu til þróunar smáborgara og borgaralegrar millistéttar í stórborgarastétt. Þetta kemur skýrt fram meðal Englendinga og Frakka á öldinni, sem leið, sem oft voru hvorttveggja í senn, pólitískir hagfræðingar og heimspekingar, og við höfum sýnt fram á þessa málavexti hjá Hegelssinnum hér á undan.

En nú skulum við taka trúarbrögðin stuttlega til athugunar, vegna þess að þau virðast vera fjarst lífinu í heimi efnisins og framandlegust. Trúarbrögðin eiga uppruna sinn í grárri forn-

eskju, þau eru orðin til úr eldgömlum og misskildum hugmyndum manna um sitt eigið eðli, svo og hinnar ytri náttúru, er umlykur þá. En jafnskjótt og hugmyndakerfi er orðið til, þróast það í tengslum við þann hugmyndalega efnivið, sem fyrir er, vinnur úr honum og auðgar hann. Annars væri það ekki hugmyndakerfi, það er, sýslan við hugmyndir sem sjálfstæðar verundir, er þróast sjálfstætt og lúta sínum eigin lögmálum. Þessir menn hljóta óhjákvæmilega að vera óvitandi um það, að þegar öllu er á botninn hvolft eru það efnisleg lífsskilyrði manna, sem ráða þessari hugmyndaframvindu, sem fram fer í höfðum þeirra, annars væri komið að lokadægri allra hugmyndakerfa. Svo að þessar upprunalegu trúarhugmyndir, sem oftast eru sameiginlegar hjá hverjum hópi skyldra þjóða, þróast með sínum sérkennilega hætti hjá hverri þjóð, eftir að þær skiljast að, allt eftir því hvaða lífsskilyrði hafa fallið þeim í skaut. Samanburðargoðafræðin hefur sýnt fram á þessa framvindu í einstökum atriðum meðal nokkurra þjóðahópa, en þó einkum meðal Aría (hinna svokölluðu Indóevrópumanna). Þeir guðir, sem hver þjóð skóp sér á þennan hátt, urðu þjóðarguðir, og ríki þeirra náði ekki lengra en þjóðarsvæði það, sem þeir áttu að vernda, og handan við þessi landamæri voru það ótvírætt aðrir guðir, sem töluðu eins og sá, sem valdið hefur. Í hugmyndum manna gátu þeir ekki lifað lengur en þjóðin var til. Þeir féllu með endalokum hennar. Rómverska heimsveldið olli hruni þessara gömlu þjóðerna, en hér er ekki staður til að rannsaka hin efnahagslegu skilyrði fyrir tilurð þess. Gömlu þjóðarguðunum tók að hnigna, jafnvel hinum rómversku, en þeir voru líka aðeins sniðnir að hinu þrönga sviði Rómaborgar. Þörfin fyrir að fullkomna heimsveldið með heimstrúarbrögðum, kom skýrt fram í tilraunum þeim, sem gerðar voru til þess að afla öllum erlendum og nokkurnveginn virðingarverðum guðum viðurkenningar í Róm við hlið heimaguðanna, og reisa þeim ölturu. En ný heimstrúarbrögð verða ekki til á þennan hátt með keisaralegum tilskipunum. Hin nýju heimstrúarbrögð, kristindómurinn, hafði þá þegar orðið til í kyrrþey úr blöndu almennrar austurlandaguðfræði, einkum gyðinglegrar, og grískrar heimspeki, einkum stóiskrar, í búningi múgamennskunnar. Nú verðum vér að rannsaka það aftur með ærnu erfiði, hvernig svipmót hans hefur verið í fyrstu, því að hin opinbera mynd hans, er vér höfum fengið frá fyrri kynslóðum, er aðeins sú, sem hann tók á sig, þegar hann var gerður að ríkistrú og aðlagaður þessum tilgangi á kirkjuþinginu í Níkeu. En hvað sem því líður er sú staðreynd, að hann skyldi vera gerður að ríkistrú þegar eftir 250 ár, sönnun þess, að hann var einmitt sú trú, sem kom heim við aðstæður þeirra tíma. Á miðöldunum þróaðist hann í trúarbrögð,

sem hæfðu lénsveldinu, með tilsvarandi lénsku valdakerfi, og þróun beggja hélzt nákvæmilega í hendur. Og þegar borgarastéttin komst á legg, þróaðist villutrú mótmælenda í andstöðu við hina lénsku kaþólsku, fyrst meðal Albigensa[1] í Suður-Frakklandi á mestu blómatímum borganna þar. Miðaldirnar höfðu lagt allar aðrar greinar hugmyndakerfisins undir guðfræðina og gert þær að undirdeildum hennar, heimspeki, stjórnmál, og lögfræði. Þannig var sérhverri þjóðfélagslegri og pólitískri hreyfingu þröngvað til að taka á sig guðfræðilegan búning. Eina andlega næringin, sem almúginn fékk, var trúarleg, og til þess að vekja mikinn storm, varð að sýna honum hagsmuni sína í trúarlegum dulbúningi. Borgarastéttinni fylgdi frá upphafi skari eignaleysingja. Þetta voru plebeiar borganna, sem ekki heyrðu til neinnar viðurkenndrar fastastéttar, daglaunamenn og hverskonar þjónustufólk, fyrirrennarar öreigastéttar síðari tíma, og á sama hátt greindist villutrúin líka snemma í borgaralegan og hófsaman arm annarsvegar og byltingarsinnaðan almúgaarm hinsvegar, sem borgaralegir villutrúarmenn höfðu líka andstyggð á.

Í fullu samræmi við það, að hin rísandi borgarastétt var ósigrandi, var ekki unnt að útrýma villutrú mótmælenda. Þegar borgarastéttin hafði öðlazt nægan styrk, tók baráttan gegn aðlinum, sem áður hafði að mestu takmarkazt við einstaka staði, að ná til þjóðarinnar allrar. Fyrstu stórátökin urðu í Þýzkalandi, hin svonefnda siðbót. Borgarastéttin var hvorki nógu sterk né þroskuð til þess að geta sameinað undir merki sitt allar aðrar uppreisnarstéttir, almúga borganna og í sveitum bændur og aðalsmenn af lægri stigum. Fyrst var aðallinn sigraður. Bændur gerðu uppreisn, og með henni náði öll þessi byltingarhreyfing hámarki. Borgirnar brugðust þeim, og svo varð byltingin að lúta í lægra haldi fyrir herjum landsfurstanna, sem fengu allan ávinninginn. Frá þeirri stundu hverfur Þýzkaland í þrjár aldir úr tölu þeirra landa, er höfðu sjálfstæð áhrif á veraldarsöguna. En Frakkinn Kalvín hafði staðið við hlið Þjóðverjans Lúthers. Með sannfrönskum skarpleika setti hann hið borgaralega eðli siðbótarinnar á oddinn, kom á lýðræði og lýðveldisskipan í kirkjunni. Í Þýzkalandi tróðst siðbót Lúthers niður í svaðið og kom landinu á kné, en samtímis varð siðbót Kalvíns að gunnfána lýðveldissinna í Genf, Hollandi og Skotlandi, hún frelsaði Holland undan yfirráðum Spánar og þýzka samveldisins og lagði til hinn hugmyndalega búning í öðrum þætti borgaralegu byltingarinnar, sem gerðist í Englandi. Á öllu þessu skeiði reyndist kalvínism-

[1] Albigensar eru kenndir við borgina Albi í Suður-Frakklandi. Þeir voru trúarsöfnuður, sem stóð í fararbroddi andstöðunnar gegn kaþólsku kirkjunni á 12. og 13. öld. – *Útg.*

inn hinn sanni trúarlegi dulbúningur fyrir hagsmuni borgarastéttarinnar á þeim tímum, og fékk þessvegna ekki fulla viðurkenningu, þegar byltingunni lauk árið 1689 með málamiðlun milli borgaranna og nokkurs hluta aðalsins. Enska ríkiskirkjan var endurreist, en ekki í sinni fyrri mynd sem kaþólska með konunginn fyrir páfa, heldur mótaðist hún undir sterkum áhrifum kalvínismans. Gamla ríkiskirkjan hélt hinn skemmtilega kaþólska sunnudag hátíðlegan og barðist gegn hinum leiðinlega sunnudegi kalvínista. Nýja kirkjan, sem gerzt hafði borgaraleg, tók upp hinn síðarnefnda, og hann er prýði Englands enn í dag.

Í Frakklandi var kalvínski minnihlutinn undirokaður, rekinn á flótta eða turnað til kaþólsku árið 1685. En til hvers dugði það? Þá þegar var frjálshyggjumaðurinn Pierre Bayle önnum kafinn við vinnu sína og 1694 fæddist Voltaire. Valdbeiting Lúðvíks XIV. gerði ekki annað en auðvelda frönsku borgarastéttinni að framkvæma byltingu sína með þeim hætti, sem einn hæfði þroskaðri borgarastétt, undir merkjum trúleysis og stjórnmálahugmynda eingöngu. Í stað mótmælenda sátu frjálshyggjumenn á þjóðarsamkomunum. Þar með var kristindómurinn kominn á sitt síðasta stig. Hann var ekki lengur fær um að gegna því hlutverki að vera hugmyndalegur dulbúningur fyrir neitt það, sem einhver framsækin stétt keppti að. Í æ ríkara mæli varð hann einkaeign ríkjandi stétta, og þær hagnýttu hann einungis sem stjórnunartæki, til þess að halda undirstéttunum í skefjum. Í þeirri veru notaði sérhver stétt sín eigin trúarbrögð, sem henni hæfðu. Landeigendastétt júnkaranna beitti fyrir sig kaþólskum jesúítisma eða bókstafstrú mótmælenda, en hinir frjálslyndu og róttæku borgarar skynsemishyggjunni, og skiptir þá engu máli hvort þessir herramenn trúa sjálfir kenningum þeirra trúarbragða, sem hver um sig játar, eða hvort þeir trúa þeim ekki.

Af því sem nú hefur verið sagt, er það ljóst, er hér fer á eftir: Þegar trúarbrögð hafa myndazt, þá fela þau ævinlega í sér efni, sem gengur í arf frá kynslóð til kynslóðar, og þannig er það líka á öllum hugmyndalegum sviðum, erfðavenjan er mikið íhaldsafl. En breytingarnar, sem verða á þessum efnivið, eiga rætur sínar að rekja til stéttaafstæðna, eða með öðrum orðum, til efnahagsafstæðna þeirra manna, sem standa fyrir þessum breytingum. Annað þarf ekki til í þessu efni.

Í því sem hér hefur verið sagt, var ekki unnt að gera meira en taka til meðferðar almennar útlínur hinnar marxísku söguskoðunar og auk þess nokkur skýringardæmi í hæsta lagi. Það er ekki hægt að sanna hana nema með tilstyrk sögunnar sjálfrar, og ég held að mér sé óhætt að segja, að í þeirri veru hafi fullnægjandi sönnun verið lögð fram í öðrum ritum. En þessi skiln-

ingur bindur endi á alla heimspeki á sviði sögunnar á sama hátt og díalektískur skilningur á náttúrunni gerir alla náttúruheimspeki bæði ónauðsynlega og óhugsanlega. Það gildir jafnt um allt, að nú skiptir það ekki lengur máli að hugsa sér eitthvert samhengi í höfðinu, heldur hitt að finna það í staðreyndunum. Fyrir heimspekina, sem flæmd hefur verið úr náttúrunni og sögunni, er þá ekki í annað hús að venda en svið hinnar hreinu hugsunar, að því leyti, sem það er eftir skilið, þá fræðigrein, er fæst við lögmál hugsanaferlanna, rökfræðina og díalektíkina.

Með byltingunni 1848 sagði hið „menntaða“ Þýzkaland skilið við fræðikenninguna og tók til við athafnalífið. Smáfyrirtæki, sem byggðust á handverki, og skipulagður handiðnaður þokuðu fyrir raunverulegum stóriðnaði. Aftur kom Þýzkaland fram á heimsmarkaðnum. Litla þýzka alríkið[1] ruddi að minnsta kosti þeim hróplegu meinsemdum úr vegi, sem smáríkjafarganið, leifar lénsveldisins og hinir skriffinnskulegu búskaparhættir ollu og urðu þessari þróun að farartálma. En jafnframt því, sem íhugunin hvarf á brott úr vinnustofu heimspekingins og reisti sér musteri þar sem kauphöllin var, glataðist líka að sama skapi hin mikla hæfni hins menntaða Þýzkalands til fræðiiðkana, sem verið hafði sómi þessa lands á tímum hinnar dýpstu niðurlægingar, þetta næma skynbragð á hreinar vísindarannsóknir, án tillits til þess, hvort niðurstöður þeirra gátu komið að hagnýtum notum eða ekki, og hvort þær brutu í bága við boð og bönn lögreglunnar eða ekki. Að vísu héldust hin opinberu náttúruvísindi Þýzkalands, einkum í sérgreinum, á því háa stigi, sem þurfti til þess að fylgjast með tímanum, en ameríska tímaritið „Science“ (Vísindi) segir með réttu, að nú gerist þær framfarir, sem úrslitum ráða á sviði hins almenna samhengis einstakra staðreynda, alhæfing þeirra í lögmál, í miklu ríkara mæli í Englandi, gagnstætt því, sem áður var, þegar Þýzkaland var í fararbroddi að þessu leyti. Og á sviði sagnfræðivísindanna að heimspekinni meðtalinni er hinn tillitslausi fræðimannsandi vissulega horfinn með öllu um leið og klassíska heimspekin. Þess í stað er nú komin hugmyndasnauð grautargerð, óttablandið tillit til frama og tekna, sem getur komizt niður á stig venjulegs framastrits. Opinberir fulltrúar þessara vísinda eru orðnir grímulausir hugmyndafræðingar borgarastéttarinnar og drottnandi ríkisvalds, og það á tímum, þegar hvorttveggja er í óulbúinni andstöðu við verkalýðsstéttina.

Það er verkalýðsstéttin ein, sem varðveitir hið þýzka fræðimannseðli óskert. Meðal hennar hefur því ekki verið útrýmt.

[1] Hér er átt við hið þýzka alríki, sem varð til 1871 undir forustu Prússlands og án Austurríkis. – *Útg.*

Hér er ekki tekið tillit til neins framavegar, gróðabralls eða náðugrar verndar ofan frá. Þessu er öfugt farið. Því tillitslausari og hleypidómalausari sem vísindin eru í starfi sínu, í þeim mun betra samræmi eru þau við það, sem verkamenn keppa að. Hin nýja stefna, sem fann lykilinn að skilningi allrar þjóðfélagssögunnar í þróunarsögu vinnunnar, sneri máli sínu frá upphafi fyrst og fremst til verkalýðsstéttarinnar og fann þar þann hljómgrunn, sem hún hvorki leitaði eftir né bjóst við að finna hjá hinum opinberu vísindum. Þýzka verkalýðsstéttin er arftaki klassísku heimspekinnar þýzku.

KARL MARX

# Greinar um Feuerbach

I

Hingað til hefur það verið aðalveikleiki allrar efnishyggju, að litið hefur verið á hlutinn, veruleikann og skynreynsluna einungis sem *andlag*, eða eitthvað, sem maður *skoðar*, en hinsvegar ekki sem *mannlegt skynreynslustarf, virka starfsemi*, í veru sjálfsins. Þetta á einnig við um efnishyggju Feuerbachs. Þessvegna fór svo, að það varð hughyggjan, sem gerði grein fyrir hinni *virku* hlið í andstöðu við efnishyggjuna. En að sjálfsögðu varð sú greinargerð sértæk, vegna þess að hughyggjan þekkir ekki raunverulega skynreynslustarfsemi í eiginlegri merkingu. Feuerbach vill að hlutirnir séu eins og vér skynjum þá, raunverulega annað en það, sem vér gerum oss í hugarlund. En hann leggur ekki *hlutverulegan* skilning i sjálfa starfsemi mannanna. Í „Eðli kristindómsins" verður því fræðiiðkunin í hans augum og að hans dómi hið eina sanna mannlega atferli, en hið virka starf einungis hin óhreina gyðinglega mynd þess. Þessvegna skilur hann ekki gildi hins „byltingarsinnaða" starfs, sem er gagnrýni og framkvæmd í senn.

2

Sú spurning, hvort mannleg hugsun hafi hlutverulegt sannleiksgildi, er ekki fræðilegt, heldur hagnýtt vandamál. Í starfi sínu verður maðurinn að prófa sannleiksgildi hugsunar sinnar, eða með öðrum orðum, raunveruleik hennar, vald og þessa heims eðli. Deilan um það, hvort hugsun sé raunveruleg eða ekki, án

allra tengsla við starfið, snýst eingöngu um spurningu í anda *skólaspekinnar*.

3

Sú efnishyggjukenning, að mennirnir séu afurð aðstæðna og uppeldis, að breyttar aðstæður og uppeldi hafi í för með sér breytta menn, gleymir því, að það eru einmitt mennirnir, sem breyta aðstæðunum og að uppalandinn verður líka að fá sitt uppeldi. Þessvegna hlýtur hún óhjákvæmilega að skipta þjóðfélaginu í tvo hluta, þar sem annar er hafinn yfir þjóðfélagið. (T. a. m. Robert Owen).

Þegar breyting á aðstæðum og mannleg starfsemi rennur saman í eitt, þá ber að líta á það sem *umbyltandi starf* og verður ekki skilið í anda rökhugsunar á annan veg.

4

Feuerbach hefur staðreynd hinnar trúarlegu sjálfsfirringar að forsendu, tvískiptingu heimsins í trúarlega, hugsaða veröld annarsvegar og raunverulega hinsvegar. Verk hans felst í því, að leysa sundur heim trúarbragðanna svo að eftir stendur hinn veraldlegi grundvöllur hans. En honum sést yfir, að þegar þessu verki er lokið, er enn eftir að gera það, sem mestu máli skiptir. Því að sú staðreynd, að hinn veraldlegi grundvöllur skuli skilja við sjálfan sig, hefja sig upp til skýja og búa sér þar til sjálfstætt ríki, verður aðeins skýrð með því, að þessi veraldlegi grundvöllur er sjálfur í molum og sjálfum sér sundurþykkur. Þessvegna verðum vér fyrst af öllu að skilja mótsögn hans og umbylta honum síðan í verki með því að uppræta mótsögnina. Þegar vér höfum til að mynda gert þá uppgötvun, að leyndarmál hinnar heilögu fjölskyldu sé hin jarðneska fjölskylda, þá ber oss að rannsaka hina síðarnefndu og umbylta henni í verki.

5

Þar sem Feuerbach er ekki ánægður með hina *sértæku hugsun,* hvetur hann menn til að *skoða skynheiminn.* En hann leggur ekki þann skilning í skynreynsluna, að hún sé virk, skynræn starfsemi mannsins.

6

Feuerbach leysir sundur hið trúarlega eðli og breytir því í mannlegt eðli. En mannlegt eðli er ekkert sértak, er býr í einstaklingnum út af fyrir sig. Í raun og veru er það heild þjóðfélagslegra afstæðna.

Feuerbach tekur ekki hið raunverulega eðli til rannsóknar og þessvegna finnur hann sig knúinn til þess, sem hér fer á eftir:

1. Að láta framvindu sögunnar liggja milli hluta og dæma um trúhneigðina út af fyrir sig, svo og að gera ráð fyrir sértækum, *einangruðum*, mannlegum einstaklingi.

2. Af þessum sökum getur hann ekki skilið mannlegt eðli nema sem „tegund", eitthvað þögult, sem býr hið innra, eitthvað almennt, er tengir saman marga einstaklinga einungis sem *náttúru*verur.

7

Þessvegna skilur Feuerbach ekki, að trúhneigðin sjálf er *þjóðfélagsleg afurð*, og að sá sértæki einstaklingur, sem hann rannsakar, á heima í einhverri ákveðinni þjóðfélagsskipan.

8

Lífið í þjóðfélaginu er fyrst og fremst *virkt*. Í mannlegu starfi og skilningi á því, er hægt að finna ráðningu á öllum þeim leyndardómum, sem verða til þess, að fræðikenning leiðist út í dulhyggju.

9

Hin *skoðandi* efnishyggja, þ. e. sú efnishyggja sem ekki skilur skynreynsluna sem virka starfsemi, getur í hæsta lagi afrekað það, að skoða einstakling „borgaralegs þjóðfélags" út af fyrir sig.

10

Sjónarhóll gömlu efnishyggjunnar er hið *„borgaralega"* þjóðfélag. Sjónarhóll nýju efnishyggjunnar er *mannlegt* þjóðfélag eða mannkynið skipulagt í þjóðfélag.

II

Heimspekingarnir hafa aðeins *skýrt* heiminn á ýmsa vegu. Það sem máli skiptir, er að breyta honum.

Karl Marx ritaði vorið 1848.
Friedrich Engels birti það í fyrsta sinn árið 1888, sem viðauka við sérprentun rits síns, „Ludwig Feuerbach."
Gefið út samkvæmt texta útgáfunnar frá 1888 og borið saman við handrit Marx.

Þýðing þessi er gerð eftir úrvalsritum Marx og Engels í tveimur bindum, er út kom hjá „Verlag für fremdsprachige Literatur" í Moskvu 1950. Neðanmálsskýringar útgefenda styðjast líka við þá útgáfu. Handrit Engels er frá árinu 1886 og kom út í „Neue Zeit", sama ár, og var sérprentað 1888. Hér er farið eftir þeirri útgáfu. – *Þýð.*

FRIEDRICH ENGELS

# Inngangur að Díalektík náttúrunnar

Nútíma náttúruvísindi, sem ein hafa tekið vísindalegri, kerfisbundinni og alhliða þróun, andstætt hinum glæsilegu náttúruheimspekilegu hugsýnum fornaldarinnar og hinum afarþýðingarmiklu en sundurlausu uppgötvunum Araba, sem hurfu að mestu án þess að skila árangri, – þessi nútíma náttúruvísindi eiga, eins og öll saga síðari tíma, rót sína að rekja til þess volduga tímabils, sem við Þjóðverjar köllum *reformation* (siðbót), eftir þeim þjóðarhörmungum, sem á okkur dundu um það leyti, en Frakkar kalla *renaissance* og Ítalir *cinquecento*,[1] enda þótt engin þessara nafngifta hitti fyllilega í mark. Með aðstoð borgara í bæjunum brutu konungar veldi lénsaðalsins á bak aftur og komu á fót hinum stóru einveldum, sem byggðu öðru fremur á þjóðerni, en í skjóli þeirra þróuðust nútímaþjóðir Evrópu og borgaralegt þjóðfélag okkar tíma. Á meðan borgarar og aðall kljáðust enn hvorir við aðra, hringdi bændastríðið á Þýzkalandi spávíslega inn komandi stéttabaráttu með því að kalla fram á sjónarsviðið ekki aðeins bændur í uppreisnarhug, – slíkt var ekki lengur neitt nýtt, – heldur að baki þeirra vísi síðari tíma verkalýðsstéttar með rauðan fána í hönd og kröfuna um sameignarþjóðfélag á vörum. Með handritum þeim, sem lifðu af hrun Miklagarðsríkis, með fornum styttum gröfnum úr rústum Rómar, upplaukst fyrir augum furðu lostinna Vesturlandabúa nýr heimur, heimur Grikklands hins forna. Vofur miðalda bliknuðu fyrir lýsandi myndum hans. Á Ítalíu hófst blómaskeið í listum, sem engan hafði dreymt um og virtist eins og endurskin klassískrar fornaldar, og aldrei varð aftur höndlað. Á Ítalíu, Frakklandi og Þýzkalandi komu fram nýjar bókmenntir, fyrstu bókmenntir nýs tíma; stuttu síðar fylgdi hið klassíska skeið í enskum og spænsk-

[1] Eftir orðanna hljóðan: fimm-hundruðin, þ. e. sextánda öldin. – *Útg.*

um bókmenntum. Brotizt var út yfir takmörk hins gamla *orbis terrarum*[1]; nú fyrst uppgötvuðu menn raunverulega heiminn, og grundvöllur var lagður að þeirri heimsverzlun, sem sigldi í kjölfarið, og að umsköpun handverks í handiðju, sem að sínu leyti myndaði upphafið að stóriðju síðari tíma. Andlegt einræði kirkjunnar var brotið á bak aftur. Meirihluti germanskra þjóða, sem tók upp mótmælendatrú, beinlínis hristi það af sér, en hjá rómönskum þjóðum festi hinsvegar rætur í vaxandi mæli léttur andi frjálsrar hugsunar, fenginn frá Aröbum en nærður á hinni nýlega endurheimtu grísku heimspeki. Hann ruddi braut efnishyggju átjándu aldar.

Þetta var mesta framfarabylting, sem mannkynið hafði kynnzt til þessa, skeið sem þarfnaðist stórmenna og skapaði stórmenni, stórmenni í hugsun og ástríðum og að innræti, í alhæfni og lærdómi. Mennirnir sem lögðu grunninn að hinu nýja veldi borgarastéttarinnar, voru haldnir öllu öðru en borgaralegum takmörkunum. Þvert á móti voru þeir undir áhrifum af ævintýralegu eðli tímabilsins að meira eða minna leyti. Þá var vart að finna nokkurn áhrifamann, sem ekki var víðförull, sem ekki hafði vald á fjórum eða fimm tungumálum, sem ekki gat látið að sér kveða á mörgum sviðum. Leonardo da Vinci var ekki aðeins mikill málari, heldur líka mikill stærðfræðingur, listasmiður og hugvitsmaður, sem hinar ólíkustu greinar eðlisfræði standa í þakkarskuld við fyrir miklar uppgötvanir. Albrecht Dürer var málari, eirstungumaður, myndhöggvari og húsameistari, og fann að auki upp hervirkjakerfi, sem innihélt margar þær hugmyndir, er löngu seinna voru teknar upp á ný af Montalembert og birtast í nútíma hugmyndum þýzkum um virkjagerð. Machiavelli var stjórnmálamaður, sagnfræðingur, skáld og um leið fyrsti umtalsverði höfundur á sviði herfræði síðari tíma. Lúther mokaði ekki aðeins Augíasarflór kirkjunnar, heldur hreinsaði til í þýzkri tungu. Hann skóp nútímaprósa þýzkan og samdi ljóð og lag við þann sigursæla sálm, sem varð *Marseillaise* sextándu aldar. Hetjur þessara tíma höfðu enn ekki lent undir þrældómsoki verkaskiptingarinnar, en hversu oft tökum við ekki eftir hamlandi áhrifum hennar og einhliða mótun á þá, sem á eftir komu. En það sem er öðru fremur einkennandi fyrir þá, er að þeir nær allir eyða ævi sinni og kröftum mitt í straumi samtímans, í hinni hagnýtu baráttu. Þeir taka afstöðu og þátt í bardaganum, einn með því að tala og skrifa, annar með sverði, margir með hvorutveggja. Þaðan kemur sú fylling og eðlisstyrkur, sem gerir þá að ósviknum karlmennum. Rykfallnir lærdómsmenn eru undan-

[1] *Orbis terrarum:* bókstaflega, hringmyndað landsvæði, hugtak notað af Rómverjum hinum fornu um jarðkringluna. – *Útg.*

tekning: annaðhvort annars eða þriðja flokks persónur eða þá varkárir broddborgarar, sem ekki vilja hætta neinu til.

Á þessum tíma voru náttúruvísindin einnig í ólgandi hringiðu hinnar almennu byltingar og voru sjálf gagnsýrð byltingaranda, því að þau urðu að berjast til sigurs fyrir tilverurétti sínum. Ásamt með hinum miklu ítölsku heimspekingum, sem ruddu brautina fyrir síðari tíma heimspeki, lögðu náttúruvísindin til píslarvotta á bálkesti og í fangelsi Rannsóknarréttarins. Og það er einkennandi, að mótmælendur gengu lengra en kaþólskir í ofsóknum gegn frjálsum náttúrurannsóknum. Kalvín lét brenna Servetus, þegar hinn síðarnefndi var rétt í þann veginn að uppgötva hringrás blóðsins, og lét hann raunar sviðna lifandi í tvær klukkustundir. Rannsóknarréttinum nægði þó einfaldlega að brenna Giordano Bruno.

Hið byltingarsinnaða skref, sem náttúruvísindin notuðu til að lýsa yfir óhæði sínu, og á sína vísu var endurtekning á því, er Lúther brenndi boðskap páfa, var útgáfa á því ódauðlega verki Kópernikusar, þar sem hann, tvílráður að vísu og raunar á banabeði, kastaði hanzkanum niður til hinna kirkjulegu yfirvalda, sem fjölluðu um náttúrufræðileg málefni. Frelsun náttúruvísinda frá guðfræði verður rakin til þessa tíma, enda þótt deilur um einstök hártogunaratriði hafi dregizt allt til okkar daga og séu langt frá því að vera um garð gengnar í hugum sumra. En upp frá þessu hefur þróun vísindanna gengið risaskrefum fram á við, og segja mætti eflzt í réttu hlutfalli við fjarlægðina í öðru veldi frá brottfararstað. Það var rétt eins og sýnt skyldi fram á, að héðan í frá sé hreyfingarlögmálið, sem gildir um háþróaðasta lífrænt efni, mannshugann, andstæða þess sem gildir um ólífræn efni.

Höfuðviðfangsefnið á því fyrsta skeiði náttúruvísindanna, er nú hófst, var að ná tökum á því efni, sem þegar lá fyrir. Á flestum sviðum þurfti að byrja frá grunni. Fornöldin hafði arfleitt okkur að Evklíð og sólkerfi Ptolemeusar, en Arabar að tugakerfinu, upphafi algebru, nútíma talnakerfi og gullgerðarlist; kristnu miðaldirnar að alls ekki neinu. Við þessar kringumstæður sátu eðlilega í fyrirrúmi undirstöðuatriði náttúruvísinda, hreyfing jarðar og himinhnatta, og samhliða þeim og fyrir þau sniðin uppgötvun og fullkomnun stærðfræðilegra aðferða. Hér var miklu afkastað. Við lok þessa tímabils, sem einkennist af Newton og Linné, hafa þessar vísindagreinar náð vissu marki. Aðalatriði þýðingarmestu reikningsaðferða voru til orðnar í hnitafræði, sem einkum var unnin af Descartes, lógariþmar af Napier og diffrunar- og tegrunarreikningur af Leibniz og ef til vill Newton. Sama máli gegnir um hegðun fastra hluta, en megin-

lögmál varðandi þá höfðu verið skýrð í eitt skipti fyrir öll. Og loks uppgötvaði Kepler í stjörnufræði sólkerfisins lögmálin um gang reikistjarna, og Newton færði þau í búning hinna almennu lögmála um hreyfingu efnisins. Aðrar greinar náttúruvísinda voru hins vegar langt frá því að hafa komizt að þessum bráðabirgðaniðurstöðum. Það er fyrst við lok þessa tímabils, að lögmál vökva og lofttegunda eru rannsöknuð nánar.[1] Raunveruleg eðlisfræði hafði enn ekki slitið fyrstu barnsskónum að undanskilinni ljósfræði, en óvenjulegar framfarir í henni stöfuðu af hagnýtum þörfum stjörnufræðinnar. Með flógiston kenningunni[2] var efnafræðin einmitt í þann veginn að losa sig við áhrif gullgerðarlistarinnar. Jarðfræði var enn ekki komin af frumstigi steinafræðinnar; steingervingafræðin hafði því ekki getað litið dagsins ljós. Og loks á sviði líffræðinnar voru aðalviðfangsefnin enn fólgin í söfnun og greiningu hins mikla úrvinnsluefnis, ekki aðeins í grasa- og dýrafræði, heldur einnig á sviði líffærafræði og lífeðlisfræði. Það gat enn vart verið um að ræða innbyrðis samanburð á hinum margbreytilegu lífverum, né heldur um rannsóknir á landfræðilegri útbreiðslu þeirra og kröfum til loftslags og annarra lífsskilyrða. Aðeins grasa- og dýrafræði komust hér nálægt réttri niðurstöðu, svo er Linné fyrir að þakka.

En það sem öðru fremur einkennir þetta tímabil er mótun undarlegrar og almennrar skoðunar, þar sem miðdepillinn er það sjónarmið, að náttúran sé með öllu óumbreytanleg. Hvernig svo sem náttúran sjálf væri til orðin, héldist hún óbreytt um aldur og ævi. Pláneturnar með fylgihnöttum sínum, sem settar höfðu verið á hreyfingu með hinum dularfulla „fyrsta hnykk“, snerust í sífellu á sínum forskrifuðu sporbaugum um aldir alda, eða að minnsta kosti til heimsendis. Fastastjörnurnar væru hinsvegar óhreyfanlegar og rígnegldar hver á sínum stað, og héldu hver annarri í skorðum með „hinu almenna aðdráttarafli“. Jörðin hafði frá upphafi þraukað án umbreytinga, eða frá þeim degi, sem hún var sköpuð. „Heimsálfurnar fimm“ eins og við sjáum þær í dag, höfðu ætíð verið til, með sömu fjöll, dali og ár, sama loftslagið, sama dýralíf og gróðurfar, nema að svo miklu leyti sem mannshöndin hafði valdið þar breytingum eða tilflutningi. Plöntu- og dýrategundir höfðu verið fastmótaðar í eitt skipti fyrir öll, þegar þær fyrst sáu dagsins ljós. Líkt óx stöðugt af líku, og það var langt gengið af Linné að hafa viðurkennt, að hugsanlega kynnu nýjar tegundir að hafa myndazt við kyn-

---

1 Torricelli í sambandi við rennslisjöfnun lækja í Ölpunum.

2 Flógiston-kenningin: ráðandi kenningi í efnafræði á seytjándu og átjándu öld, þess efnis að bruni eigi sér stað í tilteknum hlutum vegna nærveru ákveðins efnis, sem kallað var flógiston.

blöndun. Andstætt sögu mannkynsins, sem lyti tímanlegri þróun, hefði náttúran að öðru leyti aðeins þróazt í vídd. Öllum breytingum, allri þróun í náttúrunnar ríki var hafnað. Náttúruvísindin, sem verið höfðu byltingarkennd í byrjun, stóðu nú allt í einu frammi fyrir gjörsamlega staðnaðri náttúru, þar sem ástandið í dag var að öllu leyti eins og verið hafði í upphafi, og þar sem allt skyldi óbreytt standa til heimsendis eða um alla eilífð, svo sem verið hafði í árdaga.

Svo mjög sem náttúruvísindin á fyrri hluta átjándu aldar tóku fram því sem verið hafði í Grikklandi hinu forna að þekkingu og jafnvel greiningu fyrirliggjandi efnis, jafn fjarri voru þau því að ráða hugmyndalega við þetta efni í almennu viðhorfi til náttúrunnar. Í augum grískra heimspekinga var jörðin fyrst og fremst eitthvað, sem vaxið hafði upp úr óskapnaði, eitthvað sem hafði þróazt, eitthvað sem orðið hafði til. Í augum náttúrufræðinga þessa tíma, sem hér er fjallað um, var jörðin eitthvað steingert, eitthvað óumbreytanlegt og að flestra mati eitthvað, sem skapað hefði verið í eitt skipti fyrir öll. Vísindin voru enn reyrð í fjötra guðfræðinnar. Alls staðar leituðu þau og fundu einhverja ytri áorkun sem hið hinzta, er ekki var skýranlegt út frá náttúrunni sjálfri. Jafnvel þótt aðdráttaraflið, sem Newton nefndi hátíðlega hinn almenna aðdráttarkraft, væri talið einn af frumeiginleikum efnisins, hvaðan kom þá hið óskýrða miðflóttaafl, sem í upphafi olli göngu reikistjarnanna? Hvernig urðu allar þessar óteljandi dýra- eða plöntutegundir til? Og umfram allt, hvernig varð maðurinn til, sem augljóst var að átti sér takmarkaða sögu? Alltof oft svöruðu náttúruvísindin slíkum spurningum með því að varpa allri ábyrgð á herðar skapara alls og allra. Við upphaf tímabilsins varpar Kópernikus frá sér allri guðfræði; Newton gerir hins vegar ráð fyrir að umrætt skeið hefjist með guðlegu frumkvæði. Lengst náðu náttúruvísindi þessara tíma með þeirri almennu hugmynd, að öll skipuleg náttúra hefði sinn tilgang, hinni grunnfæru markmiðskenningu Wolffs, en samkvæmt henni voru kettir til þess skapaðir að éta mýs, og mýs sem bráð fyrir ketti, og öll náttúra til staðfestingar á vizku skaparans. Það er hinn ágætasti vitnisburður fyrir heimspeki þessara tíma, að hún lét ekki leiða sig á villigötur vegna takmarkaðrar náttúrufræðiþekkingar, og að þessi heimspeki stóð á því fastara en fótum allt frá Spinoza til hinna umtalsverðu frönsku efnishyggjumanna, að skýra bæri heiminn út frá hans eigin forsendum, en dómari í smáatriðum hlytu að verða náttúruvísindi ókominna tíma.

Ég tel efnishyggjumenn átjándu aldar til þessa tímabils, því að þeir höfðu ekki aðgang að öðru vísindalegu efni en því, sem

hér hefur verið lýst. Hið einstæða verk Kants upplaukst þeim aldrei, og Laplace kom löngu síðar. Við skulum ekki gleyma því, að þótt þetta gamaldags viðhorf til náttúrufræðinnar væri orðið gatslitið af völdum framfara í vísindum, hélt það velli allan fyrri hluta nítjándu aldar og er jafnvel enn í dag kennt í meginatriðum í öllum skólum.[1]

Fyrstu brestina í þetta steingerða viðhorf til náttúrunnar sló heimspekingur en ekki náttúrufræðingur. Árið 1755 kom út bók Kants, „Allgemeine Naturgeschichte und Theorie des Himmels" (Almenn náttúrusaga og kenning um himininn). Spurningunni um hinn fyrsta hnykk var vikið til hliðar. Jörðin og allt sólkerfið birtist okkur sem eitthvað, sem orðið hafði til í tímans rás. Ef mikill meirihluti náttúrufræðinga hefði haft ögn minni óbeit á þeim hugsunarhætti, sem Newton túlkaði í viðvörun sinni: „Eðlisfræði, varaðu þig á háspeki", þá hefðu þeir verið neyddir til að draga þær ályktanir af þessari einstöku, glæsilegu uppgötvun Kants, sem hefði sparað þeim óteljandi víxlspor og ómældan tíma og vinnu, sem beindist í rangan farveg. Því að uppgötvun Kants var raunar stökkpallurinn fyrir allar frekari framfarir. Væri jörðin eitthvað, sem orðið hefði til, þá hlyti einnig núverandi jarðfræðilegt, landfræðilegt og veðurfarslegt ástand hennar, plöntur og dýr að vera eitthvað, sem orðið hefði til. Hún hlaut að eiga sér sögu, ekki aðeins hliðstæðu í geimnum, heldur í tímanlegri röð. Ef frekari rannsóknum hefði þá strax verið beint af einbeitni í þessa átt, þá væru náttúruvísindin í dag mun lengra á veg komin en þau eru. En hvað gott gat vaxið upp af heimspeki? Verk Kants báru fyrst um sinn engan ávöxt, unz Laplace og Herschel skýrðu inntak þeirra mörgum

---

[1] Hversu staðfastlega þessu sjónarmiði var haldið fram, jafnvel á árinu 1861 af manni, sem með vísindalegu framlagi sínu hafði skapað mjög þýðingarmikið efni til að leysa það af hólmi, má sýna með eftirfarandi klassískum orðum:

„Allt skipulag sólkerfis okkar, að svo miklu leyti sem við fáum það skilið, stefnir að því að viðhalda því sem fyrir er og að óbreyttu áframhaldi. Á sama hátt og ekkert dýr og engin planta á jörðinni hefur frá fyrstu tíð orðið fullkomnari eða tekið nokkurri breytingu, rétt eins og við finnum í hverri lífveru aðeins *hliðstæð* þrep, en engin sem *taka við* eitt af öðru, rétt eins og okkar eigin kynþáttur hefur alltaf haldizt óbreyttur í líkamlegu tilliti, – eins leyfir jafnvel hin mesta fjölbreytni meðal þeirra himinhnatta, sem til eru, okkur ekki að álykta að þessi form séu aðeins mismunandi þróunarstig; þvert á móti, allt sem skapað hefur verið er *jafn* fullkomið í sjálfu sér." (Mädler, Populäre Astronomie, Berlin 1861, 5. útg., bls. 316). (Aths. Engels).

Titill þeirrar bókar, sem hér er vitnað til, er: J. H. Mädler, Der Wunderbau des Weltalls oder populäre Astronomie (Hin dásamlega bygging alheimsins eða stjörnufræði fyrir almenning), 5. útg., Berlin 1861. – *Útg.*

árum síðar og studdu þau enn fleiri rökum, og öfluðu þannig „geimþokukenningunni"[1] viðurkenningar.

Frekari uppgötvanir færðu henni að lokum sigur; hinar þýðingarmestu þessara uppgötvana voru: eigin hreyfing fastastjarna, staðfestingin á tilvist efnis í geimnum, sönnunin sem fékkst með litrófsathugunum fyrir efnislegu samræmi varðandi samsetningu geimefnisins og tilvist þess konar lýsandi geimþoka, sem Kant hafði sagt fyrir um.

(Ath.: Hamlandi áhrif sjávarfalla á möndulsnúning jarðar, einnig fram sett af Kant, og sem mönnum nú fyrst hefur skilizt).

Það er hins vegar heimilt að draga í efa, hvort meirihluti náttúrufræðinga hefði svo fljótt orðið sér meðvitandi um andstæðuna milli breytilegrar jarðar, sem að því er talið var ól í skauti sínu óumbreytanlegar lífverur, ef ekki hefði vaknað sú hugmynd og fengið stuðning úr annarri átt, að náttúran er ekki aðeins til, heldur verður til og deyr út. Jarðfræðin kom til sögunnar og sýndi okkur ekki aðeins fram á jarðlög, sem myndazt hefðu eitt af öðru og hlaðizt hvert á annað ofan, heldur líka á skeljar og beinagrindur útdauðra dýra, svo og stofna, lauf og aldin horfinna plöntutegunda, sem fyndust í jarðlögum. Menn urðu að taka afstöðu og viðurkenna, að ekki aðeins jörðin sem heild átti sér sína tímanlegu sögu, heldur einnig núverandi yfirborð hennar, og dýr og plöntur, er þar lifðu. Í fyrstu kom sú viðurkenning helzt til hikandi. Kenning Cuviers um jarðbyltingar var byltingarkennd í orði en afturhaldssöm á borði. Í stað einnar guðlegrar sköpunar setti hún röð endurtekinna sköpunarþátta, gerði kraftaverkið að þýðingarmikilli lyftistöng náttúrunnar. Það var fyrst Lyell, sem gerði jarðfræðina skiljanlega með því að setja stigbundin áhrif hægfara jarðbreytinga í stað skyndilegra byltinga að geðþótta skaparans.

Kenning Lyells var jafnvel enn ósamrýmanlegri kenningum fyrirrennara hans gagnvart staðhæfingunni um óumbreytanlegar tegundir lífvera. Hægfara umbreyting yfirborðs jarðar og á öllum lífsskilyrðum leiddi beint til hægfara breytinga á lífverunum og til aðlögunar þeirra að breyttu umhverfi, til breytileika tegundanna. En viðteknar venjur eru afl, ekki bara innan kaþólsku kirkjunnar, heldur líka í náttúruvísindum. Árum saman kom Lyell ekki auga á mótsögnina og lærisveinar hans þaðan af síður. Þetta er aðeins skýranlegt með þeirri verkaskiptingu, sem orðin var ríkjandi innan náttúruvísindanna, er hér var komið sögu, og að meira eða minna leyti batt hvern einstakling við sína sér-

[1] Geimþokukenningin: Kenning um að himinhnettir séu orðnir til úr lýsandi geimþokum. – *Útg.*

grein, og þeir voru aðeins fáir, sem hún svipti ekki almennri yfirsýn.

Á sama tíma hafði eðlisfræðin tekið stórkostlegum framförum, sem birtust í hnotskurn fyrir tilverknað þriggja manna nær samtímis á því herrans ári 1842, sem varð tímamótaár í sögu þessarar greinar náttúruvísinda: Mayer í Heilbronn og Joule í Manchester sýndu fram á ummyndun hita í mekanískt afl, og mekanísks afls í hita. Ákvörðunin á jafngildi hita og mekanísks afls tók af öll tvímæli um þetta atriði. Um sama leyti sannaði Grove, sem ekki var náttúrufræðingur að atvinnu, heldur enskur lögfræðingur, einfaldlega með því að draga saman þær ýmsu eðlisfræðilegu niðurstöður, sem fyrir voru, að öll svokölluð eðlisfræðileg öfl, mekaniskt afl, hiti, ljós, rafmagn, segulmagn og jafnvel svokallað efnaafl, breytast hvert í annað við ákveðin skilyrði án þess að um nokkurt afltap sé að ræða, og sannaði þannig eftir á með eðlisfræðilegum aðferðum lögmál Descartes um, að hreyfingarmagn það, sem til er í heiminum sé óbreytanlegt. Þar með voru hin einstöku eðlisfræðilegu öfl, sem talin höfðu verið á sinn hátt óumbreytanlegar eðlisfræðilegar „tegundir“, aðgreind í mismunandi hreyfingarform efnisins, sem breytzt gætu hvert í annað eftir ákveðnum lögmálum. Tilviljunin, sem fólst í tilvist svo og svo margra eðlisfræðilegra afla var útilokuð úr heimi vísindanna með sönnuninni um samhengið milli þeirra og myndbreytingu þeirra. Eðlisfræðin hafði eins og stjörnufræðin á undan henni komizt að niðurstöðu, sem benti á óhjákvæmilega og eilífa hringrás efnisins sem hið hinzta eðli.

Hin dásamlega hraða þróun efnafræðinnar eftir daga Lavoisiers, og einkum eftir daga Daltons, gerði hríð að hinum gamla skilningi á náttúrunni út frá öðru sjónarhorni. Með framleiðslu efnasambanda, sem áður höfðu aðeins myndazt í lifandi verum, úr ólífrænum efnum, var sannað, að lögmál efnafræðinnar gilda jafnt fyrir lífræna sem ólífræna hluti, og brúað að verulegu leyti það djúp milli ólífrænnar og lífrænnar náttúru, sem Kant hafði enn talið óyfirstíganlegt um alla eilífð.

Og loks safnaðist saman svo mikið efni, einnig á sviði líffræðilegra rannsókna, einkum með vísindaferðum og leiðöngrum, sem skipulagðir höfðu verið á kerfisbundinn hátt allt frá miðri síðustu öld, og ítarlegri könnun á nýlendum Evrópuþjóða í öllum heimshlutum af sérfræðingum, sem þar voru búsettir, og ennfremur með framförum í steingervingafræði, líffærafræði og almennri lífeðlisfræði, einkum eftir að kerfisbundnar smásjárrannsóknir hófust og fruman var uppgötvuð, – að allt þetta gerði notkun samanburðaraðferðarinnar mögulega og um leið nauðsynlega. Annars vegar voru lífsskilyrði hinna ýmsu

dýra- og plöntusamfélaga ákvörðuð með samanburðaraðferðum almennrar landafræði; hinsvegar voru hinar ýmsu lífverur bornar saman með tilliti til samsvarandi líffæra, og það ekki bara fullvaxin dýr, heldur dýr á öllum vaxtarstigum. Því djúptækari sem þessi rannsókn varð, þeim mun meir hjaðnaði niður hið stirðnaða kerfi óbreytanlegrar og fastmótaðrar lífrænnar náttúru. Það var ekki aðeins að áður aðgreindar tegundir af dýrum og plöntum rynnu meir og meir saman, heldur komu fram í dagsljósið dýr eins og amphioxus[1] og lepidosiren[2], sem létu fyrri greiningu sér til skammar verða (ceratodus[3], einnig archeopteryx[4], o. s. frv.); og loks birtust lífverur, sem jafnvel var ekki hægt að segja til um, hvort telja skyldi til jurta- eða dýraríkisins. Fyllt var stöðugt í fleiri eyður í steingervingasafninu, og það neyddi jafnvel hina vantrúuðustu til að viðurkenna hina furðulegu líkingu með þróunarsögu lífheimsins í heild og þróun einstakra lífvera, sá Ariadneþráður, sem átti eftir að vísa veginn út úr því völundarhúsi, þar sem grasafræði og dýrafræði virtust hafa týnt áttunum í vaxandi mæli. Það var einkennandi, að nær samtímis og Kant veittist að eilífðarkenningunni um sólkerfið, gerði K. F. Wolff árið 1759 fyrstu árásina á stöðugleika tegundanna og varpaði fram þróunarkenningunni. En það sem hjá honum var enn aðeins framúrskarandi forspá, fullmótaðist í höndum Okens, Lamarcks og Baers, og var leitt fram til sigurs af Darwin 1859, nákvæmlega hundrað árum síðar. Nær samtímis var það staðfest, að frymið og fruman, sem þegar hafði verið sýnt fram á, að allar lífverur væru byggðar úr, væru sú lægsta lífræna heild, er lifað gæti sjálfstætt. Þannig var ekki aðeins brúað mesta djúpið milli ólífrænnar og lífrænnar náttúru, heldur vikið til hliðar aðalerfiðleikunum, sem áður höfðu staðið í vegi fyrir kenningunni um þróun lífveranna. Hin nýja mynd af náttúrunni var fullkomnuð í aðaldráttum: Allt hið steinrunna, allt hið staðnaða leystist sundur, allt hið sérstæða, sem talið hafði verið eilíft, reyndist hverfult, og sannað var að öll náttúran sé á hreyfingu, í stöðugu streymi og hringiðu.

--------

[1] *Ampioxus* (lensufiskur): Lítið dýr, sem svipar til fiska, um 5 cm langt, fundið í Indlandshafi og Kyrrahafi nálægt ströndum Malakkaskaga og Japans, í Miðjarðarhafi, Svartahafi og víðar. Það er þróunarlega séð millistig milli hryggleysingja og hryggdýra. – *Útg.*

[2] *Lepitosiren:* Lungnafiskur, fundinn í Suður-Ameríku, og hefur bæði tálkn og lungu. – *Útg.*

[3] Ceratodus: Lungnafiskur fundinn í Ástralíu. – *Útg.*

[4] *Archeopteryx:* Útdautt dýr, fyrsti þekkti fulltrúi fugla, en hafði um leið nokkur einkenni skriðdýra. – *Útg.*

Þannig höfum við enn einu sinni horfið að hugsunarhætti hinna miklu brautryðjenda grískrar heimspeki: Að öll náttúra, frá því minnsta til hins stærsta, frá sandkornum til sólna, frá einfrumungum til mannsins, eigi tilveru sína undir stöðugri tilkomu og brotthvarfi, undir sífelldu streymi, hvíldarlausri hreyfingu og breytingu. Aðeins með þeim verulega mismun, að það sem hjá Grikkjum var glæsilegt hugboð, er hjá okkur árangur af strangvísindalegri rannsókn í samræmi við reynsluþekkingu, og birtist því í miklu ákveðnara og skýrara ljósi. Vissulega er raunsönnun þessarar hringrásar enn ekki fyllilega samfelld, en eyðurnar eru léttvægar samanborið við það, sem þegar hefur verið rennt traustum stoðum undir, og með hverju árinu sem líður er betur í þær fyllt. Og hvernig ættu líka sannanir í smáatriðum að vera öðruvísi en ófullkomnar, þegar haft er í huga, að þýðingarmestu vísindagreinar – stjarnfræði, geimvísindi, efnafræði og jarðfræði – eiga sér vart aldar tilvist sem vísindagreinar, og samanburðaraðferðin í lífeðlisfræði er vart fimmtíu ára gömul, og grundvallarform nær allrar lífrænnar þróunar, fruman, er uppgötvun, sem enn á sér ekki fjörutíu ára sögu.

--------

Hinar óteljandi sólir og sólkerfi í geimþoku okkar, sem takmarkast af yztu stjarnþyrpingum Vetrarbrautarinnar, urðu til við samdrátt og kælingu úr þeysandi og glóandi lofttegundum, en hreyfingarlögmál þeirra verða ef til vill uppgötvuð eftir að athuganir í nokkrar aldir hafa veitt okkur innsýn inn í hina raunverulegu hreyfingu stjarnanna. Greinilegt er, að þessi þróun fylgist ekki alls staðar að. Tilvist dimmra hnatta, ekki aðeins reikistjarna, heldur útkulnaðra sólna í sólkerfi okkar, virðist æ sennilegri í augum stjörnufræðinga (Mädler). Hins vegar (að dómi Secchi) tilheyrir hluti af ljósþokunum sólkerfi okkar sem ófullgerðar sólir, en þar með er ekki útilokað að aðrar geimþokur, séu, eins og Mädler staðhæfir, fjarlægar, sjálfstæðar vetrarbrautir, en afstætt þróunarstig þeirra verður að ákvarðast með litrófsathugunum.

Laplace hefur sýnt fram á það í smáatriðum betur en nokkur annar til þessa, hversu sólkerfi þróast úr efni einstakrar geimþoku; síðari tíma vísindi hafa staðfest sjónarmið hans í æ ríkari mæli.

Á hinum einstöku hnöttum, sem þannig myndast, – sólum jafnt sem reikistjörnum og tunglum þeirra, – er sá hreyfingarháttur efnisins í fyrstu ríkjandi, sem við köllum hita. Um efnasam-

bönd frumefnanna getur alls ekki verið að ræða, jafnvel ekki við hitastig eins og það, sem enn ríkir á sólinni. Áframhaldandi athuganir á sólinni munu leiða í ljós, að hve miklu leyti hiti breytist í raforku eða segulorku við slíkar kringumstæður. Það má þegar heita sannað, að sú mekaníska hreyfing, sem á sér stað á sólinni, er aðeins ávöxtur af togstreitu milli hita og aðdráttarafls.

Því smærri sem hinir einstöku hnettir eru, þeim mun fljótar kólna þeir. Tungl, smástirni og loftsteinar kólna fyrst allra, rétt eins og tunglið okkar, sem löngu er útkulnað. Reikistjörnurnar kólna hægar, og miðhnötturinn hægast allra.

Með áframhaldandi kælingu verður samspil hinna eðlisfræðilegu hreyfingarhátta, sem breytast hver í annan, stöðugt meira áberandi, unz að lokum því stigi er náð, þar sem efnafræðileg ættartengsl fara að gera vart við sig, þar sem áður óvirk frumefni verða efnafræðilega virk, eitt af öðru, fá efnafræðilega eiginleika og ganga í sambönd sín á milli. Þessi sambönd breytast stöðugt með lækkandi hitastigi, sem hefur misjöfn áhrif, ekki bara á hvert frumefni, heldur líka á hvert einstakt frumefnasamband, og þau breytast líka í framhaldi af þessu, þannig að hluti lofttegundanna kemst í fljótandi og síðar fast ástand, og við þær nýju aðstæður, er þar með skapast.

Það tímabil, er plánetan hefur fast yfirborð, og vatn safnast á yfirborð hennar, fellur saman við það skeið, er eigin hiti hennar minnkar æ meir í samanburði við þann hita, sem henni berst frá miðhnettinum. Lofthjúpur hennar verður vettvangur veðurfræðilegra afla, í þeim skilningi sem við nú leggjum í það hugtak. Yfirborð hennar verður vettvangur jarðfræðilegra breytinga, þar sem setlög mynduð við veðrun hafa vaxandi þýðingu umfram smám saman minnkandi ytri áhrif frá hinum hvítglóandi og fljótandi iðrum.

Og loks ef slíkur jöfnuður kemst á hitastigið á verulegum hluta yfirborðsins, að það fer ekki yfir þau takmörk, sem lífvænleg eru fyrir eggjahvítu, þá myndast lifandi frymi, svo fremi önnur efnafræðileg skilyrði séu hagstæð. Hver þessi skilyrði eru, vitum við ekki enn þá, sem ekki er að undra, þar eð enn hefur jafnvel ekki tekizt að finna efnafræðiformúlu eggjahvítu, – við vitum ekki einu sinni, hversu mörg efnafræðilega ólík eggjahvítuefni eru til, – og þar eð aðeins um áratugur er liðinn síðan sú staðreynd varð ljós, að algjörlega formlaus eggjahvíta annast um öll þýðingarmestu lífsstörfin: Meltingu, losun úrgangsefna, hreyfingu, samdrátt, viðbrögð og æxlun.

Þúsundir ára kunna að hafa liðið, áður en skilyrði sköpuðust fyrir næsta skrefið fram á við, er þessi formlausa eggjahvíta gat

skapað fyrstu frumuna með myndun kjarna og frumuhýðis. En þessi fyrsta fruma lagði líka grunninn að myndunarsögu alls lífheimsins; af hinum fjölmörgu sviplíku steingervingafundum er heimilt að álykta, að fyrst hafi þróazt óteljandi tegundir forfrumunga og einfrumunga, en af þeim hefur Eozoon canadense[1] ein skilað sér til okkar tíma. Sumar tegundir þessara frumlífvera hafa smám saman breytzt í fyrstu plöntur og aðrar í hin fyrstu dýr. Og frá fyrstu dýrunum þróuðust, einkum með frekari sundurgreiningu, hinir fjölmörgu flokkar, ættbálkar, ættir, ættkvíslir og tegundir dýra; og að síðustu hryggdýrin, lífverurnar með háþróaðast taugakerfi; og meðal þeirra að lokum það hryggdýr, þar sem náttúran verður meðvitandi um sjálfa sig, – maðurinn.

Einnig maðurinn er til orðinn við sundurgreiningu. Ekki aðeins einstaklingslega séð við sundurgreiningu úr einu eggi til flóknustu lífveru, sem náttúran skapar, – nei, líka sagnfræðilega. Þegar aðgreining handa og fóta og uppréttur gangur loks var orðinn að veruleika eftir árþúsunda baráttu, hafði maðurinn greinzt frá apanum og grundvöllur var fenginn fyrir þróun talaðs máls og hina stórkostlegu þróun heilans, sem upp frá því hefur gert djúpið milli manns og apa óbrúanlegt. Sérhæfing handarinnar, hún þýðir *verkfæri,* og verkfærið þýðir hina sérstæðu mannlegu athöfn, umbreytandi gagnverkan mannsins á náttúruna, framleiðsluna. Dýrin í þrengri merkingu hafa líka verkfæri, en aðeins sem útlimi á eigin líkama: Maurinn, býflugan, bjórinn. Einnig dýrin framleiða, en framleiðsluáhrif þeirra á náttúruna umhverfis þau eru sama sem engin. Manninum einum hefur tekizt að setja mark sitt á náttúruna, ekki aðeins með flutningi plantna og dýra úr einum stað í annan, heldur einnig með því að breyta með þeim ásýnd landsins og loftslagi á dvalarstað sínum og jafnvel plöntunum og dýrunum sjálfum, svo að afleiðingarnar af starfsemi hans geta aðeins horfið með allsherjar eyðingu jarðarinnar. Og þessu hefur honum tekizt að koma í kring öllu öðru fremur með hendinni. Jafnvel gufuvélin, sem fram til þessa er voldugasta tæki mannsins til að umbreyta náttúrunni, er háð hendinni, af því að hún er tæki. En þróun handarinnar fylgdi stig af stigi þróun heilans; vitundin kom, sem fyrsta skilyrði þess að ná hagnýtum árangri á einstökum sviðum, og síðar í framhaldi af þessu skilningur á lögmálum náttúrunnar, hjá þeim þjóðum, er bjuggu við hagstæðust skilyrði. Og með ört vaxandi þekkingu á lögmálum náttúrunnar uxu einnig tækifærin til að hafa áhrif

---

[1] *Eozoon canadense:* Steintegund fundin í Kanada, sem talin var steingervingur af fyrstu frumstæðu lífverunum. Árið 1878 afsannaði Karl Möbius lífrænan uppruna þessarar steintegundar. – *Útg.*

á hana; hendinni einni hefði aldrei tekizt að skapa gufuvélina, ef mannsheilinn hefði ekki þróazt í samræmi við hana og með henni og sumpart vegna hennar.

Með manninum göngum við inn á svið *sögunnar*. Dýrin eiga sér líka sögu um upphaf sitt og hægfara þróun til núverandi ástands. En þessi saga er gerð fyrir þau, og að svo miklu leyti sem þau sjálf taka þátt í henni, gerist hún án vitundar þeirra og vilja. En eftir því sem mennirnir hinsvegar fjarlægjast dýrin, í þess orðs þrengri merkingu, þeim mun meir ákvarða þeir sjálfir sína sögu vitandi vits, þeim mun minni verða áhrif ófyrirséðra atriða og óbeizlaðra afla á þessa sögu, og þeim mun betur samsvarar hinn sögulegi árangur fyrirfram ákvörðuðum markmiðum. Ef við hins vegar beitum þessum mælikvarða á mannkynssöguna, jafnvel sögu þróuðustu þjóða nútímans, sjáum við að hér er enn til staðar feikilegt ósamræmi milli áformaðra markmiða og fenginnar niðurstöðu, að ófyrirséð áhrif eru yfirgnæfandi, og að óbeyzluð öfl eru langtum voldugri en þau, sem leyst eru úr læðingi samkvæmt áætlun. Og þetta getur ekki öðruvísi verið svo lengi sem sögulega þýðingarmesta athöfn manna, sú sem hefur lyft þeim frá dýri til manns, og er efnalegur grundvöllur allra annarra athafna þeirra, það er að segja framleiðslan á lífsnauðsynjum, sem er í dag félagsleg framleiðsla, er sérstakur leiksoppur óvæntra áhrifa frá óbeizluðum öflum og nær settu marki fyrir tilviljun eina saman, en skilar miklu oftar þveröfugri niðurstöðu. Í þróuðustu iðnaðarlöndum höfum við náð tökum á náttúruöflunum og þröngvað þeim í þjónustu mannkynsins. Á þann hátt höfum við margfaldað framleiðsluna óendanlega mikið, þannig að barn framleiðir nú meira en hundrað fullorðnir áður fyrr. Og hver er árangurinn? Vaxandi eftirvinna og aukin örbirgð fjöldans, og mikið hrun á tíu ára fresti. Darwin vissi ekki hversu bitra ádeilu hann skrifaði um mannkynið og um landa sína sérstaklega, þegar hann sýndi fram á, að frjáls samkeppni, baráttan fyrir tilverunni, sem hagfræðingarnir fagna sem mesta árangri sögunnar, er hið eðlilega ástand í *dýraríkinu*. Aðeins vitræn skipulagning á hinni félagslegu framleiðslu, þar sem framleiðsla og dreifing eru framkvæmd samkvæmt áætlun, getur lyft mannkyninu félagslega yfir hinn hluta dýraríkisins, á sama hátt og framleiðslan almennt hefur gert á sinn sérstæða hátt. Söguleg þróun gerir slíka skipulagningu meira knýjandi með hverjum deginum sem líður, en líka mögulegri með degi hverjum. Með þeim degi mun hefjast nýtt tímabil í sögunni, þar sem mannkynið sjálft, og með mannkyninu öll þess athafnasvið og þá sérstaklega náttúruvísindin, mun lifa framfarir, svo miklar að allt það sem á undan er gengið bliknar.

Engu að síður, „allt það sem fæðist á skilið að deyja“.[1] Milljónir ára kunna að líða, hundruð þúsunda kynslóða fæðast og deyja, en óhjákvæmilega mun sá tími koma, er minnkandi varmi sólarinnar nægir ekki lengur til að bræða þann ís, sem ryður sér braut frá heimskautunum; þegar mannkynið, sem þjappað hefur sér æ meira saman við miðbaug, mun að lokum jafnvel þar ekki finna nægan hita til að halda lífi; þegar jafnvel síðasti lífsvottur hverfur smátt og smátt; og jörðin, útkulnaður, freðinn hnöttur eins og tunglið, mun hverfa í kolniðamyrkri í stöðugt þrengri hringjum umhverfis jafn kulnaða sól, og að síðustu renna saman við hana. Aðrar plánetur munu verða fyrri til, enn aðrar munu fylgja á eftir. Í stað hins bjarta og hlýja sólkerfis með samræmdri niðurröðun, mun aðeins kaldur, dauður hnöttur enn þræða sinn einmanalega stig um geiminn. Og það sem á eftir að henda okkar sólkerfi, mun fyrr eða síðar henda öll önnur kerfi í okkar vetrarbraut, mun gerast hjá öllum sólkerfum allra hinna óteljandi vetrarbrauta, jafnvel hjá þeim, sem aldrei skila ljósi sínu til jarðar á meðan þar er enn mannlegt auga til að veita því móttöku.

Og þegar slíkt sólkerfi hefur lokið sinni lífsgöngu og deilir sköpum með öllu forgengilegu, er búið og dautt, hvað þá? Mun lík sólarinnar snúast áfram sem slíkt til eilífðarnóns um ómælisgeiminn og öll þau náttúruöfl, sem áður voru svo óendanlega margbreytilega sundurgreind, hverfa að fullu í eitt einasta hreyfingarform aðdráttaraflsins? „Eða“, – eins og Secchi spyr (bls. 810) – „eru til þau öfl í náttúrunni, sem fá endursnúið þessu dauða kerfi í sitt upprunalega ástand glóandi geimþoku og endurvekja það til nýs lífs? Við vitum það ekki“.

Í öllu falli vitum við það ekki í sama skilningi og við vitum að $2 \times 2 = 4$, eða að aðdráttarafl efnisins eykst og minnkar í hlutfalli við annað veldi fjarlægðarinnar. En í fræðilegum náttúruvísindum, sem skipa eftir föngum viðhorfum sínum til náttúrunnar í samræmda heild, – en án slíkrar heildarsýnar í dag kemst jafnvel hinn hugsunarlausasti raunhyggjumaður í strand, – verðum við mjög oft að reikna með lítt þekktum stærðum; og rökræn niðurstaða hugsunarinnar hefur á öllum tímum þurft að aðstoða við að brúa bil í þekkingu okkar. Nútíma náttúruvísindi hafa orðið að þiggja frá heimspekinni lögmálið um óforgengileik hreyfingarinnar. (Engels notar víða orðið hreyfing, þar sem í dag er fremur talað um orku, en þó í víðtækari merkingu. – Þýð.). Þau komast ekki lengur af án þessa lögmáls. En hreyfing efnisins er ekki eingöngu gróf, mekanísk hreyfing, eingöngu

[1] Mephistopheles í Fást eftir Goethe. – *Útg.*

tilfærsla úr stað; hún er hiti og ljós, raforka og segulorka, sameining og sundrun efna, líf og loks vitund. Fullyrðingar um, að efnið hafi á öllum sínum langa tilvistartíma aðeins einu sinni, og ómælanlega stutta stund miðað við eilífa tilvist sína, verið fært um að sundurgreina hreyfingu sína og opinbera með því alla auðlegð þessarar hreyfingar, og sé síðan fyrr og síðar takmarkað um alla eilífð eingöngu við tilfærslu úr stað, – þetta jafngildir því að halda því fram, að efnið sé dauðlegt og hreyfingin hverful. Óforgengileiki hreyfingarinnar getur ekki aðeins tekið til megindar, heldur hlýtur einnig að taka til eðliseiginda. Efni, sem með mekanískri tilfærslu einni saman felur í sér þann möguleika að breytast við hagstæð skilyrði í hita, rafmagn, efnaorku og líf, en er ekki fært um að skapa þessi skilyrði af eigin rammleik, slíkt efni hefur *glatað hreyfingu sinni;* hreyfing, sem hefur tapað hæfileikanum til að breytast í hin ýmsu form, sem henni eru eðlislæg, getur vissulega enn búið yfir *dynamis,*[1] en ekki *energeia,*[2] og hefur þannig að nokkru verið eytt. Hvort tveggja er hins vegar óhugsandi.

Svo mikið er þó víst: Eitt sinn hafði vetrarbraut okkar umbreytt svo miklu hreyfingarmagni, – hverrar tegundar vitum við ekki, – í hita, að úr því var hægt að mynda sólkerfin, sem (samkvæmt Mädler) hafa að geyma að minnsta kosti tuttugu milljónir stjarna, en útkulnun þeirra er einnig jafn vís. Hvernig átti þessi umbreyting sér stað? Við vitum jafn lítið um það og faðir Secchi veit, hvort framtíðar caput mortuum[3] sólkerfis okkar muni nokkru sinni aftur verða breytt í hráefni fyrir ný sólkerfi. En hér verðum við annaðhvort að leita athvarfs hjá skaparanum, eða við erum neydd til að draga þá ályktun, að hið glóandi hráefni í sólkerfum vetrarbrautar okkar hafi myndazt á náttúrulegan hátt með ummyndun hreyfingar, sem er hinu síkvika efni *samkvæmt náttúrulögmálum eðlislæg,* og skilyrðin til slíkrar ummyndunar endurskapist af efninu, jafnvel þótt það verði fyrst eftir margar milljónir ára, meira eða minna fyrir tilviljun, en með þeirri nauðsyn, sem einnig tilviljunin felur í sér.

Möguleiki slíkrar umbreytingar er viðurkenndur í æ ríkara mæli. Menn eru komnir á þá skoðun, að himinhnettirnir séu óhjákvæmilega til þess dæmdir að renna saman, og það hefur jafnvel verið reiknað út það hitamagn, sem hlýtur að myndast við slíka árekstra. Hin skyndilega uppljóman nýrra stjarna, og sams konar skyndileg aukning á ljósstyrk þekktra stjarna, sem

[1] *Dynamis:* dulin orka. – *Útg.*
[2] *Energeia:* virkni. – *Útg.*
[3] *Caput mortuum:* Eftir orðanna hljóðan – dautt höfuð; hér í merkingunni lík eða leifar. – *Útg.*

við höfum fengið vitneskju um frá stjörnufræðinni, er helzt skýranleg með slíkum árekstrum. Það er ekki aðeins að hópur reikistjarna okkar snúist kringum sólu og sól okkar innan Vetrarbrautarinnar, heldur hreyfist líka öll vetrarbraut okkar í geimnum í tímabundnu, afstæðu jafnvægi við hinar vetrarbrautirnar; því að jafnvel afstætt jafnvægi frjálst svífandi hnatta fær aðeins staðizt, þar sem um gagnkvæmt skilyrta hreyfingu er að ræða; og það er talið af mörgum, að hitastigið í geimnum sé ekki alls staðar hið sama. Við vitum einnig, að fyrir utan ómælanlega lítið brot, hverfur varmi hinna óteljandi sólna í Vetrarbrautinni út í geiminn og hækkar ekki einu sinni hitastig hans um einn milljónasta úr stigi. Hvað verður um þetta óhemju mikla varmamagn? Er því kastað á glæ í eitt skipti fyrir öll í tilraun til að hita geiminn; hefur það raunverulega hætt að vera til, og heldur það áfram að vera til aðeins í fræðilegum skilningi með þeirri staðreynd, að geimurinn hefur hitnað um örlítið brot úr stigi, sem svarar til tölu, er byrjar með tíu eða fleiri núllum? Þessi tilgáta afneitar óforgengileika hreyfingarinnar; hún gerir ráð fyrir að sá möguleiki sé til, að þegar himinhnettirnir renna saman einn af öðrum, breytist öll sú mekaníska hreyfing sem til er, í hita og hann geisli út í geiminn, svo að þrátt fyrir allan „óforgengileika aflsins" hefði öll hreyfing stöðvazt í reynd. (Af tilviljun kemur hér fram, hversu ónákvæmt er orðalagið: óforgengileiki aflsins í stað óforgengileiki hreyfingarinnar). Af þessum sökum komumst við að þeirri niðurstöðu, að á einhvern hátt, sem náttúruvísindin einhvern tíma síðar sýna fram á hver er, hljóti hitinn, sem geislar út í geiminn, að vera fær um að breytast í annað hreyfingarform, sem hann geti á ný safnazt saman í og gerzt virkur. Og þar með hverfur aðalþrándurinn úr götu fyrir endurumbreytingu kulnaðra sólna í glóandi lofttegundir.

Og raunar er hin síendurtekna röð veralda í óendanlegum tíma aðeins rökræn fullkomnun á samtilvist óteljandi heima í óendanlegu rúmi, – staðhæfing, sem jafnvel hinn andfræðilegi ameríski heili Drapers var neyddur til að fallast á.[1]

Það er eilíf hringrás, sem efnið snýst í, hringrás, sem lýkur víst einum snúningi á tímabili, sem jarðár okkar er ekki fullnægjandi mælikvarði fyrir, hringrás, þar sem tímabil hinnar æðstu þróunar, tími lífsins og enn frekar tímabil þeirra lífvera, sem meðvitandi eru um sjálfa sig og náttúruna, er jafn naumt skammtað eins og rúmið, þar sem líf og sjálfsvitund verða virk. Hringrás, þar sem sérhver endanlegur tilveruháttur efnis-

[1] „Margfeldi veralda í óendanlegum geimi leiðir af sér skoðunina um röð veraldar í óendanlegum tíma". Draper, Hist. Int. Devel. II, (bls. 325). – Aths. Engels.

ins, hvort sem það er sól eða geimþoka, einstakt dýr, dýraættkvísl, sameining efna eða sundrun, er jafn forgengilegur, og þar sem ekkert er eilíft annað en efnið, sem breytist og hreyfist um alla eilífð, svo og lögmálin er ráða þeirri hreyfingu og breytingu. En hversu oft og hversu miskunnarlaust sem þessum hring er lokað í tíma og rúmi, hversu margar milljónir sólna og jarða sem kunna að sjá dagsins ljós og hverfa, hversu langan tíma sem það kann að taka, áður en lífsskilyrði eru sköpuð innan eins sólkerfis jafnvel á einni einustu plánetu, hversu ótölulega margar lífverur sem verða að ryðja brautina og hverfa, áður en dýr með heila, sem fær er um að hugsa, þróast upp úr skauti þeirra og finna um stutta stund hagstæð lífsskilyrði, aðeins til þess síðar að verða miskunnarlaust gjöreytt, höfum við samt þá vissu, að efnið verður að eilífu hið sama í öllum sínum umbreytingum, að engin af grunneigindum þess getur nokkru sinni glatast, og því vitum við einnig, að af sömu ósveigjanlegu nauðsyninni og það mun aftur útrýma af jörðinni sínu æðsta sköpunarverki, hinum hugsandi anda, þá verður það að mynda hann á ný einhvers staðar annars, staðar og á öðrum tíma.

Ritað af Engels á árunum 1875–76.
Fyrst gefið út 1925.

FRIEDRICH ENGELS

# Uppruni fjölskyldunnar, einkaeignarinnar og ríkisins

## Formáli fyrstu útgáfu 1884

Kaflar þeir, er hér fara á eftir, eru að vissu leyti framkvæmd á erfðaskráratriði. Það var sjálfur Karl Marx, sem hafði ætlað sér að rekja rannsóknarárangra Morgans í sambandi við niðurstöðurnar af hinni efnalegu söguskoðun sinni, – okkar get ég víst sagt með nokkrum fyrirvara. Hugðist Marx þannig gera lýðum ljóst hið raunverulega inntak í kenningum Morgans. Morgan hafði líka uppgötvað á ný og á sinn hátt hina efnalegu söguskoðun, sem Marx setti fram fjörutíu árum áður. Hann hafði komizt á þessa skoðun af sjálfsdáðum þarna vestur í Ameríku. Og er hann beitti henni við samanburð sinn á hálfsiðunartímabilinu og siðmenningunni, komst hann í meginatriðum að sömu niðurstöðu og Marx. Og svo sem hinir klíkubundnu hagfræðingar í Þýzkalandi hafa árum saman keppzt við að skrifa upp úr Auðmagninu og jafnframt gert allt til að þegja það í hel, þannig hafa og málsvarar hinna „forsögulegu" vísinda í Englandi að sínu leyti hagað sér eins gagnvart riti Morgans, Ancient Society.[1] Þessi bók mín getur ekki orðið nema lítilfjörleg uppbót fyrir það, sem hinum látna vini mínum auðnaðist ekki að gjöra. Ég hef þó undir höndum allrækilegan úrdrátt, sem hann hefur gert úr riti Morgans, ásamt athugasemdum, sem hann hefur gert í því sambandi. Mun ég tilfæra þær, eftir því sem unnt reynist.

Samkvæmt efnalegu söguskoðuninni er það framleiðslan, þ. e. viðhald og endurnýjun lífsins sjálfs, sem kveður endanlega á um gang sögunnar. En þessi „framleiðsla" er sjálf tvíþætt. Annars

[1] Ancient Society, or Researches in the Lines of Human Progress from Savagery, through Barbarism, to Civilization. By Lewis H. Morgan. London Macmillan & Co., 1877. Bókin er prentuð í Ameríku og furðulega erfitt að ná í hana í London. Höfundurinn er dáinn fyrir fáeinum árum. (F. E.)

vegar er það öflun lífsnauðsynja, fæðis, klæða og húsaskjóls og þeirra verkfæra, er til þess þarf. Hins vegar er það framleiðsla á mannfólkinu sjálfu, æxlun og viðhald mannkynsins. Báðar þessar tegundir framleiðslunnar marka þá félagshætti, er menn búa við á hverjum sérstökum stað og söguskeiði. Það, sem ræður, er annars vegar þróunarstig vinnunnar, hins vegar þróunarstig fjölskyldunnar. Því skemmra sem komið er þróun vinnunnar, og eftir því sem afurðirnar og jafnframt þjóðfélagsauðurinn eru minni, því ríkari virðast áhrif ættartengslanna á skipan samfélagsins. En innan þessa samfélags, sem byggt er á frændsemistengslum, vaxa afköst vinnunnar smám saman. Það leiðir svo til séreignar, vöruskipta og eignamunar. Nú er hægt að nytja vinnuafl annarra, og þar með skapast undirstaða að stéttaandstæðum. Þessi nýju þjóðfélagsöfl leitast við kynslóð eftir kynslóð að samræma hina fornu félagsskipan breyttum aðstæðum. En slík samræming reynist ógjörleg, – og það leiðir að lokum til fullkominnar umbyltingar. Það kemur til árekstra milli hinna nýju þjóðfélagsstétta, og ættaþjóðfélagið forna sundrast. Nýtt þjóðfélag kemur í staðinn, og ríkið er umgjörðin, sem heldur því saman. Undirdeildir þess eru ekki ættafélög, sem áður var, heldur staðfélög. Þetta er þjóðfélag, þar sem eignaskipanin ræður algjörlega högum fjölskyldunnar. Og nú þróast að fullu þær stéttaandstæður og stéttaátök, sem verið hafa inntak hinnar *rituðu* sögu allt til þessa.

Hið mikla afrek Morgans er í því fólgið, að hann uppgötvaði meginþætti þeirrar forsögu, sem er undirstaða og forsenda hinnar rituðu sögu okkar. Og í ættafélögum rauðskinnanna amerísku fann hann ráðningu á helztu ráðgátunum í fornsögu Grikkja, Rómverja og Þjóðverja. En þær gátur höfðu verið óráðandi fram til þess tíma. Bók hans varð heldur ekki til á einni nóttu. Hann glímdi við efnið í fjörutíu ár, unz honum tókst loks að ná fullum tökum á því. Þess vegna er líka rit hans eitt þeirra fáu verka á okkar dögum, sem marka tímamót.

Lesandanum mun veitast auðvelt að greina á milli þess, sem tekið er úr Morgan, og viðbótanna frá mér, í köflum þeim, sem hér fara á eftir. Að því er tekur til þáttanna um sögu Grikklands og Rómar, hef ég ekki einskorðað mig við gögn Morgans, heldur bætt þar við, eins og kostur var á. Kaflarnir um Kelta og Þjóðverja eru að mestu frumsamdir af mér. Morgan hafði naumast til umráða nema annars flokks heimildarit um þessi efni. Og að því er til Þýzkalands kemur, hafði hann – auk Tacitusar – aðeins lélegar sögufalsanir í frjálslyndisstíl eftir hr. Freeman. Ég hef endursamið algerlega alla þætti hagsögulegs efnis. Þeir nægðu þeim tilgangi, sem þeim var ætlaður í verki Morgans, en

voru allsendis ónógir fyrir mig. Að lokum vil ég taka fram, að ég er að sjálfsögðu ábyrgur fyrir öllum þeim ályktunum, sem hér eru dregnar, svo fremi að þess sé ekki skilmerkilega getið, að vitnað sé í Morgan.

## Formáli að fjórðu útgáfu 1891

Eldri upplög af þessari bók, sem voru allstór, eru nú gengin til þurrðar fyrir allt að hálfu ári. Og langt er síðan forleggjarinn fór fram á, að ég tæki að mér að búa nýja útgáfu til prentunar. En brýnni verkefni hafa kallað að, svo að ég hef ekki getað sinnt því fram að þessu. Sjö ár eru liðin, síðan fyrsta útgáfan kom út, og hafa aukið drjúgum þekkingu okkar á hinum elztu fjölskylduháttum. Hér þurfti því að leitast við að bæta um og auka í og það því fremur, sem í ráði er að steypuprenta þennan texta, svo að mér verður ókleift að breyta honum frekar um hríð.

Ég hef farið vandlega yfir allan textann og fellt inn í hann nokkrar viðbætur. Vona ég, að þar með sé tekið nógsamlega tillit til afstöðu vísindanna, eins og hún er nú. Síðar í þessum formála rek ég einnig í megindráttum, hversu kenningarnar um sögu fjölskyldunnar hafa þróazt allt frá Bachofen til Morgans. Geri ég það einkum vegna þess, að hin þjóðskrumskennda stefna ensku forsögufræðinganna gerir sér allt far um að dylja þá byltingu í forsögufræðinni, sem uppgötvanir Morgans hafa valdið. Á hinu leytinu kinoka þessir sömu forsögufræðingar sér ekkert við því að færa sér í nyt rannsóknarárangra Morgans. Sums staðar annars staðar láta menn sér einnig helzt til annt um að fylgja þessu fordæmi.

Þetta rit mitt hefur verið þýtt á ýmsar erlendar tungur. Fyrst var því snúið á ítölsku: L'origine della famiglia, della proprietá privata e dello stato, versione riveduta dall' autore di Pasquale Martigneti: Benevento 1885. Þá kom út rúmensk þýðing: Origina familei, proprietatei private si a statului, traducere de Joan Nadejde, í Jassy-tímaritinu Contemporanul, frá september 1885 fram í maí 1886. Þá dönsk þýðing: Familjens, Privatejendommens og Statens Oprindelse, Dansk, af Forfatteren gennemgaaet Udgave, besørget af Gerson Trier, København 1888. Frönsk þýðing eftir Henri Ravé er nú í prentun, og er hún lögð til grundvallar við þessa útgáfu.

Allt fram um 1860 er ekki um neina sögu fjölskyldunnar að ræða. Á því sviði stóðu söguvísindin enn sem komið var algerlega undir áhrifum Mósebókanna fimm. Ættfeðrafjölskyldunni er þar

rækilegar lýst en annars staðar, og menn töldu, að þessir fjölskylduhættir væru hinir elztu. Og meira en það. Álitið var, að þetta fjölskyldusnið svaraði alveg til borgaralegrar fjölskyldu nútímans, að fjölkvæninu undanskildu, svo að fjölskyldan hafði í rauninni ekki tekið neinni sögulegri þróun. Það var hámarkið, að menn viðurkenndu, að handahófsmök kynnu að hafa tíðkazt á tímabili einhvern tíma í forneskju. Auk sérhjúskaparins höfðu menn kynni af austurlenzku fjölkvæni og indversk-tíbetsku fjölveri. En ókleift reyndist að skipa þessum þrenns konar fjölskylduháttum í þróunarsögulega röð, þar var ekkert samhengi né tengsl á milli. Menn vissu reyndar, að sumar fornþjóðir og ýmsar villiþjóðir núlifandi röktu kyn sitt aðeins í kvenlegg, en ekki í karllegg, og töldu þannig kvensiftina eina gilda. Kunnugt var einnig, að með ýmsum nútímaþjóðflokkum voru bannaðar giftingar innan ákveðinna hópa fólks, sem voru allstórir, en lítt rannsakaðir enn sem komið var. Menn vissu og, að þessi siður var útbreiddur um allar álfur.

Um þessar staðreyndir allar var mönnum kunnugt, og safnað var æ fleiri dæmum af þessu tagi. Hins vegar kunnu menn ekkert með þau að fara. – Í bók E. B. Tylors, Researches into the early History of Mankind ...[1] (1865) eru þessir „furðulegu siðir", sem hann kallar svo, nefndir í sömu andránni og bann ýmissa frumstæðra þjóðflokka við því að snerta brennandi við með járnverkfæri – og aðrar trúarhégiljur álíka. Enn var þetta ekki lengra komið.

Kenningar um þróunarsögu fjölskyldunnar eru fyrst settar fram árið 1861, er „Mutterrecht" (Móðurréttur) Bachofens kemur út. Skoðanir höfundar eru í meginatriðum þessar: 1) að í upphafi hafi samlífi og mökum kynjanna ekki verið settar neinar skorður, – og nefnir hann það heterisma eða fylgilag, sem er rangnefni. 2) Þessar aðstæður valda því, að faðernið verður með öllu óvíst og ættir því aðeins raktar í kvenlegg – eftir móðurrétti, – og var sú venjan upphaflega með öllum fornþjóðum. 3) Af þessu leiddi, að konurnar nutu mikillar virðingar og álits, þar eð þær voru jafnframt mæður – og hið eina foreldri yngri kynslóðarinnar, er vitað var um með vissu. Þessi virðing kvenna leiddi til fullkomins kvenríkis (gynokrati), að því er Bachofen taldi. 4) Þegar tekinn var upp sérhjúskapur, þar sem konan tilheyrði aðeins einum manni, var þar með brotið eldfornt trúarboðorð. (Það var sem sé brot á rétti hinna karlmannanna til sömu konunnar). Fyrir þetta brot varð að friðþægja, það varð að bæta fyrir það – að menn yndu því – með því að konurnar gæfu sig körlum á vald um ákveðinn, takmarkaðan tíma.

[1] Rannsóknir á frumsögu mannkynsins.

Þessum staðhæfingum sínum til sönnunar hefur Bachofen tínt til ótal heimildarstaði úr forngrískum og rómverskum ritum – og gert það af dæmafárri elju. Hann lítur svo á, að þróunin frá heterisma til einkvænis og móðurrétti til föðurréttar eigi rót sína í breyttum trúarhugmyndum og eigi þetta einkum við um Grikki. Nýjum guðum, sem séu fulltrúar hins nýja hugsunarháttar, sé skotið inn í sveit hinna fornu goða, sem voru málsvarar hinna arfteknu hugmynda, og sé þeim þokað þannig æ meir til hliðar. Það er því ekki þróun hinna raunverulegu lífsskilyrða mannanna, sem að dómi Bachofens veldur hinum sögulegu breytingum á félagslegri afstöðu kynjanna. Heldur er orsökin trúarlegt endurskin þessara lífsskilyrða í huga þessara sömu manna. Það er í samræmi við þetta, að Bachofen lítur svo á, að Oresteia[1] Æskylusar sé áhrifamikil lýsing á baráttunni milli hnignandi móðurréttar og föðurréttarins, sem fór að láta til sín taka á hetjuöld og varð þá sigursæll. Klytemnestra hafði drepið mann sinn Agamemnon, er hann kom heim úr Trójustríðinu, og gerði hún það vegna friðils síns Egistusar. En Orestes, sonur Agamemnons, hefnir föðurmorðsins og vegur móður sína. Því er það, að „erinnyurnar" ofsækja hann. Þær eru verndardísir móðurréttarins og mjög trylltar. En samkvæmt móðurrétti er móðurmorð hinn versti allra glæpa og óbætandi með öllu. Apollo hafði hvatt Orestes til þessa verknaðar með véfrétt sinni, og hann verndar hann. Slíkt hið sama gerir Aþena, sem kvödd var til að dæma í málinu. Bæði þessi goð eru fulltrúar hins nýja skipulags, föðurréttarins. Deilumálið speglast allt í viðræðunum milli Orestesar og „erinnyanna". Orestes skírskotar til þess, að Klytemnestra hafi framið tvöfaldan glæp, hún hafi drepið eiginmann sinn og jafnframt föður sinn. Hvers vegna voru „erinnyurnar" að ofsækja hann, en ekki hana, sem væri margfalt sekari? Svarið er ótvírætt.

„Hún var *ekki blóðskyld* manninum, sem hún deyddi."

„Erinnyurnar" láta sér það óviðkomandi, þótt víg sé framið á óblóðskyldum manni, og eins þótt eiginkona hans hafi unnið það. Í þeirra verkahring er það eitt að refsa fyrir frændvíg, og samkvæmt móðurrétti er móðurmorð hið versta og óafmáanlegasta afbrot, er hugsazt getur. En nú kemur Apollo og gerist verjandi Orestesar. Aþena lætur Areopagitana, meðdómendurna aþensku, greiða atkvæði um málið. Jafnmörg atkvæði eru greidd með sýknun og sakfellingu. Aþena er í dómsforsæti og greiðir nú sjálf atkvæði Orestesi í vil, og er hann þar með dæmdur sýkn saka. Föðurrétturinn hefur sigrazt á móðurréttinum. „Hin ungu goð",

[1] Eitt helzta leikrit Æskylusar.

sem „erinnyurnar“ kalla svo, hafa unnið sigur á þeim, – og þær fallast að lokum á að takast á hendur nýtt hlutverk í þjónustu hins nýja skipulags.

Þessi nýja túlkun á Oresteiu er eitt hið fallegasta og bezta í bókinni – og hún er tvímælalaust rétt. En hún sýnir jafnframt, að Bachofen trúir engu síður á „erinnyurnar“, Apollo og Aþenu en Æskylus á sínum tíma. Hann trúir því sem sé, að á hetjuöld Grikkja hafi goðin unnið furðuverk, steypt móðurréttinum af stóli og komið á föðurrétti. Augljóst er, að slíkur skilningur hlýtur að hafna í fullkominni dulrænu, með því að trúarbrögðin eru hér gerð að meginhreyfli veraldarsögunnar. Það er því heldur leiðigjarnt verk að lesa sig fram úr hinum þykka doðrant Bachofens – og gefur ekki alltaf mikið í aðra hönd. En það dregur að engu leyti úr afreki hans og brautryðjandastarfi. Fyrr meir höfðu menn gjálfrað um eitthvert óþekkt frumskeið, er samlíf kynjanna hefði verið af fullkomnu handahófi. Bachofen var fyrstur til að sanna, að í fornum ritum eru ótal minjar þess, að áður en sérhjúskapur hófst, hafi það tíðkazt bæði með Grikkjum og Asíuþjóðum, að sami maður ætti margar konur – og það sem meira er, konan gæti átt mök við marga karlmenn, án þess að brjóta í nokkru í bága við gildandi siðareglur. Og hann færði sönnur á, að leifar þessara fornu siðvenja hefðu haldizt í tímabundnu blíðuframsali kvenna, en því verði urðu þær að kaupa rétt sinn til sérhjúskapar. Af öllu þessu leiddi hins vegar það, að ættir urðu aðeins raktar í móðurkyn, – og helzt þetta einveldi kvenleggsins lengi, eftir að sérhjúskapur var kominn á – og faðernið tryggt eða a. m. k. viðurkennt. Mæðurnar voru sem sé hið eina foreldri barnanna, er vitað varð um með vissu. Og Bachofen sýndi fram á, að þessi frumaðstaða mæðranna tryggði þeim og öðrum konum æðri sess í þjóðfélaginu en þær hafa skipað nokkurn tíma síðar. Reyndar setti Bachofen þessar kenningar sínar ekki svona skýrt fram – dulýðgisviðhorf hans kom í veg fyrir það. En hann færði sönnur á þær, og á því herrans ári 1861 táknaði það algera byltingu.

Hinn mikli doðrant Bachofens var saminn á þýzku, máli þeirrar þjóðar, sem þá hafði minnstan áhuga á forsögu nútíma fjölskylduhátta. Bók hans varð því ekki kunn. Sá, sem næst lét þessi mál til sín taka, en það var 1865, hafði aldrei heyrt getið um Bachofen.

Þessi eftirmaður hans hét J. F. MacLennan og var alger andstæða fyrirrennara síns. Hér var kominn uppþornaður lögfræðingur í stað hins snjallgáfaða dulspekings. Í stað gegndarlauss skáldlegs hugarflugs komu líkindaútreikningur og sennileikatengsl málaflutningsmannsins.

MacLennan uppgötvaði, að með ýmsum þjóðflokkum var það tíðkað að stofna þannig til hjónabandsins, að brúðguminn varð að ræna brúðinni frá ættingjum hennar – svona til málamynda – ýmist einn síns liðs eða með aðstoð vina sinna. Var þetta algengt með ýmsum villtum og hálfsiðuðum þjóðflokkum og kom meira að segja fyrir með siðmenntuðum þjóðum, bæði að fornu og nýju. Þessi siður hlaut að vera leif frá eldri tímum, er karlmennirnir í ættflokknum rændu sér konum úr öðrum ættflokkum með ofbeldi. En hvernig eru þessi brúðarrán til komin? Alls engin ástæða var til slíks, meðan karlmennirnir áttu völ á nógum konum í sínum eigin ættflokki. Nú er það hins vegar staðreynd, að með frumstæðum þjóðflokkum eru til ýmsir hópar fólks, sem mega ekki giftast sín á milli. (Um 1865 var oft enginn munur gerður á þessum hópum og sjálfum ættflokknum). Karlar verða því að leita sér eiginkvenna utan síns hóps og konurnar eiginmanna. Með öðrum þjóðflokkum er venjan hins vegar sú, að karlmenn í einhverjum slíkum hóp mega aðeins velja sér konur innan hans. Fyrri hópana kallar MacLennan útvenzlaða (exogam), en þá síðarnefndu innvenzlaða (endogam). Hann býr síðan til umsvifalaust einhverja óbrúandi andstæðu milli innvenzlaðra og útvenzlaðra „ættflokka". Reyndar rekur hann sig beinlínis á það í rannsókn sinni á útvenzlunum, að þessi andstæða er óvíða jafnvel hvergi fyrir hendi, nema í hans eigin ímyndun. Engu að síður gerir hann hana að undirstöðu allra kenninga sinna. Samkvæmt henni geta útvenzlaðir ættflokkar ekki aflað sér eiginkvenna nema frá öðrum ættflokkum. Og með því að stöðugt ófriðarástand ríkti milli ættflokka á tímabili villimennskunnar, varð þetta aðeins framkvæmt með ránum.

MacLennan varpar svo fram þeirri spurningu, hvernig á þessum útvenzlum standi. Telur hann, að hugmyndir um blóðsifjar og sifjaspell geti ekki átt neinn þátt í þeim, þar sem þær séu löngu síðar til komnar. Ástæðunnar sé hins vegar að leita í þeim algenga sið villimanna, að sálga meybörnum strax, er þau fæðast. Leiði það til þess, að karlmennirnir í hverjum ættflokki verði miklu fleiri en konurnar, af því stafi svo fjölverið, er margir menn eiga sömu konuna í sameiningu. Afleiðing þess hafi verið, að óvíst varð um faðernið, en móðernið hins vegar öruggt, og hafi því skyldleiki verið rakinn aðeins í kvenlegg, karlsiftinni sleppt – og móðurréttur þannig upp tekinn. Þessi kvennaskortur innan ættflokkanna var engan veginn úr sögunni með fjölverinu, enda þótt hann væri þá ekki eins tilfinnanlegur. Önnur afleiðing hans varð sú, að tekið var að nema á burt konur úr öðrum ættflokkum, og varð þetta að reglu.

„Með því að útvenzl og fjölveri eiga sér sömu orsökina – skort

á tölulegu jafnvægi milli kynjanna – *verðum vér að líta svo á, að allir útvenzlaðir kynflokkar hafi áður búið við fjölveri* ... Vér verðum að telja það óyggjandi, að í fyrsta sifjakerfi útvenzlaðra kynflokka hafi menn aðeins rakið kyn sitt í kvenlegg". (MacLennan: Studies in the Ancient History, 1886. Primitive Marriage bls. 124)[1]

Verðleikar MacLennans liggja í því, að hann hefur bent á hina almennu útbreiðslu útvenzlanna, sem hann svo kallar, og sýnt fram á mikilvægi þeirra. Reyndar er það ekki hann, sem hefur uppgötvað, að til eru útvenzlaðir hópar, og því síður hefur honum tekizt að skilja og skýra þessa staðreynd. Ýmsir eldri könnuðir höfðu getið þessa fyrirbæris í athugasemdum sínum, enda eru það heimildir MacLennans. Auk þess hafði Latham (Descriptive Ethnology 1859)[2] lýst þessháttar fyrirkomulagi hjá indversku Magörunum mjög svo skilmerkilega og látið þess getið, að það væri mjög algengt í öllum álfum heims. MacLennan vitnar meira að segja í þessa umsögn hans. Og Morgan hefur sjálfur rakið þetta fyrirbrigði þegar 1847 í bréfum sínum um Irókesa (í American Review)[3] og 1851 í bók sinni, The League of the Iroquois.[4] Þar hefur hann lýst þessari skipan með Irókesum mjög skilmerkilega. Hitt munum við sjá, að lögfræðingshyggja MacLennans olli sýnu meiri ruglingi á þessu sviði, en dulýðgishugarflug Bachofens á sviði móðurréttarins. Þá má það og reiknast MacLennan til verðugs hróss, að hann komst að þeirri niðurstöðu, að ættarrakning í móðurkyn væri upphaflegust. Bachofen hafði reyndar séð þetta á undan honum, svo sem MacLennan viðurkenndi síðar. Þó er honum þetta fyrirbrigði ekki fyllilega ljóst. Hann talar jafnan um „skyldleika aðeins í kvenlegg" („Kinship through females only"). Þetta orðalag eða skilgreining á við um eldri þróunarstig, en MacLennan notar það einnig um seinni skeið þróunarinnar, þar sem ættartölur og erfðir eru að vísu einungis miðaðar við kvenlegginn, en skyldleiki í karllegg er viðurkenndur og enda táknaður með viðeigandi orðum. Hér er það þröngsýni lögfræðingsins, sem er að verki. Hann býr sér til fast réttarhugtak eða skilgreiningu og notar það síðan óbreytt, þótt breyttar aðstæðu banni það.

Allt um sennileikann, virðist svo sem MacLennan hafi þótt, sem kenning sín væri tæpast nægilega grundvölluð. Honum þykir það að minnsta kosti „athyglisvert", að mest skuli bera á þessum [málamynda] brúðarránum einmitt hjá þjóðflokkum með

[1] Rannsóknir á forsögunni. Frumstæðir fjölskylduhættir.
[2] Þjóðfræðilýsingar.
[3] Amerísk víðsjá.
[4] Bandalag Irókesa.

skyldleika í karllegg. [þ. e. sem rekja kyn sitt í karllegg] (bls. 140). Á öðrum stað segir hann: „Eftirtektarvert er það, að barnamorð eru hvergi almenn, þar sem útvenzl og elzta sifjakerfið fara saman". (bls. 146). Báðar þessar staðreyndir brjóta að fullu í bága við skýringaraðferð MacLennans. Og gegn þeim getur hann engu teflt nema nýjum og enn flóknari tilgátum.

Engu að síður átti kenning hans miklu fylgi að fagna í Englandi. MacLennan var þar almennt talinn sá höfundur, er lagt hefði undirstöðuna að sögu fjölskyldunnar og fremsti fræðimaður á því sviði. Andstæðuhugtök hans, innvenzlaðir og útvenzlaðir „ættflokkar" urðu hin viðurkennda undirstaða ríkjandi kenninga í þessum efnum, enda þótt menn bentu nú á ýmsar undantekningar og afbrigði frá þessum reglum. – Og þessi skoðunarháttur hindraði alla frjálsa yfirsýn yfir rannsóknarefnið og kom þannig í veg fyrir, að veruleg framför gæti átt sér stað. Í Englandi er það orðin venja að ofmeta mjög MacLennan, og hafa aðrir fylgt því fordæmi. Það er því skylt að benda á þá staðreynd, að hin ranga kenning hans um andstæðuna milli útvenzlaðra og innvenzlaðra ættflokka hefur valdið meira tjóni en nemi því gagni, sem orðið hefur að rannsóknum hans.

En nú komu í leitirnar æ fleiri atriði, sem samrýmdust engan veginn kerfi MacLennans. Hann þekkti aðeins þrenns konar hjúskaparhætti: fjölkvæni, fjölveri og sérhjúskap. Og eftir því sem athyglin beindist meir að þessu efni, fjölgaði þeim gögnum, er sönnuðu, að með frumstæðum þjóðum tíðkuðust hjúskaparhættir, þar sem hópar karla og kvenna bjuggu í sameiginlegu hjónabandi. Og í bók sinni (The Origin of Civilization, 1870)[1] viðurkennir Lubbock, að fjölhjúskapurinn (Communal Marriage) sé söguleg staðreynd.

Rétt upp úr þessu, eða 1871, kemur Morgan fram á sjónarsviðið með ný gögn, sem mörg hver hafa úrslitaþýðingu. Hann hefur sannfærzt um, að hið einkennilega sifjakerfi Irókesa sé sameiginlegt öllum frumbyggjum Bandaríkjanna – og taki þannig yfir allt meginlandið. Telur hann, að þessu sé svo farið, enda þótt kerfi þetta sé í beinni mótsögn við þau skyldleikastig, er leiða mundi af þeim fjölskylduháttum, er þar ríkja. Hann fékk nú Bandaríkjastjórn til að afla vitneskju um sifjakerfi annarra þjóða og bjó sjálfur til spurningaeyðublöð í þessu skyni. Af svörunum dró hann eftirtaldar ályktanir. 1) Sams konar sifjakerfi og með rauðskinnunum amerísku tíðkaðist einnig hjá ýmsum þjóðflokkum í Asíu, og einnig í Afríku og Ástralíu, að vísu í nokkuð breyttri mynd. 2) Sú tegund fjölhjúskapar, er tíðkast á Havai

[1] Uppruni siðmenningarinnar.

og öðrum Suðurhafseyjum og nú er að deyja út, getur fyllilega skýrt þetta sifjakerfi. 3) Auk þessara hjúskaparhátta er í gildi á eyjum þessum sifjakerfi, sem aðeins verður skýrt með annarri og enn frumstæðari mynd fjölhjúskapar, og er hún nú útdauð. Morgan birti skýrslur þessar ásamt ályktunum sínum í bók sinni Systems of Consanguinity and Affinity, 1871[1] – og svið það, sem deilumálin tóku til, var þar með orðið margfalt stærra. Morgan gekk út frá sifjakerfunum og fetaði sig þannig til þeirra fjölskylduhátta, er svöruðu til þeirra. Hann ruddi rannsóknunum þar með nýja braut og gerði mönnum fært að skyggnast lengra aftur í forsögu mannkynsins. Ef þessi rannsóknaraðferð hans var viðurkennd, voru hinar snotru hugsmíðar MacLennans þar með að engu orðnar.

MacLennan tók upp vörnina fyrir kenningu sína í annarri útgáfunni af Primitive Marriage (Studies in Ancient History, 1875). Sú þróunarsaga fjölskyldunnar, sem hann hefur samið, er raunar einbert samsafn af tilgátum og margslungin gervismíð. Samt krefst hann þess af Lubbock og Morgan, að þeir færi sönnur á hverja einustu staðhæfingu sína. – Og ekki nóg með það, sannanirnar eiga að vera öldungis bindandi og ótvíræðar, svo sem krafizt er af skozkum dómstóli. Og maðurinn, sem gerir þessar kröfur, er sá hinn sami, sem hikaði ekki við að draga þá ályktun af hinu nána sambandi systursonar og móðurbróður með Germönum (Tacitus, Germania kap. 20) og frásögn Cæsars, um að hverjir 10 eða 12 Bretar hafi átt eiginkonur sínar í félagi, – sem og af öllum öðrum frásögnum fornra rithöfunda um kvennasameign hálfsiðingja – að viðkomandi þjóðflokkar hafi lifað við fjölveri! Þetta minnir helzt á opinberan saksóknara, sem getur tekið sér hvers konar bersaleyfi til að laga málstað sinn, en heimtar hins vegar af verjandanum, að hann sanni hvert orð sitt með fullkomlega lögformlegum og gildum sönnunum.

MacLennan staðhæfir, að fjölhjúskapurinn sé bláber ímyndun. Þar með tekur hann skref aftur á bak, langt aftur fyrir Bachofen. Um sifjakerfi Morgans kemst hann svo að orði, að það sé byggt á hæverskureglum félagslegrar umgengni, – sannist það af því, að rauðskinnar ávarpi líka ókunnuga menn og hvíta sem bræður eða feður. Með sama rétti má staðhæfa, að orð eins og faðir, móðir, bróðir og systir séu merkingarvana ávarpsorð, því að kaþólskir klerkar og abbadísir séu kölluð feður og mæður, og munkar, nunnur og jafnvel frímúrarar séu ávörpuð með orðunum bróðir eða systir, slíkt hið sama enskir iðnfélagar á hátíðlegum fundi. Vörn MacLennans var, í stuttu máli sagt, ákaflega veik og vesöl.

[1] Frændsemi- og venzlakerfi.

Þó var eitt atriði í kenningum hans, sem ekki hafði verið rótað við. Andstæðan milli innvenzlaðra og útvenzlaðra ættflokka stóð enn óhögguð. Þetta hafði verið undirstaðan undir kerfi hans og varð nú almennt viðurkennt sem þungamiðjan í allri sögu fjölskyldunnar. Menn viðurkenndu að vísu, að tilraun MacLennans til að skýra þessa andstæðu væri ónóg og auk þess í mótsögn við þær staðreyndir, sem hann sjálfur hafði til fært. En þessi andstæða var fyrir hendi. Það voru til tvenns konar ættflokkar, sjálfstæðir og háðir. – Karlmennirnir í þeim fyrrnefndu tóku sér eiginkonur innan ættflokksins, en í hinum var slíkt stranglega bannað. – Þetta var talið óvefengjanlegt eins og guðspjöllin sjálf. Má í því sambandi t. d. vísa til Giraud-Teulons: Origines de la famille (1874)[1] og jafnvel Lubbocks: Origin of Civilization (4. útg. 1882).

En nú er það sem höfuðrit Morgans kemur út. Það er Ancient Society (1877),[2] og er það rit undirstaða þessarar bókar. Morgan hefur nú gert sér fullglögga grein fyrir því, sem hann hafði aðeins óljóst hugboð um 1871. Innvenzl og útvenzl eru engar andstæður. Fram til þessa hefur ekki verið hægt að sanna tilvist neinna útvenzlaðra „ættflokka". Sennilegt er, að fjölhjúskapur hafi tíðkazt alls staðar áður fyrr – og þá greindist hver ættflokkur í hópa eða ættsveitir. – Voru meðlimir þeirra blóðskyldir í kvenlegg – og allur hjúskapur þeirra á milli stranglega bannaður. Karlmennirnir í hverri ættsveit urðu þess vegna að leita sér kvenna utan ættsveitarinnar, hins vegar máttu þeir fá sér maka innan ættflokksins og gerðu það venjulega. Ættsveitin var sem sé útvenzluð, – og var því strengilega fylgt, hins vegar var ættflokkurinn, sem tók yfir allar ættsveitirnar, innvenzlaður. Þar með voru leifarnar af gervismíð MacLennans alveg úr sögunni.

En Morgan lét sér þetta ekki nægja. Þekking hans á ættsveitum rauðskinnanna amerísku varð til þess, að hann gerði enn aðra uppgötvun á rannsóknarsviði sínu, sem horfði mjög til framfara. Þessar ættsveitir voru skipulagðar samkvæmt móðurrétti, en Morgan skildist, að þær væru fyrirrennarar föðurréttarættsveitanna, eins og við þekkjum þær úr sögu hinna fornu menningarþjóða. Grísku og rómversku ættsveitirnar höfðu verið fyrri sagnriturum ráðgáta, nú var unnt að skýra þær með hliðsjón af ættsveitum rauðskinnanna, og þar með var lögð ný undirstaða undir alla forsöguna.

Þessi uppgötvun, – að kvenleggsættsveitin sé undanfari föðurréttarættsveita menningarþjóðanna – er jafn mikilsverð fyrir

[1] Uppruni fjölskyldunnar.
[2] Frumþjóðfélagið.

forsöguna og þróunarkenning Darwins fyrir líffræðina og verðmætisaukakenning Marx fyrir þjóðhagfræðina. Hún gerði Morgan fært að semja fyrsta ágripið af sögu fjölskyldunnar, þar sem rakin eru í stórum dráttum helztu þróunarstig hennar a. m. k. eftir því sem núverandi heimildir okkar leyfa. Hitt er öllum ljóst, að hér með hefst nýtt tímabil í forsögulegum rannsóknum. Kvenleggsættsveitin er nú orðin sá möndulás, sem öll þessi fræði snúast um. Eftir að hún var uppgötvuð, vita menn, í hvaða átt og að hverju þeir eiga að beina rannsóknum sínum og hvernig á að flokka árangrana. Það er því að vonum, að nú verði miklu örari framfarir á þessu sviði heldur en áður en bók Morgans kom út.

Uppgötvanir Morgans eru nú almennt viðurkenndar af forsögufræðingum, líka í Englandi. – Líklega er réttara að segja, að þeir hafi tileinkað sér þær. Svo til enginn þeirra viðurkennir það berlega, að það sé Morgan, sem við eigum þessa fræðilegu byltingu að þakka. Í Englandi er reynt að þegja bók hans í hel, sem sem framast er unnt. – Svo eru menn svo lítillátir að víkja að honum nokkrum hrósyrðum vegna *fyrri* afreka hans, og þar með er hann afgreiddur. Menn gera sér far um að hengja sig í einstök atriði í kenningum hans og greinargerð, en streitast við að þegja um þær uppgötvanir hans, sem í sannleika mega heita stórfenglegar. Frumútgáfan af Ancient Society er uppseld. Enginn verulegur markaður er fyrir þess háttar í Ameríku. Svo virðist sem unnið hafi verið á móti sölu bókarinnar í Englandi á kerfisbundinn hátt, og eina útgáfan af þessu stórmerka riti, sem enn fæst í bókabúðum, – er þýzka þýðingin.

Af hverju stafar svo þessi tregða og óframfærni? Það er erfitt að verjast þeirri hugsun, að hér sé um eins konar þagnar-samsæri að ræða, einkum ef hafðar eru í huga hinar óteljandi ívitnanir, sem hinir viðurkenndu forsögufræðingar tilfæra í ritum sínum fyrir kurteisissakir eingöngu, sem og önnur merki lagsmennsku, sem þar er að finna. En hvernig stendur á þessu? Er það vegna þess, að Morgan er Ameríkumaður? Er ástæðan sú, að ensku forsögufræðingunum þyki súrt í broti að þurfa að leita til tveggja snjallgáfaðra útlendinga, eins og Morgans og Bachofens, eftir sögulegum sjónarmiðum – eða hugmyndum til að flokka eftir efni það, sem þeir hafa viðað að sér? – Og þó hafa þeir sýnt svo virðingarverða eljusemi í að safna að sér efnivið. Ef í það færi, væri hægt að sætta sig við Þjóðverjann, en Ameríkumanninn, það var verra. Sérhver Englendingur fær þjóðrembingskast, þegar Ameríkumaður er annars vegar, og hef ég séð mörg og skopleg dæmi þess í Bandaríkjunum. En svo var annað. MacLennan var stofnandi og leiðtogi enska „skólans“ í forsögu-

vísindum, – hann hafði, ef svo má segja – verið skipaður í það embætti. Og í forsögufræðunum þótti það sjálfsagt og viðurkvæmilegt að tala með dýpstu lotningu um hið uppdiktaða kerfi hans, Fjölskyldusöguna, sem hófst á barnamorðum – og endaði á móðurréttarfjölskyldunni, en fjölveri og brúðarrán helztu áfangarnir eða millistigin. – Það var og talin glæpsamleg trúvilla að efast um tilvist innvenzlaðra og útvenzlaðra „ættflokka“ og hina algjöru andstæðu þar á milli. Af þessu er ljóst, að Morgan gerðist sekur um eins konar helgispjöll, er hann tætti þessar heilögu kennisetningar í sundur. Og aðferð hans var svo einföld, að ekki þurfti nema rétt að orða hlutina, þá lá þetta allt í augum uppi. Dýrkendur MacLennans, sem fram til þessa höfðu hrakizt ráðvana milli innvenzla og útvenzla, hlutu því að berja sér á brjóst og hrópa: Hvernig gátum við verið svona heimskir að hafa ekki sjálfir fundið þetta fyrir löngu!

Þessi afbrot máttu vel endast til þess, að hinum „opinbera skóla“ þætti það eitt hlýða, að þögn og kuldi lykju um kenningar Morgans. En svo fyllti Morgan syndamæli sinn enn þá rækilegar. Hann gagnrýndi siðmenninguna, þjóðfélag vöruframleiðslunnar. ekki ólíkt því og Fourier gerði á sínum tíma; en vöruframleiðslan er forsenda og undirstaða þeirra félagshátta, er við nú búum við. Og hann lét ekki þar við sitja, heldur fór hann slíkum orðum um gagngerar framtíðarbreytingar á þessu þjóðfélagi, að Karl Marx gæti vel hafa skrifað þau. Það var því að maklegleikum, er MacLennan bregður honum um það fullur gremju, „að hin sögulega rannsóknaraðferð sé honum alveg á móti skapi“ – og þegar herra Giraud-Teulon tekur undir þetta í Genf 1884. Þessi hinn sami herra Giraud-Teulon hafði sem sé ennþá árið 1874 (Origines de la famille) staðið áttaviltur og bjargarvana í útvenzlaflækjunni hans MacLennans – og Morgan orðið að bjarga honum upp úr feninu.

Ég þarf ekki að rekja hér frekar þau framfaraspor, er Morgan hefur markað í forsögufræðum. Ég vík að því síðar í bókinni, svo sem þörf gerist. Mörg ný gögn um sögu hins elzta samfélags hafa komið fram á þeim 14 árum, sem liðin eru, frá því höfuðrit Morgans kom út. Auk mannfræðinga, ferðalanga og lærðra forsögufræðinga hafa fræðimenn í samanburðarrétti einnig látið til sín taka. Og hafa þeir bæði komið fram með ýmis ný gögn – og ný sjónarmið. Það hefur leitt til þess, að ýmsar einstakar kennisetningar Morgans eru orðnar valtari í sessi, og sumum hefur verið hnekkt. En þessar nýju heimildir hafa ekki gert það nauðsynlegt að breyta í neinu þeim höfuðsjónarmiðum, sem hann setti fram. Niðurskipan sú, er hann hafði á frumsögu mannkynsins, er enn í fullu gildi í höfuðatriðum. Það má svo að

orði kveða, að hún hljóti æ almennari viðurkenningu, jafnframt því sem æ meir er leitazt við að dylja, að það er Morgan, sem við eigum þessa miklu framför að þakka.[1]

London, 16. júní 1891.

Friedrich Engels.

---

[1] Þegar ég var að koma frá New York í september 1888, hitti ég fyrrverandi þingmann Rochesterkjördæmisins, og hafði hann þekkt Morgan. Því miður gat hann ekki frætt mig mikið um hann. Honum sagðist svo frá, að Morgan hefði búið í Rochester og verið einhleypur og ekki fengizt við annað en rannsóknir sínar. Hafi bróðir hans haft offurstatign og starfað hjá hermálaráðuneytinu í Washington. Með atbeina bróður síns hafi Morgan tekizt að vekja áhuga stjórnarinnar á rannsóknum sínum, og ýmis af ritum hans hafi verið gefin út á kostnað hins opinbera. Sjálfur kvaðst söguмaður oft hafa beitt sér fyrir því, meðan hann átti sæti á þjóðþinginu. (F. E.).

Morgan dó 1882, 64 ára að aldri.

# Uppruni fjölskyldunnar, einkaeignarinnar og ríkisins

## I.
## Menningarskeið forsögunnar

Sá heitir Morgan, er fyrstur hefur reynt að flokka nokkuð forsögu mannkynsins af sérþekkingu í þeirri grein. Mun flokkun hans verða í góðu gildi, svo lengi, sem ekki koma fram svo mörg ný gögn og staðreyndir, að nauðsynlegt verði að gera á henni breytingar.

Hann skiptir sögu mannkynsins í þrjú meginskeið eða tímabil: villimennsku, hálfsiðun og siðmenningu. Og að sjálfsögðu fjallar hann aðeins um tvö hin fyrri skeiðin og svo aðdraganda og byrjun hins þriðja. Hverju þessara tímabila skiptir hann síðan í þrjú stig, frum-, mið- og lokastig, og miðar þar við þær framfarir, er orðið hafa í öflun og framleiðslu matfanga. Kveður hann svo að orði, að geta og hæfni á því sviði skeri úr um yfirburði mannsins og að hve miklu leyti hann hafi vald á náttúrunni. „Maðurinn er eina veran, sem öðlazt hefur svo til óskorað vald yfir framleiðslu viðurværis síns. Öll megintímabil mannlegra framfara eiga sér samtíma hliðstæður í aukningu vista og fæðutegunda, þannig að þetta hvort tveggja fer nokkuð saman“.

Þróun fjölskyldunnar fer fram samhliða, en þar eru auðkennin hvorki jafnaugljós né eins takmörkuð við hin ýmsu tímabil.

### 1. Villimennska

1. *Frumstigið.* Það eru bernskuár mannkynsins. Menn hafa þá lifað í trjánum, að minnsta kosti að nokkru leyti, því að einungis þannig verður það skýrt, að þeim skyldi takast að lifa af í nábýli við stóru rándýrin. Þeir munu og þá hafa dvalizt í frumheimkynnum sínum í skógunum í hitabeltinu eða nálægum svæðum. Þeir höfðu aldin, hnetur og rætur sér til matar. Sköpun og mótun málsins er helzti árangur þessa skeiðs. Allir þeir þjóðflokkar, er menn hafa sögur af, hafa verið komnir af þessu stigi

og lengra áleiðis. Það kann að hafa náð yfir margar árþúsundir, en vér höfum engin bein sönnunargögn um tilvist þess. En með því að augljóst er, að maðurinn á ætt sína að rekja til dýranna, verður að gera ráð fyrir þessu millistigi.[1]

2. *Miðstigið* hefst með því, að maðurinn fer að nota fiska sér til matar (og eru þar með taldir krabbar, skelfiskar og önnur lagardýr). Jafnframt tekur hann að notfæra sér eldinn. Er þetta hvort öðru tengt og háð, með því að fiskmetið varð þá fyrst fyllilega neyzluhæft, er eldurinn kom til. En þessi nýju matföng ollu því, að maðurinn varð óháður loftslagi og staðháttum. Menn reikuðu með fram ám og ströndum og gátu breiðzt þannig út um mikinn hluta jarðar, enda þótt þeir væru enn villtir. Illa tegld og óslípuð verkfæri úr steini hafa fundizt í öllum heimsálfum á víð og dreif og eru óræk gögn um ferðalög þessara manna. Verkfæri þessi eða vopn eru kennd við steinöld hina eldri eða paleolitíska tímann[2] og eru öll eða velflest frá þessu tímabili. Menn settust nú að í nýjum jarðbeltum, þeir höfðu lært að slá eld. Átti þetta hvort tveggja sem og sívirk leitarhvöt þeirra þátt í því að auka og auðga vistaforðann. Mjölvamiklar rætur og rótarhnýði voru nú steikt í heitri ösku eða bökunarholum (leirofnum). Fyrstu vopnin, eins og spjót og kylfur, komu til sögunnar, – og voru dýr þannig veidd til matar öðru hverju. Algerar veiðiþjóðir, í líkingu við þær, sem sagt er frá í bókum – og eiga að lifa eingöngu af veiðum – hafa aldrei verið til. Veiðarnar eru ótryggari en svo. Svo virðist sem mannát hafi komið upp á þessu stigi – og þá vegna þess að matbjörgin hefur jafnan verið stopul, en það hélzt svo lengi síðan. Ástralingar og ýmsir þjóðflokkar í Polynesíu standa enn þá á þessu miðstigi villimennskunnar.

3. *Lokastigið* hefst með uppfinningu boga og örva. Veiðidýr verða nú daglegt viðurværi og veiðarnar föst atvinnugrein. Boginn með streng og örvum er allmargbrotið áhald. Að baki þeirrar uppfinningar lá löng og margháttuð reynsla. Þar þurfti að koma til aukin hugkvæmni sem og kynni af ýmsum öðrum uppfinningum. Ef bornir eru saman þjóðflokkar þeir, er kunna á boga, en þekkja ekki til leirkeragerðar, má finna þar ýmis sameiginleg einkenni. (Morgan taldi, að hálfsiðunarskeiðið hæfist með leirkeragerðinni). Helztu sameinkennin eru þessi: Menn eru að byrja að setjast að í þorpum og hafa náð þó nokkru valdi á framleiðslu lífsnauðsynja. Þeir gera áhöld og ílát úr tré, vefa úr bastþráðum með höndunum, en nota ekki vefstól, flétta körfur úr basti og sefgresi og nota slípuð (þ. e. yngri steinaldar) steinvopn

[1] Engels hefur rætt þessi atriði nánar í ritgerðinni: Hlutdeild vinnunnar í þróun apans í mann. – *Þýð.*

[2] paleolithikum = eldri steinöld, neolithikum = yngri steinöld.

og áhöld. Eintrjáningar eru algengir, og bjálkar og borð til húsagerðar koma fyrir, og eiga eldurinn og steinöxin sinn þátt í því. Allar þessar framfarir má t. d. finna hjá rauðskinnum í norðvestur-héruðum Ameríku, en þeir þekkja boga og örvar, en ekki leirkeragerð. Boginn var úrslitavopnið á skeiði villimennskunnar, svo sem járnsverðið á tímabili hálfsiðunarinnar og byssan á tímabili siðmenningarinnar.

## 2. Hálfsiðun

1. *Frumstigið* er talið hefjast með uppkomu leirkeragerðar. Sanna má, að leirkerin eru oft þannig tilkomin, að tágakörfur eða tréílát hafa verið þakin leir að utan til að gera þau eldföst. Er jafnvel sennilegt, að öll leirkeragerð sé þannig til orðin. Menn fundu nú skjótlega, að þessi leirmót gerðu sama gagn, þótt ílátið, sem innan í var, vantaði.

Fram til þessa þurftum vér ekki að taka sérstakt tillit til staðhátta, er mannfélagsþróuninni var lýst. Vér gátum litið svo á, að almenn drög hennar ættu jafnt við alla þjóðflokka á ákveðnu skeiði. En með hálfsiðuninni hafa orðið þáttaskipti, og mismunandi náttúrugæði vestur- og austurhvels jarðar láta nú til sín taka. Það er eitt megineinkenni hálfsiðunarskeiðsins, að þá eru dýrin tamin og fjárstofni komið upp og jarðrækt hafin. Á austurhveli jarðar eða í gamla heiminum, sem svo er nefndur, voru nærfellt öll dýr, er tamningarhæf voru, og allar ræktanlegar korntegundir nema ein. Hins vegar átti Vesturálfan aðeins eitt tamningarhæft spendýr, sem sé lamadýrið, og var það þó ekki til nema sums staðar í Suður-Ameríku. Í Ameríku fannst og aðeins ein ræktjurt, maísinn, en hann tekur reyndar fram öðrum korntegundum. Þessi mismunandi náttúruskilyrði valda því, að þróunarferill Vesturheimsbúa og íbúa gamla heimsins verður með ólíkum hætti, og séreinkenni einstakra þróunarstiga verða sitt með hvoru móti.

2. *Miðstig* hálfsiðunarinnar á austurhelmingi jarðar hefst með tamningu húsdýranna. Í Vesturálfu byrjar það hins vegar með ræktun ætijurta, og eru notaðar áveitur í því skyni, en steinar og adóbar eða sólþurrkaðir tígulsteinar til bygginga.

Vér víkjum nú að Vesturheimi, með því að engir þjóðflokkar þar höfðu enn komizt af þessu stigi, er Evrópumenn lögðu álfuna undir sig.

Rauðskinnar þeir, er stóðu á frumstigi hálfsiðunar (en það voru allir rauðskinnar austan Mississippi) ræktuðu nokkuð maís í görðum, er Evrópumenn kynntust þeim fyrst. Líklega hafa þeir einnig ræktað grasker, melónur og aðra garðávexti, sem voru

mikill þáttur í fæði þeirra. Þeir bjuggu í timburhúsum, og voru þorpin víggirt með stauragirðingu. Þjóðflokkarnir í norðvesturhéruðunum, einkum við Kolumbíufljótið, stóðu enn þá á lokastigi villimennskunnar og þekktu hvorki til leirkeragerðar né neins konar ætijurtaræktar. Hins vegar voru Pueblo[1]-Indíánarnir svonefndu, í Nýja-Mexíkó, Mexíkóbúar, Mið-Ameríkumenn og Perúbúar á miðstigi hálfsiðunar, er álfan komst undir Evrópuþjóðirnar. Þjóðflokkar þessir bjuggu í húsum úr adóbum eða steini og líktust þau virkjum eða kastölum. Þeir ræktuðu maís og ýmsar aðrar ætijurtir, og fór það eftir loftslagi og staðháttum. Allar þessar jurtir voru ræktaðar í görðum, sem vatni var veitt í. Maísinn og hinar aðrar ætijurtir voru aðalfæða þeirra. Þeir höfðu einnig tamið nokkur dýr. Mexíkóbúar höfðu tamið kalkúnahænsn og fleiri fugla og Perúbúar lamadýrið. Þá kunnu þeir og að vinna úr flestum málmum öðrum en járni, og því var það, að þeir gátu ekki komizt af án vopna og verkfæra úr steini. En Spánverjar lögðu landið undir sig, og þar með var öll sjálfstæð þróun úr sögunni.

Á austurhveli jarðar hefst miðstig hálfsiðunar á tamningu dýra, er gefa af sér mjólk og kjöt, hins vegar virðist ræktun ætijurta óþekkt langt fram á þetta tímabil. Tamning kvikfjár og uppkoma peningshjarða sýnist eiga þátt í því, að Aríar[2] og Semítar greindust frá öðrum hálfsiðuðum þjóðflokkum. Aríar hafa sameiginleg nöfn á alidýrunum, hvort sem þeir búa í Evrópu eða Asíu, hins vegar eiga þeir svo til engin sameiginleg heiti á ræktjurtum.

Kvikfjárræktin leiddi til hjarðmannalífs þar, sem staðhættir voru vel til þess fallnir, t. d. með Semítum á grassléttunum við Evfrat og Tigris og með Aríum á sléttum Indlands og við Oxus og Jaxartes,[3] Don og Dnépr. Kvikfénaðurinn hlýtur í upphafi að hafa verið taminn á grassléttum eða í bithögum svipuðum þeim, sem að ofan eru nefndir. Seinni tíma kynslóðum virðist hins vegar sem hirðingjaþjóðirnar eigi upptök sín á landsvæðum víðsfjarri vöggu mannkynsins. En það er öðru nær. Þau landsvæði hafa verið hart nær óbyggileg hinum villtu forfeðrum þeirra og jafnvel þeim þjóðflokkum, er stóðu á frumstigi hálfsiðunar.

---

1 „Pueblo“ er spænskt orð og merkir þorpsfélag eða þ. u. l. Hér er það haft um Indíánaættflokka, er áttu heima í Mexíkó og Bandaríkjum Norður-Ameríku. Þeir bjuggu í eins konar klettaborgum, sem minna á býflugnabú. Stunduðu þeir garðrækt og höfðu fullkomið áveitukerfi og sameign á landi. Þorpsbúar bjuggu allir undir einu þaki, og var húsinu skipt í hólf, þar sem einstakar fjölskyldur höfðust við.

2 Um miðja 19. öld og síðar var orðið Aríar oft notað sem samheiti um indóevrópskar þjóðir. – *Þýð.*

3 Oxus = Amu-djara, Jaxartes = Syr-djara, hvort tveggja ár í Mið-Asíu.

Hins vegar mundi þjóðflokkum þeim, sem vanizt höfðu hirðingjalífinu (á miðstigi hálfsiðunar) aldrei hafa komið til hugar að hverfa aftur af frjálsum vilja frá grösugu fljótsdölunum til skógarhéraðanna, þar sem forfeður þeirra höfðu hafzt við. Er Semítar og Aríar voru komnir lengra í vestur- og norðurátt, gátu þeir meira að segja ekki haldið til skógarsvæðanna í Vestur-Asíu og Evrópu, fyrr en þeir höfðu lært kornrækt. Hér var jarðvegur ófrjórri, og þeir urðu að nota korn sem fóður handa búpeningi sínum, einkum að vetrarlagi. Er harla sennilegt, að kornræktin eigi upptök sín í fóðurþörf búpeningsins, en hafi ekki orðið mikilvægur liður í viðurværi manna fyrr en síðar.

Vera má, að ríkulegur kjöt- og mjólkurmatur og þó einkum áhrif hans á þroska og uppvöxt barnanna hafi valdið miklu um hina öru þróun Aría og Semíta. Pueblo-Indíánarnir í Nýja-Mexíkó, sem lifa eingöngu á jurtafæðu, hafa minni heila en rauðskinnar þeir, sem enn eru á lágstigi hálfsiðunar, en lifa að miklu leyti á kjöti og fiski. Hversu sem þessu er háttað, er hitt víst, að á þessu stigi hverfur mannát smám saman úr sögunni og helzt nú aðeins sem trúarleg athöfn eða töfrabrögð, og er það nokkuð sama.

3. *Lokastigið* hefst með því, að mönnum lærist að bræða járngrýti, og þegar menn finna svo upp leturgerð og taka að skrá sögur, hefst tímabil siðmenningarinnar. Það er aðeins á austurhveli jarðar, sem þjóðirnar ná af sjálfsdáðum lokastigi hálfsiðunar, en þetta stig er auðugra að framförum á framleiðslusviðinu en öll fyrri stigin samanlagt. Á þessu stigi stóðu Grikkir á hetjuöld sinni, ítölsku þjóðflokkarnir skömmu fyrir stofnun Rómaborgar, Germanir á tímum Tacitusar og Norðurlandabúar á víkingaöldinni.

Eitt af megin-auðkennum þessa stigs er járnplógurinn, sem nautgripum er beitt fyrir. Þessi uppfinning verður undirstaða að víðtækri akuryrkju. Stórar akurskákir eru plægðar, og með því skapast möguleikar til hart nær óskoraðrar aukningar matarforðans, miðað við þær aðstæður, er þá voru fyrir hendi. Menn geta nú rutt skóga og breytt þeim í akurlendi og engjateiga. Slíkt varð ekki gert í stórum stíl, fyrr en járnöxin og járnrekan komu til sögunnar. Í kjölfar þessa siglir ör fólksfjölgun og stóraukið þéttbýli.

Ólíklegt er, að hálf milljón manna hafi nokkru sinni búið saman undir einni stjórn, áður en akuryrkja með plógi kom til. Hafa þá legið til þess alveg sérstakar ástæður, en langsennilegast, að slíkt hafi aldrei gerzt. Í kvæðum Hómers, og þó einkum Ilíonskviðu, kynnumst við gullöld hálfsiðunartímabilsins. Þar er getið um allfullkomin áhöld úr járni, smiðjubelgi, handmylnu, leirkera-

skífu, tilbúning viðsmjörs og víns. Við kynnumst þar allþróaðri málmvinnslu, og er málmsmíð að verða listiðn. Við heyrum sagt frá vögnum og hervögnum og skipum, sem gerð eru úr plönkum og bjálkum. Húsagerð er að verða að sérstakri listgrein, borgir eru girtar múrum með turnum og vígtindum. Öllu þessu kynnumst við í hetjukvæðum Hómers og grísku goðsögnunum. Þetta allt er helzta arfernið, er Grikkir fluttu með sér frá hálfsiðun til siðmenningar. Germanir á tímum þeirra Cæsars og Tacitusar stóðu við upphaf þessa sama menningarskeiðs, er Grikkir höfðu runnið til enda á tímum Hómers. (Þeir bjuggust þá til að hefja nýtt og æðra stig). Ef við berum lýsingu Cæsars og Tacitusar á Germönum saman við hetjuöld Grikkja, verður ljóst, hversu margþætt og stórstíg framleiðsluþróunin á lokastigi hálfsiðunartímabilsins hefur verið.

Ég hef nú lýst í stórum dráttum þróun mannkynsins frá villimennsku og hálfsiðun til siðmenningar – og farið eftir Morgan. Í þessari mynd eru margir nýir drættir, ný sérkenni, en þó er meira um hitt vert, að þessir drættir, þessi sérkenni eru óvefengjanleg, með því að þau eru sótt beint í framleiðslustarfið. Þó mun þessi mynd virðast dauf og fáskrúðug saman borið við þá sýn, sem blasa mun við okkur, þegar við komum á leiðarenda. Þá fyrst getum við greinilega séð, hvernig hálfsiðunin breytist í siðmenningu, og augsýnileg andstæða þessara tveggja tímabila mun verða margfalt skýrari. Til bráðabirgða látum vér oss nægja að gera flokkun Morgans nokkuð almennari, og skipta þróunarferli mannkynsins í eftirtalin tímabil. Fyrst er *tímabil villimennskunnar.* Menn tileinka sér náttúrugæðin mestmegnis óunnin. Þau manngerð tæki, sem til eru, eru aðeins hjálpargögn í því skyni. Á *tímabili hálfsiðunarinnar* eru kvikfjárrækt og akuryrkja algengir bjargræðisvegir og mönnum lærist að auka afurðir náttúrunnar með mannlegu starfi. Á *tímabili siðmenningarinnar* eykst svo enn meir kunnátta í vinnslu náttúruafurða, og þá fyrst tekur raunverulegur iðnaður og list að þróast.

## II.

## Fjölskyldan

Morgan dvaldi mestan hluta ævi sinnar með Irókesum, en þeir eiga enn þá heima í New-York-ríki. Senekar, einn af ættflokkum Irókesa, höfðu ættleitt hann. Hann kynntist hér sifjakerfi, sem var í mótsögn við fjölskylduhættina. Þar tíðkaðist einkvæni, sem auðvelt var að slíta, ef annarhvor aðilinn óskaði, og kallaði Morgan þetta „para-fjölskyldu“. Börn, sem getin voru í slíkum

hjúskap, nutu fullrar viðurkenningar allra, enda lá afstaða þeirra í augum uppi. Enginn efi gat á því leikið, hver teljast skyldi faðir eða móðir, sonur eða dóttir, bróðir eða systir. Hins vegar var raunveruleg notkun þessara orða alls ekki í samræmi við þessar staðreyndir. Írókesinn kallar ekki aðeins eigin börn syni sína eða dætur, heldur notar hann sömu orðin um börn bræðra sinna, og þau kalla hann einnig föður sinn. Börn systra sinna kallar hann hinsvegar frændur eða frænkur (systurdætur eða systursyni), og þau kalla hann móðurbróður sinn. Á hinu leitinu kallar svo móðirin börn systra sinna syni sína og dætur og að sjálfsögðu sín eigin börn líka. Börn bræðra sinna nefnir hún aftur á móti frændur og frænkur (bróðursyni eða -dætur), og þau kalla hana föðursystur sína. Bræðrabörn nota orðið systkin sín á milli og systrabörn sömuleiðis (þ. e. þau kalla hvert annað bróður eða systur. *Þýð.*). Systkinabörn kalla hins vegar hvert annað frænda eða frænku. Þetta eru engan veginn innantóm orð, heldur fullgildar nafngiftir, sem lýsa ríkjandi skoðunum á blóðsifjum. Þær ákveða um, hvað náið er og fjarskylt, og lýsa hinum ýmsu stigum frændseminnar. Og þessar skoðanir liggja til grundvallar nákvæmu sifjakerfi, sem á orð yfir mismunandi frændtengsl hvers einstaklings, en þau geta skipt hundruðum.

Þetta sifjakerfi er í gildi með öllum rauðskinnum Ameríku. (Menn hafa enn ekki uppgötvað neina undantekningu á því sviði.) En það stendur víðar fótum. Það er í gildi hjá frumbyggjum Indlands, næstum óbreytt, enn fremur með Dravídaþjóðflokkunum í Dekan og Gavra-þjóðflokkunum í Hindústan. Suður-indverskar fjölskyldur og Seneka-Irókesarnir í New-Yorkríki nota enn þá samsvarandi frændsemisheiti um meira en tvö hundruð mismunandi frændtengsl. Og sama sagan er hjá þessum indversku þjóðflokkum og rauðskinnunum á vesturhveli jarðar, frændtengsl þau, er leiðir af fjölskylduskipan þeirra, eru í mótsögn við sifjakerfið.

Hvernig verður þetta skýrt? Frændtengslin eru ákaflega ríkur þáttur í þjóðfélagsskipan allra villtra og hálfsiðaðra þjóða. Þetta sifjakerfi er harla útbreitt og auðsætt af öllu þessu, að gildi þess verður ekki vísað á bug eða sniðgengið með einskisverðu hjali. Kerfi þetta er algengt í Ameríku. Það finnst hjá þjóðflokkum í Asíu, sem eru af allt öðrum kynþætti, og það kemur fyrir allvíða í Afríku og Ástralíu, meira eða minna breytt. Það verður ekki numið brott með hjali og vífilengjum, svo sem MacLennan leitaðist við að gera. Orð eins og faðir, barn, bróðir og systir eru ekki eintómir heiðurstitlar, þau eru tákn um ákveðnar skyldur, gagnkvæmar og alvarlegar, sem mynda í heild snaran þátt í samfélagsskipan þessara þjóðflokka.

En skýringin á þessu fyrirbrigði fannst. Á fyrra helmingi síðustu aldar tíðkuðust enn fjölskylduhættir á Sandvíkureyjum (Havai), sem samsvöruðu nákvæmlega sifjakerfi rauðskinnanna og frumbyggjanna indversku. Feður og mæður, bræður og systur, synir og dætur, frændur og frænkur, eldri sem yngri, allt var þetta með þeim hætti, sem áðurnefnt sifjakerfi gerir ráð fyrir. En þótt undarlegt megi virðast, samsvaraði sifjakerfi þessara Havai-búa engan veginn þeirri fjölskylduskipan, er þar ríkti. Öll systkinabörn, undantekningarlaust, voru kölluð systkin og talin sameiginleg afkvæmi, ekki aðeins móður sinnar og móðursystra eða föður síns og föðurbræðra, heldur allra systkina foreldra sinna. Ameríska sifjakerfið gerir ráð fyrir eldri fjölskylduskipan, og hefur hún fundizt á Havai, enda þótt hún sé ekki til í Ameríku. Hins vegar gerir svo sifjakerfi Havai-búa ráð fyrir enn þá upphaflegri fjölskylduháttum, – og er ekki hægt að benda á, að þessháttar fjölskylduskipan tíðkist nokkurs staðar. En hún hlýtur að hafa tíðkazt fyrr meir, því að annars hefði þetta samsvarandi sifjakerfi ekki getað orðið til.

„Fjölskyldan er ávirk og breytileg", segir Morgan. „Hún er aldrei kyrrstæð, heldur breytir um snið, þróast upp á við, eftir því sem þjóðfélagsþróunin kemst á hærra stig. Sifjakerfin eru hins vegar óávirk og þolandlegs eðlis. Breytinga þeirra, er verða á fjölskylduskipaninni, gætir þar ekki fyrr en eftir langan tíma, og þau taka því aðeins gagngerðum breytingum, að fjölskylduhættirnir hafi breytzt frá rótum". „Og" bætir Marx við, „þannig er þessu farið um stjórnmálaleg, lögfræðileg, trúarleg og heimspekileg kenningakerfi yfirleitt". Fjölskyldan lifir og breytist, en sifjakerfin staðna og steinrenna. Þau eru bundin föstum, stirðnuðum venjum, en fjölskyldan vex stöðugt upp úr þeim. Hins vegar getum við með fullri vissu dregið þá ályktun af þeim sifjakerfum, sem við höfum sögur af, að til hafi verið fjölskylduskipan, er svaraði til þeirra, enda þótt hún fyrirfinnist ekki lengur. Við getum ályktað svo með jafnmiklu öryggi og Cuvier gat ráðið það af beinahnútum nokkrum, er fundust í París, að þær væru af pokadýri og hefðu þau einu sinni lifað á þessum slóðum, enda þótt þau væru nú útdauð.

Sifjakerfi þau og fjölskylduhættir, er hér um ræðir, eru frábrugðin nútímaháttum í þessum efnum um það, að hvert barn á marga feður og mæður. Samkvæmt sifjakerfinu ameríska, sem svarar til fjölskylduskipunar Havai-búa, geta systkin ekki verið foreldrar sama barnsins. En sifjakerfi Havai-búa gerir hins vegar ráð fyrir fjölskylduskipan, þar sem þessu er öfugt farið. Við kynnumst hér fjölskylduháttum, sem eru í beinni mótsögn við þá skipan, sem menn hafa oftast hingað til talið, að gilt hafi í þess-

um efnum. Arfteknar skoðanir í þessum málum viðurkenna aðeins sér-hjúskap – og auk þess fjölkvæni karla og fjölveri konu. Hins vegar er þagað um það, að í reynd ganga menn steinþegjandi og blygðunarlaust fram hjá hömlum þeim og forboðum, er samfélagið hefur sett í þessum efnum. Og er þögnin um það í fullu samræmi við siðavendni broddborgarans. Rannsókn á forsögu mannkynsins sýnir okkur hins vegar, að þá hafi karlar lifað í fjölkvæni og konur í fjölveri og börnin því talin sameiginleg afkvæmi þeirra. Síðan verða margháttaðar breytingar á þessu ástandi, og upp úr þeim vex svo að lokum sér-hjúskapur. Þessar breytingar verða með þeim hætti, að hjónabandið, sem tók til margra í fyrstu, þrengist æ meir, unz makarnir eru aðeins orðnir tveir, en það er sú fjölskylduskipan, sem nú er algengust.

Morgan rekur þannig sögu fjölskyldunnar aftur í tímann. Telst honum, sem og flestum fræðimönnum í þessari grein, svo til, að í upphafi hafi ekki ríkt neinar hömlur um kynferðismök innan ættflokksins, sérhver kona ættstofnsins tilheyrði jafnt sérhverjum karlmanni og öfugt. Frá því á síðustu öld hefur verið rætt um þess konar frumástand, en það hefur aðeins verið lauslegt hjal. Það var Bachofen, sem fyrstur tók þetta alvarlega, og er það eitt af því, sem hann hefur unnið sér til ágætis á þessu sviði. Hann leitaðist við að finna merki þessa ástands í arfsögnum og goðsögum. Við vitum nú, að þær minjar, sem hann fann, benda engan veginn til hömlulausra handahófsmaka, heldur til fjölhjúskapar, en hann er miklu síðar til kominn. Ef þessi frumstæða skipan, sem áður er að vikið, hefur nokkru sinni verið til, hefur það verið fyrir óra-, óralöngu og þess því vart að vænta, að hún hafi skilið eftir nokkrar minjar í félagsháttum þeirra þjóðflokka, er skemmst eru komnir, svo að hægt væri að færa beinar sönnur á, að hún hefði verið til. Hið verðmæta framlag Bachofens felst hins vegar í því, að hann byrjar rannsókn sína á þessu úrlausnarefni.[1]

---

[1] Bachofen nefndi þetta frumástand heterisma, og sýnir það, hversu lítt honum hafði skilizt, hvað það var, sem hann hafði uppgötvað eða öllu fremur getið sér til um. Þegar Grikkir tóku að nota orðið heterisma, merkti það mök milli ókvæntra eða eiginkvæntra karlmanna annars vegar og ógiftra kvenna hins vegar og gerir þannig ráð fyrir ákveðnum hjúskaparháttum – og fóru mök þessi fram utan við umgjörð þeirra. Orðið tekur þannig einnig yfir skækjulifnað eða gerir a. m. k. ráð fyrir þeim möguleika. Orðið hefur heldur aldrei verið notað í annarri merkingu en þessari, og þannig nota ég það, líkt og Morgan gerði. Hinar mjög svo mikilvægu uppgötvanir Bachofens eru jafnan vafðar í furðulegustu dulýðgi, vegna þess að hann ímyndaði sér, að samlífshættir karls og konu, sem breytzt hafa fyrir framvindu sögunnar, ættu uppruna sinn í trúarlegum hugmyndum manna hverju sinni, en ekki í raunverulegu lífi þeirra og aðstæðum. (F.E.).

Það er orðin tízka nú á síðustu tímum að afneita algerlega þessu frumstigi mannlegs kynferðislífs. Menn vilja forða mannkyninu frá slíkri „háðung". Og með því að bein gögn eru ekki fyrir hendi, eru einkum tilfærð dæmi úr dýraríkinu til að hrekja þetta. Letourneau nefnir í bók sinni (Évolution du mariage et de la famille, 1888[1]) mörg dæmi úr samlífi dýranna og telur samkvæmt þeim, að handahófsmök dýra séu aðeins bundin við lægra þróunarstig, sem sé hin óæðri dýr. Ég get hins vegar enga aðra ályktun dregið af þessum gögnum en þá, að þau hafi alls ekkert sönnunargildi, að því er tekur til upprunalegra félagshátta mannsins.

Langstæð, tvíhliða mök með einstökum hryggdýrum eiga sér líffræðilegar orsakir, sem skýra þau að fullu. Hjá fuglunum byggist það t. d. á því, hve kvenfuglinn er hjálparþurfi um varptímann. En dæmi um einkvæni og hjúskapartryggð, sem fyrir kunna að koma hjá fuglum, sanna ekki neitt um manninn, með því að mennirnir eru alls ekki komnir af fuglum.

Ef strangt einkvæni á hins vegar að teljast æðst allra dyggða, þá er það bandormurinn, sem á hróðurinn. Hann er sem sé samsettur úr 50–200 proglottidum eða liðum, og á hverjum lið eru fullkomin kynfæri beggja kynja, – og ævinni eyðir hann í það að geta afkvæmi með sjálfum sér – lið fyrir lið. Ef við takmörkum okkur hins vegar við spendýrin, kemur í ljós, að samlíf kynjanna er þar með ýmsu móti. Þar koma fyrir handahófsmök, drög að fjölhjúskap, fjölkvæni og einkvæni. Eitt vantar, fjölverið, þar urðu mennirnir að koma til. Með nánustu ættingjum okkar, öpunum, ríkir sama fjölskrúðið í þessum efnum. Og ef við þrengjum sviðið enn og tökum aðeins mannapana[2] (fjóra) til athugunar, verður sama uppi á teningnum. Letourneau segir, að þeir lifi ýmist í einkvæni eða fjölkvæni. Hins vegar staðhæfir Saussure í riti Giroud-Teulons, að þeir lifi í einkvæni. Westermarck tilfærir ýmsar síðari staðhæfingar um einkvæni mannapanna (The History of Human Marriage, London 1891),[3] en fjarri fer því, að það séu nokkrar sannanir. Gögnin um þessi efni eru í stuttu máli þannig, að Letourneau, sem er heiðarlegur fræðimaður, verður að gera eftirfarandi játningu. „Hjá spendýrunum virðist annars ekki vera neitt ákveðið eða nákvæmt samband milli vitsmunastigs og kynlífshátta." Og Espinas staðhæfir beinlínis (Des Sociétés animales, 1877)[4]: „Hjörðin er æðsti félagshópur, sem við rekumst á í dýraríkinu. Hún stendur saman af fjöl-

1 Þróun hjúskapar og fjölskyldu.
2 Orangútan, sjimpansa, gibbon og górilla.
3 Saga hjónabandsins.
4 Um samfélag dýranna.

skyldum, *eða svo virðist manni að minnsta kosti. En hjörð og fjölskylda eru andstæðar frá upphafi,* og þróun hvorrar um sig stendur í öfugu hlutfalli við þróun hinnar."

Eins og sjá má af því, sem hér er ritað, er það einkar fátt, sem vitað er með vissu um fjölskyldu eða aðra félagshópa mannapanna. Frásögnum um þau efni ber ekki saman. Engan þarf að furða á því. Frásagnir þær, sem við höfum um villta þjóðflokka, eru líka ákaflega mótsagnakenndar, svo að þar er full þörf á gagnrýni og úrvinzun. Þar við bætist, að miklu torveldara er að athuga og rannsaka samfélög apa en manna. Fyrst um sinn verður því að vísa á bug öllum ályktunum, sem dregnar eru af þessum óáreiðanlegu frásögnum.

Setning Espinas, sú sem að ofan er tilfærð, er aftur á móti vænlegri til fróðleiks. Flokkur og fjölskylda eru andstæður með æðri dýrum, en bæta alls ekki hvort annað upp. Espinas rekur það mjög vel, hvernig afbrýði karldýrsins um fengitímann losar um öll tengsl flokka eða annarra félagshópa eða sundrar þeim um stundarsakir. „Félagshópar myndast undantekningarlítið ekki þar, sem fjölskyldu-tengslin eru þröng. Aftur á móti myndast hjarðir eða félagshópar svo að segja af sjálfu sér, þar sem handahófsmök eða fjölkvæni ráða ... Fjölskylduböndin þurfa að veikjast og einstaklingarnir að verða óháðari, til þess að hjörð eða félagshópur geti myndazt. Því er það, að félagshópar tíðkast lítt með fuglunum ... Hins vegar rekumst við á skipuleg samfélög hjá spendýrum og þá einmitt fyrir þá sök, að þar gefur einstaklingurinn sig ekki allan við fjölskyldunni ... Samkennd fjölskyldunnar er versti Þrándurinn í Götu þess, að samkennd flokks eða félagshóps geti komið upp. Vér getum því staðhæft: Þegar æðri félagsheild en fjölskyldan kemur fram, hefur það aðeins getað orðið með þeim hætti, að hún hafi myndazt úr fjölskyldum, sem höfðu þá tekið gagngerðum breytingum. Þetta útilokar engan veginn, að þessar sömu fjölskyldur hafi með þessu fengið færi á að treysta böndin á ný og það við margfalt hagfelldari skilyrði". (Espinas, sbr. ívitnun hjá Giraud-Teulon, Origines du mariage et de la famille, 1884 bls. 518–520).

Sjá má af þessu, að samfélög dýra hafa nokkurt ályktunargildi fyrir mannlega félagshætti, en það er reyndar neikvætt. Með æðri hryggdýrum tíðkast aðeins tvenns konar fjölskylduskipan, að því er vér bezt vitum. Það er fjölkvæni og einkvæni. Afbrýði karldýrsins heldur fjölskyldunni saman og hamlar þróun hennar, hvort tveggja í senn. Hún stefnir fjölskyldunni gegn flokknum eða félagshópnum. Flokkurinn, sem er æðra félagsform, getur ýmist ekki myndazt eða hann losnar í tengslum eða sundrast alveg um fengitímann. Þegar bezt lætur, kemur afbrýði karldýrs-

ins í veg fyrir frekari þróun hans. Þetta eitt er næg sönnun þess, að dýrafjölskylda og fyrsta samfélag mannanna eiga ekkert skylt hvort við annað, eru ósamrýmanleg. Það er því aðeins tvennt til, annað hvort hefur maðurinn, er hann þróaðist upp úr dýraríkinu, alls ekki lifað fjölskyldulífi, eða fjölskyldur frummannanna hafa verið á annan veg en þær, sem tíðkast með dýrunum. Þessi tilvonandi maður var vopnlaust dýr. Vera má, að hann hefði getað hjarað af í einangrun, þar sem æðsta félagsformið væri sérhjúskapur í stíl við þann, sem Westermarck eignar gorillunni og sjimpansanum samkvæmt skýrslum veiðimanna. En þróun mannsins upp úr dýraríkinu er stærsta framfaraskrefið í náttúrusögunni. Þar þurfti meira til. Samtakaafl og samstarf flokksins varð að bæta upp varnarleysi einstaklingsins. Það væri ókleift að skýra, hvernig maðurinn varð til, ef forfeður hans hefðu búið við sams konar skipan og mannaparnir nú.. Allt bendir reyndar til þess, að apar þessir séu vegvilltar hliðarkvíslir, sem virðast vera að deyja út eða að minnsta kosti í hrörnun. Það eitt er nóg til þess, að engar ályktanir verða dregnar um fjölskylduskipan frummannsins af samanburði við þá. Maðurinn gat því aðeins þróazt upp úr dýraríkinu, að hann lifði í varanlegum flokkum. Og fyrsta skilyrðið til þess var, að fullorðnu karldýrin gætu lifað í sátt og afbrýðin léti ekki til sín taka. Og hvernig er svo hin elzta fjölskylduskipan mannanna, sem sanna má með sögulegum rökum og við getum jafnvel kynnzt enn þá af eigin raun – á stöku stað? Ó, jú, það er fjölhjúskapur, fjölskylduskipan, þar sem ákveðnir hópar karla og kvenna lifa sameiginlegu ástalífi og afbrýðin fær lítið svigrúm. Á síðara þróunarstigi rekumst við svo á fjölverið, sem reyndar er fátítt, en er í fullkomnustu mótsögn við allar afbrýðikenndir, enda óþekkt fyrirbrigði í dýraríkinu. Nú er fjölhjúskapur sá, sem við höfum kynni af, með því sniði, að gera verður ráð fyrir eldri og einfaldari kynlífsháttum. Bendir allt til þess, að handahófsmök hafi í upphafi ráðið í samlífi kynjanna – og þá á því tímabili, er maðurinn var að segja skilið við dýraríkið. Hins vegar leiða skírskotanirnar til hjúskaparhátta dýranna okkur jafnan í sömu ógöngurnar og þeim var ætlað að bjarga okkur úr.

Hvað er þá þetta, sem kallað er handahófsmök? Jú, að hömlur og bönn, sem nú eru í gildi og gilt hafa fyrr á tímum, hafa þá enn ekki verið komin til sögunnar. Við höfum séð, hvernig fór með afbrýðina, enda er fullvíst, að afbrýðin er kennd, sem er tiltölulega seint til komin. Sama máli gegnir um hugmyndirnar um sifjaspell. Systur og bræður voru upphaflega makar eða gagnkvæmir hjúskaparaðilar, og kynferðismök foreldra og barna eru enn leyfð með ýmsum þjóðflokkum. Bancroft segir, að þessu

sé svo háttað hjá Kaviötunum við Beringssund, Kadiökunum í Alaska og Tinnehunum í innhéruðum Kanada. (The native Races of the Pacific Coast of North-America, 1875. Vol. I.).[1] Letourneau rekur og nokkrar frásagnir um þetta sama fyrirbrigði hjá Chippeway-rauðskinnunum, Cucusum í Chile, Karaibum – og Karenum í Austur-Indlandi, svo ekki sé minnzt á frásagnir Grikkja og Rómverja af Pörþum, Persum, Skýþum og Húnum o. s. frv. Áður en fundin var upp kenningin um sifjaspell (og það er reyndar einkar verðmæt uppfinning), hafa menn naumast haft neitt meiri viðbjóð á kynferðismökum milli barna og foreldra en milli annarra einstaklinga úr ólíkum aldursflokkum. En þessháttar kemur, sem kunnugt er, enn fyrir með broddborgaralegustu þjóðum. Gamaljómfrúr á sjötugsaldri giftast stundum þrítugum mönnum. Það er að segja, ef þær eru nógu loðnar um lófana. Í elztu fjölskylduskipan, sem kunnugt er um, ráða allt aðrar hugmyndir um sifjaspell en hjá okkur, stundum gersamlega andstæðar. Ef við sleppum þessum hugmyndum og leitum lengra aftur, rekumst við á kynlífshætti, sem kalla verður handahófsmök. Handahófið er í því fólgið, að siðbundnar hömlur, sem síðar tíðkuðust, eru enn ekki til komnar. Hins vegar leiðir það engan veginn af þessu, að daglegt samlíf kynjanna hafi verið í einum hrærigraut. Samlíf tveggja aðila um lengri eða skemmri tíma er alls ekki útilokað, enda er slík högun algeng í fjölhjúskap þeim, sem við höfum sögur af. Westermarck er einn af þeim, sem nýlega hafa gerzt til að afneita þessu „frumástandi“ og vill telja öll þau tilfelli til hjúskapar eða hjónabands, þar sem makarnir búa saman, unz afkvæmið fæðist. Við því er það að segja, að þessháttar hjúskapur gat vel komið fyrir á tímabili handahófsmakanna, án þess að hann kæmi að nokkru leyti í bága við „handahófið“ eða sem sé það, að samlíf kynjanna markaðist ekki af neinum siðbundnum hömlum. Forsenda Westermarcks er reyndar sú, að „handahófið feli það í sér, að einstaklingurinn verði að bæla niður persónulegar tilhneigingar sínar“ og sé því „skækjulifnaðurinn ósviknasta myndin af því fyrirkomulagi“. Ég er hins vegar þeirrar skoðunar, að menn öðlist aldrei skilning á frumhögum mannkynsins, ef horft er á þessi mál með einhverjum pútnahúsagleraugum. Verður vikið nánar að þessu, er vér ræðum um fjölhjúskapinn.

Samkvæmt Morgan viku þessi upphaflegu handahófsmök fyrir blóðsifjafjölskyldunni, og hefur það sennilega gerzt mjög snemma.

1. *Blóðsifjafjölskyldan* er fyrsta stig eða skipan fjölskyldunnar. Hjúskaparaðilarnir eru hópar og greinast eftir aldursflokkum eða

---

[1] Innfæddir þjóðflokkar á Kyrrahafsströnd Norður-Ameríku.

kynslóðum. Allir afar og ömmur í fjölskyldunni eru gagnkvæmir hjúskaparaðilar, þ. e. a. s. hver amma telst eiginkona allra afanna og öfugt. Sama máli gegnir um börn þeirra, sem sé feðurna og mæðurnar, og slíkt hið sama um þeirra börn. Þau mynda þriðja gagnkvæma hjúskaparflokkinn. Afkvæmi þeirra, þ. e. barna-barnabörn hins fyrsta, mynda svo fjórða flokkinn. Hér ná sem sé hjúskaparhömlurnar aðeins til gagnkvæmra giftinga milli mismunandi aldursflokka, foreldris og afkomenda. Þetta er eina takmörkunin á hjúskaparskyldum þeirra og -réttindum, svo að notuð séu nútímahugtök. Bræður og systur, frændur og frænkur í fyrsta og öðrum lið og þótt firr sé rakið, teljast öll systkin og þess vegna hjón eða gagnkvæmir hjúskaparaðilar. Það leiðir af sjálfu sér á þessu þróunarstigi fjölskyldunnar, að systkin eru jafnframt makar.[1] Regluleg fjölskylda af þessari gerð myndi saman standa úr afkomendum einna hjóna, og væru afkomendur hvers ættliðs, systkin og makar í senn.

Blóðsifjafjölskyldan er útdauð. Það finnst ekkert dæmi um hana, jafnvel ekki með frumstæðustu þjóðflokkum, sem við höfum sögur af. En sifjakerfi það, sem enn er í gildi á Havai og Polynesíu allri, neyðir okkur til að gera ráð fyrir, að hún hafi verið til fyrr meir. Þar ráða hugmyndir og reglur um blóðsifjar, sem aðeins gátu vaxið upp úr slíkum fjölskylduháttum. Það leiðir

---

[1] Í bréfi, sem ritað er vorið 1882, fer Marx hinum hörðustu orðum um þá algeru söguföIsun, er komi fram í Nibelungentexta Wagners: „Hvílík fjarstæða, að bróðirinn faðmi systur sína að sér sem brúði“. Þessi „lostagoð“ Wagners eru öll í nýtízkustíl, þau hressa upp á ástabrallið með smávegis „sifjaspellum“. Svar Marx er á þessa lund: Í forneskju *var* systirin jafnframt *eiginkona, – og það var í samræmi við siðareglurnar.*

*(Viðbót í 4. útg.)* Franskur vinur minn einn, sem er mikill aðdáandi Wagners, er ekki sammála þessari athugasemd. Bendir hann á, að í Ægisdrekku, (Lokasennu – *Þýð.)* í Sæmundar-Eddu brigzli Loki Freyju með með svofelldum orðum: „Þik at bróðr þínum stóðu blíð regin....“ Af því megi ráða, að hjónaband systkina hafi þá verið óleyfilegt. Ægisdrekka ber það hins vegar með sér, að hún er til orðin, þegar trúin á hin fornu goð er að deyja út. Hún er spottkvæði um goðin í hrein-lúkíönskum stíl. Loki kemur þarna fram sem eins konar Mephisto, og þessi brigzlyrði hans í garð Freyju veikja fremur málstað Wagners. Nokkrum vísum síðar segir Loki við Njörð: „Við systr þinni gaztu slíkan mög....“ Njörður telst reyndar ekki til ása, heldur vana. Og í Ynglingasögu segir, að í Vanalandi séu hjónabönd systkina algeng, en svo sé ekki með ásum. Benti þetta helzt til þess, að vanirnir væru eldri og upphaflegri goð en æsirnir. Njörður býr meðal ásanna sem jafningi – og einn af þeim – og mætti þá helzt draga þá ályktun af kvæðinu, að hjónabönd systkina hafi ekki þótt nein óhæfa, er það var ort, að minnsta kosti ekki í goðheimum. Ef menn vilja endilega afsaka Wagner, liggur nær að vitna í Goethe en Sæmundar-Eddu. Í kvæði sínu um guðinn og „bajaderuna“ hefur honum orðið á svipuð skyssa, þar sem hann túlkar trúarlegt blíðuframsal kvenna of mjög í anda nútíma skækjulifnaðar. (F. E.)

einnig af allri frekari þróun fjölskyldu-háttanna, að nauðsynlegt er að gera ráð fyrir þessu frumstigi.

2. *Púnalúa-fjölskyldan.* Fyrsta framfaraskrefið í skipan fjölskyldunnar miðaði að því að útiloka gagnkvæm kynferðismök foreldris og afkomenda. Annað skrefið stefndi að því að koma í veg fyrir kynferðislegt samlíf systkina. Þetta framfaraskref var stórum mikilvægara en hið fyrra, vegna þess að það tók til aðilja á svipuðum aldri, en það var jafnframt miklu örðugra. Þessi framför varð smám saman og hefur sennilega byrjað á því að hefta kynferðismök holdgetinna systkina (þ. e. sammæðra). Fyrst hefur þetta verið gert í einstökum tilfellum, en smám saman orðið að fastri reglu. (Á Havai komu fyrir undantekningar á þessu á sl. öld). Og þessari viðleitni lauk með því, að jafnvel var bannaður hjúskapur með frændsystkinum, þ. e. systkinabörnum, – barna-börnum og barna-barna-börnum systkina, að okkar tali. Morgan kallar, að þetta sé „hið ágætasta dæmi um, að náttúruvalið sé að verki". Og það er efalaust mál, að ættflokkar þeir, sem sett höfðu slíkar hömlur við hjúskap náinna ættingja, hlutu að þróast örar en hinir, sem tíðkuðu systkinahjúskap. Ættsveitin er líka ljósasta dæmið um það, hve glöggt menn fundu áhrif þessa framfaraskrefs. Hún óx upp úr þessum nýju fjölskylduháttum og fór reyndar langt út fyrir það takmark, er að var stefnt. Hún er undirstaðan að félagsskipan flestra, ef ekki allra hálfsiðaðra þjóðflokka – og beinn undanfari siðmenningartímabilsins með Grikkjum og Rómverjum.

Sérhver frum-fjölskylda hlaut að skiptast eftir nokkra ættliði. Framleiðsla og búsýsla voru frá upphafi með sameignarsniði og hélzt það allt fram á miðstig hálfsiðunar. En af því leiddi ákveðna hámarksstærð hvers fjölskyldusamfélags, sem reyndar var nokkuð breytileg eftir aðstæðum. Þegar svo var komið, að hjúskapur holdgetinna systkina (sammæðra) taldist ósæmandi, hlaut að draga að því, að frændliðið klofnaði og ný félagsbú væru stofnuð. (Þau þurftu ekki endilega að samsvara fjölskyldu-hópnum). Einn systraflokkur eða fleiri varð svo uppistaða annars félagsbúsins – og holdgetnir bræður þeirra hins. Þannig eða þessu líkt varð til púnalúafjölskyldan, er Morgan nefnir svo, en hún æxlaðist af blóðsifjafjölskyldunni. Með Havaibúum var venjan sú, að holdgetnar systur eða firri (þ. e. frænkur af fyrsta og öðrum og firr) voru sameiginlegar eiginkonur sameiginlegra eiginmanna. Hins vegar gátu þær ekki verið eiginkonur bræðra sinna. Eiginmenn þessir nefndu ekki hverjir aðra bræður framar, enda þurftu þeir ekki að vera það. Þeir nefndu hver annan púnalúa, en það þýðir lagsbróðir eða félagi. Á sama hátt áttu holdgetnir bræður eða firri sér sameiginlegar eiginkonur, og kölluðu þær

hver aðra púnalúa. Bræðurnir máttu ekki kvongast systrum sínum. Þetta er skýrasta dæmið um þessa fjölskylduskipan, en síðar koma fram ýmis tilbrigði. Megineinkenni þessara fjölskylduhátta var sem hér segir: Gagnkvæmur og sameiginlegur hjúskapur karla og kvenna innan ákveðins fjölskylduhrings. En bræður eiginkvennanna voru útilokaðir, fyrst holdgetnir bræður og síðan firri, sama máli gegndi um systur eiginmannanna.

Þessi fjölskylduskipan leiðir í ljós með fyllstu nákvæmni skyldleikastig þau, sem greind eru í ameríska sifjakerfinu. Börn móðursystra minna teljast enn þá börn móður minnar jafnframt, sömuleiðis eru börn bræðra föður míns jafnframt börn hans, og þau teljast öll systkini mín. En í annan stað eru svo börn móðurbræðra minna, þau eru frændur og frænkur (bræðrasynir og -dætur) móður minnar – og systkinabörn mín. Menn móðursystra minna eru enn jafnframt eiginmenn móður minnar og konur föðurbræðra minna eiginkonur föður míns. – Þetta er svo að lögum, en ekki allt af í reynd. En á hinu leitinu hefur bannið við kynferðismökum systkina klofið fyrrverandi systkinahóp í tvennt. Í þeim flokki voru áður bæði systkin og systkinabörn – og öll talin systkin. Sum þeirra halda áfram að vera (fjarskyldari) systkin, önnur, eins og börn bróðurins annars vegar og systurinnar hins vegar, verða ekki lengur talin systkin, með því að þau geta ekki framar átt sameiginlegt foreldri, hvorki föður né móður né bæði í senn. Því er það, að nú verður þörf á nýjum frændsemisflokki fyrir systkinabörn, bróðurdætur og -syni, systursyni og -dætur, en slík flokkun hefði verið helber endileysa í þeirri fjölskylduskipan, er á undan fór. Ameríska sifjakerfið virðist fullkomin fjarstæða í fjölskylduskipan, sem reist er á einhvers konar sérhjúskap. En það er hægt að skýra það á skynsamlegan hátt með púnalúa-fjölskyldunni, og þá verður hvert atriði þess auðskilið og eðlilegt. Og púnalúa-fjölskyldan hlýtur að minnsta kosti að hafa tíðkazt þar, sem þetta sifjakerfi kemur fyrir.

Sönnur hafa verið á það færðar, að þessi fjölskylduskipan tíðkist á Havai. Líklegt er, að gögn hefðu fengizt um tilvist hennar í allri Polynesíu, ef hinir „frómu" kristniboðar hefðu getað séð eitthvað annað en „einbera viðurstyggð" í svo „ókristilegu" hátterni. En um það líktust þeir starfsbræðrum sínum, spænsku munkunum í Ameríku.[1]

---

[1] „Minjar þær um handahófsmök, er Bachofen taldi sig hafa fundið og kallaði „Sumpfzeugung" (fenja-getnað) benda vafalaust til púnalúafjölskyldunnar. Bachofen kallar þessi púnalúahjónabönd „lögleysu". En þeirra tíma menn mundu á sama hátt hafa talið flest hjónabönd nútímans milli náinna eða fjarskyldra frændsystkina í móður- eða föðurætt til sifjaspella – talið það hjúskap milli blóðtengdra systkina." (Marx). (F. E.).

Cæsar segir um Breta, er þá stóðu á miðstigi hálfsiðunar, að þeir hafi átt „sameiginlegar eiginkonur, oftast 10 eða tólf saman, og þá einkum bræður saman eða foreldrar og börn“. Þetta verður bezt skýrt með púnalúafjölskyldum. Mæður hálfsiðunartímabilsins áttu ekki 10–12 sonu, er væru á svo líkum aldri, að þeir gætu átt eiginkonur í sameiningu. Hins vegar leiðir það af ameríska sifjakerfinu, sem svarar til púnalúafjölskyldunnar, að bræðurnir verða margir, með því, að allir bræðrungar – nánir og fjarskyldir – kallast bræður. Þar sem Cæsar talar um „foreldra og börn“ er sennlega um misskilning hans að ræða. Þetta kerfi útilokar að vísu ekki algerlega, að feðgar og mæðgur geti verið í sama makaflokknum, en um feðgin eða mæðgin fær það alls ekki staðizt. Þessi fjölskylduskipan eða önnur svipuð getur og bezt skýrt frásagnir Heródóts og annarra fornra höfunda um sameign á konum hjá ýmsum villtum eða hálfsiðuðum þjóðum.

Sama máli gegnir um það, sem Watson og Kaye („The people of India“)[1] segja um Tikúrana í Audh (norðan við Ganges). „Þeir lifa saman (þ. e. kynferðilega) svo til reglulaust í stórum félagshópum, og þótt einhverjir tveir einstaklingar teljist giftir, er það hjónaband ekkert nema nafnið“.

Ættsveitar-fyrirkomulagið virðist tíðast hafa þróazt beint upp úr púnalúafjölskyldunni. Reyndar getur flokkakerfið ástralska líka komið þar til greina, – ættsveitin gat æxlazt upp úr því. Í Ástralíu eru ættsveitir, en þar er ekki nein púnalúafjölskylda, heldur frumstæðari tegund fjölhjúskapar.

Í öllum fjölhjúskap er það jafnan óvíst, hver er faðir hvers einstaks barns, hitt er aftur á móti óyggjandi, hver er móðirin. Hún kallar að vísu *öll* börn sam-fjölskyldunnar börnin sín og á við þau móðurskyldum að gegna, en hún þekkir holdgetin börn sín frá hinum. Það er því augljóst, að þar sem um fjölhjúskap er að ræða er *aðeins móðernið víst og skyldleikinn því eingöngu rakinn í kvenlegg.* Slíkt tíðkast líka með öllum villtum þjóðflokkum og þeim, sem eru á lægsta stigi hálfsiðunar. Þetta uppgötvaði Bachofen fyrstur manna, og er það annað afrek hans. Hann notar orðið móðurréttur um þessa skilyrðislausu viðurkenningu á ættarrakningu í kvenlegg og þær erfðareglur, er af þessu leiddi, er fram í sótti. Ég nota einnig þetta orð, af því að það er stutt. Það er reyndar rangnefni, því að á þessu stigi þjóðfélagsþróunarinnar getur ekki verið um að ræða neinn rétt í lögfræðilegri merkingu þess orðs.

Púnalúafjölskyldan var mynduð af tveimur deildum eða hópum. – Tökum nú annan hópinn, t. a. m. holdgetnar systur og

---

[1] Íbúar Indlands.

fjarskyldari (þ. e. í fyrsta, öðrum eða firri lið frá holdgetnum systrum) ásamt börnum þeirra og bræðrum (sem geta samkvæmt forsendum okkar ekki verið eiginmenn þeirra) í móðurætt, holdgetnum og fjarskyldari. Þá eru þau þarna komin, er síðar skipa ættsveitina, eins og hún var í upphafi. Þau eiga öll sameiginlega ættmóður, og því teljast konurnar í hverjum ættlið systur. En eiginmenn þessara systra mega ekki vera bræður þeirra og geta því ekki verið komnir af þessari ættmóður og eru því ekki af þessum blóðsifjahóp eða ættsveit, er síðar verður. En börn þeirra teljast til hans, með því að móðernið ræður, þar sem það eitt er öruggt. Þess konar hópar urðu að ættsveitum, jafnskjótt og búið var að bannfæra öll kynferðismök milli systkina og fjarskyldustu frændsystkina í móðurætt. Ættsveitin hefur þannig orðið til sem nokkurs konar frændgarður blóðsifjaliðs í móðurkyn, og þetta frændfólk má ekki giftast innbyrðis. Og ættsveitin styrkist og festist smám saman, og eiga ýmsar sameiginlegar félags- og trúarstofnanir sinn þátt í því. Jafnframt verður hún frábrugðnari öðrum ættsveitum í sama ættflokki, en það skal nánar rætt síðar. Við höfum nú séð, að ættsveitin hlýtur að vaxa upp úr púnalúafjölskyldunni, og meir en það, þróunarferillinn er alveg augljós og sjálffundinn. Það liggur því nærri að telja það svo til öruggt, að allar þær þjóðir, sem sannanlega hafa lifað við ættsveitaskipulag, hafi áður búið við fyrrnefnda fjölskylduskipan. Í þeim flokki verða þá velflestir hálfsiðaðir þjóðflokkar og menningarþjóðir.

Þegar Morgan samdi bók sína, var þekking okkar á fjölhjúskap mjög takmörkuð. Dálítið var vitað um fjölhjúskap með Ástralingum, en þeir búa við svokallaða venzlaflokka. Auk þess hafði Morgan þegar 1871 birt skýrslur þær og lýsingar, er honum höfðu borizt um púnalúafjölskylduna á Havai. Þessi púnalúafjölskylda skýrði í fyrsta lagi til hlítar sifjakerfin amerísku, en á þeim hafði Morgan hafið rannsóknir sínar. Í annan stað mátti rekja þaðan, hvernig kvenleggs-ættsveitin var til komin. Og í þriðja lagi sýndi þessi fjölskylduskipan miklu hærra þróunarstig en venzla-flokkarnir áströlsku. Það var því eðlilegt, að Morgan teldi hana nauðsynlegt þróunarstig, er verið hefði undanfari parahjúskapar og algengt fyrr meir. Síðan höfum við kynnzt fjölhjúskap með ýmiss konar öðru sniði og vitum, að Morgan gekk of langt í þessu atriði. En engu að síður hafði honum lánazt að finna þarna algilt snið fjölhjúskapar og það þróaðasta, – einmitt það fyrirkomulag, er bezt gat skýrt síðari þróun á þessu sviði.

Það er brezki trúboðinn Lorimer Fison, sem mest hefur aukið þekkingu okkar á fjölhjúskap. En hann hefur rannsakað þessa

fjölskylduskipan árum saman í Ástralíu, sem kallast má sígilt land í því tilliti. Ástralíunegrarnir við Gambierfjall í Suður-Ástralíu stóðu þarna neðst í þróunarstiganum, eftir því er hann komst að. Þar er ættstofninum skipt í tvo stóra flokka, Króka og Kumita. Kynferðismök innan hvers flokks eru stranglega bönnuð, en hins vegar er hver karlmaður í hvorum flokknum um sig réttborinn maki hverrar konu í hinum flokknum og hún réttborin eiginkona hans. Það eru ekki einstaklingar, heldur heilir hópar, sem tengdir eru hjúskaparböndum sín á milli, flokkur giftist flokki. Og vert er að geta þess, að hér eru engar skorður vegna aldursmunar eða sérstakra blóðsifja að öðru leyti en því, sem leiðir af þessari skiptingu í tvo útvenzlaða flokka. Hver kona úr flokki Kumita er að réttu lagi eiginkona hvers karlmanns úr Króka-flokknum. Nú telst dóttir hennar einnig til Kumita, með því að rakið er í kvenlegg, og því réttborin eiginkona hvers karlmanns úr Króka-flokki og því einnig föður síns. Að minnsta kosti skýtur þessi venzla-flokka-högun, að því er séð verður, ekki loku fyrir það. Er þá annað tveggja, að skipan þessi hafi orðið til á þeim tímum, er menn höfðu enga óbeit á kynferðismökum milli foreldra og barna, en sýndu þó óljósa viðleitni til að takmarka kynferðilegt samlíf náinna skyldmenna. Myndi þá þetta flokkakerfi hafa þróazt beint upp úr handahófsmökum. Hinn möguleikinn er sá, að kynferðismök milli foreldra og barna hafi þegar verið talin ósæmandi, áður en venzla-flokkarnir komu til sögunnar. Væru þeir þá runnir frá blóðsifjafjölskyldunni – og fyrsta þróunarskrefið þaðan. Þessi tilgáta er stórum sennilegri. Frá Ástralíu eru engin dæmi sögð um kynferðismök milli foreldra og barna, að því er ég bezt veit. Þá gerir og síðari tilhögun útvenzla eins og kvenleggsættsveitin tíðast ráð fyrir þessu banni, þótt ekki sé á það minnzt, rétt eins og það hafi verið í gildi, áður en hún varð til.

Sams konar tveggja-flokka-kerfi og við Gambierfjall í Suður-Ástralíu kemur líka fyrir miklu austar í Ástralíu, við Darlingfljót, og í norð-austurhluta landsins í Queensland. Það er sem sé allútbreitt. Það útilokar aðeins hjúskap milli systkina, milli bræðrabarna og milli systurbarna í kvenlegg, með því að þessir aðiljar teljast til sama flokks. Hins vegar geta systurbörn og bróðurbörn gifzt sín á milli. Mamilaróarnir við Darlingfljót í Nýja-Suðurwales eru komnir feti lengra í því að takmarka mök milli náinna ættingja. Þar hafa flokkarnir tveir klofnað í fernt, og hver þessara fjögurra flokka er sem heild í hjúskapartengslum við einhvern hinna. Tveir fyrstu flokkarnir eru réttbornir hjúskaparaðilar sín á milli. En börn þeirra skiptast milli þriðja og fjórða flokksins, eftir því hvort móðir þeirra tilheyrir fyrsta eða

öðrum flokknum. Þessir flokkar giftast aftur á móti sín á milli, en börnin teljast til fyrsta eða annars flokks. Af þessu leiðir, að ættliðirnir víxlast stöðugt milli flokka, fyrsta kynslóðin tilheyrir fyrsta og öðrum flokki, næsta þriðja og fjórða, þriðja aftur fyrsta og öðrum o. s. frv. Samkvæmt því geta systkinabörn (í móðurætt) ekki lengur verið gagnkvæmir hjúskaparaðilar, en aftur á móti barnabörn systkina. Þetta einkennilega flókna skipulag verður enn þá margbrotnara, er kvensiftar-ættsveitum er hrófað ofan á það, en það er áreiðanlega síðar til komið og verður ekki rakið hér. En af þessu má sjá, að viðleitnin til að takmarka mök milli náinna ættingja lætur aftur og aftur til sín taka, enda þótt hún sé eðlisræn og fálmkennd og án glöggrar vitundar um markið.

Fjölhjúskapur Ástralinga er sem sé með flokkasniði. Það er fjölhjúskapur, sem nær til flokka kvenna og karla, sem oft eru dreifðir víðs vegar um landið. Því fer fjarri, að þessi fjölhjúskapur sýnist jafnskelfilegur nærhendis og broddborgarinn gerir sér í hugarlund, ímyndun hans enda mótuð af kynnum hans af pútnahúsum. Það liðu m. a. s. mörg ár, áður en menn fengu hugboð um tilvist þessara hjúskaparhátta – og hún hefur jafnvel verið rengd nú nýlega. Grunnfærum athuganda virðist svo, sem hér sé aðeins um að ræða losaralegt einkvæni og fjölkvæni sums staðar – og svo framhjátökur öðru hverju. Í framkvæmd koma þessir hjúskaparhættir venjulegum Evrópumanni fremur kunnuglega fyrir. Og hann verður að dveljast þarna í mörg ár, líkt og þeir Fison og Howitt, til að uppgötva reglurnar, sem farið er eftir. En það eru þessar reglur, sem ráða því, að Ástralingur, sem staddur er þúsundir kílómetra frá heimahögum meðal ókunnra manna, sem tala mál, er hann skilur ekki, rekst þó öðru hverju í ýmsum ættflokkum á konur, sem gefast honum fúslega á vald. Og það eru þessar reglur, sem eru að verki, þegar sá, sem á margar konur, ljær gesti sínum eina þeirra yfir nóttina. Evrópumaðurinn sér í þessum hlutum aðeins siðleysi og ringulreið, en þarna ríkir í reynd hið strangasta lögmál. Konurnar tilheyra venzla-flokki ókunna mannsins og eru því réttbornar eiginkonur hans. Og sama siðalögmálið, sem gefur þessar gagnkvæmu ávísanir, leggur útlegð við hvers konar kynferðismökum milli annarra flokka en þeirra, er saman eiga. Kvennarán eru algeng þarna í ýmsum héruðum, en flokkareglunum er stranglega fylgt einnig í því sambandi.

Í kvennaráninu má sjá nokkurs konar byrjun að sérhjúskap, eða að minnsta kosti þeirri tegund hans, er Morgan kallar parahjúskap. Þegar ungi maðurinn hefur numið stúlkuna á brott með aðstoð vina sinna, eiga þeir allir mök við hana, en síðan telst hún eiginkona unga mannsins, er fyrir ráninu stóð. Hlaupist hins veg-

ar þessi brottnumda stúlka á burt frá eiginmanni sínum, og nái einhver annar henni, þá eignast hann hana að konu, en forréttindi hins eru úr sögunni. Fjölhjúskapur er að vísu almennt tíðkaður áfram, en innan hans og utan koma nú fyrir undantekningar, para-hjúskapur um lengri eða skemmri tíma og auk þess fjölkvæni. Fjölhjúskapurinn er því í hnignun, og spurningin því aðeins sú, hver fyrr muni verða úr sögunni – fyrir evrópsk áhrif – fjölhjúskapurinn eða Ástralingurinn, sem hjarir nú við þá skipan.

Flokkahjúskapur, eins og hann tíðkast í Ástralíu, er mjög frumstæð og upprunaleg tegund fjölhjúskapar, Púnalúafjölskyldan er hins vegar, að því er vér bezt vitum, hæsta þróunarstig hans. Venzlaflokkarnir virðast samsvara þjóðfélagsháttum flakkandi villimanna, Púnalúafjölskyldan gerir aftur á móti ráð fyrir tiltölulega bólföstum félagshópum með sameignarsniði, – og þaðan liggur leiðin beint til næsta þróunarstigs. Hitt er vísast, að við munum finna ýmis millistig á milli þessara fjölskylduforma. Það er efni, sem tæpt hefur verið á, en er svo til órannsakað enn sem komið er.

3. *Parafjölskyldan.* Það kom fyrir á tímum fjölhjúskaparins og jafnvel fyrr, að einn karl og kona lifðu saman um lengri eða skemmri tíma. Karlmaðurinn átti aðalkonu (það er naumast hægt að kalla það eftirlætiskonu enn sem komið er) í hópi kvenna sinna, og hann var aðal-maður hennar, því að hún átti fleiri eiginmenn. Þessi högun hefur átt sinn þátt í því að rugla kollana á trúboðunum. Þeir líta á fjölhjúskap ýmist sem skefjalausa kvennasameign eða tilfallandi hjónabandsafbrot. En sérhjúskapur af þessu tagi hlaut að festast æ betur í sessi, eftir því sem ættsveitin þróaðist og þær deildir bræðra og systra urðu fleiri, er ekki máttu giftast sín á milli. Og áhrif ættsveitaskipulagsins í þá átt að hindra hjúskap milli náinna ættingja sögðu víðar til sín. Er það til dæmis, að með Irókesum og flestum öðrum rauðskinnum á frumstigi hálfsiðunar er bannaður hjúskapur milli allra þeirra, er ættingjar teljast eftir sifjakerfinu, og skipta þeir hundruðum. Og eftir því sem hjúskaparbönnin urðu margbrotnari, varð erfiðara um fjölhjúskap, para-fjölskyldan útrýmdi honum smám saman. Maður og kona búa nú tvö saman, en maðurinn má eiga fleiri konur og taka fram hjá öðru hverju. Þó er fjölkvæni fremur fátítt af hagrænum ástæðum. Hins vegar er krafizt fullkominnar hjúskapartryggðar af konunni, meðan þetta hjónaband stendur, og brjóti hún af sér í því efni, er henni refsað harðlega. Aftur á móti getur hvor aðilinn sem er slitið hjúskapnum fyrirhafnarlítið, og börnin heyra móðurinni til eins og áður.

Hjónabönd ættingja eru þannig takmörkuð æ meir, og segja

áhrif náttúruvalsins þar enn til sín. Morgan kveður svo að orði: „Gifting milli óskyldra ættsveita skapar hraustari kynþátt, jafnt í líkamlegu sem andlegu tilliti. Tveir ættstofnar, sem eru í framför, blandast sín á milli, og hauskúpur og heilar afkomendanna vaxa, unz þeir rúma eiginleika hvorra tveggju aðila.“ Þjóðflokkar með ættsveitaskipulagi hlutu því að ná tökum á hinum, er aftur úr höfðu dregizt, eða verða þeim fordæmi til eftirbreytni.

Þróun fjölskyldunnar í fyrnsku er sem sé í því fólgin, að hjúskaparhringurinn er sífellt þrengdur. Í fyrstu tók hann til alls ættstofnsins, þar sem konur allar og karlar lifðu í sameiginlegum hjúskap. En svo hefst útilokunarstefnan, og nær hún fyrst til nánustu ættingja, en síðan til hinna fjarskyldari, síðast jafnvel til tengdafólks. Hvers konar fjölhjúskapur reynist óframkvæmanlegur. Loks verða aðeins ein hjón eftir – laustengd enn sem komið er. Þau eru sameindin, og leysist hún upp, er hjónabandið yfirleitt úr sögunni. Það skilst af þessu einu, að einstaklingsleg kynást í nútímaskilningi á helzt til lítinn þátt í uppkomu sérhjúskaparins. Og framferði þjóðflokka á þessu þróunarstigi er enn frekari sönnun fyrir því. Meðan eldri fjölskyldu-hættir réðu, voru menn aldrei í neinni kvennaþröng, – þeir höfðu tíðast kappnóg af konum. Nú urðu konur hins vegar fágætar og eftirsóttar. Því er það, að með parahjúskapnum hefjast kvennarán og -kaup. Þetta eru allalgeng fyrirbrigði, en aðeins ytri tákn – og annað ekki – um miklu djúptækari breytingar, sem átt hafa sér stað. Það eru þessi ytri tákn, sem sé atferlið eitt við að afla sér kvenna, er MacLennan, skozki smásmygillinn, hefur gert að sérstökum fjölskylduflokkum. Hann hefur skírt þá ránshjúskap og kauphjúskap. Annars er það svo, bæði með rauðskinnum Ameríku og öðrum þjóðflokkum á líku stigi, að hjúskaparaðilarnir sjálfir eiga engan hlut að giftingarákvörðunum. Oft eru þeir alls ekki spurðir. Það eru mæður þeirra, sem ráða. Algengt er, að pilturinn og stúlkan séu gagnókunnug, en eru þó heitin hvort öðru, og þeim fyrst skýrt frá þessum kaupmála, er þau eru gjafvaxta. Áður en brullaupið fer fram, færir brúðguminn frændum brúðarinnar gjafir, þ. e. a. s. móðurfrændunum, en ekki föðurnum og frændliði hans. Gjafir þessar teljast eins konar greiðsla fyrir stúlkuna. Hvor aðilinn, sem er, getur rift þessu hjónabandi, ef hann vill, en með ýmsum þessum þjóðflokkum, þ. á. m. Írókesum, hefur skapazt almenningsálit gegn þess háttar hjónaskilnaði. Rísi deilur með hjónunum, koma ættsveitungar beggja og reyna að jafna þær. Beri það engan árangur, skilja þau; fylgja börnin móðurinni, en báðum er frjálst að giftast aftur.

Parafjölskyldan er bæði veigalítil og fallvölt. Hún skapar því hvorki þörf né löngun til sér-búskapar og sundrar á engan hátt þeim félagsbúskap, er áður hafði tíðkazt. Félagsbúskapur táknar hins vegar, að konur ráða öllu innan stokks. Þá eykur það og mjög virðingu kvenna (þ. e. mæðranna), að ætterni er eingöngu rakið í kvenlegg, með því að ekki er fullvíst um föðurinn. Sú hugmynd, að konan hafi frá öndverðu verið ambátt mannsins, er til okkar komin frá 18. öldinni, upplýsingartímabilinu svonefnda, og er fjarri öllum sanni. Konan nýtur ekki einungis frelsis, heldur og virðingar með öllum villtum þjóðflokkum. Sama máli gegnir um stöðu hennar hjá þjóðum á frum- og miðstigi hálfsiðunar og jafnvel að sumu leyti hjá þeim, er komnar eru á lokastigið. Um stöðu hennar innan parafjölskyldunnar höfum við vitnisburð Arthurs Wright. Hann starfaði árum saman sem trúboði meðal Seneka-Irókesa. „Að því er tekur til fjölskyldna þeirra í það mund, sem þeir bjuggu í fornu langhúsunum (félagsbúskapur margra fjölskyldna) ... þá réð „klaninn“ (ættsveitin) mestu. Konurnar urðu því að taka sér eiginmenn úr öðrum klönum (ættsveitum) ... Konur réðu oftast öllu innan húss. Birgðir voru sameiginlegar. En guð hjálpi veslings eiginmanninum eða elskhuganum, sem reyndist latur eða óhæfur til að afla að sínum hlut til þessara sameiginlegu birgða. Það skipti engu, hve mörg börn eða muni hann átti þarna í húsinu, hvenær sem var gat hann fengið skipun um að binda föggur sínar og hypja sig. Og það var ekki til neins fyrir hann að reyna að þráast við. Honum var gert óvært í húsinu, og oftast gat hann ekkert annað gert en snúið aftur heim til ættsveitar sinnar eða leitað ráðahags í annarri ættsveit, og var það algengt. Konurnar höfðu völdin jafnt í ættsveitunum sem annars staðar. Þeim veittist því auðvelt, ef svo bar undir, að víkja höfðingja úr embætti og gera hann að óbrotnum hermanni.“ Það er félagsbúskapurinn, þar sem konurnar eru flestar eða allar af sömu ættsveit, en eiginmennirnir af mörgum, sem er grundvöllurinn að því kvenræði, er algengt var í forneskju. Bachofen uppgötvaði það, og er það þriðja afrek hans. Ég ætla að skjóta hér inn einni athugasemd. Ferðalangar og kristniboðar hafa skýrt frá því, að konur villimanna og hálfsiðaðra þjóða séu mjög störfum hlaðnar. Þetta kemur á engan hátt í bága við það, sem hér er sagt. Verkaskiptingin milli kynjanna ákvarðast af allt öðrum ástæðum en staða konunnar í þjóðfélaginu. Með ýmsum þjóðflokkum stritar konan miklu meira en við teljum sæmandi. Engu að síður bera þeir hinir sömu meiri og sannari virðingu fyrir konum en Evrópumenn. Hefðarkvendi siðmenningartímabilsins hefur engin kynni af raunverulegri vinnu, – það vantar að vísu ekki, að það sé

hyllt svona til málamynda, en staða þess í þjóðfélaginu er óendanlega miklu lægri en konu hálfsiðunartímabilsins. Hún vann reyndar baki brotnu, en hún var talin sönn hefðarfrú (lady, frowa, freyja, sú sem drottnar) með þjóð sinni og var það líka í reynd að skaphöfn allri.

Ekki er fullvíst, hvort parafjölskyldan hefur útrýmt algerlega fjölhjúskapnum í Ameríku. Nánari rannsóknir á íbúum norðvesturhéraðanna, er enn standa á síðasta stigi villimennsku, sem og frumbyggjum Suður-Ameríku, verða að skera úr um það. Af þeim síðarnefndu eru sögð mörg dæmi um lausung, svo að líklegt er, að fjölhjúskapur sé þar ekki útdauður með öllu. Þeir eru ekki undir fjörutíu þjóðflokkarnir í norð-vesturhéruðum Ameríku, þar sem sá, er kvæntur er elztu syrsturinni, hefur jafnframt rétt til að kvænast þeim yngri, er þær hafa aldur til. Þetta munu leifar af fyrirkomulagi, þar sem karlar lifðu í sameiginlegum hjúskap með heilum hópi systra. Bancroft skýrir frá því um íbúa Kaliforníuskagans (sem standa á lokastigi villimennsku), að þeir efni til sérstakra hátíðahalda og sæki þangað margir ættstofnar og yðki handahófsmök. Eflaust er hér um ættsveitir að ræða, sem rámar enn til þess tíma, þegar allar konur í einni ættsveit áttu alla karlmenn annarrar sameiginlega að eiginmönnum – og gagnkvæmt. Það tíðkast enn í Ástralíu. Þá er það til með ýmsum þjóðflokkum, að öldungar, höfðingjar og töframeistarar nota samkvænið sér í hag og sölsa flestar konurnar undir sig. Hins vegar sætta þeir sig við, að hinn forni siður haldist á ýmsum hátíðum og samkomum ættbálkanna og leyfa þá ungu mönnunum að gamna sér með konum sínum. Westermarck nefnir (bls. 28 og 29) mörg dæmi um þessháttar saturnalia-hátíðir,[1] er hin fornu handahófsmök fá að ráða um stundarsakir. Getur hann þessa um Hósa og Santala, Pandsja og Kotara í Indlandi og ýmsar Afríkuþjóðir o. s. frv. Hitt er furðulegra, að Westermarck ályktar ekki, að þetta séu leifar fjölhjúskapar, en telur hins vegar, að hér eimi eftir af fengitíma, sem tíðkazt hafi með frummönnum líkt og dýrunum.

Hér erum vér komnir að fjórðu meginuppgötvun Bachofens, en það er millistigið milli fjölhjúskapar og para-fjölskyldu. Þetta millistig kemur víða fyrir. Bachofen lýsir því sem sektargjaldi eða yfirbót fyrir brot á hinum fornu boðorðum guðanna. En þetta yfirbótagjald, sem konan greiðir fyrir rétt sinn til skírlífis, er í reynd aðeins dulspekilegt orð um þær bætur, sem hún verður að gjalda til að losna úr hinu forna samveri og öðlast rétt til að

---

[1] Saturnalia = rómversk hátíð. Þar var ríkulega veitt, og þrælar og húsbændur mötuðust saman o. s. frv. Handahófsmök voru leyfð.

þýðast *aðeins einn mann.* Bæturnar eru þær, að konan verður að ofurselja sig um takmarkaðan tíma. Babýlónskar konur urðu að selja fram blíðu sína einu sinni á ári í hofi Mylittu.[1] Aðrar þjóðir í Litlu-Asíu sendu ungar stúlkur til hofs Anaitis,[2] að þær dveldust þar árum saman. Þar áttu þær að iðka frjálsar ástir með þeim elskhugum, er þær veldu sér, og máttu stúlkurnar ekki giftast, fyrr en þessu væri lokið. Slíkir siðir eru sameiginlegir flestum þjóðum frá Miðjarðarhafi austur að Ganges og sveipaðir alls konar trú og dulrænu. Svo sem Bachofen bendir á, verður friðþægingargjaldið æ léttbærara, sem tímar líða. „Árlegt blíðuframsal þokar, athöfnin er framkvæmd í eitt skipti fyrir öll. Húsfreyjurnar hætta að iðka frjálsar ástir (heterisma), en meyjarnar taka við, þetta gerist ekki lengur innan hjónabandsins, heldur áður en gifting fer fram. Þær gefa sig ekki lengur á vald hverjum sem er, heldur ákveðnum mönnum ..." (Mutterrecht bls. XIX). Þá eru og ýmsir þjóðflokkar, er vefja ekki þessa siði neins konar trúarhjúp. Með sumum þjóðum njóta stúlkur fullkomins frjálsræðis í kynferðismálum allt fram að giftingu. Má nefna þar til hina fornu Þrakverja og Kelta o. fl., marga af frumbyggjum Indlands, ýmsa malajiska þjóðflokka, Suðurhafseyjabúa og marga af rauðskinna-þjóðflokkum Ameríku. Einkum tíðkast slíkt í Suður-Ameríku, eins og hver sá getur borið um, er hefur komið eitthvað inn í landið. Agassiz segir t. d. frá ríkri fjölskyldu af indíánskum uppruna (A Journey in Brazil, Boston and New York 1886, bls. 266[3]). Hann kynntist dótturinni og spurði um föður hennar, með því að hann hélt, að það væri eiginmaður húsfreyju, sá hinn sami, er gegnt hafði liðsforingjastarfi í stríðinu við Paraguay. Þá svaraði móðirin brosandi: „naô tem pai, he filha da fortuna", hún á engan föður, hún er lausaleiksbarn. „Á þessa lund tala indíánskar eða hálfindíánskar konur um lausaleikskróga sína og án þess að blygðast sín vitundar ögn. Og það er fjarri því, að þetta sé sjaldgæft. Þetta er reglan, en hitt fremur undantekning. Oft þekkja börnin ... aðeins móður sína, með því að hún verður að annast þau og ábyrgjast að öllu leyti. Um föður sinn vita þau ekkert. Svo virðist líka, sem konunni komi aldrei til hugar, að hún eða börnin eigi nokkra kröfu á hann".

Siðmenntuðum mönnum kemur það ókunnuglega fyrir, sem er blátt áfram almenn venja hjá þeim, er búa við móðurrétt og fjölhjúskap.

Þá tíðkast það með sumum þjóðum, að vinir brúðgumans eða ættingjar eða einhverjir brúðkaupsgestanna notfæra sér fornan

[1] Mylitta = babýlónsk ástargyðja.
[2] Anaitis = armensk ástargyðja.
[3] Ferð um Brasilíu.

rétt til brúðarinnar. Þeir gera þetta í sjálfu brullaupinu, og kemur brúðguminn sjálfur síðastur til leiks. Eru frásagnir um slíkt frá Baleareyjum, og með Bareas-þjóðflokknum í Abessiníu tíðkast það enn í dag. Samskonar fréttir fóru af Augilunum afrísku á dögum Rómverja. Hjá öðrum þjóðflokkum höfðu sérstakir embættismenn, en ekki almenningur, þetta hlutverk með höndum. Voru það ýmist höfðingjar ættflokksins eða ættsveitarinnar, kazikar, sjamanar (töframeistarar), prestar, furstar o. s. frv., sem iðkuðu „rétt hinnar fyrstu nætur.“ Og þótt nýrómantíkin reyni að hvítþvo þetta og forgylla, helzt samt þessi „jus primae noctis“,[1] þessi leif fjölhjúskaparins, enn þann dag í dag með flestum þjóðflokkum Alaskasvæðisins, Tahúsum í Norður-Mexíkó (Bancroft: Native Races bls. 81 og 584) og mörgum öðrum þjóðum. Og allar miðaldirnar var hann í gildi, að minnsta kosti í þeim löndum, er höfðu verið byggð Keltum,[2] og er arfleifð þeirra frá tímabili fjölhjúskaparins. Hann tíðkaðist t. d. í Aragóníu. Bændurnir í Kastalíu voru aldrei ánauðugir. Hins vegar viðgekkst hin herfilegasta bændaánauð í Aragóníu, allt til þess er Ferdinand kaþólski kvað upp úrskurð sinn 1486. Í skjali þessu segir svo: „Vér úrskurðum og lýsum yfir, að fyrrnefndir herramenn (barónar, sínjórar) ... mega ekki sofa hjá eiginkonum bænda fyrstu nóttina, er hjónin eiga að sænga saman. Né heldur mega þeir auglýsa vald sitt með því að stíga yfir rekkjuna, þar sem brúður bónda hvílist, á brúðkaupsnóttina. Áðurnefndum herramönnum leyfist ekki að neyða bændadætur eða -syni til að þjóna sér gegn vilja þeirra, hvort sem greitt er fyrir það eða ekki“. (Tilvitun í katalónska frumritið hjá Sugenheim: Bændaánauðin, Pétursborg 1861 bls. 35).

Rétt er einnig sú fullyrðing Bachofens, að breytingar úr því, sem hann kallar fylgilag eða fenjagetnað (Heterismus, Sumpfzeugung) í einkvæni hafi einkum gerzt fyrir tilverknað konunnar. Framleiðslan tók framförum, hin forna sameign og félagsrekstur þokuðu um set, og með vaxandi þéttbýli misstu arfteknir samlífshættir kynjanna upprunalegt eðli sitt og einkenni. Þetta allt leiddi til þess, að konunum þótti hin forna kynlífsskipan þungbær og auðmýkjandi, og því afdráttarlausari urðu óskir þeirra um rétt til skírlífis, um tímabundinn eða ævilangan sérhjúskap, sem lausn úr þessum vanda. Þessi framför getur ekki verið runnin undan rifjum karlmanna. Ástæðan er einfaldlega sú, að þeim hefur aldrei komið til hugar – og það allt til þessa – að neita sér um hagræði raunverulegs fjölhjúskapar. Það var þá fyrst, er konurnar höfðu komið á para-hjúskap, að karlmennirnir gátu inn-

1 Réttur hinnar fyrstu nætur.
2 Þ. e. Spánn, Frakkland, Írland o. s. frv.

leitt strangan sérhjúskap, sem náði reyndar aðeins til kvennanna.

Parafjölskyldan kom upp á mótum villimennsku og hálfsiðunar, oftast á síðasta stigi villimennskunnar, en sums staðar á frumstigi hálfsiðunar. Hún er sú fjölskylduskipan, sem einkum einkennir hálfsiðunartímabilið, líkt og fjölhjúskapur auðkennir skeið villimennskunnar og einkvæni tímabil siðmenningarinnar. Önnur öfl en hingað til höfðu verið að verki urðu að koma til, svo að hún gæti breytzt í strangan sérhjúskap. Með parahjúskapnum var hringurinn þrengdur, svo sem framast mátti verða, flokkurinn klofinn í eindir, – eftir var aðeins sameind tveggja frumeinda – manns og konu. Náttúruvalið hafði útilokað æ fleiri frá því að bindast gagnkvæmum hjúskapar-böndum. Þar varð ekki meira aðgert, hlutverki þess var lokið. Það var því engin ástæða til þess, að para-hjúskapurinn breyttist í aðra fjölskylduskipan, svo fremi að ný þjóðfélagsöfl létu ekki til sín taka. En þessi öfl komu til sögunnar.

Við skiljum nú við Ameríku, hið sígilda land parafjölskyldunnar. Þess sjást engin merki, að æðri fjölskylduhættir hafi verið að þróast þar eða strangt einkvæni verið þar til, áður en Evrópumenn komu þangað. Öðru máli gegnir um gamla heiminn.

Þar höfðu húsdýr verið tamin og hjörðum komið upp, og hafði þetta orðið slík auðsuppspretta, að þjóðfélagshættirnir tóku algerum stakkaskiptum. Allt fram á frumstig hálfsiðunar hafði naumast verið um aðrar eignir að ræða en hús, klæðnað, óhrjálega skartgripi og verkfæri til að afla matfanga og tilreiða þau. Má þar til nefna báta, vopn og einföldustu búsáhöld. Það varð að afla vista að kalla daglega. En nú voru hrossahjarðir og úlfalda, asna, nautgripa, sauða, geita og svína komnar til sögunnar. Það voru Aríarnir í Fimmfljótalandinu indverska, Gangeshéruðunum og gresjunum við Oxus og Jaxartes, – er þá voru vatnsmeiri en nú, – sem höfðu eignazt þess konar hjarðir; slíkt hið sama Semítarnir við Evfrat og Tigris. Og þessar gripahjarðir þurftu lítillar gæzlu og umönnunar til að æxlast og margfaldast og gefa af sér gnægð af kjöti og mjólk. Aðrir bjargræðisvegir þokuðu um set. Veiðarnar, sem áður höfðu verið brýnasta nauðsyn, urðu nú munaður eða tómstundagaman.

Hverjir áttu svo þessi nýju auðæfi? Vafalaust hafa þau verið sameign ættsveitarinnar í fyrstu. En einkaeign á hjörðum mun hafa komið snemma upp. Vant er að segja, hvort höfundur hinnar svonefndu Fyrstu Mósebókar hefur talið Abraham eiganda hjarða sinna, hvort hann hefur talið þær einkaeign hans sem fjölskylduföður eða hann hafi ráðið yfir þeim, af því að hann færi með ættgengt höfðingjastarf í ættsveitinni. Hitt er víst, að

við megum ekki líta á hann sem eiganda í nútímaskilningi þess orðs. Það er líka víst, að í það mund er söguritun hefst, eru hjarðirnar alls staðar komnar í eign fjölskyldufeðranna, slíkt hið sama listmunir þessa hálfsiðunartímabils, málmáhöld, munaðarvörur og að lokum mannfénaðurinn, – þrælarnir.

Nú var sem sé búið að finna upp þrælahaldið. Á frumstigi hálfsiðunar voru þrælar einskis virði. Því var það, að amerísku rauðskinnarnir fóru allt öðru vísi með sigraða óvini, en síðar var gert. Karlmennirnir voru ýmist drepnir eða þeir voru teknir upp í ættflokk sigurvegaranna sem bræður. Konurnar voru giftar, eða þær voru ættleiddar ásamt börnum sínum. Mannlegt vinnuafl framleiðir á þessu þróunarstigi litlu meira en það, sem þarf til viðhalds því. En þegar kvikfjárrækt, málmvinnsla og -smíði, vefnaður og akuryrkja, koma til sögunnar, breytist þetta. Áður var auðvelt að afla sér eiginkvenna, en nú voru þær metnar til fjár og keyptar. Á sama veg fór um vinnuaflið, einkum eftir að búféð var orðið fjölskyldueign. Fjölskyldan óx ekki að sama skapi og búpeningurinn. Það þurfti fleiri menn til að gæta hans. Nota mátti hertekna fjandmenn í því skyni, og auk þess var hægt að láta þá æxlast og margfaldast líkt og búsmalann.

Sem þessi auðæfi voru orðin einkaeign fjölskyldna og jukust óðfluga, ýttu þau harkalega við ríkjandi þjóðfélagsskipan, en hún var reist á parahjúskap og kvenleggs-ættsveit. Parahjúskapurinn hafði bætt nýjum þætti í fjölskyldulífið. Hann hafði tryggt föðurnum stöðu við hlið móðurinnar. Nú var það ekki lengur móðernið eitt, sem var víst og sannanlegt, faðernið var það líka – og öllu tryggara en stundum nú. Þá var verkaskipting í fjölskyldum sú, að karlmaðurinn átti að annast búsaðdrætti og þau áhöld, sem til þess þurfti, og réð því yfir þeim. Hann hafði þau á burt með sér, ef hjónin skildu, á sama hátt og konan hélt öllum sínum búsáhöldum. Karlmaðurinn varð því að siðvenju þessa tíma eigandi búsmalans og síðar þrælanna. Það voru nýjar auðlindir og vinnutæki, er heyrðu til starfssviði hans. En nú var svo háttað í þessu þjóðfélagi, að börn karlmannsins gátu ekki erft hann af ástæðum, sem nú skal greina.

Samkvæmt móðurrétti (þ. e. meðan rakið var aðeins í kvenlegg) og upphaflegum erfðavenjum ættsveitarinnar erfðu ættsveitungar jafnan látna frændur sína. Eignir urðu að haldast í ættsveitinni. Erfðamunirnir voru harla lítilvægir og hafa sennilega frá upphafi gengið til nánustu ættsveitunga, sem sé nánustu ættingja í kvenlegg. Börn látna eiginmannsins töldust ekki til ættsveitar hans, heldur móðurinnar. Þau erfðu því í fyrstu móður sína ásamt öðrum ættingjum, síðar urðu þau að mestu ein um hituna. Hins vegar gátu þau ekki erft neitt frá föður sínum, af

því að þau töldust ekki til ættsveitar hans, en eignir hans urðu að vera þar kyrrar. Er hjarðeigandi dó, gengu eignir hans fyrst til bræðra hans og systra eða til barna systra hans eða afkomenda móðursystra hans. En hans eigin börn voru arflaus. Þessi síauknu auðæfi gerðu hvort tveggja í senn að efla aðstöðu karlmannsins í fjölskyldunni umfram konunnar og ala hjá honum óskir um að nota þennan styrk sinn til að kollvarpa hinni fornu erfðahögun börnum sínum í hag. En þetta var ókleift, meðan rakið var í móðurætt, það varð að kollvarpa þeirri tilhögun – og það tókst. Það var engan veginn eins örðugt og okkur mætti virðast. Þessi bylting, sem er ein sú áhrifaríkasta í mannkynssögunni, þurfti ekki að taka til neins í ættsveitinni, er þá lifði. Ættsveitungarnir gátu verið að öllu eins og hingað til. Það var nóg að samþykkja, að framvegis skyldu afkomendur karlmannanna í ættsveitinni sitja þar kyrrir áfram, en börn þeirra ættsveitunga, er kvenkyns voru, vera útrekin, með því að þau skyldu nú teljast til ættsveitar föður síns. Með þessu var numin úr gildi ættarrakning í kvenlegg og arfgengi í móðurætt, karlsift og föðurerfðir komu í staðinn. Hitt vitum við ekki, hvernig og hvenær þessi bylting hefur gerzt með menningarþjóðunum. Hún verður á forsögulegum tíma. En Bachofen hefur nógsamlega sannað, að hún hafi átt sér stað, með fjölmörgum minjum um móðurrétt, er hann hefur safnað. Og þessi breyting hefur verið tiltölulega auðveld, svo sem sjá má af svipaðri þróun, sem fram hefur farið með rauðskinnaþjóðflokkum, eða á sér stað þessa stundina. Þær breytingar hafa ýmist gerzt fyrir áorkan vaxandi auðæfa eða breyttra lifnaðarhátta (búferlaflutning úr skógunum út á gresjuna) eða fyrir siðferðileg áhrif frá siðmenntum þjóðum og trúboðum. Sex af átta Missouri-ættflokkum rekja kyn sitt í karllegg og búa við föðurerfðir, tveir taka arf og ætterni í kvenlegg. Með Shawneum, Miameum og Delavörum hefur breiðzt út sú siðvenja að kalla börnin eftir ættsveit föður þeirra, að þau teljist til hennar og geti tekið arf eftir föður sinn. „Meðfædd orðslægð manna að breyta hlutunum með því að skíra þá upp, finna eitthvert yfirvarp til að sigrast á erfðavenjunum innan frá, er eigin hagur krafðist þess“. (Marx). Þetta olli mestu ringulreið, og varð því aðeins við hjálpað, að tekinn væri upp föðurréttur, enda oft gert. „Það virðist yfirleitt eðlilegasta breytingin“. (Marx). Samanburðar-lögfræðingar hafa um það fjallað, með hvaða hætti þessar breytingar hafi gerzt hjá menningarþjóðum fornaldar. Kenningar þeirra eru reyndar mest tilgátur. Má í þessu sambandi benda á rit M. Kovalevsky: Tableau des origines et de l'évolution de la famille et de la propriété, Stockholm 1890.[1]

1 Ágrip um uppruna og þróun fjölskyldu og eignar.

Kollvörpun móðurréttarins var *heimssögulegur ósigur kvenþjóðarinnar.* Karlmaðurinn tók við stjórnartaumunum, líka á heimilinu, konan lækkaði í tign, hún var þrælkuð, hún varð ambátt fýsna hans og einbert tæki til barneigna. Þessi niðurlæging konunnar kemur glöggt fram hjá Grikkjum á hetjuöld þeirra og á hinu svonefnda „klassíska“ tímabili. Smám saman hefur verið reynt að fegra þessa aðstöðu með alls kyns fagurgala, sums staðar hefur hún fengið mýkra snið, en hún hefur hvergi verið afnumin.

Fyrstu áhrifin af þessu nýja alræði karlmannanna koma fram í fjölskylduskipaninni. Nýtt millistig kemur nú upp, ættfeðrafjölskyldan. Fjölkvænið, sem síðar mun að vikið, er ekki megineinkenni hennar, heldur hitt, „að nokkrir frjálsir menn og ánauðugir eru nú skipulagðir í eina fjölskyldu, er hlítir föðurlegu valdi fjölskylduföðurins. Með Semítum er þessi fjölskylduskipan á þann veg, að fjölskyldufaðirinn lifir í fjölkvæni, ófrjálsir menn eiga konur og börn, og markmið þessarar félagsheildar er að gæta búfjárhjarða á afmörkuðu svæði“. Megineinkenni slíkrar fjölskyldu er annars vegar hið föðurlega vald, hins vegar að hún tekur einnig til ófrjálsra manna. Fjölskylduskipan Rómverja er skýrasta og fullkomnasta sýnishorn þessarar tegundar. Orðið familía er að upprunalegri merkingu allsendis óskylt óskmynd nútíma-broddborgara af þessari stofnun. Þeir hugsa sér tíðast fjölskylduna sem eins konar sambland af viðkvæmni og heimilisnaggi. Upphaflega táknar orðið familía hjá Rómverjum alls ekki hjónin eða börn þeirra, heldur eingöngu þrælana. Famulus þýðir húsþræll, familía er safnheiti, sem tekur til allra þræla, er húsbóndinn á.[1] Jafnvel á dögum Gajusar var enn kveðið á í erfðaskrám um familia – id est patrimonium (þ. e. erfðahlut). Rómverjar fundu upp þetta orð til að tákna með þessa nýju félagsheild. Fjölskyldufaðirinn sat þar í hásætinu, hann réð yfir konu sinni og börnum og þrælunum – og samkvæmt rómversku föðurvaldi sínu átti hann rétt á lífi þeirra allra. „Orðið er sem sé ekki eldra en hið brynvarða fjölskyldukerfi latínsku ættflokkanna. Það varð til, eftir að akuryrkja og löghelgað þrælahald voru komin til sögunnar – og eftir að leiðir hafði skilið með Ítölum og Grikkjum“. Og Marx bætir við. „Fjölskylduskipan nútímans felur ekki aðeins í sér anga af þrælahaldi (servitus), heldur og bændaánauð, með því að hún var frá upphafi sniðin við

---

1 Svipuðu máli gegnir orðið hjón í norrænu, upphaflega merkingin er heimafólk, þjónustulið eða þ. u. l. sbr. hjú, hýi = þræll, hýbýli o. s. frv. Nútímamerkingin í orðinu fjölskylda er hins vegar ung og kemur ekki fyrir í fornu máli (Þýð.).

þarfir akuryrkjunnar. Hún geymir í smækkaðri mynd allar þær mótsetningar, er síðar þróast í þjóðfélaginu og ríkinu".

Þessir fjölskylduhættir eru millistig milli parahjúskapar og einkvænis. Konan lýtur gjörsamlega valdi mannsins, að hann geti verið öruggur um trúnað hennar og faðerni barnanna. Eiginmaðurinn er í sínum fulla rétti, þótt hann svipti hana lífi.

Við erum nú komnir að þeim tímum, er rituð saga nær til, er við ræðum þessa fjölskylduskipan. Samanburðarlögfræðin getur því orðið okkur að gagni. Og hún hefur líka skilað verulegum árangri á þessu sviði. Maxim Kovalevsky (Tableau ... bls. 60–100) hefur sannað, að föðurréttarhúsneyti Serba og Búlgara eru millistigið milli móðurréttarfjölskyldunnar, sem spratt upp úr fjölhjúskapnum, og þeirrar fjölskylduskipanar, er nú tíðkast. Þessi föðurréttar-húsneyti kallast zadruga (þ. e. vinsemd e. þ. u. l.) og bratstwo (bræðralag) með slavnesku þjóðunum, sem fyrr voru nefndar. Þess konar húsneyti koma og fyrir með ýmsum austurlandaþjóðum í örlítið breyttu sniði. Má telja snnað, að um slíkt millistig hafi verið að ræða að minnsta kosti hjá menningarþjóðum gamla heimsins, Aríum og Semítum.

Zadrugan suðurslavneska er bezta nútíma-dæmið um þessa fjölskylduhætti. Hún telur innan vébanda sinna afkomndur eins föður í nokkra ættliði, ásamt konum þeirra. Búa þessir aðilar allir á sama býli, yrkja akra sína í sameiningu, fæða sig og klæða af sameiginlegum forða og eiga saman allan ágóða. Þessi félagsheild lýtur yfirstjórn húsbóndans (domacin), sem er fulltrúi hennar út á við. Hann annast fjárhaldið og má selja ýmislegt smávegis, og hann ber ábyrgð á öllum venjulegum viðskiptum fjölskyldunnar. Hann er kosinn og þarf ekki endilega að vera aldursforseti. Konurnar og þeirra störf lúta yfirstjórn húsfreyjunnar (domacica), sem oftast er eiginkona domacins. Hún ræður líka miklu og oft mestu um makaval og giftingu stúlknanna. Fjölskylduráðið fer hins vegar með æðsta valdið, en það er skipað öllum fullorðnum í húsneytinu, konum jafnt sem körlum. Húsbóndinn gerir því skilagrein fyrir starfi sínu. Það tekur allar meiri háttar ákvarðanir, dæmir í málum húsnauta, ákveður öll meiri háttar kaup eða sölur, einkum á landareignum.

Það eru ekki nema 10 ár, síðan það sannaðist, að enn eru til í Rússlandi sams konar fjölskyldufélög. Er nú talið, að þau séu alveg jafnsamgróin rússneskum þjóðlífsvenjum og t. d. „Obsjinan" eða þorpsfélagið. Þau heita sama nafni í elztu lögbók rússneskri, Prövdu Jaróslavs konungs, og í dalmatísku lögunum og kallast *vervj*. Þá má og sanna með heimildum úr sögu Pólverja og Tékka, að sams konar fjölskylduhættir hafi tíðkazt hjá þeim.

Heusler telur og (Institutionen des deutschen Rechts[1]) að í öndverðu hafi framleiðsluheildir með Þjóðverjum ekki verið einstakar fjölskyldur, heldur „húsneyti". Hafi þau saman staðið úr nokkrum ættliðum eða einstökum fjölskyldum og oft talið ófrjálsa menn innan vébanda sinna. Fjölskyldan rómverska er einnig talin af þessari tegund, og því er það, að menn draga nú í efa alræðisvald húsbóndans og réttleysi annarra fjölskylduaðila gagnvart honum. Einnig ætla menn, að svipuð fjölskyldufélög hafi viðgengizt með Keltum á Írlandi. Í Frakklandi, í Nivernais, héldust þau allt fram að frönsku byltingunni miklu og gengu undir nafninu „parçonneries", og í Franche Comté[2] eru þau ekki aldauða enn. Í Louhans-héraði (við Són og Leiru) getur að líta stór bændahús. Sameiginlegur salur er í miðju húsi og nær upp undir þak, í kring eru svefnherbergin og farið upp í þau eftir stigum, oft 6–8 þrepa löngum. Í húsinu búa nokkrir ættliðir sömu fjölskyldu.

Nearchus, sem uppi var á dögum Alexanders mikla, talar um húsneyti og félagsyrkju á Indlandi. Helzt þetta hvort tveggja enn þá og á sömu slóðum, í Pandsjab og öllum norðvesturhéruðum landsins. Þá hefur Kovalevsky sýnt fram á, að slík húsneyti eru til í Kákasus. Þau koma enn fyrir í Algier hjá Kabýlum. Það er jafnvel talið, að þau komi fyrir í Ameríku, og ætla sumir, að „Calpullurnar" í Mexíkó hinu forna, sem Zurita segir frá, séu reyndar húsneyti. Í annan stað hefur Cunow fært allgild rök að því („Ausland" 1890 No. 42–44), að gilt hafi í Perú, er Evrópumenn komu þangað, ákveðnar reglur um landareignir þorpa. (Þorpslandið hét marca, það kallast líka Mark á þýzku, svo að hér hittist einkennilega á). Ræktuðu landi var skipt upp á ákveðnum fresti og því ekki um samyrkju eða félagsbúskap að ræða.

Þetta ættföðurlega húsneyti með félagseign sína á landi og samyrkju fær nú allt annað gildi og merkingu en áður. Það verður ekki dregið í efa, að það hefur verið mjög mikilvægt millistig milli móðurréttar og sérfjölskyldu. Á þetta við um allar menningarþjóðir og margar aðrar þjóðir gamla heimsins. Síðar komum vér að skoðun Kovalevskys, um að húsneytið hafi breytzt í þorpsfélag með séryrkju, og hafi ökrum og engilöndum fyrst verið skipt milli fjölskyldna á vissum árafresti, en síðar orðið einkaeign.

Að því er tekur til fjölskyldulífsins í húsneytunum skal þessa getið. Það orð fór af húsföðurnum, að minnsta kosti í Rússlandi, að hann misnotaði mjög aðstöðu sína gagnvart ungum konum í

1 Þýzkar réttarstofnanir.

2 Svo hétu héruð í Frakklandi fyrir byltinguna miklu.

húsneytinu, einkum tengdadætrum sínum. Kvað hann oft hafa þar eins konar kvennabúr, og er fjölyrt um það í rússneskum þjóðkvæðum.

Sérhjúskapurinn kemur brátt til sögunnar, er móðurréttinum hefur verið kollvarpað. En rétt er að fara nokkrum orðum um fjölkvæni og fjölveri, áður en komið er að honum. Þessir hjúskaparhættir hvorir tveggju geta aðeins komið fyrir sem undantekningar. Þeir eru nokkurs konar munaðarframleiðsla mannkynssögunnar, ef svo má að orði kveða. Slíkt þyrfti reyndar ekki að vera, ef þeir tíðkuðust samtímis og samhliða í sama landi, en sú er ekki raunin á. Karlar þeir, sem afskiptir verða á fjölkvænissvæðinu, geta því ekki leitað huggunar hjá þeim konum, sem fjölverið útilokar frá hjúskap. Nú hefur tala kvenna og karla verið nokkurn veginn jöfn til þessa, hvað sem öllum félagsstofnunum líður. Það er því með öllu útilokað, að fjölveri eða fjölkvæni geti orðið almenn eða ríkjandi hjúskaparskipan. Fjölkvæni eins manns er sýnilega afleiðing þrælahaldsins og aðeins bundið við sérstöðu hans. Það er t. d. aðeins ættfaðirinn í stórfjölskyldum Semíta, sem lifir í fjölkvæni. Fyrir kemur, að einhverjir sona hans gera það líka, en hinir allir verða að láta sér nægja eina konu. Þannig er þetta alls staðar í Austurlöndum. Fjölkvæni er forréttindi ríkra manna og tiginna. Almenningur allur lifir í einkvæni. Fjölverið í Indlandi og Tíbet er sams konar undantekning. Það virðist hafa þróazt upp úr fjölhjúskap, og er það merkilegt mál, sem þyrfti nánari rannsóknar. Það virðist öllu frjálsara og sveigjanlegra í framkvæmd en kvennabúraskipulag Múhameðstrúarmanna, þar sem afbrýðin situr í öndvegi. Það er að minnsta kosti kunnugt um Naira í Indlandi, að þrír eða fjórir karlmenn eða fleiri eiga þar sömu konuna, en hver þeirra um sig má eiga aðra, þriðju eða fjórðu konuna í félagi við einhverja þre- eða fjórmenninga aðra. Sjálfur hefur MacLennan lýst þessum hjúskaparháttum, sem menn geta gerzt félagar í. Það má því merkilegt heita, að hann skyldi ekki uppgötva þarna nýja hjúskaparskipan og skíra hana klúbba-hjúskap. Þessi klúbba-hjúskapur er annars ekkert raunverulegt fjölveri. Þetta er aðeins sérstakt snið fjölhjúskapar, eins og Giraud-Teulon hefur bent á. Karlmennirnir lifa í fjölkvæni, konurnar í fjölveri.

4. *Einkvænis-fjölskyldan* verður til upp úr parahjúskapnum, og þetta gerist, svo sem sýnt hefur verið fram á, á tímabili hálfsiðunarinnar, á mótum miðstigs þess og lokastigs. Úrslitasigur þessara nýju fjölskylduhátta er eitt af auðkennum byrjandi siðmenningar. Nú er það karlmaðurinn, sem hefur öll völd, markmið fjölskyldunnar er barneignir, þar sem faðernið sé alveg ótvírætt, svo að börnin geti, er stundir líða, erft eignir föður

síns. Sá er munur á þessari fjölskyldu og parafjölskyldunni, að hjúskapartengslin eru langt um fastari og hjónin geta ekki skilið að vild. Nú er tíðast sá háttur á, að karlmaðurinn einn getur rofið hjúskapartengslin og rekið eiginkonuna frá sér. Hann má líka vera ótrúr konu sinni eins og áður, eða sú er siðvenjan, og hann notar sér þau forréttindi því rækilegar, sem hann stendur hærra í mannfélagsstiganum. (Samkvæmt lögbók Napóleons[1] hefur karlmaðurinn rétt til framhjáhalds, svo lengi sem hann kemur ekki með frillu sína í hús þeirra hjóna). Skyldi konuna hins vegar ráma eitthvað í forna kynlífshætti og langa til að taka þá upp, bíður hennar harðari refsing en nokkru sinni fyrr.

Við kynnumst þessum fjölskylduháttum í allri sinni hörku hjá Grikkjum. Marx hefur bent á það, að staða og áhrif gyðjanna samkvæmt goðafræðinni grísku væri endurspeglun eldri tíma, er konur nutu meira frelsis og virðingar. En á hetjutímabilinu skipa grískar eiginkonur óvirðingarsess, og kemur þar hvort tveggja til, alger yfirráð karlmanna og samkeppni ambáttanna. Í Odysseifskviðu er sagt frá því, hvernig Telemakkus vísar móður sinni á burt og í háttinn. Hómer segir frá því, hvernig sigurvegararnir gamna sér við herteknar, ungar konur. Foringjarnir velja úr þær fegurstu, og á sá fyrst að kjósa, sem tignastur er, og svo í röð. Ilíonskviða fjallar, svo sem kunnugt er, aðallega um deilu þeirra Akkillesar og Agamemnons út af fagurri ambátt. Það er enginn sá meiriháttar kappi í kvæðum Hómers, að ekki sé getið um ambátt þá hertekna, sem sé tjald- og rekkjunautur hans. Þessar herteknu meyjar eru síðan fluttar með heim og inn á heimili hjónanna, svo sem Æskylos lætur Agamemnon gera við Kassöndru. Synir, sem getnir eru með slíkum ambáttum, fá smávegis arfshlut hjá föður sínum og teljast fullfrjálsir. Tevkros, sonur Telamons, er t. d. utanhjónabandsbarn, en má þó kalla sig eftir föður sínum. Af eiginkonunni er þess vænzt, að hún sætti sig við allt og reynist manni sínum fullkomlega trú. Grískar konur njóta að vísu meiri virðingar á hetjuöld en síðar á siðmenningartímabilinu. Samt voru þær þá í augum manna sinna aðeins mæður arfborinna hjónabandsbarna, æðstu ráðskonur innanhúss og forstöðukonur ambáttanna. Úr ambáttaliðinu gátu eiginmennirnir hins vegar valið sér hjákonur og gerðu það líka. Sérhjúskapur og þrælahald þróast þarna hlið við hlið, þarna eru ungar og fagrar ambáttir, sem eru í eign mannsins. Þetta mótar sérhjúskapinn frá upphafi, kröfur um trúnað og skírlífi taka aðeins til konunnar, en ekki mannsins. Og svo er þetta enn.

Þegar rætt er um Grikki síðar, verður að greina á milli Jóna

1 Borgaraleg lögbók, samin að tilhlutan Napóleons I., tók gildi í Frakklandi 1804.

og Dóra. Eftir lýsingum Hómers að dæma búa Dórar þá enn við fjölskylduhætti, sem eru fornlegir um margt. Sparta er þar gleggsta dæmið. Þar er þá í gildi parahjúskapur, að vísu nokkuð mótaður af þeim skoðunum, sem þar voru uppi um hag og hlutverk ríkisins. Þó má finna þar ýmsar minjar um fjölhjúskap. Barnlausum hjónaböndum er slitið. Anaxandrídas konungur (uppi um 650 f. Kr.) átti ekki barn með eiginkonu sinni og fékk sér því aðra í viðbót og átti tvö heimili. Um líkt leyti var það, að Ariston konungur, sem átti tvær óbyrjur, fékk sér þriðju konuna, en sagði skilið við aðra þá fyrri. Í annan stað máttu bræður, tveir eða fleiri, eiga eina konu saman, og ef einhverjum gazt að konu vinar síns, máttu þeir njóta hennar saman. Það þótti og viðeigandi, „að sjá konu fyrir hnarreistum fola", eins og Bismarck myndi orða það, og það eins þótt viðkomandi teldist ekki samborgari. Plútark segir á einum stað frá því, er spartversk kona ræður áleitnum elskhuga að fara til eiginmanns síns – og dregur Schömann af því þá ályktun, að frjálsræðið hafi verið enn víðtækara. Raunveruleg hjónabandsafbrot, þannig að konur héldu fram hjá mönnum sínum í laumi, voru því óþekkt fyrirbrigði. Húsþrælar tíðkuðust hins vegar ekki í Spörtu, að minnsta kosti ekki á blómaskeiði ríkisins. Helótarnir, sem voru ánauðugir, bjuggu sér, á sérstökum býlum. Spartverjar höfðu því minni tilhneigingu til að seilast eftir konum þeirra. Það er því engin furða, er þessa alls er gætt, þótt konan skipaði annan sess og virðulegri með Spartverjum en öðrum Grikkjum. Spartversku konurnar og aþensku heterurnar eða fylgi-kvendin eru einu grísku konurnar, sem fornir höfundar tala um með virðingu, – og þeir telja ómaksins vert að herma orð þeirra.

Allt var þetta með öðru sniði hjá Jónum, og er Aþena þar skýrasta dæmið. Þar lærðu stúlkurnar aðeins að spinna, vefa og sauma. Þegar bezt lét, lærðu þær eitthvað smávegis að lesa og skrifa. Þær voru að heita mátti lokaðar inni, fengu ekki að fara út nema í fylgd með öðrum konum. Kvennaherbergin voru á afviknum stað í húsinu, ýmist á efri hæð eða bakhúsmegin niðri. Karlmenn, og þá einkum ókunnugir, rákust sjaldan þar inn, og þangað leitaði kvenþjóðin, er karlmenn bar að garði. Konur gengu ekki út, nema ambáttir væru í för með þeim, – og heima við var þeirra raunverulega gætt. Aristófanes minnist á molossiska hunda, er notaðir voru til að fæla burt hórkarla, og í borgunum, í Litlu-Asíu að minnsta kosti, höfðu menn geldinga til að gæta kvennanna. Á tímum Heródots voru menn vanaðir í þessu skyni og seldir á Khios,[1] – og munu Grikkir hafa keypt

[1] Grísk ey.

þá engu síður en aðrar þjóðir, eftir því sem Wachsmuth telur. Í ritu Evrípídesar er kona kölluð oikurema. Það er hvorugkynsorð og táknar búsýsluáhald e. þ. u. l. Og í reynd voru aþenskar konur mönnum sínum hvorki annað né meira, þegar barneignahlutverkið er undanskilið. Þær voru vinnukonur, hæst settu þjónustukvendin á heimilinu. Maðurinn stundaði íþróttir og sat á opinberum samkomum og þingum. Konan var útilokuð frá öllu þessháttar. Karlmaðurinn hafði auk þess oft ambáttir til umráða. Á blómaöld Aþenu bar mjög mikið á skækjulifnaði, og mun ríkisvaldið heldur hafa hlynnt að honum. Það var einmitt þetta lauslæti, sem átti þátt í því, að fram komu konur með Jónum er stóðu kvenþjóðinni almennt eins miklu framar um andríki og listasmekk og spartverskar konur báru af henni um skapgerð alla. Hitt er aftur á móti hinn þyngsti áfellisdómur um fjölskylduhætti Aþeninga, að þessar konur skyldu þurfa að gerast fylgikonur (heterur) til að geta þroskað kveneðli sitt.

Fjölskylduskipan Aþeninga varð með tímanum sú fyrirmynd, er aðrir Jónar líktu eftir. Sama máli gegndi um flesta Grikki aðra, bæði í heimalandinu og nýlendunum, þeir tóku smám saman að semja sig að siðum Aþeninga í þessu efni. Allt um varðhöld og innilokun fengu grískar konur þó oft færi á að leika á menn sína. Eiginmönnunum þótti háðung í að sýna nokkur merki þess, að þeir ynnu konum sínum, en gömnuðu sér við alls kyns ástarævintýri með lagskonunum. En óvirðing kvennanna kom niður á eiginmönnunum, virðing þeirra þvarr, þeir sukku dýpra og dýpra. Að lokum bergðu þeir á viðurstyggð sveinsástanna og gerðu guðunum sams konar svívirðu og sjálfum sér með goðsögunni um Ganymedes.[1]

Slík er tilorðning einkvænisins, að svo miklu leyti, sem vér getum rakið uppruna þess og feril með siðmenntuðustu og þróuðustu þjóð fornaldar. Því fer fjarri, að það sé ávöxtur gagnkvæmra ásta. Það á ekkert skylt við slíkt. Hjónabönd eru eftir sem áður hyggindaráð. En þetta var fyrsta fjölskylduskipanin, sem bundin var hagrænum skilyrðum. Hún byggðist á sigri séreignaskipulagsins yfir fornri og upprunalegri sameign. Karlmaðurinn átti að drottna í fjölskyldunni, og hún átti að tryggja honum óvefengjanlega erfingja, sem tekið gætu við eignum hans. Þetta var eina markmið fjölskyldunnar að dómi Grikkja, og þeir voru ekkert að fara í felur með þá skoðun sína. Annars litu þeir á sérhjúskapinn sem byrði, það var skylda gagnvart guðunum, ríkinu og forfeðrunum, skylda, sem þeir urðu að gegna. Lög

[1] Samkvæmt grískum goðsögum hafði Seifur rænt sveininum Ganymedes vegna fegurðar hans. Varð hann síðar byrlari og gleðisveinn á Ólympshæðum.

Aþeninga skylduðu menn til að kvænast, og þar voru auk þess ákvæði um lágmarksskyldu karlmannsins í hjónabandinu.

Sérhjúskapurinn kemur ekki sem nein sættargerð milli karls og konu, hvað þá að hann sé einhver æðri sáttmáli milli kynjanna. Það er þvert á móti. Hann felur það í sér, að annað kynið kúgar hitt, hann er yfirlýsing um andstæðu kynjanna, en slík andstæða var allsendis óþekkt fyrirbrigði í allri forsögu mannkynsins. Í gömlu, óprentuðu handriti, sem við Marx sömdum 1846[1] stendur þetta: „Fyrsta verkaskiptingin er milli manns og konu í því skyni að ala upp nýja einstaklinga". Nú get ég bætt þessu við: Fyrsta stéttaandstæðan í sögunni er samtíma fyrirbæri og hagsmunaandstæða karls og konu í sérhjúskapnum, og fyrsta stéttakúgunin fer fram, samhliða því sem karlmennirnir undiroka kvenþjóðina. Sérhjúskapurinn var mikil framför og hann markar ásamt séreign og þrælahaldi upphaf þess tímabils, er enn stendur. En það er einkenni þess, að hvert framfaraskref felur í sér nokkurn afturkipp, velferð og þroski eins færir öðrum þjáningu og kúgun. Sér-fjölskyldan er eins konar fruma hins siðmenntaða þjóðfélags, og þar getum við rannsakað eðli þeirra andstæðna og mótsagna, er síðar ná fullum þroska í þjóðfélaginu.

Fyrr meir ríkti tiltölulega mikið frjálsræði í kynferðismálum. Og það var ekki úr sögunni með parafjölskyldunni, jafnvel ekki þótt sérfjölskyldan kæmi til. „Gamla hjúskaparkerfið þrengdist, er púnalúa-hóparnir hurfu smám saman af sviðinu, – engu að síður var þetta frjálsræði sífellt á kreiki í kringum fjölskylduna, hvaða breytingum, sem hún tók, – það loddi, ef svo má segja við hana, allt til þess er siðmenning hófst ... að síðustu tók það á sig gervi fylgilagsins eða heterismans, er fylgdi mönnunum inn í siðmenninguna eins og dökkur skuggi á fjölskyldunni". Með heterisma á Morgan vð kynferðismök, er eiginmenn eiga við ógiftar konur, jafnframt því sem þeir lifa í sérhjúskap. Slík mök hafa, sem kunnugt er tíðkazt allt tímabil siðmenningarinnar og tekið á sig ýmsar myndir. Þau breytast nú æ meir í opinberan skækjulifnað. Þetta fylgilag eða heterismi er ættað beint frá fjölhjúskapnum. Það er runnið frá lausnargjaldi því, sem konurnar urðu að greiða fyrir rétt sinn til skírlífis. Að selja sig fyrir peninga var upphaflega trúarleg athöfn, sem fór fram í hofi ástargyðjunnar, og peningarnir runnu þá í fjársjóð musterisins. Hierodúlur Anaítis í Armeníu og Afrodítu í Korintuborg sem og bajaderurnar, eða dansmeyjarnar, sem störfuðu við indversku musterin, voru fyrstu vændiskonurnar. (Bajadera er afbökun úr portúgalska orðinu bailadeira = dansmær). Upphaflega náði sú

[1] Átt við ritið „Deutsche Ideologie", sem kom út í Moskvu 1933, í Marx-Engels Gesamtausgabe.

kvöð til allra kvenna – að veita mönnunum blíðu sína í hofunum, en síðar tóku hofgyðjurnar einar þetta hlutverk að sér. Með enn öðrum þjóðum er frillulífið eða heterisminn runnið frá því frjálsræði í ástum, sem stúlkur nutu, áður en þær giftust. Það eru líka leifar fjölhjúskaparins, enda þótt þær hafi borizt okkur eftir öðrum leiðum. Þegar komið er fram á lokastig hálfsiðunar, fer að bera á eignamun manna í milli, þrælahaldið kemur upp, og launavinnu gætir lítið eitt. Þá taka frjálsar konur að gera sér það að atvinnu að selja blíðu sína, jafnframt því sem ambáttum er þröngvað til ásta. Þetta er eins og nauðsynleg hliðstæða við breytta atvinnuhætti. Arfleifð sú, er fjölhjúskapurinn hefur fært siðmenningunni hefur þannig tvær hliðar, eins og reyndar allt, sem siðmenningin hefur skapað. Allt er það tvíhverft, tvítyngt, sjálfu sér sundurþykkt og andstæðufullt. Annar vegar er sérhjúskapur, hins vegar heterismi, ásamt með skækjulifnaði, öfgafyllstu mynd sinni. Heterisminn eða fylgilagið er reyndar þjóðfélagsleg tilhögun – og sambærilegt við aðrar samfélagsstofnanir. Það er framlenging hins forna frjálsræðis í kynferðismálum til handa karlmönnunum. Það er reyndar fordæmt í orði kveðnu, en látið haldast í reynd, og meira en það, ráðastéttirnar notfæra sér það hispurslaust. Og áfellisdómarnir taka ekki til karlmannanna, sem eiga þar hlut að máli, heldur aðeins til kvennanna. Þær eru bannfærðar og burtreknar til að auglýsa þannig enn einu sinni óskorað yfirráð karla yfir kvenþjóðinni.

Svo kemur fram önnur andstæða innan hjónabandsins sjálfs. Þar er annars vegar eiginmaðurinn, sem leitar yndis og fegurðar með fylgikonum sínum, hins vegar eiginkonan vanrækt og einmana. Nú er ekki hægt að hafa aðra hlið andstæðunnar, án þess að hin fylgi með, fremur en það er hægt að hafa heilt epli í hendi sér, þegar maður er búinn að borða af því helminginn. Það virðist þó hafa verið skoðun karlmannanna, unz konur þeirra kenndu þeim annað. Með sérhjúskapnum koma upp í þjóðfélaginu tvær manntegundir alls óþekktar áður. Það er friðillinn og kokkállinn. Karlmennirnir höfðu sigrað kvenþjóðina, en hinar sigruðu voru svo veglyndar að taka að sér krýninguna. Hjónabandsafbrot urðu nú fast þjóðfélagslegt fyrirbrigði, hliðstætt sérhjúskapnum og fylgilaginu. Þau voru fordæmd, það var refsað fyrir þau, en þau urðu ekki upprætt. Öruggt faðerni barnanna byggðist eins og áður á siðferðilegri sannfæringu, er bezt lét. Lögbók Napóleons reyndi að leysa þessa óleysanlegu mótsögn með ákvæði 312. gr. „L'enfant conçu pendant le mariage a pour père le mari". Barn, sem fæðist, meðan hjónabandið stendur, á eiginmann móðurinnar að föður. Þetta er lokaárangur sérhjúskaparins eftir þrjár þúsundir ára.

Í sérfjölskyldunni getur að líta í smækkaðri mynd sömu andstæðurnar og mótsagnirnar, sem fylgt hafa stéttaþjóðfélaginu, allt frá því er siðmenning hófst, án þess að það gæti jafnað þær eða yfirunnið. Hér er að sjálfsögðu gert ráð fyrir því, sem oftast vill verða, að sérfjölskyldan reynist trú uppruna sínum, karlmaðurinn hafi þar öll yfirráð og mótsagnirnar milli kynjanna komi greinilega fram. Ég ræði hér um þau tilfelli, þar sem fjölskyldulífið er í samræmi við upphaflegt eðli þessarar stofnunar, og þar sem konan gerir uppreist gegn yfirráðum karlmannsins. Hins vegar veit það enginn betur en þýzki broddborgarinn, að ekki fara öll hjónabönd á þennan veg. Honum er ekkert sýnna um að varðveita völd sín á heimilinu en í ríkinu, og því er það, að kona hans tekur að sér það hlutverk, sem hann er ekki vaxinn. Þess vegna finnst honum hann standa frönskum þjáningabræðrum sínum miklu framar, þar eð þeir fá oftar verri skell.

Ekki var sérhjúskapurinn alls staðar með slíku hörkusniði í upphafi eins og með Grikkjum. Konur nutu meira frjálsræðis og virðingar með Rómverjum, enda voru þeir tilvonandi stofnendur heimsríkis og höfðu meiri yfirsýn en Grikkir, þótt þeir væru ekki jafn skarpskyggnir. Rómverjinn taldi, að vald sitt yfir lífi og dauða eiginkonu sinnar væri næg trygging fyrir trúnaði í hjónabandinu. Konan var einnig frjáls að því að slíta hjónabandinu engu síður en maðurinn. Sérfjölskyldan tók þó drýgsta framfarakippinn, er Þjóðverjar[1] komu til sögunnar. Það var reyndar fyrir þá sök, að hjá þeim virðist sérfjölskyldan enn ekki að fullu laus úr reifum parahjúskaparins, og er það líklega fátækt þeirra, sem því veldur. Vér ályktum þetta af þremur atriðum, sem Tacitus minnist á. Fyrst er það, að höfðingjum ættflokkanna var leyft að lifa í fjölkvæni. Þó var mikil helgi á hjónabandinu, og „þeir láta sér nægja eina konu, og skírlífið er vörn og dyggð kvennanna“. Þetta er ekki ósvipað því, sem gerðist með rauðskinnum í Ameríku, en þeir lifðu enn í parahjúskap. Annað er það, að breytingin úr móðurrétti í föðurrétt hefur ekki getað verið langt að baki. Ber það til þess, að móðurbróðirinn, sem er nánasti ættingi karlkyns að ættartali í kvenlegg, er enn þá talinn svo til jafnnákominn og sjálfur faðirinn. Þetta er á sama veg með amerískum rauðskinnum, enda fann Marx þar lykilinn að forsögu okkar, eins og hann víkur oft að. Í þriðja lagi er það, að konur nutu virðingar með Þjóðverjum, og þær höfðu mikil áhrif, líka á opinber mál. Slíkt er öldungis andstætt því karlríki, sem einkennir sérfjölskylduna. Flest þessi atriði eru sameiginleg Þjóðverjum og Spartverjum, enda gætti enn parahjúskapar í Spörtu.

[1] Engels notar hér og víðar í þessari bók orðið Þjóðverjar þar, sem nú mundi fremur talað um Germani eða germanska þjóðflokka. (Þýð.).

Þjóðverjar fluttu þannig með sér nýtt atriði, er síðar varð almennt og ríkjandi. Sérhjúskapur sá, er óx upp úr rústum rómverska ríkisins, varð mýkri í sniðum. Karlræðið fékk mildari form, og staða konunnar var miklu frjálsari og virðulegri en þekkzt hafði með Grikkjum og Rómverjum. Með því var lögð undirstaða að því, að einstaklingsástir í nútímaskilningi gætu þróazt. Þær voru óþekkt fyrirbrigði fram til þess tíma og mesta siðferðileg framför, sem við eigum sérhjúskapnum að þakka. Það var innan hans, samhliða honum eða í andstöðu við hann, allt eftir aðstæðum, sem einstaklingsástir komu upp og náðu þroska.

Þessi framför átti rót sína að rekja til þess, að Þjóðverjar bjuggu enn við parahjúskap og konan naut því frelsis og virðingar. Höfðu þeir reynt eftir getu að samræma þessa arfteknu stöðu konunnar sérhjúskapnum, sem nú kom til sögunnar. Þetta stafaði sem sé alls ekki af einhverri meðfæddri siðgöfgi Þjóðverja, sem er uppspuni einn, heldur hinu, að parahjúskapurinn bjó ekki yfir slíkum siðrænum andstæðum og sérfjölskyldan. Hitt er sönnu nær, að á herferðum sínum og flutningum hafði Þjóðverjum hnignað mjög í siðferðilegum efnum. Á þetta einkum við um þá þeirra, er héldu í suðaustur til gresjuþjóðanna við Svartahaf. Af þessum þjóðum lærðu þeir reiðmennskuna, en auk þess margs konar óeðli og lesti. Segir Ammianus greinilega frá þessu, að því er tekur til Tajfala, en Prokop hermir líkar fregnir frá Herúlum.

Áður er á það drepið, að sérhjúskapur hafi verið eina fjölskylduskipanin af þeim, sem kunnar eru, er gat alið af sér kynástir í nútímaskilningi. Þar með er alls ekki sagt, að ástin hafi aðeins eða einkum þróazt innan sérfjölskyldunnar sjálfrar – sem hjónaást. Fastur sérhjúskapur undir forræði karlmannsins var þess eðlis, að slíkt var útilokað. Með öllum áhrifastéttum, það er að segja yfirstéttunum, var hjónabandið hagnaðar- en ekki girndarráð. Svo hafði þetta verið síðan á tímum parahjúskaparins, foreldrarnir ákváðu allt um giftinguna. Og þegar kynástin kemur fyrst til sögunnar sem ástríða, er það ekki innan hjónabandsins. Það er þessi ástríða, er jafnframt er réttur hvers einstaklings (að minnsta kosti í yfirstéttunum), sem er æðsta mynd kynhvatarinnar, og það ákveður séreðli hennar. Og hún birtist fyrst í ástum riddaranna á miðöldum – og alls ekki í hjónabandinu. Það er öðru nær. Þar sem hún kemur gleggst fram hjá riddurunum í Provence í Suður-Frakklandi, stefnir hún beinlínis að hjúskaparafbrotum, og þau eru lofsungin af skáldunum. Þessi ástaskáldskapur Suður-Frakka nær mestum blóma í albaljóðunum, morgunljóðunum svonefndu. Þar er því lýst af mikilli

ástríðu, hvernig riddarinn hvílist í faðmi frúarinnar sinnar fögru, sem gift er öðrum. Varðmaðurinn stendur úti og kallar til hans, er roðar af degi (alba), að hann geti sloppið óséður burt. Svo er skilnaðarstundinni lýst, og þar rís lýsingin hæst. Norður-Frakkar og hinir siðprúðu Þjóðverjar tóku síðan upp þessa ljóðagerð ásamt með hinum riddaralegu ástum. Og gamli Wolfram okkar frá Eschenbach hefur látið eftir sig þrjú undurfalleg morgunljóð um tilheyrandi efni, og eru þau mér kærari en löngu hetjukvæðin hans þrjú.

Gifting er ráðin með tvennum hætti í okkar borgaralega þjóðfélagi. Í kaþólskum löndum eru það sem áður fyrr foreldrarnir, sem sjá borgarasyninum unga fyrir kvonfangi, er honum hæfi. Og afleiðingin er eðlilega sú, að mótsögnin, sem fólgin er í sérhjúskapnum, segir rösklega til sín. Karlmaðurinn fær sér oftlega frillur, og eiginkonan er honum ótrú. Kaþólsk kirkja hefur líka sennilega bannað hjónaskilnað vegna þess eins, að hún vissi, að engri vörn varð við komið gegn hjúskaparbrotum fremur en sjálfum dauðanum. Í löndum mótmælenda er það hins vegar venjan, að borgarasyninum er leyft að velja sér konuefni úr sinni stétt, þótt frelsi hans í þessum efnum sé stundum nokkuð takmarkað. Af þessu leiðir, að ástin getur ráðið nokkru um konuvalið, enda jafnan gert ráð fyrir því fyrir siðasakir, og er það í fullu samræmi við yfirdrepsskap mótmælanda. Þessir eiginmenn stunda minna á frillulifnað, og hjúskaparafbrot kvenna eru hér fátíðari. En nú breytast menn ekki, þótt þeir kvænist, og borgarar í löndum mótmælenda eru tíðast smásálarlegir. Því er það, að hjónabönd mótmælenda verða að jafnaði, er bezt lætur, aðeins litlaust leiðindasamlíf, og er það kallað hjónabandshamingja. Báðar þessar giftingaraðferðir endurspeglast einna bezt í skáldsögunum. Kaþólska aðferðin í franska „rómaninum" og aðferð mótmælenda í þeim þýzka. „Hann fær hana að lokum" í báðum, í þýzku sögunni fær pilturinn stúlkuna, en eiginmaðurinn kokkálun í þeirri frönsku. Ekki er alltaf auðskorið úr því, hvor lélegri er. Því er það, að franskir borgarar fyllast hryllingi við leiðindavellu þýzku skáldsögunnar, en þýzku broddborgararnir skelfingu vegna „ósiðsemi" hinnar frönsku. Það hallast ekki á þar. Nú er Berlín reyndar að verða heimsborg, og þýzka skáldsagan er ekki alveg jafnfeimin og áður við frillulíf og hjúskaparbrot, sem reyndar eru gamalkunn fyrirbrigði í þessari góðu borg.

Jafnt hjá kaþólskum sem mótmælendum er giftingin háð stéttarstöðu aðilanna og að því leyti jafnan hyggindaráð. En þessi hagsýnishjónabönd snúast harla oft upp í hreinan saurlifnað af beggja hálfu og þó miklu oftar konunnar. Það skilur hana þá frá venjulegri skækju, að hún leigir ekki líkama sinn til smá-

vika eins og daglaunakona, heldur ævilangt eins og ambátt. Og um öll hagsýnishjónabönd eiga við orð Fouriers: „Svo sem tvöföld neitun telst jáyrði eftir málfræðireglunum, þannig telst og tvöfaldur saurlifnaður dyggð samkvæmt siðfræði hjónabandsins". Það er aðeins með undirstéttunum, sem ástin ræður og getur ráðið makavalinu. Það á við um verkalýðsstétt nútímans, og skiptir þá ekki máli, hvort sambúð aðilanna hefur fengið viðurkenningu hins opinbera eða ekki. En hér eru allar undirstöður sérhjúskapar í „klassískum" stíl úr sögunni. Eignirnar vantar, en einkvæni og karlræði var einmitt komið á þeirra vegna. Það er því engin ástæða til að koma á yfirráðum karlmanna. Og það sem meira er, það vantar líka ráð og tæki til þess. Borgaralegur réttur verndar þessi yfirráð. En hann er aðeins fyrir borgarana og samskipti þeirra við verkalýðinn. Það þarf fé til að „leita réttar síns", og með því að verkamaðurinn er fátækur, geta lög og dómar engu ráðið um afstöðu hans til konu sinnar. Það eru allt aðrar ástæður, bæði persónulegar og þjóðfélagslegar, sem koma þar til greina. Síðan stóriðjan hélt innreið sína, hefur konan flutzt úr eldhúsinu og á vinnumarkaðinn eða í verksmiðjurnar og þannig oft orðið fyrirvinna fjölskyldunnar. Með þessu er fótunum kippt undan síðustu leifum karlræðisins á heimilum verkamanna. Ekkert verður eftir af því, nema ef vera skyldi eitthvað af þeim hrottaskap gagnvart konunni, sem tók að tíðkast, er sérhjúskapurinn kom til sögunnar. Fjölskylda verkamannsins er því ekki sérhjúskapur í strangasta skilningi þessa orðs, og það eins fyrir því, þótt þar sé um brennandi ástir og gagnkvæma tryggð að ræða og þó að hjónin hafi verið gefin saman af presti eða borgaralegum yfirvöldum. Því er það, að hinir tryggu fylginautar einkvænisins, frillulífið og hjúskaparbrotin, láta lítt á sér bæra. Konan hefur í reynd öðlazt rétt til skilnaðar, og geti hjónin ekki komið sér saman, kjósa þau heldur að skilja. Í stuttu máli, hjónabönd verkamanna eru einkvæni í bókstaflegri merkingu orðsins, en ekki samkvæmt sögulegum skilningi þess.

Lögfræðingarnir okkar láta reyndar liggja orð að því, að alls konar framfarir í löggjöf séu á góðri leið með að afmá allt það, sem konum hefur helzt þótt að á þessum sviðum. Nútímalöggjöf siðmenntra þjóða viðurkenni nú í æ ríkara mæli, að hjónabandið verði að vera til komið fyrir frjálst samkomulag beggja aðila, eigi það að teljast gilt. Í annan stað er svo fyrir mælt, að báðir aðilar skuli hafa sömu réttindi og skyldur í hjónabandinu. Og svo álykta lögfræðingarnir sem svo, að sé hvorum tveggju þessum skilyrðum fullnægt, hafi konurnar þar með fengið allt, sem þær eigi kröfu til.

Þessi hrein-lögfræðilega rökleiðsla er alveg í stíl við röksemda-

irnar, sem róttækir, lýðveldissinnaðir borgarar beita til að þagga niður í verkamönnum. Vinnu- eða launasamningur á að vera gerður af frjálsum vilja af báðum aðilum. Og hann telst þannig tilkominn, ef lögin kalla á *pappírnum,* að báðir aðilar séu jafnir. Hins vegar láta lögin sig engu skipta þjóðfélagslega aðstöðu hvors aðila um sig. Þeim kemur ekkert við það vald, er ólík stéttaraðstaða veitir öðrum aðilanum, né þau áhrif, sem það hefur á hinn. Meðan vinnusamningurinn stendur, eiga svo báðir aðilar að vera jafnréttháir, svo fremi sem annar hvor hafi ekki afsalað sér því greinilega. Hins vegar er það lögunum með öllu óviðkomandi, þótt fjárhagsaðstæður neyði verkamanninn til að afsala sér jafnvel síðustu tætlunum af þessu yfirskini jafnréttisins.

Og að því er kemur til hjónabandsins, þá er lögunum fullnægt, er hjúskaparaðilar hafa látið skrá í gerðabókina, að þau gangi í hjónabandið að sjálfsvild. Hér er aðferðin söm, hversu frjálslynd sem löggjöfin er. Það er ekki að því spurt, hvað gerist í lífinu sjálfu handan við þetta lögfræðilega leiksvið. Lög og lögfræðinga skiptir það engu, hvernig þessi „sjálfsvild" er til komin. Þó er það svo, að einfaldasti samanburður á réttarákvæðum ætti að geta sýnt lögfræðingunum, hve mikið er að marka „sjálfsvildina". Í Þýzkalandi og í löndum, þar sem franskur réttur er í gildi o. s. frv., er börnunum tryggður að lögum hluti í arfi eftir foreldra sína. Það er ekki hægt að gera þau arflaus, hins vegar verða þau að fá samþykki foreldra sinna til að giftast. Í löndum, þar sem enskur réttur gildir, heimta lögin ekki, að samþykki foreldra komi til, svo að gifting sé lögmæt. Foreldrar hafa frelsi til að arfleiða hvern sem er að eignum sínum og geta gert börn sín arflaus, ef þeim sýnist svo. En allt að einu og einmitt vegna þessa ríkir engu meira frjálsræði við giftingarákvarðanir með eignastéttum Bretlands og Ameríku heldur en í Þýzkalandi eða Frakklandi. Þetta er augljóst mál.

Engu betur er ástatt um lögfræðilegt jafnrétti karls og konu í hjónabandinu. Ójafn réttur kynjanna er arfleifð frá fyrri kynslóðum, en hann er ekki orsök, heldur afleiðing þess, að konan hefur búið við fjárhagslega og atvinnulega kúgun. Félagsbúskapurinn gamli hafði mörg hjón og börn innan vébanda sinna. Þar stjórnuðu konurnar búsýslunni og það var opinbert og nauðsynlegt starf, engu síður en vistaöflun karlmannanna. Þetta breyttist, er ættfeðrafjölskyldan kom til skjalanna, og þó enn meir, er sérfjölskyldan fór að láta til sín taka. Stjórnin á búsýslunni taldist ekki lengur opinber þjónusta. Hún kom þjóðfélaginu ekki framar við. Hún varð einkaþjónusta. Eiginkonan varð þjónustu-mær, reyndar sú æðsta í hjúaflokknum. Hún var útilokuð frá þátt-

töku í félagslegri framleiðslu. Það er ekki fyrr en nú, að hún á aftur aðgang að þjóðfélagslegum framleiðslustörfum. Það er stóriðjan, sem því veldur, – og þetta nær reyndar aðeins til verkakonunnar. En þó er lausnin ekki þar með fengin. Ef konan gegnir skyldum sínum í einkaþjónustu fjölskyldunnar, er hún útilokuð frá þjóðfélagslegum framleiðslustörfum og getur ekki unnið sér neitt inn. Taki hún hins vegar þátt í framleiðslustörfunum og vinni fyrir launum, getur hún ekki sinnt skyldum sínum í fjölskyldunni. Hér er alltaf sama sagan, hvort sem hún leggur stund á verksmiðjuvinnu eða jafnvel læknis- eða lögfræðistörf. Sérfjölskylda nútímans er grundvölluð á þrælkun konunnar á heimilinu, hvort sem hún er nú opinber eða dulklædd, – og þjóðfélagið er sett saman úr eintómum sérfjölskyldum. Þær eru sameindirnar í félagsheildinni. Karlmaðurinn er langoftast fyrirvinna og framfærandi fjölskyldunnar að minnsta kosti með eignastéttunum. Og það veitir honum drottinvald, sem þarfnast ekki neinna auka-forréttinda eða lagafríðinda. Í fjölskyldunni er hann borgarinn, eiginkonan verkalýðsstéttin. Nú er það svo, að hið sérstaka eðli og auðkenni atvinnu- og fjárhagskúgunar þeirrar, er verkalýðurinn sætir í öllum iðnaðarlöndum, kemur einmitt gleggst fram, er lagaleg forréttindi auðmannanna hafa verið afnumin og báðar stéttir kallast jafnar fyrir lögunum. Lýðveldi og lýðræðisfyrirkomulag afnema að engu leyti andstæður stéttanna, heldur verða þau vettvangur fyrir baráttu þeirra og átök. Líkt er þessu farið um eðli þess drottinvalds, er maðurinn hefur yfir konunni í nútíma fjölskyldu. Það mun verða enn augljósara, er bæði kynin eru orðin jafnrétthá að lögum, og þá mun enn auðsærra, að koma verður á raunverulegum jöfnuði milli karla og kvenna og hversu það verður gert. Það mun þá sýna sig, að fyrsta forsendan fyrir frelsi konunnar er, að kvenþjóðin taki þátt í framleiðslunni. En skilyrði þess er, að sérfjölskyldan verði ekki lengur nein framleiðslueind í þjóðfélaginu. Sá eiginleiki hennar verður að hverfa.

-------

Vér höfum nú lýst þremur helztu hjúskaparháttunum, er samsvara í meginatriðum þremur aðalskeiðunum í þróun mannfélagsins. Á tímabili villimennskunnar ríkir einkum fjölhjúskapur, í hálfsiðun parahjúskapur og sérhjúskapur á skeiði siðmenningarinnar ásamt með fylgihnöttum sínum, hjúskaparbrotum og blíðusölu. Á lokastigi hálfsiðunar ráða karlmennirnir yfir ambáttum og stofna til fjölkvænis. Er það nokkurs konar innskot milli parafjölskyldu og sérhjúskapar.

Svo sem sjá má af allri frásögn vorri, er framförin, stig af

stigi, í því fólgin, að konurnar eru æ meir sviptar því frjálsræði, er einkennir fjölhjúskapinn, en karlmennirnir ekki. Og í reyndinni er það svo, að þeir lifa oft í fjölhjúskap enn þann dag í dag. Það, sem talið er afbrot, ef kona á í hlut, og kallar yfir hana refsiaðgerðir laga og þjóðfélags, er virt manninum til heiðurs. Þegar verst lætur, er það talinn smávegis blettur á siðgæði hans, sem vel megi láta sér lynda. Fylgilagið forna þróast með auðvaldsskipulaginu. Það lagar sig eftir vöruframleiðslunni og breytist æ meir í opinberan skækjulifnað, – og siðspillingaráhrif þess verða að sama skapi meiri. Reyndar siðskemmir það karlmennina miklu meira en konurnar. Skækjulífið dregur aðeins niður þær konur, sem hafa verið svo ólánssamar að lenda út á þeirri braut, og þó ekki svo mjög, sem oftast er talið. Hins vegar dregur það niður alla karlþjóðina og spillir skapgerð hennar. Langt tilhugalíf karla er oftast nær til þess fallið að skapa ótryggð í hjónabandinu.

Nú fer að höndum þjóðfélagsbylting, sem feykja mun burt þeirri hagrænu undirstöðu, er sérhjúskapurinn hefur hvílt á, og skækjulifnaðinum, sem verið hefur uppbót hans. Sérhjúskapur varð til við það, að auður safnaðist á einstakra manna hendur, og er þá átt við karlmennina. Þetta olli því, að nú vildu þeir arfleiða börn sín og engin önnur að eignum sínum. Sérhjúskapur konunnar var skilyrði þess, að svo mætti verða, hins vegar voru karlmenn ekkert bundnir við einkvæni. Þeir lifðu oft í opinberu eða dulbúnu fjölkvæni, en konan mátti ekki eiga mök við neinn nema eiginmanninn. Þjóðfélagsbylting sú, sem nú er fyrir dyrum, mun breyta langmestum hluta alls varanlegs erfðagóss – sem sé framleiðslutækjunum – í félagseign, og þá munu áðurnefndar áhyggjur út af erfðum láta lítt á sér bæra. Sérhjúskapurinn er til kominn af hagrænum ástæðum, en skyldi hann þá hverfa úr sögunni, er þessar ástæður eru ekki lengur fyrir hendi?

Því má svara þannig og það með réttu: Hann hverfur engan veginn, heldur kemst nú að lokum á í raun og sannleika. Er framleiðslutækin komast í eign samfélagsins, hverfur líka launavinnan og öreigastéttin. Þá ber og enga nauðsyn til þess lengur, að ákveðinn fjöldi kvenna (sem ákveða má eftir hagtölum) selji blíðu sína fyrir peninga. Skækjulifnaðurinn hverfur. Sérhjúskapurinn dettur ekki úr sögunni, hann verður nú fyrst óbrigðul staðreynd – líka að því er tekur til karlmannsins.

Aðstæður karlmannsins breytast að minnsta kosti mjög, en hagur kvenna – allra kvenna – tekur líka miklum umskiptum. Með því að framleiðslutækin verða félagseign, hættir sérfjölskyldan að vera framleiðslueind þjóðfélagsins. Einkabúsýslan breytist í félagslega framleiðslu. Varzla og uppeldi barna verða verkefni

hins opinbera. Þjóðfélagið sér jafnt fyrir börnunum, hvort sem þau eru hjónabandsbörn eða ekki. Með því hverfur ótti sá við „afleiðingarnar", sem nú heldur mest aftur af ungu stúlkunni að gefa sig að fullu á vald elskhuga sínum. Sem stendur er þessi ótti helzti félagslegi, siðferðilegi og hagræni tálminn í því efni. Verður þá ekki hvarf hans til þess, að samlíf kynjanna verði af handahófi og mjög slakni á almenningsálitinu um jómfrúheiður og virðuleik kvenna? Höfum við ekki séð, að enda þótt sérhjúskapur og skækjulíf séu andstæður í nútímaþjóðfélagi, þá eru þær samt óaðskiljanlegar, andhverf skaut sömu þjóðfélagsaðstæðna? Getur skækjulifnaðurinn horfið, án þess að sérhjúskapurinn hverfi jafnframt?

Hér kemur nýtt atriði til greina, – atriði, sem naumast var til er sérhjúskapurinn kom til sögunnar, nema sem vísir. Það er persónuleg kynást.

Fram til miðalda gat ekki verið um neina persónulega ást að ræða. Persónuleg fegurð, alúðleg umgengni og svipuð hugðarefni hafa eflaust dregið kynin hvort að öðru, og það liggur í augum uppi, að hvorki körlum né konum var öldungis sama, hver það var, sem þau áttu vingott við. En mikið vantar á, að þetta sé ást í nútíma skilningi. Í fornöld eru það jafnan foreldrarnir, sem ráða giftingu barna sinna, og þau láta sér það lynda. Smávegis hjónaást kemur fyrir í fornöld, en hún er ekki runnin frá persónulegum tilhneigingum, heldur hlutlægri skyldu, hún er ekki ástæðan til hjónabandsins, heldur hliðstæða þess. Ástarsambönd í nútímaskilningi koma ekki fyrir í fornöld með æðri stéttunum. Þeókrít og Moschus kveða um ástaryndi og þjáningar hjarðmannanna, Longos um Dafnis og Klói, en þetta eru allt þrælar, sem eru óhlutgengir til opinberrar þjónustu, sem er starfssvið fullgildra borgara. Í fornöld tíðkast ástalíf aðeins með þrælum, en kemur auk þess fyrir sem upplausnareinkenni, er hin forna þjóðfélagsskipan er að líða undir lok. En ástmeyjarnar standa utan við samfélagið. Þær eru heterur, fylgikonur, sem sé aðskotafólk eða leysingjur. Þannig var það í Aþenu, er halla tók undan, og í Róm á tímum keisaranna. Ef ástir áttu sér stað milli frjálsra borgara af báðum kynjum, var þar jafnan um hjúskaparbrot að ræða. Og Anakreon, hinu sígilda ástaskáldi fornaldarinnar, stóð svo á sama um alla kynást í okkar skilningi, að hann lét sig jafnvel einu gilda kynferði hins elskaða.

Nútíma kynást er að verulegu leyti frábrugðin „Eros" fornaldarinnar, sem var blátt áfram holdleg ástríða eða þrá. Í fyrsta lagi er hún bundin því skilyrði, að hinn aðilinn kunni ást á móti. Að því leyti stendur konan jafnfætis manninum, en „Eros" gamli spurði ekki alltaf um hug hennar í þeim efnum. Í annan stað er

kynástin svo innfjálg og langæ, að báðum aðilum þykir það hin mesta óhamingja, ef þeir verða að skilja eða fá ekki að eigast. Elskendurnir hætta oft miklu til að mega njótast, jafnvel lífinu. Slíkt kom ekki fyrir í fornöld, nema þá í sambandi við hjúskaparbrot. Loks er það, að lagður er nýr siðrænn mælikvarði á samlíf kynjanna. Nú er ekki aðeins um það spurt, hvort það hafi farið fram utan hjónabands eða innan, heldur einnig um hitt, hvort það hafi byggzt á gagnkvæmri ást. Það segir sig sjálft, að þessi mælistika má sín ekki meira í reynd í þjóðfélagi lénsherra og auðborgara en aðrir siðrænir mælikvarðar –, henni er einfaldlega sleppt. Nú, en verra er það ekki. Hún er viðurkennd líkt og aðrar siðferðisreglur – í orði, á pappírnum. Og meira er ekki hægt að krefjast í svipinn.

Í fornöld höfðu skapazt smádrög að kynástum, svo taka miðaldirnar við. Þær byrja á því, sem fornöldin endaði á, sem sé á hjúskaparbrotum. Vér höfum áður lýst ástum riddaranna, sem kvöddu sér hljóðs í morgunljóðunum. Það er löng leið frá þessum ástum, sem stefna að því að slíta hjónabandið, til þeirrar ástar, er það á að byggjast á. Og riddarastéttin komst aldrei alla þá leið. Og þótt við hverfum frá hinum léttúðugu rómönsku þjóðum og snúum okkur að hinum dyggðugu Þjóðverjum, verður svipað uppi á teningnum. Sjá má af Niflungaljóði (Nibelungenlied), að Grímhildur er alveg jafn ástfangin af Sigurði undir niðri og hann af henni. En er Gunnar segir henni, að hann hafi heitbundið hana riddara nokkrum, sem hann nafngreinir, svarar hún þessu einu: „Þér þurfið ekki að biðja mig. Ég mun jafnan gera, sem þér bjóðið mér. Og mér er ljúft að lofast þeim, herra, sem þér hafið kosið mér til handa“. Henni kemur alls ekki til hugar að ást hennar geti hér nokkuð komið til greina. Gunnar biður Brynhildar og Atli Grímhildar, án þess að þeir hafi séð þær. Í Guðrúnarkvæði[1] biður Sigebant hinn írski Ute hinnar norsku, Hetel frá Hegelingen Hildar hinnar írsku, og Sigfried frá Morlandi, Hartmut frá Ormaníu og Hervig frá Sjálandi biðja allir Guðrúnar. Og þá gerist það, að hún velur hinn síðastnefnda af frjálsum vilja. Venjan var sú, að foreldrar unga furstans ákváðu brúðarefni hans, ef þau voru á lífi. Annars gerði hann það sjálfur í samráði við helztu lénsmennina, og voru ráð þeirra jafnan þung á metunum. Og þetta gat ekki verið á annan veg. Giftingin var pólitísk athöfn, jafnt fyrir riddara, baróna og fursta. Hún var þeim tækifæri til að auka vald sitt með nýjum bandalögum. Hagsmunir höfðingjaættarinnar hljóta að ráða, en ekki geðþótti einstaklingsins. Hvernig á þá ástin að ráða úrslitum um giftinguna?

[1] Mið-háþýzkt kvæði. – *Þýð.*

Líkt var þessu farið um iðnborgara miðaldanna. Hann var verndaður margs konar sérréttindum og flóknum gildareglum. Þessar margslungnu merkjalínur greindu hann lagalega frá félagsbræðrum í öðrum gildum, eða gildisbræðrum sínum, eða sveinum sínum og lærlingum. Þetta olli því, að mjög þynntist sá hópur, þar sem hann gat leitað sér hæfilegs kvonfangs. Og það var heldur ekki geðþótti hans, sem skar úr um, hvaða konuefni hæfði honum bezt. Tengslin út á við voru flókin, það voru hagsmunir fjölskyldunnar, sem ákváðu, hvað sæmdi honum bezt.

Fram til loka miðalda voru giftingar yfirleitt tilkomnar á sama hátt og áður. Þær voru ákveðnar af öðrum aðilum en hjónaefnunum. Upphaflega fæddust menn inn í hjónabandið, ef svo má segja, þeir voru bundnir hjúskaparböndum við heilan hóp maka allt frá fæðingu. Svipað mun þessu hafa verið háttað í hinum ýmsu myndum fjölhjúskapar síðar, nema hvað makahópurinn fór síminnkandi. Sú var venjan í parahjúskap, að mæður barnanna ákváðu allt um giftingu þeirra. Og hér er það hliðsjón af nýjum tengdum, sem eflt gætu aðstöðu ungu hjónanna í ættsveitinni eða ættflokknum, sem mestu ræður um ráðahaginn. Og þegar félagseign tekur að þoka fyrir séreign og erfðahagsmunir leiða föðurrétt og sérhjúskap til hásætis, réðu hagrænar ástæður öllu um makavalið. Kauphjúskapur hverfur að vísu að formi til, en verður æ algengari í reynd. Og nú er það ekki eingöngu konan, sem er verðlögð, heldur líka karlmaðurinn, – og það eru ekki persónulegir eiginleikar þeirra, sem ákveða verðið, heldur eignirnar. Með ríkjandi stéttum heyrðist þess aldrei getið, að persónulegar tilhneigingar viðkomandi aðila réðu mestu um giftingarákvarðanir. Slíkt og þvílíkt kom helzt fyrir í rómantískum skáldskap eða með undirstéttunum, en enginn tók tillit til þeirra.

Þannig var þessu háttað, er auðvaldsframleiðsla hófst. Hún fór fyrst að láta á sér bæra eftir landafundina miklu, en hóf svo að leggja undir sig jarðkringluna með heimsverzlun og handiðnaði. Menn skyldu nú ætla, að svona giftingarhögun hefði „passað í kram“ borgarastéttarinnar, og svo var það að vísu. En veraldarsagan býr yfir óskiljanlegri kaldhæðni. Þessi stétt varð sem sé til þess að brjóta það skarð í þetta giftingafyrirkomulag, er reið því að fullu. Hún breytti öllum hlutum í vörur og liðaði þannig í sundur forn og arftekin sambönd og stofnanir. Hún setti kaup og sölu og „frjálsa“ samninga í stað arftekinna siða og sögulegs réttar. Enski lögfræðingurinn Maine þóttist hafa gert geysimikla uppgötvun. Hann lýsti því yfir, að allar framfarir okkar í samanburði við önnur tímabil fælust í því, að við hefðum sett samninga í stað fornra erfðaréttinda og byggjum við aðstæður, sem skapazt hefðu við frjálsa samninga, en ákvæðust

ekki af erfðum og uppruna. Það, sem rétt er í þessu, stendur reyndar í Kommúnistaávarpinu, sem er talsvert eldra en þessi skilgreining hr. Maines.

En til samninga þarf menn, sem geta ráðið yfir persónu sinni, verkum sínum og eignum og mætzt sem jafnrétthúir aðilar. Það var eitt aðalstarf auðvaldsframleiðslunnar að búa til þessa „frjálsu" og „jöfnu" menn. Í fyrstu gerðist þetta að vísu með óljósri vitund og auk þess í trúarlegu gervi. En siðskiptakenningar Lúthers og Kalvíns héldu þó fast í þá kennisetningu, að maðurinn bæri því aðeins fulla ábyrgð á gerðum sínum, að hann hefði gengið til verks af frjálsum vilja. Og þær töldu það siðferðilega skyldu að berjast gegn hvers konar þvingun til ósiðsamlegra verka. En hvernig samræmdist þetta þeirri högun, sem hingað til hafði viðgengizt í giftingarmálum? Að borgaralegum skilningi var hjónabandið samningur. Það var réttarfarslegur kaupmáli og sá allra mikilvægasti, með því að líkama og sál tveggja mannvera var ráðstafað þannig ævilangt. Formlega séð gekk fólk að vísu af frjálsum vilja í hjónabandið. Jáyrði beggja aðila var skilyrði þess, að vígslan væri gild. En mönnum var fullkunnugt um, hvernig þessi jáyrði voru tilkomin og hverjir réðu þar í raun og veru. Nú var þess krafizt við alla aðra samninga, að þeir væru gerðir af fullkomlega frjálsum vilja, og hví átti það ekki að gilda um þennan líka? Átti ekki líka unga fólkið, sem „pússa" skyldi saman, rétt á því að ráðstafa sjálfu sér, sínum eigin líkama og öllum líffærum hans? Hafði kynástin ekki orðið að tízku með riddarastéttinni? Og var ekki hjónaástin einmitt hin rétta borgaralega mynd hennar, andstætt ástum riddaranna, sem stefndu að hjúskaparbrotum? Og ef það var skylda hjónanna að unnast, var það þá ekki líka skylda tveggja elskenda að eigast, en giftast engum öðrum? Stóð þessi réttur elskendanna ekki ofar öllum réttindum foreldra og frændaliðs og annarra fornra hjúskaparmiðlara og hjónabandsmangara? Réttur til frjálsrar persónulegrar rannsóknar hafði nú hispurslaust rutt sér til rúms í trúmálum og innan kirkjunnar. Átti hann þá að hopa fyrir óþolandi kröfum eldri kynslóðarinnar um að fá að ráðstafa líkama og sál unga fólksins, eignum þess, hamingju og gæfuleysi?

Slíkar spurningar hlutu að koma fram, er hin forna þjóðfélagsskipan tók að losna í böndum og arfteknar hugmyndir þóttu ekki lengur óyggjandi. Veröldin hafði næstum tífaldazt að stærð í einu vetfangi. Áður hafði Vestur-Evrópubúinn aðeins þekkt áttung jarðkúlunnar, nú blasti hún öll við sjónum hans, og hann skundaði af stað til að leggja undir sig hina hlutana sjö. Gamla einangrunin datt úr sögunni, og hugsunarháttur miðaldanna –

tíu alda gamall – fór sömu leið með öllum sínum skorðum og skefjum. Því nú opnast manninum miklu víðari sjóndeildarhringur bæði hið innra og ytra.

Hvað varðaði unga manninn, sem sóttist eftir auðæfum Indlands og gull- og silfurnámunum í Mexíkó og Pótósi,[1] um ágæti siðavendninnar eða um gilda-forréttindi, sem gengið höfðu í arf kynslóð eftir kynslóð? Þetta var flökkuriddara-skeið borgarastéttarinnar – og það átti sína rómantík og sína ástardrauma, en það var hvort tveggja af borgaralegum rótum runnið og með borgaralegt markmið, er allt kom til alls.

Sú varð því raunin á, að hin rísandi borgarastétt viðurkenndi æ meir, að samningsfrelsi skyldi líka taka til hjónabandsins. Einkum var þessu svo farið í löndum mótmælenda, með því að þar hafði mest verið hnikað við því gamla og arftekna. Framkvæmdinni í þessum giftingarmálum höfum vér lýst hér að framan. Hjónabandið var bundið við stéttir eins og áður, en menn höfðu nokkurt frelsi til að velja sér maka innan stéttar sinnar. Á pappírnum, í siðfræðikenningum og skáldlegum lýsingum var það talið óyggjandi staðreynd, að sérhvert hjónaband væri ósiðlegt, er ekki væri reist á gagnkvæmri ást og frjálsu samkomulagi aðila. Í fám orðum sagt, var því lýst yfir, að hjúskapur í ástum tilheyrði almennum mannréttindum, og þetta var ekki aðeins „droit de l'homme" eða réttur karlmannsins, heldur náði stundum líka til konunnar.

Þessi mannréttindi voru þó frábrugðin öllum öðrum svokölluðum mannréttindum í einu atriði. Þau síðarnefndu voru í framkvæmd takmörkuð við yfirstéttina, borgarana, en að því er tók til verkalýðsins, voru þau kyrkt eða skert ýmist beint eða óbeint. En nú lætur kaldglettni sögunnar aftur til sín taka. Yfirstéttirnar láta stjórnast af alls konar hagrænum ástæðum, og því er það, að sjaldan er þar stofnað til hjúskapar af fyllilega frjálsum vilja, en það tíðkast aftur á móti hjá lágstéttunum, eins og við höfum séð.

Fullkomið frelsi í giftingarmálum verður þá fyrst almennt ráðandi, er framleiðsluhættir auðvaldsins eru afnumdir. Þá hverfur og eignaskipan sú og hagsmunaleg tillitsemi, er þeim fylgja og hafa nú mikil áhrif á makavalið. Þá er engin önnur hvöt eða ástæða, sem ákveður makavalið, en samhugir eða gagnkvæmar ástir.

Nú er kynástin í eðli sínu einskorðuð við makana, enda þótt sú einskorðun eigi aðeins við konurnar, enn sem komið er. Hjónaband, sem byggt er á kynást, er því samkvæmt eðli sínu sérhjúskapur. Við höfum séð, að Bachofen hafði rétt fyrir sér, er hann

1 Málmauðugt hérað í Bolivíu (Suður-Ameríku).

taldi, að konurnar hefðu átt mestan þátt í breytingu fjölhjúskapar í sérhjúskap. Karlmennirnir réðu að vísu mestu um einn áfangann, breytinguna frá parahjúskap til einkvænis, en sá áfangi gerði aðstöðu konunnar verri, en karlmönnunum auðveldara um ótryggðina. Að því kemur, að áhyggjur konunnar vegna afkomu hennar og framtíðar barnanna hverfa úr sögunni, en það var þess konar tillitssemi, sem olli því, að hún sætti sig við venjubundna ótryggð mannsins. Jafnræðisaðstaða konunnar mun miklu fremur verða til þess, að karlmenn taki upp raunverulegt einkvæni, en til hins að konan fari að lifa í fjölveri. Öll undanfarandi reynsla bendir ótvírætt til þess.

Hins vegar mun sérhjúskapurinn missa öll þau einkenni, er runnin eru frá eignaskipan þeirri, sem ól hann af sér. Það eru í fyrsta lagi yfirráð karlmannsins og í annan stað, að hjón máttu ekki skilja. Karlræðið í hjónabandinu er bein afleiðing fjárhagslegra yfirráða og hverfur með þeim af sjálfu sér. Bann við hjónaskilnaði er annars vegar runnið frá þeirri hagskipan, er fæddi af sér sérhjúskapinn, en að hinum þræðinum er það arferni frá tímum, sem skildu ekki fyllilega sambandið milli þessarar hagskipunar og einkvænisins og klæddu það því í trúarlegt gervi. Þetta bann er nú víða úr sögunni. Sé aðeins það hjónaband siðrænt, er stofnað er til af gagnkvæmri ást, leiðir af sjálfu sér, að það er aðeins, meðan ástin helzt. Varanleiki kynástar er mjög misjafn eftir einstaklingum, einkum þó með karlmönnum. Og fjari ástin út eða víki fyrir nýrri og ákafri ást, þá er þjóðfélaginu fyrir beztu, að hjónin skilji. Hinu á að hlífa þeim við að þurfa að ata sig á óþörfum málaferlum í sambandi við skilnaðinn.

Afnám auðvaldsframleiðslunnar stendur nú fyrir dyrum. Það, sem vér getum sagt um samlífsskipan kynjanna í framtíðinni, er að mestu neikvætt, fjallar mest um það, sem hverfa mun. En hvað nýtt bætist við? Það ræðst, er ný kynslóð er vaxin úr grasi. Það verða karlmenn, sem aldrei á ævi sinni hafa náð valdi á konu með peningum eða öðrum félagslegum valdatækjum. Og það verða konur, sem hvorki hafa gefizt mönnum á vald fyrir annað en ástarsakir, né synjað elskhuga sínum um blíðuhót vegna ótta við fjárhagslegar afleiðingar. Og þegar þetta fólk er komið til sögunnar, mun það kæra sig kollótt um, hvað við höldum nú, að það ætti að gera. Það mun sjálft ráða gerðum sínum og móta almenningsálitið eftir þeim og þar með búið.

Vér hverfum nú aftur að Morgan, eftir þennan langa útúrdúr. Bók hans er ekki söguleg rannsókn á þeim félagsstofnunum, er þróazt hafa á tímabili siðmenningarinnar, enda er það víðtækara efni en svo. Hann fjallar aðeins stuttlega um sögu sérhjúskaparins á þessu tímabili. Hann lítur líka á sérfjölskylduna sem

framför, sem skref í áttina til fulls jafnréttis kynjanna, og telur jafnframt, að því marki sé enn ekki náð. Síðan kemst hann svo að orði: „Þegar viðurkennt er, að fjölskylduhættir hafi breytzt hvað eftir annað og við búum nú við fimmtu fjölskylduskipanina í röðinni, hlýtur að vakna sú spurning, hvort þessi skipan muni verða til frambúðar. Því verður aðeins svarað á þá leið, að fjölskyldan hlýtur að breytast samhliða þjóðfélaginu, taka framförum eins og það. Hún er sköpunarverk þjóðfélagsins og endurspeglar menningarstig þess. Sérfjölskyldan hefur verið endurbætt, frá því siðmenning hófst og sérstaklega á síðustu tímum. Það má því ætla, að hún geti þróazt og fullkomnazt, unz fullum jöfnuði milli kynjanna er náð. Skyldi svo fara í fjarlægri framtíð, að sérfjölskyldan geti ekki uppfyllt kröfur þjóðfélagsins, verður engu um það spáð, hvað þá kemur í staðinn."

## III.

## Ættsveitir Irókesa

Vér komum nú að annarri uppgötvun Morgans, og er hún engu ómerkari en sú, er hann rakti hina fyrstu fjölskylduhætti eftir sifjakerfinu. Uppgötvun þessi er í því fólgin, að ættkvíslir þær, sem kenndar eru við dýr og algengar eru með rauðskinnaþjóðflokkum í Ameríku, svari í meginatriðum til „genea" (þ. e. ættsveita) Grikkja og „gentes" Rómverja. Þó eru þær amerísku upprunalegri, en grísk-rómversku ættsveitirnar eru með yngra sniði (og afleiddar). Morgan uppgötvaði og, að forsöguleg félagsskipan Grikkja og Rómverja, ættsveitir þeirra, bræðralög og ættflokkar, átti sér nákvæma samsvörun með amerísku rauðskinnunum. Honum skildist, að ættsveitaskipulagið er sameiginlegt öllum hálfsiðuðum þjóðflokkum, (að því er ráða má af heimildum, sem nú eru kunnar). Það helzt með þeim, unz þeir komast á siðmenningarstigið og jafnvel eftir það. Þessi uppgötvun hefur skýrt í einni svipan torráðnustu kaflana í elztu sögu Grikkja og Rómverja. Jafnframt hefur hún veitt okkur óvænta vitneskju um frumdrögin að félagsskipan elztu tíma, þá þjóðfélagshætti, er menn bjuggu við, áður en ríkisvaldið kom til sögunnar. Þetta virðist harla einfalt atriði. Þó uppgötvaði Morgan það ekki fyrr en alveg nýlega. Er hann gaf út fyrra rit sitt 1871, hafði hann enn ekki uppgötvað þennan leyndardóm, en opinberun hans hefur orðið til þess, að ensku forsögufræðingarnir, sem annars eru svo vissir í sinni sök, hafa nú um hríð verið alveg klumsa.

Morgan notar yfirleitt latneska orðið gens um þessi ættfélög.

Bæði það og gríska orðið genos, sem er sömu merkingar, eru komin af sam-arískri[1] rót „gan"[2] (þýzku kan, með því að k samsvarar þar tíðast arísku g), sem þýddi að geta eða fæða. Gens, genos, sanskrit (fornindv.) dschanas, gotnesku kuni (samkvt. ofangreindri reglu), fornnorrænu og engilsaxnesku kyn, ensku kin, miðháþýzku künne. Öll merkja þessi orð ætterni, kyn. Gens í latínu og genos í grísku eru hins vegar sérstaklega höfð um ættfélög, er töldu sig af sama stofni (hér frá sameiginlegum ættföður) og voru nánar samtengd af ýmsum trúarsiðum og félagsháttum. En eðli og uppruni þessara ættfélaga hafði fram til þessa verið öllum sagnriturum okkar hulin ráðgáta.

Af því, sem áður er sagt um púnalúafjölskylduna, sést, hversu ættsveitin var upphaflega skipuð. Til hennar teljast allir þeir, er samkvæmt púnalúa-hjúskapnum og þeim hugmyndum, sem honum eru samfara, kallast að vera afkomendur einnar, ákveðinnar ættmóður, er stofnsett hafi ættsveitina. Með því að óvíst er um faðerni í þessari fjölskylduskipan, er ættin rakin eingöngu í kvenlegg. Bræður og systur mega ekki eigast, og verða bræðurnir því að fá sér konur af öðrum uppruna, og því teljast börn þau, er þeir eiga með þeim, ekki til ættsveitar bræðranna, þar eð móðurréttur er í gildi. Það eru því aðeins börn dætranna í hverjum ættlið, sem teljast til frændliðsins. Afkvæmi sonanna eru talin til ættsveita mæðra þeirra. Hvað verður nú úr þessum blóðsifjahóp, er hann hefur fengið fastara snið og fleiri slíkir eru fram komnir í sama ættbálki?

Morgan tekur Írókesa, einkum þó Senekaættflokkinn, sem sígilt dæmi um upphaflegt snið ættsveitanna. Til þess ættflokks teljast átta ættsveitir, sem nefndar eru eftir dýrum. Það eru 1. Úlfar, 2. Birnir, 3. Skjaldbökur, 4. Bjórar, 5. Hirtir, 6. Snípur, 7. Hegrar, 8. Valir. Í hverri ættsveit er svo siðvenjan þessi:

1. Hún kýs sér sachem (höfðingja í friði) og fyrirliða (foringja í ófriði). Sachem ber að velja innan ættsveitarinnar, og embætti hans var arfgengt að því leyti, að skipa varð í það, jafnskjótt og það losnaði. Fyrirliðann eða stríðshöfðingjann mátti velja utan ættsveitarinnar, og oft var sú staða óskipuð um hríð. Sonur fyrrverandi sachems hlaut aldrei embætti eftir föður sinn, því að með Írókesum gildir móðurréttur, svo að sonurinn taldist til annarrar ættsveitar. Hins vegar var algengt, að bróðir eða systursonur sachemsins tæki við stöðu hans. Er kosið var, greiddu allir atkvæði, jafnt konur sem karlar. Hins vegar urðu hinar sjö ættsveitirnar að viðurkenna kosninguna. Að því samþykki fengnu

[1] Engels notar hér að sinnar tíðar hætti orðið arískur eða samarískur í stað indóevrópskur. (Þýð.).

[2] Nú er rótin talin g'en, ekki gan. (Þýð.).

var sá, sem fyrir kjörinu varð, settur hátíðlega í stöðu sína, og var það reyndar sameiginlegt ráð alls Irókesabandalagsins, er það gerði. Síðan munum við sjá, hvað það þýðir. Vald sachemsins í ættsveitinni var aðeins föðurlegs og siðferðilegs eðlis. Hann hafði engin þvingunar- eða kúgunartæki. Auk þess fylgdi það embættinu, að hann átti sæti í ráði Senekaættflokksins og sameiginlegu ráði Irókesabandalagsins. Stríðshöfðinginn réð engu, nema í herferðum.

2. Ættsveitin víkur sachemnum og stríðshöfðingjanum úr embætti, ef henni sýnist svo. Það er og gert af konum og körlum í sameiningu. Sá, sem frá er vikið, verður venjulegur hermaður líkt og aðrir einstaklingar ættsveitarinnar. Annars getur ættflokksráðið vikið sachem frá, jafnvel þótt ættsveitin sé því mótsnúin.

3. Enginn má taka sér maka úr sinni ættsveit. Þetta er höfuðregla ættsveitaskipulagsins og sú taug, er heldur ættsveitinni saman. Þetta er úthverfan eða neikvæða hliðin á hinum mjög svo jákvæðu blóðsifjum, en það eru þær, sem gert hafa hlutaðeigandi einstaklinga að ættsveit. Morgan uppgötvaði þessa einföldu staðreynd og varð þar með fyrstur til að sýna okkur eðli ættsveitanna. Áður höfðu menn harla lítinn skilning á ættsveitaskipulaginu, svo sem eldri frásagnir um villta og hálfsiðaða þjóðflokka bera glöggt með sér. Þar var blandað saman í einn hrærigraut ýmsum félagsheildum ættsveitaskipulagsins. Ættflokkum, bræðralögum og ættsveitum („clan“ og „thum“ o. s. frv.), var ruglað saman í fullkomnu skilningsleysi. Var stundum sagt frá því, að giftingar innan slíkra hópa væru bannaðar. Þar með var sköpuð slík ringulreið, að hr. MacLennan gat nú komið á vettvang sem hver annar Napóleon og komið á reglu með valdboði: Allir ættbálkar skiptast í tvo flokka. Annars vegar eru þeir, sem banna að taka sér maka innan ættflokksins (útvenzlaðir), hins vegar þeir, sem leyfa það (innvenzlaðir). Og sem hann hafði komið málinu í slíkt óefni, gat hann uppbyrjað djúpúðgar rannsóknir á því, hvor eldri væri af hinum ankannalegu og marklausu flokkum hans, útvenzl eða innvenzl. Nú var ættsveitin uppgötvuð, en hún byggðist á blóðsifjum, og ættsveitungar gátu því ekki gifzt sín á milli. Þar með hætti þetta bull af sjálfu sér. Hitt er auðsætt, að Irókesar, á því stigi, er þeir standa, fylgja stranglega banninu við giftingu innan ættsveitanna.

4. Eigur hins látna féllu í hlut ættsveitunga hans, því að þær áttu að haldast í ættsveitinni. Nú eru eigur þær, er Irókesar láta eftir sig, næsta smávaxnar, og nánustu ættingjarnir skipta því með sér arfinum. Væri það karlmaður, sem dó, voru það holdgetnir bræður hans, systur og móðurbræður; væri það kona, börn hennar og holdgetnar systur, en ekki bræður hennar. Með því að eig-

inmaður og -kona töldust ekki til sömu ættsveitar, gátu þau ekki erft hvort annað, né heldur gátu börn erft feður sína.

5. Ættsveitungar voru skyldugir að styðja og vernda hver annan, einkum bar þeim skylda til að veita frændum sínum til hefnda fyrir misgerðir ókunnugra eða óskyldra. Að því er tók til eigin öryggis, treysti einstaklingurinn á ættsveitina, og það var líka óhætt. Hver, sem gerði á hluta hans, gerðist jafnframt brotlegur við ættsveit hans. Blóðsifjum ættsveitanna fylgdi skyldan til blóðhefnda, en hún naut skilyrðislausrar viðurkenningar með Irókesum. Ef einhver óviðkomandi drap ættsveitung, var ættsveit hans skyldug til blóðhefnda. Fyrst var reynt að leita um sættir. Ættsveit vegandans kom saman og bauð ættsveitarráði hins fallna sáttaboð. Voru þau tíðast í því fólgin, að allmiklar gjafir voru boðnar fram og vígið harmað. Væri þessu tekið, var málið þar með úr sögunni. Annars tilnefndi ættsveit sú, er fyrir tjóninu varð, hefnendur, einn eða fleiri, og voru þeir skyldugir að elta vegandann og drepa. Ef svo tókst til, hafði ættsveit hins vegna engan rétt til að kvarta, sökin var jöfnuð.

6. Hver ættsveit hefur sérstök nöfn eða nafnarunur, og mega engir aðrir í ættflokknum nota þau. Nafn einstaklingsins segir því jafnframt til um, hvaða ættsveit hann tilheyrir. Ættsveitarnafninu fylgja því frá upphafi réttindi ættsveitunga.

7. Ættsveitin getur ættleitt óskylda menn og tekið þá þar með inn í ættflokkinn. Stríðsfangar þeir, sem ekki voru teknir af lífi, voru t. d. ættleiddir af einhverri ættsveit Seneka-ættflokksins og hlutu þá öll sömu réttindi og aðrir ættsveitungar og ættflokkungar. Ættleiðslan gerðist fyrir frumkvæði einhvers úr ættsveitinni. Ýmist voru það karlmenn, sem tóku ókunna manninn eða konuna sér í bróður- eða systurstað, eða konur gerðu þau að börnum sínum. Hátíðleg upptaka í ættsveitina varð að fara fram þessu til staðfestingar. Með þessum hætti voru einstakar ættsveitir, einkum þær, er orðnar voru fáliðaðar, efldar á ný. Þær ættleiddu fjölda manna úr einhverri annarri ættsveit, – og varð samþykki hennar að koma til. Sá var siður með Irókesum, að hátíðleg upptaka í ættsveitina fór fram á opinberum þingum ættflokksráðsins og varð þannig að trúarlegri athöfn.

8. Með ættsveitum rauðskinna er naumast um nein trúarleg hátíðahöld að ræða. Þó eru trúarsiðir þeirra og helgiathafnir meira og minna tengd við ættsveitirnar. Irókesar hafa sex trúarhátíðir á ári hverju, og voru þá sachemar og stríðshöfðingjar einstakra ættsveita taldir „verðir trúarinnar" samkvæmt stöðu sinni og höfðu prestleg störf með höndum.

9. Ættsveitin átti sér sameiginlegan grafreit. Sá siður helzt ekki lengur með Irókesum í New-York-ríki, enda búa þeir mitt

á meðal hvítra manna, en hann tíðkaðist fyrr meir. Með öðrum rauðskinnum helzt hann enn í gildi. Má þar til nefna Túskarora, sem eru náskyldir Irókesum. Þótt þeir séu kristnir, hafa þeir sérstaka reiti eða skákir í kirkjugarðinum fyrir hverja ættsveit, og er móðir grafin í sama reitnum og börn hennar, en faðir þeirra hins vegar ekki. Það er líka siður hjá Irókesum, að öll ættsveit hins látna fylgi honum til grafar, sjái um gröfina, líkræðuna o. s. frv.

10. Í hverri ættsveit er ráð. Það er lýðræðisleg samkunda, þar sem allir fullorðnir ættsveitungar, konur jafnt sem karlar, hafa jafnan atkvæðisrétt. Ráð þetta kaus sachema og stríðshöfðingja og veik þeim frá, slíkt hið sama aðra „verði trúarinnar". Ráðið kvað á um bætur eða blóðhefnd fyrir ættsveitunga, og það annaðist upptöku ókunnugra í ættsveitina. Það fór sem sé með æðstu völdin í ættsveitinni.

Þetta eru helztu auðkennin á ættsveitaskipan rauðskinna. „Allir ættsveitungar eru frjálsir menn og skuldbundnir að vernda frelsi hver annars. Persónulegur réttur þeirra er jafn, hvorki sachemar né stríðshöfðingjar gera kröfu til neinna sérréttinda. Allir teljast til sama bræðralagsins, sem tengt er saman af blóðsifjunum. Frelsi, jafnrétti og bræðralag það var frumreglan í ættsveitaskipulaginu, enda þótt það væri ekki orðað svo. Og ættsveitin var hins vegar grunneind heils þjóðfélagskerfis, undirstaðan í hinu skipulagða samfélagi rauðskinnanna. Þar er að finna skýringuna á hinni ósveigjanlegu sjálfstæðiskennd og persónulegum virðuleik, er að allra dómi einkennir framkomu rauðskinna."

Á tímum landafundanna voru allir rauðskinnar Norður-Ameríku skipulagðir í ættsveitir og röktu kyn sitt í kvenlegg. Það var aðeins með fáeinum ættflokkum, svo sem Dakotum, að ættsveitaskipunin var í uppflosnun, og nokkrir aðrir, Ojibwasar og Omahasar, bjuggu við föðurrétt.

Mjög margir ættflokkar rauðskinna, sem telja meir en fimm til sex ættsveitir, skiptast jafnframt í ættsveitafélög eða -hópa, og eru þrjár eða fleiri í hverjum. Morgan kallaði þetta „Phratry" (bræðralag) eftir grísku hliðstæðunni, og er það reyndar jafnframt orðrétt þýðing á indíánska heitinu. Senekaættflokkurinn skiptist t. d. í tvö bræðralög. Í öðru þeirra er 1.-4. ættsveitin, í hinu 5.-8. Við nánari rannsókn kemur í ljós, að bræðralög þessi eru oftast til orðin úr ættsveitum þeim, sem ættflokkurinn greindist upphaflega í. Eftir að giftingar innan ættsveitarinnar höfðu verið bannaðar, hlaut hver ættflokkur að skiptast í minnst tvær ættsveitir, ef um sjálfstæða tilvist hans átti að vera að ræða. En sem fjölgaði í ættflokknum, skiptist hver ættsveit aftur í

tvær greinar eða fleiri, hver grein verður að sjálfstæðri ættsveit. En upphaflega ættsveitin, sem tekur yfir öll þessi dótturfélög, lifir áfram og kallast nú bræðralag. Með Senekum og flestum öðrum ættflokkum rauðskinna eru ættsveitirnar í hverju bræðralagi bróðurættsveitir, en ættsveitir hins bræðralagsins frændaættsveitir. En nafngiftir þessar hafa, svo sem við höfum séð, mjög raunhæfa og glögga merkingu samkvæmt ameríska sifjakerfinu. Sú var upphaflega venjan, að enginn Seneki mátti giftast innan síns bræðralags, en sá siður er nú löngu úreltur og hjúskaparbannið takmarkað við ættsveitina. Það er arfsögn með Senekum, að Birnir og Hirtir hafi verið fyrstu ættsveitirnar og séu hinar frá þeim komnar. Eftir að þessi nýja skipan hafði festst í sessi, var henni svo smábreytt eftir þörfum. Ef ættsveitir í einhverju bræðralaginu urðu útdauða, var það stundum jafnað upp með því að taka heilar ættsveitir úr öðrum bræðralögum og setja í skarðið. Því er það, að með ýmsum ættflokkum eru samnefndar ættsveitir dreifðar eða klofnar milli bræðralaga.

Starfssvið bræðralaganna með Irókesum er að öðrum þræði félagslegt, að hinum trúarlegt. 1. Bræðralögin leika knattleik hvort gegn öðru. Hvort sendir hæfustu menn sína til leiks. Þeir, sem ekki eru með í leiknum, horfa á, og taka bræðralögin sér stöðu hvort sér og veðja sín á milli um sigur sinna manna. 2. Í ættflokksráðinu sitja sachemar og stríðshöfðingjar sama bræðralagsins jafnan saman, hvor flokkurinn gegnt öðrum, og hver ræðumaður snýr máli sínu til fulltrúa hvors bræðralags, svo sem þeir mynduðu sérstaka félagsheild. 3. Væri einhver veginn í ættflokknum og banamaður hans af öðru bræðralagi, leitaði ættsveit sú, er fyrir víginu varð, oft til bræðraættsveitanna. Þær efndu svo til sameiginlegrar ráðstefnu í bræðralaginu og sneru sér til hins bræðralagsins, að það gæti kallað saman fund til þess að útkljá málið. Hér kemur bræðralagið fram sem hin upphaflega ættsveit, og er þá meiri von um árangur, með því að það er sterkara en dótturfélögin, hinar einstöku ættsveitir. 4. Við dauðsföll frægra manna eða foringja tókst hitt bræðralagið á hendur að sjá um jarðarförina og þá hátíðarathöfn, er henni var samfara. Bræðralag dána mannsins hafði hins vegar með höndum hlutverk syrgjandans. Þegar sachem dó, tilkynnti hitt bræðralagið bandalagsráðinu, að staða hans væri laus. 5. Bræðralagsráðið lét einnig til sín taka við kosningu sachema. Það var talið sjálfsagt, að bróðurættsveitirnar legðu á það samþykki sitt, hins vegar gátu ættsveitir hins bræðralagsins risið öndverðar. Kom þá ráð þess saman, og héldi það andstöðunni áfram, var kosningin ógild. 6. Fyrr meir höfðu Irókesar sérstakar, trúarlegar launhelgar, sem hvítir menn kölluðu medicine-lodges (seiðtjöld). Tvö trúarfélög

önnuðust þessar trúarathafnir með Senekum, og var nýjum mönnum veitt hluttaka í þessum leyndardómum á vissum fresti. Þessi tvö félög voru sitt í hvoru bræðralaginu. 7. Líklegt má telja, að ættirnar (linages) fjórar, sem bjuggu í hinum fjórum hverfum Tlascala,[1] er Evrópumenn lögðu landið undir sig, hafi verið fjögur bræðralög. Sannar það, ef satt reynist, að bræðralög rauðskinna hafi einnig verið hereiningar líkt og með Grikkjum, og svo sem var um svipuð ættfélög með Þjóðverjum. Þessar fjórar ættir (eða linages) fóru fylktu liði til orustu, hver sér í sérstökum einkennisbúningi, með sérstakan fána og eigin foringja.

Svo sem margar ættsveitir mynda eitt bræðralag, þannig samanstendur ættflokkurinn af tveimur eða fleiri bræðralögum þar, sem ættsveitaskipulagið er með sígildu sniði. En oft er það í ættflokkum, sem orðnir eru mjög fáliðaðir, að milliliðinn eða bræðralagið vantar.

Hver eru svo einkenni amerísku rauðskinnaættflokkanna?

1. Hver ættflokkur á sér sérstakt landsvæði og nafn. Þessi landareign tók eigi aðeins til þess staðar, þar sem hann hafði aðsetur, heldur náði hún yfir allvíðlent svæði, sem ætlað var til dýraveiða og fiskifangs. Utan við það lá svo víðáttumikið land, hlutlaust og án eigenda, náði það að landareign næsta ættflokks. Var þetta hlutlausa land minna um sig, ef hlutaðeigandi ættflokkar töluðu skylda tungu, annars stærra. Svarar þetta til landamæraskóga Þjóðverja, t. d. óbyggða þeirra, er Cæsar segir, að umlyki lönd Sveva, ísarnholtsins eða járnviðarins (á dönsku: jærnved, limes danicus) milli Dana og Þjóðverja. Einnig má nefna til dæmis Saxaskóg og branibor (skjólviður á slavnesku), sem skiptir löndum milli Þjóðverja og Slava og Brandenburg dregur nafn sitt af. Landsvæði það, sem lá innan þessara óljósu landamæra, taldist sameign ættflokksins. Var það viðurkennt af grönnum hans, og sjálfur varði hann það, er á það var ráðizt. Þessi óljósu landamæri urðu hins vegar til ógagns, er mikil mannfjölgun hafði átt sér stað. Nöfn ættflokkanna virðast oftast fremur hafa orðið til fyrir tilviljun, en að þau hafi verið valin af ráðnum hug. Oft kom það fyrir, er tímar liðu, að grannarnir nefndu ættflokk öðru nafni en hann kallaði sig sjálfur. Þannig hlotnaðist Þjóðverjum nafnið Germanir fyrir tilstilli Kelta, en það er fyrsta samheiti þýzku ættflokkanna, er sagan greinir frá.

2. Hver ættflokkur talar sína sérstöku mállýzku, og auðkennir hún hann. Í reynd er það svo, að ættflokkur og mállýzka fara saman, og leiðir það af sjálfu sér. Skammt er síðan nýir ættflokkar og mállýzkur hafa myndazt í Ameríku við skiptingu ættflokka, og á slíkt sér líklega stað enn. Það kemur einstöku sinn-

1 Ríki og borg í Mexíkó.

um fyrir, að ættflokkur, sem orðinn er til fyrir samruna tveggja mannfárra ættflokka, mæli á tveim náskyldum mállýzkum. Um tvö þúsund manna eru að meðaltali í ættflokkunum amerísku. Tsjerokesar eru þó hart nær 26.000, og er það fjölmennasti hópur rauðskinna í Bandaríkjunum, sem tala sömu mállýzkuna.

3. Ættflokkurinn hefur rétt til að setja hátíðlega í embætti sachema þá og stríðshöfðingja, er ættsveitirnar kjósa sér.

4. Þá hefur hann og rétt til að víkja þeim aftur, og eins þótt það sé andstætt vilja ættsveitanna. Sachemar þessir og stríðshöfðingjar eiga sæti í ættflokksráðinu, svo að þessi réttindi ættflokkanna eru auðskýrð. Stundum mynduðu ættflokkarnir með sér bandalag, og áttu allir fulltrúa í sérstöku bandalagsráði, og fékk það þá þessi réttindi, er að ofan getur.

5. Ættflokkurinn átti sér sameiginlegar trúarhugmyndir (eða goðafræði) og helgisiði. „Rauðskinnar voru trúhneigðir á sinn óheflaða og frumstæða hátt". Goðfræðilegar hugmyndir þeirra hafa enn ekki verið rannsakaðar af neinni gagnrýni. Þeir trúðu á alls konar anda og hugsuðu sér þá í mannlegu líki. Þeir stóðu á lágstigi hálfsiðunar, en á því stigi er enn ekki um að ræða neinar guðamyndir eða svokölluð skurðgoð. Þeir trúðu á náttúruna eða náttúruöflin, og voru trúarbrögð þeirra að þróast í fjölgyðisátt. Hinir ýmsu ættflokkar héldu hátíðir sínar á ákveðnum fresti, og þar voru sérstakir helgisiðir um hönd hafðir, einkum dansar og leikir. Dansar voru einkum veigamikið atriði í öllum helgiathöfnum þeirra. Hver ættflokkur hélt hátíðir sínar út af fyrir sig.

6. Ráð var í hverjum ættflokki og fjallaði um sameiginleg mál hans. Það var skipað öllum sachemum og stríðshöfðingjum ættsveitanna. Voru þeir sannir fulltrúar þeirra, með því að jafnan mátti víkja þeim frá. Fundir ráðsins voru opinberir, og aðrir ættflokkungar voru þar viðstaddir. Þeir höfðu rétt til að kveðja sér hljóðs og segja álit sitt, en ráðið hafði úrskurðarvaldið. Oftast gat hver, sem viðstaddur var, kvatt sér hljóðs. Konur gátu og sagt skoðun sína á málinu og valið sér talsmann til að koma henni á framfæri. Sú var venja með Irókesum, að samþykktir urðu að hljóta samhljóða atkvæði. Svo var og háttað um ýmsar samþykktir merkurneytanna þýzku. Hlutverk ættflokksráðsins var einkum að ákveða um afstöðuna til annarra ættflokka. Það tók á móti sendisveitum og sendi, lýsti yfir styrjöld og samdi frið. Ef til ófriðar kom, var hann oftast háður af sjálfboðaliðum. Venja var að líta svo á, að ófriðarástand ríkti milli hverra þeirra ættflokka, er ekki höfðu gert með sér sérstakan griðasáttmála. Oftast voru það frægir bardagamenn, er skipulögðu herferðir á hendur slíkum óvinum. Þeir efndu til stríðsdansa, og hver, sem

tók þátt í þeim, hafði þar með lofað að fara í herferðina. Var liðinu þá þegar fylkt og haldið af stað. Líku máli gegndi um vörn heimalandsins. Það voru sjálfboðaliðar, sem út var boðið, er tíðast sáu um hana. Það varð jafnan tilefni til opinberra hátíðahalda, er slíkar hersveitir héldu í eða komu úr herför. Ekki var það nauðsynlegt, að ættflokksráðið legði samþykki sitt á svona herferðir, enda var þess hvorki krafizt né það veitt. Þetta voru einkaherferðir með sams konar sniði og styrjaldarleiðangrar þýzku fylgisliðanna, sem Tacitus lýsir. Munurinn var aðeins sá, að fylgisliðin þýzku voru stöðugri og fastari í sniðum. Þau mynduðu lítið fastalið, sem hafði með sér ákveðið skipulag á friðartímum, og aðrir sjálfboðaliðar flykktust svo undir merkin, er til ófriðar kom. Slíkar vígasveitir voru sjaldnast fjölmennar. Það var fámennt lið, er tók þátt í mestu herferðum rauðskinna – og eins þótt langt væri farið. Ef mörg fylgislið af þessu tagi efndu til sameiginlegrar herferðar, hlítti hvert um sig leiðsögn eigin foringja. Foringjarnir mynduðu svo ráð, og fór það eftir aðgerðum þess, hversu til tókst um heildarskipulagningu leiðangursins. Hér er um sams konar herstjórn að ræða og hjá Alamönnum[1] við Efri-Rín á fjórðu öld, sem Ammianus Marcellinus hefur lýst fyrir okkur.

7. Nokkrir ættflokkar hafa yfir-höfðingja, en sérréttindi hans eru heldur lítil. Það er einhver af sachemunum, sem gerir bráðabirgðaráðstafanir, er þörf er skjótra aðgerða, og gilda þær, unz ráðið getur komið saman og tekið fullnaðarákvarðanir. Þetta er smávegis byrjunarskref í þá átt, að sérstakur embættismaður fari með framkvæmdavaldið, en sjaldnast hefur það orðið nema vísirinn. Reyndin hefur hins vegar tíðast orðið sú, svo sem sýnt verður, að æðsti herforinginn hefur smám saman fengið slíkt vald. Þó eru undantekningar frá því.

Með langflestum rauðskinnum náði einingin ekki lengra en til ættflokksins. Ættflokkarnir voru fáir, stór svæði skiptu löndum með þeim, og sífelldur innbyrðis ófriður hafði veikt þá. Þeir bjuggu á geysivíðlendu svæði, en við mikla mannfæð. Öðru hverju komu upp bandalög milli skyldra ættflokka. Tilefnið var skyndileg hætta eða þrengingar, og bandalagið sundraðist er hættan var um garð gengin. En í einstökum héruðum höfðu þó ættflokkar, skyldir að uppruna, stofnað með sér föst bandalög og stigið þannig fyrsta skrefið í áttina til þjóðarmyndunar. Þróaðasta bandalag af þessu tagi í Bandaríkjum Norður-Ameríku er Irókesa-sambandið. Upphaflega munu þeir hafa átt heima vestan Mississippifljóts og sennilega verið ein greinin af hinum mikla

---

1 Germanskur þjóðflokkur.

ættmeiði Dakota. En þeir tóku sig upp þaðan og settust að í New-York-ríki eftir löng og mikil ferðalög. Þeir greindust í fimm ættflokka: Seneka, Kayuga, Onondaga, Oneida og Mohawka. Þeir lifðu á fiski og veiðidýrum og stunduðu frumstæða garðrækt. Þeir bjuggu í þorpum, er oftast voru girt með stauravirki. Þeir voru aldrei fleiri en tuttugu þúsund, og nokkrar ættsveitir voru sameiginlegar öllum ættflokkunum fimm. Þeir töluðu náskyldar mállýzkur og byggðu samfellt landsvæði, sem skiptist á milli þeirra. Þeir höfðu lagt land þetta undir sig, og var því eðlilegt, að þessir fimm ættflokkar héldu saman gegn þeim, sem þeir höfðu hrakið burt. Þessi samheldni ól af sér „Eilífa bandalagið", sem svo var kallað, og gerðist það ekki síðar en í byrjun 15. aldar. Þetta var eins konar fóstbræðralag, er efldi máttarkennd þeirra og sóknar- og árásarhug. Um 1675 stóð veldi þeirra sem hæst, og höfðu þeir þá lagt undir sig mikil landsvæði þarna í kring og ýmist rekið íbúana á burt eða gert þá skattskylda sér. Bandalag Irókesa er þróaðasta þjóðfélagsskipan, sem rauðskinnar hafa skapað, það er að segja þeir, sem ekki voru enn komnir af lágstigi hálfsiðunar. (Eru þá undanskildir Mexíkómenn, Ný-mexíkanar og Perúbúar). Megineinkenni bandalagsins voru sem hér segir:

1. Það var „eilíft" bandalag hinna fimm skyldu ættflokka og byggðist á fullu jafnrétti þeirra og sjálfræði í öllum málum innan ættflokkanna. Blóðsifjar þessar voru hin sanna undirstaða bandalagsins. Þrír af ættflokkunum fimm nefndust feðra-ættflokkar og kölluðust að vera bræður. Hinir tveir nefndust sonaættflokkar og töldust líka bræður sín á milli. Þrjár elztu ættsveitirnar áttu sér enn fulltrúa í öllum ættflokkunum fimm, aðrar þrjár í þremur. Þeir, sem töldust til hverrar þessara ættsveita, voru allir bræður í ættflokkunum fimm. Ættflokkarnir mæltu á sömu tungu. Þar var aðeins um smávegis mállýzku-blæbrigði að ræða, og bar málið þannig vitni um sameiginlegan uppruna þeirra.

2. Sambandsráð veitti bandalaginu forstöðu, og áttu þar sæti fimmtíu sachemar, jafningjar að tign og áliti. Ráð þetta tók fullnaðarákvarðanir um öll málefni bandalagsins.

3. Þessum fimmtíu sachemum hafði verið skipt niður á allar ættsveitir og ættflokka, er bandalagið var stofnað, með því að þeir gegndu nýjum embættum, sem stofnað var til vegna þarfa bandalagsins. Hver ættsveit valdi sér því fulltrúa á ný, er staðan losnaði, og hún gat vikið honum frá, er henni sýndist. En sambandsráðið eitt hafði rétt til að setja hann inn í embættið.

4. Þessir bandalags-sachemar voru jafnframt sachemar hver í sínum ættflokki og áttu sæti og atkvæðisrétt í ættflokksráðinu.

5. Allar samþykktir bandalagsins skyldu gerðar með samhljóða atkvæðum.

6. Atkvæðagreiðslan fór fram eftir ættflokkum, og varð samþykki hvers ættflokks og allra fulltrúa hans í ráðinu að koma til, svo að ákvörðun yrði gild.

7. Hvert sem var af ættflokksráðunum fimm gat kallað saman bandalagsráðið, en sjálft gat það ekki boðað til slíkrar ráðstefnu.

8. Fundir ráðsins fóru fram að viðstöddum öllum ættflokkungum. Sérhver Irókesi mátti taka þar til máls, en ráðið eitt gerði samþykktir.

9. Ekki var um að ræða neinn foringja fyrir ráðinu, þar var enginn höfðingi, er færi með framkvæmdavaldið.

10. Hins vegar voru þar tveir yfir-hershöfðingjar, og voru þeir jafnir að réttindum og völdum. (Er það hliðstætt konungunum tveimur með Spartverjum og hinum tveim ræðismönnum Rómverja).

Þannig var stjórnarfar það, er Irókesar hafa búið við í meira en fjórar aldir og búa við enn. Þetta var öll fyrirferðin. Ég hef lýst því samkvæmt frásögn Morgans og mjög ýtarlega, með því að hér er kostur á að athuga þjóðfélag, sem býr ekki við neitt ríkisvald. Forsenda ríkisvalds er sú, að til sé sérstakt opinbert vald, sem greint sé frá þeim hópi manna, er eiga þar hlutdeild að hverju sinni. Maurer skildi það rétt, að þýzka merkur-neytið var annars eðlis og uppruna en ríkisvaldið, enda þótt það hafi síðar, að ætlan hans, orðið í ríkum mæli sú félagslega undirstaða, er ríkið var reist á. Því er það, að hann rannsakar í öllum ritum sínum, hversu hið opinbera vald verður smám saman til úr stjórnarháttum marka, þorpa, búgarða og borga og vex jafnframt upp við hlið þeirra. Af sögu rauðskinna í Norður-Ameríku getum við séð, hvernig þjóðflokkur, sem upphaflega var einn og óskiptur, dreifist smám saman um geysistórt landsvæði. Þar getur að líta, hvernig ættflokkar klofna og mynda þjóðflokka, sem taka yfir marga ættflokka. Tungurnar breytast svo, að þjóðflokkarnir skilja ekki mál hver annars. Og meira en það, hart nær allar minjar um sameiginlegan uppruna hverfa. Einstakar ættsveitir í ættflokkunum greinast, gömlu móður-ættsveitirnar haldast samt og verða að bræðralögum, og nöfn þessara elztu ættsveita geymast þó með ættflokkum, sem búa víðs fjarri hver öðrum og hafa lengi verið skildir að. Úlfar og Birnir eru ættsveitaheiti, er enn koma fyrir hjá meiri hluta indíánsku ættflokkanna. Segja má, að skipulagslýsingin hér að ofan eigi í meginatriðum við þá alla, nema hvað margir þeirra eru enn ekki komnir svo langt, að þeir hafi myndað bandalag við skylda ættflokka.

Af þessu má sjá, að ættsveitin, sem er frumeindin í þessari samfélagsskipan, hlýtur að ala af sér allt þetta ættsveita-, bræðralags- og ættflokkaskipulag. Og er sú þróun í senn nauðsynleg og eðlileg. Allir þessir þrír hópar eru blóðsifjafélög á mismunandi stigi. Hver þeirra er sjálfstæð heild og stjórnar sínum eigin málum, en þó bætir hver annan upp. Og þeir hafa með höndum öll þau málefni eða opinber störf, sem um getur verið að ræða á lágstigi hálfsiðunar. Því er það, að sé ættsveitin grunneind félagsskipunar með einhverjum þjóðflokki, er þess að vænta, að skipulagning ættflokksins sé með líku sniði og hér hefur verið lýst. Og þar sem nægar heimildir eru fyrir hendi, svo sem með Grikkjum og Rómverjum, munum við rekast á þessa ættflokkaskipan. Og meira en það, við munum sannfærast um, að samanburður við þjóðfélagsskipan rauðskinna mun greiða úr torráðnustu gátum og vafaatriðum, þar sem eyða er í heimildirnar.

Og þessi ættsveitaskipan er dásamlegt fyrirkomulag í öllum sínum barnslega einfaldleik. Þar var ekkert sérstakt herlið, vopnuð lögregla eða löggæzlusveitir, engir aðalsmenn, konungar, landstjórar, amtmenn eða dómarar, engar dýflissur eða málaferli – og þó fór allt skaplega fram. Þeir aðilar, er málin varða, jafna með sér allar þrætur og deilur, hvort sem það er nú heldur ættsveitin eða ættflokkurinn, eða einstakar ættsveitir sín á milli. Ekki er gripið til blóðhefnda fyrr en í fulla hnefana. Blóðhefndin hefur reyndar tekið á sig gervi siðmenningarinnar í dauðarefsingum okkar tíma, með þeim kostum og löstum siðmenningarinnar, er henni fylgja. Fyrr meir áttu menn miklu fleiri sameiginleg mál en nú; nokkrar fjölskyldur önnuðust búsýsluna í sameiningu, hún var með sameignarsniði; landið var sameign ættflokksins, það eru aðeins garðarnir, sem einstök bú fá til umráða og einungis tiltekinn tíma. Allt að einu þurfa þeir ekki nándar nærri jafn fjölgreint og flókið stjórnarkerfi og við. Þeir, sem málið varðar, ákveða um það, og oftast hafa aldagamlar siðvenjur séð fyrir öllu slíku. Engir fátæklingar eða þurfamenn eru þarna til, sameignarskipanin og ættsveitin sjá fyrir því. Það er annazt um gamla fólkið, sjúklinga og þá, sem orðið hafa örkumla í styrjöldum. Allir eru jafnir – og frjálsir – og konurnar líka. Það er ekki um neitt þrælahald að ræða enn þá – og undirokun framandi ættflokka er mjög sjaldgæf. Um 1651, er Irókesar höfðu sigrazt á Erium og „hlutlausu þjóðinni",[1] buðu þeir þeim að ganga í bandalagið með fullum réttindum. Það var ekki fyrr en hinir sigruðu höfðu hafnað þessu boði, að Irókesar hröktu þá úr landi sínu. Hvítir menn, sem kynnzt hafa óspilltum rauðskinnum, hafa dáðst að persónulegum virðuleik þeirra, dirfsku, heiðarleik,

1 Rauðskinna-ættbálkar.

skapstyrk og hreysti, – og er það sönnun þess, hvers konar einstaklinga slíkt samfélag skapar.

Við höfum nýleg dæmi um hreysti slíkra þjóðflokka frá Afríku, annað nokkurra ára gamalt, hitt fárra mánaða.[1] Zúlú-kaffar og Núbíar búa hvorir tveggju enn við ættsveitaskipulag. Þeir hafa afrekað það, sem enginn evrópskur her getur gert. Byssulausir, með lensur einar og kastspjót að vopni, óðu þeir gegn kúlnaregninu úr bakhlaðningum fótgönguliðsins brezka, allt fram að byssustingjunum. Er þessi herdeild Bretanna þó talin sú færasta í heimi í návígi, en samt hafa fyrrnefndir þjóðflokkar hvað eftir annað riðlað fylkingar hennar og jafnvel stökkt henni á flótta. Og þetta hafa þeir afrekað, enda þótt geysimunur hafi verið á vopnabúnaði og þeir sjálfir hafi enga herþjónustu- eða heræfingatíma. Englendingar hafa kvartað yfir því, að Kaffar geti komizt lengri dagleiðir fótgangandi en ríðandi menn, og sýnir það bezt, hve þolgóðir og afreksmiklir þeir eru. Enskur málari komst einhvern tíma svo að orði: „Hver minnsti vöðvi þeirra er harður og stæltur líkt og keyrisól".

Þannig var mönnunum og mannfélaginu háttað, áður en stéttaskiptingin kom til sögunnar. Og ef við berum saman hag þeirra og meginþorra siðmenntra manna nútímans, er þar um geysimun að ræða. Það er langt bil frá nútímaverkamanni eða smábónda til hinna fornu, frjálsu ættsveitunga.

Þetta er önnur hliðin. En við skulum ekki gleyma því, að þessi félagsskipan var dauðadæmd. Hún náði ekki lengra en til ættflokksins. Ættflokkabandalagið er reyndar vísirinn að upplausn hennar, svo sem sýnt verður. Það kom og líka fram í undirokunarviðleitni Irókesa. Þeir, sem stóðu utan ættflokksins, stóðu utan við lög og rétt. Ófriðarástand ríkti á milli ættflokka, svo fremi sem greinilegur griðasamningur væri ekki fyrir hendi. Og þessi ófriður var háður með þeirri grimmd, sem einkennir manninn umfram önnur dýr, en síðar meir hefur mildazt nokkuð af hagsmunaástæðum. Skilyrði ættsveitaskipulagsins og blómaskeiðs þess, eins og við höfum séð í Ameríku, var að lítill íbúafjöldi sæti dreifður um stórt landsvæði. Þar er sem sé um að ræða svo til skefjalaust vald ytri náttúru yfir manninum. Hann skilur hana ekki, hún er framandi aðili – og þetta endurspeglast í barnalegum trúarhugmyndum hans. Ættflokkurinn var heimur mannsins og markalína, bæði að því er tók til framandi manna og hinna, er í ættflokknum voru. Ættflokkurinn og ættsveitin og skipan þeirra voru sem helgir dómar, er ekki mátti hrófla við. Þetta var æðra vald runnið frá náttúrunni og mótaði

[1] Átt er við stríð Englendinga gegn Zúlú-köffum 1879 og ófriðinn við Núbía 1882.

skilyrðislaust allt tilfinningalíf einstaklingsins, hugsanir hans og gerðir. Þótt okkur finnist til um þessa einstaklinga, voru þeir þó mjög lítt frábrugðnir hver öðrum. Þeir hanga enn við naflastreng hins frumstæða náttúrusamfélags, eins og Marx komst að orði. Það varð að rjúfa vald hinnar frumstæðu félagsheildar; og það var rofið. Þar voru að verki öfl, sem við kennum við hnignun. Okkur virðist þetta sem syndafall, afturför frá einfaldleik og siðgöfgi, er einkenndi ættsveitaskipulagið. Það eru hinar lægstu hvatir, sem ryðja braut hinu siðmennta samfélagi, stéttaþjóðfélaginu. Vesæl ágirnd, óhefluð nautnasýki, auvirðileg nízka – og síngjarnt rán á sameign ættsveitunga segja þar til sín. Og aðferðirnar eru hinar fyrirlitlegustu, þjófnaður, misnotkun valds, vélabrögð og svik. Þetta er það, sem grefur sundur gamla, stéttlausa ættsveitaþjóðfélagið og veldur hnignun þess. Hið nýja samfélag hefur nú staðið í meira en tvö þúsund og fimm hundruð ár – og þar hefur aldrei verið um annað meira að ræða, en þróun örlítils minni hluta á kostnað mikils meirihluta, sem bæði var kúgaður og arðsoginn. Og sú er reyndin nú í ríkara mæli en nokkru sinni fyrr.

## IV.

## Ættsveitin gríska

Grikkir voru á forsögulegum tímum skipulagðir á sama hátt og rauðskinnarnir amerísku, slíkt hið sama Pelasgar[1] og aðrir skyldir þjóðflokkar. Og kerfið var sem hér segir: ættsveit, bræðralag, ættflokkur, bandalag ættflokka. Bræðralög vantaði stundum, eins og t. d. með Dórum; og ekki hafði alls staðar til þess komið, að ættflokkarnir gerðu með sér bandalög, en ættsveitin var jafnan grunneind félagslífsins. Kalla má, að Grikkir standi við upphaf siðmenningartímabilsins, er þeir koma fyrst við sögu. Milli þeirra og amerísku ættflokkanna, er að ofan getur, liggja tvö allfyrirferðarmikil þróunarstig. Grikkir hetjualdar eru miklu lengra á leið komnir en Írókesar. Ættsveitir Grikkja eru því engan veginn jafn fornlegar og ættsveitir Írókesa, merki fjölhjúskaparins eru mjög tekin að máist. Móðurréttur hefur vikið fyrir föðurrétti – og upprennandi einkaeign þar með rofið fyrsta skarðið í ættsveitaskipulagið. Næsta áfall leiddi beint af því fyrra. Samkvæmt föðurrétti runnu eignir konu (er erfði mikinn auð) til manns hennar við giftinguna, – fóru sem sé út úr

[1] Frumbyggjar Grikklands, verður þó ekkert fullyrt um þá með vissu.

ættsveitinni. Því var það, að undirstöðuatriði ættsveitarréttarins voru nú borin fyrir borð. Nú var það ekki aðeins leyft, heldur og fyrirskipað, að stúlka yrði að giftast innan ættsveitarinnar, er svona stóð á, svo að eignin héldist þar áfram.

Samkvæmt Grikklandssögu Grotes voru meginatriði ættsveitaskipulagsins aþenska þessi:

1. Ættsveitin hafði sameiginlegar trúarhátíðir og helgisiði og einkarétt til prestskapar, að því er tók til dýrkunar ákveðins guðs. Var guðdómur sá talinn ættfaðir ættsveitarinnar og hafði því sérstakt viðurnefni.

2. Ættsveitin hafði sameiginlegan grafreit. (Sjá Demosþenes gegn Evbulides[1]).

3. Gagnkvæmur erfðaréttur.

4. Gagnkvæmar skyldur til hjálpar, verndar og stuðnings, ef um ofbeldisverk var að ræða.

5. Gagnkvæm réttindi og skyldur til hjúskapar innan ættsveitarinnar, ef sérstaklega stóð á, einkum er um var að ræða foreldralausar stúlkur eða kvenarfa.

6. Stundum, að minnsta kosti, var um sérstaka sameign ættsveita að ræða, – og sérstakur arkont (forstöðumaður) og féhirðir önnuðust stjórnina.

Auk þess tengdu bræðralögin margar ættsveitir saman, enda þótt þau tengsl væru lausari. Þó má finna þar gagnkvæmar skyldur og réttindi af svipuðu tagi og að ofan getur. Einkum eru það sameiginlegar trúariðkanir og réttur til hefnda, ef einhver í sama bræðralagi hefur verið veginn. Öll bræðralög í sama ættflokki héldu auk þess sameiginlegar trúarhátíðir á ákveðnum fresti. Phylobasileus (ættflokksforingi) stjórnaði þeim, en hann var kosinn úr hóp aðalsmanna (Evpatrida). Þetta segir Grote okkur. Og Marx bætir við: „Við sjáum glytta í villimanninn (Irókesa t. d.) gegnum grísku ættsveitina, svo að ekki verður um villzt.“ Og enn auðsærri verður hann, er við hugum betur að.

Eftirfarandi atriði auðkenna sem sé grísku ættsveitina, auk þess, er áður er talið:

7. Ætt er rakin í karllegg – samkvæmt föðurrétti.

8. Bann liggur við því að giftast innan ættsveitarinnar, nema að því er tekur til kvenarfa. Undantekning þessi – og það, að hún er í skipunarformi, – sannar, að hin venjan hefur áður gilt ein. Þetta leiðir líka af því, sem almennt er viðurkennt, að er kona giftist, sagði hún skilið við trúar- og helgisiði ættsveitar sinnar, hún fluttist yfir í ættsveit manns síns og var talin til

[1] Tilvísun þessi í eina af ræðum forngríska ræðuskörungsins Demosþenesar gegn Evbulides lýtur að eftirfarandi setningu: „Hver lætur þá fara til grafa feðra sinna, er ekkert samband hafa við neina ættsveit“.

bræðralags hans. Samkvæmt þessu var venjan sú að giftast út fyrir ættsveitina. Hin kunnu orð Dikæarkusar benda og til þess, og í „Charikles" gerir Becker beinlínis ráð fyrir því, að enginn megi giftast innan eigin ættsveitar.

9. Réttur til að taka menn inn í ættsveitina. Það gerðist með því, að menn voru ættleiddir eða teknir inn í fjölskylduna. Opinber formsatriði voru þessu samfara, en þetta gerðist sjaldan.

10. Réttur til að kjósa sér forstöðumann og víkja honum frá. Við vitum, að í hverri ættsveit var arkont (forstöðumaður), – og þess er hvergi getið, að staðan sé arfgeng og bundin við ákveðnar fjölskyldur. Allar líkur mæla gegn því, að um slíkt arfgengi geti verið að ræða, meðan hálfsiðunarskeiðinu er enn ekki lokið. Það samrýmist engan veginn því, að ríkir og fátækir í hverri ættsveit höfðu nákvæmlega sömu réttindi.

Grote er ekki einn um það „að stranda" á ættsveitaskipulaginu. Það er sömu sögu að segja af Niebuhr, Mommsen og öllum, sem ritað hafa sögu fornaldarinnar fram til þessa. Þeir hafa dregið réttilega fram ýmis einkenni ættsveitarinnar, en í þeirra augum var hún aðeins hópur af fjölskyldum. Sú skoðun gerði þeim ókleift að skilja eðli hennar og uppruna. Meðan ættsveitaskipulagið hélzt, var fjölskyldan aldrei nein skipulagseind, enda gat slíkt ekki átt sér stað, þar sem makarnir hlutu óhjákvæmilega að tilheyra mismunandi ættsveitum. Ættsveitin féll alveg inn í bræðralagið og bræðralagið inn í ættflokkinn. Fjölskyldan skiptist hins vegar í tvennt, – milli ættsveita og makanna. Opinber réttur ríkisins viðurkennir heldur ekki neina fjölskyldu. Það er aðeins einkarétturinn sem tekur tillit til hennar. Þó hefur sagnritun okkar öll til þessa gengið út frá þeirri ótæku forsendu, að einkvæn sérfjölskylda sé sá kjarni, er smám saman hafi getið af sér þjóðfélag og ríki. Þessi skoðun þótti og sérstaklega óyggjandi á 18. öld, og hefur síðan naumast mátt hrófla við henni. Þessi fjölskylduskipan mun þó varla vera miklu eldri en siðmenningin.

„Þess má geta í sambandi við skrif hr. Grotes," bætir Marx við, „að enda þótt Grikkir telji ættsveitir sínar goðfræðilegs uppruna, eru þær samt eldri miklu en öll goðafræði þeirra og allir guðir hennar og hálfguðir".

Morgan hyllist til að vitna í Grote, af því að hann nýtur álits og vitnisburður hans verður ekki talinn hlutdrægur. Hann skýrir einnig frá því, að sérhver aþensk ættsveit dragi nafn af ættföður sínum, er talinn var. Hann segir það hafa verið algengt fyrir daga Sólons, að ættsveitungarnir (gennêtai) hafi tekið arf eftir þann látna. Eftir daga Sólons hafi þetta einnig verið svo, ef arfleiðsluskrá vantaði. Ef víg var vegið, höfðu nánustu frænd-

ur bæði rétt og skyldu til að sækja sökudólginn til laga. – En næstir þeim komu ættsveitungarnir, – og svo þeir, sem voru í sama bræðralagi: „Allt, sem við vitum um elztu lög Aþeninga, vitnar um þessa skiptingu í ættsveitir og bræðralög".

Ættsveitirnar röktu kyn sitt til sameiginlegs ættföður, og hefur það valdið hinum „skólalærðu broddborgurum" (svo notuð séu orð Marx) miklum heilabrotum. Þeir telja að sjálfsögðu ættfeður þessa hrein goðsögufyrirbrigði, en geta hins vegar ekki skýrt, hversu ættsveitir gátu myndazt úr sjálfstæðum fjölskyldum, er ekki voru af sameiginlegum uppruna. En þetta verða þeir nú samt að gera, þótt ekki sé nema til þess að gera grein fyrir tilvist ættsveitanna. Er þá uppbyrjað mikið orðaskvaldur og farið í marga hringi. En inntakið er ekki annað en þetta. Ættmeiðurinn er að vísu skröksaga, en ættsveitin er staðreynd. Grote heldur áfram – og hefur Marx skotið athugasemdum inn í frásögn hans. „Við heyrum þessa niðjatals eða ættmeiðs aðeins sjaldan getið, með því að slíkt kemur ekki fram opinberlega nema við sérstök og mjög hátíðleg tækifæri. En minniháttar ættsveitir höfðu líka sameiginlegar trúariðkanir (skrítið að tarna, hr. Grote!) og sameiginlegan yfirmennskan ættföður og langfeðgatal líkt og þær frægari (Þetta má þó heita furðulegt, hr. Grote, svona hjá *minniháttar* ættsveitum). Grunndrættir og hugmyndaleg undirstaða (Nei, góði hr. Grote, ekki hugmyndaleg, heldur holdleg, carnal, eða fleischlich á þýzku) voru eins hjá þeim öllum".

Marx orðar svar Morgans við þessu svo: „Blóðsifjakerfi það, er svaraði til ættsveitanna, eins og þær voru í upphafi, sagði til um skyldleika allra ættsveitunga sín á milli. Og Grikkir bjuggu eitt sinn við þess háttar ættsveitaskipan, sem aðrir dauðlegir menn. Þessi skyldleiki var geysimikilvægt atriði, og ættsveitungarnir kynntust þessu í reynd frá blautu barnsbeini – og lærðu þessar ættartölur. En þetta féll í gleymsku, er sérfjölskyldan kom til sögunnar. Ættsveitarheitið gat af sér langfeðgatal eða ættmeið og virtist niðjatal sérfjölskyldunnar harla lítilmótlegt við hliðina á honum. Það var ættsveitarnafnið, sem vitnaði nú um sameiginlegan uppruna þeirra, er það báru. En ættmeiður eða niðjatal ættsveitanna náði svo langt aftur í tímann, að ættsveitungarnir gátu ekki lengur rakið frændsemina sín á milli, nema rétt örsjaldan, er um sameiginlegan ættföður yngri ættsveita var að ræða. Nafnið sjálft var sönnun um sameiginlegan uppruna, fullgild sönnun, nema þar sem ættleiðing kom til. Raunveruleg afneitun á öllum skyldleika á milli ættsveitunga í stíl við þá Grote og Niebuhr gerir hins vegar ættsveitina að hreinum tilbúningi og heilaspuna, – og er slík afstaða samboðin „fyrir-

myndar“ fræðimönnum, þ. e. skriftlærðum grúskurum. Ættatengslin voru orðin fjarlæg, einkum eftir tilkomu sérhjúskaparins, og liðni tíminn endurspeglaðist í hugarburði goðsagnanna. Og af þessu drógu svo og draga broddborgaralegir dánumenn þá ályktun, að þessi uppdiktaði ættmeiður hafi skapað raunverulegar ættsveitir.“

Grísku bræðralögin voru líkt og hjá rauðskinnum móðurættsveitir, er greinzt höfðu í nokkur dótturfélög og sameinuðu þau innan sinna vébanda. Og oft röktu þessar dótturættsveitir kyn sitt til sameiginlegs ættföður. Grote segir frá því, að allir í bræðralagi Hekatæusar hafi átt sama guðinn að ættföður í sextánda lið, ef talið var frá þeirri kynslóð. Allar ættsveitir þessa bræðralags hafa því verið bræðraættsveitir. Í Hómerskvæðum get ur um bræðralög sem hereindir. Frægur er kaflinn, þar sem Nestor leggur Agamemnon þessi ráð: Fylktu mönnum eftir ættflokkum og bræðralögum, bræðralag styðji bræðralag og ættflokkur ættflokk. – Það var annars réttur bræðralaganna og skylda að sækja sök á hendur þeim, er úthellt hafði blóði einhvers „bræðranna“. Sýnir það, að fyrr meir hafa þau verið skyldug til blóðhefnda. Bræðralagið á einnig sameiginlega helgistaði og hátíðir. Þá hefur og þróun sú, er hin forn-aríska náttúrudýrkun tók í goðafræði Grikkja, farið fram innan ættsveita þeirra og bræðralaga og mótazt mjög af því. Auk þess var svo sérstakur foringi (phratriarchos) fyrir hverju bræðralagi, og að því er De Coulanges segir, héldu bræðralögin stefnur eða samkundur, gerðu bindandi samþykktir og höfðu eigið réttarfar og stjórn. Og ríkið, er síðar kom til sögunnar, fól bræðralögunum meira að segja ákveðin opinber störf, enda þótt það virti ættsveitirnar að vettugi.

Nokkur skyld bræðralög mynda svo ættflokkinn. Í Attíku voru fjórir ættflokkar, sem hver um sig taldi þrjú bræðralög, en í hverju bræðralagi voru þrjátíu ættsveitir. Þessi reglulega skipting ber það með sér, að fyrirkomulagi því, er orðið hafði til ósjálfrátt og eins og á náttúruvísu, hefur verið breytt af ráðnum huga og á skipulagsbundinn hátt. Í sögu Grikkja er ekki frá því greint, hvenær þetta gerðist eða hvernig og hvers vegna, enda náðu forn minni Grikkja ekki lengra aftur en til hetjualdar.

Grikkir bjuggu á tiltölulega litlu svæði, og minna var um mállýzkur hjá þeim en rauðskinnunum í hinum víðáttumiklu skóglendum Ameríku. Hér gegnir þó líku máli að því leyti, að aðeins þeir ættflokkar, er tala einhverja af höfuðmállýzkunum, hafa myndað með sér stærri heildir, – og í Attíku, sem þó er lítil um sig, – rekumst við á sérstaka mállýzku, er síðar verður samtunga allra Hellena, er rita skyldi óbundið mál.

Samkvæmt Hómerskvæðum eru grísku ættflokkarnir þó oftast

runnir saman í smáþjóðflokka, en bæði ættsveitir, bræðralög og ættflokkar halda samt enn fullu sjálfstæði innan þessara stærri heilda. Er hér var komið sögu, voru Grikkir farnir að búa í borgum, og voru þær víggirtar með múrum. Fólkinu fjölgaði, eftir því sem gripaeign og jarðyrkja jukust og handverkið kom til sögunnar. En af því leiddi aftur vaxandi eignamun, og höfðingja- eða aðalsstétt óx nú upp innan hins forna og frumstæða lýðræðisskipulags. Einstakir þjóðflokkar áttu í sífelldum erjum sín á milli um eignarhald á skástu landsvæðunum, – auk þess sem barizt var til að afla herfangs. Það var orðin viðurkennd regla að hneppa stríðsfanga í þrældóm. Stjórnskipun þessara ættflokka eða þjóðflokka var sem hér segir:

1. *Ráðið* var föst stofnun. Upphaflega munu foringjar ættsveitanna hafa átt sæti í þessu ráði eða bulê. En síðar meir, er þeir reyndust fullmargir, voru aðeins nokkrir þeirra valdir til þessa starfs, og gafst þar með færi til að hlynna að hinum upprennandi aðli og efla hann. Samkvæmt lýsingu Dionysiosar eru ráðin á hetjuöldinni beinlínis skipuð tiginbornum mönnum (kratistoi). Ráðið hafði úrskurðarvald um öll mikilvæg mál. Æskylos lætur ráð Þebumanna taka þá ákvörðun, er skar úr, eins og málum þá var komið, sem sé að greftra Eteokles með virðingu og viðhöfn, en kasta líki Polynikesar[1] fyrir hunda. Er ríkisvald var á stofn sett, breyttist ráð þetta í „senat“ eða öldungaráð.

2. *Þjóðarsamkunda* eða *almenningsþing* (agóra). Með Irókesum tíðkaðist, eins og við munum, að almenningur, konur sem karlar, væri viðstaddur á fundum ráðsins. Menn stóðu þarna í kring og lögðu til málanna, skipulega þó, og höfðu þannig áhrif á ákvarðanir ráðsins. Hjá Grikkjum hetjualdar er orðin nokkur breyting á þessu. Þessar „kringumstæður,“[2] svo að talað sé á fornháþýzku lagamáli, hafa þegar breytzt í fullkomin almenningsþing eða -samkomur, – og gegnir þar sama máli og um Þjóðverja að fornu. Það var ráðið, sem kvaddi þing þessi saman, er skera þurfti úr mikilvægum málum. Hver, sem vildi, gat tekið til máls. Menn létu vilja sinn í ljós með handauppréttingum (sbr. Æskylos: Griðbeiðendurnir) eða köllum. Almennings-samkundurnar höfðu úrslitavaldið. Hómer getur ekki um neina aðferð eða ráð til þess að koma fram gegn vilja almennings þeim málum, sem svo voru vaxin, að samstarf hans þurfti að koma til. Þannig kemst Schömann að orði (Griechische Alter-

---

[1] Tveir kappar í leikriti gríska skáldsins Æskylosar. „Sjö herforingjar gegn Þebu“. Þetta voru tveir bræður, sem áttu í innanlandsstríði sín á milli og féllu báðir. Atburðirnir gerast í grísku borginni Þebu.

[2] Þýzka orðið „Umstand“ merkir upphaflega þá, sem umhverfis standa. – *Þýð.*

tümer[1]). Í þennan tíma var hver fullorðinn maður í ættflokknum jafnframt hermaður, og það var ekki til neitt opinbert vald eða valdatæki, er væri greint eða skilið frá almenningi og hægt væri að beita gegn honum. Hið sjálfsprottna, náttúrlega lýðræði stóð enn með fullum blóma, og verður að hafa það í huga, er dæmt er um völd og stöðu, hvort heldur er ráðsins eða herstjórans (basileus).

3. *Herstjórinn* (basileus). Marx kemst svo að orði um stöðu hans. „Evrópskir fræðimenn hafa gert herstjórann (basileus) að einvaldskonungi í nútímaskilningi, enda flestir furstaþjónar að ætt og uppeldi. Morgan ameríski lýðveldissinninn varast það. Það er bæði háð og sannleikur í orðum hans um hinn mærðarfulla Gladstone og bók hans „Juventus Mundi"[2]: „Herra Gladstone lýsir hinum grísku höfðingjum hetjutímabilsins eins og konungum og þjóðhöfðingjum og bætir því við, að þar að auki séu þeir sannir herramenn eða gentlemen. En svo verður hann sjálfur að gera þessa játningu. Yfirleitt sýnist ráða þar sá siður eða lög, að elzti sonurinn taki við ríki eftir föður sinn. Virðist það nægilega ljóst, enda þótt ákvæði um það séu ekki vel skýr". Gladstone sjálfum mun sennilega virðast, sem þessi óljósu ákvæði um frumburðarréttinn séu viðhlítandi, enda þótt ónákvæm séu og öldungis einskisvirði.

Við höfum áður séð, hversu háttað var um höfðingjaerfðir með Irókesum og öðrum rauðskinnum. Þar var kjörið í öll embætti, og voru þau oftast bundin við hverja ættsveit og arfgeng að því leyti. Er staða losnaði, var oftast hyllzt til þess að skipa hana náfrænda þess, er áður hafði gegnt henni, bróður hans eða systursyni, svo fremi að ekki væri sérstök ástæða til að sneiða hjá þeim. Það var hins vegar siður hjá Grikkjum, að sonur herstjórans eða synir tæki við stöðunni eftir hann, enda var karlsiftarréttur genginn þar í gildi. En ekki er þetta nein sönnun þess, að slík erfðahögun væri lögmæt án atkvæðis lýðsins, en sýnir það eitt, að sonur mátti vænta þess, að fólkið kysi hann til að taka við af föður sínum. Bæði með Irókesum og Grikkjum er hér um að ræða fyrstu vísana að sérstökum aðalsfjölskyldum innan ættsveitanna, – og hjá Grikkjum má auk þess sjá hér fyrstu drögin að arfgengu þjóðhöfðingjavaldi eða einveldi, svo sem síðar kom á daginn. Líkur benda sem sé til, að herstjórar (basileis) með Grikkjum hafi annað hvort verið kjörnir af lýðnum eða orðið að hljóta staðfestingu ráðins eða almenningsþinganna, svo

---

[1] Grísk fornfræði.

[2] „Juventus Mundi" (æskuskeið veraldar), bók eftir Gladstone, enskan borgaralegan stjórnmálamann, um fornöld Grikkja.

sem tíðkaðist um rómversku konungana (reges). Ráðið og almenningsþingið voru hins vegar málsvarar almennings og viðurkennd af honum.

Foringjanum Agamemnon er ekki svo lýst í Ilíonskviðu, sem hann væri yfirkonungur Grikkja, heldur sem æðsta foringja sambandshers, er situr um borg. Og það er þessi eiginleiki hans sem Odysseifur vitnar til í hinu alkunna erindi, þá er misklíð er komin upp með Grikkjum: Ekki er gott, að margir skipi fyrir. Einn á að ráða o. s. frv. (Þarna kemur líka fyrir hið vinsæla erindi um veldissprotann, en það er seinni tíma innskot). „Odysseifur er hér ekki að halda neinn fyrirlestur um stjórnskipan, hann er aðeins að krefjast hlýðni þeim til handa, er fer með æðstu völd í ófriði. Grikkirnir við Trjóuborg koma fram sem her; og sé þess gætt, verður að telja almenningsþing þeirra (eða agórur) með miklum lýðræðisbrag. Þegar Akkilles talar um gjafir, þ. e. a. s. skiptingu herfangsins, lætur hann ekki Agamemnon eða aðra herstjóra úthluta þeim, heldur „syni Akkea", sem sé lýðinn. Viðbætur eins og „getnir af Seifi", „nærðir af Seifi", sanna ekkert í þessu efni, með því að hver ættsveit rekur kyn sitt til guðanna, og ættsveit höfðingjans telur sig því að sjálfsögðu komna af hinum æðri goðum, t.d. Seifi. Jafnvel ófrjálsir menn, svo sem svínahirðirinn Evmæus o. fl., kallast „guðlegir" (dioi og þeioi) og það meira að segja í Odysseifskviðu, sem þó er yngri miklu en Ilíonskvæðin. Í þeirri hinni sömu Odysseifskviðu eru kallarinn Mulios og Demodokos, blindi söngvarinn, nefndir „herosar" eða hálfguðir. Grískir rithöfundar nota orðið „basileia" um hið hómerska konungsvald, sem svo er kallað, en það hafði bæði ráð og almenningsþing sér við hlið. Þeir kalla það svo af því, að herstjórafyrirkomulagið var megineinkenni þess, en í stuttu máli merkir þetta orð aðeins hernaðarlegt lýðræði". (Marx).

Auk hernaðarstarfsins fór herstjórinn einnig með klerklegt vald og dómsvald. Um dómsvaldið er ekkert nánar ákveðið, en goðavald fer hann með sem æðsti stjórnandi ættflokks eða ættflokkabandalags. Ekki er það, að hann fari með nein borgaraleg stjórnarstörf, en samkvæmt stöðu sinni virðist hann eiga sæti í ráðinu. Það er því orðsögulega rétt að þýða orðið basileus með konungur, með því að orðið konungur, engilsaxnesku cyning, er komið af kuni, künne (norrænu kyn) og merkir ættsveitarforingja. En í nútímamerkingu sinni svarar orðið konungur á engan hátt til basileus í forngrísku. Þúkydídes tekur það greinilega fram, að gamla basileian (eða konungsvaldið) hafi verið patrikê, sem sé byggt á ættsveitum, og segir, að það hafi haft ákveðið og takmarkað valdsvið. Og Aristoteles kveður svo

á, að „basileian" á hetjuöld hafi verið foringjavald yfir frjálsum mönnum og „basileusinn" (herstjórinn) verið hershöfðingi, dómari og æðsti prestur. Hann fór því ekki með nein stjórnarvöld í síðari tíma skilningi þess orðs.[1]

--------

Af öllu þessu má sjá, að hin forna ættsveitaskipan lætur enn til sín taka í stjórnarhögum Grikkja á hetjuöld, en hún er þó að byrja að liðast í sundur. Föðurréttur er kominn til sögunnar, og börnin erfa föður sinn. Þetta hlynnir að auðsöfnun einstakra fjölskyldna og eflir vald fjölskyldunnar gagnvart ættsveitinni. Eignamismunurinn hefur svo aftur áhrif á stjórnarhættina og elur af sér vísi til erfðaaðals og konungsvalds. Þrælahaldið tekur í fyrstu aðeins til stríðsfanga, en ryður brautina fyrir þrælkun ættflokkunga og jafnvel ættsveitunga. Hinn forni ófriður ættflokka á milli er nú að breytast og ekki til hins betra; kerfisbundnar ránsferðir jafnt á sjó og landi koma í staðinn. Rænt er búpeningi, þrælum og fjársjóðum. Þetta er orðin regluleg atvinnugrein. Auðæfin eru sem sé tilbeðin og talin hið æðsta hnoss, og hin forna ættsveitaskipan misnotuð til að réttlæta ofbeldisverk og eignarán. Nú skorti aðeins eitt. Það vantaði stofnun, sem tryggði þessi nýfengnu auðæfi einstaklinganna gagnvart kommúnískum erfðavenjum ættsveitaskipulagsins, helgaði einkaeignina, sem áður var í svo litlum metum, og lýsti því yfir, að hún væri æðsta takmark mannlegs samfélags. En það var þó ekki nóg. Þessi stofnun þurfti að leggja blessun sína yfir allar þessar *nýju* aðferðir til eignaöflunar, er nú koma til sögunnar, veita hinni síauknu auðsöfnun almenna þjóðfélagslega viðurkenningu. Þetta varð að vera stofnun, sem héldi ekki aðeins við þeirri skiptingu þjóðfélagsins í stéttir, sem nú var hafin, heldur tryggði jafnframt rétt eignastéttanna til að arðræna hina eignalausu og drottna yfir þeim um alla framtíð.

Og þessi stofnun kom. *Ríkisvaldið* var fundið upp.

---

[1] Sama máli gegnir um „basileusinn" gríska og azteksku herstjórana. Þeim hefur verið jafnað við nútíma fursta eða þjóðhöfðingja. Morgan varð fyrstur til þess að beita sögulegri gagnrýni á frásagnir Spánverja um þessi efni. Þær voru frá byrjun á misskilningi reistar og ýktar og síðar beinlínis upplognar. Morgan sýndi fram á, að Mexíkanar stóðu á miðstigi hálfsiðunar og þó nokkru hærra en Pueblos-rauðskinnarnir ný-mexíkönsku, og hann sannaði, að stjórnarhættir þeirra svöruðu til þess, að því er ráðið varð af hinum rangsnúnu skýrslum. Þetta var bandalag þriggja ættflokka, sem lagt höfðu undir sig nokkra aðra og gert sér skattskylda. Bandalagsráð og hershöfðingi bandalagsins fóru með stjórnina, – og höfðu Spánverjar gert herforingja þennan að „keisara". (F. E.).

# V.

## Uppruni aþenska ríkisins

Ríkisvaldið vex upp með þeim hætti, að annars vegar eru höfð hamskipti á ýmsum stofnunum ættsveitaskipulagsins, og hins vegar koma svo ný valdatæki, er leysa hinar af hólmi. Að lokum útrýmir svo starfslið ríkisvaldsins þeim með öllu. Áður skipuðu menn sér í ættsveitir, bræðralög og ættflokka – og voru sínir eigin verndarar. Það var sannarlega „þjóð undir vopnum". Nú var komið í staðinn opinbert vopnavald, sem stóð í þjónustu ríkisstjórnarinnar og jafnframt mátti beita gegn lýðnum. Og hvergi getum við fylgzt betur með byrjunarskrefum þessarar þróunar að minnsta kosti en í sögu Aþenu hinnar fornu. Morgan hefur lýst í meginatriðum myndbreytingum hins aþenska ríkisvalds, ég verð hins vegar að bæta að mestu við lýsingar hans þeim hagrænu aðstæðum, er ólu þessar breytingar af sér.

Á hetjuöld bjuggu hinir fjórir ættflokkar Aþeninga í Attíku og enn hver á sínu sérstaka svæði. Jafnvel þau tólf bræðralög, er þeir samanstóðu af, virðast þá enn hafa átt sér sundurgreinda bústaði í Kekrops-borgunum tólf. Stjórnhögun var í stíl hetjualdar, almennings-þing, ráð og herstjóri (basileus). Er sagnritun hefst, er búið að skipta landi og lóðum og einkaeign þar komin á, enda slíkt eðlilegt á hástigi hálfsiðunar, þar sem um er að ræða tiltölulega þróaða vörufamleiðslu með tilsvarandi vöruverzlun. Framleitt var korn, vín og auk þess viðsmjör. Sjóverzlun á Eyjahafi dróst æ meira úr höndum Föníka og komst að mestu í hendur Attíkubúa. Jarðir gengu kaupum og sölum, verkaskiptingin milli jarðyrkju og handverks, verzlunar og farmennsku óx æ meir. Þetta olli því, að ættsveitir, bræðralög og ættflokkar hlutu brátt að blandast sín á milli, og á aðseturstað hvers bræðralags eða ættflokks komu nú menn, er ekki töldust til þessara félagsheilda, bjuggu þar sem sé meðal ókunnugra, enda þótt samlandar væru. Nú var það svo, að hvert bræðralag og hver ættflokkur stjórnuðu sjálf sínum eigin málum á friðartímum og leituðu ekki til Aþenu til ráðsins eða herstjórans. Þeir, sem hins vegar bjuggu á landsvæði bræðralagsins eða ættflokksins, en tilheyrðu þeim ekki, gátu að sjálfsögðu engan þátt átt í þessum stjórnarstörfum.

Starfskipan hinna ýmsu stofnana ættsveitaskipulagsins komst þannig á rugling, og varð nauðsynlegt að ráða bót á því, jafnvel þegar á hetjuöld. Var þá komið á stjórnskipan þeirri, sem kennd er við Þeseif.[1] Breytingin fólst einkum í því, að komið var upp

[1] Hetja í forngrískum sögnum.

miðstjórn í Aþenu. Því var sem sé yfir lýst, að nokkur af þeim málum, sem ættflokkarnir höfðu áður ráðið hver um sig, skyldu nú teljast sameiginleg og falin sameiginlegu ráði, er sat í Aþenu. Með þessu stigu Aþeningar feti framar en nokkrir af frumbyggjum Vesturheims. Hér var ekki um að ræða einbert bandalag ættflokka, sem bjuggu hver á sínu aðgreinda svæði, – heldur runnu ættflokkarnir saman í eina þjóð. Af því leiddi, að upp kom almennur aþenskur þjóðarréttur, sem var hafinn yfir réttarvenjur ættflokka og ættsveita. Aþenskir borgarar hlutu sem slíkir sérstök réttindi og nýja réttarvernd, líka á þeim svæðum, sem heyrðu ekki til ættflokki þeirra. Þar með var stigið fyrsta skrefið til að grafa undan ættsveitaskipulaginu. Þetta varð vísirinn til þess, að menn gátu síðar orðið aþenskir borgarar, enda þótt þeir teldust ekki til neins af ættflokkum Attíku og stæðu algerlega utan við aþenska ættsveitaskipulagið bæði þá og síðar. Annað atriði, sem kennt er við Þeseif, er skipting þjóðarinnar í þrjá flokka. Er þar ekkert tillit tekið til ættsveita, bræðralaga eða ættflokka, en þjóðinni er skipt í Evpatrída eða aðalsmenn, Geomora eða yrkjendur jarðar og Demíúrga[1] eða handverksmenn, og skulu aðalsmenn einir hafa rétt til embætta. Skipting þessi varð að vísu áhrifalaus, nema að því leyti, er tók til embættisréttinda aðalsins, þar sem hún gerði að öðru leyti engan mun á réttindum flokkanna eða stéttanna. En hún er hins vegar mikilvæg að því leyti, að hún sýnir okkur nýja frumparta eða eindir þjóðfélagsins, sem vaxið höfðu upp í kyrrþey. Hún sýnir og, hvernig sú forna venja að velja í stöður ættsveitaskipulagsins menn úr ákveðnum fjölskyldum er nú orðin að lítt vefengdum rétti þessara sömu fjölskyldna til embættanna. Það er og auðsætt, að fjölskyldur þessar, sem voru þegar orðnar valdamiklar af auði sínum, tóku nú að mynda sérréttindastétt, er náði út fyrir mörk hinna einstöku ættsveita, og hið rísandi ríkisvald tók að sér að helga þessa ágengni. Ljóst er og, að verkaskiptingin milli búaliðs og handverksmanna var nú svo langt á veg komin, að hin forna greining eftir ættsveitum og -flokkum varð naumast eins mikilvæg í þjóðfélagslegu tilliti. Þá sýnir þetta og að lokum hinar ósættanlegu andstæður milli ættsveitaskipulagsins og ríkisins. Fyrsta tilraunin til ríkismyndunar er í því fólgin að sundra ættsveitunum með því að veita sumum ættsveitungum forréttindi, en setja aðra hjá. Jafnframt er svo þeim, sem útundan verða, skipt í tvær atvinnustéttir og þeim þannig teflt hverjum á móti öðrum.

[1] Orðið þýðir eiginlega „þjóðvirki" (sbr. lýsingu Marx á hinu fornindverska þorpi í „Auðmagninu" 1. b. bls. 356 og áfram. Alþýðuútgáfa Vegaar, Moskva). Sjá einnig á bls. 104.

Pólitísk saga Aþenu, frá því að þessi skipan komst á og fram til daga Sólons, er lítt kunn. Herstjóra- eða basileusembættið var lagt niður. Arkontar (stjórnendur) veittu ríkinu forustu, og voru þeir kosnir úr hópi aðalsmanna. Veldi aðalsins óx æ meir, unz svo var komið um 600 f. Kr., að ei varð lengur við unað. Helztu hjálpartækin til að kúga niður frelsi almennings voru: peningar og okur, og er vert að taka eftir því. Aðallinn hafði einkum aðsetur sitt í Aþenu og þar í grennd og auðgaðist þar á sjóverzlun og einnig sjóránum, ef svo bar undir. Fékk hann þannig einkaumráð yfir miklum peningaauðæfum. Frá þeim breiddust svo peningaviðskiptin út í sveitirnar og grófu í sundur arftekna lífnaðarhætti bændanna, sem byggðust á náttúrubúskap eða afurðaframleiðslu. Peningabúskapur og ættsveitaskipulag verða engan veginn samrýmd. Það fór og saman, að smábændurnir attísku komust í þrot og hin fornu verndartengsl ættsveitanna tóku að losna. Skuldabréf og eignaveðsetningar hirtu hvorki um ættsveitir né bræðralög. (Aþeningar höfðu sem sé, er hér var komið, líka fundið upp fasteignaveðið). Gamla ættsveitaskipanin hafði hvorki af peningum að segja, né heldur forgreiðslu eða peningaskuldum. Hið síaukna peningaveldi aðalsins ól því af sér nýjan venjurétt til að tryggja lánardrottininn gagnvart skuldunautnum og löghelga arðrán peningamannsins á bændum. Alls staðar á ökrum og engjum Attíku gat að líta veðsúlur, þar sem á var letrað, hverjum landareign þessi væri veðsett og fyrir hve miklu fé. Þeir akrar, sem ekki voru þannig merktir, höfðu flestir þegar verið seldir vegna áfallinna veðskulda eða rentna – og voru þá komnir í eigu einhvers okrarans úr aðalsmannastéttinni. Bóndinn mátti hrósa happi, ef hann fékk að sitja áfram á jörðinni sem leiguliði og draga fram lífið á einum sjötta hluta af afrakstri búsins, en gjalda eigandanum hina fimm í leigu. En þetta þótti ekki nóg. Ef tekjurnar af jarðarsölunni entust ekki fyrir skuldinni, eða væri stofnað til þessarar skuldar án veðtryggingar, varð skuldunauturinn að selja börn sín í ánauð til útlanda til að ljúka skuldinni. Það, að faðir mátti selja börn sín, var hins vegar fyrsti ávöxtur föðurréttar og einkvænis. Og léti blóðsugan sér þetta ekki nægja, gat hún selt skuldunautinn sjálfan í þrældóm. Slík var hin ljómandi dagsbrún siðmenningarinnar með aþensku þjóðinni.

Slík umbylting var óhugsandi áður fyrr, meðan lífskjör fólksins svöruðu til ættsveitaskipulagsins. En nú hafði hún gerzt, og án þess menn gerðu sér grein fyrir, hvernig slíkt mátti verða. Víkjum nú aftur andartak að Irókesunum okkar. Þar voru slíkar aðstæður með öllu óhugsandi, sem nú ríktu með Aþeningum og hafði svo að segja verið þröngvað upp á þá gegn vilja

þeirra og án eigin tilverknaðar. Irókesar öfluðu nauðsynjanna með sama hætti ár frá ári, og framleiðsluhættir þeirra gátu ekki alið af sér slíka árekstra, sem virtust eins og stafa frá utanaðkomandi öflum, né heldur neinar andstæður milli ríkra og snauðra, arðræningja og arðrændra. Því fór að vísu fjarri, að Irókesar hefðu enn náð nokkrum teljandi tökum á náttúruöflunum, en þeir höfðu þó vald á sinni eigin framleiðslu, að svo miklu leyti sem hið takmarkaða vald þeirra yfir náttúrunni leyfði. Þeir vissu, hvers þeir máttu vænta sér af vinnu sinni, ef ekki varð uppskerubrestur í görðum þeirra, fiskilaust í ám og vötnum eða skortur veiðidýra í skógunum. Vinnan hlaut að gefa þeim viðurværi í aðra hönd, lítið eða ríkulegt eftir aðstæðum. Árangurinn af framleiðslustarfi þeirra gat hins vegar aldrei orðið nein ófyrirhuguð félagsleg bylting. Það gat ekki leitt til þess, að ættsveitatengslin slitnuðu og að ættsveitungar og ættflokkungar klofnuðu í andstæðar stéttir, er tækju að berjast sín á milli. Framleiðslan var að vísu þröngum takmörkunum háð, en framleiðendurnir réðu þó yfir sinni eigin framleiðslu. Það var hinn mikli kostur við framleiðsluhætti hálfsiðunartímabilsins, en hann fór forgörðum, er siðmenningin kom til sögunnar. Og það mun verða verkefni næstu kynslóða að vinna aftur það, sem tapazt hefur í þessu efni, skapa á ný yfirráð framleiðandans yfir eigin afurðum. En þau munu reist á hinu stóraukna valdi á náttúruöflunum, sem maðurinn nú hefur öðlazt, og þeim frjálsu samtökum, sem nú er unnt að koma á.

En með Grikkjum háttaði öðruvísi til. Einkaeign sú á búpeningi og munaðarvörum, sem á hafði komizt, leiddi af sér skiptaverzlun milli einstaklinga, afurðirnar urðu að *vörum.* Og þar er undirrótin að öllu því umróti, er síðar varð. Jafnskjótt og framleiðendurnir hættu að nota afurðir sínar beint til eigin neyzlu, en létu þær af hendi í skiptum fyrir eitthvað annað, réðu þeir ekki lengur yfir þeim. Þeir vissu ekki framar, hvað af þeim varð, og nú gat svo farið, að afurðin yrði einhvern tíma notuð gegn þeim, er hafði framleitt hana, til að arðsjúga hann og kúga. Því er það, að ekkert þjóðfélag getur til lengdar ráðið yfir framleiðslu sinni eða hamið áhrif hennar á þjóðfélagið, nema það afnemi vöruskipti milli einstaklinga.

Hitt fengu Aþeningar að reyna, hversu skjótt framleiðslan tók að drottna yfir framleiðendunum, er viðskipti milli einstaklinga voru hafin og afurðirnar orðnar að vörum. Vöruframleiðslan olli því, að einstaklingar tóku nú að erja jörðina fyrir eigin reikning, – og komust jarðir brátt í einkaeign. Auk þess komu nú peningarnir til sögunnar, þessi allsherjar vara, sem hægt var að víxla fyrir allan varning annan. En ekki kom mönnum það í

hug, er þeir fundu upp peningana, að með þeim höfðu þeir skapað nýtt þjóðfélagsafl, hið eina almenna vald, er allt þjóðfélagið varð að lúta. Og þetta nýja vald, sem hafði sprottið upp svona skyndilega án vilja og vitundar þeirra, sem höfðu skapað það, fór nú að láta til sín taka. Það var ungt og ótamið og sást ekki fyrir, og Aþeningar fengu nú að kenna á hinum grimmdarlegu og tillitslausu yfirráðum þess.

En hvað var hægt að gera? Ættsveitaskipanin forna gat ekki heft sigurför peninganna. Og það sem meira var, hún reyndist öldungis ófær um að hýsa peninga, lánardrottna, skuldunauta, nauðungaruppboð og annað þvíumlíkt innan sinnan veggja. En hið nýja þjóðfélagsafl var þegar orðið staðreynd, og frómar óskir og vonardraumar um „hina góðu gömlu tíma" entust ekki til þess að koma peningum og rentuokri út úr veröldinni. Auk þess hafði ættsveitaskipanin hlotið ýmsa minni áverka. Menn úr ýmsum ættsveitum og bræðralögum höfðu dreifzt æ meir um alla Attíku, svo að hrærigrautur var orðinn úr. Einkum átti þetta þó heima um Aþenu, og það eins þótt Aþeningar mættu enn ekki selja íbúðarhús sín út fyrir ættsveitina, þó að þeir hins vegar mættu selja jarðarskika með þeim hætti. Verkaskiptingin milli hinna ýmsu atvinnugreina hafði aukizt því meir, sem iðnaður og samgöngur tóku meiri framförum. Það var komin á verkaskipting milli landbúnaðar og handverks, og handverkið greindist aftur í ýmsar undirdeildir, verzlun, siglingar o. s. frv. Íbúarnir skiptust nú eftir störfum sínum í flokka, sem reyndust allstöðugir og afmarkaðir. Hver hópur átti sér ný og sameiginleg hagsmunamál, sem hvorki ættsveitin né bræðralögin gátu sinnt, og varð því að stofna ný embætti til að annast þau. Þrælum hafði fjölgað allmjög, og hljóta þeir, er hér var komið, að hafa verið miklu fjölmennari en þeir Aþeningar, er frjálsir voru. Upphaflega hafði ættsveitaskipulagið ekkert haft af þrælahaldi að segja, enda ekki ráðið yfir neinum valdatækjum til að halda slíkum fjölda ánauðugra manna í skefjum. Loks hafði verzlunin leitt til þess, að fjöldi útlendinga hafði leitað til Aþenu til að afla sér þar fjár með auðveldum hætti. Þeir höfðu setzt þar að, en samkvæmt hinni fornu stjórnskipan nutu þeir hvorki réttinda né verndar. Og þótt menn sættu sig af vana við þarvist þeirra, voru þeir engu að síður sem truflandi aðskotamenn með þjóðinni.

Ættsveitaskipanin var í fáum orðum sagt komin að fótum fram. Þjóðfélagið óx upp úr henni æ meir, sem lengur leið. Hún gat jafnvel ekki dregið úr verstu ágöllunum, sem æxlazt höfðu fyrir allra augum, eða komið í veg fyrir þá. Ríkisvaldið hafði hins vegar vaxið upp í kyrrþey. Það hafði komizt á verkaskipting í fyrstu á milli borga og sveita og síðan milli ýmissa starfsgreina

í borgunum. Og þeir flokkar eða starfshópar, sem þessi verkaskipting hafði alið af sér, höfðu komið á fót nýjum stofnunum til að vinna að hagsmunum sínum. Embætti allskonar höfðu verið stofnuð. Og nú þurfti þetta unga ríki um fram allt að skapa sér eigin valdatæki. Og með því að Aþeningar voru siglingaþjóð, þurftu þeir helzt á herskipaflota að halda til að beita í minniháttar styrjöldum og til verndar kaupskipunum. Naukrarium (skipreiðum) var komið á. Óvíst er, hvenær það gerðist, en það var fyrir daga Sólons. Hver skipreiða náði yfir lítið svæði, og voru tólf slík með hverjum ættflokki. Hvert þeirra skyldi leggja til eitt herskip fullbúið vopnum og mönnum og auk þess tvo riddara. Með þessu var vegið að ættsveitaskipulaginu og það í tvöföldum skilningi. Fyrst það, að hér var skapað opinbert vald, sem greindist að nokkru frá hinni vopnuðu þjóðarheild. Í annan stað var þetta í fyrsta sinn, að þjóðinni var í opinberu skyni skipt eftir landsvæðum eða bústöðum, en ekki eftir frændsemi. Og munum við brátt sjá, hvað af því leiddi.

Ættsveitaskipanin gat ekki veitt arðsognum almenningi neina stoð, – og þá var ekki annars úrkosta en bíða tilkomu hins rísandi ríkisvalds. Og það kom líka með bjargráðin, sem sé löggjöf Sólons, – og efldist jafnframt á kostnað hinna fornu stjórnarhátta. Réttarbætur Sólons komust á árið 594 f. Kr., en hér verður ekki rætt um, með hverjum hætti það var. En aðgerðir hans urðu upphaf að heilli runu pólitískra byltinga, sem svo eru nefndar, og voru það afskipti hans af eignarréttinum, er því ollu. Allar byltingar, sem gerðar hafa verið til þessa, hafa stefnt að því að vernda eina tegund eignarréttar gegn annarri. Og þær geta ekki verndað aðra, án þess að það komi niður á hinni. Í frönsku byltingunni miklu var eignarrétti lénsaldarinnar fórnað, að hinn borgaralegi mætti dafna. Og samkvæmt réttarbót Sólons urðu skuldheimtumennirnir að gefa upp eign sína til hagsbóta fyrir eignarrétt skuldunautanna. Skuldirnar voru einfaldlega felldar úr gildi. Ekki er fullkunnugt um einstök atriði þessa máls, en í kvæðum sínum hrósar Sólon sér af því, að hann hafi numið brott veðstólpana af hinum skuldhlöðnu jarðeignum og flutt þá aftur í átthaga sína, sem vegna skulda höfðu flúið eða verið seldir til annarra landa. Þetta varð aðeins gert með því að ganga á eignarréttinn. Og í reynd er það svo, að allar svonefndar pólitískar byltingar eru gerðar til þess að vernda einhverja tegund eignarréttar eða eignarhátta, – og það er framkvæmt með því að taka annars konar eignir lögnámi, og er það stundum nefnt eignarán. Og víst er um það, að nú um 25 alda skeið hefur ekki verið hægt að viðhalda einkaeigninni nema með eignaskerðingum.

Nú reið hins vegar á að koma í veg fyrir, að slík ánauð yrði aftur hlutskipti frjálsra Aþeninga. Þetta var m. a. gert með sérstökum almennum ákvæðum, t. d. með því að banna skuldabréf, þar sem persónufrelsi skuldunautarins var sett að veði. Auk þess var kveðið á um hámarksstærð þeirra jarðeigna, sem einstakir menn máttu eiga, til að reisa þannig nokkrar skorður við græðgi aðalsins í jarðir bænda. Loks voru svo gerðar breytingar á stjórnarháttum, og þær, sem mestu varða hér, eru þessar:

Fjölgað var í ráðinu upp í fjögur hundruð, og voru hundrað fulltrúar frá hverjum ættflokki. Hér var sem sé byggt á ættflokkaskiptingunni, og var þetta eina atriðið úr hinni fornu stjórnskipan, sem fellt var inn í hið nýja ríkisvald. Annars skipti Sólon borgurunum í fjóra flokka eftir jarðeignum þeirra og afrakstri. Lágmarkstekjur fyrstu þriggja flokkanna voru 500, 300 og 150 medimnar korns (1 medimni = 41 lítri h. u. b.). Hver, sem átti minni jörð eða enga, lenti í fjórða flokki. Ekki mátti setja í embætti aðra en þá, er töldust til fyrstu flokkanna þriggja, og í æðstu stöðurnar þá eina, er tilheyrðu fyrsta flokki. Fjórði flokkur hafði þau réttindi ein að mega taka til máls og greiða atkvæði á almenningsþingunum. En á þeim þingum var kosið í öll embætti, og þar gerðu embættismennirnir grein fyrir störfum sínum. Þar voru og samþykkt öll lagafyrirmæli – og á þessari samkundu var fjórði flokkurinn í meirihluta. Forréttindi aðalsins voru að nokkru endurnýjuð og komu nú fram sem sérréttindi auðsins, en úrslitavaldið var komið í hendur almennings. Flokkarnir fjórir urðu líka undirstaðan að skipan hersins. Fyrstu flokkarnir tveir lögðu til riddaraliðið. Fullvopnað fótgönguliðið skyldi skipað úr þriðja flokki, En fjórði flokkur átti að gegna herþjónustu sem léttbúið, óbrynklætt fótgönguliðið, eða sem sjóliðar á flotanum, og hefur þá sennilega fengið greiddan mála.

Hér er sem sé komið nýtt atriði inn í stjórnarfarið. Það er einkaeignin. Réttindi borgaranna og skyldur eru nú ákveðin eftir því, hve miklar jarðeignir þeir eiga. Og að sama skapi og áhrif þessara eignastétta vaxa, er hinum fornu frændsemisflokkum ekið á bug. Ættsveitaskipulagið hafði beðið nýjan ósigur.

Það er hins vegar ekki neitt lífsskilyrði fyrir ríkisvaldið, að pólitísk réttindi borgaranna séu miðuð við eignir þeirra. Að vísu hefur það fyrirkomulag skipt einkar miklu í stjórnarfarssögu ríkjanna, en þó eru mörg ríki, sem hafa ekki þurft á því að halda, og það einmitt þau, er þróuðust voru. Í Aþenu hélzt þessi högun líka aðeins um stundarsakir. Frá því á dögum Arístídesar höfðu allir jafnan rétt til embætta.

Á næstu áttatíu árum tók þróun aþenska þjóðfélagsins þá

stefnu, er síðan hélzt næstu aldir. Loku hafði verið skotið fyrir jarðaokur, sem viðgekkst fyrir daga Sólons, og skorður reistar við gegndarlausri jarðeignasöfnun einstaklinga. Verzlun, handverk og listiðnaður urðu ráðandi atvinnugreinar. Rekstur handverks og listiðnaðar varð með æ stærra sniði og þrælar notaðir til vinnunnar. Menn gerðust nú „upplýstari" en áður. Í fyrstu höfðu samborgararnir verið arðsognir á ófyrirleitnasta hátt, nú voru það þrælarnir og viðskiptavinirnir utan Aþenu, sem voru arðrændir. Lausafjáreignin, auðæfi í peningum, þrælum og skipum óx æ meir. En hún var ekki lengur tæki til að afla sér lóða og lendna, svo sem verið hafði fyrr meir, á heimalningsárunum. Hún var orðin takmark í sjálfu sér. Þetta hafði tvenns konar afleiðingar. Ný stétt auðugra iðjuhölda og kaupmanna óx nú upp og tók að keppa við hið forna aðalsvald með góðum árangri. Í annan stað var með þessu svipt í burt þeirri undirstöðu, er leifar ættsveitarskipulagsins hvíldu á.

Félagar ættsveita, bræðralaga og ættflokka bjuggu nú á víð og dreif um alla Attíku í einum hrærigraut. Þar með voru þessar félagsheildir orðnar óhæfar til að hafa pólitískt hlutverk með höndum. Fjöldi aþenskra borgara heyrði ekki til neinni ættsveit. Það voru aðkomumenn, sem fengið höfðu borgararétt, en ekki verið teknir upp í hin fornu ættafélög. Þar að auki var svo sívaxandi fjöldi erlendra innflytjenda, sem aðeins voru bandamenn.

En stéttabaráttan hafði haldið áfram, aðallinn reyndi að ná aftur fyrri forréttindum og tókst að verða ofan á um stundarsakir, unz honum var að fullu steypt frá völdum með byltingu Kleisþenesar (509 f. Kr.), og með honum fóru einnig síðustu leifar ættsveitaskipulagsins.

Í nýju stjórnarskránni tók Kleisþenes ekkert tillit til hinna fjögurra fornu ættflokka, sem byggðust á ættsveitum og bræðralögum. Í stað þess kom skipan, þar sem farið var eftir því einu, hvar menn höfðu búsetu. Og hafði slík skipting að vísu verið reynd áður í skipreiðunum (eða naukraríunum). Nú réð það ekki lengur úrslitum, hvaða ættfélags menn töldust til, heldur eingöngu hitt, hvar þeir bjuggu. Nú var þjóðinni ekki lengur skipt eftir ættfélögum, heldur landsvæðum, pólitískt urðu íbúarnir einber fylgigögn hvers landsvæðis.

Allri Attíku var skipt í hundrað lýðhéruð (demos), og stjórnaði hvert þeirra sínum eigin málum. Samborgarar þeir, sem bjuggu í hverju demos (demot-arnir), völdu sér forustumann (demark) og féhirði og auk þess þrjátíu dómara, er fóru með dómsvald í minniháttar deilumálum. Þeir fengu og eigin hof og sérstakan verndarguð eða hálfguð (heros), og kjöru þeir

sjálfir presta hans. Æðsta valdið í hverju lýðhéraði eða demos var hjá almenningsþingi demotanna. Þarna eru frumdrættirnir að sjálfstjórnar-bæjarfélögunum amerísku, svo sem Morgan bendir réttilega á.

Aþenska ríkið byggði í upphafi á sams konar grunneindum, sams konar skiptingu, og fullþróað nútímaríki endar á.

Tíu af þessum grunneindum eða demosum mynduðu flokk, og var hann greindur frá ættbálknum eða ættflokknum forna og kallaður fylki eða staðflokkur. Staðflokkurinn fór ekki aðeins með pólitísk mál sín, heldur jafnframt hermálin. Hann valdi flokkstjórann eða fylarkinn, sem réð fyrir riddaraliðinu, taksiark-inn, sem veitti fótgönguliðinu forustu, og strateg-inn eða herforingjann, sem réð yfir öllu herliði á umráðasvæði flokksins. Auk þess lagði flokkurinn til fimm herskip með allri áhöfn, sjóliðum og fyrirliðum, og fékk attískan hálfguð að verndardýrlingi og var kenndur við hann. Að lokum valdi hann svo 50 fulltrúa í aþenska ráðið.

Loks kom svo aþenska ríkið, sem stjórnað var af 500 manna ráði, sem kosið var af flokkunum tíu. Og þegar öllu var á botninn hvolft, voru það almenningsþingin, sem réðu, með því að allir aþenskir borgarar gátu sótt þau og greitt atkvæði. Auk þess, sem fyrr er talið, fóru svo arkontar og aðrir embættismenn með stjórn ýmissa mála og dómarastörf. En í Aþenu var ekki til neinn embættismaður, sem væri æðsti handhafi framkvæmdavaldsins.

Þessir nýju stjórnarhættir – og eins hitt, að miklum fjölda bandamanna, ýmist innflytjenda eða leysingja, var nú veitt upptaka, ollu því, að stjórnartækjum ættsveitaskipulagsins var bægt frá öllum opinberum störfum. Þau úrættuðust og urðu að einkafélögum eða trúarlegum samtökum. En siðferðileg áhrif, sjónarmið og hugsunarháttur hins forna ættsveitaskipulags héldust enn lengi vel og dvínuðu fyrst smám saman. Kom það í ljós við eina af stofnununum ríkisins síðar meir.

Við höfum áður séð, að eitt helzta sérkenni ríkisins er, að upp er komið sérstakt, opinbert vald, sem greint er frá öllum þorra þjóðarinnar. Aþeningar höfðu nú eignazt þjóðarher og flota, og var það reyndar beint framlag af þjóðarinnar hálfu. Hlutverk þeirra var að vernda gegn utanaðkomandi hættu og halda þrælunum í skefjum, en þeir voru, er hér var komið sögu, orðnir meiri hluti íbúanna. Sjálfir kynntust borgararnir fyrst um sinn aðeins við þann þátt opinbera valdsins, sem heitir lögregla. Hún er líka jafngömul ríkisvaldinu, og því var það, að hinir tilgerðarlausu Frakkar átjándu aldar töluðu ekki um siðmenntar þjóðir, heldur þjóðir með lögreglu (nations policées). Jafn-

framt því sem Aþeningar komu á ríkisvaldi, settu þeir sem sé líka á fót lögreglu. Það var sannkölluð herlögregla, með boga að vopni, ýmist gangandi eða ríðandi. Þetta voru löggæzluriddarar eins og þeir eru nefndir í Sviss og Þýzkalandi. En þessi vopnalögregla var skipuð *þrælum*. Frjálsum Aþeningum þótti þessi lögreglustörf svo niðurlægjandi, að þeir kusu heldur að láta vopnaða þræla taka sig höndum en gefa kost á sér til slíkra smánarverka. Hér létu hugmyndir hins forna ættaþjóðfélags enn til sín taka. Ríkið gat ekki án lögreglu verið, en það var enn ungt að árum og átti ekki slíkan siðferðilegan virðuleik, að endast mætti til þess að hefja þau störf til vegs og álits, er hinir fornu ættsveitungar hlutu að telja svívirðileg.

Ríkisvél Aþeninga var nú fullgerð í megindráttum, – og hraðvaxandi auður, verzlun og iðnaður báru þess vott, að hún féll vel að hinum nýju félagslegu aðstæðum. Stéttaandstæða sú, er mótaði félagslegar og pólitískar stofnanir Aþeninga, var ekki andstæða milli aðals og almennings. Það var búið að vera. Nú var það andstæðan milli þrælanna annars vegar og frjálsra manna, samborgara og bandamanna hins vegar. Þegar blómaskeið Aþenu stóð sem hæst, voru frjálsir aþenskir borgarar eitthvað um 90 þús., að meðtöldum konum og börnum. Þrælarnir voru hins vegar 365 þús., konur og karlar, og bandamenn – innflytjendur og leysingjar – um 45 þús. Það komu því að minnsta kosti 18 þrælar og rúmlega tveir bandamenn á hvern fullorðinn karlmann með borgararétti. Fjöldi þræla gat orðið svona mikill af því, að þeir unnu oft margir saman í stórum vinnusölum í handiðnaðarverkstæðum, og var þeirra gætt af umsjónarmönnum. Af þróun verzlunar og iðnaðar leiddi hins vegar mikla auðsöfnun og að auðurinn færðist á færri hendur. Fjöldinn allur af frjálsum borgurum varð æ fátækari og átti nú um tvo kosti að velja. Annar var sá að reyna að keppa við þrælavinnuna með eigin handverksstörfum, en slíkt þótti skammarlegt, smásálarlegt, – og auk þess lítil sigurvon. Hinn var aukin örbirgð og vesaldómur. Og svo sem á stóð, rak nauðsynin þá til að taka síðari kostinn. Og með því, að þetta var allur þorri borgaranna, varð afleiðingin sú, að aþenska ríkið leið undir lok. Það var ekki lýðræðið, sem átti sök á hruni Aþenu, svo sem smjaðrandi og konunghollir skólameistarar í Evrópu staðhæfa. Það var þrælahaldið, er bannfærði vinnu hinna frjálsu borgara, sem átti sök á því.

Myndun ríkis með Aþeningum er tilvalið dæmi um upphaf ríkisvaldsins yfirleitt – og auðkennandi. Ber þar tvennt til. Í fyrsta lagi er hér um „hreint" afbrigði að ræða, ríkismyndunin fer fram án ofbeldisaðgerða utan eða innan að. Valdarán Peisis-

tratosar[1] varð skammætt og skildi engin merki eftir sig. Í annan stað var þetta ríki háþróað í sniðum. Það var lýðveldi, reist á lýðræði, og hafði vaxið beint upp úr ættsveitaskipulaginu. Loks er það svo einkar mikilsvert, að helztu atriði þessarar sögu eru kunn.

## VI.

## Ættsveit og ríki í Róm

Ráða má af sögninni um stofnun Rómaborgar, að það voru latínskar ættsveitir (hundrað að því er sagan hermir), er fyrst settust þar að – og töldust þá allar til eins ættflokks. Þá bættist sabelliskur ættflokkur í hópinn, sem einnig taldi hundrað ættsveitir, að sagt var. Loks kom svo þriðji ættbálkurinn, og var hann allósamstæður, en greindist líka í eitt hundrað ættsveitir, að því er sagan segir. Öll þessi frásögn ber vott um það, að fátt annað er eftir af hinni fornu skipan en ættsveitin, og oft er hún sjálf aðeins grein af móðurættsveit, sem enn býr í fornum átthögum sínum. Ættflokkarnir bera það með sér, að þeir eru nokkurs konar gervismíð, en þó saman settir að mestu af frændaliði og sniðnir eftir upprunalegum og eðlilega tilkomnum ættstofnum. Það er því ekki útilokað, að meginkjarni hvers þessara þriggja ættflokka um sig kunni að vera forn ættflokkur og ósvikinn. Milliliðurinn, bræðralagið, saman stóð af tíu ættsveitum og nefndist *„curia"*. Þær voru því þrjátíu alls.

Viðurkennt er, að rómverska ættsveitin var sams konar stofnun og sú gríska. Og sé það haft fyrir satt, að ættsveitin gríska hafi þróazt upp úr sams konar þjóðfélagseind og þeirri, sem birtist okkur í frummynd sinni með rauðskinnunum amerísku, þá á hið sama við um rómversku ættsveitina. Við getum því verið stuttorðir um þetta atriði.

Skipulag rómversku ættsveitarinnar var sem hér segir, og gildir það að minnsta kosti um elztu sögu Rómaborgar:

1. Ættsveitungar höfðu gagnkvæman erfðarétt. Eignir héldust með ættsveitinni. Nú réð karlsiftarréttur í rómverskum ættsveitum, líkt og hinum grísku, og afkomendur kvenleggsins því útilokaðir. Tólf-taflna-lögin eru elztu ritaðar heimildir um rómverskan rétt, sem okkur eru kunnar. Samkvæmt þeim áttu börnin frumrétt til erfða, sem arfborin afsprengi. Ef þau voru engin, komu „agnatarnir" eða frændur í karllegg. Væru þeir engir, gekk

[1] Peisistratos náði völdum með ofbeldi árið 540 f. Kr. og gerðist „týranni", þ. e. einvaldur, í Aþenu. Hann stjórnaði í 12 ár. Eftir dauða hans voru synir hans reknir burt úr Aþenu.

arfurinn til ættsveitunganna. Eignin hélzt innan ættsveitarinnar, á hverju sem gekk. Aukin auðæfi og sérhjúskapur höfðu alið af sér ýmis ný réttarákvæði, og má sjá, hvernig þau þrengja sér smám saman inn í venjurétt ættsveitanna. Upphaflega höfðu ættsveitungar jafnan rétt til erfða, en brátt dró til þess, að hann varð í reynd bundinn við ættingja í karllegg, svo sem ofar greinir. Loks var hann svo takmarkaður við börnin og afkvæmi þeirra í karllegg. Hitt lætur að líkum, að á töflunum tólf er röðinni á þessu snúið við.

2. Ættsveitin átti sér sameiginlegan grafreit. Claudia, ein af ættsveitum patrisía, fluttist frá Regilli til Rómar, og var henni þá úthlutað landi og jafnframt sérstökum, sameiginlegum grafreit í borginni. Og enn á dögum Ágústusar gerðist það, að höfuð Varusar, sem fallið hafði í Teutóborgarskógi, var flutt til Rómar og grafið í „gentilitius tumulus", ættsveitargrafreitnum. Quinctilia-ættsveitin átti sér sem sé enn sérstakan grafreit.

3. Hver ættsveit átti sér sameiginlegar trúarhátíðir, nefndust þær „sacra gentilitia" og eru alkunnar.

4. Sú kvöð lá á ættsveitungum öllum að taka sér maka utan ættsveitarinnar. Svo virðist reyndar, sem þetta hafi aldrei orðið að skráðum lagafyrirmælum með Rómverjum, en engu að síður hélzt þessi siður. Kunnugt er um nöfn á geysimörgum hjónum rómverskum, en aldrei kemur það fyrir, að eiginmaður og -kona hafi sama ættarnafn. Erfðarétturinn sannar og þetta. Er kona giftist, missir hún ættarréttindi sín, segir skilið við ættsveit sína. Hún getur ekki erft föður sinn eða föðurbræður, né heldur börn hennar, með því að þá yrði erfðaréttur karlleggs-ættsveitarinnar að engu. Og því aðeins nær hann tilgangi sínum, að konan fái ekki að giftast neinum ættsveitunga sinna.

5. Sameign á lendum tíðkaðist jafnan í öndverðu, áður en tekið var að skipta upp landsvæði ættbálksins. Með ættflokkunum latversku voru jarðirnar ýmist í eign ættflokksins, ættsveitarinnar eða einstakra búa, og munu sérfjölskyldur naumast hafa rekið þau enn sem komið var. Sagt er, að Rómúlus hafi fyrstur gerzt til þess að skipta landinu upp á milli einstaklinga og hafi einn hektari (eða 2 jugera) komið í hlut hvers. Þó rekumst við á það síðar miklu, að landareignir eru í höndum ættsveitanna, að ekki sé minnzt á landareign ríkisins, sem öll innanlandssaga rómverska lýðveldisins snýst um.

6. Ættsveitungum var skylt að veita hverir öðrum gagnkvæma hjálp og vernd. Ritaða sagan hefur ekki eftirskilið okkur nema slitróttar minjar um þetta atriði. Rómverska ríkisvaldið var frá öndverðu svo máttugt, að rétturinn til að vernda gegn rangsleitni gekk í erfð til þess. Öll ættsveit Appíusar Claudíusar

syrgði, þá er hann var tekinn höndum, jafnvel þeir ættsveitungar, sem voru persónulegir fjandmenn hans. Ættsveitirnar bundust og samtökum í öðru púnverska stríðinu til að leysa út þá ættsveitunga, sem teknir höfðu verið herfangi, en öldungaráðið bannaði það.

7. Ættsveitungar áttu rétt á að bera nafn ættsveitarinnar, og hélzt það allt fram á keisaratímann. Frelsingjar máttu og taka upp ættsveitarnafn fyrrverandi húsbónda síns, en ekki fylgdu því nein ættsveitar-réttindi.

8. Taka mátti utanaðkomandi menn upp í ættsveitina. Það gerðist með þeim hætti, að viðkomandi var ættleiddur af einhverri fjölskyldu – eins og með rauðskinnum, – og þar með var hann kominn inn í ættsveitina.

9. Hvergi er minnzt á rétt almennings til að kjósa sér forustumenn eða víkja þeim frá. En í elztu sögu Rómar voru menn kosnir eða tilnefndir í allar stöður – allt frá kjörkonungnum og niður eftir. Kúríurnar (bræðralögin) völdu og sjálfar presta sína. Það má því gera ráð fyrir, að sama hafi gilt um ættsveitarforingjana (principes), enda þótt sú hafi þá verið venjan að kjósa þá jafnan úr sömu fjölskyldunni.

Slík voru réttindi og skyldur ættsveitanna rómversku. Svara þau alveg til þess, er tíðkaðist með Irókesum, nema hvað Rómverjar bjuggu þegar við algerðan föðurrétt. Það má því segja, að einnig hér „skjóti Irókesinn upp kollinum, svo að ekki verði um villzt".

Meðal hinna viðurkenndu sagnaritara okkar ríkir hinn mesti ruglingur, að því er tekur til ættsveitaskipulagsins með Rómverjum. Ég skal nefna aðeins eitt dæmi. Í ritgerð sinni um rómversk mannanöfn á lýðveldistímanum og Ágústusartímabilinu (Römische Forschungen, Berlín 1864, I. B.) kemst Mommsen svo að orði: „Þrælarnir báru að sjálfsögðu ekki ættarnafn, en allt frændalið karlkyns – og þar með taldir ættleiðingar og skjólstæðingar og auk þess konurnar ... Ættstofninn er sameiginlegur (Mommsen þýðir latn. orðið gens með ættstofn), hvort sem hann er nú til orðinn fyrir raunveruleg frændtengsl eða hugsuð, eða sameiginlegur uppruni er tilbúningur einn. Hann er félagsleg heild, sem á sér sameiginlegar hátíðir, sameiginlegan grafreit og erfðarétt. Og allir frjálsir einstaklingar mega og eiga að tilheyra honum – og konurnar því líka. Hins vegar er erfitt að kveða á um ættarnöfn giftra kvenna. Reyndar eru engin tormerki á því, meðan konan varð að giftast einhverjum úr frændliði sínu og á 6. öld er réttur til útvenzla, gentis enuptio,[1] aðeins veittur í launaskyni sem persónuleg forréttindi.

[1] Réttur til að giftast út fyrir ættsveitina.

En hvar sem slík útvenzl hafa tíðkazt, hlýtur konan frá öndverðu að hafa gengið inn í ættflokk eiginmanns síns. Það er fullvíst, að með hinni fornu, trúarlegu hjónavígslu gengu konurnar inn í réttar- og trúarfélag það, er menn þeirra töldust til, en slitu tengslin við ættsveit sína á því sviði. Það er og kunnara en frá þurfi að segja, að gift kona missti erfðarétt sinn gagnvart ættsveitungunum, bæði að því er tók til hennar eigna og þeirra. Hins vegar stóð hún í erfðatengslum við mann sinn og börn hans og ættsveitunga. Réttarafstaða hennar til mannsins er eins og barna hans, hún telst til sömu fjölskyldunnar, og hvernig getur hún þá staðið utan ættarinnar?" (bls. 9–11).

Mommsen staðhæfir sem sé, að rómverskar konur hafi í öndverðu aðeins mátt taka sér maka úr þeirri ættsveit, sem þær töldust til sjálfar, rómverska ættsveitin sé innvenzluð, en ekki útvenzluð. Skoðun þessi er í fullkominni mótsögn við það, sem vitað er um aðrar þjóðir – og er aðallega, ef ekki einvörðungu, byggð á einni og mjög umdeildri málsgrein í Livíusi. Þar segir (39. bók 19. kap.), að öldungaráðið hafi gert þá samþykkt á 568. ári Rómaborgar, eða árið 186 f. Kr. „uti Feceniae Hispallae datio, deminutio, gentis enuptio, tutoris optio item esset quasi ei vir testamento dedisset; utique ei ingenuo nubere liceret, neu quid ei qui eam duxisset, ob id fraudi ignominiaeve esset," – sem sé, að Fecenia Hispalla skuli hafa rétt til að ráða yfir eignum sínum, eyða þeim, giftast út fyrir ættsveitina og kjósa sér fjárhaldsmann, svo sem eiginmaður hennar (látinn) hefði veitt rétt til þessa í erfðaskrá sinni. Hún skal og mega giftast frjálsum manni og tilvonandi maka hennar ekki metið slíkt hjónaband til afbrota eða vanvirðu.

Fecenia er leysingja, og það orkar ekki tvímælis, að með þessu er henni veittur réttur til að giftast út fyrir ættsveitina. Samkvæmt þessu hefur og eiginmaðurinn tvímælalaust rétt til þess að leyfa konu sinni í erfðaskránni að taka sér maka utan ættsveitarinnar að honum látnum. En utan hvaða ættsveitar?

Mommsen gerir ráð fyrir, að konan hafi orðið að giftast einhverjum ættsveitunga sinna. Ef það er rétt, þá var hún einnig í sömu ættsveitinni eftir giftinguna. Þess er þá fyrst að geta, að þessi innvenzl ættsveitanna eru einmitt það, sem sanna átti, og í annan stað er auðsætt, að hafi konan orðið að giftast innan ættsveitarinnar, þá hefur maðurinn orðið að gera það líka, því að ella gat hann enga konu fengið. Síðan veitir maðurinn konu sinni þann rétt í erfðaskránni, sem hann hafði ekki – né gat veitt sjálfum sér. Þetta leiðir okkur sem sé út í algera fjarstæðu í réttarlegu tilliti. Þetta finnur Mommsen líka, og því segir hann, „til að giftast út fyrir ættsveitina þurfti sennilega meira en sam-

þykki hæstráðanda, jákvæði allra ættsveitunga mun hafa orðið að koma til" (bls. 10 ath.). Þetta er í senn djörf tilgáta og í mótsögn við það, sem stendur skýrum stöfum í umræddri málsgrein. Þar veitir öldungaráðið konunni þennan rétt fyrir hönd mannsins, – og það er fullljóst, að það veitir henni hvorki meiri réttindi né minni heldur en eiginmaður hennar hefði getað gert. En þessi veiting er skilyrðislaus, réttindin ekki bundin neinum öðrum takmörkunum. Notfæri konan sér þessi réttindi, má það ekki verða tilvonandi eiginmanni hennar til baga. Ráðið felur meira að segja ræðismönnum þeim, sem eru eða verða við völd, að sjá svo um, að þetta verði henni á engan hátt til miska.

Það virðist því af þessu, að tilgáta Mommsens sé ótæk. En þá er sá möguleikinn, að konan hafi gifzt manni úr annarri ættsveit, en tilheyrt sjálf þeirri ættsveit, sem hún fæddist í. Hefur maðurinn þá samkvæmt fyrrnefndri málsgrein haft rétt til þess að leyfa henni að giftast út úr ættsveitinni. Hann ætti þá sem sé að hafa getað skipað fyrir um málefni ættsveitar, sem hann sjálfur taldist ekki til. Slíkt er svo fráleitt, að ekki þarf að eyða að því orðum.

Þá er sú tilgáta eftir, að konan hafi gifzt manni úr annarri ættsveit, er hún gekk fyrst í hjónaband, og þar með gengið í ættsveit mannsins, svo sem Mommsen viðurkennir, að gerzt hafi, er svo stóð á. Sé þessu svo farið, skýrist málið undir eins. Með giftingunni hefur konan sagt skilið við ættsveit sína og verið tekin upp í ættsveit mannsins, – og þar er staða hennar með sérstökum hætti. Hún telst að vísu ættsveitungur, en þó ekki til frændgarðsins. Upptaka hennar er með þeim hætti, að ekkert bann er lagt við því, að hún taki sér maka í ættsveitinni, enda hefur hún gifzt inn í hana. Hún tilheyrir enn fremur hjónastétt ættsveitarinnar og erfir af eignum manns síns að honum látnum, sem sé eigur eins af ættsveitungunum. Hvað er nú eðlilegra en að þessar eignir verði áfram í ættsveitinni og hún sé skyldug til að giftast einhverjum ættsveitungi manns síns eða engum ella? Eigi hins vegar að veita undanþágu, er þá annar valdbærari til að veita henni leyfi til þess en eiginmaður hennar, sem hefur arfleitt hana? Eignirnar tilheyra honum, hann arfleiðir hana að einhverjum hluta þeirra og leyfir henni að taka hann með sér, er hún giftist inn í aðra ættsveit. Hann er sem sé aðeins að ráðstafa sinni eigin eign. Um afstöðu konunnar til ættsveitar mannsins er það að segja, að hún er þangað komin fyrir hans tilverknað. Hann hefur tekið hana sér fyrir konu af frjálsum vilja. Það virðist því eðlilegt, að hann sé til þess kjörnastur að veita henni leyfi til að skilja við ættsveitina og giftast aftur. Málið virðist sem sé einfalt og auðskilið, ef við sleppum þessari furðulegu

hugmynd um innvenzl rómversku ættsveitanna, en teljum, að þær hafi upphaflega venzlazt út á við, svo sem Morgan gerir ráð fyrir.

Enn er ein tilgátan ótalin og á marga formælendur, líklega flesta. Hún er sú, að í málsgreininni felist aðeins það, að leysingjur, frelsingjakonur, „libertae" hafi ekki mátt „e gente enubere" (giftast út úr ættsveitinni) án sérstaks leyfis eða aðhafast neitt það, er varðaði „capitis deminutio minima"[1] og hafði í för með sér brottrekstur úr ættsveitinni. (Lange: Römische Altertümer, Berlin 1856 I. bls. 195. Vitnað er til Huschke, að því er tekur til áðurnefndrar málsgreinar í Líviusi). Sé þessi skoðun rétt, sannar málsgreinin ekkert um afstöðu fullfrjálsra rómverskra kvenna – og því síður um skyldu þeirra til að giftast innan sinnar eigin ættsveitar.

Orðasambandið enuptio gentis kemur aðeins fyrir á þessum eina stað í öllum rómverskum ritum. Sögnin enubere (að giftast út á við) kemur aðeins fyrir þrisvar sinnum, og er það einnig hjá Líviusi, og er þá ekki notuð í sambandi við ættsveitina. Hugsmíðarnar um það, að rómverskar konur hafi aðeins mátt giftast ættsveitungum sínum, eru raunar frá þessari einu málsgrein. En þær fá alls ekki staðizt. Er þar annað tveggja, að greinin lýtur að sérstökum takmörkunum í sambandi við leysingjur og sannar þá ekkert um afstöðu frjálsra (ingenuae) kvenna, eða hún tekur einnig til frjálsra kvenna og sannar þá helzt það, að konan hafi að jafnaði gifzt út úr ættsveit sinni og þá verið tekin upp í ættsveit manns síns. Hún er því sönnunargagn fyrir skoðun Morgans, en móti Mommsen.

Og þrem öldum eftir stofnun Rómaborgar[2] voru ættsveitatengslin enn þá svo sterk, að Fabiar, ein af ættsveitum patrisía, gat á eigin spýtur efnt til herferðar gegn grannríkinu Veji, að fengnu samþykki öldungaráðsins. Sagt er, að 306 Fabiar hafi lagt upp í herferðina, en þeim var gerð fyrirsát og þeir allir drepnir. Einn drengur átti að hafa orðið eftir heima, aukið kyn sitt og haldið þannig við ættsveitinni.

Svo sem áður er sagt, mynduðu tíu ættsveitir bræðralag, og nefndist það curia á máli Rómverja. Hafði hún með höndum ýmis opinber mál og öllu mikilvægari en bræðralögin grísku. Hver kúría hafði sínar sérstöku trúariðkanir, sérstaka presta og helgidóma. Allir prestar í hverri kúríu höfðu með sér prestafélag. Ættflokkurinn saman stóð af tíu kúríum, og má ætla að foringjar hans – herstjóri og æðsti prestur – hafi í öndverðu verið kosnir, svo sem var í öðrum latverskum ættflokkum. Ættflokk-

[1] Orðrétt: minnsta réttarskerðing. Missir erfðaréttar.
[2] Þ. e. á fimmtu öld f. Kr.

arnir þrír mynduðu svo til samans Rómalýð, eða populus Romanus, eins og það var kallað.

Þeir einir gátu talizt til Rómalýðs, er voru í einhverri af ættsveitum hans og þar með í einhverri kúríu og ættflokki. Stjórnarhögun var í upphafi sem hér segir. Öldungaráðið fór að mestu með opinber mál. Var það skipað foringjum ættsveitanna þrjú hundruð, sem Niebuhr benti fyrstur réttilega á. Þetta voru öldungar ættsveitanna, og því voru þeir nefndir feður, patres, og samkunda þeirra öldungaráð (lat. senatus, af senex = gamall). Það var venja að kjósa jafnan í það menn úr sömu fjölskyldum, og skapaðist við það vísir að aðli innan ættbálkanna, hér sem annars staðar. Fjölskyldur þessar nefndu sig patrisía og kröfðust þess að eiga sæti í öldungaráði og skipa öll önnur embætti. Lýðurinn sætti sig smám saman við þessar kröfur, og venjan varð að raunverulegum rétti. Arfsögnin túlkar það á þann hátt, að Rómúlus hafi veitt fyrstu öldungaráðsmönnum og afkomendum þeirra patrisíunum þessi forréttindi. Öldungaráðið hafði úrslitavaldið í mörgum málum, þar fóru og fram undirbúningsumræður um meiriháttar málefni, einkum nýmæli í löggjöf. Gegndi hér svipuðu máli og um gríska ráðið eða „búluna“. Ný lagafyrirmæli voru samþykkt endanlega á almenningsþingunum: comitia curiata (kúríusamkundunni). Þar kom lýðurinn saman, og var flokkaður eftir kúríum og hverri kúríu skipt eftir ættsveitum. Hver af kúríunum þrjátíu hafði eitt atkvæði, er skera skyldi úr um málin. Kúríuþingið samþykkti eða felldi öll lagafrumvörp og kaus alla æðri embættismenn, þar með talinn rex[1] (svonefndan konung). Það lýsti einnig yfir stríði, en öldungaráðið átti hins vegar að semja frið. Það hafði og æðsta úrskurðarvald í málum, er vörðuðu dauðadóm yfir rómverskum borgurum, – og gátu aðilar skotið máli sínu til þess. Auk öldungaráðsins og almenningsþingsins var svo rexinn (konungurinn), hann svarar nákvæmlega til basileusins gríska, og fer því víðsfjarri, að hann sé nokkur einvaldskonungur, svo lýsir Mommsen honum. Hann var einnig herstjóri og æðsti prestur og dómsforseti í sérstökum málum. Hann hafði ekkert vald yfir réttindum borgaranna, lífi þeirra,

[1] Rex á latínu svarar til keltnesk-írska orðsins righ (ættbálksforingi) og reiks með Gotum. Orðið táknaði upphaflega foringja ættflokks eða ættsveitar eins og t. d. þýzka orðið Fürst (þ. e. sama og e. first, d. første – hinn fyrsti). Er það ljóst af því, að Gotar höfðu þegar á 4. öld sérstakt orð um yfirherforingja þjóðarinnar og nefndu hann þiudans. Í biblíuþýðingu Ulfilas eru þeir Heródes og Artaxerxes aldrei kallaðir reiks, heldur þiudans, og ríki Tiberíusar keisara er ekki nefnt ríki, heldur þiudinassus. Bæði þessi heiti renna saman í nafni Þiudareiks, Theodorich (þ. e. Dietrichs) Gotaþjóðans, eða konungs eins og vér köllum það í ónákvæmri þýðingu. (F. E.).

frelsi eða eignum, nema það, sem leiddi af herforingjatign hans eða dómsvaldi hans sem réttarforseta. Embætti rexins gekk ekki að erfðum. Hann var kosinn á almenningsþingum, – líklega þó eftir ábendingu fyrirrennarans –, og síðan settur hátíðlega í embættið. Það var hægt að víkja honum úr stöðunni, svo sem örlög Tarquiniusar Superbusar[1] bera með sér.

Á tímabili hinna svonefndu konunga bjuggu Rómverjar við hernaðarlegt lýðræði líkt og Grikkir hetjualdarinnar. En það grundvallast á ættsveitum, bræðralögum og ættflokkum og hafði reyndar vaxið upp af þeirri skipan. Vera má, að kúríurnar og ættflokkarnir hafi að einhverju leyti verið gervismíð, en voru þó sniðin eftir ósviknum, upphaflegum fyrirmyndum. Sjálf höfðu þau vaxið upp af slíkri félagsskipan, og hún var enn í fullu fjöri alls staðar umhverfis. Sjálfsprottinn ættfeðraaðall hafði reyndar aukizt að völdum, og konungarnir (reges) höfðu smám saman reynt að efla forréttindi sín, en þetta breytir engu um upprunalegt eðli og inntak stjórnarfarsins og það er það, sem máli skiptir.

En íbúum Rómaborgar fjölgaði og fólksfjöldinn á yfirráðasvæðum Rómverja jókst, enda höfðu þeir fært út kvíarnar. Þessi aukning stafaði að nokkru frá innflutningi fólks og að nokkru leyti frá íbúum hinna sigruðu landsvæða, sem flest voru latversk. Allir þessir nýju þegnar voru utan við gömlu ættsveitirnar, kúríurnar og ættflokkana, og voru því ekki hluti af populus Romanus, hinni eiginlegu rómversku þjóð. (Vér sleppum hér að ræða um stöðu skjólstæðinganna eða klientanna.) Þeir voru að vísu frjálsir menn, máttu eiga lóðir og lendur og urðu að greiða skatta og gegna herþjónustu. En þeir máttu ekki gegna neinu embætti og fengu hvorki að taka þátt í kúríusamkundunni né skiptingu hinna unnu landsvæða. Þeir voru plebs eða alþýða og höfðu engin opinber embætti. En þeim fjölgaði óðum, þeir höfðu fengið hernaðarlega þjálfun og áttu vopn. Þeir ógnuðu æ meir valdi hins forna Rómalýðs (populus), sem var einangraður og fékk enga aukningu utan frá. Þar við bættist, að jarðeignir skiptust nokkuð jafnt milli populus og plebs, að því er virðist, en auður í verzlun og iðnaði aðallega í höndum plebeja, og var reyndar ekki mjög mikill enn sem komið var.

Elzta saga Rómaborgar er með fullkomnum þjóðsögubrag og myrkri hulin. Og það myrkur hefur aukizt fyrir tilverknað síðari höfunda heimildarrita, sem voru menn löglærðir og sömdu skýringar sínar og frásagnir út frá þröngum rökfræði- og skynsemisstefnu sjónarmiðum. Það er því með öllu ókleift að segja nokkuð með vissu um þá byltingu, er reið hinu forna ættsveita-

[1] Sögnum samkvæmt síðasti konungur í Róm (534–510 f. Kr.) og var rekinn þaðan burtu árið 510 f. Kr.

skipulagi að fullu, hvorki um það, hvenær og hvernig hún gerðist, né heldur um átylluna. Það eitt er víst, að það var baráttan milli plebs og populus, sem var undirrótin.

Nýja stjórnarskráin var kennd við Servius Tullius rex (konung) og studdist við gríska fyrirmynd, sem sé stjórnarbót Sólons. Nýtt almenningsþing var nú upp tekið – og ekki gerður þar neinn munur á populus og plebejum. Þingréttindi fóru þar eftir því einu, hvort viðkomandi gegndi herþjónustu. Þeir, sem ekki gerðu það, voru útilokaðir. Öllum vopnfærum mönnum var skipt í sex flokka eftir eignum. Lágmarkseign í hverjum fyrstu fimm flokkanna var sem hér segir: Í I. fl. 100.000 as., II. 75.000, III. 50.000, IV. 25.000 og V. 11.000 as. Samkvæmt útreikningi Dureau de la Malle svarar þetta til ca. 14.000, 10.500, 7.000, 3.600 og 1570 þýzkra marka. Í sjötta flokki voru þeir, sem minna áttu, *próletararnir,* og voru þeir skattfrjálsir og óskyldir til herþjónustu.

Á hinum nýju almenningsþingum, – comitia centuriata – skipuðu borgararnir sér á hernaðarvísu hver í sinn hóp í sinni hundraðssveit (hundrað manna sveit), og hafði hver hundraðssveit eitt atkvæði. En fyrsti flokkur lagði til 80 hundraðssveitir, annar 22, þriðji 20, fjórði 22 og fimmti 30 – og sá sjötti eina svona fyrir siðasakir. Þar að auki var svo riddaraliðið, sem skipað var hinum auðugustu mönnum og hafði 18 hundraðssveitir. Eru þær þá alls 193 og 97 meiri hluti atkvæða. Riddararnir og fyrsti flokkur réðu til samans yfir 98 atkv., eða meiri hluta. Væru þeir sammála, voru hinir alls ekki spurðir; samþykkt þeirra var fullgild.

Þessar samkundur hundraðssveitanna tóku í arf hin pólitísku réttindi kúríuþinganna, nema þau, sem voru nafnið eitt. Það fór því hér, líkt og í Aþenu, að kúríurnar og þær ættsveitir, sem í þeim voru, lækkuðu í tigninni og urðu að einka- og trúarfélögum og hjörðu þannig enn um langa hríð. Kúríuþingin lognuðust hins vegar bráðlega út af. Nú þurfti einnig að bola fornu ættflokkunum þremur út úr ríkiskerfinu og var íbúunum því skipt í fjóra staðflokka eða fylki, eftir hinum fjórum borgarhlutum, – og höfðu þeir ákveðin pólitísk réttindi.

Hin forna félagsskipun, sem reist var á persónulegum frændtengslum, hafði því verið rofin í Róm, áður en hið svonefnda konungdæmi var afnumið. Raunveruleg ríkisskipan byggð á landsvæðaskiptingu og eignamismun var komin í staðinn. Hið opinbera vald saman stóð af herskyldum borgurum – og reis þar öndvert bæði þrælunum sem og próletörunum svonefndu, er útilokaðir voru frá herskyldu og vopnaburði.

Þessi nýja stjórnarhögun þróaðist og tók á sig skýrari mynd. Tarquiníus Superbus, hinn síðasti rex, sem reyndi að hrifsa til

sín fullkomið konungsvald, var hrakinn frá ríkjum. Tveir herstjórar (konsúlar, ræðismenn) komu í stað rexins, og höfðu þeir jöfn völd báðir (eins og hjá Irókesum). Þessir stjórnarhættir eru umgjörðin um alla sögu rómverska lýðveldisins. Innan hennar berjast patrisíar og plebejar um embættisréttindi og skiptingu ríkisjarða og patrisía-aðallinn forni rennur saman við hina nýju og auðugu jarðeigna- og peningastétt. Þessi stétt gleypti smám saman allar landareignir bænda, sem voru orðnir örbjarga menn af sífelldri herþjónustu. Síðan notaði hún þræla til að erja þessar stórjarðir. Hún eyddi Ítalíu að fólki og ruddi brautina fyrir keisaradæmið – og ekki eingöngu það, heldur og eftirmenn þess, hina hálfsiðuðu þjóðflokka Germana.

## VII.

## Ættsveitir með Keltum og Þjóðverjum

Rúmsins vegna er ekki hægt að ræða hér um ættsveitaskipan ýmissa nútíma þjóðflokka, villtra og hálfsiðaðra, þar sem þessir félagshættir haldast enn meira eða minna breyttir. Ekki er heldur unnt að rekja hér minjar þær, sem hún hefur skilið eftir sig í fornsögu menningarþjóðanna í Asíu. En leifar ættsveitaskipulagsins er hvarvetna að finna. Hér skulu aðeins nefnd fáein dæmi. MacLennan, maðurinn, sem mest far gerði sér um að misskilja þetta fyrirbæri, hefur sjálfur uppgötvað ættsveitaskipanina með Kalmúkum, Tsjerkesum og Samojedum – og þremur indverskum þjóðflokkum: Warölum, Magörum og Munnipurum, og hann hefur lýst henni alveg rétt. Og þetta gerði hann, áður en menn höfðu yfirleitt uppgötvað ættsveitaskipulagið. M. Kovalevsky hefur einnig nýlega uppgötvað ættsveitaskipan hjá Psjövum, Sjevsurum, Svanetum og öðrum káköskum þjóðflokkum og lýst henni. Hér verður aðeins stuttlega drepið á ættsveitir með Keltum og Germönum.

Elztu lög keltnesk, sem varðveitzt hafa, sýna, að ættsveitirnar eru þá enn í fullu fjöri. Og í Írlandi lifir ættsveitaskipunin enn – að minnsta kosti í eðlisávísun og vitund fólksins, enda þótt Englendingar hafi sundrað henni með valdi. Hún var enn í góðu gengi í Skotlandi um miðja síðustu öld. Og það var eins þar, hún varð aðeins sigruð með vopnavaldi, löggjöf og dómstólum Englendinga.

Velsku lögin fornu voru skrásett, mörgum öldum áður en Englendingar lögðu landið undir sig – og í síðasta lagi á elleftu öld. Af þeim má sjá, að heil þorp hafa ræktað akra sína í samein-

ingu, enda þótt slíkt sé þá ekki algengt, heldur undantekning og leifar af fornri hefð. Hver fjölskylda hafði 5 ekrur, sem hún erjaði sjálf, en auk þess voru svo landspildur, sem menn yrktu í sameiningu og skiptu svo afrakstrinum á milli sín. Það orkar ekki tvímælis, að þessi þorpsfélög eru ættsveitir eða undirdeildir úr þeim. Hliðstæðurnar frá Írlandi og Skotlandi benda ótvírætt til þess. – Og á það eins við, þótt ekki sé hægt að sanna það beint með nýrri athugun á velskum lögum, en til þess hefi ég ekki tíma sem stendur (Útdráttur minn er frá því 1869). Velskar heimildir sanna það hins vegar beinlínis, og reyndar írskar líka, að á elleftu öld hafði einkvænið enn þá ekki útrýmt parahjúskapnum með Keltum. Í Wales gátu makar riftað eða sagt upp hjónabandi, unz þau höfðu búið saman í sjö ár. Þótt ekki vantaði nema þrjár nætur upp á sjö ár, gátu hjónin skilið. Þá var eignunum skipt; konan skipti, og maðurinn kaus sinn hlut fyrr. Húsgögnunum var skipt eftir ákveðnum og einkar skoplegum reglum. Ef það var karlmaðurinn, sem sleit hjúskapnum, varð hann að skila konunni heimanmundi hennar og ýmsu öðru. Ef það var konan, fékk hún rýrari hlut úr skiptunum. Eiginmaðurinn tók tvö af börnunum, konan eitt, það næst elzta – þannig voru hlutföllin. Ef konan tók saman við annan mann eftir skilnaðinn, og fyrri maður hennar kom og sótti hana, þá varð hún að fylgja honum, og eins þótt hún væri svo til komin í nýju hjónasængina. En ef þau höfðu búið saman í sjö ár, töldust þau vera hjón og eins þótt ekkert formlegt brullaup hefði farið fram. Eftirlitið með skírlífi ógiftra kvenna var ekki strangt og ekki gerðar harðar kröfur í þeim efnum. Ákvæðin, sem að því lúta, eru harla léttúðarkennd og fjarri því að samræmast borgaralegum siðferðiskenningum. Væri konan manni sínum ótrú, mátti hann berja hana. (Var það eitt þeirra þriggja tilfella, þar sem hann mátti beita hana líkamlegri refsingu. Færi hann út af strikinu í þeim efnum, var honum sjálfum hegnt). En hefði hann refsað henni á þennan hátt, gat hann heldur ekki krafizt annarrar uppreisnar, því að „fyrir sama afbrot verður annaðhvort að koma hefnd eða bætur, en ekki hvort tveggja í senn". Konan gat fært fram margvíslegar ástæður fyrir kröfu sinni um skilnað, án þess að það rýrði að nokkru rétt hennar til tilskilins hluta skiptafjárins. Það var nóg, að eiginmaðurinn væri andfúll. Lausnargjaldið, sem greiða skyldi klan-höfðingjanum eða konungnum fyrir fyrstu-nætur-réttinn, er mikilvægt atriði í lögbókinni. (Réttur hinnar fyrstu nætur heitir þar gobr merch, og af því er dregið miðaldaorðið marcheta, frönsku marquette). Konur höfðu atkvæðisrétt á almenningsþingum. Það má bæta því við, að í Írlandi er málum eins farið. Hjónabönd bundin við ákveðið árabil

voru þar algeng, og konan naut mikilla og reglubundinna hlunninda, ef til skilnaðar kom; hún átti jafnvel tilkall til endurgreiðslu fyrir unnin hússtörf. Þar þekktist það líka, að menn ættu „aðalkonu" og hjákonur, og var enginn munur gjörður á skilgetnum börnum og óskilgetnum, er til arfskipta kom. Hér er um að ræða parahjúskap og það með slíku sniði, að hjúskaparhættir norður-amerískra rauðskinna virðast strangir samanborið við þá. En það er ekkert undrunarefni, þótt þjóð, sem lifði í fjölhjúskap á tímum Cæsars, hagaði þannig hjúskap sínum á 11. öld.

Fornar lögbækur eru ekki einu heimildirnar um írsku ættsveitirnar, heldur hafa og enskir lögfræðingar sannað tilvist þeirra og lýst þeim. Lögfræðingar þessir voru sendir til Írlands á 17. öld til að leggja hinar fornu lendur klananna undir ensku krúnuna. (Ættsveit heitir á írsku sept, en clainne, clan er ættbálkur). Jörðin hafði allt til þess tíma haldizt í sameign ættbálksins (clan) eða ættsveitanna, að svo miklu leyti sem höfðingjarnir höfðu ekki slegið á hana eign sinni. Ef ættsveitungur dó og fækkaði þannig um eitt „bú", skipti forstöðumaðurinn, (sem ensku lögfræðingarnir kölluðu caput cognationis), öllu landinu upp á ný milli hinna „búanna". Hlýtur það yfirleitt að hafa farið fram eftir sömu reglum og giltu í Þýzkalandi. Ennþá eru til nokkrir þorpsakrar með svonefndri Rundale-skipan, og fyrir fjörutíu til fimmtíu árum voru þeir margir. Bændurnir voru nú hver um sig leiguliðar á því landi, sem eitt sinn var sameign ættsveitarinnar, en sigurvegararnir ensku höfðu hrifsað undir sig. Hver bóndi borgaði leigu fyrir sinn skika. En svo skelltu þeir saman öllum pörtunum, bæði akurlendi og engjum, og skiptu landinu eftir legu og gæðum í teiga eða „Gewann", eins og það heitir við Moselfljót. Síðan fékk hver sinn reit í hverju Gewann, en heiðalönd og bithagar voru notuð í sameiningu. Fyrir hálfri öld tíðkaðist það enn, að öðru hvoru væri skipt upp á ný, stundum jafnvel árlega. Uppdráttur af akurreitum eins slíks Rundalesþorps líktist í öllu þýzku „Gehöferschaft" (býlahverfi) við Mosel eða í Mittelwald. Ættsveitin lifir einnig áfram í „faction"-unum svonefndu. Írskir bændur greinast oft í flokka („factions"), og eru greiningarmörkin að því er virðist fráleit eða meiningarlaus og Englendingunum óskiljanleg með öllu. Mætti svo virðast, að markmiðið væri það eitt að styðja að hinum tíðu erjum milli flokkanna. En þessir flokkar eru gervi-uppvakningar, síðar til komin uppbót fyrir hinar sundruðu ættsveitir. Það eru arfteknar hugðir frá ættsveitaskipulaginu, sem segja þarna til sín. Annars er það víða svo, að fornir ættsveitungar búa enn á sama svæði og áður. Má nefna það til dæmis, að á fjórða tug aldarinnar tíðkuðust aðeins fjögur ættarnöfn hjá meginþorranum af íbúum

Monaghan-greifadæmis. Þeir röktu sem sé kyn sitt til fjögurra ættsveita eða „klana“.[1]

Skozka ættsveitaskipulagið líður undir lok árið 1745, þegar uppreisnin er barin niður. Það er enn ekki að fullu rannsakað, hvaða hlutverki skozki klaninn sérstaklega gegndi í því skipulagi. Hitt er engum efa orpið, að hann var liður í ættsveitaskipaninni. Við sjáum háskozka klaninn ljóslifandi fyrir okkur í skáldsögum Walter Scotts. Morgan kveður svo að orði, að hann sé „ágætis sýnishorn af ættsveitinni, bæði að því er tekur til skipulags og hugarfars. Hann sé órækt dæmi þess, hvernig ættsveitungarnir láti stjórnast af kröfum og venjum ættsveitanna ... Við rekumst hér á sígild einkenni ættsveitaskipulagsins í skærum þeirra og blóðhefndum, landsvæðaskiptingu eftir klönum, samyrkju á landi og í tryggð þeirri, er klanfélagarnir sýna höfðingjum sínum ... Ættir voru raktar í karllegg, svo að börn karla dvöldust áfram í klaninum, en börn kvenna úr sama klan heyrðu til klan eiginmanna þeirra“. Hitt er aftur á móti sannað, að Skotar bjuggu áður fyrr við móðurrétt, og nægir þar að geta þess, að Beda segir frá því, að konungsætt Pikta[2] hafi rakið kyn sitt í kvenlegg. Jafnvel leifar púnalúafjölskyldunnar höfðu haldizt fram á miðaldir, bæði með Skotum og Walesbúum. Þær héldust þar sem „réttur hinnar fyrstu nætur“, og var klanhöfðingja eða kóngi heimilt að nota sér hann við hvert brullaup, ef viðkomandi hafði ekki keypt sig undan því. Þeir voru hér síðustu fulltrúar hins forna félagshjúskapar eiginmannanna.

Ekki leikur efi á því, að Þjóðverjar bjuggu við ættsveitaskipan

---

[1] *Við fjórðu útg.* Það varð aftur ljóslifandi fyrir mér, hversu mjög írskt bændafólk lifir enn í hugarheimi ættaþjóðfélagsins, er ég dvaldi um nokkurra daga skeið í Írlandi. Bóndinn er leiguliði stórjarðeigandans, en hann lítur enn á hann sem eins konar ættsveitarhöfðingja, er ráðstafi jarðnæðinu öllum í hag, bóndinn greiði honum tillag sitt í leiguformi, en eigi kröfu á aðstoð hans, ef í nauðir rekur. Það er sömuleiðis almenn skoðun, að hver efnamaður sé skyldugur að hjálpa fátækari grönnum sínum, ef þeir verða örbjarga. Ekki er litið á slíka hjálp sem ölmusu, heldur eigi fátæklingarnir réttmæta kröfu til hennar af hálfu ríkari ættsveitunga (klan-félaga) eða ættflokkshöfðingja. Maður skilur það nú betur, er hagfræðingar og lögfræðingar eru að barma sér yfir því, að ókleift sé að gera írskum bændum skiljanlegt hugtak borgaralegs eignarréttar. Írarnir geta sem sé ekki komið því inn í kollinn á sér, að eign fylgi eingöngu réttindi, en engar skyldur. Hitt er og auðskilið, að Írar, sem ganga með svona barnalegar ættsveitahugmyndir, verði allringlaðir, er þeir skipta skyndilega um bústað og setjast að í brezkum eða amerískum stórborgum. Þar hefur fólk allt aðrar réttar- og siðferðishugmyndir, og Írunum hættir þá við að ruglast alveg í ríminu í þeim efnum, þeir missa þá oft alla kjölfestu og margir þeirra siðspillast með öllu. (F. E.).

[2] Piktar og Skotar, keltneskir þjóðflokkar í Skotlandi. Ýmsir telja þó Pikta til frumbyggja landsins. – *Þýð.*

allt fram undir þjóðflutningatímann. Þeir geta ekki hafa setzt að á landsvæði því, er markast af Rín, Dóná og Vislu og höfunum að norðan, fyrr en nokkrum öldum fyrir Krists burð. Kimbrar og Tevtónar voru þá enn á flakki, og Svevar tóku ekki upp fasta búsetu fyrr en á dögum Cæsars. Cæsar tekur það skýrt fram um þá, að þeir hafi skipað sér eftir ættsveitum og skyldleika (gentibus cognationibusque), er þeir tóku sér bólfestu. Og þegar Rómverji af ættsveitinni Julia kveður svo að orði, þá hafa ummæli hans ákveðna merkingu, sem ekki er hægt að vísa á bug. Þetta sama átti við um alla Þjóðverja. Svo virðist m. a. s. sem þeir hafi skipað sér eftir ættsveitum, er þeir settust að í skattlöndunum rómversku, sem þeir höfðu lagt undir sig. Þjóðarréttur Alamanna ber það með sér, að þeir hafa hagað búsetu sinni eftir ættsveitum (genealogiae), er þeir settust að á hinu unna landsvæði sunnan Dónár. Genealogia er notað þar í alveg sams konar merkingu og merkurneyti og þorpsfélög síðar meir. Kovalevsky hefur nýlega sett fram þá skoðun, að genealogiae samsvari hér stórum húsneytum, og hafi landinu verið skipt upp á milli þeirra og þau svo síðar breytzt í þorpsfélög. Sama máli gegnir líklega um *„fara"*, en það orð notuðu Burgundar og Langbarðar í svipaðri merkingu og orðið genealogia hefur í alamönnskum lögum. En hér er annars vegar um gotneskan (þ. e. austurgermanskan, *þýð.)* og hins vegar um herminskan eða háþýzkan þjóðflokk að ræða. Hitt þarf að rannsaka nánar, hvort hér er átt við húsneyti eða ættsveit.

Ekki verður úr því skorið eftir málheimildum, hvort Þjóðverjar hafi átt sér sameiginlegt heiti á ættsveitinni eða hvert það hafi verið. Gotneska orðið kuni og miðháþýzka künne svara að vísu að uppruna til latínu gens og grísku genos – og künne notað í sömu merkingu. Orðið kona, grísku kyne, slavnesku zena, gotnesku qvino er komið af sömu rót[1] og bendir aftur til þess tíma, er þessar þjóðir bjuggu við mæðra- eða kvensiftarrétt. Orðið „fara" kemur, sem fyrr segir, fyrir hjá Burgundum og Langbörðum, og dregur Grimm það af sögn. fisan, hugsaðri orðmynd, sem merkir að geta eða ala. Mér sýnist girnilegra og nærtækara að draga það af sögninni faran = fara, ferðast; og hafi það táknað hóp samferðamanna, er héldu saman á þessum ferðalögum þjóðflokkanna og að sjálfsögðu skipað frændum. Síðan hefur þetta heiti smám saman festst við frændliðið sjálft

[1] Á tímum Engels þótti þessi orðskýring eðlileg, með því að menn höfðu þá óljósar hugmyndir um gómhljóðaflokkana í indógermönskum málum (k, k', $k^w$ o. s. frv.). Síðari tíma málfræðingar myndu flestir telja, að skýringin gæti eigi staðizt af hljóðfræðilegum ástæðum. Þó getur hugsazt, að Engels hafi á réttu að standa og nýrri málfræðikenningar um þessi atriði (t. d. kenning Reichelts og laryngal-kenningin) gætu stutt það. – *Þýð.*

á aldalöngu ferðalagi þjóðflokkanna fyrst í austur og svo vestur á bóginn. Þá er gotneska orðið sibja, engilsaxnesku sib, forn-háþýzku sippia, sippa ætt eða fjölskylda. Í norrænu kemur orðið aðeins fyrir í fleirtölu sifjar = skyldmenni. Eintalan sif kemur ekki fyrir nema sem gyðjuheiti. Loks kemur svo fyrir eitt heitið enn í Hildibrandskvæði. Hildibrandur spyr Höðbrand að því, hver sé faðir hans, eða hverrar ættar hann sé („eddo huêlihhes cnuosles du sîs“). Ef samþýzkt heiti á ættsveitinni hefur verið til, mundi það helzt svara til gotnesku kuni. Með því mælir, að það á sér nákvæma samsvörun í skyldum málum, og ekki síður hitt að af því er myndað orðið kuning, konungur, sem merkir upphaflega ættsveitar- eða ættflokksforingja.[1] Orðið sibja, sippe, virðist ekki koma þarna til greina, að minnsta kosti merkir norræna orðið sifjar ekki eingöngu frændsemi heldur og mægðir. Það spannar því yfir meðlimi tveggja ættsveita að minnsta kosti, – og sif hefur því ekki getað verið heiti á ættsveitinni.

Þjóðverjar fylktu liði til orustu eftir frænd- og ættflokkum, og átti það jafnt við um riddarasveitirnar og fleygfylkingar fótgönguliðsins. Þeir fylgdu í þessu sömu venju og Grikkir og Mexíkóbúar. Tacitus kemst svo að orði, að þeir hafi skipað sér eftir fjölskyldum og frændsemi, og á þessi ónákvæma orðun hans rót sína í því, að rómverska ættsveitin var þá löngu útdauð sem lifandi stofnun.

Á einum stað hjá Tacitusi segir svo: „Móðurbróðirinn lítur á systurson sinn sem sinn eigin son. Sumir telja jafnvel, að blóðtengslin milli móðurbróður og systursonar séu helgari og nánari en milli föður og sonar, því er það, að talin er meiri trygging í systursyni, en syni, er gísla er krafizt“. Hér er um óræka sönnun að ræða. Hér höfum við ljóslifandi dæmi um ættsveit skipulagða samkvæmt móðurrétti, – sem sé hina upprunalegu ættsveit – og það talið auðkenna Þjóðverja sérstaklega.[2] Ef

---

[1] Ýmis fleiri norræn eða germönsk heiti á konungum benda í sömu átt, svo sem gotn. *kindins* = konungur, skylt norr. kind = ætt, norr. *sjóli*, sk. sifjar, *fylkir* af fólk, *ljóði*, sk. lýður o. s. frv. – Svo eru og önnur orð, er meira lúta að herstjórnarhlutverki konungsins, svo sem dróttinn dregið af drótt = hirð, tyggi (= leiðtogi í hernaði) sbr. dux, og hertogi o. fl.

Gotn. *reiks*, ísl. *ríkur*, er upphaflega tökuorð í germönsku og komið frá Keltum, en á blómaskeiði sínu miðluðu Keltar Germönum ýmsum orðum, sem einkum lutu að málmvinnslu, stjórnar- og réttarfari (t. d. járn, ríki, embætti, ambátt o. fl. ).

Gizkað hefur verið á (von Friesen), að orðið konungur væri leitt af kona, hafi konungdæmið verið „sakralt“ (þ. e. einsk. blótkonungdæmi) og kvenleggur ráðið. Aðrir hafa og talið, að orðmyndir eins og drottning (og kerling) bentu í svipaða átt. En hvorttveggja er harla ólíklegt. – *Þýð.*

[2] Þessi nánu tengsl milli móðurbróður og systursonar stafa frá tímabili móðurréttarins og eru algeng með ýmsum þjóðum. En Grikkir þekkja

einhver í slíkri ættsveit setti son sinn að veði fyrir efnd á loforði og sonurinn yrði svo að gjalda fyrir vanefndir föður síns, – varð faðirinn einn að ráða fram úr því máli. Væri það hins vegar systursonurinn, er þannig var fórnað, var það brot gegn helgum rétti ættsveitanna. Nánasti ættsveitungur hans átti þá sök á dauða hans, og bar honum þó öllum öðrum fremur að vernda drenginn. Hann varð því annaðhvort að gera, að láta hann ekki sem gísl, eða halda gefin loforð. Þessi eina klausa hjá Tacitusi væri fullgild sönnun fyrir ættsveitaskipulagi með Þjóðverjum, enda þótt við fyndum engar aðrar minjar þess.

Önnur heimild er þó enn veigameiri í þessu sambandi, með því að hún er líka átta öldum yngri. En það er Völuspá, hið fornnorræna kvæði um endalok guðanna og heimsslit. Bugge og Bang hafa nú sýnt fram á, að kvæðið hefur orðið fyrir kristnum áhrifum, en í þessari „sýn spákonunnar" er lýst svo almennri úrkynjun og spillingu aðfaratímabils heimsslitanna:

Bræðr munu berjask ok at bönum verðask,
munu systrungar sifjum spilla.

„Bræður munu berjast – og vega hverjir aðra, og systurbörn spilla ættum". Systrungur merkir sonur móðursysturinnar. Og skáldinu þykir sá glæpur enn verri en bróðurmorð, ef þeir afneita frændsemi sinni. Þessi stígandi felst í orðinu systrungar, þar sem áherzla er lögð á skyldleika í kvenlegg. Ef þarna stæði systkinabörn eða systkinasynir í stað systrunga, væri engin stígandi í síðari vísuorðunum, heldur fallandi. Af þessu má ráða, að minningin um móðurréttinn var ekki með öllu slokknuð með Norðurlandabúum á víkingaöld, þegar Völuspá varð til.

Annars hafði móðurrétturinn þokað fyrir föðurrétti á dögum Tacitusar, a. m. k. með þeim þjóðflokkum þýzkum, er við vitum nokkur veruleg deili á. Börn tóku arf eftir föður sinn, en væru engin börnin, gekk arfurinn til bræðranna og föður- og móðurbræðra. Heimild móðurbróðurins til arfsins stendur að sjálfsögðu í sambandi við viðhald siðar þess, er fyrr getur, og

ekkert til þeirra nema í goðsögnum hetjualdarinnar. Diodor (IV. 34) segir frá því, að Meleager drepur syni Þestiusar, en þeir eru bræður Altæu, móður hans. Hún lítur á þennan verknað sem óafmáanlegan glæp, formælir syni sínum og óskar honum dauða. „Guðirnir heyrðu", að því er sagt er, „bæn hennar og sviptu Meleager lífinu". Sá hinn sami Diodor skýrir frá því, að Argonautar hafi tekið land í Þrakíu undir forustu Heraklesar, og rekizt þeir þar á Fineus, sem misþyrmi sonum sínum tveimur á hörmulegasta hátt – og hafi hin nýja eiginkona hans hvatt hann til þess. En Fineus hafði átt þessa syni með Kleopötru, fyrri konu sinni, er hann hafði rekið frá sér, en hún var af kyni Boreada. En meðal Argonauta eru líka Boreadar, bræður Kleopötru og móðurbræður fórnarlambanna. Þeir taka þegar að sér mál systursona sinna, leysa þá og drepa verðina. (F. E.).

sannar einnig, hve nýtilkominn föðurrétturinn hefur þá verið með Þjóðverjum. Minjar um móðurréttinn haldast líka allt fram á miðaldir. Svo virðist og sem menn hafi treyst varlega á faðernið, einkum hjá ánauðugum bændum. Í Augsburg, Basel og Kaiserslautern var þess t. d. krafizt, ef lénsherrann heimtaði aftur einhvern ánauðarbónda, er þangað hafði leitað, að sex nánustu ættingjar hins ákærða ynnu eið að því, að hann væri ánauðugur – og skyldu það vera móðurfrændur einir (Maurer: Städteverfassung I. bls. 381).

Önnur leif hins hverfandi móðurréttar er virðing sú, er Þjóðverjar auðsýndu kvenþjóðinni – og var Rómverjum næsta óskiljanleg. Meyjar af göfugum ættum töldust hinir mikilsverðustu gíslar við alla samninga með Þjóðverjum. Hugsunin um það, að konur þeirra og dætur verði teknar til fanga eða hnepptar í ánauð, er þeim óbærileg, og það hvetur þá öllu öðru fremur til hugrekkis í orrustum. Þeir líta einnig svo á, að konurnar búi yfir einhverri helgi og spádómsgáfu og hlýða því á ráð þeirra, einnig er mikið liggur við. Þannig var Veleda, brukteriska[1] völvan við Lippefljót, aðalaflvakinn í uppreist Batava. Hafði Civilis[2] þar forustu fyrir Belgum og Þjóðverjum og ógnaði öllum yfirráðum Rómverja í Gallíu. Konan virðist hafa verið einráð innanhúss. Hún verður reyndar að sjá um allan búskapinn með aðstoð barnanna og eldra fólksins, en eiginmaðurinn stundar veiðar, drekkur eða slæpist. Svo segist Tacitusi frá. En hann skýrir ekki frá því, hverjir hafi erjað akurinn, en tekur hins vegar skýrt fram, að þrælarnir hafi goldið afgjöld, en ekki unnið kvaðavinnu; og má því ætla, að karlmennirnir, sem voru margir, hafi unnið þau litlu störf, er jarðyrkjan krafðist.

Svo sem fyrr var greint, bjuggu Þjóðverjar við parahjúskap, er mjög nálgaðist einkvæni. Þó var ekki um strengilegt einkvæni að ræða, með því að höfðingjum leyfðist að eiga margar konur. Yfirleitt var stranglega vakað yfir skírlífi meyjanna (öfugt við það, sem tíðkaðist með Keltum), og Tacitus ræðir af einstakri hlýju um hin órjúfanlegu hjúskapartengsl með Þjóðverjum. Hann nefnir þá eina ástæðu til skilnaðar, að kona sé manni sínum ótrú. En frásögn hans í þessu efni er ærið gloppótt og ber það með sér, að hann er að bregða upp eins konar dyggðafordæmi fyrir hinum lauslátu Rómverjum. Svo mikið er víst, að hafi Þjóðverjarnir í skógarbyggðum sínum verið þvílíkar siðgæðishetjur, hefur ekki þurft nema örlitla snertingu við umheiminn til að draga þá niður á sama stig og aðra Evrópubúa yfirleitt. Og í hinum rómverska heimi hurfu síðustu leifar þessa siðastrangleiks,

[1] Brukterar voru germanskur þjóðflokkur, sem bjó við Lippe.
[2] Julius Civilis, foringi í uppreisn Batava o. fl. gegn Rómaveldi árið 68 e. Kr.

jafnvel fljótar miklu en þýzk tunga. Þar nægir að glugga í Gregor frá Tours. Hitt liggur í augum uppi, að jafnmargþætt og þaulræktuð nautnasýki og í Róm, gat ekki þrifizt í „frumskógunum“ þýzku. Þjóðverjar höfðu líka nóga kosti umfram íbúa Rómaveldis, svo það er þarfleysa að vera að eigna þeim slíka bindindissemi í holdlegum efnum, sem aldrei hefur þekkzt með neinni heilli þjóð.

Frá ættsveitaskipulaginu er einnig runnin sú skylda sonarins að taka í erfð óvini föður síns eða frænda og jafnframt vini þeirra. Sama er að segja um manngjöldin, sem koma í stað blóðhefnda fyrir mannvíg eða áverka. Fyrir einum mannsaldri var litið svo á, að manngjöldin væru sérþýzkt fyrirbæri, en síðan hefur sannazt, að manngjöld tíðkast með hundruðum þjóða sem mildara form blóðhefndanna, er teknar voru að erfðum frá ættarþjóðfélaginu. Bæði manngjöld og gestrisniskylda tíðkast t. d. með rauðskinnunum amerísku. Lýsing Tacitusar á gestrisni Germana („Germania“ 21 kap.) svarar að kalla nákvæmlega til samsvarandi frásagna Morgans af rauðskinnum.

Menn hafa þrætzt um það endalaust og af miklum móði, hvort Þjóðverjar á dögum Tacitusar hafi verið búnir að skipta akurlendinu endanlega upp eða ekki, eða hversu skilja beri viðkomandi heimildastaði. Slíkar deilur eiga nú ekki lengur rétt á sér. Nú hefur það verið sannað, að flestir þjóðflokkar yrktu akra sína sameiginlega, og annaðist ættsveitin fyrst þessa samyrkju og síðar kommúnísk fjölskyldufélög, svo sem Cæsar tekur greinilega fram um Sveva. Seinna var einstökum fjölskyldum svo hlutaður sinn reitur, en landinu skipt upp aftur á nokkurra ára fresti. Síðan hefur verið sýnt fram á, að þessi nýskipting hefur haldizt hér og þar í Þýzkalandi allt fram á okkar daga, og þarf því ekki að eyða fleiri orðum að því atriði. Cæsar segir, að skipting eða séreign á ökrum hafi ekki þekkzt með Svevum. Það er því ærin framför, er Þjóðverjar hafa horfið frá samyrkju (þeirri, er Cæsar vottar skýlaust um Sveva) á þeim 150 árum, sem eru milli hans og Tacitusar, og hafa nú tekið upp séryrkju og árlega nýskiptingu ræktunarlandsins. Hitt er gjörsamlega óhugsandi, að breytingin frá áðurnefndu stigi til einkaeignar á jörðum hafi getað gerzt á svona stuttu tímabili – og það án utanaðkomandi áhrifa. Ég get því ekki lesið annað út úr Tacitusi, en hann segir berum orðum: Þeir skipta á (eða skipta upp aftur) ræktaða landinu frá ári til árs, og er þó nóg almenningsland eftir. Þetta er það stig akuryrkju og jarðeignaskipunar, sem svarar nákvæmlega til ættsveitaskipulagsins, eins og það var þá með Þjóðverjum.

Ég hef látið þessar síðustu línur haldast, eins og þær voru í

fyrri útgáfum. En þessi mál hafa tekið nokkuð aðra stefnu síðan þá. Kovalevsky hefur sýnt fram á (sjá bls. 82), að húsneyti með ættfeðrasniði sé algengt millistig milli hinnar kommúnísku móðurréttarfjölskyldu og sérfjölskyldu nútímans, þótt ekki sé það algild regla. Deilan snýst því ekki lengur um sameign eða séreign á landi eins og milli Maurers og Waitz, heldur um hitt, með hvaða sniði sameignin hafi verið. Það orkar ekki tvímælis, að á tímum Cæsars bjuggu Svevar ekki einungis við sameign á jörðinni, heldur og samyrkju. Um hitt mun enn verða deilt um hríð, hvort framleiðslueindin hafi fremur verið ættsveit eða húsneyti eða einhvers konar sameignar-ættfélag þar mitt á milli, eða hvort öll þessi afbrigði hafi tíðkazt samhliða og það farið eftir landslagi og gróðri. Kovalevsky staðhæfir hins vegar, að lýsing Tacitusar eigi ekki við merkurneyti eða þorpsfélög, heldur húsneyti, og hafi þau svo löngu síðar breytzt í þorpsfélög, er fólkinu fjölgaði.

Samkvæmt því hafa Þjóðverjar ekki setzt að í þorpum, þar sem þeir tóku sér búsetu á tímum Rómaveldis, eða í löndum þeim, er þeir unnu síðar af Rómverjum, Þeir hafa þá búið í stórum fjölskyldu-félögum, sem náðu yfir nokkra ættliði, er tóku sér land til ræktunar, en eyðilöndin umhverfis hafa verið sameiginlegt beitiland þeirra og grannanna. Þá yrði að skilja ummæli Tacitusar um víxlun eða skiptingu ræktaða landsins svo, sem þar væri átt við ræktunaraðferðirnar; félagsbúið hafi plægt upp nýja landspildu árlega, en látið akrana frá fyrra ári hvílast eða falla alveg í órækt; íbúatalan hafi verið lág og því ávallt nóg af óræktuðu landi, svo að óþarft hafi verið að deila um landareignir. Er aldir liðu, hafi húsnautunum fjölgað svo, að samyrkjubúskapurinn reyndist ekki lengur framkvæmanlegur, svo sem þá hagaði til um framleiðsluskilyrði, og hafi honum þá verið hætt. Ökrum og engilöndum, er áður voru í sameign, hafi þá verið skipt upp milli einstakra búa eða heimila, sem koma nú til sögunnar, og á þann hátt sem kunnugt er. Fyrst hafi þeim verið skipt til ákveðins tíma, en síðar í eitt skipti fyrir öll, en skógar og beitilönd, ár og vötn hafi haldizt áfram í sameign.

Það virðist sögulega sannað, að svona hafi þróunin verið í Rússlandi. Og það er ekki hægt að neita því, að því er til Þýzkalands tekur og annarra germanskra landa, að þessi skoðun fellur betur við heimildirnar og leysir á auðveldari hátt úr ýmsum torveldum viðfangsefnum en eldri kenningin. En hún gerði ráð fyrir því, að þorpsfélagaskipanin næði aftur á tíma Tacitusar. Elztu skilríkin, svo sem Codex Laureshamensis,[1] verða yfirleitt

[1] Lauriacum er latneska heitið á Lorch. Í Benediktsmunkaklaustrinu þar var gamall og frægur annáll og skjalasafn („codex"), jarðabók Lorch-borgar.

auðskildari, ef gert er ráð fyrir húsneytum, en ekki þorpsfélögum. Hins vegar koma þá til ýmis ný vandkvæði – og ný viðfangsefni, sem enn bíða úrlausnar. Aðeins nýjar rannsóknir geta skorið úr þessu. Hinu get ég þó ekki neitað, að mér þykir mjög líklegt, að húsneytið hafi tíðkazt sem millistig bæði í Þýzkalandi, Norðurlöndum og Englandi.[1]

Þjóðverjar höfðu á dögum Cæsars ýmist nýtekið sér fasta búsetu, eða þeir voru að leita sér að bólfestu. Þeir hafa því verið bólfastir í rúma öld, þegar Tacitus lýsir þeim. Það er líka um auðsæja framför í öflun lífsnauðsynja að ræða. Þeir búa í bjálkahúsum. Klæðnaður þeirra er enn mjög frumstæður, grófgerðar ullaryfirhafnir og dýrafeldir, konur og höfðingjar ganga í línklæðum næst sér. Fæðið er mjólk, kjöt og villtir ávextir – og svo hafragrautur, að því er Plinius segir (en það er enn keltneskur þjóðréttur í Írlandi og Skotlandi). Búféð er auður þeirra, en það er af lélegu kyni. Nautgripirnir eru smávaxnir, óásjálegir og kollóttir, hestarnir litlir og engir hlaupagarpar. Peningar voru sjaldan notaðir og lítið og þá aðeins rómverskir. Gull eða silfur unnu þeir ekki og mátu það einskis. Járn var sjaldgæft, og þjóðflokkarnir við Rín og Dóná að minnsta kosti virðast ekki hafa unnið það sjálfir, heldur sýnist það undantekningarlítið hafa verið innflutt. Rúnaletrið (sem gert er eftir grískum eða latneskum bókstöfum) var aðeins launletur og eingöngu notað í trúar- og töfraskyni. Mannfórnir tíðkuðust enn. Hér er í stuttu máli um að ræða þjóð, sem nýlega hafði komizt af miðstigi hálfsiðunar og upp á lokastigið. Þjóðflokkar þeir, sem bjuggu í nágrenni við Rómverja, tóku ekki upp sjálfstæða málmvinnslu eða vefnaðariðnað, þar sem auðveldur innflutningur á rómverskri iðnaðarframleiðslu kom í veg fyrir það. Hins vegar er það vafalaust mál, að slíkar atvinnugreinar voru teknar upp í norð-austurhéruðum landsins – við Eystrasalt. Vopnabúnaður sá, sem fundizt hefur í jörðu í Slésvíkurmýrum –langt járnsverð, hringabrynja, silfurhjálmur o. fl., ásamt rómverskum peningum frá ofanverðri annarri öld – er með sérstakri gerð og ber vitni um frumleik og kunnáttu, jafnvel þar sem stuðzt er við rómverskar fyrirmyndir. Slíkt hið sama má segja um málmgripi þá þýzka, sem dreifðust víða um lönd á þjóðflutningatímanum. En þessi heimaiðnaður lagðist hvarvetna niður, er germönsku þjóðflokkarnir fluttust inn í hin siðmenntuðu lönd

[1] Síðari rannsóknir á þessum efnum benda til þess, að staðhættir og atvinnugreinar hafi ráðið miklu um, með hvaða hætti búsetan varð, í húsneytum eða þorpsfélögum, – og hvort tveggja kemur fyrir með germönskum þjóðflokkum. Fjalllendi og kvikfjárrækt stuðla að dreifðri búsetu. – *Þýð.*

Rómaveldis. England er þó undantekning í þeim efnum. Bronsspennurnar eru hins vegar ágætt dæmi um samkynja uppruna og þróun þessa iðnaðar. Þær þeirra, sem fundizt hafa í Burgund og Rúmeníu og við Asovshaf, gætu vel verið smíðaðar á sömu verkstæðunum og þær ensku og sænsku – og germanskur uppruni þeirra jafn vafalaus.

Stjórnarhættirnir svara líka til lokastigs hálfsiðunar. Tacitus segir, að hvarvetna hafi starfað samkundur eða ráð höfðingja (principes), er ráðið hafi fram úr minniháttar málum, en búið önnur mikilvægari undir almenningsþingin, sem dæma skyldu um þau. En á lágstigi hálfsiðunar taka almenningsþingin aðeins til ættsveitanna, en ekki ættflokka eða ættflokka-bandalaga. Slíkt á að minnsta kosti við um amerísku rauðskinnana, sem við þekkjum til og standa á þessu stigi. Höfðingjarnir (principes) eru enn skýrt greindir frá herstjórunum (duces), alveg eins og hjá Irókesum. Höfðingjarnir lifa að nokkru leyti á heiðursgjöfum í fénaði eða korni o. fl., sem ættsveitungarnir senda þeim. Þeir eru tíðast valdir úr sömu ætt eða fjölskyldu, líkt og með rauðskinnum. Föðurrétturinn, sem nú var kominn til sögunnar, stuðlaði að því, að höfðingja-embættið varð arfgengt, og mynduðust þannig aðalsfjölskyldur í hverri ættsveit. Var hér um sams konar þróun að ræða og í Grikklandi og Róm. Þessi forni ættflokka-aðall, sem svo er nefndur, hvarf að mestu úr sögunni á þjóðflutningatímanum eða skömmu þar á eftir.

Herstjórarnir voru kosnir án tillits til ættar þeirra. Þar var farið eftir dugnaðinum einum. Þeir höfðu lítil völd, og áhrif þeirra voru mest komin undir persónulegu fordæmi. Tacitus tekur skýrt fram, að hið eiginlega ögunarvald í hernum hafi verið í höndum prestanna. Almenningsþingin voru hinir raunverulegu valdhafar. Konungurinn eða ættflokkshöfðinginn var þar í forsæti, en lýðurinn skar úr málum, neitaði með því að gera kurr, en galt jákvæði sitt með köllum og vopnabraki. Almenningsþingið er jafnframt dómstóll. Þar eru kærur fluttar og dæmt um þær – og dauðadómar kveðnir upp, en hugleysi, landráð og sjúkleg lostasemi varða dauðarefsingu. Í ættsveitunum og öðrum undirdeildum eru málin líka dæmd af öllum fundarmönnum, en leiðtoginn er í forsæti. Hér gegnir sama máli og um allar lögsóknir af fornum, þýzkum uppruna, forstöðumaðurinn hefur aðeins getað haft það hlutverk að stýra málarekstrinum og bera fram spurningar. En það var þingheimur, almenningur, sem dæmdi, og svo var það alls staðar með Þjóðverjum og frá öndverðu.

Ættflokkabandalög höfðu komið til sögunnar, frá því er Cæsar var uppi, og voru konungar þegar fyrir sumum þeirra. Hér fór líkt og hjá Grikkjum og Rómverjum, æðsti herstjórinn sóttist

eftir einræðisvaldi og tókst stundum að ná því. „Lánsamir" valdaræningjar af þessu tagi höfðu þó alls ekkert alræðisvald, en þeir byrjuðu þegar að höggva á bönd ættsveitaskipulagsins. Leysingjar nutu yfirleitt minni virðingar og gengis en frjálsir menn, með því að þeir gátu ekki tilheyrt neinni ættsveit, en hinir nýju konungar gerðu þá oft að vildarmönnum sínum, og hófust þeir þannig til auðs og metorða. Svipað átti sér stað eftir fall Rómaríkis, er hinir sigursælu herforingjar voru orðnir konungar í víðlendum ríkjum. Þrælar og leysingjar konungs létu mjög til sín taka með Frönkum, fyrst við hirðina og síðar í ríkinu. Nýi aðallinn er að stórum hluta frá þeim kominn.

Ein stofnun var það, sem stuðlaði mjög að sköpun konungsvaldsins. Það var fylgdin eða fylgisliðið. Þess var áður getið um rauðskinnana amerísku, að þar höfðu þegar myndazt eins konar einkafélög, sem ráku „styrjaldir" á eigin spýtur – og störfuðu þannig sjálfstætt við hlið ættsveitanna. Hjá Þjóðverjum voru þess konar einkafélög þegar orðin að föstum samtökum. Herforingi, sem hafði unnið sér frægð, fylkti um sig hóp ungra og rángjarnra manna, og bundu þeir hver um sig trúnað sinn við hann og hann við þá. Foringinn sá þeim farborða og veitti þeim gjafir, skipaði þeim störf og ákvað tignarstigann. Þetta var lífvarðarlið, harðsnúin sveit til minni háttar hernaðaraðgerða – og tiltækt foringjalið til stærri herferða. Fylgislið þessi voru að vísu veik, svo sem síðar kom og fram hjá Odovaker á Ítalíu, en í þeim fólst þó vísirinn að hnignun hins forna lýðfrelsis, og kom það þó betur í ljós á þjóðflutningaöldinni og eftir það. Fylgisliðið stuðlaði í fyrsta lagi að uppkomu konungsvalds og í annan stað varð því aðeins haldið saman með sífelldum styrjöldum og ránsferðum, svo sem Tacitus bendir á. Ránin urðu nú markmiðið. Ef foringinn hafði engin verkefni í grannhéruðunum, hélt hann með liði sínu til annarra þjóða, þangað sem ófriður var og von um herfang. Hjálparsveitirnar þýzku, sem börðust undir merkjum Rómverja, voru að nokkru leyti til orðnar fyrir tilverknað slíkra fylgisliða. Þær voru ærið fjölmennar og börðust jafnvel gegn Þjóðverjum. Málaliðsstandið,[1] þessi háðung, sem verið hefur eins og álög á Þjóðverjum, kemur þarna fram í sinni fyrstu mynd. Það voru þessi fylgislið konunganna ásamt með þrælum og rómverskum hirðþjónum, sem mynduðu annan meginhluta hins síðari aðals, er Rómaríki var að velli lagt.

Þýzku ættflokkarnir höfðu gert með sér bandalög og mynduðu þjóðir eða þjóðflokka. Stjórnarhættir þeirra voru í megin-

[1] Í byrjun nýaldar voru þýzkir bændur (og þó einkum Svisslendingar) málaliðar hjá flestum stórveldum. Börðust þeir í þjónustu ýmissa konunga og oft hverir gegn öðrum.

dráttum sömu og hjá Grikkjum á hetjuöld eða Rómverjum á hinu svonefnda konungatímabili. Það voru: almenningsþing, ættsveitaforingjaráð og herstjóri, sem keppti nú að því að fá fullkomið konungsvald. Þetta var hámarkið í stjórnháttaþróun ættsveitaskipulagsins. En það mótaði alla stjórnskipan á lokastigi hálfsiðunartímabilsins. Þessir stjórnarhættir dugðu innan sinna takmarka, en ef félagsþróunin fór út fyrir þá markalínu, þá var ættaþjóðfélagið úr sögunni. Ættsveitaskipanin var rofin, og ríkið kom í hennar stað.

## VIII.

## Ríkismyndun með Þjóðverjum

Tacitus segir, að Þjóðverjar hafi verið mjög fjölmennir. Við fáum nokkra hugmynd um mannafla einstakra þýzkra þjóðflokka af frásögn Cæsars. Hann áætlar, að Usipetar og Tenkterar hafi verið alls um 180.000, að meðtöldum konum og börnum, en þessir þjóðflokkar höfðust þá við á eystri bökkum Rínarfljóts. Lætur þá nærri, að hver þjóðflokkur[1] um sig hafi talið um 100.000 manns. Eru þeir því miklu mannfleiri en Irókesar voru, er uppgangur þeirra var sem mestur. Þá voru þeir ekki full 20.000 og stóð þó ógn af þeim um allt landið, allt frá vötnunum miklu til Ohio og Potomac.

Við getum reynt að flokka og staðsetja nánar einstaka þjóðflokka, er settust að við Rín og við vitum betri deili á. Niðurstaðan verður sú, að einstakir þjóðflokkar af þessu tagi taka að jafnaði svipað rúm á landabréfinu og eitt prússneskt stjórnarsvæði, en það er hér um bil 10.000 ferkm., eða 182 jarðmálsfermílur. Hins vegar náði Germania magna,[2] sem Rómverjar kölluðu svo, austur að Vislu og var í kringum 500.000 ferkm. að flatarmáli. Sé gert ráð fyrir, að hinir einstöku þjóðflokkar telji að jafnaði 100.000 manns, verður íbúatalan í „Germania magna" fimm milljónir. Það er ekki óálitleg tala hjá hálfsiðuðum þjóðum, en miðað við nútíma aðstæður er hún ákaflega lág – 10 ein-

[1] Það, sem Diodór segir um gallisku Keltana, bendir til, að þessi áætlaða tala sé ekki fjarri lagi: „Í Gallíu búa margir þjóðflokkar mismannmargir. Þeir stærstu telja um það bil 200.000 manna, en hinir minnstu 50.000." (Diodorus Siculus, V. 25). Meðaltalið er sem sé 125.000. Gallisku þjóðflokkarnir standa á hærra þróunarstigi en þeir þýzku og því fortakslaust rétt að gera ráð fyrir, að þeir séu eitthvað fjölmennari (F. E.).

[2] Stór-Þýzkaland. Svo kölluðu rómverskir landfræðingar landið milli Rínar og Vislu.

staklingar á hvern ferkílómetra eða 550 á hverja jarðmálsfermílu. En hér með eru ekki taldir allir Þjóðverjar, er þá voru uppi. Það er kunnugt, að þýzkir þjóðflokkar af gotneskum uppruna bjuggu meðfram Karpatafjöllum allt niður til Dónárósa. Má þar til nefna Bastarna, Peukina og aðra fleiri og voru þeir svo mannmargir, að Plinius telur þá mynda fimmtu aðalkynkvísl Þjóðverja. 180 árum fyrir tímatal vort eru þeir farnir að gegna málaliðsþjónustu hjá Persevs Makedoníukonungi, og á fyrstu stjórnarárum Ágústusar komust þeir til héraðanna umhverfis Adríanopel. Ef við gerum ráð fyrir, að þeir séu aðeins ein milljón, nemur sennileg heildartala Þjóðverja á árunum kringum Krists burð um 6 milljónum.

Þjóðinni hlýtur að hafa fjölgað æ örar, eftir að hún hafði setzt að í Germaníu. Verklegar framfarir þær, sem áður eru nefndar, eru í sjálfu sér fullgild sönnun þess. Munirnir, sem fundust í Slésvíkurmýrunum, eru frá 3. öld e. Kr., að því er ráða má af rómverskum peningum, sem fundust þar líka. Málmsmíð og vefnaður hafa því verið vel á veg komin við Eystrasalt um þetta leyti, ör viðskipti við Rómaveldi og þó nokkuð óhóf eða íburður hjá þeim efnaðri. Allt bendir þetta til, að þá hafi verið þéttbýlla. Um þetta leyti hefst og almenn sókn Þjóðverja. Þeir hefja árásir meðfram allri Rín, á rómversku landamæravígin og við Dóná, frá Norðursjó til Svartahafs. Er það bein sönnun þess, að íbúunum fjölgar nú æ meir – og ráðast jafnframt út fyrir landamærin. Þessi barátta stóð í 300 ár. Gotneski þjóðbálkurinn allur (að undanteknum Norðurlanda-Gotum og Borgundum) hélt í suðaustur og myndaði vinstri fylkingararm sóknarhersins. Í miðið voru Há-Þjóðverjar (Herminónar) og sóttu á við Efri-Dóná; þeim á hægri hlið voru Iskevónar, er nefndust nú Frankar, og þröngdust fram við Rín. Ingevónar fengu það hlutverk að vinna Bretland. Í lok fimmtu aldar var Rómaveldi orðið örmagna, það var þrekvana og ósjálfbjarga – og lá nú opið fyrir þýzku þjóðflokkunum, sem sóttu á.

Við höfum áður staðið við vöggu hinnar fornu siðmenningar Grikkja og Rómverja, nú fylgjum við henni til grafar. Öldum saman hafði heimsveldið rómverska dregið slóða sinn yfir löndin við Miðjarðarhaf og sléttað úr öllum mishæðum. Þjóðtungur allar höfðu orðið að víkja fyrir almenningslatínunni, nema þar sem gríska var til varnar. Þjóðernismunurinn var horfinn, það voru ekki framar til neinir Gallar, Iberar, Ligurar eða Nórikar, – þeir voru allir orðnir Rómverjar. Rómversk stjórn og Rómaréttur höfðu hvarvetna rofið hin fornu ættafélög og jafnframt síðustu leifarnar af staðbundinni og þjóðlegri sjálfstjórn. En þessi nýdubbaði Rómalýður gat ekki orðið nein uppbót hins, sem misst

var. Hann var ekki tákn neins sameiginlegs þjóðernis, heldur tjáning þess, að það var ekki til. Alls staðar mátti finna frumdrög að hinum nýju þjóðum. Latnesku mállýzkurnar í hinum ýmsu ríkishlutum greindust æ meir hver frá annarri. Landamæri þau frá náttúrunnar hendi, sem áður höfðu gert Ítalíu, Gallíu, Spán og Afríku að sérstökum sjálfstæðum landsvæðum, voru enn til og létu enn til sín taka. En hvergi fannst það afl, er fellt gæti þennan efnivið saman og gert úr nýjar þjóðir. Enn þá sáust engin merki um þroskahæfni eða mótstöðuafl, að ekki sé minnzt á sköpunarmátt. Rómverska ríkisvaldið var það eina, er tengdi saman allan þann manngrúa, sem bjó á þessu mikla landsvæði. Og sem tímar liðu, hafði það orðið versti óvinur hans og kúgari. Úthéruðin eða skattlöndin höfðu að vísu tortímt Róm. Hún var sjálf orðin héraðsbær eða sveitaborg í stíl við hinar. Hún hafði reyndar forréttindi, en drottinvald hennar var þrotið. Hún var ekki framar miðdepill heimsríkisins, hún var jafnvel ekki aðsetursstaður keisaranna eða undirkeisaranna, því að þeir bjuggu í Konstantinópel, Trier og Mílanó. Rómverska ríkið var orðið óhemju-vélabákn, sem hafði þann tilgang einn að arðsjúga þegnana. Hverskonar skattar og álögur íþyngdu landslýðnum og drógu hann dýpra og dýpra niður í botnlausa fátækt. Þessi ánauð jókst enn vegna fjárkúgunar af hálfu landstjóra, skattheimtu- og hermanna, og varð með öllu óbærileg. Svona var nú komið heimsyfirráðum Rómaríkis: það réttlætti tilveru sína með nauðsyn þess að halda uppi „reglu" inn á við og að verjast utanaðkomandi árásum „barbaranna". En þessi „regla" var verri en megnasta ringulreið – og að því er tók til hinna hálfsiðuðu þjóða, sem ríkisvaldið þóttist vilja vernda borgarana gegn, þá litu þeir á þær sem lausnara og vonuðust eftir þeim.

Þjóðfélagsástandið var ekki síður hörmulegt. Á ofanverðum lýðveldistímanum hafði rómverska drottnunarstefnan þegar beinzt mest að því að arðsjúga hin sigruðu skattlönd sem hremmilegast. Keisaraveldið hafði ekki afnumið þetta arðrán, heldur þvert á móti skipulagt það betur. Því meir sem ríkinu hnignaði, því hærri urðu skattarnir og afgjöldin, og rán og fjárkúgun embættismannanna urðu að sama skapi ósvífnari. Rómverjar drottnuðu yfir öðrum þjóðum og höfðu aldrei gefið sig neitt verulega að verzlun og iðnaði. Hins vegar komust þeir lengra í okri en nokkur önnur þjóð fyrr eða síðar. Það, sem haldizt hafði af þeirri verzlun, er áður var, drapst nú út vegna fékúgunar embættismannanna. Þó hélzt nokkur verzlun í austur-hluta ríkisins – hinum gríska, en það skiptir ekki máli hér. Fátæktin varð sífellt almennari, samgöngum hrakaði, slíkt hið sama handverki og list. Fólkinu fækkaði og borgunum stórhnignaði og jarð-

yrkjan tók skref aftur á bak – komst á lægra stig. Þannig var lokaárangur rómverska heimsveldisins.

Jarðyrkjan hafði verið meginatvinnugreinin í öllum hinum fornu menningarlöndum – og var það nú í ríkari mæli en nokkru sinni fyrr. Eins konar stórbú eða jarðasamsteypur (latifundia) tóku að tíðkast á Ítalíu, er lýðveldið leið undir lok og náðu yfir mest allt landið. Voru þau nytjuð á tvenns konar hátt. Annars vegar voru þessi jarðflæmi höfð sem beitilönd, svo að sauðir og nautgripir komu nú í stað íbúanna, en ekki þurfti nema fáa þræla til að annast búpeninginn. Hins vegar voru svo „villur" eða sveitasetur höfðingjanna, og var rekin þar garðrækt í stórum stíl og með miklum fjölda þræla. Afurðirnar gengu að nokkru til óhófseyðslu eigandans eða voru seldar á markaðstorgum borganna. Hin miklu beitilönd höfðu haldizt og sjálfsagt aukizt. „Villurnar" og garðræktin þar höfðu hins vegar gengið úr sér eða horfið, er eigendurnir urðu fátækari og borgunum hnignaði. Þessi latfundinum-búskapur með þrælahaldi sínu var orðinn óarðbær, en stórrekstur í landbúnaði var þá óhugsandi á annan hátt. Nú varð því smáyrkjan aftur eina færa leiðin. Hverri „villunni" eftir aðra var skipt í smá-skákir og þeim úthlutað til erfðalandstaka, sem greiddu fyrir þær ákveðna upphæð. Stundum voru þær fengnar „partíörum", sem voru fremur ráðsmenn en leigutakar og fengu sjötta eða jafnvel aðeins níundahluta af árlegum afrakstri búsins fyrir vinnu sína. Hitt var þó algengast, að þessir jarðskikar væru fengnir í hendur „kólon-um", landsetum, sem borguðu fyrir þá ákveðna upphæð á ári. Þeir voru átthagabundnir – og mátti selja þá með jörðinni. Þeir voru reyndar ekki þrælar, en ekki heldur frjálsir menn. Ekki máttu þeir kvænast frjálsum konum – og hjónabönd þeirra sín á milli ekki talin fullgild, heldur litið á þau sem blábert rekkjuneyti (contubernium), eins og hjá þrælunum. Þetta voru fyrirrennarar hinna ánauðugu bænda miðaldanna.

Hið forna þrælahald var nú orðið úrelt. Það skilaði eigi framar neinum hagnaði, er væri ómaksins verður, hvorki í stóryrkjunni í sveitunum né heldur í handiðnaðinum í borgunum. Markaðurinn fyrir afurðirnar var líka þrotinn. Nú hafði hin umfangsmikla framleiðsla, sem rekin var á blómaskeiði ríkisins, dregizt saman. Kotabúskapur í sveitum og smáhandverk í borgum var nú komið í staðinn, og þar var ekkert rúm fyrir marga þræla. Nú hafði þjóðfélagið aðeins not fyrir þræla, sem önnuðust hússtörf fyrir auðmennina – eða voru liður í óhófi þeirra. Þótt þrælahaldið væri að deyja út, voru þó áhrif þess svo rík, að litið var á öll framleiðslustörf sem þrælavinnu, er væri ósamboðin frjálsum rómverskum borgurum – og auðvitað voru allir það.

Því var það, að æ fleiri þrælar, sem nú voru orðnir eigendunum byrði, voru leystir úr ánauð. Í annan stað fór svo kólonunum sífjölgandi, og á hinu leytinu óx tala frjálsra manna, sem voru að sökkva niður í örbirgð og vesaldóm (líkt og „the poor whites"[1] í hinum fyrrverandi þrælaríkjum í Ameríku). Kristindómurinn á engan þátt í því, hvernig þrælahaldið forna lognaðist smám saman út af. Öldum saman hafði hann unað þrælahaldinu í Rómaveldi – og ekki hindraði hann heldur þrælaverzlun kristinna manna síðar. Á það jafnt við um þrælaveiðar Þjóðverja í norðurvegi, Feneyjamanna á Miðjarðarhafi og verzlunina með negrana[2] síðar meir. Þrælahaldið borgaði sig ekki framar, þess vegna hvarf það úr sögunni. En hin eitruðu áhrif þess héldu áfram að segja til sín í óvirðingu þeirri, er hvíldi á framleiðslustörfum frjálsra manna. Rómverska þjóðfélagið var komið í ógöngur, allt var í sjálfheldu. Þrælahaldið gat ekki staðizt lengur frá hagrænu sjónarmiði, og hins vegar þótti ósæmandi, að frjálsir menn ynnu framleiðslustörf. Þrælahaldið gat ekki verið undirstaða framleiðslunnar lengur og vinna frjálsra manna ekki heldur enn sem komið var. Hér var ekkert hjálparráð nema alger umbylting.

Og ástandið í skattlöndunum eða úthéruðum ríkisins var engu betra. Helztu heimildir okkar eru frá Gallíu. Þar voru til frjálsir smábændur auk kólonanna. Oft var það, að þessir menn leituðu trausts og verndar hjá einhverjum höfðingja – til að tryggja sig gegn ofbeldi embættismannanna, dómara og okrara. Og það voru reyndar ekki aðeins einstakir smábændur, sem gerðu þetta, heldur heil sveitafélög. Voru svo mikil brögð að þessu, að á fjórðu öld urðu keisararnir að banna þetta atferli hvað eftir annað. En hvað gagnaði það þeim, sem verndar þurftu að leita. Verndarherrann eða „patróninn" gerði það að skilyrði, að þeir afhentu honum eignarréttinn á jörð sinni, en hann ábyrgðist þeim aftur á móti ævilöng afnot hennar. Hin heilaga kirkja setti þessa aðferð vel á sig – og notaði hana oft á 9. og 10. öld til eflingar guðsríki og aukningar jarðeignum sínum. En fyrr meir, eða um 475, hamaðist reyndar Salvanius biskup frá Marseille gegn þessum „þjófnaði". Segir hann, að ágengni og kúgun rómversku embættismannanna og stórjarðeigendanna sé orðin slík, að margir „Rómverjar" hafi flúið til landsvæða, sem „barbararnir" hafi

---

[1] Hvítu armingjarnir, svo nefndust hvítir menn, er misst höfðu eignir sínar í þeim héruðum, þar sem verkamenn voru flestir blökkumenn.

[2] Eftir því sem Ljóðbrandur biskup frá Cremona segir, var aðalatvinnugreinin í Verdun – sem sé í hinu heilaga þýzka ríki – á 10. öld framleiðsla á geldingum. Voru þeir seldir til Spánar, í kvennabúr Máranna, og þótti það einkar arðsöm verzlun. (F. E.).

lagt undir sig – og óttist rómverskir borgarar, er þar búi, ekki annað meir en að komast aftur undir rómverska stjórn. Oft var það, að foreldrar seldu börn sín í þrældóm fyrir fátæktar sakir, eins og sjá má af lögum, sem sett voru gegn þesskonar atferli.

Þýzku „barbararnir" losuðu Rómverja við þeirra eigin ríki, og í staðinn tóku þeir svo undir sig tvo þriðju af landi þeirra og skiptu upp sín á milli. Skiptingin fór fram samkvæmt ættsveitaskipaninni. Sigurvegararnir voru tiltölulega fámennir, og urðu því eftir stór landsvæði, sem ekki var skipt upp. Héldust þau ýmist í eigu allrar þjóðarinnar eða einstakra ættflokka og ættsveita. Í hverri ættsveit var engjum og ökrum skipt jafnt milli búa eða heimila. Ekkert er um það kunnugt, hvort nýskiptingar hafi átt sér stað þarna í öndverðu. Hafi svo verið, hafa þær að minnsta kosti fljótt lagzt niður í rómversku löndunum, og hluti hvers einstaks varð séreign, er mátti kaupa og selja – og kallaðist alod. Beitilöndum og skógum var hins vegar ekki skipt upp, heldur notuð í sameiningu. Var þessum afnotum hagað eftir fornri venju – og samþykktum allra viðkomandi. Sama máli gegndi um ræktun akurlendisins, sem hafði verið skipt upp. Ættsveitatengslin þokuðu því meir fyrir staðarlegu samfélagi, sem ættsveitin bjó lengur í þorpi sínu og Þjóðverjar og Rómverjar runnu meir saman í eina heild. Ættsveitin hvarf í „merkurneytunum"[1] (die Mark), og má þó finna þar ýmis merki þess, að þau séu til orðin úr upphaflegu frændliði. Þannig breyttist ættsveitaskipulagið, svo að lítið bar á, í staðfélag með tilsvarandi stjórnarháttum. Á þetta a. m. k. við um þau lönd, þar sem merkurneytin héldust eins og Norður-Frakkland, England, Þýzkaland og Norðurlönd. Nú var því hægt að fella ættsveitaskipanina inn í ríkiskerfið, er slík breyting var á orðin. Hún hélt þó hinu upprunalega lýðfrelsiseðli, er einkenndi ættsveitaskipulagið yfirleitt. Hún úrættaðist að vísu fyrir utanaðkomandi þvingun, en varðveitti þó allt fram til þessa ýmis drög úr hinni fornu skipan, sem urðu vopn í höndum hinna kúguðu.

Frændsemisbönd ættsveitanna hurfu sem sé fljótlega úr sögunni, og var orsökin sú, að viðkomandi stofnanir í ættbálknum og þjóðflokknum úrkynjuðust líka – vegna landvinninganna. Drottinvald yfir sigruðum þjóðum getur, eins og við vitum, ekki samræmzt stjórnskipan ættsveitanna. Og hér kemur þetta einmitt greinilega í ljós. Þýzku þjóðflokkarnir höfðu lagt undir sig

[1] „Die Mark", mörkin eða merkurneytið er sniðið eftir staðarlegum meginreglum. Bændur, sem búa á einhverju ákveðnu svæði, mynda með sér merkurneyti (á þýzku Markgenossenschaft eða Mark). Sjá Engels „Die Mark", sem hefur verið prentað sem viðauki aftan við bók hans „Þýzka bændastríðið". – *Þýð.*

fyrrverandi skattlönd Rómverja. Nú þurftu þeir að skipuleggja þessi unnu landsvæði, en gátu hvorki tekið þorra Rómverja upp í ættsveitirnar né heldur notað þær til að drottna yfir þeim. Staðbundnar stjórnarstofnanir rómverskar höfðu haldizt að mestu, nú urðu þær að fá oddvita sinn eða yfirvald, sem kæmi í stað rómverska ríkisvaldsins. Og þar var ekki um annað að ræða en nýtt ríkisvald. Það varð því að breyta stjórntækjum ættsveitaskipulagsins í ríkisvalds-stofnanir. Og það gerðist á skömmum tíma, með því að allar aðstæður studdu að breytingunum. Herstjórinn eða herforinginn var helzti fulltrúi sigurvegaranna. Það varð að tryggja hin unnu landsvæði bæði inn og út á við, og því var nauðsynlegt að efla völd hans. – Nú var stundin komin til að breyta herforingjatigninni í konungdóm, enda fór það fram.

Við skulum nú huga að, hversu ástatt var í Frankaríki. Hinir sigursælu Saliar fengu í sinn hlut hinar víðlendu jarðeignir rómverska ríkisins. Og meira en það, þeir fengu líka til fullrar eignar afarmikil landsvæði, sem ekki hafði verið skipt upp á milli minni og stærri héraðafélaga og merkurneyta. Einkum voru þetta öll meiri háttar skógarsvæði. Frankakonungur var nú ekki lengur óbrotinn yfirhershöfðingi, hann var orðinn raunverulegur landsdrottinn. Það var nú fyrsta verk hans að gjöra þetta þjóðargóss að konungseign, ræna því frá þjóðinni og gefa það fylgisliði sínu eða fá því það að léni. Þetta fylgislið var upphaflega skipað persónulegu varðliði hans sjálfs og öðrum undirforingjum í hernum. Það efldist nú mjög. Margir Rómverjar, – þ. e. a. s. Gallar, sem tekið höfðu upp rómverska tungu og menningu, bættust í það, enda gat hann brátt ekki án þeirra verið. Kom þar til bæði skriftarkunnátta þeirra, menntun þeirra og þekking á rómönsku þjóðtungunni, latnesku ritmáli og landsrétti. En auk þess bættust nú í fylgisliðið þrælar, ánauðugir menn og leysingjar, þeir voru hirð hans, og þar valdi hann sér vildarmenn. Það voru þessir menn allir, sem fengu nú spildur af sameiginlegri landareign þjóðarinnar. Í fyrstu gaf konungur þeim oftast landið, síðan fengu þeir það að léni – til afnota sem „beneficia“[1] – og upphaflega átti þessi afnotaréttur að haldast, meðan konungur lifði. Á þennan hátt var komið upp nýrri aðalsstétt á kostnað fólksins.

En þar með er ekki öll sagan sögð. Ríkið var svo víðlent, að engin tök voru á að stýra því með stjórnartækjum hins forna ættsveitaskipulags. Ráð forustumannanna hefði alls ekki getað

[1] Beneficia = laun. Og hér voru launin jarðir, sem fylgisliðar frankversku konunganna fengu til ævilangra umráða. Að sjálfsögðu hikuðu þeir ekki við að gera þessar landareignir að erfðagóssi sínu.

komið saman til funda, hafi það ekki fyrir löngu verið úr sögunni. Hið fasta fylgdarlið konungs tók því við hlutverki þess. Almenningsþingin fornu hjörðu eitthvað áfram til málamynda, en óæðri foringjar í hernum og nýju höfðingjarnir létu þar nú æ meir til sín taka. Meginþorri frankversku þjóðarinnar voru frjálsir sjálfseignarbændur. En sífelldar borgarastyrjaldir og landvinningastríðin, einkum á dögum Karls mikla,[1] komu þeim á vonarvöl, líkt og farið hafði um rómversku bændurna á ofanverðum lýðveldistímanum. Upphaflega hafði herinn verið skipaður eingöngu af þeim, og þeir voru enn kjarni hans, eftir að þýzku þjóðflokkarnir höfðu lagt Frakkland undir sig. En á öndverðri 9. öld var örbirgð þeirra orðin slík, að tæplega fimmti hver bóndi gat farið í hernaðarleiðangra. Áður hafði konungur haft beint herútboð meðal hinna frjálsu bænda. Nú var kominn annar her og öðruvísi. Var hann skipaður þjónustumönnum hinna nýuppdubbuðu höfðingja, þar á meðal voru ánauðugir bændur. En forfeður þeirra höfðu ekki haft neinn yfir sér nema konunginn – og jafnvel ekkert haft af konungi að segja, ef lengra er rakið aftur í tímann. Frankverska bændastéttin komst svo í algert örþrot, er eftirmenn Karls mikla fóru með völd.[2] Þá var sífelldur innanlandsófriður, konungsvaldið harla veikt og yfirgangur höfðingjanna því meiri. Þar við bættist svo ágengni fylkisgreifanna, sem Karl hafði sett, en þeir börðust nú fyrir því að gera embætti sín arfgeng. Loks komu svo innrásir Normanna. Allt þetta reið bændastéttinni að fullu. Og hálfri öld eftir lát Karls mikla lá Frakkland jafnvarnarlaust fyrir fótum Normanna og Rómaríki fyrir Frönkum fjórum öldum fyrr.

Það var ekki eingöngu, að varnarmátturinn út á við væri svipaður hjá báðum. Þjóðfélagsástandið, eða öllu fremur -óstandið, inn á við, var einkar áþekkt. Hinir frjálsu frankversku bændur voru nú komnir í sams konar aðstöðu og fyrirrennarar þeirra, rómversku kólonarnir. Þeir voru komnir í þrot vegna styrjalda og rána og höfðu orðið að leita sér „verndar“, hjá einhverjum nýju höfðingjanna eða kirkjunni, með því að konungsvaldið var veikara en svo, að það fengi verndað þá. En þessi vernd var dýru verði keypt. Þeir urðu að veita þessum verndardrottni eignarhaldið á jörðum sínum, líkt og gallísku bændurnir áður fyrr. Síðan leigði hann þeim þær aftur, – og var því hagað með ýmsu móti, – en jafnan urðu þeir að greiða afnotin með kvaðavinnu og afgjöldum. Er þeir voru orðnir þannig háðir, misstu þeir smám saman persónulegt frelsi sitt, og eftir fáeina ættliði voru þeir tíðast orðnir ánauðugir. Jarðabók Irminons í ábótadæminu

[1] Var uppi 742–814.

[2] Þ. e. á 9. öld.

í Saint-Germains des Prés sýnir okkur, hve skjótt hin frjálsa bændastétt leið undir lok. Þetta ábótadæmi var þá í nágrenni Parísar, en er nú í París. Það átti þá miklar landareignir víðs vegar þarna í grenndinni, og var Karl mikli þá enn á lífi. Á þessum eignum bjuggu 2788 ábúendur, og voru það undantekningarlítið Frankar og báru þýzk nöfn. 2080 þeirra voru kólonar, 35 lítar,[1] 220 þrælar og aðeins 8 frjálsir leiguliðar. Fyrrmeir hafði Salvianus kallað það guðlaust verk, er verndarherrann sölsaði undir sig eignarhaldið á jarðaskikum bændanna og leyfði þeim aðeins ævilöng afnot þeirra. Nú beitti kirkjan yfirleitt sömu aðferðinni við bændurna. Kvaðavinnan tók nú að tíðkast meir og meir, og átti hún sér sína fyrirmynd bæði í rómversku „angariunum" – nauðungarvinnu fyrir ríkið – og þegnskyldustörfum þýzku merkurnautanna við brúa- og vegagerð og annað til almenningsþarfa. Það virtist svo sem meginþorri almennings stæði nú aftur í sömu sporum og fyrir fjórum öldum.

En það sannaði aðeins tvennt, fyrst það, að stétta- og eignaskiptingin í hinu hnignandi Rómaveldi svaraði nákvæmlega til þess framleiðslustigs, sem landbúnaður og iðnaður stóðu þá á. Hún var sem sé óhjákvæmileg afleiðing af aðstæðunum. Í annan stað var þetta sönnun þess, að þetta framleiðslustig hafði ekki breytzt neitt verulega á þessum fjórum öldum, hvorki hækkað né lækkað, og hlaut því að ala af sér sams konar eigna- og stéttaskiptingu. Á síðustu öldum Rómaveldis hafði borgunum hnignað, þær ríktu ekki framar yfir sveitunum. Og þær höfðu ekki náð fyrri áhrifum sínum fyrstu aldirnar, er Þjóðverjar réðu ríkjum. Ástæðurnar, sem til þessa lágu, voru lágt framleiðslustig bæði akuryrkju og iðnaðar. Allar þessar aðstæður hlutu að ala af sér volduga stórjarðeigendur annars vegar og háða smábændur á hinn bóginn. Það var ókleift að hefja latifundium-búskap með þrælum á rómverska vísu í þjóðfélagi af þessu tagi, slíkt hið sama nýja stóryrkju með kvaðavinnu. Bezta sönnun þess eru hinar víðtæku tilraunir Karls mikla,[2] er hann kom upp hinum svonefndu keisaravillum eða búgörðum, en þær höfðu naumast nokkur áhrif. Það voru klaustrin ein, sem héldu þeim tilraunum áfram, og með góðum árangri. Klaustrin voru hins vegar óeðlilegar og óvenjulegar þjóðfélagsstofnanir, þar sem hjónabandinu var úthýst. Árangur þeirra telst því til undantekninganna – eins og þau sjálf.

Þó hafði orðið nokkur framför á þessum fjórum öldum. Stétt-

[1] Hálffrjálsir menn.

[2] Karl mikli leitaðist við að skipuleggja „villur" sínar eða búgarða á sama hátt. Gaf hann í því skyni út sérstaka lögbók, „Capitulare de villis" (fyrirmæli um búgarða).

irnar eru að vísu í meginatriðum þær sömu og í byrjun þessa tímabils, en fólkið, sem skipar þær, hefur breytzt. Þrælahaldið forna var horfið, og slíkt hið sama hinir frjálsu og spilltu fátæklingar, sem töldu vinnuna þrælsmerki og fyrirlitu hana. Frjálsir frankverskir bændur höfðu verið milliliðurinn milli rómversku kólonanna og lénsbændanna nýju. „Gagnlausar upprifjanir og árangurslausar deilur“ hins hnignandi Rómavalds voru nú gleymdar og grafnar. Þjóðfélagsstéttir 9. aldar höfðu ekki fæðzt í fúafeni deyjandi siðmenningar, þær höfðu orðið til mitt í fæðingarhríðum nýrrar siðmenningar. Nýja kynslóðin, jafnt yfirmenn og undirgefnir, var manndómsfólk samanborið við fyrirrennarana rómversku. Voldugir landeigendur og undirgefnir bændur; slík var lokaskipan hins hrynjandi Rómaveldis – og allar leiðir lokaðar. En nú var þessi sama skipan upphaf nýrrar þróunar. Þessar fjórar aldir kunna að virðast helzt til ófrjóar. Þær skiluðu þó einum mikilsverðum árangri. Það voru hinar nýju þjóðir eða þjóðerni. Íbúar Vestur-Evrópu voru steyptir í nýtt mót og þeim skipt á nýjan hátt og þannig búnir undir framtíðina. Þjóðverjar höfðu í rauninni blásið nýju lífi í Evrópu. Og því var það, að sundurliðun ríkjanna, á þessu germanska tímabili, lauk ekki með undirokun af hálfu Normanna eða Serkja. Lén (beneficium) og verndarumsóknir (commendation) urðu hins vegar æ algengari – og ólu loks af sér lénsskipulagið. Og svo var fólksfjölgunin ör, að þjóðirnar virtist ekkert muna um hina miklu blóðtöku í krossferðunum tæpum tveim öldum síðar.

En hvers konar töfralyf var það þá, sem Þjóðverjar lífguðu með hina dauðvona Evrópu. Var það einhver meðfæddur töfrakraftur þýzka þjóðarstofnsins, svo sem gasprað er um í hinni þjóðskrumskenndu sagnritun okkar? Engan veginn. Þjóðverjar voru að vísu – og einkum þá – bráðgáfaður arískur þjóðflokkur, og í örri þróun. En það voru samt ekki hin sérstöku þjóðareinkenni þeirra, sem yngdu Evrópu upp. Nei, það var einfaldlega það, að þeir stóðu á stigi hálfsiðunar og bjuggu við ættsveitaskipulag.

Þeir höfðu til að bera persónulegan dugnað og hreysti, frelsishug og lýðræðisvenjur. Og þær venjur voru á þann veg, að einstaklingurinn ætti að líta á málefni hins opinbera sem sín eigin. Þeir höfðu sem sé alla þá eiginleika, sem Rómverjar höfðu misst og til þess þurfti, að ný ríki og þjóðir gætu vaxið upp úr svaði hins forna Rómaveldis. Og hvað voru þessir eiginleikar annað en skapgerðareinkenni þeirra, er standa á lokastigi hálfsiðunartímabilsins, – ávextir ættsveitaskipulagsins?

Þeir breyttu sniði hins grísk-rómverska einkvænis, drógu nokkuð úr drottinvaldi karlmannsins í fjölskyldunni og létu konuna

skipa æðri sess en nokkru sinni hafði tíðkazt á siðmenningaröld Grikkja og Rómverja. Og hvað skyldi svo sem hafa gert þeim það kleift nema hálfsiðun þeirra og ættsveitavenjur – og lifandi arfleifð frá tímabili móðurréttarins?

Þeir tóku með sér nokkra ósvikna þætti ættsveitaskipulagsins yfir í lénsríkið, og á þetta a. m. k. við um þrjú helztu löndin, Þýzkaland, Norður-Frakkland og England. Þetta erfðagóss ættaþjóðfélagsins birtist í merkurneytunum. En þau urðu undirstaðan að staðbundnum samtökum kúgaðra bænda og stoð þeirra í andófinu, er lénskúgun miðaldanna mæddi sem harðast á þeim. – Hvorki þrælarnir né heldur verkalýður nútímans áttu í neitt slíkt hús að venda. Og hvaðan skyldu merkurneytin vera runnin, nema frá hálfsiðun þeirra, þeim ósvikna „barbara"-sið að skipa sér eftir ættum, er þeir tóku sér búfestu.

Heima fyrir höfðu þeir kynnzt smávegis þrælahaldi af vægari tegundinni. Og þrælahaldið rómverska hafði líka sveigzt æ meir í þá átt. Þeim tókst nú að gefa þessari ánauð nýtt snið – og gera það einrátt. Og svo sem Fourier hefur fyrstur bent á, var þetta snið með þeim hætti, að það veitti hinum ánauðugu færi á að losa sig smám saman úr áþjáninni *sem stétt* (fournit aux cultivateurs des moyens d'affranchissement collectif et progressif[1]). Það stendur því þrælahaldinu að því leyti langt um ofar. Þar var aðeins um að ræða skyndilega frelsisgjöf einstaklingum til handa, þar var ekkert millistig. (Það kemur aldrei fyrir í sögu fornaldarinnar, að þrælahaldið sé afnumið með sigursælli uppreist). Ánauðugum bændum miðaldanna tekst hins vegar smám saman að vinna sér frelsi sem stétt. Og hvaðan stafar svo þessi munur? Á hann ekki einmitt rót sína í hálfsiðun germönsku þjóðflokkanna, sem hafði enn ekki leitt til víðtæks þrælahalds, hvorki þrælavinnu í grísk-rómverskum stíl né heimilisþrælahalds, svo sem það tíðkaðist í Austurlöndum.

Lífsandi sá og frjómagn, sem Rómalönd fengu frá Þjóðverjum, voru runnin frá hálfsiðun þeirra. Reyndin var sú, að einungis hálfsiðaðar þjóðir voru þess umkomnar að yngja upp veröld deyjandi siðmenningar. Fyrir þjóðflutningatímann voru Þjóðverjar komnir á lokastig hálfsiðunarskeiðsins. Það stig er bezt fallið til slíkra afreka. Það er fullgild skýring.

---

[1] gefur yrkjendunum færi á að öðlast frelsi sameiginlega og í vaxandi mæli.

# IX.

# Hálfsiðun og siðmenning

Við höfum nú rakið, hvernig ættsveitaskipulagið liðaðist í sundur og tekið þar dæmi af Grikkjum, Rómverjum og Þjóðverjum. Við skulum nú að lokum athuga þær hagrænu aðstæður, sem grófu undan ættsveitaskipaninni. Þessi upplausnaröfl létu þegar til sín taka á síðasta stigi hálfsiðunartímabilsins, og er siðmenningin hófst, var ættsveitaskipulagið með öllu úr sögunni. „Auðmagnið" eftir Marx mun reynast okkur jafn nauðsynlegt við þessa athugun og bók Morgans.

Ættsveitirnar höfðu komið til sögunnar á miðstigi villimennskuskeiðsins og þróazt og fengið fastara snið á síðasta stigi þess tímabils. Og þær munu hafa átt sitt blómaskeið á frumstigi hálfsiðunarinnar, að því er ráðið verður af þeim heimildum, sem fyrir liggja. Við byrjum því á þessu þróunarstigi.

Er hér er komið sögu, hefur ættsveitaskipanin náð fullum þroska – og tökum við þar til dæmis rauðskinnana amerísku. Ættflokkurinn greinist nú í ættsveitir, oftast tvær. Er fólkinu fjölgar, skiptast þessar upphaflegu ættsveitir hver um sig í nokkrar dóttur-ættsveitir, og móðurættsveitin tekur hins vegar á sig mynd bræðralagsins. Sjálfur ættflokkurinn klofnar nú í fleiri ættflokka, og í hverjum þeirra rekumst við oftast aftur á gömlu ættsveitirnar. Skyldir ættflokkar mynda með sér bandalög, að minnsta kosti stundum. Þessi óbrotna skipan nægir því þjóðfélagi, sem hún er sprottin úr. Og hún er ekkert annað en flokkun á þessum þjóðfélagsaðstæðum – og hefur þróazt með eðlilegum hætti, svo sem náttúran væri þar að verki. Hún getur jafnað alla árekstra, er upp geta komið í þannig skipulögðu þjóðfélagi. Vopnin skera úr deilum út á við. Þess háttar styrjöld getur haft tortímingu ættflokka í för með sér, en aldrei undirokun þeirra. Í ættsveitaskipulaginu er ekkert rúm fyrir drottnara og þræla, í því felst í senn mikilfengi þess og takmarkanir. Þetta þjóðfélag gerir engan mun á réttindum og skyldum þegna sinna, enn sem komið er. Rauðskinninn spyr ekki um það, hvort þátttaka í opinberum málum, blóðhefnd eða bótagreiðslur, sé fremur skylda hans eða réttur. Honum fyndist slík spurning jafnfráleit og ef spurt væri, hvort það væri fremur skylda manns eða réttindi að borða, sofa eða fara á veiðar. Það er og jafn óhugsandi, að ættflokkar eða ættsveitir geti klofnað í mismunandi stéttir. – Og nú skulum við snúa okkur að hinni hagrænu undirstöðu þessa ástands.

Íbúatalan er lág og byggðin strjál, þéttbýlast er í heimkynnum ættflokkanna. Kringum þau er víðlent veiðisvæði, og síðan kemur „varnar"skógurinn, hlutlaust svæði, sem skiptir löndum milli ættflokka. Verkaskiptingin er frumstæð, með fullkomnu náttúrusniði, hún er aðeins milli kynjanna. Karlmaðurinn heyr styrjaldir, stundar dýra- og fiskveiði, dregur að matarföng, og sér um þau verkfæri, sem til þess þarf. Konan sér um heimilið og annast matargerð og fatnað, eldar, vefur og saumar. Hvort um sig er hæstráðandi á sínu sviði, maðurinn í skóginum og konan í húsinu. Hvort um sig á þau verkfæri, sem það býr til og notar, karlmaðurinn spjótin og útbúnað við dýra- og fiskveiði, konan búsáhöldin. Heimilishaldið er með sameignarsniði, og á hverju heimili eru nokkrar fjölskyldur, oft margar.[1] Það, sem menn búa til og nota í félagi, er sameiginleg eign þeirra, svo sem hús, garðar og langbátar. Það er því aðeins hér, sem reglan um eignarhald á eigin framleiðslu eða smíði er í gildi. En lög- og hagfræðingar hafa skrökvað því upp, að eignarréttur siðmenningartímabilsins væri af því tagi, og er það síðasta upplogna réttarátyllan, sem eignarhald auðvaldsins nú styðst við.

En mennirnir láta ekki hvarvetna staðar numið á þessu stigi. Í Asíu voru dýr, sem hægt var að temja og koma þannig upp föstum fjárstofni. Það varð að veiða villtu buffalókúna, en væri hún tamin, gaf hún af sér kálf á ári hverju og auk þess mjólk. Nokkrir þeirra þjóðflokka, er lengst voru komnir, gerðu nú tamningu – og síðar uppeldi og gæzlu búfjár – að meginatvinnugrein sinni. Þessir þjóðflokkar voru Aríar og Semítar og ef til vill Túranar líka. Hirðingjaþjóðflokkar greindust nú frá þorra annarra hálfsiðingja. Það var *fyrsta, mikla þjóðfélagslega verkaskiptingin.* Hirðingjarnir framleiddu ekki aðeins meira en aðrir hálfsiðaðir þjóðflokkar, þeir framleiddu líka annað. Þeir áttu það, sem hinir höfðu ekki, mjólk og mjólkurafurðir og gnægð af kjöti – og einnig húðir, ull og geitarhár. Auk þess jókst spuni og vefnaður, er meira varð af hráefnum til þeirra nota. Þetta gerði kleift að koma á reglulegum vöruskiptum. Á fyrri þróunarstigum hafði skiptaverzlun aðeins átt sér stað við og við, ef svo bar undir. Sérstök kunnátta í vopna- og áhaldasmíð getur leitt til verkaskiptingar í bili. Hafa t. d. víða fundizt leifar af verkstæðum frá yngri steinöld, þar sem smíðuð hafa verið verkfæri úr steini. Hagleiksmennirnir, sem voru að fullnuma sig þar, hafa

---

[1] Einkum á norð-vesturströnd Ameríku (Sjá Bancroft). Hjá Haidunum á „Ey Charlottu drottningar" kemur það fyrir, að allt upp í 700 manns búa undir sama þaki. Með Nútkum bjuggu heilir ættflokkar á sama heimilinu. (F. E.).

sennilega unnið á reikning samfélagsins, svo sem hinir föstu handverksmenn indverska ættþjóðfélagsins gera enn í dag. Á þessu stigi gátu engin afurðaskipti átt sér stað nema innan ættflokkanna, og þau voru jafnvel undantekning. Með því að hirðingjarnir greinast frá, skapast hins vegar öll skilyrði til viðskipta milli manna í mismunandi ættflokkum. Og nú er hægt að auka vöruskiptin og koma á þau fastir skipan. Upphaflega skiptust ætflokkarnir á varningi, og höfðingjar þeirra önnuðust það verkefni. En sem búfjárhjarðirnar fóru að komast í einkaeign, létu vöruskipti milli einstaklinga æ meir til sín taka og urðu að lokum einráð. Aðalvaran, sem hjarðmennskuþjóðir létu í skiptum til granna sinna, var búpeningurinn. Búféð varð vara, sem allur annar varningur var metinn til, og vildu menn alls staðar skipta á því og öðrum vörum. Það fékk sem sé, í fám orðum sagt, hlutverk peninganna þegar á þessu stigi – og var notað þannig. Svona rík varð þörfin fyrir verðmiðil þegar í byrjun vöruskiptanna.

Arísku þjóðflokkarnir, sem stóðu á lágstigi hálfsiðunar, munu naumast hafa þekkt neitt til garðræktar. Þeir munu þó ekki hafa tekið hana upp síðar en á miðstiginu, og varð hún undanfari akuryrkjunnar. Loftslagið á túrönsku hásléttunni er þannig, að þar verður ekki stunduð hjarðmennska, nema séð sé fyrir vetrarforða, en þar eru vetur langir og harðir. Það varð því að safna heyfeng og rækta einhvers konar korn. Sama máli gegnir um gresjurnar norðan Svartahafsins. Í fyrstunni var aflað korns fyrir búféð, en brátt var tekið að nota það til manneldis. Ræktaða landið hélzt enn í eigu ættflokksins og var fengið ættsveitunum til afnota. Síðar meir skiptu þær því svo milli húsneytanna til nytjunar og að lokum milli einstaklinga. Þeir munu hafa haft á því ákveðinn afnotarétt, en heldur ekki meira.

Tvö atriði í iðnaðarframförum þessa þróunarskeiðs eru sérstaklega mikilvæg. Fyrst það, að vefstóllinn var nú kominn til sögunnar, og hitt annað, að menn kunnu nú að bræða málmgrýti og smíða úr málmum. Langmikilvægustu málmarnir voru kopar og tin og svo bronsið, sem er samsett úr þeim báðum. Úr bronsi voru búin til nothæf verkfæri og vopn. Ekki gátu þau samt útrýmt steináhöldunum. Það gat járnið eitt, og enn sem komið var, kunnu menn ekki að vinna járn. Tekið var að nota gull og silfur til skrauts og í skartgripi, og hljóta þeir málmar þá þegar að hafa verið í háu verði miðað við kopar eða brons.

Framleiðslan jókst í öllum atvinnugreinum, kvikfjárrækt, akuryrkju og heimilisiðnaði, og menn gátu því framleitt meira en þeir þurftu sér til viðurværis. Samtímis jókst það vinnumagn, sem kom daglega í hlut hvers ættsveitungs, húsnauts eða einstakrar

fjölskyldu. Nú var orðið æskilegt að geta náð í meira vinnuafl. Og styrjaldirnar sáu fyrir því, stríðsfangarnir voru gerðir að þrælum. Fyrsta meiriháttar verkaskiptingin í þjóðfélaginu gerði vinnuna afkastameiri – og jók þannig auðæfin. Jafnframt náði nú framleiðslan til fleiri sviða. Allt leiddi þetta, svo sem ástatt var, óhjákvæmilega til þrælahalds. Af þessari fyrstu, miklu, þjóðfélagslegu verkaskiptingu leiddi fyrstu meiriháttar stéttagreininguna. Þjóðfélagið klofnaði í tvær stéttir, húsbændur og þræla, arðræningja og arðrænda.

Ekkert er nú um það vitað, hvenær eða hvernig búfjárhjarðirnar komust úr eign ættflokksins eða ættsveitarinnar og í eigu einstakra heimilisfeðra. En það hlýtur að hafa gerzt á þessu stigi, a. m. k. í meginatriðum. Búfjáreignin, sem og hinn nýfengni auður á öðrum sviðum, ollu nú gagngerum breytingum á fjölskyldunni. Búsaðdrættir höfðu jafnan verið hlutverk karlmannsins, hann smíðaði áhöldin, sem notuð voru í því skyni, og þau voru hans eign. Búpeningurinn var hið nýja bjargræði, – og það kom í hlut karlmannsins, fyrst að temja hann og síðan að gæta hans. Búsmalinn varð því eign hans og sömuleiðis þrælar og vörur, sem fengust í skiptum fyrir búfénað. Allur ágóði af búrekstrinum kom nú í hlut mannsins. Konan naut að vísu góðs af, en hún átti enga hlutdeild í eignarréttinum. Hinn „villti“ bardaga- og veiðimaður hafði sætt sig við að vera næstráðandi á heimilinu og láta konuna skipa öndvegi. En hirðinginn, sem kallaður er „gæfari“, treysti á ríkidæmi sitt og seildist þar sjálfur til æðstu valda og setti konuna á óæðra bekk. Og konan hafði þó enga ástæðu til að barma sér. Verkaskiptingin í fjölskyldunni hafði kveðið á um skiptingu eignanna milli eiginmanns og konu. Og verkaskiptingin var söm og áður, og þó hafði hún nú endaskipti á valdaafstöðunni á heimilinu. Og það var vegna þess eins, að verkaskiptingin utan fjölskyldunnar hafði breytzt, starfssvið konunnar var takmarkað við hússtörfin. Það var atriði, sem áður hafði tryggt henni æðstu völdin innan húss, nú tryggði það karlmanninum völdin á heimilinu. Atvinna mannsins yfirskyggði nú gjörsamlega hússtörf konunnar, hún var allt, þau lítilsvert aukaatriði. Það sást hér, að óhugsandi er, að konan öðlist frelsi og jafna aðstöðu og karlmaðurinn, meðan henni er haldið frá þjóðfélagslegum framleiðslustörfum og innanhússtörfin ein teljast í hennar verkahring. Frelsun kvenna verður þá fyrst möguleg, er þær geta tekið þátt í þjóðfélagslegum framleiðslustörfum, svo að um munar, og þurfa ekki að verja nema litlum tíma til húsverkanna. Og þetta varð fyrst kleift, er nýtízku stóriðja kom til sögunnar. Þar er ekki aðeins leyfð kvennavinna í stórum stíl, heldur beinlínis sótzt eftir henni. Jafnframt stefnir stóriðjan að

því æ meir að leysa heimilisstörfin af hólmi og láta opinberan iðnað koma þar í staðinn.

Er karlmaðurinn hafði fengið raunveruleg yfirráð innanhúss, varð hann þar með einvaldur. Síðasta tálmanum var þá rutt úr vegi. Þetta einveldi var svo staðfest með því, að móðurréttinum var steypt af stóli og föðurréttur upptekinn og parahjúskapnum smám saman breytt í einkvæni. Þar með var brotið skarð í gamla ættsveitaskipulagið, sérfjölskyldan hófst nú til vegs og valda og ógnaði ættsveitinni.

Eitt skref enn, og þá er komið á hástig hálfsiðunar, en á því tímabili eiga allar menningarþjóðir hetjuöld sína. Þetta var tímabil járnsverðsins, – þá voru einnig notaðir plógskerar úr járni og járnaxir. Járnið hafði nú gengið í þjónustu mannsins – og var það síðast og mikilvægast þeirra hráefna, sem ollu byltingu í þjóðlífsháttum, reyndar ekki alveg síðast, því að kartaflan kom seinna. Járninu var það að þakka, að hægt var að taka upp akuryrkju á stærri svæðum í senn, og unnt var að gera víðlend skógarsvæði að ræktanlegu landi. Handverksmaðurinn gat smíðað úr því verkfæri, sem var bæði hart og endingargott og beit vel, svo að enginn steinn eða neinn annar kunnur málmur fékk staðizt gegn því. Þetta gerðist þó allt smám saman. Í fyrstu var járnið oft enn deigara en brons. Steinvopnin hurfu því ekki úr sögunni í einum svip. Getið er um notkun steinaxa í bardögum í Hildibrandsljóði,[1] en einnig miklu síðar í orustunni við Hastings[2] 1066. En framfarirnar urðu nú stöðugri og örari. Borgin varð nú aðalaðsetursstaður ættflokksins eða ættflokkabandalagsins, með steinveggi sína, turna og múrtinda, stein- eða múrsteinshús. Það var í senn geysiframför í byggingarlist og tákn um auknar hættur og verndarþörf. Auðæfin uxu nú hröðum skrefum, en það var einkaauður. Vefnaði og málmvinnslu fleygði fram, framleiðslan varð margbreyttari og bar vott um vaxandi kunnáttu. Sama máli gegndi um aðrar handverksgreinar, sem tóku nú að greinast æ meir hver frá annarri. Jarðyrkjan gaf af sér olíur og vín auk korns, belgaldina og ávaxta, því að nú höfðu menn lært að framleiða fyrrnefndar tegundir. Enginn einn maður gat annað svona margþættu starfi. *Nú hófst önnur mikla verkaskiptingin.* Handverkið greindist frá akuryrkjunni. Síaukin framleiðsla samfara vaxandi vinnuafköstum olli því, að mannlegt vinnuafl varð nú verðmætara. Á næsta þróunarstigi á undan hafði þrælahald verið rétt í byrjun og sjaldgæft. Nú varð það veigamikið atriði í þjóðfélagskerfinu. Þrælarnir voru nú ekki lengur notaðir sem óbrotnir aðstoðar-

[1] Fornháþýzkt kvæði, er segir frá bardögum þýzku ættflokkanna sín á milli.
[2] Hastings er borg í Englandi, þar sem Normannar og Engilsaxar börðust.

menn, þeir voru reknir til vinnu í tugatali bæði við jarðyrkjustörf og eins á verkstæðunum. Þegar framleiðslan skiptist í tvær megingreinar, handverk og akuryrkju, er tekið að framleiða með afurðaskipti fyrir augum, vöruframleiðslan kemur til sögunnar. Í kjölfar hennar kemur svo verzlunin, og er hún ekki aðeins rekin inn á við og við landamæri ættflokksins, heldur líka yfir höf. Þó er allt þetta heldur óburðugt, enn sem komið er. Góðmálmarnir eru nú að verða almennur verðmiðill og notaðir mest í því skyni. Þeir eru þó enn ómótaðir og skipt á þeim eftir þunganum einum.

Menn greinast ekki aðeins í frjálsa menn og þræla, heldur líka ríka og snauða. Verkaskiptingin nýja hefur alið af sér nýjar stéttir. Fjölskyldufeðurnir eru nú mjög misríkir, og verður það til þess, að hið forna sameignar-húsneyti rofnar hvarvetna þar, sem það enn hafði haldizt. Jafnframt hættir samyrkja húsnautanna á landinu. Akurlendið er nú fengið einstökum fjölskyldum til afnota, í fyrstu til ákveðins tíma, en síðan í eitt skipti fyrir öll. Breytingin í fullkomna séreign gerist smám saman og jafnhliða því sem parahjúskapurinn breytist í einkvæni. Sérfjölskyldan er að byrja að verða framleiðslueind þjóðfélagsins. Aukið þéttbýli krefst meiri samheldni bæði inn og út á við. Það verður nú nauðsyn hvarvetna, að skyldir ættflokkar myndi með sér bandalög. Og brátt hlýtur að reka að því, að þeir renni saman og sundurgreind landsvæði ættflokkanna myndi eitt óslitið þjóðland. Herstjóri þjóðarinnar eða þjóðflokksins – rex, basileus, þiudans – er nú orðinn ómissandi með öllu og verður fastur embættismaður. Almenningsþing eru upp tekin, þar sem þau eru ekki þegar til. Herstjórinn, ráðið og almenningsþingið eru stjórnartæki þessa hernaðarlega lýðræðisskipulags, sem hefur vaxið upp úr ættsveitaskipaninni. Hernaðarlegt má það kallast, þar sem styrjaldir og stríðsskipulagning eru nú orðin fastur þáttur í þjóðlífinu. Auðæfi grannþjóðanna vekja ágirnd hjá þjóðflokkum, sem líta á auðsöfnun sem helzta markmið lífsins. Og þetta eru hálfsiðaðir þjóðflokkar; þeim þykja rán auðveldari og enda þægilegri en vinna. Áður voru styrjaldir aðeins háðar í hefndarskyni eða til að auka við landsvæði, sem orðið var of lítið. Nú er haldið í stríð til þess eins að ræna, styrjaldir eru orðnar föst atvinnugrein. Það er ekki að ófyrirsynju, að ógnandi múrar teygja sig nú til himins umhverfis hinar nýju virkisborgir. Virkisgrafir þeirra eru legstaður ættsveitaskipulagsins, og turnar þeirra teygja sig upp í siðmenninguna. Inn á við er sama sagan. Þessi ræningjastríð efla vald herstjórans og hinna óæðri foringja. Það var orðin venja að velja eftirmann hans úr sömu fjölskyldunni. Og smám saman fór embættið að verða arfgengt, einkum þó eftir að

föðurréttur komst á. Menn létu sér fyrst lynda, að fylgt væri fornri venju, svo var arfgengis krafizt af herstjórans hálfu, og loks tók hann sér þau fríðindi með valdi. Þar með var lögð undirstaða að erfðakonungdæmi og erfðaaðli. Stofnanir ættsveitaskipulagsins slitna þannig smám saman úr tengslum við almenning, bæði í ættsveitunum, ættflokkunum og bræðralögunum. Ættsveitaskipulagið breytist í sína eigin andstæðu. Það hafði verið tæki ættflokkanna til að skipa málum sínum á frjálsan hátt, en varð nú kerfi til að ræna og kúga nágrannana. Samtímis breytast stofnanir þess. Þær höfðu verið framkvæmdatæki þjóðarviljans, en verða nú sjálfstæðar stofnanir til að drottna yfir fólkinu sjálfu og kúga það. Þetta hefði aldrei getað átt sér stað, ef auðfíknin hefði ekki verið að verki, svo að ættsveitungarnir greindust nú í ríka og fátæka. Það hefði verið óhugsandi, ef eignamismunurinn milli ættsveitunganna hefði ekki breytt sameiginlegum hagsmunum þeirra í hagsmunaandstæður (Marx), og ef útbreiðsla þrælahaldsins hefði ekki þegar sett óvirðingarstimpil á alla vinnu til lífsuppeldis, svo að litið var á hana sem þrælastörf, sem væru enn smánarlegri en rán.

------

Við erum nú komnir að mörkum siðmenningarinnar. Það er nýtt framfaraskref í verkaskiptingu, sem markar upphaf þess tímabils. Í fyrstu framleiddu menn aðeins fyrir eigin þarfir. Þau afurðaskipti, er áttu sér stað á lægstu þróunarstigunum, voru undantekningar og tóku aðeins til birgða, sem orðið höfðu til fyrir einhverja tilviljun. Þegar kemur á miðstig hálfsiðunarskeiðsins breytist þetta nokkuð. Fjáreign hirðingjanna gefur að jafnaði meira af sér en svarar þörfunum, ef búfé er sæmilega margt. Jafnframt rekumst við á verkaskiptingu milli hirðingjaþjóðanna og hinna, sem orðið höfðu aftur úr og áttu engar búfjárhjarðir. Þarna eru tvö mismunandi framleiðslustig hlið við hlið samtímis, og þar með sköpuð skilyrði til vöruskipta. Á hástigi hálfsiðunarskeiðsins kemur upp verkaskipting milli akuryrkju og handverks. Æ meira af afurðunum er nú framleitt beint með skiptaverzlun fyrir augum, – og vöruskipti milli hinna einstöku framleiðenda verða nú samfélagsnauðsyn. Siðmenningin festir alla þætti þeirrar verkaskiptingar, er fyrir var, og eykur hana. Hún skerpir andstæðuna milli sveita og borga. (Er það þá ýmist borgin, sem drottnar yfir sveitinni á hagræna vísu, svo sem í fornöld, eða sveitin yfir borginni, eins og á miðöldunum). Loks leggur hún til einn þátt verkaskiptingar, sem er í senn mjög mikilvægur og auðkennandi fyrir hana. Hún leiðir fram sérstaka

stétt, sem er ekki á neinn hátt viðriðin framleiðsluna, en fæst eingöngu við dreifingu afurðanna. Það er kaupmannastéttin. Sú byrjun að stéttamyndun, er hingað til hafði átt sér stað, var eingöngu tengd við framleiðsluna. Hún var bundin við það, hvort þeir, sem þátt tóku í framleiðslunni, voru yfirmenn eða undirgefnir, eða hún fór eftir framleiðslumagni einstakra framleiðenda. En hér kemur í fyrsta sinn stétt fram á sjónarsviðið, sem tekur engan þátt í framleiðslustörfunum. Og þó tekst henni að ná stjórn framleiðslunnar að mestu í sínar hendur og gera framleiðendurna sér fjárhagslega háða. Hún gerist ómissandi miðlari milli hverra tveggja framleiðenda og arðsýgur báða. Hún þykist vilja losa framleiðendurna við fyrirhöfn og verzlunaráhættu og koma afurðum þeirra á fjarlæga markaði og verða þannig gagnlegasta stétt þjóðfélagsins. Og í skjóli slíkra vígorða vex upp sannkölluð sníkjustétt, – sem fleytir rjómann af framleiðslu landa sinna og annarra, enda þótt hún hafi í reynd lítið til þess unnið. Hún safnar brátt feikna-auðæfum, og áhrif hennar í þjóðfélaginu vaxa að sama skapi, og þess vegna hlotnast henni líka á siðmenningarskeiðinu síaukinn heiður og völd yfir framleiðslunni, unz henni tekst svo að lokum að framleiða verzlunarkreppur – það er hennar framleiðsla.

Á því þróunarstigi, sem hér um ræðir, hefur hin unga kaupmannastétt reyndar engan grun um öll þau ósköp, er bíða hennar. Hún kemst á laggirnar og gerist ómissandi – og það nægir. Nú er tekið að nota málma fyrir verðmiðil og móta mynt, og málmpeningarnir verða þeim, sem framleiða ekki, nýtt tæki til að drottna yfir framleiðandanum og framleiðslu hans. Nú var búið að uppgötva vöru varanna, sem felur í sér allar aðrar vörur. Það er búið að finna upp töfragrip, sem breyta mátti í hvaða eftirsóknarverðan hlut annan, er menn kynnu að girnast. Hver sem átti hann, réð yfir heimi framleiðslunnar. Og hverjir áttu hann svo sem öðrum fremur, nema kaupmannastéttin? Peningadýrkunin var í öruggum höndum, þar sem kaupmaðurinn var. Hann gerði mönnum ljóst, hversu mjög allar vörur væru háðar peningunum og hvernig vöruframleiðendurnir yrðu að beygja kné sín í auðmýkt fyrir þeim. Hann sannaði í framkvæmd, hvernig allar aðrar tegundir auðæfa verða blekking ein andspænis þessari líkamningu auðsins sjálfs. Máttur peninganna hefur aldrei síðan birzt í jafnóhefluðum hrottaskap og ofbeldi sem á þessu bernskuskeiði þeirra. Í kjölfar peningaverzlunarinnar koma svo skyndilán – og þar með rentur og okur. Engin löggjöf síðari tíma er jafnmiskunnarlaus við skuldunautinn og hin forn-aþenska og fornrómverska – og gerir hann jafn vitaréttlausan gagnvart okraranum, lánardrottni sínum. Þó hafa bæði aþensku og rómversku

lögin um þessi efni orðið til sem venjuréttur, án þess að nokkur önnur þvingun en hagræn hafi verið þar að verki.

Auk ríkidæmis í varningi og þrælum og auðæfa í peningum kemur nú einnig til sögunnar auður í jarðeignum. Eignarréttur einstaklinga á lóðum og lendum var nú orðinn hefðbundinn. Upphaflega hafði ættsveitin eða ættflokkurinn úthlutað þeim landspildum, en þær voru nú orðnar erfðagóss þeirra. Síðasta áfangann á þessari leið höfðu þeir keppt að því að losna við þann rétt, sem ættsveitin öll átti enn til einstakra landskika, með því að þeir litu á hann sem fjötur. Þeim tókst að losna við þann fjötur – og líka við nýju jarðeignina sína fljótlega upp úr því. Full og frjáls eign á landi táknaði ekki það eitt, að menn gætu átt jörð skilmálalaust og án nokkurra takmarkana, heldur einnig hitt, að hægt var að láta hana af hendi. Meðan landið var í eigu ættsveitanna, var slíkt útilokað.[1] En þegar jarðeigendurnir nýju höfðu höggvið á þessa eignarfjötra ættsveita og ættflokka, voru þar með slitin þau tengsl, er hingað til höfðu tengt þá órjúfandi böndum við jarðarskikann sinn. Og þeir fengu að reyna, hvað það táknaði, þegar þeir kynntust við peningana, en þeir höfðu komið til sögunnar um líkt leyti og séreignarréttur á landi. Nú gat jörðin orðið vara, sem hægt var að selja eða veðsetja. Séreign á jörðum var ekki fyrr komin á en fasteignaveð var upp tekið (sbr. Aþenu). Fasteignaveðið varð fylgifiskur einkaeignar á landi þegar frá upphafi, svo sem fylgjulag og skækjulifnaður komu þegar í kjölfar einkvænisins. – Þið heimtuðuð fulla og frjálsa eign á landi sem og rétt til að selja það. Nú hafið þið fengið það – tu l'as voulu, Georges Dandin.[2]

Sem verzlunin varð víðtækari og peningar og fjárokur, séreign á landi og fasteignaveð komu til sögunnar, safnaðist auðurinn æ hraðar á hendur fámennrar stéttar. Hins vegar óx fátækt fjöldans og fátæklingunum fjölgaði æ meir. Þessi nýi eignaaðall þokaði hinum forna ættflokkaaðli alveg út af sviðinu (í Grikklandi, Róm og með Þjóðverjum), ef þar hafði ekki verið um samruna að ræða frá upphafi. Frjálsir menn greindust þannig í stéttir eftir eignum, en auk þess fjölgaði nú þrælunum óskaplega, og á það einkum við um Grikkland. Nauðungarvinna þeirra varð þar sú undirstaða, er öll yfirbygging þjóðfélagsins hvíldi á.

Hyggjum nú að, hvað það var, er varð til upp úr ættsveitaskipulaginu í þessari félagslegu umbyltingu. Það stóð ráðvana gagnvart hinum nýju fyrirbærum, sem nú voru komin til sög-

---

[1] Sbr. ákvæði fornnorrænna laga um óðal og óðalsbrigði – *Þýð.*

[2] Úr leikritinu „Georges Dandin" eftir Molière, sem var gefið fyrst út 1668: „Þetta vildirðu, Georges Dandin".

unnar og án tilverknaðar þess. Sú var forsenda ættsveitaskipulagsins, að allir félagar í sömu ættsveit eða ættflokki byggju saman á samfelldu svæði og byggðu það einir. Það var löngu búið að vera. Ættsveitir og ættflokkar voru nú í einum graut hvarvetna, og þrælar, skjólstæðingar og „útlendingar" bjuggu nú innan um borgarana. Ekki var um fasta búsetu að ræða fyrr en síðast á miðstigi hálfsiðunar, og hún var jafnan rofin öðru hverju af verzlun og atvinnu- og jarðaskiptum, sem orsökuðu mannflutninga og bústaðaskipti. Ættsveitungarnir gátu ekki lengur haldið ráðstefnur til að láta sameiginleg málefni til sín taka. Þeir önnuðust nú aðeins það, sem minna var um vert, svo sem trúarhátíðir, og þó ekki að fullu. Stofnanir ættsveitaskipulagsins áttu að sinna ákveðnum þörfum og hagsmunum. En atvinnubyltingin og þær breyttu félagslegu aðstæður, er af henni leiddi, sköpuðu nýjar þarfir og hagsmuni, sem áttu ekkert skylt við ættsveitaskipanina, heldur voru beinlínis andstæðar henni í öllum atriðum. Handverksmannaflokkar þeir, er risu upp með verkaskiptingunni, höfðu sína sérstöku hagsmuni; þarfir borganna voru aðrar en sveitanna. Og nú þurfti nýjar stofnanir til að annast þessar þarfir. Hvern þessara flokka skipuðu menn úr ýmsum ættsveitum, bræðralögum og ættflokkum. Í þeim voru jafnvel líka útlendingar. Þessar stofnanir hlutu því að myndast utan ættsveitaskipulagsins, – og þar af leiðandi í andstöðu við það. Þessar hagsmunaandstæður létu einnig til sín taka í hverri stofnun ættsveitaskipulagsins. Og hámark þessara árekstra fólst í því, að í sömu ættsveitinni eða ættflokknum voru saman komnir bæði ríkir og snauðir, okrarar og skuldunautar. Auk þess komu svo nýju íbúarnir, sem stóðu utan við ættsveitafélögin. Þeir gátu fengið nokkur völd, svo sem var í Róm, en voru hins vegar fjölmennari en svo, að hægt væri að taka þá smám saman upp í ættfélögin og ættflokkana. Félagsstofnanir ættsveitaskipulagsins voru lokaðar öllum þessum fjölda – og nutu forréttinda, sem hann hafði ekkert af að segja. Hið sjálfsprottna og náttúrlega lýðræði hafði breytzt í andstyggilegt aðalsveldi. Og að lokum þetta. Stjórnarhættir ættsveitaskipulagsins höfðu orðið til í þjóðfélagi, sem ekkert hafði af innri andstæðum að segja, – enda hæfðu þeir aðeins þesshåttar samfélagi. Ættsveitaskipulagið réð ekki yfir neinum þvingunartækjum – nema almenningsálitinu. En nú var nýtt þjóðfélag komið til sögunnar, og samkvæmt allri hagskipan sinni hlaut það að greinast í frjálsa menn og þræla, ríka arðræningja og arðsogna fátæklinga. Og þetta þjóðfélag gat á enga lund sætt þessar andstæður, heldur hlaut að auka þær og skerpa æ meir. Þetta samfélag gat því aðeins staðizt, að þessi opinbera barátta milli stéttanna héldi áfram eða þá

að eitthvert vald kæmi til, sem stæði, að því er virtist, ofar stéttunum. Það héldi þá niðri opinberum árekstrum þeirra og leyfði í hæsta lagi, að stéttabaráttan væri háð á hagsviðinu og á löglegan hátt, sem kallað er. Stjórnarhættir ættsveitaskipulagsins voru nú úr sögunni. Þeir höfðu rofnað vegna verkaskiptingarinnar og þeirrar stéttagreiningar í þjóðfélaginu, sem af henni leiddi. Nú kom ríkisvaldið í þeirra stað.

Við höfum rakið hér að framan, hvernig ríkið rís upp af rústum ættsveitaskipanarinnar – og brugðið upp þremur helztu myndunum, sem þessi þróun tekur á sig. Aþena er skýrasta og sígildasta dæmið. Þar vex ríkisvaldið í meginatriðum beint upp úr stéttaandstæðum þeim, er þróazt hafa innan ættsveitaskipulagsins sjálfs. Í Róm breytast ættsveitir og ættflokkar í höfðingja- eða aðalsstétt, sem er greind frá lýðnum. En lýðurinn eða plebsinn er fjölmennur og réttindalaus, en skyldum hlaðinn. Hann sigrar, og hinir fornu stjórnhættir ættaþjóðfélagsins rofna. Ríkið er reist á rústum þeirra, og ættsveitaaðallinn og plebejarnir renna þar saman í eitt. Hjá þýzku þjóðflokkunum, sem lögðu undir sig Rómaveldi, sprettur ríkisvaldið beint upp af sigurvinningunum. Þeir höfðu lagt undir sig víðáttumikil landsvæði erlend, og þeim varð ekki stjórnað með valdatækjum ættsveitaskipulagsins. En sigurvinningum þessum fylgdi ekki nein alvarleg barátta við hina fornu íbúa landanna, né heldur leiddu þeir til neinnar frekari þróunar í verkaskiptingu. Atvinnulegt þróunarstig sigurvegaranna og hinna sigruðu var mjög svipað og hagræn undirstaða þjóðfélagsins því hin sama og áður. Því var það, að stjórnhættir ættsveitaskipanarinnar gátu haldizt öldum saman, reyndar í breyttri mynd. Er þá að finna í merkurskipaninni – og hafa fengið á sig staðarlegt snið. Þeir eru jafnvel yngdir upp að nýju í hinum síðari aðals- og auðborgaraættum og jafnvel í bændaættum, svo sem var í Þéttmerski,[1] og haldast þannig um hríð nokkuð afvatnaðir. Ríkisvaldið er því engan veginn neitt valdatæki, sem þröngvað hefur verið upp á þjóðfélagið utan frá. Og því fer jafnfjarri, að það sé „veruleiki hinnar siðrænu hugmyndar“, „ímynd og raunveruleiki skynseminnar“, svo sem Hegel staðhæfir. Það er hins vegar til orðið fyrir þróun þjóðfélagsins og á ákveðnu stigi hennar. Það er viðurkenning þess, að þjóðfélagið sé komið í óleysanlega mótsögn við sjálft sig og hafi klofnað í ósættanlegar andstæður, sem það á engan hátt getur fjarlægt. Nú er orðin þörf á valdi, er standi, að því er virðist,

[1] Fyrsti sagnritarinn, er gerði sér nokkra sæmilega grein fyrir eðli ættsveitanna, var Niebuhr. Og það á hann að þakka þekkingu sinni á ættunum þéttmersku, og reyndar er misskilningur hans í þessum efnum líka runninn þaðan. (F. E.)

ofan við þjóðfélagið. Það á að forða því, að þessar andstæður, – stéttirnar, með sína andhverfu hagsmuni, – eyði bæði þjóðfélaginu og sjálfum sér í árangurslausri baráttu. Það á að draga úr árekstrunum og halda baráttunni í skefjum „reglu og skipulags". Og þetta vald, sem vaxið er upp úr þjóðfélaginu, hefur sig yfir það og fjarlægist það æ meir, – það er *ríkið.*

Sé það borið saman við ættsveitaskipanina fornu, verður mismunurinn þessi: Það einkennir ríkið í fyrsta lagi, að þegnum þess er skipt *eftir landsvæðum.* Ættsveitafélögin fornu voru til orðin fyrir skyldleika – og frændsemis-böndin héldu þeim saman. Við höfum séð, að þau voru orðin allsendis ónóg. Var það mestmegnis vegna þess, að þau tengsl ættafélaganna við ákveðin landsvæði, sem þar var gert ráð fyrir, voru nú löngu úr sögunni. Landsvæðin voru að vísu til áfram, en nú voru menn teknir að flytjast búferlum til og frá. Því var það, að landsvæðaskiptingin var nú lögð til grundvallar og borgararnir látnir inna af hendi skyldur sínar og nota réttindi sín þar, sem þeir settust að, án tillits til ættsveita eða ættflokka. Þessi skipulagning þegnanna eftir bústöðum er sameinkenni allra ríkja. Okkur virðist hún því eðlileg. En við höfum séð, að það kostaði langa baráttu og harða bæði í Aþenu og Róm, áður en hún fengi leyst af hólmi hina fornu skipan eftir ættum.

Annað auðkenni ríkisins er stofnun sérstaks *opinbers valds,* og svarar það ekki lengur til skipulags vopnavalds allra íbúanna í heild. Þetta sérstaka, opinbera vald er nú orðið nauðsyn, með því að stéttaskiptingin útilokar, að landslýður allur geti myndað með sér frjáls, vopnuð samtök. Þrælarnir teljast líka til íbúanna. Aþenskir borgarar voru um 90.000, þrælarnir 365.000 – og andspænis þeim voru borgararnir aðeins forréttindastétt. Þjóðarher aþenska lýðveldisins var hið opinbera vald forréttindastéttarinnar gagnvart þrælunum og hélt þeim í skefjum. En svo sem fyrr er greint, þurfti líka að hafa hemil á borgurunum, og til þess var höfð vopnuð lögregla. Slíkt opinbert vald er til í hverju ríki. Það samanstendur ekki eingöngu af vopnuðu liði, þar koma til ýmis nauðsynleg fylgigögn, fangelsi og allskyns þvingunarstofnanir, sem voru allsendis óþekkt fyrirbæri á dögum ættsveitaskipulagsins. Stundum getur farið lítið eða svo til ekkert fyrir þessu opinbera valdi, ef um er að ræða þjóðfélög með lítt þróuðum stéttaandstæðum og afskekkt svæði. Þannig var það t. d. um hríð sums staðar í Bandaríkjunum. En það eflist því meir, sem stéttaandstæðurnar í ríkinu verða harðari, og eftir því sem samliggjandi ríki verða stærri og mannfleiri. Nægir í því sambandi að líta á Evrópu, svo sem þar er ástatt nú. Stéttabaráttan og landvinningakeppnin hafa hleypt slíkum ofvexti í hið opinbera vald,

að hætta er á, að það verði þjóðfélaginu ofviða og jafnvel ríkinu sjálfu.

Ríkisborgararnir verða að inna af höndum greiðslu til að halda uppi þessu opinbera valdi. Það eru skattarnir. Þeir þekktust ekki í ættsveitaskipulaginu. Við höfum hins vegar kynnzt þeim nógsamlega. En sem siðmenningin vex, reynast þeir ónógir. Þá gefur ríkið út ávísun á framtíðina og tekur lán, stofnar til ríkisskulda. Evrópa gamla hefur líka fengið smjörþefinn af því.

Embættismennirnir eru nú handhafar hins opinbera valds sem og réttarins til skattheimtu. Þeir eru starfsmenn þjóðfélagsins – og jafnframt yfir það hafnir. Þeim nægir ekki sams konar virðing og menn auðsýndu stofnunum og starfsmönnum ættsveitaskipulagsins af frjálsum huga og ótilneyddir. Hún væri þeim ónóg, jafnvel þó að hún gæti fallið þeim í skaut. Þeir eru handhafar valds, sem er að verða þjóðfélaginu framandi og fjarlægt – og því verður að afla þeim virðingar með sérstakri löggjöf, þar sem svo er fyrir mælt, að þeir skuli njóta sérstakrar helgi og friðhelgi. Vesælasti lögregluþjónn í siðmenntu ríki hefur meira „vald og myndugleik" en allar stofnanir ættsveitaþjóðfélagsins samanlagðar. En hins vegar hefur hinn voldugasti þjóðhöfðingi og hinn mesti stjórnmálaskörungur eða hershöfðingi siðmenningartímabilsins ástæðu til að öfundast yfir þeirri sjálfsögðu og óþvinguðu virðingu, sem jafnvel lægst settu foringjar ættaþjóðfélagsins njóta. Þeir eru líka snar þáttur sjálfs samfélagsins, en hinir fyrrnefndu eiga að vera ímynd einhvers valds, sem stendur utan og ofan við það.

Það var nauðsyn þess að halda stéttaandstæðunum í skefjum, sem skapaði ríkisvaldið. En með því að það er til orðið mitt í baráttu stéttanna, verður það löngum tæki öflugustu stéttarinnar, þeirrar stéttar, sem er valdamest í fjárhags- og atvinnulífinu. Með því að beita ríkisvaldinu verður hún einnig ráðandi á stjórnmálasviðinu og notar þetta nýja tæki til að halda niðri undirstéttunum og arðsjúga þær. Ríkisvaldið forngríska og rómverska var þannig fyrst og fremst ríkisvald þrælaeigendanna til að halda þrælunum í skefjum. Lénsaldarríkið var framkvæmdatæki aðalsins til að halda niðri þrælkuðum og ánauðugum bændum – og fulltrúaríki nútímans er verkfæri auðvaldsins til arðráns á verkalýðnum. Endrum og eins koma þó fyrir tímabil, er stéttir þær, er um völdin berjast, eru svo jafnvígar, að ríkisvaldið getur komið fram í bili sem málamynda-sáttasemjari og öðlazt nokkurt sjálfstæði gagnvart báðum deiluaðilum. Þannig var það um hið hreina einveldi 17. og 18. aldar. Aðall og borgarastétt vógu þá salt. Og þannig var það um „bónapartismann" franska. Fyrri keisarastjórnin og einkum þó sú síðari tefldu verkalýðs-

og borgarastétt hvorri gegn annarri. Nýjasta afrekið af þessu tagi, er hið nýja þýzka ríki Bismarcks-þjóðar, og eru bæði stjórnendurnir þar og þeir, sem stjórnað er, jafnskoplegir. Auðvaldsherrar og verkamenn eru hér látnir vega salt hvorir á móti öðrum og haft af báðum jafnt, en hálfgjaldþrota prússneskir landherrar eða junkarar græða á öllu saman.

Í flestum þeim ríkjum, er við sögur koma, tíðkast það einnig, að réttindi borgaranna séu miðuð við eignir þeirra. Er því þar með beinlínis lýst yfir, að ríkið sé stofnun eignastéttarinnar og ætlað til varnar gegn eignaleysingjunum. Svo var þessu háttað um eignastéttirnar í Aþenu og Róm. Sama var uppi á teningnum í lénsríkjum miðaldanna, þar sem pólitísk valdaafstaða fór eftir jarðeignum. Og eins er þetta um kosningaréttindi í fulltrúaríkjum nútímans. Þessi stjórnmálalega viðurkenning á eignamismuninum er þó ekkert aðalatriði. Hún er þvert á móti merki þess, að ríkisvaldið stendur enn á lágu þróunarstigi. Lýðræðislegt lýðveldi er háþróaðasta mynd ríkisins, og allar þjóðfélagsaðstæður nútímans krefjast þess æ fastar, að því verði komið á. Aðeins í slíku ríki geta verkalýðsstéttin og borgararnir barizt til úrslita um völdin. Hið lýðfrjálsa lýðveldi tekur ekki lengur neitt tillit til eignamunarins opinberlega. Máttur auðsins kemur þar aðeins óbeint fram, en áhrifin eru síður en svo minni. Annars vegar koma þau fram í opinberri spillingu embættislýðsins, og er Ameríka þar sígilt dæmi. Hins vegar lýsa þau sér í því, að ríkisstjórnin og kauphöllin gera með sér bandalag. Það verður því auðveldara, sem ríkisskuldirnar aukast meir og sem hlutafélögin láta nú ekki eingöngu flutningakerfið til sín taka, heldur ná framleiðslunni æ meir í sínar hendur – og miðstöð þeirra verður auðvitað á kauphöllinni. Eitt gleggsta dæmið um þetta, auk Ameríku, er franska lýðveldið nýja, – og Svissland, hið ráðvanda, hefur líka unnið sín afrek á þessu sviði. Annars er lýðfrjálst lýðveldi engin nauðsynleg forsenda þess, að ríkisstjórnin og kauphöllin geti tengzt slíkum bróðurböndum – og er England sem og þýzka ríkið nýja fullgild sönnun þess. Og að því er til Þýzkalands tekur, er erfitt að skera úr því, hvor hærra hafi komizt fyrir tilstilli hins almenna kosningaréttar, Bismarck eða Bleichröder.[1] Loks er þess að geta, að eignastéttin ræður beinlínis ríkjum í krafti hins almenna kosningaréttar. Meðan undirokaða stéttin – eða að þessu sinni verkalýðurinn – er ekki orðin nógu þroskuð til að frelsa sig sjálf, lítur meirihluti hennar þannig á, að ráðandi þjóðskipulag sé hið eina, er hugsazt geti. Verkamenn eru þá flestir pólitískir taglhnýtingar auðvaldsstéttarinnar

[1] Gerson Bleichröder, þýzkur fjármálamaður (1822–1893).

og standa þar í fylkingunni yzt til vinstri. En sem verkalýðsstéttin verður færari um að frelsa sig sjálf, kemur hún fram sem sérstakur flokkur og kýs sér sína eigin fulltrúa, sem eru ekki umboðsmenn auðvaldsins. Almenni kosningarétturinn er þannig mælikvarði á þroska verkalýðsstéttarinnar. Hann getur aldrei orðið annað meira í nútímaríkjum og mun ekki verða það. En það er líka nóg. Því að þann dag, sem mælirinn sá kemst á suðumark, vita bæði verkamenn og auðvald, hvað koma skal.

Ríkið hefur sem sé ekki verið til um alla eilífð. Það hafa verið til þjóðfélög, sem komust af án þess og höfðu enga hugmynd hvorki um ríki né ríkisvald. En er hagþróunin var komin á ákveðið stig, sem ól af sér skiptingu þjóðfélagsins í stéttir, kom ríkisvaldið til sögunnar. Það var greining þjóðfélagsins í stéttir, sem gerði það að nauðsyn. Við nálgumst nú ört það þróunarstig framleiðslunnar, er gerir stéttaskiptinguna ónauðsynlega, – og meira en það, tilvist stéttanna verður nú fjötur á framleiðsluþróunina. Stéttirnar munu hverfa úr sögunni jafnóhjákvæmilega og þær eitt sinn urðu til. Og er þær hverfa, hlýtur ríkið að fara sömu leiðina. Þjóðfélag það, er skipar framleiðslumálunum að nýju og byggir þar á frjálsum samtökum framleiðendanna sjálfra, mun flytja alla ríkisvélina þangað, sem hún þá á heima. Það mun koma henni fyrir á fornminjasafninu við hliðina á rokknum og bronsöxinni.

-------

Siðmenningin er þannig að því er fyrr segir, ákveðið þróunarstig þjóðfélagsins. Á því skeiði nær verkaskiptingin og sú skiptaverzlun einstaklinga, er af henni leiðir, fullum þroska sem og vöruframleiðslan, sem sameinar þetta tvennt – og leiðir þetta til þess,að hinni fyrri þjóðfélagsskipan er kollvarpað.

Á öllum fyrri þróunarstigum þjóðfélagsins var framleiðslan mestan part sameiginleg. Neyzlan var líka byggð á beinni dreifingu afurðanna innan kommúnískra samfélaga, stærri eða minni. Þessari sameiginlegu framleiðslu var að vísu þröngur stakkur skorinn, en hún leiddi samt til þess, að framleiðendurnir réðu sjálfir yfir framleiðslustörfunum og afurðum sínum. Þeir vissu, hvað af afurðunum varð, þeir notuðu þær sjálfir, en létu þær ekki af hendi. Og svo lengi sem framleiðslan er rekin á þessum grundvelli, getur hún ekki orðið framleiðendunum ofjarl. Hún getur ekki magnað að þeim eins konar drauga eða annarleg máttarvöld, svo sem jafnan hlýtur að verða á tímabili siðmenningarinnar.

En meðan menn framleiða á þennan hátt, tekur verkaskiptingin smám saman framförum. Hún grefur undan því samfélagi,

er áður var um framleiðslu og tileinkun afurðanna. Það verður nú algengast, að einstaklingarnir eigni sér það, sem þeir framleiða, en leiðir aftur til afurðaskipta þeirra á milli, á þann hátt, sem fyrr er rakið. Vöruframleiðslan verður smám saman ríkjandi.

Þegar hætt er að framleiða til eigin afnota, en vöruframleiðsla í söluskyni er komin á, leiðir það af sjálfu sér, að afurðirnar hljóta að ganga manna á milli. Framleiðandinn lætur varning sinn í skiptum fyrir annan og veit ekki meir, hvað af honum verður. Og sem peningarnir koma til sögunnar og kaupmaðurinn gerist þá miðlari milli framleiðendanna, verður þessi skiptaverzlun enn flóknari og ferill afurðanna óvissari. Kaupmennirnir eru margir, og enginn þeirra veit, hvað hinir aðhafast. Vörurnar ganga nú ekki aðeins frá einum manni til annars, þær fara líka af einum markaðnum á annan. Framleiðendurnir hafa misst stjórnina á þeirri heildarframleiðslu, er fram fer í þeirra hóp, og kaupmennirnir hafa ekki náð tökum á henni. Afurðir og framleiðslustörf verða nú tilviljun háð.

En tilviljun og nauðsyn eru aðeins tvö andstæð skaut samhengisins. Tilviljunin virðist ríkja í náttúrunni, þó höfum við fyrir löngu á hverju einstöku sviði fært sönnur á þá innri nauðsyn og lögmálssamhengi, sem kemur þar fram í þessum tilviljunum. En það, sem á við um náttúruna, gildir líka um þjóðfélagið. Ákveðin þjóðfélagsstarfsemi eða samfelldir þættir í viðburðarás samfélagsins, geta vaxið mönnum yfir höfuð, svo að þeir geta ekki stjórnað þeim að vild sinni. En því meir, sem að þessu kveður, og því meir, sem þessi starfsemi virðist bláberri tilviljun háð, því óhjákvæmilegar láta hin sérstöku lögmál þessarar tilviljunar til sín taka. Slík lögmál ráða líka tilviljunum vöruframleiðslu og vöruskipta. Þau standa sem annarleg máttarvöld gagnvart framleiðanda og seljanda. Í fyrstu eru þau óþekkt, en smám saman verða menn að rannsaka og ákveða eðli þeirra. Þessi hagrænu lögmál vöruframleiðslunnar breytast nokkuð á hinum ýmsu þróunarstigum þessarar framleiðsluhögunar. En segja má, að í höfuðdráttum séu þau í gildi allt tímabil siðmenningarinnar. Og enn þann dag í dag .ráða afurðirnar yfir framleiðendunum. Heildarframleiðslu þjóðfélagsins er enn ekki stjórnað eftir sameiginlegri áætlun. Þar ráða blind lögmál, sem segja til sín líkt og ótamin náttúruöfl og brjótast út að lokum í fellibyljum síendurtekinna verzlunarkreppna.

Svo sem fyrr getur, gerðist það allsnemma á þróunarferli framleiðslunnar, að maðurinn varð þess umkominn að framleiða meira en hann þurfti til viðurværis sér. Við höfum einnig séð, að það var einkum á þessu sama þróunarstigi, að verkaskipting hófst og afurðaskipti milli einstaklinga. Það leið þá ekki á löngu,

áður en menn uppgötvuðu þann mikla „sannleika", að bæði er hægt að nytja mannlegt vinnuafl og verzla með það, – með því að gera menn að þrælum. Og mennirnir höfðu naumast hafið vöruskipti, er þeir voru sjálfir orðnir skiptavara. Gerandinn varð þolandi, hvort sem menn vildu eða ekki.

Með siðmenningunni náði þrælahaldið fullum blóma, – og með því hefst hin fyrsta gagngerða skipting þjóðfélagsins í arðræningja og arðrænda. Þessi skipting hefur haldizt síðan allt siðmenningarskeiðið. Þrælahaldið var fyrsta mynd arðránsins – og auðkenndi sérstaklega þjóðfélag Forn-Grikkja og Rómverja. Svo kemur bændaánauð miðaldanna og síðan launavinna nútímans. Þetta eru hin þrjú aðalform þrælkunarinnar, sem einkenna hvert um sig þrjú megin-tímabil siðmenningarinnar. En samhliða þessu var alltaf um þrælahald að ræða, ýmist opinbert, eða þá dulbúið, svo sem nú tíðkast.

Siðmenningin hefst á stigi vöruframleiðslunnar, og eru hagræn sérkenni þess sem hér segir: 1) Málmpeningar eru teknir upp, og í kjölfar þeirra kemur peninga-auðmagn, rentur og okur. 2) Kaupmenn koma til sögunnar og taka að sér að dreifa afurðunum milli framleiðendanna. 3) Upp kemur séreign á landi og fasteignaveð. 4) Þrælavinna verður ríkjandi framleiðsluháttur. Einkvænið er sú fjölskylduhögun, er svarar til siðmenningartímabilsins og verður þá algerlega ráðandi. Karlmaðurinn fær nú full yfirráð í fjölskyldunni, og fjölskyldan verður hin atvinnulega eind þjóðfélagsins. Það er ríkið, sem bindur saman hið siðmenntaða þjóðfélag, og á öllum helztu tímabilum sögunnar hefur það verið ríki hinnar ráðandi stéttar og fyrst og fremst tæki til að halda niðri hinum kúguðu og arðrændu. Það auðkennir einnig siðmenningartímabilið, að andstæðan milli sveita og borga festist og verður undirstaða allrar þjóðfélagslegrar verkaskiptingar. Auk þess er nú tekið að gera erfðaskrár, svo að eigandinn getur ráðið, hvað verður af eignum hans, eftir að hann er dáinn. Þetta fyrirkomulag var í algerri mótsögn við ættsveitaskipulagið forna – og var óþekkt fyrirbæri í Aþenu fram á daga Sólons. En í Róm var þetta tekið upp mjög snemma,[1] en óvíst hvenær.

[1] Síðari hlutinn af riti Lassalles „System der erworbenen Rechte" (Kerfi hinna áunnu réttinda) fjallar mest um þá kenningu, að erfðaskrárgerð með Rómverjum sé jafngömul og Róm sjálf, og í sögu Rómar hafi aldrei verið til „neitt tímabil án erfðaskrár". Erfðaskrárgerð muni öllu fremur hafa orðið til áður en rómversk saga hefst og vera runnin frá dýrkun dauðra manna. Lassalle er rétttrúaður Hegelsinni í eldri stíl og rekur því ekki rómversku réttarákvæðin til þess þjóðfélagsástands, er þar ríkti. Hann rekur þau hins vegar til „hins ímyndaða hugtaks" (spekulativ Begriff) viljans og þannig kemst hann að þessari niðurstöðu sinni, er ekki styðst við nein söguleg rök. Undirstaðan, sem byggt er á í bókinni, er hið „ímyndaða hugtak". Það þarf því engan að undra, þótt höfundur komist að þeirri

Hins vegar voru það klerkarnir, sem komu því á með þýzku þjóðflokkunum, svo að ekkert væri því til fyrirstöðu, að guðhræddir og ráðvandir Þjóðverjar gætu arfleitt kirkjuna að eignum sínum.

Þetta voru megindrættirnir í skipulagi siðmenningarinnar. Og með slíkri skipan tókst henni að afreka margt, sem gamla ættsveitaskipulagið gat með engu móti til leiðar komið. En hún hefur framkvæmt það með því að leysa úr læðingi hinar grómfengnustu hvatir mannsins og ástríður, sem þroskuðust nú á kostnað allra annarra eiginleika hans. Helber ágirndin hefur verið hreyfiafl siðmenningarinnar allt frá upphafi og til okkar daga. Auður, auður og aftur auður, það var meginkeppikeflið. Og það var ekki auðlegð til handa samfélaginu, sem að var keppt, heldur ríkidæmi hins vesæla einstaklings. Að vísu hafa vísindin þróazt æ örar á þessu tímabili, og listir hafa hvað eftir annað staðið með hinum mesta blóma, en ástæðan er sú ein, að án þessa hvors tveggja hefði ekki verið unnt að safna auðæfum í þeim mæli, sem gert hefur verið.

Undirstaða siðmenningarinnar er arðrán einnar stéttar á annarri. Því er það, að öll þróun hennar er bundin sífelldum mótsögnum. Hvert framfaraskref í framleiðslunni er jafnframt skref aftur á bak, að því er tekur til lífskjara undirokuðu stéttanna, þ. e. a. s. alls þorra fólksins. Allt, sem er einum til framdráttar, hlýtur að verða öðrum til tjóns. Frelsun einnar stéttar táknar, að önnur verður undirokuð. Augljósasta sönnun þessa alls er upphaf vélanotkunarinnar, en afleiðingar hennar eru nú alkunnar. Hinar hálfsiðuðu þjóðir gerðu naumast nokkurn mun á réttindum og skyldum, svo sem fyrr er rakið. Siðmenningin gerir hins vegar muninn og andstæðuna milli þessa tvenns svo augljósa, að hver og einn hlýtur að sjá það. Hún gefur sem sé annarri stéttinni svo til öll réttindi, en leggur skyldurnar á hina.

En svona á þetta ekki að vera. Hagur hinnar ríkjandi stéttar á líka að vera hagur alls þjóðfélagsins, sem yfirstéttin telur jafngilda sér. Eftir því sem siðmenningin eykst, neyðist hún til þess í æ ríkara mæli að breiða „kærleiksskikkjuna" yfir öll þau mein, er hún hefur óhjákvæmilega skapað. Hún reynir að fegra ófremdarástandið eða synja fyrir það. Hún reynir í stuttu máli, að koma á vanabundinni hræsni og yfirdrepsskap, sem þekktist ekki áður, hvorki í eldri þjóðfélögum né heldur á fyrstu þróunarstigum siðmenningarinnar. Þessi hræsni nær loks hámarki sínu í þeirri fullyrðingu, að undirokaða stéttin sé arðrænd af yfirstéttinni

niðurstöðu, að eignafrásalið hafi verið aukaatriði í erfðaréttinum rómverska. Lassalle trúir ekki aðeins á glapsýnir rómverskra lögfræðinga, einkum hinna eldri, hann gengur meira að segja lengra en þeir. (F. E.)

einungis í hennar eigin þágu. Og skilji hún það ekki og fari að gera uppsteyt, sé slíkt hið svívirðilegasta vanþakklæti við velgerðarmenn hennar, arðræningjana.[1]

Að lokum skal ég tilfæra hér dóm Morgans um siðmenninguna:

„Síðan siðmenning hófst, hafa auðæfin vaxið geysilega og tekið á sig hinar ólíklegustu myndir. Notkun þeirra er svo víðtæk, og þeim er stjórnað svo klóklega til hagsmuna fyrir eignastéttina, að þau eru *orðin sem ósigrandi vald gagnvart almenningi. Mannsandinn stendur ráðþrota og agndofa frammi fyrir sínu eigin sköpunarverki.* En það munu koma þeir tímar, að mannleg skynsemi hefur þroskazt svo, að hún nær stjórn á auðæfunum, – og þá mun hún kveða á um afstöðu ríkisins til þeirra eigna, er það verndar, og setja takmörk fyrir réttindum eignamannsins. Hagsmunir samfélagsins eiga fortakslaust að sitja í fyrirrúmi fyrir hag einstaklinga, og hvorttveggja verður að samræma svo, að réttlátt sé. Einber eftirsókn eftir auðæfum er ekki lokatakmark mannkynsins, ef gera má ráð fyrir, að framfarirnar verði lögmál framtímans, svo sem verið hefur hingað til. Sá tími, sem liðinn er frá því að siðmenning hófst, er aðeins lítið brot af liðnum æviferli mannkynsins – og smábrot af þeirri framtíð, sem það á fyrir sér. Upplausn þjóðfélagsins stendur nú fyrir dyrum og ógnar oss. Það eru endalok sögulegs tímabils, sem hafði auðæfin ein að lokamarki, því að slíkt tímabil hýsir þau öfl, er verða því sjálfu að falli. Lýðræði í stjórnarháttum, bræðralag í þjóðfélaginu, jöfn réttindi og almennt uppeldi munu einkenna næsta þjóðfélag, – samfélag það á æðra stigi, sem reynsla, skynsemi og vísindi starfa nú linnulaust að að skapa. *Frelsi, jöfnuður og bræðralag ættsveitanna fornu munu þá rísa upp að nýju, en í annarri og æðri mynd*". (Morgan: Ancient Society, bls. 552).

---

[1] Það var í fyrstu ætlun mín að rekja hér hina snjöllu gagnrýni Charles Fouriers á siðmenningunni, sem finna má á víð og dreif í verkum hans. Hefði þá komið hér fram skoðun hans á þessum efnum, auk álits Morgans og míns eigin. Því miður vannst mér ekki tími til þess. Hér skal þess eins getið, að Fourier taldi einkvænið og séreign á landi höfuðeinkenni siðmenningarinnar – og hann kallaði hana stríð hinna ríku gegn þeim snauðu. Einnig kemur fram hjá honum sá djúptæki skilningur, að sérfjölskyldan (les familles incohérentes) sé jafnan framleiðslueindin í öllum gölluðum, stéttskiptum þjóðfélögum. (F. E.).

# Viðbætir

## FRIEDRICH ENGELS

## Nýtt dæmi um fjölhjúskap

(Úr „Neue Zeit"[1] 1892, XI. árg. 1. bd. bls. 373–375).

Það er nú orðin tízka hjá ýmsum „skynsemistrúar" þjóðfræðingum að afneita með öllu, að fjölhjúskapur hafi nokkru sinni tíðkazt. Skýrsla sú eða frásögn, sem hér fer á eftir, er því allrar athygli verð. Hef ég þýtt hana upp úr Russkija Vjedomosti (Rússnesk tíðindi) í Moskvu, og birtist hún þar 14. október 1892, samkvæmt gamla tímatalinu. Þar er greinilega sagt frá fjölhjúskap, eða gagnkvæmum rétti ákveðinna hópa karla og kvenna til kynferðislegs samlífs. Og meira en það, skilgreint er, með hvaða sniði þessi fjölhjúskapur sé, – og er niðurstaðan sú, að það sé mjög áþekkt púnalúa-hjúskap Havai-búa, sem er þróaðasta og sígildasta mynd fjölhjúskapar. Púnalúa-fjölskyldan er með þeim hætti, að flokkur bræðra (holdgetinna og fjarskyldari) er kvæntur hóp af systrum (sambornum og fjarskyldari). Á Sakhalín hagar því hins vegar svo til, að maður er kvæntur öllum eiginkonum bræðra sinna og öllum systrum konu sinnar. Ef málið er skoðað frá þeirri hlið, er að kvenþjóðinni snýr, er útkoman þessi: Konunni er frjálst að eiga kynferðismök við alla bræður eiginmanns síns og alla eiginmenn systra sinna. Frávik frá venjulegum púnalúahjúskap felast einungis í því, að bræður eiginmannins og eiginmenn systranna þurfa ekki endilega að vera sömu mennirnir.

Þess má geta, að hér sannast það, sem ég sagði í 4. útg. af Uppruna fjölskyldunnar, (sbr. bls. 372 og 379). Ég komst þar svo að orði, að fjölhjúskapurinn væri harla ólíkur þeim pútnahúsahugmyndum, sem broddborgararnir gera sér um hann. Því fer fjarri, að þeir, sem í fjölhjúskap búa, lifi þar sams konar lostalífi fyrir opnum tjöldum og oddborgararnir gera í laumi. Hitt er sönnu nær, að þessir hjúskaparhættir líkjast mjög losaralegum parahjúskap eða fjölkvæni. Það eitt skilur þar á milli, að þarna eru samkvæmt venjunni leyfð mök milli ýmissa aðila, sem annars varða strangari refsingu. Þannig er þetta að minnsta kosti um þau fáu dæmi um fjölhjúskap, sem enn tíðkast. Það verður æ sjaldgæfara, að aðilar notfæri sér þennan rétt, en það

[1] Neue Zeit („Nýir tímar"), fræðitímarit þýzkra sósíaldemókrataflokksins – *Þýð.*

er einungis sönnun þess, að þessir hjúskaparhættir eru sjálfir að líða undir lok, enda bert af því, hve fátíðir þeir eru.

Öll lýsingin er annars einkar athyglisverð, með því að hún sannar enn einu sinni, hversu líkar þær félagsstofnanir eru, sem tíðkast með slíkum frumþjóðum, er standa á svipuðu þróunarstigi. Og má enda segja, að þær séu eins í öllum höfuðdráttum. Flest af því, sem sagt er um þennan mongólska þjóðflokk á Sakhalín, á jafnt heima um Dravídana í Indlandi, rauðskinnana amerísku og Suðurhafseyjabúa um það leyti, er þeir fundust. Skýrslan hljóðar svo:

„Á fundi mannfræðideildar Félags náttúruvísindaunnenda, sem haldinn var í Moskvu 10. október (að fornu tali = 22. október skv. nýja tímatalinu) las N. A. Jantsjuk eftirtektarverða frásögn um Giljaka, eftir herra Sternberg. En Giljakar eru lítt rannsakaður þjóðflokkur, sem á heima á Sakhalín-ey og lifir á menningarstigi villimennskunnar. Giljakar þekkja hvorki til akuryrkju né leirkeragerðar. Þeir lifa mest á dýra- og fiskveiðum. Vatn hita þeir í trétrogum með því að setja í það glóðheita steina o. s. frv. Félagsstofnanir þeirra eru einkar markverðar, að því er tekur til fjölskylduhátta og ættsveita. Giljakinn kallar ekki föður sinn þann einn, sem er það í raun og veru, heldur og alla föðurbræður sína. Allar eiginkonur þessara bræðra sem og móðursystur sínar kallar hann mæður sínar. Börn allra þessara „feðra“ og „mæðra“ kallar hann bræður sína og systur. Samskonar nafngiftir tíðkast, sem kunnugt er, með Irókesum og öðrum rauðskinnaættflokkum í Norður-Ameríku sem og hjá nokkrum ættflokkum í Indlandi. En hjá þessum síðarnefndu svara nafngiftirnar alls ekki til raunverulegra aðstæðna, – og hefur svo verið langa hríð. Með Giljökum samsvara þær hins vegar *félagslegum staðreyndum, sem enn eru fyrir hendi.* Enn þann dag í dag á *hver Giljaki tilkall eiginmannsins til allra eiginkvenna bræðra sinna og allra systra konu sinnar,* og það er að minnsta kosti talið leyfilegt, að hann notfæri sér þau réttindi. Þessar leifar fjölhjúskapar, sem byggist á ættsveitaskipan, minna á hin alkunnu púnalúahjónabönd, er enn tíðkuðust á Sandvíkureyjum á öndverðri þessari öld. Ættsveitaskipan þessi og fjölskylduhættir eru undirstaðan að öllu ættskipulagi og félags- og stjórnarháttum Giljaka.

Ættsveit Giljakans samanstendur af öllum föðurbræðrum hans – nánum og fjarskyldari, raunverulegum og að nafninu til. Til hennar teljast einnig feður þeirra og mæður (?), og börn hans og bræðra hans. Skiljanlegt er að ættsveit, sem svo er skipuð geti orðið feikna fjölmenn. Þessar meginreglur gilda í ættsveitunum. Hjúskapur inn á við er stranglega bannaður. Ef kvænt-

ur Giljaki deyr, fellur ekkja hans í hlut einhvers bræðranna – samborinna eða fjarskyldari – og sker ættsveitin úr því. Ættsveitin sér um framfærslu allra ættsveitunga, sem orðnir eru óvinnufærir. „Hjá okkur eru ekki til neinir fátæklingar", sagði Giljaki einn við þann, er þetta ritar. „Chal-inn" (ættsveitin) fæðir þá, sem bágstaddir eru. Þá hafa og ættsveitungarnir sameiginlegar blótveizlur og hátíðir og sameiginlegan grafreit o. s. frv.

Ættsveitin ábyrgist líf og öryggi ættsveitunganna gagnvart utanaðkomandi aðilum. Blóðhefndin hefur það hlutverk að hamla ofbeldisverkum, en henni er þó æ sjaldnar beitt, eftir að Rússar fengu æðstu völd á eyjunni. Konur eru algerlega undanskildar blóðhefndum ættsveitanna. Stundum kemur það fyrir, að ættsveitin ættleiðir einstaklinga úr öðrum ættsveitum, en þó er það mjög sjaldgæft. Reglan er og sú, að eignir látinna ættsveitunga mega ekki lenda út úr ættsveitinni. Að þessu leyti er hið kunna fyrirmæli taflnanna tólf í gildi með Giljökum og það í bókstaflegri merkingu: „Si suos heredes non habet, gentiles familiam habento". – Eigi hann enga einkaerfingja, skulu ættsveitungarnir erfa hann. Ekki gerist neinn mikilsverður viðburður í lífi Giljaka svo, að ættsveitin komi þar ekki við sögu. Það er ekki ýkjalangt síðan – svona einn til tveir mannsaldrar, – að elzti ættsveitungurinn var jafnframt foringi þessa samfélags, eða „starost"[1] ættsveitarinnar. Nú er hlutverk ættaröldungsins naumast annað en það að stjórna trúarlegum helgiathöfnum. Oft eru ættsveitirnar dreifðar, þannig að langt er á milli ættsveitunga. En þó svo sé, muna þeir hver eftir öðrum, sækja hverjir aðra heim og veita hverir öðrum gagnkvæma vernd og aðstoð o. s. frv. Ekki skilst Giljakinn við ættsveitunga sína og ættargrafreit nema í sárustu neyð. Ættsveitaskipulagið hefur mótað mjög allt hugsanalíf Giljakanna, skaphöfn þeirra, siði og stofnanir. Þeir eru orðnir vanir því að fjalla um mál sameiginlega, og þeim er það nauðsyn að láta hagsmuni ættsveitunganna jafnan til sín taka. Þeir standa saman að blóðhefndum sem einn maður. Giljakinn verður að búa með tíu félögum sínum eða fleiri í stóru „júrtu"-tjaldi – og þetta er orðið að venju. Hann umgengst sem sé jafnan aðra, og allt þetta veldur því, að hann er félagslyndur og skrafhreifinn. Hann er líka gestrisinn og hefur yndi af að veita gestum sínum og heimsækja aðra. Þessi fallegi siður, gestrisnin, kemur einkar glöggt fram, þegar hart er í ári. Þegar hallærið ber að dyrum og Giljakinn hefur ekkert í sig eða hundana sína, þá fer hann ekki og biðst beininga, heldur leggur hann ótrauður af stað í

---

[1] Starost er rússneskt orð og þýðir bæði öldungur og ættarhöfðingi. – *Þýð.*

gestaheimsókn. Fær hann þannig viðurværi sitt – og oft um langa hríð.

Svo má að orði kveða, að glæpir, sem framdir séu í eiginhagsmunaskyni, komi ekki fyrir hjá Giljökunum á Sakhalín. Giljakinn geymir gersemar sínar í birgðahúsi, sem aldrei er læst. Svo er hann viðkvæmur fyrir virðingu sinni, að hafi hann orðið sannur að sök um eitthvert skammarlegt athæfi, fer hann út í skóg og hengir sig. Manndráp eru mjög fátíð og oftast framin í reiðikasti, en aldrei í gróðaskyni. Giljakinn er ráðvandur í umgengni sinni við aðra, áreiðanlegur og samvizkusamur.

Giljakar hafa lengi lotið Mandsjúrum, sem orðnir eru Kínverjar. Landnámið í Amúrhéruðunum hefur einnig haft spillingu í för með sér. En þrátt fyrir þetta hvorttveggja hafa Giljakar varðveitt með sér ýmsar dyggðir frumstæðra ættflokka. En hins vegar er séð fyrir endann á því, hversu fara muni um félagsskipan þeirra. Eftir einn eða tvo ættliði verða Giljakarnir á meginlandinu orðnir að Rússum og tileinka sér kosti menningarinnar og lesti þá, er henni fylgja. Giljakarnir á Sakhalín, sem búa allfjarri meginaðsetursstöðum Rússa, kunna að þrauka eitthvað lengur án þess að taka breytingum. En einnig þar taka áhrifin af nábýlinu við Rússa að segja til sín. Giljakarnir koma í þorpin í verzlunarerindum, leita sér vinnu í Nikolajevsk. Og hver Giljaki, er snýr aftur heim frá slíkum störfum, flytur með sér sams konar andrúmsloft og rússneskur búandmaður, sem snýr heim til þorpsins síns, eftir að hafa stundað vinnu í borginni. Þessi vinna í borgunum, sem gefur misjafnlega mikið af sér, verður einnig til þess að eyða æ meir þeim upphaflega jöfnuði, sem var megineinkenni hins óbrotna atvinnulífs þessara þjóðflokka.

Grein herra Sternbergs fjallar einnig um trúarhugmyndir Giljaka, siðvenjur þeirra og réttarfar og mun birtast í heild í Þjóðfræðitímaritinu (Etnografitsjeskoje Obozrenie)."[1]

---

[1] Greinin birtist í öðru bindi „Þjóðfræðitímaritsins" árg. 1893, og var yfirskriftin „Giljakarnir á Sakhalín". Sternberg hafði verið vísað í útlegð til Sakhalín vegna þátttöku sinnar í félagsskapnum „Þjóðviljinn". Í kaflanum „Fjölskylduhættir og -ættsveita" lýsir hann rækilega fjölskylduhögun Giljaka og ættsveitasiðum – og vitnar oft í Morgan.

# Skrá yfir bækur þær og tímarit, sem Engels vitnar í

*Agassiz, L. J. R.:* „*A Journey in Brazil*", Boston and New York, 1886.
*American Review,* árg. 1847.
*Ausland,* árg. 1890.
*Bachofen, J. J.:* „Das Mutterrecht", Stuttgart 1861.
*Bancroft, H. H.:* „The Native Races of the Pacific Coast of North-America", New York 1875.
*Becker, W. A.:* „Charicles oder Bilder altgriechischer Sitte", Leipzig 1840, bls. 133.
*Diodorus Siculus:* „Bibliotheca historica".
*Espinas, V. A.:* „Les sociétés animales. Etude de psychologie comparée", París 1877.
*Girand-Teulon, A.:* „Origines de la famille", 1874, „Origines du mariage et de la famille", 1884.
*Gladstone, W.:* „Juventus Mundi, the Gods and Men of the Heroic Age", London 1869.
*Grote, G.:* „A History of Greece", 12 b. London 1846–'56.
*Heusler, A.:* „Institutionen des deutschen Rechts". Leipzig 1885–'86.
*Kovalevsky, M.:* „Tableau des origines et de l'évolution de la famille et de la proprieté, Stockholm 1890.
*Lange, L.:* „Römische Altertümer", Berlín 1856–'71.
*Lassalle, F.:* „Das System der erworbenen Rechte. Eine Versöhnung des positiven Rechts und der Rechtsphilosophie", Leipzig 1867.
*Latham, R. G.:* „Descriptive Ethnology", 1889.
*Letourneau, Ch. I. M.:* „Évolution du mariage et de la famille", París 1888.
*Livius, T.:* „Libri ab urbe condita".
*Lubbock, J.:* „The Origin of Civilization and the Primitive Condition of Man, Mental and Social Condition of Savages". London 1870.
*MacLennan, J. E.:* „Studies in Ancient History, comprizing a reprint of Primitive Marriage", London 1886.
*Marx, Karl:* „Das Kapital" (Auðmagnið).
*Marx og Engels:* „Das Kommunistische Manifest".
*Maurer, G. L.:* „Geschichte der Städteverfassung in Deutschland", Erlangen 1869–'71.

*Mommsen, Th.:* „Römische Forschungen", Berlín 1864.

*Morgan, L. H.:* „Ancient Society or Researches in the Lines of Human Progress from Savagery, through Barbarism to Civilization", London 1877.

*Morgan, L. H.:* „League of the Ho-dé-no-sau-nee or Iroquois", Rochester 1851.

*Morgan, L. H.:* „Systems of Consanguinity and Affinity of the Human Family", Washington 1871.

*Russkija Vjedomosti:* Árg. 1892, 14. okt.

*Schömann, G. F.:* „Griechische Altertümer", Berlín 1850–'59.

*Sugenheim, S.:* „Geschichte der Aufhebung der Leibeigenschaft und Hörigkeit in Europa bis an die Mitte des neunzehnten Jahrhunderts", St. Petersburg 1861.

*Tacitus:* Germania.

*Tylor, E. B.:* „Researches into the Early History of Mankind and the Development of Civilization". London 1865.

*Watson, I. F. og Kaye, I. W.:* „The People of India", London 1868–72.

*Westermarck, E. A.:* „The History of Human Marriage, London 1891.

# *Efnisyfirlit*